# Sturlúnga-Saga

edr

# Islendínga-Saga hin mikla.

Nú útgengin á prent

ad tilhlutun hins íslenzka bókmentafèlags,

eptir samanburd hinna merkiligustu handrita er fengist gătu.

Sídara bindinis fyrri deild.

Kaupmannahöfn 1818.

Prentad ad forlagi fèlagsins hiá prentara Þorsteini Einarssyni Rangel.

# Siöundi þáttr.

Af útkomu Þórdar Sighvatssonar Kakala, af utanferd Gissurar ok Urækiu, af lidsdrætti Þórdar Sighvatssonar Kakala ok hans fylgiara, af Kolbeini Unga ok vidskiptum þeirra Þórdar, deilum, manndrápum, óróa ok orustum, af þeirra bardaga á flóanum. Kolbeinn Ungi andast ári seinna. Þórdr sezt á Grund, nær godordum ok eignum eptir födur sinn. Brandr Kolbeinsson giörist höfdíngi yfir Skagafirdi ok Fliótum. Gissur kèmr út aptr, en Urækia andast í Noregi. Bardagi Þórdar á Haugsnesi ok fall Brands Kolbeinssonar. Þórdr ok Gissur leggia öll sín mál á kóngs dóm, ok sigla út. Kóngr skipar Þórd yfir landit. Hann kèmr út, er hèr nokkur ár, kóngr bodar hann utan. Af Ormssonum. Rómgánga Gissurar ok annat fleira.

1. Einum vetri eptir lát Snorra Sturlusonar hófust þeir atburdir er möig tídindi giördust af sídan, utanför Gissurar Þorvaldssonar sunnanlands, en Urækia fór útan í Eyafirdi. Þat sama haust kvam út Þórdr Sighvatsson [1]) at Gásum ok Jón Sturluson ok var þá barn at aldri, ok Solveig módir hans ok dætur hennar. Jón Lindiás [2]) var styrimadr á skipi því. I þann tíma

[1]) er Kakali var kalladr, bæta vid C. St. þ.

[2]) Lundi, *A. C. St.* þ. Lindi, *B. E. Gr.*

var Kolbeinn Arnórsson mestr höfdíngi á Islandi [1]) ok hafdi þraungt undir sik mestan lut landsins. En þá er Gissur fór utan, setti hann Hialta frænda sinn í rúm sitt, ok skyldi hver þeirra Kolbeins veita ödrum, ef úfridr væri giör á ödrum hverium Sunnlendíngum edr Nordlendíngum. Varo ok utan reknir synir Dugfúss Svarthöfdi ok Kolbeinn, en Biörn skyldi vinna eida Kolbeini at fara aldrei í móti honum vid hvern sem hann ætti um. Sturla Þórdarson var tekinn med valdi vid Brú med Urækiu, sem fyrr var ritat, ok skyldi annathvert fara utan eda fá hina besto menn ellifu or Vestfirdínga fiórdúngi med sèr, skyldu þeir vinna Kolbeini tylftareid at eigi Sturla ok eingi þeirra skyldi vera í móti Kolbeini, þótt [Þórdr kvæmi til [2]). Páll prestr Hallsson reid nordr ok [Kètill prestr Þorláksson, Gunnsteinn Hallsson ok Vígfús sonr hans, Þóroddr prestr ok allir hinir besto menn or þeim sveitum sem hann átti forrædi, svór Sturla eid ok þessir menn med honum ok reid heim sídan. Þetta hit sama sumar reid Einar Þorvaldsson ok Þórdís Snorradóttir ok hinir bestu bóndr med þeim or Isafirdi nordr á fund Kolbeins, ok fengu þar sæmiligar vidtökur ok gódar giafir, ok at skilnadi þeirra iátudu þau öllu því er Kolbeinn vildi edr beiddi. Ridu þá vestr med þeim Einar Jónsson ok Einar Drángi ok þeir sex saman af fylgdarmönnum Kolbeins, en þá er þeir kvamo til Stadar í Steingrímsfiörd, giördu þeir menn til Asgríms Bergdórssonar í Kaldadarnes, kvam hann til móts vid þá ok festi trúnad sinn med eidum vid Kolbein ok var til þess traudr í fyrstu, en þá er hann heyrdi at annathvert skyldu allir menn vinna Kolbeini eida í Vestfiördum eda sæta afarkostum ella, fór honum þá sem ödrum, er ekki var til annarar handar, at hann sá ei annat sitt rád en giöra sva sem beidt var. Ridu þeir þá vestr til Isafiardar ok stefndu þar fund bóndum, höfdu þá uppi eidamálit, gèkk þat audveldt sem van var, þvíat þar varo margir vinir Kolbeins hinir stærri bóndr, en í annan stad vildu allir giöra vilia þeirra Einars ok Þordísar. Sóru þá allir bóndr eid Kolbeini. Eptir þat fóro þeir vestr til Bardastrandar [3]) ok áttu þar fund vid höfdíngia,

[1]) fyrir nordan land. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) nokkur madr hæfi ófrid í móti honum. sömu.

[3]) þeir sem ádr var sagt, sóru þá allir eida. Þetta sumar reid vestan, sem greint var, ÞórdísSnorradóttir okEinar

stefndu til Gísla af Raudasandi ok höfdu uppi ordsendíng Kolbeins, at Gísli skyldi vinna eid eda mæta ella þeim mun meira fiandskap af Kolbeini, sem hann hefdi í fleira því verit er honum var til mótgángs en adrir. Gísli kvadst aldrei mundi eid sveria, fór þá í feandskap ok heitan af hveriumtveggiom. Þar var Eyvindr prestr Þórarinsson [gódr madr ok göfigr [1]) er optast var vanr at vera umbótarmadr med Gísla ok ödrum þar þess þurfti vid, [þar var ok Þórarinn Kollason systurson Eyvindar [2]). Kölludu þeir þá Gísla á tal vid sik, bádu hann at hyggia í hvert efni komit var, segia nú ei vera Sighvat edr Sturlu til lidveizlu vid hann, [edr adra þá er honum hefdu mestir flutníngsmenn verit [3]). Gísli kvad annars vera makligan Kolbein edr þá menn er drepit hefdo Sighvat edr Sturlu, en hann vildi þeim nè einn trúnad veita. Eyvindr kvad þá á hitt at líta at hann fengi ei sva breytt at hann tæki siálfr upp afarkosti, en sveitin hefdi úfrid ok þætti öllum þat af honum hliótast. Gísli kvadst þó aldrei mundi Kolbeini Arnórssyni eid sveria, hvat sem í skurdinn gèngi. Eyvindr þagnadi þá um ríd ok mælti sídan, sver þú eid Kolbeini únga, ek á þann son sem Kolbeinn heitir heitinn eptir Kolbeini Sighvatssyni, ok mætti þá rèttr vera eidr þinn, ef þú veizt þat í hug þèr at þú þykkist honum sveria. Gísli kvadst þetta giöra mundi [med forseá þeirra [4]), gèngu þeir þá med þessu rádi til móts vid þá Einar ok Nordlendínga; segir Eyvindr þá at Gísli vildi giöra fyrir bæn hans ok vina sinna annara eptir því sem beidt var. Stafadi Einar Jónssón þá Gísla eid, en hann svór eptir því sem þeir Eyvindr höfdu rádit, ok sá eingi madr í þat. Svóru þá allir bóndr eid á þeim fundi, þeir er kvaddir varo, [skildu þeir sva slíkir vinir sem þeir fundust [5]). Fóru þeir Einar þá nordr í feördu, gèngu þá allir hinir stærri bóndr til eida fyrir utan fáeina menn. Sanda-Bárdr ok nokkrir menn vildu ei sveria. Eptir þat ridu þeir Einar [6]) nordr.

son hennar. Ridu þau þá vestr med þeim Einari Láng ok hans fèlögum, sór eid Asgrímr Bergþórsson ok margir adrir, en er þeir komu á Bardaströnd o. s. fr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[1]) vantar í sömu.

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í sömu.

[4]) vantar i sömu.

[5]) vantar í sömu.

[6]) Kolbeins menn. sömu.

Med slíkum hætti, [sem nú heyrdut þèr [1]), fèkk Kolbeinn nú vald yfir Vestfeördum. Þetta sama haust vard Þorfinnr Fíngur [2]) aptrreka í Rútafirdi, varo þeir Dugfússynir á því skipi ok margir adrir íslenzkir menn, ridu þeir þá heim í Hiardarholt. Fór þá Biörn Drumbr nordr á fund Kolbeins ok Þorsteinn Hiálmsson [3]) med honum, ok skyldu þeir þá frida fyrir þeim brædrum vid Kolbein, en þá er þeir kvamo á hálsinn hiá Svínavatni, reid þar madr á móti þeim, [sá hèt Jón ok var kalladr lidsmadr [4]), [Þorsteinn spyr hann tídinda [5]), hann segir þeim skipkvamuna á Gásum, kvad þar á vera Þórd Sighvatsson ok fleiri íslenzka menn adra. Þorsteinn spyr hvert hann skyldi? Jón svarar: ek skal fara í Vestfiördu [6]) ok finna ydur hina stærri bóndr. Þorsteinn spyr hvat eyrindum væri. Jón segir Kolbein hafa til þess ord sendt, ef Þórdr Sighvatsson kvæmi nokkut í þeim sveitum fram, at þèr skyldut láta taka hann ok færa honum. Þorsteinn bad hann finna adra bóndr, en vid munum rída á fund Kolbeins. Þá skildu þeir at, reid Jón vestr, en þeir Þorsteinn ridu þá nordr, ok er syn fal á milli þeirra, þá mælti Beörn: þau tídindi hefir ek frètt, at ek man aptrhverfa ok rída ei lengra. Hví synist þèr þat, segir Þorsteinn. Því at ek veit, segir Biörn, at iafnskiótt mano brædur mínir fara til Þórdar, sem þeir ná honum, hverio sem ek hefir heitit Kolbeini, en ek vil þeim fylgia. Þorsteinn vard vid fár, ok kvad hann ráda mundu, þetta var um dagmála skeid. Sneri Beörn nú aptr ok reid sva nordan at hann fann ekki [7]) menn, kvam heim í Hiardarholt, er lítit var af nátt, vakti hann þá upp brædur sína ok sagdi þeim þessi tídindi, þeir urdu þessu fegnir ok þótti hann hafa vel farit. Sátu þeir nú heima um ríd.

2 Nú er Þórdr var á land kvaminn í Eyafirdi, þá varo þar fyrir heimamenn Kolbeins ok leyptu þegar til fundar vid hann ok segia honum at Þórdr var út kvaminn. Þórdr vard landfastr laug-

[1]) sem nú var sagt. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) Hialtason, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) hèradsmadr. *A. B C. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í sömu

[7]) Kolbein nè neina, bæta sömu vid.

árdag hinn næsta fyrir Maríumesso sídari, hon var á ödrum degi viku. Voru þar í kaupstefnunni margir hinir stærri bóndr þeir er verit höfdu ástvinir födur hans, en í annan stad rídr Halldóra til móts vid Þórd son sinn ok adrir frændr hans ok vinir, urdu honum allir fegnir í fyrsto, en er þeir hugsudu um ríki Kolbeins Unga, hversu mikit vordit var, þótti þeim náliga sem hann væri [1]) látinn, vakti þá upp at nyu fyrir þeim harm er Halldóra hafdi bedit, þvíat eingi hinna meirr manna treystist at veita Þórdi edr hans frændr, en alþyda var sva hrædd at ei þordi at mæla vid hann þat er ei var á allra manna viti [2]), en margir voru í sökum vafdir [3]) vid Þórd, er farit höfdu med eignir þær er fadir hans ok brædur höfdu átt. En þá er Þórdr sá hversu alþydu var snúit af hrædslu-gèdi til mótgángs vid hann fyrir ríki Kolbeins, sva at hverium þótti sem at láta siálfan sik edr eignir sínar, ef honum giördi nokkurn gódan lut, þá fèkk hann sèr hesta ok reid inn til hèrads. [Þórdr reid nú inn á Grund [4]). Þar bió þá [5]) Styrmir Þórisson ok Sigrídr Sighvatsdóttir, þau áttu tvö börn, hèt Teitr son þeirra, en Halla dóttir. Teitr var farinn út í Grímsey. En þá er þeir Sighvatr ok Sturla varo látnir, lèt Kolbeinn eiga skuldadóm eptir þá ok giördi Sighvat fèlausan, ok vafdi í því alla hina stærri bóndr í Eyafirdi, [annathvert, at þeir kölludust átt hafa fè at þeim fedgum edr keyptu eignir þeirra med sínu freálsu [6]) til þess at þá væri alþyda meir bundin [7]) í mótgángi vid Þórd, ef hann kvæmi til Islands, þá lèt hann sem hann keypti Grundarland at þeim Halldóru ok Tuma ok gaf þeim vid eignir í Skagafirdi, biuggu þau [8]) þá at Þverá, þótti Kolbeini sem Tumi mundi sídr þar kvama nè-einu [9]) áleidis til mótgángs, er umhverfis sátu úvinir hans, en Styrmi ok Sigrídi rak hann nordr á Grund ok kvad hana

[1]) í vök edr, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vegi. *A. C. St.* þ.

[3]) hafdir. *C. St.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) á födurleifd hans, bæta sömu vid.

[6]) med ödru hvöriu, at þeir skyldu ágirnast ok kallast átt hafa, eda lèt þá kaupa hvort er þeir vildu edr eigi, ok gèfa friálsar eignir fyrir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) mein-bundin. sömu.

[8]) mædgin, bæta sömu vid.

[9]) minna. sömu.

þat skyldu hafa er sæmiligast var ok setiast í rúm födur síns, en þau beoggo ádr í Bearnastadahlíd, ok þótti honum þau þar sitia fyrir niósnum. Sigrídr kvad sik mega reka brott af stadfestu sinni, en aldrei [kvadst hon at heldr eiga Grund [1]). Þá er Þórdr kvam á Grund, kvam til hans Arni abóti [hinn siöundi at Þverá [2]) ok Gudmundr Gilsson, þeir bádu at Þórdr skyldi verda sem fyrst í brotto, sögdu þann tíma er Kolbeinn yrdi var vid útkvamo hans, at hann mundi þegar giöra til hans. Tóku þat þá flestir upp fyrir Þórdi, at Hálfdán mágr hans væri líkastr til at veita honum nokkurn stirk fyrir sakir kosta ok ættar, en kölludu Steinvöro systur hans höfudskörúng ok líkliga til framhvata vid Hálfdán bónda sinn. Tók Þórdr þat þá til ráds at rída sudr um land, var þá eigi meiri sveit [3]) hans or Eyafirdi en tveir menn, Snorri Þórálfsson [er útkvam med honum [4]) ok Amundi [5]) Auga Þorsteinsson [6]), hann var leidtogi [7]) þeirra. Ridu þeir þá nordr yfir Vödlaheidi, ok sva upp hina nyrdri leid á Sand. En er Kolbeinn Arnórsson spurdi útkvamo Þórdar, þá sendi hann þegar nordr til Eyafiardar þriátygi manna, voru þar fyrir heimamenn hans. Ok er þeir kvamo til Gása, könnudu þeir búdir allar med brugdnum vapnum [8]), ok fundu þar ei Þórdr sem van var. Þeir undu illa vid sína för, tóku þá Leif Austmann er sídan var kalladr Knarrar-Leifr [9]), ok lèto sem þeir mundu [reka fót undan honum [10]), hann var vin Þórdar ok fèlagi, þeir tóko vapn hans [11]), en Austmenn [12]) allir sögdu hann saklausan, eptir þat lètu þeir Leif lausan, en rænto tvo [13]) íslenzka menn [Starkad [14]) Einarsson ok Beörn [15]) Skakk

[1]) þykist ek at heldr eiga Grundarland, þótt ek setiumst þar nidr. En þetta vard sem annat sva at vera sem Kolbeinn vildi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) föruneyti. sömu.

[4]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[5]) Hámundr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[7]) leidsagnari. *A. C. St.* Þ.

[8]) sverdum. *C. St.*

[9]) Konar-Leifr. *Gr.*

[10]) fóthöggva hann. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[11]) er kaupmenn áttu. sömu.

[12]) kaupmenn. sömu.

[13]) þriá. *A. C. St.* Þ.

[14]) Styrkár. *B. E. Gr.*

[15]) Þorbiörn. sömu.

til þriátygi hundrada [1]). Eptir þat fóro þeir heim ok sögdu Kolbeini at Þórdr væri ridinn á Sand. Kolbeinn sendi þegar menn Hialta biskupssyni, bad hann gæta sín [2]) ok setia þær gîslar fyrir sem honum þætti vænst at þeim mundi duga. Hialti [3]) eykr þegar feölmenni. Þórdr reid leid sína þar til er hann kvam til Kèlna. Hálfdán ok Steinvör tóko vel vid honum. En er Þórdr hafdi þar fár nætr verit, þá heimti hann á tal mág sinn ok systur, ok segir, at þeim mundi kunnigt vera um skada þann hinn mikla er hann hefdi bedit í [mannamissi ok feárlátum [4]), en lèt sèr vera hvergi úhætt. Nú er ek til þess kvaminn, segir hann, at bidia hèr nokkurrar lidveizlu, ok vita ef gud gæfi þann tíma, at vèr mættum med nokkro móti fá sæmdir varar, [er þat fyrst, mágr, at þú ert kostamestr minna venzlamanna, enda væntir mik hèr bezt at er þit erut [5]). Steinvör tók vel máli hans ok kvad einsætt vera Hálfdáni at drygia dád sína ok veita Þórdi slíkt allt er hann mætti, því at hann hefdi eingi styrialdarmadr verit hèr til, hefir ek þik ok sialfan eggiat ígaungo í stórmæli, segir hon, en nú man ek þat bert giöra at lítit man verda samþykki okkar, ef þú veitir eigi Þórdi bródur mínum, man þá sva fara ok sem minnr er at sköpudu at ek man taka vapnin ok vita ef nokkrir menn vilia mèr fylgia, en ek man fá þèr af hendi búrlyklana. Steinvör var þá málóda um hríd, en Hálfdán þagdi ok hlyddi til, en þá er Steinvör þagnadi, þá svarar Hálfdán: sva lízt mèr sem fleira mani hèr vidþurfa en ákafa einnsaman ef þetta mál skal nokkurn stad eiga er Þórdr beidist [6]), en mèr er kunnast hvat manna ek em siálfr, ero mèr lítt hentar stórdeildir, em ek heldr hníginn fyrir aldurs sakir, en verit þó ávalt úsamr [7]) at eiga lut í stórmálum, en mèr synist þeir er í þetta mál gánga, sem náliga hafi allt lanzfólk í móti sèr,

[1]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

[2]) veita sèr. *A. B C. E. Gr. St.* þ.

[3]) var heima ok, bæta sömu vid.

[4]) láti födur síns ok sva brædra ok sva teknar allar eignir varar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) þykir mèr eingi iafnlíkligr til lidveizlu vid mik sem þú, bædi vegna venzla ok sva at þú ert kostameiri til fiár ok annars afla, en hvör annara minna venzlamanna, ok væntir ek, *o. s. fr. A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) byriar. sömu.

[7]) rósamr. *C. St.*

vil ek ok fyrr vita hvern afla Þórdr fær annarsstadar þar sem frændur hans ok vinir ero. Man ek, ef þeir kvama híngat med nokkurn stirk lids, gánga í mál [med honum lengra. Steinvör eggiar þá miök [1]). Giördu þau þá þat rád öll saman, at Þórdr skyldi fara í Vestfiördu [ok leita eptir hverir menn honum vildu veita, segir Hálfdan þar marga þá menn er harma sína átu af rètta vid Kolbein ok Sunnlendínga [2]), kvad þá ok giarnari vera mundu úfridar en sik edr sína menn.

3. Tumi Sighvatsson átti þá bú í Arnarbæli, kvam hann til Kèldna er hann spurdi at Þórdr var þar kvaminn, verdr þar fagnafundr med þeim brædrum, rèdst Tumi til vestrferdar med Þórdi ok nokkrir menn med honum. Nikolás hèt madr ok var Oddsson, hann var ættadr austan or fiördum [3]), módir Nikolásar var Herdís dóttir Barkar af Baugstödum, hann var fylgdarmadr Hálfdanar, [hann var mikill madr ok sterkr ok vel viti borinn, hann fengo þau Steinvör ok Hálfdan til fylgdar vid Þórd. Börkr hèt madr ok var Gudmundarson, hann rèdst enn til ferdar med Þórdi [4]), urdu þeir Þórdr ok Tumi brædur saman þriátygi manna, þá er þeir ridu frá Kèldum. Ridu þeir þá vestr yfir Þiórsá, fóru sva um hèrad at Hialti vard ei var vid, ridu þá leid sína vestr til Borgarfiardar ok sva vestr til Dala. Svertíngr hèt madr ok var Þorleifsson, hann beó þá í Hvammi, for Tumi þángat ok var þar medan Þórdr fór vestr í fiördo. Þá er Urækia var utan rekinn, dreifdist vída sveit sú er honum hafdi fylgt, en er þeir spurdu at Þórdr var kvaminn í Dali, þá þótti þeim hann vænstr til nokkurrar uppreistar móti þeirra úvinum, drifu þeir þá flestir allir til Þórdar, tók hann vid þeim öllum vel, voro þeir fremstir [5]) í þeirri sveit frændr hans Dugfússynir, Beörn Kægill ok Kolbeinn Grön, Þorgeir Ródbiartsson, er kalladr var Stafsendi [6]), brædrungr Dugfússona, Gudmundr Jónsson er kalladr var Sortí, son Þórdísar

1) med honum, fyrst at þú, Steinvör, eggiar þessa sva miök. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í sömu.

3) Austfiördum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) frá [ vantar í sömu.

5) flestir. *A. C. St.* Þ.

6) Stafsendir. sömu.

Sveinsdóttur Sturlusonar, Asgrímr Baulufótr ok adrir fleiri, þótt vèr nefnum ei alla, reid þá Þórdr vestr til Saurbæar. Sturla Þórdarson bió þá á Stadarhóli, fèkk Þórdr þar gódar vidtökur. Þá er hann hafdi þar verit eina nátt, gèngu þeir Þórdr ok Sturla á tal, kvad Þórdr sèr þat sagt at hann væri mestr madr ok vitrastr í þeim sveitum af hans frændum, hefir ek ok þat spurt, segir hann, at eingan mani nær borit hafa þeim hrakníngum er á Örlygsstödum urdu en þik, hefir þú ok iafnan verit lidsinnadr [1]) mínum frændum, þeim er síns rèttar átto at reka, væntir ek enn at sva munir þú til mín giöra, var mèr þat ok sagt, at ei yndir þú betr vid skilnad ykkarn Urækiu en þèr mundi þá þat í hug at veita þeim, ef nokkur vildi þess rèttar reka. Sturla kalladist úhagliga vidkvaminn, manto þat spurt hafa, segir hann, at ek hefir eid unnit Kolbeini Unga, ok þar í bundnir þeim eidum allir hinir bestu menn í minni sveit. Þórdr kalladi eida þá ei hafa verit annat en naudúng eina [2]). Sturla kvadst vilia verda honum at lidi eptir því sem hann mætti sèr vidkvama, en kvadst búinn mundu til slíkrar lidveizlu sem hann vildi í gánga, þá er Þórdr kvæmi vestan. Þórdr fór þadan vestr yfir Breidafiörd til Bardastrandar. Þá bcó í Haga Eyvindr prestr Ragnheidarson, sem fyrr var gètit, hann átti Þórunni Gèllisdóttur [3]), hennar módir var Vígdís Sturludóttir. Gísli Markússon bcó þá at Bæ á Randasandi, hann átti Þórdísi Gèllisdóttur systur Þórunnar ok var hann sva mægdr vid Þórd, hann var mestr bóndi fyrir vestan Arnarfeörd ok var þá miök kvaminn á hinn efra aldur, hafdi hann ok alla æfi verit í ferdum fyrst med Sighvati, en þá med Sturlu er hann kvam í Dali, hafdi ok eingi madr verit einfaldari í öllum málaferlum vid Sturlúnga en hann, átti hann þar ok allt sitt traust er þeir varo, en þurfti iafnan til at taka, þvíat hann var hinn mesti úiafnadarmadr. Synir Gísla hinir skírgètno [4]) varo lítt á legg kvamnir, en laungètna sonu átti hann marga ok þá fullkvamna at aldri. En er Þórdr kvam í Haga, sendi hann menn eptir Gísla ok stefndi at sèr öllum bóndum

[1]) lidsinnandi. *B. E. Gr.*

[2]) naudúngar eida. *A. B. C. E. Gr. St.*

[3]) Gísladóttur. *A. E. St.* þ. Þorsteinssonar, bætir *B.* vid.

[4]) skilgètnu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

er nokkur málaskil kunno. Þórdr bar þá upp eyrindi sín fyrst vid Gísla, en þá vid alþydo, beiddi Gísla ferdar sudr um land til móts vid Hálfdán ok þarmed alla adra er hans flokk vildu fylla, taldi hann þá upp vandrædi sín, sem ærin varo til, segir þat saman bera skada sinn ok alþydunnar í þeim sveitum, kvedr ok vel sóma, at hann væri fyrirmadrinn í málunum, en þeir veitto honum eptirgaunguna, man þá vera annathvert at bragdi, segir hann, at vèr manum rètta varn lut eda falla ella á fætr frændum vorum, ok er þar gódr hver uppkèmr. Gísli kvadst elldr vera miök frá úfridi ok væri sèr mál af at láta, en kvad þó ærna naudsyn á vera at allir drygdu dád ok veitto honum, hefir ek ok þá eida unnit Kolbeini, segir hann, at mèr sómir allvel fyrir þá sök at vera hans mótgángsmadr, man ek [fá til ferdar med þèr, Þórdr, fióra [1]) sonu mína ok hvetia alþydu þá er ek má ordum vidkvama, ok ætlak þat skuli mikit stoda. Þórdr tók því vel at eino, en kvadst aldrei ætlat hafa at hann mundi sik siálfan undandraga. Þórdr fór þá nordr til Eyrar í Arnarfeörd, þá beó á Eyri Steinun Rafnsdóttir Sveinbearnarsonar Bárdarsonar hins svarta, módir hennar var Hallkatla Einarsdóttir Grímssonar Ingialdssonar Grímssonar Glammadar Þórgilssonar Orrabeinsstiúps [2]). Steinun átti sex börn, dætur tvær ok sonu fióra, Rafn hèt son hennar hinn ellsti, annar Gudlaugr, þridi Oláfr, fiórdi Oddr. Herdís hèt dóttir hennar hin ellri, hon var gipt [þeim manni er vèr nefndum fyrr [3]) Svarthöfda Dugfússyni frænda Þórdar, Svarthöfdi var þá vistum á Eyri med Steinunni, önnur dóttir Steinunnar hèt Halla.

4. Þat var tídinda er Þórdr kvam á Eyri, at Rafn ok Svarthöfdi varo ei heima, þeir varo farnir [4]) nordr [5]) til Dyrafiardar í Hiardardal, þá var hit nærsta kveld fyrir Michaelismesso [6]). Þegar um náttina sendi Þórdr mann nordr í Hiardardal, at þeir Rafn ok Svarthöfdi skyldu kvama til *móts* vid hann á Söndum [7]). Bárdr

[1]) fara til fundar vid. *A. C. St.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) til brúdkaups, bæta sömu vid.
[5]) vestr. *St.*
[6]) Nikolásmessu. *A. C. St.* þ.
[7]) á sunnudaginn, bæta vid *B. E. Gr.*

Þorkèlsson beó þá á Söndum, er kalladr var Sanda-Bárdr, hann átti Cæcilíu dóttur Gudmundar Sigurdarsonar [1]), en þá er þeim kvam ordsendíng Þórdar, þá fóru þeir til móts vid hann á Sanda. Þórdr heimti þá á tal Rafn ok Svarthöfda ok Bárd, ok segir slíkt sem í var hans rádagiörd, kvedst þar fyrst bezt at vænta er Svarthöfdi var frændi hans. Svarthöfdi sagdi sèr þat þá í hug, er Sturla bródir þinn var drepinn frá oss, en allir vèr hraktir ok skammadir [2]), at vèr mundum fegnir verda, ef nokkur vildi þess rèttar reka, skaltu ok ei bænastad til þurfa, slíkt er vèr megum veita þèr. Bárdr sagdi, at hann mundi þat rád upptaka sem Eyrarmenn tækio, hefir mèr lengi þat vel gèfizt. Bárdr var landseti Rafns. Þórdr spyr: hver er sá hinn úngi madr, hví leggr þú ekki til? Hann kvadst Rafn heita ok vera Oddsson. Þórdr kvadst heyrt hafa hans gètit, eda viltu nokkut vera í ferdum med oss? Rafn kvadst vera úngr ok lítt til ferda fallinn, hefir ek, segir hann, ekki verit í ferdum med höfdíngium hèr til, kvedst hann ok ei vita hvert hann mundi hardnadr vera nokkut; þar hann var lítt kvaminn af barnsaldri. Rafn var þá sextán vetra, er Þórdr kvam í Vestfeördo. Þórdr segir Rafni ærna naudsyn til bera at vera mótgángsmadr Kolbeins fyrir sakir dráps módurbrædra sinna, lètust þar ok eingir menn iafngöfgir fyrir utan þá Sighvat födur minn ok sonu hans sem þeir Sveinbeörn ok Krákr. Rafn kvad ok ei bædi vera skyldu, at mega lítit veita þèr, ok láta þik illa at kvamast því er ek má, segir hann. Þórdr þakkar honum vel ok kvadst ætla sèr mundi þat mikit mega [3]) fyrir sakir frændastirks þess er Rafn átti. Þessir voru þá hinir stærri bóndr nordr í feördum, er Þórdr kvam þángat: Jón Þorkèlsson beó á Alptamyri, hann átti Gudrúno dóttur Tómásar or Selárdal, Halla var módir hennar, dóttir Þórdar Sturlusonar. Guttormr son Helga Sveinssonar beó í Lokinhömrum, Þorídr hèt módir hans dóttir Rafns Sveinbiarnarsonar. Guttormr [4]) hafdi látit födur sinn á Örlygsstödum ok tvo módurbrædur. Bearni Brandsson beó þá á Myrum

[1]) vantar í *A. C. St.* þ. Sigrídarsonar. *B. E. Gr.*

[2]) skèmmdir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vega. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) Jón, sömu.

gódr bóndi. Steindór prestr Steindórsson beó þá í Holti í Önundarfirdi. þessir bóndr beoggo í Isafirdi: Sigmundr Gunnarsson beó í Súdavík, hann átti Herdísi Rafnsdóttur sídar, en fyrr hafdi hana átt Eyúlfr Kársson ok áttu þau einn son er Eyúlfr hèt. Einar þorvaldsson var þá úngr ok áttu þau þórdís módir hans bú í Vatnsfirdi. Annat sumar [1]) var Illhugi þorvaldsson drepinn, eptir þat verk úþokkudust sva miök bóndr í Isafirdi um dráp Illhuga vid Urækiu, at þeir vildu fara at honum, var þar höfudsmadr Páll Bárdarson or Ögri, módir hans var Valgèrdr Snorradóttir, hann var systrúngr Illhuga, en er Urækia vard þessa var, stukku þeir sumir er í þessu höfdu verit med Páli nordr um land til Kolbeins ok giördust þá ástvinir hans, sem fyrr er sagt. þormódr Hiálmsson beó í þernuvík. Aron son Halldórs Ragnheidarsonar [2]) beó í Ögri. þórdr Henreksson beó í Reykiarfirdi. Atli Hiálmsson beó í Grunnavík. þórdr Sighvatsson fór nordr í Hiardardal ok kvam þar ádr menn voru brottfarnir frá brullaupino, voro þar allir hinir bezto menn [fyrir utan fram or Isafirdi [3]), taladi þórdr þá lángt eyrindi, hafdi hann þat upphaf á síno máli, at hann krafdi alla menn þar lidveizlo ok uppstödo sva skeótrar, at allir skyldu kvamnir í Saurbæ at allraheilagramesso. En er þórdr hafdi lokit sinni rædu, þóttust menn þat finna, at hann mundi vera vitur madr, þá er hann fengi stillt sik fyrir ofsa, en nokkut þótti mönnum hann stirdt tala í fyrsto, en þess at diarfari ok sniallari var hann í málinu sem hann hafdi fleira mælt ok feölmennara var vid. þeir menn svörudu í fyrstunni, er í eidum höfdu bundizt med Kolbeini um haustit, köllu du sèr ei sóma at fara at Kolbeini medan hann giördi ei afbrygdi vid þá, kvádu ok ei þurfa um þat at leita at þeir mundu [4]) uppstanda med þórdi, en vera kvádust þeir vilia vinir hans í ödrum hlutum. þórdr kvad sva lúka mundu sínum vandrædum, at hann kvád annathvert giöra skyldu þeim er væro í Vestfeördum, at vera med honum edr í móti ella, kvad sèr ok eigi minna ætlat mundu, ef hann kvæmi aptr or þessari ferd, en ek man mega

[1]) ár ádr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) fyrir vestan Isafiörd. *A. B. C. E. Gr St.* þ.
[4]) vestan fara edr, bæta sömu vid.

skripta ydur eptir makligleikum, er nú láta sèr verst fara. Bóndr sögdu hann ærit mörgum eiga illt at launa, þóat hann heitadist ekki vid þá. Þórdr kvad þá eigi þurfa minna sik á harma sína, sló þá í heitan med þeim ok kvádust bóndr ei blotna mundu vid þat, skildust þeir vid sva búit, fór Þórdr á Sanda um kveldit, en um daginn eptir baud Bárdr honum bú sitt, Þórdr tók vid búino, þótti öllum þetta geysi stórmannligt.

5. Litlu sídar sendi Þórdr menn sína út í feördu at kvedia menn upp, en hann siálfr fór nordr til Önundarfeardar ok fèkk þar fátt eitt af mönnum [1]), en Isfirdíngar vinir Kolbeins giördu honum niósn. Þórdr fór þadan nordr til Steingrímsfiardar, þá beó Asgrímr Bergdórsson á Kaldadarnesi, sem fyrr gátum vèr, fundust þeir frændr, ok krafdi Þórdr hann ferdar, kvad honum mundu sízt sóma annat en vera í ferd med sèr, fyrst fyrir sakir frændsemis, en þat annat, hversu miök Sturla bródir minn upphóf þik, sá hinn þridi lutr, hversu þú varst vid allar hrakníngar á Örlygsstödum ok sást lát frænda þinna ok þeirra manna er þèr mundu aldrei or hug gánga. Asgrímr vardist marga vega ok kænliga, [ok kvam lagagrein fyrir sik [2]), þvíat hann var forvitri, fyrst med eidum þeim er hann hafdi svarda Kolbeini, þá segir hann, sem satt var, at hann sæti í nærra lagi þeim Nordlendíngum, þegar er hann væri í nokkurri fiandsemi vid þá, dró hann sva sitt mál um sídir, at hann lèzt hvergi fara mundu. Þá átti Þórdr vid adra bóndr, drógu allir sik undan, þá er þeir vissu, at Asgrímr mundi heima sitia.

6. Asbeörn hèt madr Gudmundarson smids [3]) Salomonssonar, hann var einleypíngr ok vaskr madr [4]), hann gèkk fyrir Þórd ok mælti: Hví sætir þat, at þú kvedr einga menn adra til ferdar þessarar en bóndr? viltu eigi adra nyta? ek vil beódast til ferdar med þèr ok ætlak at vera þèr miklu meiri en einhver bóndi, fá

[1]) ok þadan fór hann inn til Isafiardar ok fèkk hann þar nær einga menn, bæta vid *A. B C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) vantar í *A. C. St.* þ.

[4]) ekki var hann ættstór madr, bæta sömu vid.

þú mèr sveit nokkra ok man ek freista at krefia þá upp bóndurnar, er þat makligra at vèr eigum saman, hèr er hveriga til at spara. Þórdr tók því vel ok kvad sva vera skyldu, en um myrgininn eptir fèkk Þórdr Asbirni níu [1]) menn ok kalladi þá alla saman Gèsti, fór þá Asbeörn út eptir Steingrimsfirdi, var þat flest bónda at brotto varo af bæum sínum ok höfdu fólgizt, höfdu þeir heyrt kvitt [af þessari rádagiörd um kveldit, en [2]) þeir urdu allir at fara er heima voru staddir. Fór Asbiörn þartil er hann kvam í Húsavík, Högni hèt bóndi er þar beó, var hann í brottu. Asbiörn tók kono hans ok hafdi med sèr, ætladi þá at bændr mundo eptir rída, ok mundi þá ná fundi þeirra, en heimamenn giördu Högna niósn at kona hans væri brott tekin, Högni fór eptir þeim Asbirni vid fiórtánda mann, þeir fundust vid heygard nokkurn, beiddi Högni þá at Asbiörn vildi láta lausa kono hans, en Asbiörn bad þá fara med sèr, en husfreya færi heim. Bóndr vildu þat eigi, segia hann annars makligan fyrir slíkar tiltekiur, fór þá í heitan med þeim, eggiadi Asbiörn [3]) at bóndr skyldo at þeim gánga, en ekki vard af því. Þá skaut Asbiörn spióti ok kvadst þeim leida skyldu at þeir færo at mönnum Þórdar í annat sinn, kvam spiótit á Högna upp í hrærana ok rendi ofan í lærit, var þat sár mikit ok banvænt, sá var hinn fyrsti áverki er menn Þórdar veitto. Gèngu þá bændr upp nokkrir, en sumir flutto Högna heim. Þórdr reid þadan [4]) sudr til Saurbæar, mættust þeir þá flokkarnir ok þeir er vestan fóru, var þat um kveldit fyrir allraheilagramesso, fundust þeir þar Þórdr ok Sturla, spurdi Þórdr þá, hvert Sturla væri búinn til ferdar med honum? en Sturla kvadst ei nenna at sva búno at breóta eida sína ok sva margra manna sem í voru med honum, en skamt man lída ádr at Nordlendíngar breóta vid mik ok skal mín þá ei á bak at leita, en rída man ek med þèr sudr til Borgarfiardar ef þú vilt. Þórdi fannst fátt um ok kvadst ei vita hveriu hann skipti þat, reid Þórdr sudr yfir heidi til Hvammsfiardar [5]) ok Sturla med honum, kvam þá Tumi bródir hans til móts vid hann.

[1]) nokkra. *A. C. St.* Þ.

[2]) af því, at. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) Högni. *A. C. Gr. St.* Þ.

[4]) úr Steingrímsfirdi, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) Hvamms. sömu.

Teitr Styrmisson systurson Þórdar var þá nordan kvaminn vid siöunda mann, reid Þórdr þá med allan flokkinn súdr til Dala, heimti hann þá saman alla hina bestu menn, ok leitadi ráds vid þá, hvert á skyldi snúa, var þá ransakat hversu mart lidit var ok var þat nær tvö hundrud manna, þótti þá eigi lidsfeöldi til vera at rída nordr á, lögdu þat flestir til at Þórdr skyldi sudr á snúa, þótti þar minni vörn fyrir landi, en ærnar sakir, lidit var ok lítt vapnat, lögdu þat margir til ráds, at þángat skyldi á leita er nokkur vapna-afli væri fyrir. Þórdr spurdi hvar þat væri, honum var sagt at Loptr biskupsson ætti skiöldu marga ok driúgum önnur vapn. Þórdr sagdi hann manna makligastan til vera at fá nokkra skömm af honum, hefir hann lengi verit andstreymr oss frændum, var hann ok mest manna í rádagiördinni móti þeim fedgum, þessa eggiudu allir ok var þat ráds tekit at rída sudr til Hítardals.

7. Loptr biskupsson beó þá í Hítárdal at Húsafelli, en er Þórdr kvam upp á heidina or Svínbugsdal [1]), þá kalladi hann til sín Teit Styrmisson ok bad hann at rída leid fyrir í Hítárdal ok handtaka Lopt biskupsson, en giöra honum ekki, ok láta ei menn kvamast í brott af bænum. Teitr reid fyrir med sextánda mann, tóku þeir bæinn, en Loptr var ei heima, hann hafdi ridit í brott ádr um daginn ofan undir Raun, þá beó undir Rauni Skúli Þorsteinsson, en Lopti kvam neósn um kveldit ok reid hann þá ofan til siáfar ok fèkk sèr þar skip ok *fór* hann þá sudr yfir feörd til Garda, þar beó þá Þorleifr Þórdarson, var Loptr med honum um ríd. Þórdr var í Hítárdal um náttina, en um myrgininn eptir lætr Þórdr reka saman ross öll ok sva lèt hann taka vapn öll þau er fundust, varo skildir bornir út or kyrkio, þadan fór Þórdr sudr til Reykiadals hins sydra, þar kvam til móts vid hann Þórdr Bearnason, hann beó þá í Eskiholti ok átti Margrèto dóttur Þórdísar Sveinbearnardóttur. Þeir Þórdr ok Sturla fundust um daginn, er Þórdr fór or Hítárdal, ok áttu þá tal saman ok hvarf Sturla vestr aptr, vard þá ekki til tídinda, reid Þórdr þá sudr um Skardsheidi skardaleid til Laugardals [2]), þar til er hann kvam í Túngu til

[1]) Svínbiúgsdal. *A. B. C. Æ. Gr. St.* Þ. [2]) vantar í *A. C. St.* Þ.

bús Gissurar, þar var þá fyrir Þóra Gudmundardóttir módir hans, var þar allt í kyrkio borit, sva at þar var eingi lutr inni til matar mönnum nema flautakèr eitt, vildu menn þá drepa fè, en Þórdr bannadi þat, kvad ekki dveliast skildu at því, kvad hermenn verda þann mat at hafa sem til væri, fèkk hann þá neósn af at Hialti hafdi flokka samandregit nidri í Flóa, bad Þórdr þá hvern mann södla hest sinn, ok sva var giört, snero menn þá í brott, ok þá bad Þórdr at þeir skyldu fyrir rída er kunnigt var ofan í Flóann. Tumi bródir hans kvad þat fiærri skyldu fara, ok rídi allir austr yfir ár þeir er mèr vilia fylgia. Gèkk þá lidit í tvo stadi, áttu menn þá lut at vid Þórd, at heldr skyldi rída austr yfir árnar, kvádo þángat van lidveizlo, Þórdr lèt eptir bænum manna ok reid austr til Kèldna um náttina, átti þá tal vid Hálfdan mág sinn ok beiddi hann lidveizlo, en Hálfdan var hinn seinligasti, kalladi þá eingan afla verda þó hann stædi upp. Þórdr bad hann fá sèr menn til lidseindar [1]) þótt hann sæti heima. Hálfdan kvadst vilia finna brædr sína ádr. Steinvöro konu hans líkadi þá stórílla, ok vid þetta reid Þórdr á brott.

8. Ormr Bearnarson Þorvaldssonar Gissurssonar bródursun [2]) Gissors Þorvaldssonar beó þá á Breidabólstad í Fliótshlíd, hann var godordsmadr ok hafdi átt mikinn lut at drápi Snorra Sturlusonar [3]). Þórdr reid þá austr á Breidabólstad, en Ormr stökk undan austr í Vèr, en Þórdr sat í búino á Breidabólstad um ríd. Þá sömu nátt er Þórdr var í hèrad kvaminn ok Hialti spurdi þat at hann var þar med flokk sinn, tók hann þat ráds at hann reid nordr um land á fund Kolbeins Arnórssonar, en bad bóndr halda setum sem feölmennustum í Skálaholti, en beiddi [4]) biskup at fara á fund Þórdar med sáttarbodum ok draga þat efni til þeirrar stefnu er Kolbeinn mætti til kvamast nordan. Reid Sigvardr biskup austr á Breidabólstad til móts vid Þórd at bæn Hialta, ok leitadi um sættir fyrir höud bónda. Steinvör kvam ok til med biskupi. Biskup

[1]) fylgdar. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) mágr. *C. St.*

[3]) þó hliótt færi at, bæta vid *A. C. St. Þ.*

[4]) Sigvard, bæta vid *B. C. E. Gr. St.* Sigurd. *A. Þ.*

flutti ákafliga, en Þórdr var hinn þverasti. Biskup baud af hendi bónda at sex menn skyldu giöra fyrir hverra hönd, en Þórdr neitti því, en baud at Steinvör ok Hálfdan skyldu giöra allt úskorat. Biskup kvadst því hverki kunna neita nè iáta fyrir hönd bónda, fyrr en þeir kvæmo [1]) seálfir, fór biskup þá heim í Skálaholt til móts vid bóndr, en hann skyldi senda sem skiótast Þórdi mann [2]) ok segia hvert bóndr vilia sættast edr eigi, ok var ákvedin stund nær sá skyldi aptr kvama. A þessari stundu fóru menn millum þeirra Þórdar ok Bearnar Sæmundarsonar at leitast um hvert Þórdr vildi vera í sættum þeim, sem bródir hans Tumi hafdi ádr tekit fyrir báda þá vid Beörn, fyrir þat er hann hafdi verit á Örlygsstödum. Þórdr bad Beörn rída á fund sinn í gridum, ok ræddist þeir vid seálfir. Reid Beörn til móts vid Þórd á Breidabólstad, átti þá Tumi mikinn lut at vid Þórd bródur sinn, kalladi eigi fleiri en sva, at honum hefdi sóma [3]) giört af þeim málum, en mèr þætti þat ei fiarri at þú hèldir þær sættir. Þórdr kvad Beörn mundu mestu um ráda seálfan hvert hann vildi giörast vinr hans edr úvinr, en eigi man ek trygdir veita Birni fyrr en ek veit hver madr hann vill vera. Beörn kvadst þat skiótt syna mundi, gaf hann þá Þórdi sæmiligar giafir, [Þórdr þekktist þat [4]) ok skildu þá lagliga. Tveim dögum sídar en ákvedit var, kvam sá madr er biskup sendi Þórdi, segir sá at bóndr neitudu þeim sættum sem Þórdr beiddi. Þórdr reid þá þegar til Kèldna med flokk sinn, var Hálfdán ridinn ofan í Odda, en Steinvör var heima, giördi Þórdr þegar þá Dugfússonu Kolbein ok Beörn til móts vid Hálfdán, en Steinvör stefndi saman bændum öllum í einn stad, bad þá búna vera at rída þann veg sem þeir Þórdr ok Hálfdán. Þeir Kolbeinn fundu Hálfdan ok sögdu honum ordsendíng þeirra syskina, Hálfdan kvad þat vera úrád at rída á helga stadi at bóndum þeim er ei væri slægia til, man ek hvergi fara ok eingir mínir menn, en Þórdr má fá sóma sinn á annan veg á bóndum í tómi. Sendi Hálfdan þá menn til bónda ok bad þá fara heim. En er þeir Kolbeinn kvamo aptr ok sögdu ord Hálfdanar, þá vard

[1]) kiöri. *A. C. St.* þ. heyri. *B. E. Gr.*
[2]) ord. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) sama. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) vantar í sömu.

Þórdr allreidr, kvad þá skyldu rída at bóndum, ok siá hvat í giördist, hafdi hann þá ok sanna neósn um fiölmenni þeirra, at þeir voru nær sex hundrud, ok höfdu búizt um í kyrkiogardi í Skálaholti. Þórdr reid út yfir á ok kannadi lid sitt, var þar hundrad ok tíu tygir [1]) manna, sögdu þá margir, sem satt var, at þat var úrád at rída at þeim, en Þórdr kvadst sva opt mundi hætta verda í úvænt efni, ef nokkut skyldi ávinnast um hans mál. Sudr frá Audsholti kvam [2]) biskup í móti Þórdi, ok baud allt hit sama af bónda hendi sem fyrr. Þórdr var þá hinn styggvasti vid biskup, segir hann allt draga til úlids sèr. Biskup kalladist iafnframt skyldu bannsetia [3]) Þórd ok menn hans er heim ridu á stadinn. Þórdr bad hann at hann lèti bóndr brott fara af stadnum, kvad þat úsætiligt [4]) at hann dragi þá í kyrkiogard slíkir hernadarmenn sem þeir væro, þá er þeir bruto kyrkiona á Miklabæ laugarkveldit ok leiddu út sex menn, ok lètu hvern drepa [5]) á fætr ödrum. Biskup vildi þá rída fyrir ok giöra neósn bóndum, [en er menn Þórdar visso þat, þá lèto þeir hann bída þess er Þórd bar eptir, er hann reid sídar. Þórdr lèt [6]) biskup rída hvert er hann vildi, ok reid eptir sem ákafast, þar til er hann kvam í geilar hiá Skálaholti, ok bad hann menn þá stíga af baki ok búast til atgaungu. Þá sendi hann þá heim Rafn Oddsson ok Teit [7]) at vita hvert bóndr væro í sama skapi um sætt sem fyrr, edr hversu þeim litist á umbúnad þeirra hve torsóttligir þeir væro. En er þeir kvamo heim, þá var biskup skryddr ok þriátygi klerkar med honum ok sagdist þegar skyldu bannsetia Þórd er atgánga tækist ok alla hans menn. Teitr [8]) lögmadr vitur madr ok gódgiarn, bródir Gissurar, hann bad biskup at freista at gánga á milli, ok vita ef nokkut stodadi, segir, sem satt er, hve mikil varkunn Þórdi var á, sva mikinn mannskada sem hann hafdi fengit, en sviptr öllu fèno,

1) nær tvö hundrud. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) Sigvardr, bæta sömu vid.

3) bannfæra. *A. C. St.* þ.

4) úsannligt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) höggva. sömu.

6) frá [ : en menn Þórdar vildu þat ei, ok lètu hann ei ná at rída, en er Þórdr kom eptir, bad hann. *o. s. fr.* *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) Styrmisson, bæta sömu vid.

8) prestr, bætir *E.* inní.

ok hefir ekki til vidrlífis mönnum sínum annat en þat hann verdi at deila til í hendr úvinum sínum, edr ræna saklausa menn, þótt hann leiti eptir sínum luta med því móti sem hann þykkist helst mega. Linudust bóndr þá, ok bádu at þeir biskup ok Teitr færo í millum, ok gáfu sitt mál á þeirra vald ok forseá. Gèkk biskup þá at finna Þórd ok þeir Teitr, segia þeir Rafn Þórdi at þeir væro torsóttligir, ef nokkur dád væri í þeim. Tumi var þá ok allsættfús. Sömdust þá sættir med því móti at biskup ok Steinvör skyldu um giöra, en þat er þau yrdo ei ásátt skyldi giöra Steinvör ein. Bóndr skyldu í eingum mótferdum vera vid Þórd þar til Gissur kvæmi til Islands, skyldi þá lokit sættum med þeim Þórdi ok bóndum, ef Gissur kvæmi til, en haldast ella. Gèngo þá bóndr til handsala vid Þórd. Reid Þórdr þá austr á Breidabólstad eptir sættina, ok settist þá enn í bú Orms, en Ormr var í Veri medan Þórdr var á Breidabólstad, fóro menn í millum þeirra, ok vannst ekki at um sættir. Þórdr sendi Beörn Dugfússon vestr í Breidafiardardali, en Þórd Bearnason til Borgarfiardar at vera á niósn um ferdir Kolbeins Arnórssonar, fyrir því at þá var kvittat, at mannsafnadr væri fyrir nordan land, en Þórdr reid út yfir á í Biskupstúngu, kvam þar biskup ok Steinvör ok luku þá upp giördum, ok giördu á hendr alþydu bónda, þeirra er þíngfararkaupi átto at gègna í sveit Gissurar, þriú hundrud, en á hendr hinum stærrum bóndum fimm hundrud. Eptir þat reid Þórdr sunnan af hèrödum til Borgarfiardar.

9. Nú verdr frá því at segia, er vèr gátum fyrr, at Hialti biskupsson kvam á fund Kolbeins ok segir honum um ferdir Þórdar, ok bad hann sudrreidar. Kolbeinn brást vid skiótt ok sendir þegar menn nordr til Eyafiardar, ok þeir drógu lid saman um allar sveitir fyrir nordan Öxnadalsheidi. Adra menn sendi hann vestr til Rútafiardar, skyldu þeir krefia[1]) menn upp um vestr-hêrud ok feölmenna sem mest, en er flokkar kvamo saman, þá vildi Hialti at flokknum væri stefnt sudr um Kiöl, ok sva til móts vid Þórd, en Kolbeinn kvad vera þykkia mega, at Þórdr væri þá vestr ridinn, ádr vèr kvamum sudr, ok manum vèr þá ei ná

[1]) kvedia, *A. B. C. E. Gr. St.*

honum, vil ek stefna hinar vestri heidar ok sva til Borgarfiardar, má sva sízt bera í sundr fund varn, hvert sem Þórdr er sudr eda vestr. Hialti kvad Sunnlendínga yfrit lengi þolat hafa þenna úfrid. Kolbeinn kvad þá vel mátt hafa hrundit af sèr, ef þeir hefdu karlmennsko [1]) til, sva at þeir þyrftu ei annara manna lidveizlu. Nordlendíngar allir bádu Hialta ílls, kvádu þetta allt af honum hliótast, Kolbeinn reid þá med allan flokkinn vestr til Midfiardar, ok þadan sudr um Tvídægro, en er þeir fóro upp or Gnúpsdal [2]), var vel sex hundrud manna. Kolbeinn kvedst þá ærit lid hafa, ef gipta fèlli. Sva var vedri varit, er þeir rido á heidina, at um morguninn var [á krapadrífa [3]) ok vindr lítill, ok urdu menn alvotir, en er á leid daginn tók at frysta, lióp þá vedrit í nordur, giördist þá ríd sva mikil sakir myrkurs [4]) ok frosts [5]), [at sialdan verda þvílíkar [6]), leid ei lángt ádr þeir vissu eigi hvar þeir fóro, [drógst þá lidit [7]) miök af kulda, bad Kolbeinn menn þá stíga af baki, ok taki menn glímur stórar ok viti ef mönnum hitnar [8]) vid þat, urdu þar sva miklar hrakníngar, at margir menn tyndu vapnum sínum ok fengu ei á haldit fyrir kulda, gèngo þá þegar nokkrir menn til heliar af, en margir meiddust til örkumbsla, tók þá heldr at birta vedrit, kènndust þeir þá vid at þeir voro kvamnir á vatn þat er Hólmavatn heitir, hóf þá hver annan á bak, fóro þeir þá til þess er þeir kvamo á Gilsbakka nokkro fyrir dag, var Kolbeinn þar um náttina, en um daginn eptir reid hann ofan í Reykiaholt med allan flokkinn, en þat af lidino, er ei var fært, lá eptir [í Sídunni [9]).

10. En er Þórdr kvam ofan í Reykiadal at Englandi, þá kvam í móti honum Þórdr Bearnason ok segir honum at Kolbeinn

1) mikilmennsku. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) lèt Kolbeinn telia lid sitt, bæta sömu vid.

3) ákafa-drífa. sömu.

4) fiúks. sömu.

5) ok annars ásálds, bæta vid *A. C. St.* Þ.

6) vantar í *A. C. St.* Þ. at sialdstundum verda slíkar. *B. E. Gr.*

7) tók þá lidit at dasast. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

8) ornar. sömu.

9) vantar í *A. C. St.* Þ.

var nordan kvaminn [med feölmenni [1]) ok sat þá í Reykiaholti. Ari hèt madr, hann beó þá at Lundi í Reykiadal hinum sydra, en Bödvar Þórdarson beó þá í Bæ, hann átti Herdísi Arnórsdóttur systur Kolbeins. [Bödvar var manni firnari Þórdi en brædrúngr [2]). Þórdr reid ofan eptir Reykiadal til Bæar [3]), ok beid þar til þess er flokkrinn kvam allr eptir, ok þá er menn varo saman kvamnir, leitadi hann ráds til hinna betri manna, hvat upp skyldi taka, lagdi þá nærsta sitt hver til, eggiudu þeir er árædamestir [4]) voro at rída skyldi at þeim Kolbeini í Reykiaholt, kölludu þar marga mundu vera lítt tilfæra at veriast fyrir kulda sakir, en allir hinir vitrari menn sögdu þat úrád, at sva fáir menn ridu at þar sem slíkt feölmenni væri fyrir, segia þá allskörugliga ridit þó at hann rídi vestr um, sva at hann ætti ekki vid þá, var þat ráds tekit. Reid Þórdr þá ofan eptir dal, ok ætladi yfir um á at Gufuskálum, ok sva vestr Lángavatnsdal. En er hann kvam ofan á Völlu, var sagt at ei væri hross-ís yfir ána, snèri þá flokkrinn allr ofan til Grófarvads [5]), ok er menn kvamo upp frá Þíngnesi, þá reid Þórdr á síki eitt, brast nidr ísinn undir hestinum ok var hverttveggia á kafi hestrinn ok hann, ok er hann kvam á land, var hann alvotr ok snèri ofan aptr til Þíngness ok sex menn med honum. Þá beó sá madr í Þíngnesi er Börkr hèt ok var Ormsson, hann tók vel vid Þórdi ok skipti vid hann klædum. Þar lètu þeir menn Þórdar eptir hesta nokkra, setti Börkr þá inn í hús hiá rossum sínum. Reid Börkr þá med Þórdi upp til Grófarvads, en er hann snèri ofan eptir, heyrdi hann til hverstveggia flokksins Þórdar ok Kolbeins. Þórdr reid til Stafaholts ok ádi þar, ok þadan út yfir Nordrá. I Svignaskardi setti hann eptir sex menn til njósnar, voro þat Dugfússynir [þrír, Sanda-Bárdr [6]), Þorsteinn Kollr Þorbergsson [7]) ok Þorgeir Stafsendi [8]), en Þórd Bearnason setti hann eptir í Eskiholti, ef Kolbeinn ridi hit nedra, en Þórdr reid út á

[1]) vantar í *A. C. St.* þ.

[2]) þeir voro syskinasynir Sighvatr fadir Þórdar ok Bödvar. *A. C. St.* þ.

[3]) Lundar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) ákafastir, sömu.

[5]) Grafarvads. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) þridji Sanda-Bárdr. sömu.

[7]) Þorbiarnarson. sömu.

[8]) Stafsendir. sömu.

Myrar med allan flokkinn ok var all-íll færd. En er Ari á Lundi vard var vid flokk Þórdar, tók hann hest sinn ok reid til Bæar sem hvatast, en er hann kvam í Bæ, var Bödvar í rekkio. Ari segir Bödvari at flokkr Þórdar ridi ofan eptir Reykiadal, ok bad hann gæta rossa sinna at þau yrdu ei tekin, en fyrir varo kvamnir menn Kolbeins Þorvaldr Keppr ok tveir menn adrir, en er þeir heyrdu hvat Ari segir, spruttu þeir upp ok ridu sem mest máttu þeir til Reykiaholts ok segia Kolbeini hvat títt var, hann bad hvern mann spretta í klædi sín ok rída eptir þeim sem hvatast, ok er þeir varo búnir, ridu þeir ofan eptir Reykiadal ok kvamo í Bæ, var Bödvar úti, ok spurdu þeir hann um ferdir Þórdar, hann kvedst ætla at fyrir laungu mundi hann vestr um ridinn. Ridu þeir Kolbeinn þá ofan á Völlu ok spurdu þat at Þórdr hefdi upp snúit til Grófarvads [1]), snúa þeir þá upp til Þíngness, var Börkr úti, spyria þeir hann at um ferdir Þórdar, hann kvedst ei vita þat hvert Þórdar menn voru edr adrir, kvad þar rída annan flokk at ödrum í alla nátt. Kolbeinn bad hann gánga á leid med þeim. En er Kolbeinn reid á brott, dvöldust þar eptir nokkrir menn hans [2]) ok fundu hesta í húsi einu þá er alvotir voro ok nyteknir undan södlum. Rido þeir þá eptir Kolbeini ok segia honum at þeir höfdu fundit hestana ok kvádu at þar mundu vera menn Þórdar nokkrir, reid Kolbeinn þá heim aptr á bæinn. [Einar Lángadiákn [3]) Jónsson [4]) reid at Berki ok setti spiótshalann midlum herda honum ok bad diöfulinn segia hvat hann vissi. Börkr kvadst ei vita hvat hann segdi honum, en ekki man ek þer fleira segia. Börkr hóf upp eggsina er hann hafdi í hendi ok laust til Einars, en Einar bar [fram hiá honum [5]) ok kvam höggit á lend hestinum. I því kvam at Hallr Jónsson ok kvad eingan mann skyldu Berki íllt giöra, hann var annar madr en Brandr Kolbeinsson mest virdr af Nordlendíngum. Var þá rannsakadr bær allr í Þíngnesi ok tekit fè þat er laust var innan gátta, en rænt hiá fram rossum öllum, ok vard þetta laung dvöl, ridu þeir Kolbeinn í brott, en Börkr kvadst

[1]) Grafarvads. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) ok könnudu húsin, bæta vid *A. C. St.* Þ.

[3]) Laugadiákn, *B. Gr.*

[4]) frá [: Einn madr. *A. C. St.* Þ.

[5]) af sèr, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

ætla at skamt mundi lída at þeir siálfir mundu verst una vid dvöl sína, [ok verr en hann vid fèlát sitt [1]). Kolbeinn reid nú í Stafaholt, þar fengo þeir sanna neósn af um ferdir Þórdar ok ridu þá eptir sem ákafast. Niósnarmenn Þórdar hverirtveggio siá er Kolbeinn kvam í Stafaholt, brugdu þeir þá vid, ok ridu fram eptir Þórdi, höfdu þeir Kolbeinn þá skeidridit eptir stígnum, dró þá saman skiótt, kæfdist þá hestrinn undir Þórdi Bearnasyni, en annar undir Kægil-Birni, giördu þeir þá ymist at þeir runnu edr rídu at baki þeim Svarthöfda ok Bárdi, en er þeir kvamo at Lángá, þá bar leiti á milli, þá lióp Svarthöfdi af baki ok bad bródur sinn á bak stíga, sèr ek at oss dugir ei lengr tvímenníng, en vid Þórdr Bearnason munum forda okkr sem verda má, Beörn kvadst aldrei mundu frá honum rída. Þeir Þórdr ok Svarthöfdi tóku þá skeid ofan eptir ánni, en þeir Beörn ridu fram eptir flokkinum Þórdar sem ákafast, en þeir Svarthöfdi ok Þórdr köstudu sèr í snæinn ok iusu á sik meöllinni. Þeir Kolbeinn sóttu þá sva fast fram at ekki var nær í milli þeirra. En er þeir Bárdr kvamo eptir, þá var Rafn Oddsson á halaferdinni, þeir bádu hann hvata eptir Þórdi ok segia honum hvat títt var, er hann hafdi hvíldar hest [2]), en er hann hitti Þórd, þá gèkk Þórdr ok leiddi hestinn eptir sèr. Rafn bad hann fara á bak, segir at Kolbeinn var þá náliga kvaminn á hæla þeim, en meiri van at þeir Svarthöfdi ok Þórdr sèo teknir. Eptir þat stè Þórdr á bak ok reid þá fram eptir skógargötunum þar til er klif var lítit, þar bar þá leiti í milli. Bad þá Þórdr alla sína menn af baki stíga, kvad þar vid skyldi nema ok laupa á þá, en þar vard sem vída annarsstadar, at flóttamönnum er ei hægt at hepta. En er Þórdr sá þetta, at þá leypti margr sá mest er ádr kvadst hafa þreyttan hest, sva at hvergi mátti gánga, þá bad hann (er því mátti ei áleidis kvama at nema þar vid) at fólkit skyldi ei sva geyst rída, ok sendi þá frá fram Gudmund Sorta ok baud at eigi skyldi brott rída af bænum í Alptartúngo. En er Þórdr kvam á bæinn, þá stè þar af baki alþyda, ok þá segir honum Ingialdr skáld [3]) Geirmundarson, ok kvad sèt vera hversu þá mundi fara,

[1]) ok kvad þetta lítit saka mundu, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) hvíldan hest. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) vantar í sömu.

nú flyr öll alþyda, segir hann, en hinir betri menn mano ei frá ydr rída, en ef þú bídr Kolbeins þá verdr þat þinn skadi ok þeirra manna er þèr fylgia. Stigu þeir þá á bak, tók þá ok sva at batna færdin at þá var allt skeidreidt. Þórdr bad þá menn fara í kyrkio, er þrotna höfdu hesta. Lupo þá í kyrkio nær þriátygi manna. Brú var á Alptá, ok var þar seinfært yfir, en er Þórdr kvam yfir ána, leypti sinn veg hver. Þórdr sendi menn fram eptir lidino, ok bad menn saman haldast hvat sem ígiördist, en því kvam ekki til leidar, vard þá ei fleira í reid med Þórdi en hans menn, ok voro þat sextygi manna. En er Þórdr var brott ridinn or Alptartúngo, þá kvam þegar flokkrinn Kolbeins, var þá sva nær farit, at þeir sem nordr höfdu snúit frá kyrkiunni ok fyrir húsin, nádu ei kyrkiunni, þá er þeir snèro aptr, voro þá vegnir tveir menn í kyrkiogardinum Sigmundr Hallsson ok Torfi Þorgeirsson. Gèngu þeir Kolbeins menn þá til kyrkiodura, og ransökudu hvat manna þar væri inni, í því bili kvam Kolbeinn, ok kvad þá úvitrliga giöra, lágu þar ok giördu ekki þat er framkvæmd væri í, ok Þórd bæri undan ok alla þá er nokkut mannsmót væri at. Setti hann þá þar eptir er úfærir voro. Sídan tóko þeir eptirreid sem ákafast, en er þeir kvamo at Alptá, vard þeim ei þar greidfært yfir, þvíat Þórdr hafdi látit afdraga brúna, þá vard þeim Kolbeini allt saman mikil dvöl. Þórdr snèri nú út eptir Myrum, ok er hann kvam yfir Hítará, þá stè Teitr Styrmisson af baki ok Kolbeinn Grön [ok enn fleiri menn [1]) ok vötnudu hestum sínum er vatn fèll á ísinum. Þá ridu Kolbeins menn sunnan at ánni, ok er þeir Teitr stukku upp af ánni, þá snèri Þórdr aptr, en Kolbeins menn snero þá aptr undan, því at þar voro fáir eptirkvamnir. Teitr bad þá menn skunda á bak, kvádu þetta ei vera annat en dvöl þeirra, reid þá hver undan sem mátti, en Þórdr reid um daginn jafnan sídast, ok vildi hann aldrei sva mikit rída sem alþydunni var í hug, töludu þá sumir vid hann, en sumir keyrdu hestinn undir honum, bar þá enn undan. Kolbeins menn tóko þá driúgum menn af Þórdi er hestana þraut, voru þeir allir flettir, en á sumum unnit. En er Þórdr reid út á vadlana, þá sá þeir Kolbeinsmenn at undan

[1]) vantar í *A. C. St. Þ.*

mundi bera ok hurfo þá aptr. Þórdr reid í Miklaholt ok dvaldist þar um ríd. Þar bió þá Gudmundr Oláfsson, hann var mikill vin Sturlúnga, fysti hann Þórd sem fyrst brottreidar, reid Þórdr þadan vestr Kèrlíngarskard ok sva til Helgafells, fèkk Þórdr sèr þar skip ok fór út í Fagrey, en hestana lèt hann reka hit ytra [1]), kvam hann þar laugardaginn fyrir hádegi, þat var hinn nærsta dag fyrir Andreasmesso, þótti þat öllum mikil furda ok varla dæmi til finnast at menn hefdu ridit hinum sömo hestum í einni reid af Þíngvelli ok til Helgafells í sva miklum úfærdum sem þá varo. Þórdr reid fimtadaginn [um hádegi [2]) af Þíngvelli, en kvam [til Helgafells [3]) föstunáttina er stiarna var í austri, þóttust þá allir þegar vita at Þórd mundi til nokkurra [stórra luta [4]) undan rekit hafa. Kolbeinn reid í Alptatúngu med allan flokkinn ok var þar um náttina, en um myrgininn eptir voru menn leiddir or kyrkiu, var þá höggvin hönd af þeim manni er Þorhallr hèt ok var Oddleifsson, annar madr hèt Naddr er enn var handhöggvinn, hann hafdi ridit nordan med Teiti Styrmissyni, fengu þá allir adrir menn lífsgrid ok lima, en voro flettir vapnum ok hestum, reid Kolbeinn eptir þat í Hítárdal, ok var honum sagt þar allt hit sanna um ferdir Þórdar.

11. Nú er at segia frá þeim Svarthöfda ok Þórdi Biarnasyni, er þeir lágu í fönninni, þar til er flokkr Kolbeins var umfram ridinn, stódu þeir þá upp ok gèngu til bæa ok fengo sèr hesta, ridu þeir í Stafaholt ok drápu á kyrkiodur, Dugfús karl gèkk til dura ok fagnar vel syni sínum, ok spurdi hvert hann vissi at Oláfr Kámi [5]) var þar med þriátygi manna, þeir Svarthöfdi lupu þá þegar á hesta ok ridu í brott, þá spurdi Svarthöfdi Þórd: hvar veizto bæ þann er kvaminn sè frá almannaveg? Þórdr svarar: Bær heitir í skóginum [6]) er vid skulum til rída. En er þeir kvamo þar, þá fóru þeir í badstofu ok afklæddust, en er þeir höfdu litla ríd sofit, þá var þeim sagt, at Kolbeinsmenn ridu at gardi, lupu þeir Svart-

[1]) idra, *A C. St.* Þ. innra, *B. E. Gr.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) vantar í sömu.
[4]) stórtídinda, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) Korni, sömu.
[6]) Skógum, sömu.

höfdi þá upp ok skuto inn bryniunum ok stálhúfunum í ofninn, en þeir lupu út, skildi þá med þeim, lióp Þórdr í skóg, en Svarthöfdi til hestanna, reid hann þá undan sem ákafast, en þeir eptir ok kvíudu hann fram á hamar nokkurn, hann hratt þar fram af hestinum ok lióp þar siálfr eptir [1], en hverki sakadi hann nè hestinn, þvíat mikill lausasnær var borinn undir hamarinn, en eingi þeirra vildi þar eptir fara, ridu Kolbeins menn þá leid sína. Svarthöfdi fór heim á bæinn til vapna sinna ok reid þadan vestr til Saudafells. Sídan fór hann út í Fagrey til Þórdar. Þórdr Bearnason fór heim í Eskiholt. Kolbeinn Arnórsson hvarf aptr í Hítárdal ok reid nordr Holtavörduheidi ok sva heim á Flugomyri, ok lèt hafa setu einhveria iamnan. Þann vetur lèt hann miök feölmenna í ymsum stödum, þar er honum þótti best fallit. Þórarinn hèt madr ok var kalladr Ballti, hann setti Kolbeinn til neósnar í Midfirdi, dróg hann at sèr marga illhræsínga [2]) ok hafdi setu at Osi, giördist hann hinn úvinsælasti, ræuti hann hvern mann þann er honum var í nánd.

12. Þórdr Sighvatsson var í Fagrey nær til ióla fram [3]), fór hann þadan inn til Ballarár. Þá beó þar Bárdr Hiörleifsson [4]), hann átti Valgèrdi Sighvatsdóttur systur Þórdar. Þórdr fèkk þar gódar vidtökur, bádu þau hann þar [fyrir öllu siá [5]) sem hann ætti, lèt Þórdr þar eptir suma menn sína, en hann fór siálfr til Búdardals ok sat þar um iólin. [Þar beó þá Þorbeörn Ingimundarson [6]). A ofanverdum iólum rídr Sturla Þórdarson til fundar vid Þórd, ridu þeir þá út í Dögurdarnes, kvam Bödvar Þórdarson þar til móts vid þá, leitadi Þórdr á vid Bödvar um lidveizlo, en Bödvar segir, sem satt var, at honum var mikill vandi á vid hveriatveggio þeirra Kolbeins, þvíat hann átti Sigrídi Arnórsdóttur systur Kolbeins, kvedst Bödvar vilia fyrst umleita, ef nokkrum sættum mætti á kvama med þeim Kolbeini. Var þat þá ráds tekit, at

1) þat var hár hamar, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

2) illhrissínga. *A. C. St. Þ.* illhreysínga. *B. E. Gr.*

3) föstu. *A. C. St. Þ.*

4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

5) einn öllu ráda. sömu.

6) vantar í *C. St.*

Bödvar reid nordr, ok var ádr skorat at hverium [1]) Þórdr vildi gánga, en Þórdr fór vestr yfir Breidafiörd [2]) til Bardastrandar ok þadan vestr á Sand, fór þá enn ei allmargliga [3]) med þeim Gísla. Þadan fór Þórdr í Selárdal, þar beó þá gódr madr ok göfugr Tómás prestr Þórarinsson [4]), hann átti Höllu dóttur Þórdar Sturlusonar, þau voro börn þeirra: Þórarinn hèt hinn ellsti son þeirra, annar Krákr, þridi Audun [5]), Snörtr hèt hinn yngsti, [þeir voro allir mannvænir [6]). [Dóttir Tómásar hèt Gudrún, önnur Ragnheidr, þridia Gudfinna, fiórda Gudrídr, fimta Halldóra [7]). Fór Þórdr þadan nordr á Sanda ok var þar um vetrinn, ok var þá allt tídindalaust. A öndverdri lángaföstu [8]) kvam ordsendíng Bödvars Þórdarsonar til Þórdar, at hann skyldi kvama til móts vid hann til Helgafells, brást þá Þórdr skiótt vid ok fór nordr til Isafiardar, sendi hann þá Asbeörn Gudmundarson til móts vid Atla Hiálmsson, ok beiddi at Atli skyldi kvama á hans fund ok giörast hans madr, ella bad hann Asbeörn at siá þat rád fyrir Atla, at Þórdi yrdi ei mein at honum. En er Asbeörn kvam í Grunnavík, bar hann upp eyrindi sitt vid Atla, en Atli kvadst vilia sitia kyrr hiá málum þeirra Kolbeins, kvadst eiga Kolbeini gott at launa. Asbeörn kvad hann ei mundu sva hiá sitia [9]) málunum at eiga ekki vid Þórd, en vera vin Kolbeins, fèkk Asbeörn ekki af Atla. Fannst þat á Þórdi er þeir Asbeörn fundust, at honum þótti lítit eyrindi Asbearnar ordit hafa. Fór Þórdr þá sudr til Saurbæar ok þadan í Dögurdarnes, sva sudr um fiörd til Helgafells, var Bödvar þar kvaminn, þótti Þórdi Bödvar allt hafa þar mælast látit, ok vildi eingar þær sættir sem Kolbeinn baud honum, segir Þórdr, at þat mundi uppkvama um hans mál sem audit yrdi, en aldrei kvadst hann gánga mundi at þeim sættum, er dugandi mönnum þætti honum ei sæmd í at taka eptir frændr sína. Fór Þórdr þá vestr í feördu ok heim á Sanda, var hann þá þar fram

1) kostum, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) í Fiördu, sömu.
3) varliga. *A. C. St.* þ.
4) Þorgrímsson. *St.*
5) Ari. *A. C. St.* þ.
6) vantar í sömu.
7) Hann átti ok fimm dætur, sömu.
8) iólaföstu. *B. E. Gr.*
9) sneida, sömu.

um páska, um varit fór Þórdr á gagndögum sudr um dali, var honum þá mikit sagt af uppgángi [1]) Þórarins Ballta ok úspektum, ætladi Þórdr þá at fara at honum ok kvamst ei lengra en á Dönustadi, bar þat þá vid um ferdina at Þórdr fèkk [lítinn hestakost [2]), hvarf hann þá vestr í feördu, en setti eptir Kægil-Beörn ok Þorgeir Stafsenda [3]). Hákon hèt madr, hann var Bótúlfsson, norrænn madr at födurætt [4]), hann var kèrtissveinn Skúla hertoga, hann kvam út med Urækio Snorrasyni, hann var nú heimamadr Þórdar, Almar Þorkèlsson var þá ok heimamadr Þórdar, þessa menn setti hann eptir í Dölum, ok bad þá rída at Þórarni ok drepa hann þegar er hann dreifdi setunni. Alls varo þeir tíu saman. Asbeörn Gudmundarson sendi hann nordr til Steingrímsfiardar ok þá tuttugu saman, bad hann Asbeörn taka öll hin stærri skip í Steingrímsfirdi ok á Ströndum ok flytia vestr á Dyrafiörd, hafdi Þórdr þá nokkurn pata [5]) af at Kolbeinn mundi fara skipaleid nordan ok eyda sva Vestfeördu. En er Þórdr var vestr kvaminn, þá fór hann fyrst á Sanda, gaf hann þá Bárdi Svefneyar, er tóko hálfan fimta tug hundrada, ok enn giördi hann Bárdi fleiri sæmdir. Um fardaga fór Þórdr á Myrar, þar beó þá Bearni Brandsson, leitadi þá Þórdr eptir vid Bearna, at hann vildi taka þar vid búinu [6]), Bearni lèt þat uppi, var hann med Þórdi um vetrinn ok allt lid hans.

13. En millum þíngs ok fardaga fóro þeir Beörn ok Hákon nordr til Midfiardar. Þórarinn beó þá á Bretalæk [7]), þeir kvamo þar árdegis ádr menn voru uppstadnir, gèngo inn þegar med brugdnum vapnum, Þórarinn spratt upp ok fèkk eitt sverd vapna ok vardist bædi vel ok lengi, þar fèll hann. Þeir ræntu því er laust var. Þar fengo þeir neósn af at Kolbeinn lèt draga saman feölmenni allt slíkt er hann fèkk ok sva stórskip, setti hann þá Brodda mág sinn höfdíngia yfir skipalidinu, skipti hann þá lidino

[1]) yfirgángi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) hvörki hesta nè kost. sömu.
[3]) Stafsendir. *B. C. Gr. St.* Þ.
[4]) ætt. *A. C. St.* Þ.
[5]) grun. *A. C. St.* Þ.
[6]) búum. *B. E. Gr.*
[7]) Brattalæk. *A. C. St.* Þ. Bratalæk. *B. E. Gr.*

í tvo stadi, en hann ætladi siálfr at fara landveg, var þat þá eitt í ordi at eyda Vestfeördu, sva Þórdr mætti þar ei heldr fridland hafa en annarsstadar á Islandi. Þeir Beörn fara nú vestr í Dali ok sendu Þorgeir Stafsenda til móts vid Þórd. Þorgeir fann Þórd á Myrum ok segir honum víg Þórarins ok slíka fyrirætlan Kolbeins er þeir höfdu frètt. Þórdr reid heiman þat sama kveld ok ætladi til Isafiardar at draga saman menn ok skip.

14. Asbeörn Gudmundarson fór til Steingrímsfiardar, sem vær gátum fyrr, tók hann ferio á Heydalsá, fór hann þadan nordr fyrir Strandir allt til Trèkyllisvíkur, þar sömnudust saman Strandamenn ok vildu veria skip sín ok önnur faung, lèto þeir þá Asbeörn ei ná á land at gánga, ok var þá griótflaug [1]) ok skotit spiótum ok því öllu er laust var, en er þeir höfdo barizt skamma ríd, fengo Strandamenn [af verra [2]) ok gáfust upp, tóko þeir Asbeörn feriona Trèkyllinn ok annat skip gott er Hrífngaskúta var köllud ok allt þat er þeir þóttust þurfa. Fór Asbeörn þadan ok nordr til Dránga, þar beó þá Gunnlögr smidr Þorvaldsson, hann átti tvo sonu röskna [3]), hèt annar Audun, en annar Þorvaldr, þeir voro vaskligr menn ok þiódhagir. Asbirni þótti þeir verit hafa í úþykkt vid sik, en hinir mesto vinir Kolbeins. Asbeörn lèt taka þá báda brædr ok handhöggva hverntveggia þeirra, kvad þá nú skyldu med eingar neósnir laupa á fund Kolbeins. Fóro þeir Asbeörn þadan nordr til Horns, þar lèt hann særa til úlífis einleypíng [4]) þann er Þóroddr hèt [ok var kalladr Kuggi [5]), var þar ok enn ei til saka annat, en hann vildi ei laus láta vapn sín fyrir þeim Asbirni, tók hann þá öll þau skip er nokkur vöxtr var at, fór hann þá vestr til Isafiardar. Atli Hiálmsson hafdi farit nordr á Strandir eptir hval Þórdísar Snorradóttur, hún beó þá í Ædey. Atli fór nordan [6]) nokkut fyrr en Gèstirnir, ok visso þá hverir til annara. Atli kvam í Ædey med farminn, ok litlu sídar kvam Asbeörn í Ædey, kvaddi hann þá Atla til ferdar med sèr til móts vid Þórd. Atli kvedst

[1]) griótalög. *A. C. St. Þ.*
[2]) áverka. *B. Gr.* afverka. *E.*
[3]) röskva. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) umhleypíng. *B. E. Gr.*
[5]) vantar í *A. C. St. Þ.*
[6]) nordr. *A. B. C. E. Gr. St.*

fyrr vilia fara heim [1]) eptir vapnum sínum ok klædum. Asbeörn segir hann mundi vilia fara til lids vid Kolbein, en vera í móti Þórdi, skaltu nú ekki sva lausum hala um veifast, ok bad sína menn höndla hann. Þórdís Snorradóttir ok Bárdr Heörleifsson vildu veita Atla ok hèllt þá madr á manni, baud Atli fyrir sik slíkt er hann mátti, en Asbeörn kvad hann þá deya skyldu, var Atli þá veginn, hèt sá madr Skèggi er at honum va, líkadi Þórdísi þetta verk verr en ílla. Fóru þeir Asbeörn þá til Þernuvíkur, ok var Þormódr bródir Atla ei heima, var þeim sagt at Þormódr væri at seli síno, kunno þá ei heimamenn at varast, fyrir því at eingi vissi Þormódi ótta van. Þeir Asbeörn fóru til selsins, gèkk Þormódr út, var hann þegar handtekinn, hann spurdi med hverio móti [ferd þeirra skyldi vera [2])? Asbeörn kvad hann þat brátt vita mundu ok segir honum þá víg Atla bródur síns. Þormódr spurdi ef nokkra luti skyldi tiá at bióda til lífs sèr? Asbeörn kvad hann þá ekki mundu því vidkvama, þvíat drepinn var ádr bródir hans, ok kalladi hann aldrei trúan mundu verda. Þormódr kvad yfirbætur liggia til alls. Asbeörn kvad þá ekki mundu tiá skreidíng. Þormódr skriptadist ok beóst vid dauda sínum, Þormódr lagdist eptir þat nidr, en sá madr hèt Atli [3]) er hann va ok var Hallsson. Eptir víg Þormódar fóru þeir Asbeörn til skipa sinna ok sigldu út eptir Isafirdi. Þetta hit sama kveld kvam Þórdr Sighvatsson í Arnardal í Skutilsfirdi, kvam þá til hans Sigmundr Gunnarsson ok nokkrir Þverfiardamenn, um kveldit sendi Þórdr menn á hestvörd fram á Arnarnes, ok er þeir höfdu skamma stund verit á nesino, þá sá þeir at siö [4]) skip sigldu innan eptir Isafirdi, ridu þeir heim sem skiótast, spruttu menn í klædi sín ok gèngu ofan til siáfar, var þá umræda mikil hvada skipum þetta mundi vera, var flestra manna ætlan, at vera mundo skip þeirra Kolbeinsmanna, bad Þórdr menn laupa ofan á skèrin ok veria þeim landgaungo, en er skipin kvamo at landi, þá kèndust menn, gèkk Asbeörn þá á land ok þeir sveitúngar, segir hann þá allt slíkt er

[1]) nordr, bæta vid *A, B, C, E, Gr, St.* Þ.

[2]) fari Þèr? sömu,

[3]) Ali. *B. C Gr. St* Þ.

[4]) fiögur. *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

í hafdi giörzt þeirra ferd, þóttust þat allir finna á Þórdi, at honum líkudu þessi verk lítt, tók ok alþyda ílla á. Litlo sídar um myrgininn [1]) kvam Eyúlfr Eyúlfsson, segir hann þá at hann hefdi var ordit vid skip þeirra Kolbeins manna á Hornströndum. Þórdr giördi þá sína menn alla vega frá sèr til lidsafnadar, en setti neósn fyrir þá Kolbeinsmenn, at hann yrdi var þann tíma er þeir kvæmo, stefndi hann öllum skipum ok mönnum saman á Slèttanesi í Selvagum, kvamo þá saman þriátygi [2]) skip ok þriú alskipud mönnum, heimti þá Þórdr saman hina besto menn ok leitadi ráds vid þá, hvat til ráds skyldi taka, spurdist þá ok at þeir Broddi ok Hafur Biarnasynir varo kvamnir undir Ædey átta skipum, var Þórdi þá mest um at leggia nordr til móts vid þá. Teiti Styrmissyni ok Svarthöfda var meira um at leita sudr á Breidafiörd, segia þar allt í vinnast, ef Kolbeinn nædist, kvádo nordr frá ei mundu vera nema búkarla ok fiskimenn ok þá er ekki mannsmót væri at, segiá ok, sem satt var, at sudr væro allir fylgdarmenn Þórdar, þeir er fræknastir varo, var þat þá ráds tekit, at Þórdr hèllt sudr öllu lidi síno til Breidafiardar.

15. Nú er þar til máls at taka, er Kolbeinn Arnórsson hafdi sent þá Brodda til Vestfiarda, en um vetrinn ádr hafdi hann sent mann sudr til Þóru Gudmundardóttur módur Gissurar, voru þeir fyrir þeirri ferd Einar Jónsson ok Höskuldr Gunnarsson [3]), þess eyrindis at þeir tóku hernadarsök af Þóru Gudmundardóttur á hendr Þórdi ok fiórtán mönnum ödrum. Ridu þeir Einar ok Höskuldr til þings med þessi mál, Kolbeinn reid upp á þingit at dómum, kvam þar Hialti biskupsson til móts vid hann, vard Þórdr sekr ok þeir menn allir fiórtán, Teitr Styrmisson, Rafn Oddsson, Dugfússynir fiórir, Eyúlfr Eyúlfsson, Rafn Sveinbearnarson, Hákon Galinn, Þorsteinn Þorbergsson [4]), var þetta ílla ræmt af alþydu, þótti öllum í þessu synast hinn mesti ákafi, ok kölludu þeir Þórdr þetta flautasekt, fyrir því at þeir höfdo náttverd einn í Túngu ok

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) tuttugu, sömu.

[3]) Einarsson. *E.*

[4]) Þorbiarnarson ok fleiri adrir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

höfdu flautir einar. Eptir þat rídr Kolbeinn Arnórsson, Hialti biskupsson ok Ormr Bearnarson af þíngi vestr til Breidafiardardala ok höfdu nær sex hundrud manna. Sturla Þórdarson var þá í Sælíngsdalstúngo, Kolbeinn sendi þángat sína menn ok bad þá drepa Sturlu, hann fèkk neósn ok reid undan vestr til Saurbæar, en er Kolbeins menn kvamo í Túngu, var Sturlu leitat med brugdnum vapnum um öll hús ok sva í kyrkio, var þá rænt því er laust var, reid Kolbeinn þá med allan flokkinn vestr til Saurbæar, en Sturla fèkk sèr skip í Tialdanesi [1]) ok fór þadan út til Krosssunds, kvamo þar til móts vid hann Dugfússynir ok Hákon Galinn ok þeir heimamenn Þórdar, er sudr þar höfdu verit, ridu þeir Kolbeinsmenn þá ok ofan eptir Lángey at sundino, ok er þeir fundust, skorti þar ei íllt ordtak er hverir völdu ödrum. [2]) Reru þeir Sturla þá brott frá sundinu, skildu þeir Sturla þar ok Dugfússynir, skyldu þeir [3]) þá fara sudr um feörd í lidsafnad. Kolbeinn Dugfússon ok Hákon Galinn rèro [4]) inn til [5]) Billdseyar ok vildu vita hvat títt væri um hesta sína, höfdu þeir þá ok frètt af at Kolbeinsmenn höfdu fengit skip nokkur, en Beörn Kægill ok Jón Arnason voru í Tialdanesi ok rero inn til Akureya, ok atladu at taka skip þau er þar voru, en er þeir kvamo fyrir lendínguna, þá sá þeir menn laupa med vapnum uppi um eyuna ok upp um Kyrauga, þeir kèndu at þar vóru kvamnir Nordlendíngar, ok lnpu þeir þegar á land, vóru þeir miök sva iafnmargir. Þar var fyrir þeim Ottar bródurson Gudmundar biskups. Þeir Ottar lupu þegar á borg eina, en þeir Beörn sótto at þeim ok bádu þá uppgèfast, gáfu þeir Ottar þá upp vapn sín ok gèngu þeim til handa ok fóro med þeim Birni, rèro þeir þá til Fagureyar. Nú er þeir Kolbeinn ok Hákon kvamo í Billdseyo, vóru þar menn fyrir ok höfdu bundit hesta þeirra ok ætludu þá at leggia þá á skip, lupu þeir Hákon þegar upp á eyna. Þar var fyrir Jón Oddason [er kalladr var Skèggbarn [6]) ok þeir níu saman, stukku þeir upp frá siónum ok

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) Ridu Kolbeinsmenn í fiöruna, bæta sömu vid.

[3]) skyldi hann. sömu.

[4]) ridu. *St.*

[5]) Ballarár ok þá sudr til, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í *A. C. St.* Þ.

á borg eina ok bioggust til varnar, en þeir Kolbeinn ok Hákon hèldu eptir þeim, ok þegar er þeir Kolbeinn kvamo at borginni, hlióp Kolbeinn upp ok tók Jón höndum, ok fèllo þar bádir saman ofan fyrir borgina, var þá þegar unnit á Jóni. Hákon Bótúlfsson greip af honum stálhúfuna ok laust í höfudit, ok var þat högg sva mikit at Jón leiddi til bana fám dögum sídar, eptir þat vóru þeir allir handteknir ok flettir, ok höfdu þeir Kolbeinn þá heim med sèr til Fagureyar. Ekki vard af mannsafni Sturlo, ok urdu [1]) þeir illa vid þat, hafdi hann verit kyrr medan í Fagurey ok hafzt ekki at, fengu þeir þá nióśn af at lid Kolbeins var nokkut kvamit í Arney ok höfdu þeir eitt skip. Tók Sturla þá þat rád, at giöra mann vestr í móti Þórdi, ok bad at hann skyldi hvata sudr sem mest, en hann seálfr ok Dugfússynir rero inn til Arneyarsunds fiórum skipum ok ætludu at veria Kolbeins mönnum landit [2]) þar til er Þórdr kvæmi vestan, var þar sva tilfarit, at þröskuldr [3]) lá í sundino, en diúpt at tvo vega, var þar ridit [4]) at feörum, en ei flódum. En er þeir Sturla kvamo at sundino, lögdu þeir skipum tveim meginn hiá þröskuldinum ok ætladu inn at gryta á þá, sva at þeir nædo ei utan at rída, en er feara tók, herdu þeir Kolbeinsmenn á ok ridu utan á þröskuldinn, tók þá at miófka sundit, ok mátti þá gryta á skipamenn or bádum eyunum, hrukko þeir Sturla þá or sundino, en Kolbeinsmenn ridu inn í Lángey, ok fluttust þeir þá þegar inn yfir Krosssund. Eptir þat ridu þeir þegar inn um Medalfellsströnd ok sva inn til Dala, en Sturla fór heim í Fagurey. Sendimadr Sturlu mætti Þórdi í Flateyo ok segir Þórdi hvat títt var sudr þar. Þórdr bad sína menn ferma hvert skip af greóti, tók hann þá heit mikit til guds ok taladi lángt [5]) ok herdi alla í ákafa, ef fundum manna bæri saman, at hver skyldi duga sem mannligast. Eptir þat gèngo menn á skip sín, var þá bædi giört, siglt ok róit sudr um flóana, en er skipin sóttu sudr undir eyarnar, þá sá þeir Kolbeinn Arnórsson ok þóttust þegar vita, at þat mundi vera lid Þórdar. Þeir Þórdr fundo einn bát sem fiskimenn

[1]) undu. *A. C. St.* þ.

[2]) sundit. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) þrepskiöldr. *C. St.* þverskiöldr. *B. E. Gr.*

[4]) reidt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) eyrindi ok sniallt, bæta sömu vid.

vóru á, ok segia þeir slíkt er í hafdi giörzt med þeim Sturlu ok Kolbeins mönnum, hèllt Þórdr þá út til Fagureyar, ok fundust þeir Sturla þar. Var þat þá ráds tekit, at Teitr Styrmisson var sendr sudr til Bödvars at beida hann lídveizlo, en þeir Þórdr ok Sturla hèldu skipum sínum inn til Hólmsláturs, skyldi Bödvar ok þeir Teitr þar kvama til móts vid þá. Kvamo þeir Bödvar ok Teitr at ákvedinni stundu, fór þá sem fyrr, at Bödvar vildi ei veita Þórdi móti Kolbeini. Þá Þórdr þá um ríd undir Hólmslátrseyu med þriátygi skipa, ok hafdi þá á fiórda hundradi manna. En frá þeim Kolbeini er þat at segia, at þeir ridu inn í Hvammssveit ok sva yfir í Laxárdal, tóko þá at heria, meida menn, en ræna fè, ráku menn þá bú [1]) sitt á feöll ok fordudu sèr, sva ok fèi síno. Tosti hèt madr, hann var fylgdarmadr Hialta biskupssonar, hann reid upp á hálsana fyrir sunnan Laxárdal at leita fararskeóta manna ok þeir þrír saman. Þeir sá hvar undan þeim varo rekin naut ok ross ok varo med þrír menn, vóru þeir allir slippir, sá madr hèt Ingúlfr er fèit rak, hann var mikill madr ok sterkr, hann sá at þeir mundu hvergi undan kvamast, ok bad at þeir skyldu renna á þá, þegar þeir mætto. En er þeir Tosti kvamo eptir, þá bádu þeir þá Ingúlf laus láta faungin, en Ingúlfr kvad þat ei mundu at úreyndu, ok rann hann þegar á Tosta, en fèlagar þeirra sóttust [2]) í annan stad. Hvertveggi þeirra Tosta ok Ingúlfs var sterkr madr, fór þá sva med þeim at Tosti fèll, greip Ingúlfr þá medalkaflann á sverdino, því er Tosti var girdr med, ok hió þá undan Tosta fótinn þar er kálfi var digrastr, en annan í ristarlidnum í einu högginо. Eptir þat flettu þeir þá alla vapnunum ok hestunum, en fèlagar Tosta fluttu hann til húss ok segia Hialta at Tosti hefdi fengit áverka. Þeir Hialti sá þá hvar tveir menn slógo á eingiteigi, lèt Hialti þá taka, [hèt annar Aslákr, en annar Arni [3]), þeir vóro gamlir menn ok heilsu-litlir, [ok höfdu því ei fordat sèr [4]). Hialti lèt hverntveggia þeirra fóthöggva, ok mæltust þau verk ílla fyrir. Þá lèt Hialti enn brióta fótleggi í tveim mönnum í Laxárdal, eptir þat reid hann heim sudr, en Kol-

[1]) fè. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) tókust vid. sömu.
[3]) vantar í *A. C. St.* Þ.
[4]) vantar í sömu.

beinn nordr til Skagafiardar. En er Þórdr spurdi þetta, þá sigldi hann vestr til Bardastrandar, gèkk hann þá af skipum, en lèt menn fara med skipin hit ytra. Spurdi Þórdr at þeir Broddi ok Hafur höfdu haldit skipunum nordr um Isafiörd ok höfdu giört þar ádr nokkurt hervirki, en drepit eingan mann. Fór Þórdr þá heim til Myra ok allir menn til búa sinna, var hann þá heima um ríd, var nú aflátit at leita um sættir, þótti þá synt, at annarhver þeirra Kolbeins mundi hníga fyrir ödrum.

16. Þenna vetur hafdi Tumi Sighvatsson verit í Skálaholti med Sigvardi biskupi, sem fyrr var sagt, en eptir þíng, er þeir Hialti voru sudr kvamnir, reid Tumi leyniliga sunnan med þrim mönnum, ok fór hann þá vestr til Flateyar til fundar vid Teit Styrmisson, var þat þá rádit, at þeir Tumi ok Teitr skyldu þar eiga bú bádir saman. En er Tumi hafdi þar skamma ríd verit, þá hófu þeir ferd sína sudr til Dala ok vóru tólf [1]) saman, vóru þar Dugfússynir Beörn ok Kolbeinn. Þadan fóru þeir sudr til Borgarfiardar, ok þá sudr Gagnheidi, þar til er þeir kvamo á bæ þann er at Ölvisvatni heitir, þar beó sá madr er Símon hèt ok var kalladr Knútr, hafdi hann frá blauto barnsbeini verit fylgdarmadr Gissors Þorvaldssonar, hann var á Örlygsstadafundi med Gissori, [var einn manna tillaga verstr vid Sturlúnga [2]), hann var ok í Reykiaholti at vígi Snorra Sturlusonar, vóru honum þar eignadir áverkar vid hann. Med honum var ok sá madr er Þorsteinn hèt ok var Gudnason [3]), honum var ok eignat banasár Snorra. Þeir Tumi tóku bæinn ok ransökudu þegar ok fundu Símon í badstofu, ok hafdi hann þar giört reyk, var hann útleiddr ok höggvinn, sá madr va at honum er Gunnar hèt [ok var Hallsson [4]), hann var kalladr Nautatík [5]). Þeir spurdu at Þorsteinn var í seli, þángat reid Beörn Dugfússon ok þeir fimm saman, þeir tóku Þorstein höndum, ok spurdi Beörn hver höggva vildi af honum höndina [6]). Sigurdr hèt madr [er kalladr var Vegglágr [7]), hann var norrænn

1) siö. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) vantar í sömu.
3) Gudinason. *B. E. Gr.* kiósverskr madr, bæta vid *A. C. E. St.* þ. krosverkr madr. *B. Gr.*
4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) Nautarik. *E.*
6) hendurnar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) Veglángr. *B. E. Gr.* frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

ok hafdi verit kèrtissveinn Skúla hertoga, hann fór út híngat med Snorra ok var þá í Reykiaholti er Snorri var veginn, hann bad fá sèr eggsina, segir sèr þat þá í hug, er þeir drápu húsbónda hans, at hann skyldi giöra einhverium þeirra illt er þar stódu yfir, ef hann kvæmist í betra færi um. Þorsteinn rètti fram hendina vinstri, Beörn bad hann hina hægri framrètta, kvad hann med þeirri mundu á Snorra hafa unnit frænda hans, enda skal sú af fara. Eptir þat heó Sigurdr hönd af Þorsteini, giördu þeir ei fyrir þat meira at, at Þorstein mæddi blódrás, eptir þat ræntu þeir rossum ok lausafè, ok sídan rídu þeir vestr yfir heidi ok sva til Dala, ok fóru þadan heim í Flatey.

17. Þat var Oláfsmessodag at Þórdr Sighvatsson spurdi þessi tídindi, er nú var frásagt, ok skipkvamo í Dögurdarnesi, því skipi styrdi Eyvindr [1]) Bráttr son Eyvindar Skalla [2]). Þórdr fór þegar sudr yfir Breidafiörd vid heimamenn sína ok var nokkrar nætr vid skip í Dögurdarnesi, kvamo þá menn nordan or sveitum ok segia honum öll tídindi er hann frètti [3]), sva ok þat Kolbeinn var heima ok allt kyrrligt, frètti hann þá at allir menn sáto heima vestr frá Skagafirdi hver at síno búi. Sídan sendi hann þá Nikolás ok Rafn Oddsson sudr til Dala at safna þar hestum sem leyniligast, en hann giördi þat yfirbragd fyrir alþydo at hann mundi fara vestr í feördu. En er hann kvam sudr á Eyri [4]), þá lysti hann því fyrir heimamönnum sínum at hann mundi snúa inn til Dala ok þadan nordr á sveitir, sva sem honum þætti sèr fært vera lengst. Snorri Þórálfsson er út kvam med Þórdi ok fyrr var gètit, hann var nordlenzkr at ætt, vóru þeir náfrændr hans Mördr hinn sterki ok Asbeörn Illhugason ok margir adrir Nordlendíngar, hann svarar þessu máli fyrst, at hann vildi fara þessa ferd med Þórdi, ef hann skyldi ná at ráda gridum fyrir frændr sína, en Þórdr kvedst eingum manni mundu gridum heita, medan hann hefdi [eingra manna [5]) vald, en segir þá mundu ei hans ord stoda, ef hann væri hvergi

[1]) Önundr. *B. Gr.*

[2]) Skafla. *C. St.*

[3]) þeir frèttu. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[4]) í Eyar. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) ei meira. sömu.

nærri. Snorri var þá enn hinn stærsti [1]) ok kvedst því at einu mundu fara, ef honum væri ádr þessu heitit, skildu þeir vid þat at Snorri fór vestr í Fiördu, en Þórdr fór leid sína sudr til Skógastrandar ok sva inn til Dala. Fann Þórdr menn sína alla laugardaginn [2]) vid Haukadalsá, ridu þeir þá um kveldit [manni minnr en hálfr sètti tugr [3]) súdr um Bröttobrekko ok sudr yfir Kálfshóls [4]) um náttina ok sva upp eptir Kiarradal, ok kvamo fram drottins myrgin í sólarrod [5]) til Fleótstúngo, sva at eingi madr vard var vid reid þeirra um hèradit, ridu þeir drottinsdags kveldit á Arnarvatnsheidi. Annan dag viku var Laurentíusmessa, þá skyldi vera mannamót feölmennt at Giliá, kvamo þar til Midfirdíngar ok Lángdælir ok Vatnsdælir ok alþyda fyrir vestan Skagafiörd, gèkk þá sú frètt, at Þórdr var farinn vestr í Feördu or Dögurdarnesi, þótti þá öllum vænt um þat at þeir mundu mega vera í fridi. Þorsteinn Jónsson beó þá í Hvammi, þá var Eyúlfr sun hans nítián vetra, hann var manna efniligastr í þann tíma, mikill madr ok vænn, manna var hann best á sik kvaminn, sterkr sva at þá voro eingir hans iafnaldrar þvílikir, hann var þá ymist heima med födur sínum edr heimamadr Kolbeins at Flugomyri. Þá var á vist med Þorsteini í Hvammi Mördr Eyríksson mágr hans, hann átti Borghildi dóttur Þorsteins. Þorsteinn átti Ingúnni Asgrímsdóttur. Þorsteinn ok Mördr höfdu verit á Örlygsstödum med Kolbeini, þá er Sighvatr fèll ok synir hans, Merdi vóru eignadir áverkar vid þá fedga. Mördr hafdi á Örlygsstödum speót mikit, sem þá var sidvenia. En þá er þeir rido nordan um Vatnsskard, þá ræddi madr um at speótit væri hlikkir einir, annar madr svarar, er reid med þeim, er verit hafdi í ferd med Merdi: þat hefir hallazt miök í goda beinunum, þessi ord hafdi Þórdr spurt, ok hafdi þúngan hug á Merdi fyrir þat. Helgi hèt madr ok var Hámundarson, hann beó á Mássstödum, hann var annar bestr bóndi í Vatnsdal en Þorsteinn, hann átti Valgèrdi dóttur Kolbeins Kaldaleóss [6]), hann

[1]) strídasti. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) at Höfda, bæta sömu vid.

[3]) ei minna en hálft annat hundrad manna. *A. B. C. Gr. St.* Þ. ei minna en hálft hundrad manna. *E.*

[4]) Karlsháls. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) Stadar-Kolbeins. sömu.

var læknir mikill ok hafdi enn verit á Örlygsstödum móti Sturlúngum. Einar hèt madr ok var Hallsson, hann beó at Giliá, hann var hinn vaskligasti madr ok var iafnan í ferdum med Kolbeini, hann hafdi ok verit á Örlygsstödum í móti Sighvati.

18. Nú er frá því at segia, at Þórdr reid á Arnarvatnsheidi drottinskveldit ok reid þá annan dag vikunnar allt at bygdinni í Vatnsdal, en um náttina, er myrkva tók, ofan í dalinn, var þá tekinn fyrst bær á Haukagili, ok hafdi hann þá frèttir, at heima vóro bóndr allir í dalnum, var þá skipt lidi í sveitir, var Asbeörn fyrir sveit einni ok Gèstir med honum, en fyrir annari var Teitr Styrmisson ok Svarthöfdi Dugfússon, þar var ok Egill Sölmundarson ok Einar Asgrímsson, vóru þá seytian menn í hverri sveit, var þá umræda hvert hverir skyldu fara, vildu allir í Hvamm sídst fyrir sakir vinsælda Þorsteins. Þórdr kvad þat makligast at hann færi þángat er ödrum væri minnst um, en þó veit ek ei, segir hann, þann mann fyrir nordan land, at mèr sómi betr yfir at standa en Þorsteini Jónssyni. Fóru þeir Teitr ok Svarthöfdi med sveit sína á Mássstadi, Gèstir skyldu rída til Hofs ok sva ofan fyrir vestan ána á Breidabólstad, ok taka þann mann er Hallvardr hèt ok var Jósephsson, ok rída sva ofan til Hólavads, ok skyldu menn þar finnast. Nú er þar fyrst frá at segia, er Þórdr reid í Hvamm ok kvam þar nokkru fyrir sólarrod, vóro þar byrgdar hurdir allar, en ekki manna á fótum, skipudust menn þá fyrir dur allar, en Hákon Galinn lióp á hurdina fyrir þeim durum er nærst vóru kyrkio ok braut upp, ok vid þat vöknudu heimamenn. Lióp þá prestr upp ok út í dyrin, en þeir [Rafn ok Nikolás lupo inn [1]) ok bádo hann útgánga, hann færdist milli hurdarinnar ok veggiarins ok vildi ei útgánga, ok í því þá kvam Mördr í durin ok lagdi út ok enn fleiri menn med vapnum, í því hrukku þeir Rafn út, en hann vard laus prestrinn, ok þá sóttu þeir at, en hinir vördust, í því kvam Þórdr ok bad at þeir skyldo gánga inn skörugliga. Sá madr gèkk fyrst inn er Almar hèt ok iafnfram honum Kolbeinn Dugfússon [2]), en Þórdr siálfr ok Rafn ok Nikolás gèngo inn allir

[1]) Rafn tóku hann. *A. B. C. E. Gr.* [2]) Grön, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. *St.* Þ.

iafnsnimma. Þá hrukko þeir Mördr or durunum ok í skálann. Eyúlfr vard seint vaktr ok vaknadi hann ei fyrr en þeir Mördr hrukko í skálann. Þá mælti Bárdr prestr: leita til dura er til fealls ero, þvíat þar vóro eingir menn fyrir ádan, ok er þeir kvamo at durunum, var þar eingi fyrir, liόp Bárdr prestr út ok tók sèr hest med södli, hann bad Eyúlf laupa á bak hestinum ok rída í fiallit sem skiótast, en mèr man vid eingu hætt, segir hann, liόp Eyúlfr þá á bak ok reid undan. En er þeir Þórdr kvamo í skálann, þá fèkk Mördr áverka ok kvamst vid þat út, þá kvamo menn Þórdar at ok særdu hann, fèll Mördr þá. Þorsteinn bóndi kvamst ok út ok vard handtekinn, var honum fylgt á fund Þórdar. Þorsteinn bad sèr grida, en Þórdr kvad þá hafa skyldu þau grid sem þeir lèto hafa Sighvat födur sinn á Örlygsstödum. Þorsteinn kvad ei Sighvat þar drepinn mundu vera, ef hann hefdi þar mesto um rádit, en kvedst vilia beóda Þórdi alla luti til lífs sèr, þá er honum sómdu vel, en bidia ekki grida sèr sva at Þórdi væri leidindi í því, áttu þá margir lut at ok vóro tillagagódir. Ingunni húsfreyo fór ok allskörugliga. Þórdr segir at Þorsteinn skyldi grid hafa. Eptir þat gèkk Þórdr til ok segir, at eigi væro fleiri en sva í Nordlendíngafiórdúngi er hann hefdi verr haft[1]), ádr hann færi utan, en ei skyldi hann þat meir ánya[2]), en tak vapn þín ok klædi ok far med mèr, ok sva giördi Þorsteinn. Eptir þat gèkk Þórdr upp á völlinn ok spurdi hver þar lægi? honum var sagt at þat var Mördr Eyríksson. Þórdr bad Rafn til gánga ok siá hvat miök hann var sár. Rafn gèkk til ok spurdi at sárum Mardar, en hann lèzt vera grædandi ok beiddi sèr grida. Rafn kvad honum einsætt at búast sva vid sem hann mundi ei grid hafa. Mördr spyr: fyrir hvat Þórdr var honum sva gramr[3]), sva vel sem med okkr hefir verit? Rafn segir hann mundu vita þat, at honum hefdi kèndir verit áverkar vid þá fedga á Örlygsstödum. Mördr kvedst ei sannr at því. Rafn fór þá ok segir Þórdi at Mördr var grædandi. Þórdr bad þann mann er Arni hèt at vega at honum, ok sva giördi hann, [hann var Eyríksson[4]). Bearni hèt madr ok var

[1]) umrædt. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) virda. sömu.
[3]) grimmr. *B. E. Gr.*
[4]) vantar í *A. C. St.* Þ.

Húnraudarson, hann var særdr til úlífis, á þremr mönnum var þar ödrum unnit. Þorsteinn fór med Þórdi, reid hann ofan eptir dal. Þeir Teitr ok Svarthöfdi kvamo á Mássstadi, skuto þegar stokki á dur ok brutu upp hurdina, lupo þeir sídan í skálann. Helgi lióp upp í því er hann vard var vid úfridinn ok ætladi til duranna, hann var allra manna knástr, hratt hann þeim af sèr, sva at þeir hrukko í sætin af honum, í því gat Svarthöfdi tekit hann. Helgi beiddi sèr grida ok hafdi þá fengit áverka. Þeir segia at eingi kostr mundi grida vera, bádu hann ransaka rád sitt ok tala vid prest, ok sva giördi hann. Eptir þat var Helgi leiddr út, ok va sá madr at honum er Alfr hèt ok var Þórgilsson, sídan ræntu þeir rossum ok því sem innan gátta var, ok ridu þadan út til Giliár, ok tóku þeir þar Einar Hallsson, var höggvin hönd af honum ok særdr mörgum sárum ödrum, ræntu þeir þar, ok ridu þeir eptir þat til Hólavads, var Þórdr þar kvaminn ok sva Asbeörn. Þeir Asbeörn höfdu rænt öllu á Breidabólstad ödru en [gánganda fèi [1]). Hallvardr hafdi undankvamizt, en Lær-Bearni var særdr til úlífis, á höfdu þeir unnit fleirum mönnum. Reid þá Þórdr vestr ok allr flokkrinn, var þá vída rænt því er fyrir vard, þar til er þeir kvamo í Midfeörd, þar lèt Þórdr eingo ræna. Reid hann þá vestr til Rútafiardar um kveldit. Tvennir vóro þeir lutir er Þórdr baud mestan varnad á, at þeir skyldu eira konum ok kyrkium. Reid Þórdr þá vestr til Dála ok sva til Saurbæar. Þadan fór hann út til Skards, þadan hvarf Þorsteinn Jónsson ok vann Þórdi ádr trúnadareid, skildust þeir þá med vináttu. Fór Þórdr þá vestr aptr í Feördo ok til bús síns á Myrar. En er Eyúlfr Þorsteinsson kvamst í brott, reid hann nordr á Flugomyri ok segir Kolbeini þessi tídindi. Kolbeinn stefndi þegar saman mönnum ok efldi setur, hafdi hann ávallt einhveria þat eptir var sumars. Þótti honum þá skiótara til eptirreidar, ef nokkur íllvirki væro giör á hèrödum hans.

19. En er Þórdr hafdi litla ríd heima verit, þá sendi hann menn alla vega frá sèr til mannkvadar, ok var sú mannkvöd sva

1) kvikfè. *A, B, C, E, Gr, St,* þ.

frek, at hver vígr madr skyldi fara. Dró Þórdr þann flokk allan til Saurbæar. Stód þá Sturla upp hit fyrsta sinn med Þórdi frænda sínum. Vóru þá menn kvaddir allt um dali fyrir vestan Bröttubrekko, var vorpit á þat, at lid Þórdar mundi vera á áttunda [1]) hundradi, en er þeir kvamo í Liáskóga, þá spurdi hann þat at seta væri at Asgeirsá, vóro þeir þar fyrir Illhugasynir Ari ok Rögnvaldr. Þá sendi Þórdr til Teit ok Svarthöfda med sextygi manna at leypa upp setunni. Ridu þeir nordr til Rútafiardar um kveldit ok um náttina á Midfiardarháls, laust þá á [myrkri sva miklu [2]) at menn skildust, kvamust þeir Teitr ei betr en nítián [3]) menn nordr á Audunnarstadi, urdu þeir þá varir vid, er á hestverdi vóru af Nordanmönnum, syndist þeim sem feöldi lids væri at kvaminn, leyptu þá Nordlendíngar upp á feall allir, þeir er í setunni höfdu verit. Asbeörn reid til Asgeirsár ok nokkrir menn med honum, ok sá at ei giördi eptir at rída, hurfo þeir Teitr þá aptr ok ridu sudr Holtavörduheidi til Borgarfiardar, fundu þeir Þórd í Stafaholti. Reid Þórdr þá med flokkinn allan á Feriubakka ok settist þar, kvam þá Bödvar Þórdarson utan frá Stad, Þorleifr Þórdarson kvam ok utan or Gördum, ok hafdi hvertveggi þeirra mikinn flokk. Michaelismessodag hafdi Þórdr fund í Stafaholti, var þar Sturla, Þorleifr ok Bödvar. Þórdr krafdi þá frændr sína lidveizlo ok ferdar nordr um land edr ella sudr um heidi, sva at hann mætti rètta skada sinn vid adra hveria, en þeir kvádust ekki mundu veita honum til hernadar á adra menn upp, segia at þeir mundu rída til þíngs med honum at sumri ok veita honum til einhvers orskurdar, sva at hann fengi sóma sinn. Þórdr tók því vel ok þakkadi þeim ok kvadst þenna kost þiggia vilia, þótt honum væri sá starfameiri. Reid Þórdr þá ofan á Feriobakka ok lèt alla flokkana sofa undir Þeódúlfsholti um náttina, en um morguninn í dögun þá kvam Hákon Galinn ofan or hèradi, er hann hafdi verit á neósn, segir hann at Kolbeinn Arnórsson hefdi verit um náttina í Fliótstúngo [4]) med þriátygi manna, þótti þá öllum at syno gánga at stórflokkar mundo þá kvamnir í hèradit. Þórdr bad þá halda saman

[1]) fiórda. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) myrkva — miklum. sömu.

[3]) þriátygi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Fliótshlíd. *B. E. Gr.*

flokkunum öllum um daginn, hafdi hann þá sva mikit lid at orpit var á tólf hundrud manna, en hann reid upp í hèrad á niósn at vita hvat títt var, reid hann þá upp á Gilsbakka ok frètti þar at Kolbeinn hefdi ridit nordr á heidi. Giördi Þórdr þá menn á neósn nordr á Tvídægro, en hann sat á Feriobakka á medan, en er þeir kvamo aptr, segia þeir at setur væro þrennar í Skagafirdi, en kyrrt allt annat, segia Kolbeinn hefdi ridit nordan á neósn, en eingir höfdu til ordit adrir, þótti mönnum þar enn miök synast hvatleiki Kolbeins, at hann reid med sva fá menn at slíkum stórflokkum, sem þar vóru fyrir. En er Þórdr frá þetta, þá dreifdi hann flokkunum, fóru þeir Bödvar ok Þorleifr þá heim, en Þórdr reid vestr í feördu ok Sturla, þóttust þá allir[1]) skilia, þeir er í þessari ferd höfdu verit med Þórdi, at hann mundi verda hinn mesti höfdíngi, ef hann hèldi sèr heilum, þótti ok mönnum mikils umverdt er hann hafdi slíkum stórflokkum saman kvamit í sva fátækum sveitum. Fór Þórdr nú heim á Myrar, sat hann þá heima um vetrinn allt um iól fram, en at iólum baud hann til sín öllum bestu mönnum or Vestfiördum, hafdi hann þá veizlu mikla á Myrum. [Strengdi Þórdr þá heit ok allir hans menn[2]). Þórdr strengdi þat heit at láta aldrei taka mann or kyrkio, hveriar sakir sá hefdi til vid hann, ok þat efndi hann. En er menn fóru í brott, veitti hann mörgum manni geafir, vóru þá allir meiri vinir hans en ádr.

20. Þenna vetur var Þórdr Bearnason í Gördum med Einari Ormssyni frænda sínum, hann hafdi verit med Urækio í Reykiaholti at drápi Klængs Bearnarsonar. Ormr Bearnarson reid med tólfta mann í Garda til Einars, kvamo þeir þar síd um kveldit í þann tíma er þeir Einar ok Þórdr ætludu at gánga til bads. Tóku þeir Ormr Þórd þar höndum, leiddu þeir hann þá inn til stofu, Þórdr vard vid alla vega sem best[3]), ok baud fyrir sik allt þat er honum sómdi, en þá er hann sá at Ormr vildi ei annat hafa en líf hans, þá beiddist hann prestsfundar, ok sva var giört. Eptir þat var hann leiddr í ytri stofuna, lagdist Þórdr þá nidr[4]) ok bad

[1]) margir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) drengiligast ok vaskiligast. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) opinn, bæta sömu vid.

þá hyggia at hvert honum blöskradi nokkut. Ormr fèkk þá mann til at höggva hann, [sá hèt Einar Múnkr [1]). Eptir þat fór Ormr heim austr á Breidabólstad. Þat er nú at segia þessu næst, at Tumi Sighvatsson undi ei í Flateyo, fór hann þá inn til Medalfellsstrandar at finna Snorra prest at Skardi Narfason, hann var manna audigastr í Vestfiördum, hann var ok göfugr at ætt, hann hafdi verit alla æfi mesti ástvin [2]) Sighvats ok Sturlu, hann átti annat bú at Hólum á Reykianesi, vóru þar fyrir synir hans Bárdr ok Sigmundr. Tumi beiddi Snorra at taka vid búinu á Hólum til fardaga. Snorri lèt þat uppi, ef hann fengi honum handsalamenn þá er varda [3]) vildu at hann tæki þar vid iafnmiklo fè at vori. Tumi leitadi ekki eptir handsalamönnum, en settist í búit at Hólum, drifu þá til hans menn, Beörn Dugfússon, Þorgeir Stafsendi, Þorkèll Einarsson Dráttarhamar. Þenna vetur í móti iólum tók at fættast med þeim Þórdi Sighvatssyni ok Asbirni Gudmundarsyni, giördist Asbiörn þá sva stór at hann vildi nær iafnast vid Þórd siálfan. Bad Þórdr hann þá giöra annathvert, hafa sik í brott eda vera í hófi. Asbiörn kvad hann ei þurfa reka sik í brott, en kvad þat vel fyrir því, at sènar mundu vera framkvæmdir Þórdar, þegar er hann færi brott, segir at sá mundi heita mestr madr þeirra ávalt er hann væri med. Þorláksmessodag reid Asbiörn í brott ok þeir þrír brædr Grímr ok Þorkèll Hniódhamar [4]), ridu þeir sudr á Hóla, ok tók Tumi vid þeim, var Asbiörn ok þar fram um iólin í gódu yfirlæti, drifo þá at Tuma miök margir menn adrir.

21. Um vetrinn á níuviknaföstu reid Tumi heiman af Hólum [med átiánda mann [5]) nordr til Rútafiardar, tók Asbiörn þá upp fyrir honum at hann skyldi vinna stórvirki nokkut ok kvad þá ei mundu þykkia minna um hann vert en Þórd bródur hans. Þessir vóru í förinni, fyrst Tumi, þá Asbiörn, Grímr ok Þorkèll

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) Sturlúnga, einkum, bæta vid *A. C. St.* Þ.

[3]) iáta, *A. C. St.* Þ.

[4]) ok Hermódr Hamar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í sömu.

brædur, Beörn Kægill, Bitro-Kèli, Bárdr [1]), Einar Oddason, Húnbogi Svínsbógr, Bergdór Snorrason, Vestlidi Bassason. [Tóko þeir þá þat ráds, at þeir skyldo rída nordr á sveitir at nokkrum þeim er í sökum væro vid Sturlúnga, en er þeir kvamo í Rútafiörd til Fögrobrekko, spurdi Beörn Kægill Tuma hversu ferd siá var ætlud? Tumi segir, at hann ætladi at rída nordr á sveitir at bóndum einhverium. Birni kvadst þykkia lid lítit, en hestakostr eingi, þætti mèr rád at þú værir eptir, en lètir oss rída þángat er þèr líkadi, kvad þar hóflángt [2]) til hætta. Tumi lèzt rída vilia, en þó kvam þar um sídir, at hann vard eptir at Feardarhorni [3]). Þeir spurdo hví hann vildi þar eptir verda? Þvíat fyrirmadrinn man látast, segir hann, þat eitt mælti hann spámæli. Var hann þar eptir í hlödo, en þeir Asbiörn ok Beörn rido nordr [4]) til Línakradals á þann bæ er í Múla heitir, þar beó sá madr er Magni hèt, hann var löngum heimamadr med Kolbeini á Flugomyri, hafdi hann þar verit of iólin, en er hann fór heim, gaf Kolbeinn honum einn hinn besta hest gráan at lit, ok skyldi hann halda neósnum fyrir Þórdi, þegar er hann heyrdi þat hann hreifdist nokkut or Vestfeördum. Þeir tóko hús á Magna, [en er Magni vard var vid at úfridarmenn vóru kvamnir á bæinn, leitadi hann út um laundur [5]), ok er þeir höfdu brotit hurdina ok inngèngit í húsin, urdu þeir varir vid Magna [6]) er undan þeim fór, en myrkt var í húsunum. Magni komst út ok lióp af túnino, [en er hann var skamt kvaminn frá húsunum, sáu þeir Beörn hann [7]). Beörn kvamst á hinn gráa hestinn, er Kolbeinn hafdi gèfit Magna, ok elti hann, en sumir lupo eptir honum, kvamst Beörn þá fyrir hann, [en er Magni sá þat hann mundi ei undanberast, snèrist hann vid, hiuggust þeir Beörn í móti, ok vard hvergi sár. Beörn hió til hans annat sinn, ok kvam höggit fyrir aptan eyrat á hálsinn, ok vard

1) Skardsprestr, bæta vid *B. E. Gr.*

2) hófligt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) frá [: Þeir ridu til Rútafiardar ok ætludu at Magna, en er þeir komu til Fagrabrekku, þá ræddi Tumi um, at hann vildi þar eptir vera. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

4) til Midfiardar, bæta sömu vid.

5) vantar í sömu.

6) manninn. sömu.

7) vantar i sömu.

þat mikit sár ok banvænt, eptir þat tók Beörn í fætr honum ok sneri í lopt upp ok lagdi sverdi til hans, ok vard þat lítit sár. I því kvam Asbiörn at ok spurdi hví hann dræpi hann ei? hann kvedst at hafa giört þat er hann mundi. Asbiörn tók þá sverdit af Birni ok heó af Magna höfudit [1]), kvam sídan at Vígdís Markúsdóttir kona Magna, þerrdi Asbiörn blódit af sverdino á klædum hennar, en hon bad þeim margra fyrirbóna [2]) ok bad gud hefna skeótt á þeim sína mótgeörd. Eptir þat ridu þeir Asbiörn brott ok spurdo at neósnarmadr Kolbeins væri á Torfustödum sá er Asgeir hèt [ok var kalladr Kollo-Geir [3]). Rido þeir þángat ok bruto upp útidura hurd, lióp Asbiörn inn ok bad tendra liós. Asgeir lióp upp ok greip sinni hendi hvert senn handsax ok speót ok lagdi hveriotveggia senn til Asbiarnar, kvam annat lagit í brínguna, en annat í nedanverda bryniona. Asbiörn mælti þá: takit þèr diöful þenna, þvíat hann vill vinna á mèr. Var Asgeir þá tekinn ok leiddr út. Asbiörn hèt þá á menn sína at nokkur skyldi til verda at drepa hann, en eingi vildi til verda, Asbiörn snaradi þá búklarafetilinn at hendi honum, bad hann þá einhvern mann halda honum, en hann brá sverdino ok segir at hann skyldi láta hendina, [er hann vildi vega at honum [4]), hió sídan ok kvam á handlegginn uppi vid öxl, en sverdit rendr med beinino ok skar or allan vödvann allt ofan í ölnbogabót, [var þat allmikit sár [5]). Asbiörn vildi þá höggva annat, en Beörn bad hann láta vera, var Asgeir þá innborinn ok vard vid sár sitt allhraustliga, kvam þar til sva mikil blódrás at ei vard stödvat, [lèzt Asgeir [6]) ádr en þeir Asbiörn ridu brott. [þessa sömo nátt kvam þeyr mikill ok lupo vötn fram ok leysti árnar [7]), ok er þeir Asbiörn rido vestr Rútafiardarháls, sá þeir tröll eitt mikit, ok fór þat á svig vid þá, vard þeim sumum úsvipt vid, en Asbiörn hrakti þá þar um, ok er þeir rido inn at Brandagili, sá þeir eld mikinn brenna fyrir feardar-

1) frá [: ok gafst hann þá upp ok fèkk honum sverdit; þá kom Asbiörn eptir ok tók sverdit at Birni ok hió Magna banahögg. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

2) forbæna. *B. E. Gr.*

3) vantar í *A. C. St. þ.*

4) vantar í *B. E. Gr.*

5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

6) vantar í sömu.

7) vantar í sömu.

botninum [1]), ok vard þeim þar ílla vid. En er þeir Asbiörn kvamo til Stadar, var flædur sæfar ok ekki reidt yfir vadla, var feördrinn ei ruddr af ísum, en þeyr mikill hafdi á verit, vóru vötn í leysíngo [ok úfærar árnar hit nærsta [2]), bidu þeir þar lengi um daginn feörunnar, en er á tók lída daginn, vildu þeir fyrir hvern mun yfir ána vestr, því þeim þótti ei örvænt at eptir þeim mundi ridit. Rída þeir nú til vadlanna ok hverfa aptr, rída nú upp med ánni [3]) ok finna hvergi þar þeim þykki yfir fært. Asbiörn eggiadi at þeir skyldu á rída ok kallar þá raga ok segir ekki árædi med þeim. Beörn kvad ána úfæra þar hon lá á bökkum uppi, en er þá varir minnst, leypti Asbiörn út á ána, en hestrinn misti þegar fótanna ok rak þegar í kaf hverntveggia, en er Asbiörn kvam upp, var hann af baki ok hèllt sèr í stigreipit, en þeir er á landi vóru, rètto at honum spiótskèptin, ok er hann vildi í taka, vard honum laus hestrinn, drukknadi Asbiörn þar ok fannst ei fyrr en um vorit eptir. Sídan rido förunautar hans til vadlanna ok kvamust þar yfir um náttina vid íllan leik ok fundo Tuma í Fiardarhorni, ridu þeir sídan til dala ok sva vestr á Hóla.

22. Þenna sama vetur eptir iól fór Þórdr vestan af Myrom ok nordr til Isafiardar, en hann sendi Ramn Oddsson ok Svarthöfda Dugfússon sudr til Dala ok lèt segia vinum sínum at hann ætladi at rída nordr til Skagafiardar. Í þann tíma tók at sækia miök at Kolbeini Unga þat mikla mein er hann fèkk eptir Örlygsstadafund, tók þat hann sva fast, at hann lá löngum banvænn af. En þenna sama vetur stefndi hann feölmennan fund í Geldíngaholti, kvamo þar til allir hinir stærsto bóndr í Nordlendíngafeórdúngi. Baud Kolbeinn þá bóndum tvo kosti ok taladi lángt ok sagdi deili á um vandrædi þeirra Þórdar, taldi þá upp fyrir þeim mannalát er hver þeirra hafdi fengit fyrir ödrum, kvadst þann kost vilia beóda þeim annan, at fara utan ok gèfa Þórdi upp ríki öll ok bæta honum sva födur sinn ok brædur, manot þèr þá verda eiga ydvart mál á hans miskun, varir mik at ydr mani þat [4]) vel

[1]) vid sík, bæta vid *B. E. Gr.*

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) í sík nokkurt, bæta vid *B. Gr.* Síkí. *E.*

[4]) Þórdr. *B. E. Gr.*

gèfast, fyrir því at þá gafst Þórdr mèr best er ek hætta mínum luta mest undir hann, vórut þèr þá ok vinir Skagfirdíngar ok hann. Þeir kvádust þenna kost ei vilia ok kvádu þar tvennt til vera þat er fyrir beit, annar sá, at vèr vilium eingum manni þeóna ödrum en þèr, á medan þú lifir, en hinn er annar, at Þórdi man þykkia vèr hafa giört miklar sakir vid sik, ok manum vèr ei bera mega þær refsíngar er hann leggr á oss. Kolbeinn segir enn vera þann kost, at þeir hèldo setum þat eptir er vetrar, einni í Skagafirdi, annari í Vatnsdal, [þridio í Vídidal [1]), væri ok uppi almenníngr, er siá neósn kèmr at glíkligt þykkir at Þórdr mani vera í nánd þeim. Þeir kvádust þetta kiósa mundo, hvat sem kostadi, [at þeir hèldo sèr samarí [2]). Þá mælti Kolbeinn til Þorsteins Hiálmssonar, at hann mundi senda hann á fund Þórdar at leita um grid framan [3]) til þíngs. Þorsteinn kvèdst þá ferd ekki mundi undir höfud leggia, ef hann fengi til fleiri dugandismenn med honum. Kolbeinn bad hann keósa mann til fylgdar vid sik. Þorsteinn kvadst keósa mundo Eyvind Bratt styrimann. Kolbeinn kvad sva vera skyldi. Gánga þeir þá á tal þrír samt. Bad Þorsteinn at Kolbeinn skyldi giöra fyrir guds sakir ok gèfa Þórdi nokkut tilefni til sætta. Kolbeinn kvadst vilia hann flytti iamnsætti. Þorsteinn kvad Þórdi mundi þykkia þat eitt iafnsætti, at hann fengi aptr eignir sínar allar. Kolbeinn kvadst allar at lögum fengit hafa, ok man ek eingar láta fyrir dóma fram. Eptir þat ridu þeir Þorsteinn, ok reid Kolbeinn á leid med þeim til Jökulsár. Þá spurdi Þorsteinn Kolbein, ef Þórdr væri kvaminn á leid or Vestfeördum med flokk, hvert hann vildi þá nokkut auka bod sín, ok yrdi þeim flokki þá heldr hnekkt en ádr. Kolbeinn kvad Þorstein heyrt hafa tal bónda á fundinum ok sitt, en hversu sem med oss Þórdi frænda fer, þá vil ek á þat hætta at gèfa honum upp Nordlendínga fiórdúng ok rádast frá med öllu, vil ek þá at allir menn hafi lífs grid ok líma. Þorsteinn bad hann segia þetta Eyvindi, er hann var undan fram ridinn. Kolbeinn kvad þat eingo skipta hvert þetta visso fleiri menn, ero Austmenn opt skeótordir, því at

[1]) vantar í C. St.

[2]) vantar í A. B. C. E. Gr. St. þ.

[3]) fram. B. C. E. Gr. St.

ek vil því at eins uppi láta bod þessi, ef þú sèr at vèr höfum úfrid í annan stad. Ridu þeir Þorsteinn þar til þeir kvamo vestr í Dali, fengo þeir þá brátt neósn af at Þórdr var vestan kvaminn, fundu þeir Þórd at Skardi, ok gèngo þeir Þórdr ok Þorsteinn á tal, bar Þorsteinn fram ordsendíngu Kolbeins bædi um grid ok sættir. Þórdr kvedst einga sætt nè grid vilia, segir ok at hann vildi í eingra manna dóm leggia eignir sínar ok mannaforrád í Eyafirdi. Þeir Þorsteinn ok Eyvindr þóttust þá skilia at Þórdr mundi ætla rída nordr á sveitir af vidrbúnadi þeirra, urdu þeir ok þá þess varir, at Sturla mundi ok í ferd verda med Þórdi, lèt Þorsteinn þá uppi öll þau bod, er Kolbeinn hafdi fremst bodit. Eyvindr kvedst ei kunna þetta bera, ok segir at hann hefdi þau bod ei heyrt. Þorsteinn baud eid sinn á, ef Þórdr vildi þá heldr trúa. Þórdr giördi þá rád sín, ok lögdo vinir hans þá mart gott til. Tók Þórdr þat upp, at hann seldi grid fram um páskaviko, en iátadi [1]) sættum. Þorsteinn skyldi ok þess vera skyldr at senda Þórdi ord ok mann nordan á lángaföstu, ef Kolbeinn vildi þessi sættarbod halda, ok sva ef nokkur efni væro önnur í. Þorsteinn rídr nú nordr aptr á fund Kolbeins, en Þórdr fór vestr í feördu. En er Þorsteinn kvam til tals vid Kolbein ok bar upp fyrir honum eyrindi sín, kvadst Kolbeinn þat aldrei mælt hafa at gèfa Þórdi upp Nordlendíngafeórdúng. Þorsteinn segir sik ei annat flutt hafa en þat sem Kolbeinn baud honum, hver raun sem á yrdi ok giör væri vid hann. Tók Kolbeinn þá grid af Þorsteini fram um páskaviku ok vildi ekki þá sætt er Þorsteinn hafdi bodit [af hendi Þórdar [2]). Reid Þorsteinn þar vid heim ok líkadi stórílla, lèzt aldrei sídan fara skyldu med sættarbod af hendi Kolbeins, giördi hann þegar mann vestr til Þórdar ok segir honum hvar kvamit var. En er þetta frèttist, mælto menn misiafnt til Þorsteins.

23. Um varit í páskaviku átti Kolbeinn Ungi feölmennan fund, kvamo þar til Eyfirdíngar, segir Kolbeinn þá öllum mönnum [3]) at þeir skyldo vid því búast, at hann mundi rída vestr á

[1]) neitadi. *B. E. Gr.*

[2]) Þórdi af hans hendi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) vinum sínum. *A. C. St. Þ.*

sveitir þegar eptir páskaviku, stefndi hann Eyfirdíngum á nefndan dag til móts vid sik. Kvam nordan Hallr Jónsson [1]) af Mödruvöllum, Þorvardr [2]) Þórdarson or Saurbæ, Þorvaldr [3]) Örnúlfsson or Miklagardi, Gudmundr Gilsson undan Hvassafelli. En er þeir kvamo vestr í Skagafiörd, var þar samandregit lid mikit, rèdust þeir til ferdar med Kolbeini Brandr Kolbeinsson frá Stad ok Broddi Þorleifsson mágr Kolbeins, ridu þeir þá med flokkinn vestr til Lángadals, vóru þar þá menn uppteknir ok sva allt vestr til Rútafiardar [4]), reid Kolbeinn þá til Stadar ok þar ádu þeir, ok höfdo þá þriú hundrud manna, skipti Kolbeinn þá lidino í tvo stadi ok setti þá höfdíngia fyrir adra sveitina Brand ok Brodda. Ridu þeir til Laxárdals, bad hann þá fara hermannliga ok muna Vatnsdalsför, var þá nefndr til Sturla Þórdarson, at þeir skyldo drepa hann, ef þeir nædo honum, ok Beörn Drumbr Dugfússon. Kolbeinn lysti því, at hann mundi rída med sveit sína at Tuma Sighvatssyni á Reykiahóla, ok skyldo þeir finnast í Gilsfeardarbotni, þá er þeir rido nordr aptr. En er þeir rido yfir vadla á Rútafirdi, sá menn reid þeirra fyrir vestan feördinn, leópo menn þá vestr til dala ok sva til Saurbæar, fór þá Sturla út í eyar, en Bödvar frá Hvoli, Þorgeir Stafsendi ok Hallr or Tialdanesi fóro vestr á Hóla ok segia Tuma, at van mundi úfridar. Tumi brá vid skeótt ok lèt setia fram skip ok setti þar menn til gæzlo at ei skyldi uppi feara, en Beörn Kægil sendi hann inní Króksfeörd ok Þorkèl Arnason ok Halldór Barm, skyldo þeir halda þar hestvörd. Þeir rido á þann bæ er at Tindum heitir, þar beó þá Þórdr Gilsson, þadan mátto þeir siá inn fyrir Króksfeardarmúla, hèldu þeir þar vörd. Nú verdr þar til at taka er fyrr var frá horfit, at Kolbeinn reid út med Rútafirdi, ok er hann kvam í Bæ til Torfa, þá lióp Gils son hans út ok vildi giöra neósn nábúum sínum, ok er Kolbeinsmenn siá þat, rido þeir eptir honum. Gègnir Illhugason kvam fyrst at honum ok lagdi þegar í gègnum hann, þar lèzt Gils, þetta verk þótti allíllt, þvíat þeir fedgar vóru med öllu saklausir. Þeir Kolbeinn ridu þat kveld í Bitru ok tóku þar alla bæium náttina. En um myrgininn eptir ridu þeir inn til Kleyfa ok

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Þórdr. *A. C. St.* þ.
[3]) Þorvardr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) Midfiardar. *A. B. E. Gr.* þ.

fengo þar sannar fréttir at nióśnir væro gengnar fyrir þeim allt til Reykiahóla, segia þá margir at ei mundi þurfa ríđa lengra ok bádo aptr væri horfit, kvádu Tuma ei mundu heima vera. Kolbeinn kvad ríđa skyldu allt at eino, ok kvad Tuma heima mundo, ef hann væri feigr. Ridu þeir þá út med Gilsfirdi. Þá beó í Garpsdal [Gunnsteinn Hallsson ok Vígfús son hans [1]). Þeir Kolbeinn léto þar alla luti í fridi, en hvergi annarsstadar, ok renndo menn grunum á fyrir hvat þetta var. Annan dag viku ridu þeir í Gilsfiardarmúla, þar særdo þeir til úlífis Jón Hallsson [2]). Þeir [3]) léto eptir sextygi manna í Garpsdal. Þeir kvamo á Gróustadi, þar mælti kona ein einmæli vid Kolbein er Helga hét ok var Jónsdóttir, eptir þat hrökkti [4]) hann hestinn ok kvad konuna vel segia. Þeir fundo fyrir Króksfeardarmúla Halldór Hornfisk ok Ingirídi kono hans ok Oláf Brandsson. Gísli Barkarson reid fyrir, hann bad Halldóri grida ok kvad hann frænda Vígfúsar. Kolbeinn spyr hann, hvar neósnarmenn Tuma væro? Halldór kvad þá vera at Tindum ok mano feigir, segir hann. Þeir lusto Oláf med eggsi, vedur var kafþykkt ok dríśanda [5]). At Tindum í Króksfirdi vóru neósnarmenn Tuma á hestverdi Beörn Kægill, Halldór Barmr ok Þorkéll Arnason, þeir sváfo í skála ok vóru vaktir er þeir Kolbeinn rido í tún, ok leópo út, komst Beörn inni á hest ok reid út ok í feall upp, reid í dy ok lét þar hestinn ok rann þeim hvarf. Halldór komst seint á bak ok var veginn vid húsin siálf, en [6]) Bitru-Kéli kvamst upp í tindinn ok vardist þar drengiliga, [er skiótast af þeirra ferd at segia, at hvern kallmann bördu þeir til meidínga edr særdo, en rænto fé öllu því er þeir kvamo höndum á. Þenna dag var þoka sva mikil, at eingir menn sá flokkinn fyrr en þeir kvamo í tún, vard þeim Birni þat ok at þeir sáo ei fyrr en þeir varo at þeim kvamnir. Beörn lióp þegar á hest sinn ok allir þeir félagar, var Halldór þegar veginn innangards. Beörn leypti upp á feallit ok ætladi at kvamast fyrir þá fram í Króksfeörd, því

1) Gunnsteinn Vígfússon. *A C. St.* Þ.

2) Hákonarsonar, bæta vid *B. E. Gr.*

3) ridu í Garpsdal ok giördu þar eingar óspektir, bæta vid *B. E. Gr.*

4) hreykti. *B. E. Gr.*

5) ok mátti skammt siá, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

6) Þorkéll, bæta sömu vid.

hann vissi hvar skip stód ok ætladi þar til, ok at bera sva niósn á Hóla, þvíat hestr hans var þrotinn. En er hann var kvaminn ofan í brekkurnar medal Kambs ok Tinda, þá var kvaminn fyrir hann ferdar-broddrinn, kvamst hann þá skammt undan, þvíat hann var þá á fæti. Bersi Tumason kvam fyrst at honum, Beörn beiddi sèr grida. Bersi kvad hann skyldi grid af sèr hafa ok færdi hann Kolbeini. Kolbeinn spyr, hví hann ynni ei á honum? Þá lögdu þeir til hans fimm senn, ok gèngo þau lög öll á hol. Eptir þat fór til Ottar biskupsfrændi, ok heó á hals Birni, ok lèt hann þar líf sitt, ok sögdu þeir sva, at hann dæi hlæandi [1]). Sídan rido þeir til Kambs ok þá Magnús grid af ordum Halls af Mödruvöllum. Sídan rido þeir fram í Króksfeörd til Bæar, [þar beó sá madr er Steinn hèt Arason, Ari hèt son hans ok var hann nær tvítugum manni. Þeir fedgar sáto í stofo, er þeir Þorvaldr Matkrákr kvamo inn, ok þegar heó Þorvaldr til Steins ok af honum bádar hendurnar, hafdi Steinn lagt þær ádr fram á knè sèr er hann sat, ok eptir þat hió hann til Ara sonar hans, ok særdi hann miök [2]). Eptir þat rido þeir á Gillastadi, þar beó þá Halldór Einarsson, hann lióp til vapna, er hann heyrdi gnyinn af reidinni [3]), hann særdu þeir til úlífis.

24. Þeir rido sídan þadan út á Reykianes, ok er þeir rido inn frá Midhúsum, þá vóru menn úti á Hólum ok þrætto um, hvert vera mundi fènadr eda mannareid, syndist þeim er feigir voro, at

[1]) frá [: þá komu sumir at baki honum ok vágu hann þar. En er Biörn hugdi at flokkrinn mundi umridinn, snèri hann or fiallinu ok ætladi til skips, er hann vissi at flaut undir bökkum nidri, hann lióp í hendr þeim, ok tók Bersi Tumason hann, þá kom Kolbeinn Ungi at ok spurdi, hvur þar væri. Þá var Biörn kènndr. Kolbeinn bad drepa hann. Ottar Snoppulángr va hann. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) frá [: ok gèkk Ari Steinsson út, er hann heyrdi gnyinn, ok taladi vid Hall Jónsson, þá lióp at Þorvardr (Þorgeir. *A.* Þ. Þorkèll *C. St*) Matkrákr ok hió höndina ok í sundr handlegginn uppi í ablvödvanum. Ari gèkk inn, ok ristu konur klædi af honum. Steinn fadir hans sat ödrum meginn í bekk ok hafdi lagit hendr á vixl um knè sèr. Þá kom Matkrákr í stofuna ok hió med sverdi á bádar hendurnar ok af adra, en önnur loddi vid, ok vard aldrei nyt sídan. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) ok brá sverdi, bæta vid *B. E. Gr.*

fènadr væri, en konur sögdu at mannareid var. Þetta var tyrsdaginn einni nátt fyrir Jónsmesso biskups, urdo þeir Tumi ei fyrr búnir brott af bænum, en hinir kvamo hit nedra gègnt Hólum, en sumir innan at gardi [1]. Þá var kallat at úfridr væri, ok sumir væro kvamnir at Keörbólagardi [2], en sumir á Skèrdit [3]. Þeir Tumi leópo þá upp ok út, sumir til skipa, en sumir af vellinum, sumir lupo til kyrkio, ok fóro sundrlaust nær sitt hver. Var Bárdr Snorrason er kalladr var Skardprestr [4]) þegar drepinn heima í túnino [5]). [Hann hafdi leiddan inn hiá sèr hest sinn, ok rèd til þrisvar á bak at laupa, er hann var manna best hestfær, ok kvamst eingan veg upp. Hann hafdi fengit á Örlygsstödum tólf sár ok nú þrettán ádr en hann lèzt. Gudmundr biskup hafdi vígdan hann til messo-diákns, ok er hann var nyvígdr, tók biskup hendi sinni í höfud honum ok mælti: ei man þik sun minn saka í höfudit. Þat var ok sva, hann var særdr alls þriátygi sára, ok kvam ekki í höfudit [6]). Stephán Bearnason vann á honum. Skammt þadan var tekinn Bödvar frá Hvoli, ok kvam fyrst at honum Þorsteinn Gölltr Illhugason ok tók Bödvar annari hendi um háls honum, en annari midli fótanna, ok skaut honum á höfudit í kèldo eina, þá kvam at Asbiörn Illhugason ok lagdi hann med speóti til bana ok fleiri menn unno þar á honum. Þórálfr Kolbeinsson var vegin [7]) þar skammt frá, ok fèkk kvamizt heim. Þorgeir Stafsendi

[1]) frá [: A Hólum vard þat til tídinda, þá er þeir Þórgils (Þorgeir. *B. Gr.*) komu med niósnina, þá sendi Tumi Biörn á niósn, hann lèt ok flota skipi einu miklu, er þar var, ok atladi þar á at gánga, ef tóm yrdi til. Þar var kominn Bödvar Oddason ok Þórálfr Kolbeinsson med honum ok vóru þeir þá farnir út á Midianes Sendi þá Tumi eptir þeim, ok komu þeir aptr á Hóla, þar var mart manna fyrir, ok gèngu þeir til matar um kveldit, vóru menn á húsum uppi á verdi, Arni Snorrason ok Þorsteinn diákni Titlíngr (Titlíngsson, *B. E. Gr.*). (En er þeir höfdu matazt um ríd, *B. E. Gr*), þá kalladi Arni, at menn ridi innan hiá Midhúsum Tumi kvad þá Biörn mundu þar fara. Þá var kallat at fleiri væri mennirnir. Tumi kvad at þar mundu fara Króksfirdíngar, er hann hafdi þángat stefnt, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) Kiarhólagardi. *B. Gr.*

[3]) Skeidit. *A. B.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) skamt frá stödli. sömu.

[6]) frá [ vantar í sömu.

[7]) særdr til úlífis, *B. E. Gr.*

[vardist vel [1]), vard hann fundinn þar í myrinni, ok kvam Ögmundr [mágr hans [2]) eptir honum, ok hió Þorgeir á bædi lær honum ádr hann kvamst af baki, ok vard hann ekki sár, sídan kvamo fleiri menn at ok sótto hann, en hann heó sem hann horfdi, unno þeir þá fleiri á honum, en Ögmundr bar á sik vígit. [Þorkéll Dráttarhamar vardist ok vel, vard hann handtekinn ok vóro honum grid gèfin, þvíat vinir hans vóro margir med Kolbeini [3]). Grímr Gudmundarson [4]) Salomonssonar [5]) var særdr til úlífis skammt frá biskups brunni [6]) ok skreid hann í brunninn um náttina ok var færdr heim um myrginnn, ok fèkk alla þeónusto. Arni Bóthildarson [7]) kvamst ok lengst undan ok vard veginn nidri í nesino [8]). Þeir Heálmr af Vídivöllum ok Asgrímr Ormsson ok Stephán [9]) tóko Tuma höndum ok færdu hann Kolbeini, hann var lítt sár. [Stephán þessi var bródir Þórarins Ballta [10]), fluttu þeir hann heim, ok var hann lagdr undir kyrkiugard. Þorkèll Dráttarhamar var þar fyrir frændi hans, ok gáfu þeir honum grid. Kolbeinn var í stofo, þá er þeir kvamo heim med Tuma, gèkk hann þá út til kyrkiugardsins. Tumi settist upp ok bad sèr grida ok baud utanferd sína ok þat er Kolbeinn vildi þiggia, en Kolbeinn þagdi ok adrir hinir um ríd. [Skagfirdíngar bádu hann hafa slík grid sem brædur hans höfdo haft á Örlygsstödum [11]). Þá mælti einn madr: ekki man þurfa um sætt at leita. Kolbeinn gèkk þá frá ok kvaddi Þórarinn Grautnef til at vega at honum. Tumi [skriptadist ok mæltist vel fyrir, sídan var hann leiddr sudr fyrir kyrkiugardinn ok höggvinn [12]), kastadi hann sèr nidr ádr hann var veginn. Kolbeinn var á Hólum um náttina, [ok ræntu þeir rossum ok lausafè

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) Vandræda-mágr. *B. E. Gr.*

3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) Ögmundarson. *B. E. Gr.*

5) vantar í *A. C. St.* Þ.

6) Gvendar brunni. sömu.

7) Snorrason. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

8) ok höfdu þeir heim höfud (höfu, *A.* Þ) hans med sèr, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

9) vantar í sömu.

10) vantar í sömu.

11) vantar í sömu.

12) frá [ vantar í sömu.

öllu[1]), rido sídan brott eptir þat ok til Kleyfa. [Prestar tóko lík Tuma, er hann var veginn, ok unno því[2]).

25. [Nú er at segia frá þeim Brandi, at þeir rido ofan Laxárdal, ræntu þeir hvern mann ok bördo[3]). Þeir kvamo á Dönustadi, ok var þar ekki manna heima, Brandr ok sveit hans fóro fyrir nordan ána ofan, ok vóru menn hvergi heima, þvíat neósn hafdi kvamit sú er Þórdr Víti hafdi giört. En er þeir Broddi ok Hafur kvamo í Gröf fyrir sunnan ána, lupu þeir þar inn ok særdu Jón Pálsson[4]) til úlífis, hann hafdi skorit[5]) sik á leá ok lá í rekkio, hann dó af sárum þeim um sumarit, [þar drápu þeir ok sun Öxa Másssunar[6]). Þadan rido þeir í Leidúlfsstadi, þar beó Hallr Hallsson[7]), hann hafdi farit í fiall upp um náttina, en var nú heim kvaminn til matar, en er hann var mettr, bad módir kono hans forda sèr, kvad þar fara úvinafylgiur, kann kvad sik sifia miök, ok er hann vildi uppstanda, datt hann út af sofinn, þá var morgnat. Litlu sídar kvamo þeir Broddi ok bruto upp hurdina ok lupo inn. Hallr vard vel vid ok vardist drengiliga, hann horfadi undan til feóss ok fèkk lag í hit efra holit, sídan stefndi hann út feóssdur ok ofan til ár, hon var úreid. Þeir rido þá eptir honum ok höfdu hesta góda, tóku þeir hann nidri í myrunum ok særdo hann enn mörgum sárum til bana. Eptir þat rido þeir á Höskuldsstadi ok lupo þar inn. Gunnlögr bóndi lá í utanverdum skála ok húsfreya, en ödrum meginn lágo þeir Ari son hans ok Þórdr son Lauga-Snorra, þeir stefndo at því rúmi ok lögdo sverdum upp í rúmit, ok skeindist Þórdr á fæti. Sídan tóku þeir þá ok leiddo út á hárino, var Ari þá lostinn í andlitit med búklara ok vard hann sár af því, en þeir lögdo fetil á hönd Þórdi ok ætludo af at höggva, ádr Þorbeörn Sælendíngr ok Þorsteinn

1) frá [vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í sömu.

3) Kolbeinn sendi Brand Kolbeinsson ok Brodda Þorleifsson (mág sinn, bæta vid *B. E. Gr.*) ok Hafur Biarnason til Dala, ridu þeir ofan Laxárdal ok höfdu á öllu hundradi manna. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) skeint. *B. E. Gr.*

5) Márssonar, bæta sömu vid.

6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

7) Hallssonar, bæta vid *B. E. Gr.*

Lystknappr [1]) fengo grid fyrir alla þá, þvíat þeir vóru tengdir sín á midlum. Sídan lèto þeir Þórd rída til vads med sèr, ok er þeir kvamo í Hiardarholt, vóru þeir Brandr þar fyrir ok vóru í svefni, höfdu þeir á eingum manni unnit. Beörn var ei heima ok hvergi karlar á bæum. Ridu þeir Brandr þá inn í Hvamm ok siá þar mann undir hlídinni upp frá akri, var þat Þorleifr Gilsson [2]), hann vildi laupa undan ok upp í feallit, er hann sá þá, en þá kvamo á hann herfötur, ok kunni hann ei gánga nema nokkut lítit móti þeim ok þó seint, en er þeir fundo hann, vágo þeir hann. Snero þeir þá upp í Túngo ok kvamo þar miök á úvart, ok komst Helga húsfreya naudugliga í kyrkiu kona Sturlu med Snorra son sinn, er þá var fiögra vikna, en þeir unno á þeim manni er Valbeörn hèt, særdu hann þrem sárum ok rænto þar til tuttugu hundrada med því er spillt var. Kèrlíng ein var í Túngo med Jóreidi húsfreyo, hon kvad víso þessa um þá flokksmenn:

Beinir [3]) Brandr til rána
bródir Páls í hlióđi,
hygg ek at hvargi leggist [4])
hinn Broddi þó minni.
Olmr var her at [5]) healmi
Hallvardr af dag allan,
hann man [hefndir vinna [6]),
Hafur Bearnasun varna.

Sídan rido þeir til Saurbæar hverirtveggia, leitudu þeir Sturlu [7]) í Túngo ok á Stadarhvoli, er þeir kvamo þar. Þadan ridu þeir á Bearnastadi ok eltu í feall upp Þorfinn í Múla ok Þiódúlf Þórgrímsson [8]) Þeir fundust í Tialdanesi ok þeir er Svínadal höfdo ridit, ridu þadan ok inn til Kleyfa, ok þar fundust þeir Kolbeinn allir. [Höfdu þeir drepit þrettán menn í þessari ferd, en særda

[1]) Eystknappr. *C. St.* Lysuknappr. *A. B. E. Gr* þ. bródir hans, bæta vid *B. E. Gr.*

[2]) þorleifssonar. bæta vid *B. E. Gr.*

[3]) beinn er. *B. E. Gr.* beinn ok. *A. C. St.* þ.

[4]) þykki. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) med. sömu.

[6]) hefndar vinnu. *C. St.* hefdar vinnu. *A. B E. Gr.* þ.

[7]) í kyrkiu, bæta vid *B. E. Gr.*

[8]) þorgeirsson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

marga. Eptir þetta rido þeir til Rútafiardar. Lodinn hèt madr er bió á Feardarhorni, hann ginnto þeir or bænahúsi ok fótheoggo [1]), en eptir þessi verk rídr Kolbeinn heim nordr á Flugomyri ok undi vel vid ferd sína, þótti þetta hafa verit hin mesta herferd.

26. [Þeir menn er Tumi hafdi á skipum sent, þá er þeir urdo varir vid úfridinn, sigldu þeir [2]) vestr til Flateyar, var þadan giör neósn Þórdi vestr í Arnarfeörd, var honum sva saga borin, at Tumi mundi vera í kyrkio ok Kolbeinn mundi sitia um kyrkiona. Þórdr bad menn sína þegar herklædast ok gánga til skips, var þá ytt skipino ok tafdi [3]) þegar fyrir hvassvidri, ok gèngo menn þá heim aptr. Hèt Þórdr á gud, at vedrit skyldi lygna, ok iafnskeótt fèll vedrit. Fór Þórdr þá á skipi inn til Otrárdals, vóru þar þá *kvamnir menn af* Bardaströnd ok segia þeir öll tídindi, sem giörzt höfdu í ferdum Kolbeins, ok þat med, at Þórrídr Ormsdóttir væri kvamin í Flateyo med sun þeirra Tuma er Sigurdr [4]) hèt, ok vildi hon finna Þórd sem fyrst, fór hann þá sem hvatast til móts vid hana, kvámo þá ok þar menn Þórdar innan or Króksfirdi, þeir höfdu handtekit þar mann er Lodinn hèt [ok var Ingimundarson [5]), hann hafdi verit med Kolbeini í Reykhólaför, lèt Þórdr leida hann nordr á ferioveg [6]) [ok fèkk þann mann til at vega hann er Þorkèll [7]) hèt [8]) ok var bródir [þeirra Gudmundarsona Asbearnar ok Gríms [9]) Þórrídr spurdi Þórd um fè þat er Tumi hafdi átt, hversu hann vildi því skipta? Þórdr lèt sem lítit mundi til skiptis, þótt þeir hefdo átt lönd nokkur saman í Dölum, þætti mèr rád, segir hann, at þú hefdir fè þat allt er vid eigum í þessum sveitum, en ek hitt sem fæst af fèlagi okkar Kolbeins, ok því iátti hon, ok þau handsöl áttust þau vid, þótti Þór-

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) Eptir dráp Tuma sigldu menn hans *o. s. fr. A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) kafdi. *B. E. Gr.*

4) Sighvatr. sömu.

5) vantar í *A. C. St.* þ.

6) feriuvag. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) Þorleifr. *B. E Gr.*

8) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

9) Asbiarnar Gudmundarsonar Grímssonar. *B. E. Gr.*

rídi þetta giört af ástúd vid sik, vóru þar ok undirskilin öll mannaforrád, ef til þyrfti at taka, þau er Sighvatr hafdi átt, var Ramn Oddsson vottr ok Teitr Styrmisson, Kolbeinn Grön ok Nikolás Oddsson ok margir adrir, fèkk Þórdr gott ord af þesso af alþydo, þótti öllum mönnum þetta vel fara. Eptir þetta fór Þórrídr til Saudafells ok var þar [1]) hin nærsto misseri. [Þórdr fór or Flateyo vestr í feördo, en sendi til Borgarfiardar Ingeald Geirmundsson [2]) at vitia heita þeirra, er þeir [3]) Þorleifr ok Bödvar höfdu honum heitit um haustit á Feriubakka, at þeir skyldo veita honum til laga á þíngi, en er Ingealdr fann þá Þorleif ok Bödvar brædur, gèngo þeir or skugga um þat, at þeir mundo ei til þíngs rída med Þórdi, fór þeim sem mörgum, at minna þótti fyrir at heita Þórdi lidi en gánga í deilur vid Kolbein, ok er þeir gèngo or þesso máli, þá segir Sturla Þórdarson, sem satt var, at þeir Þórdr höfdu eingan afla til þíngreidar móti feölmenni Kolbeins ok Sunnlendínga, en þó kvedst hann vilia veita Þórdi allt slíkt er hann mætti. Eptir þat fór Ingealdr vestr aptr ok segir Þórdi til sva búins. Þann sama vetur sendi Kolbeinn Einar Dránga [4]) nordr á Lánganes med nokkra menn til at drepa þá Blasíussono [Almgeir ok ———— [5]), giördist þá sva, at Eyfirdíngum ok þeim, er verit höfdu vinir Sighvats, þótti hart undir at búa þeim afarkostum, er menn urdu at þola af Kolbeini í ránum ok manndrápum, kvam þá sva, at þeir giördu Þórdi ord, at þeir mundo honum veita, ef hann kvæmi nordr þángat med nokkurn afla til móts vid þá.

27. Eptir dráp Tuma Sighvatssonar gèngo margir frændr Þórdar ok vinir undan honum í lidsemdinni, vard hann þar af hugsiúkr ok vissi ei giörla hvad til ráds skyldi taka, gaf hann nú upp bústadinn á Myrum. Rafn Oddsson baud honum þá at taka vid búi á Eyri, þat þekktist Þórdr ok þakkadi honum med mörgum ordum, sem adra vinsamliga luti, þá er Rafn veitti honum.

1) vistum, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St* þ.

2) fór Þórdr þadan til Borgarfiardar, at vitia *o. s. fr. A. B. E. Gr.*

3) Sturla Þórdarson, bæta vid *B. C. E. Gr St.* þ.

4) Draga *A. B. C. E. Gr St.* þ.

5) eyda í handritinu; frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Nú tekr Þórdr þat til ráds at búa öll hin stærstó skip í Vestfiördum, ok þar til fèkk hann menn, svá at þau vóro alskipud, kvam Teitr Styrmisson til móts vid hann med eitt skip or Breidafirdi, þar vóru á med honum Bardstrendíngar ok heimamenn hans. Svarthöfdi ok Rafn styrdu einó skipi, en tvö kvamo or Arnarfirdi er skipud vóro Arnfirdíngum. Bárdr af Söndum styrdi skipi því er Raudsídan hèt, þat var stærst af skipum Þórdar, þar vóru á Dyrfirdíngar [1]) ok Helgi Halldórsson. Ingealdr Geirmundarson styrdi tíæríngi, Bearni Brandsson [2]) styrdi skipi því er Trèkyllir hèt, vóru þar ok á Dyrfirdíngar. Kolbeinn Dugfússon ok Hákon Galinn styrdu Stadarferio or Holti, vóru þar á Önundarfirdíngar. Annat skip var búit or Önundarfirdi, þat var tíæríngr, því styrdi Sigurdr Rábiti [3]) Eyvindarson. Or Isafirdi vóru búin enn þriú skip, Nikolás Oddsson styrdi einó, ödru styrdi Eyúlfr Eyúlfsson Kárssonar, Sigmundr Gunnarsson styrdi Ognarbrandinum, þat var mikil skúta, þar vóro á Isfirdíngar. Bárdr Hiörleifsson styrdi tíæríngi, ödrum tíæríngi styrdi Sigurdr Vegglágr norrænn madr, Kètill Gudmundarson ok Almar Þorkèlsson styrdu því skipi er þeir höfdu tekit á Ströndum er Snækollr hèt, þar var á Gèstasveitin. Þórdr Sighvatsson styrdi skúto einni mikilli, þar vóro á heimamenn hans ok þat mannval er honum þótti knáligast, á hvert skip setti hann nokkra heimamenn sína er hann trúdi best, [ok lèt þá þar vera á [4]), ok er þessi fimtán [5]) skip vóru búin, hèllt Þórdr þeim nordr yfir Isafeardardiúp ok svá nordr til Hornstranda, þar kvam til Þórdar Ari frændi hans Ingimundarson [6]), ok var hann þá átián vetra. Adr Þórdr sigldi or Vestfeördum, sendi hann ord Sturlu Þórdarsyni, at hann skyldi vera fyrirmadr sveitanna til atgæzlo vestr þar, ef nokkur úfridr væri giör af Nordlendíngum. En er Þórdr var á Hornströndum, settist fyrir hann vedur, en þar var eíngi bygd í nánd, fengo menn þá eingar vistir ok vóru þar fimm dægur, þadan tóko þeir ródrarleidi allt fyrir Hornstrandir ok fórst

1) ok Árnfirdíngar, bætа vid *B. E. Gr.*

2) ok Páll Gríss Kálfsson, bæta sömu vid.

3) vantar í *A. C. St. Þ.*

4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

5) tólf. *E.*

6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

þeim heldr erfidliga [1]), allt þar til þeir kvamo í Trèkyllisvík tveim náttom fyrir Jónsmessó Baptistæ, hon var þá á föstudegi, vóro þá tekin strandhögg stór. Þórdr lagdi öllum skipunum Jónsmesso kveld út undir Trèkylliseyo ok átti þar stefno vid lid sitt, kvam þá Asgrímr Bergdórsson til Þórdar ok segir honum þá sögu, at Kolbeinn Ungi dragi lid saman fyrir nordan Flóa ok hefdi fengit mart skipa ok ætladi at Þórdi ok halda hit ytra til móts vid hann, en senda suman herinn vestr landveg fyrir, en þat kunni hann ei segia hverio lidino Kolbeinn mundi fylgia. Þeim Þórdi syndist sem vera mundi kvittr nokkur um lidsdráttinn Kolbeins, sá er útrúligr væri, ella mundi þat ei meira lid en hit fyrra sumarit fór nordan til Isafiardar. Fór Asgrímr þá heim. Þórdr taladi lángt eyrindi fyrir lidino, minnti hann menn á harma sína ok eggiadi í ákafa at menn skyldo vera sem hraustastir, þó at í nokkra raun kvæmi, segir hann ok mönnum deili á, at menn skyldo allir leggia til einnar hafnar, vóru þegar uppgaungur ætladar ok at fara med hernadi, þóttist hann eiga van lids, ef hann kvæmi til Eyafiardar, hann hafdi þá ei meira lids en áttatygi [2]) manna annars hundrads, báro menn þá greót á skipin ok biuggust til brottlögo, reyro þeir þá inn fyrir Reykianes, austræn gola var innan á flóann, sva at ifellt var, ok sigldu þeir þá nordr á flóa.

28. Nú er at segia frá Kolbeini. Þegar er varadi, dró hann saman öll stórskip [3]) í Nordlendíngafiórdúngi, þessi skip öll lèt hann draga til Skagafiardar, ok beóst hann [í höfn þeirri er heitir í Selvík [4]) fyrir vestan Skaga. Sá atburdr vard, þá er Eyfirdíngar beoggust undir Ríseyo ádr þeir hèldo nordan skiponum til Skagafiardar, at þá er þeir gèngu midlum skipanna, steyptist einn madr á kaf ok kvam aldrei upp sídan, ok þótti mönnum þetta íll furda, en er skip þeirra öll vóru búin ok kvamin til Skagafiardar, þá var kvamit lid allt nordan um Yxnadalsheidi þat er van var, skipti Kolbeinn þá flokkinum í tvo stadi, setti þá Brand Kolbeinsson höfdíngia yfir annan flokkinn, skyldi hann fara med síno lidi

[1]) efniliga. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) níutygi. sömu.

[3]) skip. *A. B. C. E. St.* Þ.

[4]) úr víkum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

landveg vestr til fcarda ok hafdi hann tvö hundrud manna. En er Brandr kvam vestr til Midfeardar, fèkk hann þar sanna neósn af ferdum Þórdar, at hann var kvaminn á Strandir ok ætladi at sigla nordr yfir flóa, hafdi Brandr þá seto í Midfirdi, ok ætladi at bída þess er hann vissi hvert Þórdr sneri. En er Sturla Þórdarson spurdi, at Brandr var kvaminn í Midfeörd med flokk sinn ok ætladi vestr á sveitir, dró hann þegar lid saman, kvam þá til lids vid hann Þórgils Bödvarsson ok Vígfús Gunnsteinsson, ridu þeir þá nordr yfir Haukadalsskard ok höfdu tvö hundrud manna, tóku þeir þá áfánga fyrir nordan Skardit, kvamo þá aptr neósnarmenn þeirra ok segia Brandr væri í Midfirdi ok færi heldr úvarliga, eggiadi Þórgils þá at þeir skyldo rída at Brandi sem hvatligast, en Vígfús segir sva, at hann vill veita Sturlu til þess at veria hèrad med honum, en hvergi kvadst hann fara mundu á sveitir annara manna med úfridi, töludu þeir um þetta lánga ríd ok urdu ei ásáttir. Þórgils segir, at hann vill at þeir rídi nordr á þá Brand sem hvatast, ok vefdó þat ei lengi fyrir sèr, Sturla segir ok, at hann vill gearna at þeir hèldo nordr á, ef eingir vildo undan skorast [1]) fyrirmennirnir, segir þá mundi lítit verda efni þar til atreidar, er ei [yrdo allir á [2]) eino rádi er fyrirmenn skyldo heita, gèkk Vígfús þá or þessu máli ok reid brott vid sína menn, dreifdist þá ok allr samnadrinn þeirra Sturlu, reid Sturla þá vestr til Dala, en er þeir Brandr spurdo lidsamnad þeirra Sturlu, brugdu þeir setunni ok rido nordr til Skagafeardar ok vildo fá meira lid.

29. Þá er Kolbeinn var búinn til brottlögo, þá vard þat tídinda, at menn kvamo til hans sunnan um land ok segia honum þau tídindi, at Gissur Þorvaldsson væri útkvaminn sudr á Eyrum ok stefndi fund vid Kolbein, en Kolbeinn segir, at hann var þá búinn til ferdar þeirrar, er hann vildi fyrir eingan mun bregda, þat var Jónsmesso-kveld [3]) er Kolbeinn sigldi út eptir Skagafirdi ok sva út fyrir Skaga ok sídan vestr á flóa, hann hafdi þá

[1]) úrskèrast. *B. E. Gr.* úrskèra. *A. C. St.* Þ.

[2]) hyrfu allir at. *B. E. Gr.*

[3]) Jónsmessudag siálfan. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

tuttugu skip ok ellefu [1]) tugi hins fiórda hundrads manna. Kolbeinn siálfr styrdi því skipi er nærri var haffæranda ok var þrennum [2]) bitum [3]) útbitat, þar var á kastali vid siglo, ödru skipi styrdi Asbeörn Illhugason. Sökko-Gudmundr styrdi mikilli ferio [4]), Kètill Gnúpsson ok þeir Grímseyíngar höfdo enn mikit skip, Hialti Helgason or Leirhöfn styrdi enn mikilli ferio, Rani [5]) Kodransson var ok einn skipsteórnarmadr, Einar Drángi [6]) styrdi enn eino skipi, Ottar Snoppulángr [hafdi enn ferio [7]), Víga-Bútr styrdi enn ferio mikilli, en þó vèr telium ei alla skipstiórnarmenn nordan, þá hafdi Kolbeinn marga hina röskvusto menn setta á hvert skip, mátti sva atkveda, at öll skip Kolbeins væri alskeöldud framan til siglo, höfdu eingir menn sèt á voro landi fyrr þvílíkan herbúnad á skipum, sigldi Kolbeinn sva útleid vestr á flóa, ok ætladi ei vid land at kvama fyrr en fyrir vestan Horn. Nú er frá því at segia, at Þórdr sigldi vestan á flóa, ok er þeir varo kvamnir á midian feördinn [8]), þá mælti madr á skipi Kètils Gudmundarsonar er [Þorgeir hèt ok [9]) var kalladr Kornasilgia [10]), hann leit til hafs út ok spurdi, hvert selar lægi á ísinum, ok er fleiri menn siá þetta, segia þeir at þar sigldo skip Kolbeins [11]), vóro þá lagin [12]) seglin, ok tóko menn þá tal sitt ok rádageördir, mæltu flestir at þegar skyldi róa út at þeim, þvíat þá fèll vedrit í logn, en sumum þótti þat úfært fyrir þá sök, at allir sáo at mikill lidsmunr mundi vera; var þat þá rád viturra manna at heita nokkro, þá hèt Þórdr á gud almáttkan ok heilaga Maríam [13]) [módur guds [14]) ok hinn helga Oláf kóng til árnadar ords, var því heitit, at allir menn er þar vóru med Þórdi skyldu vatna [15]) allar föstunætr innan þeirra tólf mánada,

[1]) níu. *A. C. St.* þ. nær níu tygum. *B. E. Gr.*

[2]) þeirnum. *B. Gr.*

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) miklu skipi. sömu.

[5]) Hrafn. *A. C. St.* þ. Hrani. *B. E. Gr.*

[6]) Drægi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[7]) var ok einn skipherra. *A. C. St.* þ.

[8]) flóann. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[9]) vantar í *A. C. St.* þ.

[10]) Kránusilgia. *A. B. C. E. Gr. St.* þ

[11]) vantar í sömu.

[12]) felld. sömu.

[13]) *sanctam Mariam.* sömu.

[14]) vantar í sömu.

[15]) vatnfasta. *A. B. Gr. St.* þ.

ok fasta laugardaga alla til vetrar ifram, ok láta kaupa tólf mánada tídir fyrir sálo Haralds kóngs Sigurdarsonar, var þá fest heitit med handtaki, eptir þat bad Þórdr létta skipin ok búast til ródrar, var þá þegar skipat hverso skipin skyldo framleggia, var þá tekinn ródur út eptir flóanum til móts vid þá Kolbein, þegar er þeir varo búnir, en er menn Kolbeins sáo at skip Þórdar reyro innan á flóann, þá felldo þeir seglin ok lögdo skipin saman í tengsl, var þat nær Skaga en Horni, en þat var í þann tíma dægra [1]) er sól var skamt farin um myrgininn. Kolbeinn lagdi skip sitt miök í midian flotann, skip Sökko-Gudmundar lá nærst Skaga, en skip Asbearnar Illhugasonar lá í annan arminn nærst Horni, snero þeir Kolbeinn framstöfnum á land inn, en er Þórdr kvam í skotmál vid skip Kolbeins, bad hann leggia skip sín í tengsl ok greida atródrinn, var sva tilskipat, at Ognarbrandrinn, er Sigmundr Gunnarsson [2]) styrdi, skyldi vera nærstr Horni i móti skipi Asbearnar Illhugasonar, en þar nærst lagdi Þórdr síno skipi, þá lagdi nærst því skip Helga Halldórssonar, þá var skip Teits Styrmissonar, en í annan arminn var skip Sanda-Bárdar til móts vid skip Sökko-Gudmundar, en þar í midli lögdo menn fram skipum sínum sem drengskap höfdo til. Eptir þetta gékk Þórdr í framstafn á skipi síno, [ok er hlió l fékkst [3]), þá taladi hann skírt ok skörugliga, hátt ok hermannliga, ok baud Eyfirdíngum ok öllum mönnum fyrir nordan Yxnadalsheidi grid med mörgum prydiligum [4]), fögrum ok frábærum ordum, en er Kolbeins menn heyrdo hverso horfdi talit, þá þótti þeim ei örvænt at nokkut mundi digna hugir manna þeirra sumra er látit höfdo vini ok frændr á Örlygsstödum fyrir Kolbeini ok þá vóro enn úbættir, þá æpti einn af Kolbeins mönnum, bad úvininn þegia ok kvad aldrei sættast skyldo, manto fara slíka för sem Tumi bródir þinn fór í vár á Reykiahólum, ok því verr sem þú færir þik siálfr til banalagsins [5]). Eptir þetta æptu hverirtveggio heróp, ok tókst þá bardaginn, ok var fyrst vakinn af Kolbeins

[1]) dags. *A. C. St.* þ.

[2]) Nikolás Odddson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) vantar í *A. C. St.* þ.

[4]) þydligum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) benialagsins. *B. Gr.* beinalagsins. *A. C. St.* þ.

mönnum med skotum ok greótkasti, ok vard þar hörd ríd ádr skipin kvamo saman ok hverir kvamo stafnleám[1]) á skip annara.

30. Nú tókst hardr bardagi. Þórdr Sighvatsson ok þeir hellsto hans menn vóru klæddir blám brynium, beörtum stálhúfum, snörpum sverdum ok stinnum spiótum, er hann hafdi fengit sér[2]) í Noregi á þeim misserum, sumir vóru í ríngabrynium eda med ödrum hætti búnir. Kolbeins lid var í sama máta miök vel bryniat ok búit at vapnum ok verium. Hófst nú bardaginn fyrst med griótí ok skotum, skuto menn Þórdar svá hart, at Kolbeins menn fengo ei annat geört en hlíft sèr um ríd, halladist þá bardaginn á Nordlendínga[3]), kvam þat mest til tveggia luta vegna, at Kolbeins menn höfdo greót ei meira en lítit á tveim skipum, en þeir Þórdr höfdu hladit hvert skip af greóti, annar lutrinn var sá, at á skipum Kolbeins varo fáeinir menn þeir er nokkut kunno at giöra á skipum þat er þeim væri gagn at, en á Þórdar skipum var hver madr ödrum kænni. Nú má þat skilia, at med þvílíkum atburdum má sigrinn skiptast med audno á midlum höfdíngianna, en ei volli þat, at ei hefdo hverirtveggio hit besta mannval. En ádr greót-rídinni var lokit, þá hrukko Kolbeins menn á flestum skipum aptr um siglo, eggiar þá Þórdr menn sína fast, at þeir skyldo greida uppgaungur. Nikolás Oddsson, Eyúlfr Eyúlfsson ok Sigmundr Gunnarsson gengo fyrstir manna upp á skip Kolbeins, en er Kolbeinn ok menn hans sáo þat, þá herdo þeir at þeim ok báro þá alla fyrir bord med speótum, vóru þeir þá dregnir af sundi upp á skip sín. Eptir þetta tekr bardaginn at festast, ok var þá ákafliga barizt, ok mest um stafna, er fættist greótit[4]), tókst þá mannfall megnt ok halladist mest í lid Kolbeins, gékk ok eingi iamndiarfliga fram af mönnum Þórdar sem hann siálfr, sva sem segir Ingealdr Geirmundarson í atlögu flokki, þeim er hann orti um bardagann á flóa. Nú er þetta merkiligt, at Ingealdr var seálfr í bardaganum, ok orti þetta kvædi þegar um vetrinn eptir:

[1]) stafnlagi: *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) keypt ok kaupa látit, bæta sömu vid.

[3]) því þetta varadi lánga tíma, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) mínkadi griótkastit, sömu.

þórdr ód í styr strídom [1]),
strengs kvam hagl á drengi,
endr [2]) rifo ymo [3]) vindar
yggcarteöld [4]) sem [5]) skeöldo.
Gunnmána nam [6]) grenna [7])
galdur freyr Sigtryggs [8]) tealda
ormr stód [9]) í val vörmom [10]),
vígskód [11]) drifust [12]) blódi.

Ok enn:

Rít vard raud at mæta,
rodin [13]) speót í valgreóti,
gustr knúdi [14]) miök mistar,
mein fèkk her af steinom.
Stærdist healdr, en [15]) hurdir [16])
hárs [17]) reiddust [18]), skip meiddust,
búkr fèll á val víka,
vapnadóms at rómo [19]).

þetta enn:

þórdr vann flest, [þar er [20]) firdar
fleinhreggs [21]) bruto [22]) eggear,
framr [23]) gat sun at semea
Sighvats dunor vigra.

1) stirdan. *B. E. Gr.*
2) ends. *A. C. St. þ.*
3) ímun. sömu.
4) ógnartiöld. sömu.
5) vid. *C.* fyrir. *A. B. E. St. þ.*
6) vann. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
7) gègna. *A. C. St* þ. grana. *B. E. Gr.*
8) Sigars. *B. E. Gr.* Sigurs. *A. C. St. þ.*
9) raudst. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
10) vörum. *E.* vörmu. *A. C. St.* þ.
11) vígslód. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
12) drifin. sömu.
13) rudust. *B. E. Gr.*
14) knúdist. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
15) er. *A. C. St.* þ.
16) hardir. sömu.
17) hvass. *B. E. Gr.*
18) reiddi. *A. C. St. þ.*
19) rómi. *B. E. Gr.*
20) þat er. *B. E. Gr.* en. *A. C. St. þ.*
21) fleinhregg. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*
22) bitu. *A.* C. *St.* þ.
23) fram. sömu.

Ognrökkum frá ek ekki
allsnart í styr hearta,
þar er hraut á seá sveiti,
sverdálfi meök skeálfa.

Taka nú skipin at leggea sem nærst hvert ödro til höggorustonnar, tókst þeim Kolbeini þá úgreidt atlagan, sva at ei kvamst fram þat hit mikla skip er seálfr hann var á, ok enn fleiri hin stærsto skipin þeirra, ok vard þar bugr nokkur á fylkíngu þeirra, ok halladist í þessari svipan bardaginn í lid Kolbeins, hann hafdi sik lengstum lítt vid orustona um daginn, báro til þess tveir lutir, sá annar, at hann þóttist hafa lidskost gnógan, en hinn annar, at hann var heill lítt, ok þótti honum sèr varla hent at gánga í stórerfidi, en allir menn visso, at Kolbeinn var hinn fræknasti madr ok höfudkèmpa [c]) vapna sinna, stód hann vid siglo á kastalanum ok skipadi þadan til atlögunnar, en er hann sá, at ei var víst at sva búit hlyddi, þá hèt hann á menn sína ok bad suma gánga af sínu sipi ok á þau skip, er lá vid at hrodin mundo verda, en Healta Helgason or Leirhöfn bad hann leggia síno skipi á skut skipi Þórdar, ok enn hèt hann á fleiri skipstiórnarmenn at leggia skyldo á skut Vestanmönnum ok giöra ríng at þeim, er þat ei medal-skömm, segir hann, ef þeir skulu vinna ydur med hinum smám ok mannfám skipum, er þeir hafa, vid þann mikla skipa afla er vèr höfum at dregit. Leysa þeir nú skipin or tengslum ok fara sva at sem Kolbeinn hafdi fyrirsagt, en nú var ádr sva kvamit orustonni, at þeir menn af lidi Þórdar, er fræknastir vóru, höfdo þá greiddar uppgaungur á sum skipin ok ætludo at gánga upp á skip þeirra Kolbeins, ok urdo hèr nú margir lutir iamnsnimma þeir er mikillar frásagnar ero verdir, en þó verdr fyrst um einhveria at tala, var þessi ríd miök skadsöm í lidi Kolbeins, ádr en hit snarpasta mannval hans kvam í opna skeöldo þeim Þórdi, höfdo þeir Þórdr eydt miök skip sín aptan ok var allr þorri manna kvaminn fram um siglur, ok þá er kallit kvam á skip Þórdar, at tveggia vegna væri at þeim lagit, urdo þeir vid hveriotveggia at seá, gèkk þá Þórdr aptr á skip sitt, ok sva giördo margir hans

[c]) til, bæta vid *A, B, C, E, Gr,* þ.

menn, en Þórdr hafdi lítit deildarlid, eggiar hann þá at þeir rækio af sèr þá fyrst hina úþarfligu bakiarla [1]), er þá vóru kvamnir þeim til úhagligra íhöggva, bad Þórdr þá þegar, at þeir gèngio upp á skip [2]) Healta, ok vard þar lítil vidrtaka ádr uppgaungur tókust, gèkk sá madr fyrstr upp er Aron hèt ok var son Halldórs Ragnheidarsonar, ok þar næst Þórdr siálfr, lagdi Þórdr þá til Healta ígègnum bryniona ok scálfan hann ok nísti hann sva daudan út vid bordino, ruddo þeir þat skip sva vandliga, at náliga var hver madr drepinn eda fyrir bord rekinn, vard ok fám einum af sundi hólpit, en medan Þórdr hafdi þetta at starfa, þá höfdu Kolbeins menn kvamit stafnleám á skip Þórdar ok dregit þat fram á midli skipa sinna, fèllo þeir þar Án Askèlsson ok Snorri Loptsson ok Steinúlfr Þorbearnarson í stafni á skipi Þórdar ok vildi eingi þeirra flya, hinn fiórdi madr fèll þar [er Klement hèt [3]), ok særdu hann bædi Kolbeins menn ok Þórdar menn, en allir adrir flydo á þau skip er næst lágo, tókust þá laup mikil medal skipanna, en er Kolbeins menn gèngo upp á skip Þórdar, þá giördist þeim ávindt er nærstir lágo, en í þenna tíma höfdu þeir Kolbeinn Grön, Teitr Styrmisson ok nokkrir menn adrir gèngit á skip Kolbeins, ok er til kvamo heimamenn Kolbeins, þá er hann hafdi tilsent af skipi síno, þá vóru þeir Teitr ok Kolbeinn bornir ofrlidi ok reknir fyrir bord, ok kvamust naudugliga til sinna manna aptr, ok var þá bardagi hinn ákafasti, kvamo Kolbeins menn þá stafnleám á skip Teits ok drógo þat fram midlum skipa sinna, ok í þeirri ríd vóro særdir Teitr ok Ásgrímr Baulofótr [ok Almar Þorkèlsson [4]), flydi þá allr þorri manna af því skipi ok á skip Kolbeins Dugfússonar, Teitr hióp ok þar á, var þat sva hladit ok þraungt at inn fèll um söxin ok háreidarnar [5]), leóp þá meginn þorrinn á skip Sanda-Bárdar, tók nú bardaginn at losna, ok leópo menn nú títt í millum skipanna, en er Þórdr ætladi aptr á skip sitt, þá sá hann at þat var audt af hans mönnum, en hann hafdi þá ei lidskost til at sækia þat, gèkk hann þá á skip Svarthöfda ok dvaldist þar um ríd, þá sá hann

1) bakhiarla. *A. B. E. Gr.*

2) stafn. *B. E. Gr.* lid. *A. C. St.* Þ.

3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) vantar í sömu.

5) háborurnar. sömu.

at Nikolás Oddsson ok Eyúlfr Eyúlfsson ok öll sveit þeirra var hrokkin aptr um siglo á Ögnarbrandinum ok þar var þá búit til uppgaungo, leóp hann þá upp á skipit til þeirra ok eggear ákafliga at þeir skyldo herda sik [1]), leypr hann þá fyrstr allra manna fram í stafn ok hefir skeöldinn yfir höfdi sèr, en sverd í annari hendi, fylgia þeir honum þá alldiarfliga, ok verdr hèr nú hit snarpasta el, ok verda nú hverirtveggio sárir, höfdu Kolbeins menn ádr kvamit akkèri í stafninn á því skipi, gèngu þeir Þórdr þá sva skörugliga fram, at í þesso slagi kvama þeir af sèr akkèrino, ok þá kènna þeir Nordanmennirnir Þórd, eggear þá hver annan at hann skyldi nú ei undankvamast, er hann var sva miök kvaminn í greipur þeim. Þórdr segir þá: rètt kènnit þèr ok sækit nú at fast, þvíat sannliga skal ydur í dag reynast fyrirmadrinn Vestfirdínga úragr, segir mèr ok sva hugr um, at aldrei sídan munot þèr fá iafnvænt efni vid mik. Leggia [2]) þeir nú ok at fríulaust Nordanmennirnir, drífr nú ok þángat til af öllum skipum fólk þat er fræknast var, ok lauk sva þessari ríd, at eingi var úsár þeirra manna, er fram höfdu gèngit med Þórdi, finna þeir þá ei fyrr er aptr vóru í skipino, en vaxa tók austrinn, bad þá Sigmundr Gunnarsson at ausa skyldi skipit, eptir þat losnadi heldr bardaginn vídast á skipunum, tóko nú tiæríngarnir allir at höggva [3]) sik or tengslunum, nema þeir Helgi Halldórsson. Jón Alftmyríngr flydi fyrstr manna ok nokkru sídar Bárdr Heörleifsson, þar nærst Sigurdr Vegglágr, þá kalladi Svarthöfdi á Sigurd ok bad hann atleggia, hann giördi sva, gèkk þá Svarthöfdi þar á skip ok Rafn Snati ok nokkrir menn adrir. Svarthöfdi bad Rafn mág sinn fara med sèr, Rafn spurdi hvert hann vissi nokkut til Þórdar? hann lèzt ekki til hans vita, Rafn bad hann þá fara sem honum líkadi, en hèr er nú Ottar Snoppolángr bródurbani þinn. Svarthöfdi kvadst ei þat hirda, segir þá at unninn mundi sá sigur þá at sinni sem audit yrdi, hafdi Svarthöfdi þá fengit stór sár, en Rafn vissi þat ei, reyro þeir Svarthöfdi þá frá ok til lands. En er Teitr var afstokkinn skipi síno, þá gèngo Kolbeins menn þar upp, var þá ódr

[1]) hrada sèr. *A. B. E. Gr.* Þ.
[2]) knúast. *B. E. Gr.*
[3]) losa. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

vapnabürdr á skipi Kolbeins Dugfússonar, sva at menn þoldo ei vid, flydo menn þá sva vandliga af því skipi, at Kolbeinn einn stód eptir, tóko þá menn hans hann ok drógo öfugan midlum skipanna til sín, ok í þeirri rimmo [1]) fèkk hann fiögur sár, þriú í lærit ok vóro tvö í gègnum, en eitt nedan í ilina ok skar út í klaufina vid þumaltána, ok var þat mikit sár. Þeir Kètill Gudmundarson ok Almar Þorkèlsson lögdu alldiarfliga fram, Bearni Brandsson ok Páll Grís hèldu einir menn best vid, en frálaga tókst þeim giptusamliga. Sanda-Bárdr hafdi skipbord mest ok lagdi vel fram ok sótti þángat flest manns er hellst þótti hlèd [2]); fundo þeir Bárdr ok fèlagar hans ei fyrr en skipit var sva hladit, at búit var vid því at sökkva mundi undir þeim, var þá sú orusta mest er kastat var handeggsum [3]) ok boleggsum midli skipanna, þá var ok skotit selskutlum [4]) ok hvaliárnum ok barizt med öllu því sem tilfèkkst, beitiásum [5]) ok árablummum, var þá bædi at flestir menn váro nokkut tannsárir ok þá tók flestum heldr at leidast höggorustan, leitudo flestir sèr at hafa hættominna þess at þeir verdo sik frío, en á því skipi er Þórdr var á staddr, þá stódu menn einatt í austri, ok var vid seálft búit at ei mundi varit verda, finna þeir nú at skipit var meldt nedan, bidia þeir Nikolás ok Sigmundr at hafa skyldi í árarnar ok leggia frá, en er Þórdr vard þess var, þá bad hann þá ei verda sva at undri at flya þegar bardagann. Þeir segia at sum væro skipin flúin, en þetta skip er náliga meidt til úfæris, en öll ero var skip, segia þeir, búin at flya ok frá at leggea. En Þórdr trúdi því ekki fyrr en hann gèkk siálfr til at seá austrinn, en þeir lèto ámedan skipit síga or hömlo ok því nærst snúa þeir frá, ok þegar er lid Þórdar sá af ödrum skipunum at hann lagdi frá, þá hèt hver skipstiórnarmadr á sína lidsmenn at leysa sik or flotanum, ok flyr undan hvert skip sem skeótast vard búit. Hèr um kvad Ingealdr Geirmundarson:

Mundi sídst á sundi
svipknyandi flya

1) rennu. *A. C. St.* þ.
2) hlœid. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) handsöxum. *B. E. Gr.*
4) spiótum. *St.* skotum. *A.* þ.
5) bekkiásum. *B. E. Gr.*

hildargards frá hördo
hretvidri geirfletiar [1]),
ef [2]) healdurs [3]) reitar [4]) hóti
hlunnfáks svinnir [5]) runnar,
gunnláturs rudu gautar
glædur, fastar [6]) stædo.

Hèr segir Ingealdr hversu mörg skip hrudust af Kolbeini:

Hrudost [7]), þar er hermenn knyþo [8])
hlutvandir [9]) dunor [10]) randa,
menn visso þat, þrennir [11])
þordo [12]) laupmarir [13]) borda.
Lyd frá ek líf vid dauda
lidvelianda selea,
en [14]) þess [15]) er grid grenndost [16])
gallt Leirhafnar Healti.

Frá því segir Ingealdr hver lidsmunr var:

Yms hafdi lid leóma
leikherdandi ferdar,
rudust mel í styr stála
stinn, tveim lutom minna,
þar frák þundar skya
þíng eggeandi [17]) leggea
gumnar [18]) seims frá glaumi
göndlar [19]) skíds um sídir.

[1]) geirfletia. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) of. sömu.
[3]) hialdur. sömu.
[4]) rèttar. *A.*
[5]) sumir. *B. E. Gr.*
[6]) fastara. *A. C. St.* þ. fastari. *B. E. Gr.*
[7]) hraud. *B. E. Gr.*
[8]) knúdu. *A. C. St.* þ.
[9]) hlaut vandi. sömu.
[10]) dunar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[11]) þrenna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[12]) Þórdr. *B. E. Gr.*
[13]) hlaupmari. sömu.
[14]) lands, bæta sömu vid.
[15]) land þat. *A. C. St.* þ.
[16]) greindust. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[17]) þíngeggianda. *B. E. Gr.*
[18]) gunnar. *B. E. Gr.* gunnars. *A. C. St.* þ.
[19]) göndar. *St.*

En er snúit var skipi Þórdar, kalladi hann til Rafns Oddssonar ok bad hann fá sèr menn nokkra, Rafn svarar, at þeir þættust hvergi ofmargir, en þó leóp Rafn á skip til Þórdar ok lupo fiórir menn eptir honum, hèldu þeir nú til lands, ok sva hver sem búinn var, var þá umræda mikil á skipi Þórdar hversu lángr bardaginn hefdi verit, kvam þat ásamt med þeim, at þá mundi sól í midio landsudri, en þá var lágr veggr undir sólina er þeir fundust. Þórdr var þá allhugsiúkr, þvíat þeir söknudo fyrir víst skips Sanda-Bárdar ok sva Trèkyllis er Bearni Brandsson styrdi, ok hugdo at því mundo ei Kolbeins menn reka flótann, at þeir mundo hafa þessi skip í síno valdi. Þeir Bárdr höfdu látit allar árarnar nema einar fiórar, lagdi þá Bearni at þeim ok tók af þeim nær tuttugu [1]) manna, en fèkk þeim árar sva at þeir urdo byrgir [2]), reyro þeir þá undan allir saman, Kolbeins menn reyro eptir á tveimr skipum litlum [3]), ok þordo ei á þá at ráda er þeir kvamo eptir, ok snero sva aptr til flotans, lágo þeir Kolbeinn þar á hafino ok bido hafgolo [4]), þvíat feriurnar vóro þúngar undir árunum.

31. Þórdr ok hans menn tóko ródur sem ákafast ok stefndo upp undir Reykianes, þvíat þeir hugdo at þángat mundi skèmst til lands ok var þar at lagt ok uppgèngit, tóko menn þá vatn á skip sín, þvíat margir vóru þyrstir miök, var þá nón dags Þórdr bad þá Rafn Oddsson gánga á skip sitt ok róa fyrir inn til Arness ok láta taka öll þau ross sem vóru í víkinni, vil ek, segir hann, at þeir menn sem mest ero sárir rídi undan úvinum sínum, en ei taki þeir menn rossin er vel megu fæturnar [bera á feöll upp [5]), giördi nú Rafn sva, en Þórdr fór meir af tómi, en er þeir kvamo í víkina, kènndo þeir ferio Sanda-Bárdar ok Trèkyllinn at þau reyro þar at utan, urdu þar fagna fundir, þá er þeir hitto Þórd, könnudo menn þá lidit ok fundo at þeir höfdo fá eina menn látit, en náliga var hver madr nokkut sár, sá er med Þórdi hafdi verit, en öll alþyda var lítt sár. Lèt Þórdr þá kalla saman lidit ok skaut

[1]) þrítygi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vel færir, sömu.
[3]) vantar í *A. C. St.* þ.
[4]) hafgufu. *E.*
[5]) hræra, en vèr verdum at bera hina á fiöll upp. *B. E. Gr.*

á húsþíngi, þakkadi hann þá mönnum góda fylgd[1]), ok fór þar um mörgum ordum ok fögrum[2]), væntir mik ok þess, segir hann, at nú mani ydr þykkia í dag um hafa skiptst hamíngian med okkr Kolbeini, þann tíma er vèr spyrium hinn mikla mannskada er ek hygg hann fengit hafa hiá því sem vèr, vil ek nú bidia ydr, gódir hálsar, at þèr leggit til þat ydr þykkir rádligast upp at taka, ok er nú sva kvamit voro máli, at þegar Kolbeini gèfr byr, man hann sigla vestr híngat, ok synist mèr sem vèr munum lítt kvama vid undanferdinni á skipunum, þvíat vèr höfum lítinn[3]) trèreida á flestum skipum vorum, vil ek því nú at þèr rádit um med mèr. Lögdu menn þá allmisiafnt til, flestir þeir er skipin átto fysto at ei skyldi vid þau skiliast, en þeir er ekki átto í skipunum, hugdo meir at því hvad þeim mundi hent ok hættuminnst, ok verdr [þar endir á málino[4]), at Þórdr sèr at lítit [verdr tillag[5]) alþydunnar, þá tók hann sva til orda: sva góda raun hafa mèr gèfit þessir mínir fèlagar ok fóstbrædur, er mèr hafa nú í dag veitta sva drengiliga fylgd, at varla man á voro landi dæmi til finnast, at menn hafi vid slíkt ofrefli átt at skipta, ok sva drengiliga í móti gèngit, sem gud þakki ydr, at ei vil ek því launa ydr at leida ydr á nyan leik í háska fyrir mínar sakir, þvíat meira þykir mèr verdr einn gódr drengr en allir þessir skiptötrar, þarf hèr ei lángt um at tala, at menn skulu rydia skipin ok bera allt í kyrkio sem má ok reidann, skulu ok þeir menn í kyrkio fara sem sárir ero ok ei ero færir med oss, en þeir skulo med oss fara er vèr hyggium at ei fái kyrkiugrid. Var þat um náttmálaskeid er þetta var allt algiört, ok Þórdr sneri áleidis upp med fealli frá Arnesi, skildu þeir þá vid hann Teitr Styrmisson, Egill Sölmundarson, Kolbeinn Grön ok Asgrímr Baulofótr, ok allir þeir er honum þótto ei færir med sèr, fèkk hann þeim ross ok úsára menn til fylgdar, ok skyldo þeir flytiast til Steingrímsfiardar, en er þeir kvamo skammt á feallit, þá giördist Asgrímr sva farinn af sárum, at ei mátti hann fara lengra,

[1]) framgaungu ok föruneyti, bæta vid *A. C. St.* þ.

[2]) minniligum ok merkiligum, bæta sömu vid.

[3]) lítit. *B. E. Gr.*

[4]) þat at endrmæli einu. sömu.

[5]) nytti af tillögum. sömu.

vard hann þá eptir [ok Gunnar Nautatík [1]) ok nokkrir menn adrir, en þórdr ok sú sveit er med honum var snyr upp í dal þann er verdr skammt upp frá Arnesi, beiddi þá lidit hvíldar er þar var kvamit.

32. Nú er þar til at taka er þeir Kolbeinn lágo eptir á flóanum, lèt hann nú ransaka skip sín, ok skyneadi [2]) hve mart fallit var, ok hvat sva væri sárt, at hann vildi ei med sèr hafa, finnr hann nú at mart er fallit, en feöldi sárt, fær hann nú til tvö [3]) skip ok lidfæra menn, sva at byrgt er, ok lætr flytea nordr til Skaga lík ok sára menn, var nú ok athugat, hve mörg skip þórdar þar lágu eptir, ok fundust þriú. Varo á þórdar skipi fallnir fiórir menn, ok ei þá enn látnir, varo þá gèfin grid Snorra Loptssyni ok Ani Askèlssyni, þvíat hann nefndist nafni þórdar bródur síns, Steinúlfr þorbearnarson [4]) var þegar höggvinn fyrir bord, en Klement Smidr var drepinn uppi á skipino, var An þá leiddr út á skip Einars [5]) Jónssonar. Tóko þeir Kolbeinn þá hvíld ok bido byrear ok áto mat, hugdo þeir nú at vandliga hve marga menn þeir höfdu látit í þeim bardaga, ok höfdu látizt sextíu [6]) manna allt saman ok sídar lèzt af sárum. þessir menn voro mest virdir af þeim þar lètust af Kolbeini: Gudmundr frá Sökkum, Healti Helgason, þeir Illhugasynir Einar Drángi [7]) ok þorsteinn, [Snorri þórálfsson, Sigurdr Rögnvaldsson [8]). þá mælti Kolbeinn, at Einar Jónsson skyldi taka til sín Snorra Loptsson, er þèr kunnast um hverir Vestfirdíngar hèr ero, siá þeir nú at kyrrligt giördist, ok er Snorri kvam á skip Einars, þá tók hann sva til orda, er hann kènndi An Askèlsson: gudi sè lof, An fèlagi, er ek sèr þik á lífi [9]). En er Einar Jónsson heyrdi þetta, þá mælti hann: er sva, at An feandinn er hèr sem flest íllt hefir oss giört, lèt hann þegar taka An ok höggva fyrir bord. Snorra þótti þetta verk sva íllt, at

1) vantar í *A. C. St.* þ.
2) skodadi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) þriú. *A. B. C. Gr.* þ. fiögur. *St.*
4) Biarnarson. *B. E. Gr.*
5) Lángs, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) áttatygi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) Dragi. sömu.
8) vantar í sömu.
9) heilan, sömu.

hann vildi heldr látit hafa allt þat er hann átti, þótti ofmikit af sèr lotizt hafa, [vildi nú gearna heldr hafa þagat [1]), en mátti nú ekki atgiöra. Eptir þetta bidr Kolbeinn reisa vidona ok taka til segla, vil ek nú lysa því fyrir ydr, segir hann, at nú skal sigla vestr um flóa at leita Þórdar þar til er vèr finnumst, ok láta nú sverfa til stáls med oss, en ef vèr fáum ei fundit þá, skulum vèr sigla til Vestfearda ok heria, brenna bæi ok drepa menn ok eyda sva bygdina, sva þeir mego ei þadan eflast med úfridi á hendr oss, en þó segir mèr sva hugr um, at ei sè víst at mèr verdi audit at standa yfir höfudsvördum Þórdar, sva sem hann rak nú or færi at sinni, ok nær er þat mínum hug, at hèr mani þykia hamíngio skipti ordit med okkr Þórdi, hafit nú þá stefno sem þèr sáut at þeir höfdo undan. Siglir nú sá fyrst er fyrst var búinn vestr um flóann.

33. Nú er þar til at taka er fyrr var fráhorfit, at Þórdr hefir tekit hvíld upp í dalnum, ok hafa menn sofnat fast, ok er kvamit var at sólarfalli, lèt Þórdr vekia lidit, ok vard at ausa köldu vatni á marga menn ádr lidit vaknadi, þá bad Þórdr at einhverír tveir menn skyldo gánga fram á feallit upp yfir Arnesi ok hyggea at ef þeir sæo nokkut til ferda Kolbeins, fóro þá tveir menn á fiallit ok kvamo aptr skiótt, segia þeir Þórdi at Kolbeinn sigldi utan at Trèkyllisvík [2]), segir Þórdr at þá var ei seto efni, ok bad menn þá vapna sik, gèngo þeir þá upp á fiallit ok kvamo ofan í Ingúlfsfiörd, fóro þeir þadan til Ufeigsfeardar, voro menn þá sva mæddir ok þreyttir af blódrás ok svefnleysi, at þeir vildo þá ei lengra fara, lögdust þá nidr ok tóko á sik svefn, en drottinsdaginn er Þórdr vaknadi, kalladi hann saman menn sína ok spurdi þá alþydona, hvat hellst væri til ráds at taka, fann hann þat skeótt at bóndr vóro heimfúsir, kvadst hann ok gearna gèfa þeim heimleyfi, ef þeir kvæmo til hans ef Kolbeinn sigldi vestr skiponum hit ytra vestr fyrir Horn, hèto þar flestir gódo um, snèro þeir þá flestir á feall upp, ok kvamo ofan í Isafeörd, en sumir gèngo hit efra um feöll allt til Bardastrandar, kvamo hverir þar ofan í feördona er heima átto, Þórdr sendi menn sína suma

[1]) vantar í *A, B, C, E, Gr, St.*: þ. [2]) Trèkyllisey, *A, B, C. E. Gr, St.* þ

at leita át smáskipum, en ádr menn skildust í Ufeigsfirdi, þakkadi Þórdr mönnum fylgd sína er þeir höfdo honum veitt, ok kvadst þeim öllum skyldi gódo launa, ef gud gæfi honum tíma til. Þá fór Þórdr út á Eingines ok þadan til Dránga ok sva til Furofeardar, sendi [1]) Þórdr þá menn út á Stígagnúp, at verda varir vid ef Kolbeinn sigldi hit ytra med herskipum, en Þórdr fór þar til er hann kvam Pètursmesso myrgin í Hollt í Önundarfirdi.

34. En þá er Kolbeinn kvam í Trèkyllisvík, gèkk hann á land í Arnesi ok lèt kanna kyrkiona, ok vildi vita hvat þar væri þeirra manna er honum þótti nökkur slægr til, en er hann fann eingan þann er hann vildi nokkut atgiöra, þá rænto þeir kyrkiona ok tóko slíkt er þeir fengo [2]). Drottinsmyrgin fèkk Kolbeinn neósn af at nokkrir sáramenn væro uppi á feallino, giördi hann þá menn upp á feallit at leita, þeir hitto þar Asgrím Baulofót Gilsson, hann beiddi sèr grida til fundar vid Kolbein, þeir iátto honum því ok flutto hann heim í Arnes, frændr hans bádo honum grida vid Kolbein ok at hann mundi láta hann neóta mágsemdar, þvíat Kolbeinn hafdi fyrr fylgt Hallbero Syrio [3]) systur hans. Kolbeinn kvadst ei vilia seá hann ok bad hálshöggva hann, fèkk hann þá til mann at drepa hann.. Eptir þat lèt Kolbeinn taka skip öll, hafdi sum med sèr, en sum lèt hann brenna. I þessari ferd var þat giört er aldrei hafdi fyrr giört verit á Islandi, Kolbeinn lèt taka hvali, en suma lèt hann brenna upp, segir hann at ei skyldo þeir Þórdr ala sik vid þat til úfridar vid hann, rænti Kolbeinn þá allar Strandir ok sigldi þadan til Vestfearda ok kvadst þá alla eyda skyldo, sva at Þórdr mætti ei optar þadan eflast med úfridi. Hinn nærsta dag eptir Pètursmesso sigldi Kolbeinn inn eptir Isáfirdi, Geirmundr sonr Fánga-Leóts sá skipin er hann var á neósn, ok fór hann þartil er hann kvam á fund Þórdar ok segir at Kolbeinn væri kvaminn til Ædeyar med skip sín ok hefdi lagt þar til hafnar, en er Geirmundr kvam í Holt, sat Þórdr yfir bordum ok menn hans allir, [segir hann framar [4]), at Kolbeinn mundi úkvam-

[1]) setti. *B. E. Gr.*
[2]) vildu. *A. C. St.* þ.
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) en þegar er Geirmundr mátti segia tídindi, þá bad hann Þórd úti vera, segir, *o. s. fr. B. E. Gr.*

inn at eins, nema hann hefdi siglt inn til Isafeardar, ok bad þórd út verda, var þá hrundit fram bordunum, lupo menn þá til vapna ok herklæddust, en sumir leópo at hestum, en er hestarnir kvamo, sendi þórdr menn alla vega frá sèr til mannsamnadar, Ramn Oddsson sendi hann vestr á Raudasand ok Bardaströnd, ok um alla Vestfeördo sendi hann menn, en Ingeald Geirmundarson sendi hann til móts vid Sturlu þórdarson ok Bödvar þórdarson [ok þórleif þórdarson [1]), at þeir kvæmo allir til fundar vid hann í Breidafirdi, en Eyúlf Eyúlfsson sendi hann til Isafeardar, at samna þar mönnum, en þórdr scálfr skyldi samna lidi um Önundarfeörd, ok skyldo finnast allir saman laugarkveldit í Dyrafirdi. En er Kolbeinn kvam í Ædeyo, fann hann þórdísi Snorradóttur ok Einar þorvaldsson, senda þau þá ord enum stærri bóndum fyrir nordan Isafeörd ok öllum þeim er í fridi vildo hafa fè sitt ok feör, at þá skyldo þeir allir kvama til móts vid Kolbein ok sveria honum trúnadar eida, skutust þá margir vid þórd í trúnadinum ok fóro til fundar vid Kolbein, en sumir lágo úti á feöllum med bú sín, sva at aleyda vóro bæirnir eptir. þórdr kvam ei upp mönnum fyrir nordan Dyrafeörd, gafst þá upp samnadrinn, fór þórdr þá út á Eyri, kvamo þá Rafn ok Gísli vestan til Arnarfeardar med níutygi manna, fundust þeir þórdr þá, þótti honum þá eingi föng á vidrtöko, þó Kolbeinn sigldi vestr í feördona, lèt hann þá fara heim hit úknáligra lidit, en taka fióra tíæringa ok flytea til Bardastrandar, ok stè þar á skip med sextygi manna ok fór sudr um Breidafeörd til Fagureyar, fann hann þar Sturlu frænda sinn, spurdi hann þá, at Gissur þorvaldsson var kvaminn í Breidafeardardali med feölmenni, hafdi hann þá sæzt vid Jón Sturluson, ok váro öll mál þeirra lögd í dóm Hákonar kóngs, en er þórdr spurdi at Gissur var þar kvaminn, lèt hann [þórdarsyni Bödvar ok Sturlo [2]) samna lidi um Borgarfeörd ok Snæfellsnes ok út um Skógaströnd ok sva um Gilsfeörd. En er Gissur spyr, at þórdr er vestan kvaminn ok hafdi lidsamnad, þá reid hann þegar sudr aptr. þetta sumar var Tosti Dagfinnsson fóthöggvinn bádum fótum, hèt sá madr Ingúlfr

[1]) vantar í *A, C, St,* þ. [2]) vantar í *A, B, C, E, Gr, St,* þ.

[ok var Oláfsson [1]) er honum veitti áverka. Kolbeinn sigldi vestan, þá er hann þóttist þess búinn vera, ok sat hann þá heima á Flugomyri um kyrrt. Þórdr fór þá vestr í feördo ok sat á Eyri um sumarit, ok var þá kyrrt um ríd.

35. [Kolbeinn sigldi nordr á brott or Isafirdi eptir Flóafund, en [2]) Þórdr fór vestan milli Mariomessna med mikla sveit manna, ok rido þeir Sturla þá sudr til Dala ok kvöddo menn upp ok fengo hundrad manna, rido sva nordr Haukadalsskard ok ætludo til Skagafeardar at Kolbeini. Þeir rido til Midfeardar ok sva nordr, þar til er þeir kvamo í Midhóp, þá seá þeir at nœósnir gèngo fyrir þá út til Þíngeyra, en þar vóru fyrir menn Kolbeins Oláfr Kámi [3]) ok annar madr Hari bóndi af Midhópi, hann var þá í brott ridinn ok hafdi hest allgódan, rido þeir þegar nordr. Þeir Þórdr rido þá nordr til Hólavads, sáo þeir þá nordr til bæanna, at sumir menn leypto á feöll upp, en sumir nordr á leid, giördist þá kurr mikill í lidino, at úrádligt væri at rída lengra, mæltu menn vid Sturlu, at hann skyldi eiga um vid Þórd at aptr væri snúit. Sturla vildi þat ei, þvíat honum þótti þeir hafa ámælt sèr um sumarit, at hann hefdi slæliga ridit at þeim Brandi Kolbeinssyni, rido þeir nú þar til þeir kvamo til Giliár, þá mælti Þórdr at aptr skyldi hverfa, ok sè ek nú at þèr metit vid mik atkvædi um þetta. Þeir rido um kveldit í Midhóp, [ok varo þar um náttina [4]), en um daginn eptir vestr til Rútafeardar ok lágo úti um náttina á Rútafeardarhálsi, en þann aptan dags kvam Kolbeinn í Midfeörd med þriú hundrud manna, ok kvamust þeir Gilssynir Kálfr ok Ulfhèdinn naudugliga í kyrkio, en sídan sendi Kolbeinn Kálf vestr eptir þeim Þórdi at leita um grid ok sættir, ok fann hann Þórd á Stadarhvoli, vóro þá enn grid sett til veturnátta. Iafnan lèt Kolbeinn leita um sættir, en aldrei vildi hann sveitir edr godord uppgèfa er Sighvatr hafdi átt. Medan þeir vóro nordr, urdo tvö skip aptrreka í Hvítá, Eyvindr Brattr, er út hafdi látit or Dögurdarsnesi, ok Höfda-bússan, er þadan lèt ok út, fór Þórdr nú

[1]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) Kaun. *B. E. Gr.* Kali. *C. St.* Kani. *A.* Þ.

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

vestr í feördo ok var á Eyri um vetrinn, en stundum sudr í sveitom. Þann vetur kvangadist Hákon Galinn, en um varit [fóro menn midli þeirra Kolbeins ok Þórdar [1]), ok var þá mælt, at hvertveggi þeirra skyldi utan fara, ok skyldi Hákon kóngr giöra um mál þeirra öll saman. Kolbeinn skyldi fá Þórdi sex tugi hundrada vadmála til fararefna, ok kvam þat fram, ok var sú vara færd til Hvítár.

36. En er áleid varit, tók mein Kolbeins at vaxa, ok lagdist hann í rekkio, sá hann þá at hann var ei fær til utanferdar, var þá sent eptir Gissori, ok kvam hann nordr, tók þá miök at lída at mætti Kolbeins, vildi hann þá fá öll mannaforrád í hendr Gissori ok þeim Brandi Kolbeinssyni, en Gissor var þess ei búinn, en hèt at veita Brandi frænda sínum, ef hann væri fyrir sveitum, allt slíkt er hann hafdi föng á ok færi, var þat þá ráds tekit, at sent var vestr til Þórdar, ok vóro honum þá uppgèfnar sveitir fyrir nordan Yxnadalsheidi ok öll hans födurleifd, skyldi hann selea grid í móti ok iáta sættom, öll hèröd fyrir vestan Yxnadalsheidi voro fengin Brandi Kolbeinssyni allt til Rútafeardar, skyldi hann veita Gissori slíkt er hann mætti ok sva hver ödrum, vóro bóndr í Skagafirdi fúsastir til Brands, þegar Kolbein leid, þvíat hann var vinsæll af allri alþydo, vildi Kolbeinn ok hellst hafa Brand í sinn stad, lysti Kolbeinn því þá fyrir öllum mönnum, er kvamo at finna hann í siúkleikanum, at Brandr ætti allan þorra godorda í Skagafirdi ok mikit fyrir vestan heidi, þó at hann hafi mèr vel unnat med at fara, var vid þetta tal Kolbeins Brandr prestr Jónsson, er sídan vard biskup at Hólum, hann kvam sunnan med Gissori ok var systrúngr Brands Kolbeinssonar. Stadar-Kolbeinn var þar vid, ok eggiudo þeir bádir Brand vidtöko sveitanna, fylgdarmannasveit, Kolbeins Unga bádo hann allir til at hann skyldi fyrirbindast málom þeirra, var Brandr þá á Flugomyri, er Gissor reid sudr. Kolbeinn Ungi andadist þat sumar Maríumesso Magdalenæ, þá var hann hálffertugr at aldri, sem Arnór fadir hans ok Kolbeinn Tumason födurbródir hans, er hann var eptir heitinn. Kolbeinn var miök harmdaudi mönnum sínum ok kunníngium ok

[1]) tóku til medalferdir, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

sva allri alþydo í Skagafirdi, hann var færdr til Hóla út ok graf-inn fyrir kyrkiudurum hiá Kolbeini Tumasyni frænda sínum.

37. Eptir þat var fundr áttr á Hestaþíngshamri [1]), kvam þar feölmennt um hèradit ok vestan um heidi, var þá Brandr kos-inn um allar þær sveitir, er ádr vóru ánefndar, hafdi hann þá tekiur allar af sveitonum, þær er Kolbeinn hafdi ádr haft, ok sauda-toll, hafdi hann þá bú mikit at Stad ok feölmennt. Um haustit kvamo þeir menn til Brands, er verit höfdu fylgdarmenn Kolbeins Unga, Gègnir Illhugason, Hámundr Þórdarson, Gísli Barkarson, Halldór Nef, Ottar Snoppolángr, Ögmundr Vandrædamágr, As-grímr Ormsson, Ölvidr Einarsson. Asbeörn Illhugason var þar löngum um vetrinn ok sva Broddi Þorleifsson. Arnór Eyríksson var þar ok um vetrinn, hann var systursun Brands Kolbeinssunar.

38. Þat er nú at segia vestr í sveitunum, at í þann tíma bad Rafn Oddsson Þórrídar Sturludóttur, flutti Þórdr þat miök, ok var brúdlaup þeirra at Saudafelli um sumarit, þat sumar fór Svart-höfdi utan í Hvítá med vöro þeirri er Kolbeinn Ungi hafdi fengit Þórdi. Þórdr fór nordr eptir brúdlaup Rafns, ok var sva mælt, at Eyfirdíngar skyldu kvama til móts vid hann í Midfeörd. Þórdr reid nordr med heimamenn sína, var þat á þridia tugi manna. Sturla Þórdarson reid nordr med tuttugu manna, Þorleifr or Görd-um med tuttugu manna. Þar var Kètill Þorláksson ok Gudmundr undan Felli ok margir bóndr, ok hafdi Þórdr alls meir en níutygi [2]) manna, ok er þeir kvamo til Midfeardar, vóro Eyfirdíngar þar fyrir ok höfdu áttatygi manna, ridu þeir þá nordr allir saman. Þórdr kvam í Eyafeörd Laurentiusmessodag, þann sama dag kvam þar skip af hafi, var þar Gunnar Brattr, hann sagdi andlát Urækio Snorrasonar, hafdi hann andazt Jónsmesso Baptistæ um sumarit, fór Þórdr þá til skips ok keypti þar beór mikinn ok lèt flytia inn til Grundar, var þar þá búit til veizlo Maríumessodag, [en sunnu-dag fyrir hafdi hann fund í Kristsnesi vid alla hèradsmenn, þeir unno honum eida ok gáfo honum upp eignir þær er þeir höfdo

[1]) at hestaþíngi at Hamri. *A. C. St.* Þ. [2]) áttatygi. *B. E. Gr.*

at vardveita ok Sighvatr hafdi átt, hann veitti vel Maríomesso [1]) ok gaf stórgeafir þeim er honum höfdo nordr fylgt, en Þórdr var eptir med sveit sína, er þeir rido vestr, ok voru margir tillaga illir. [Fylgdarmenn Kolbeins voru flestir med Helgo á Flugomyri, þeir voru gèmsmiklir Einar Lángr ok Gègnir Illhugason ok enn fleiri adrir [2]).

39. Brandr Kolbeinsson átti þá bú á Stad í Skagafirdi, hann var vinsæll madr ok hafdi mart manna med sèr ok hèllt sèr vel upp ok hafdi mikla rausn í búi, hann var ör af fè ok hafdi ordstír gódan. Sva segir Ingealdr Geirmundarson í flokki þeim er hann orti um Brand Kolbeinsson:

Vell [3]) gaf vargafyllir [4])
vingódr kyni þiódar,
veitti aud sá er átti
oddrógsbodi gnógan.
Blídr var ör af audi
oddstiklandi miklom,
þær lifa víst er varo
vinsæls skörúngs miniar.
Mætr fèkk ordstír yta
álmriódandi gódan,
ítr kunni blik brióta
Brandr glymfeöturs landa.
Sídst [5]) unni sá sleitom [6])
seims [7]) hyr briótr [8]) geima
optgèfnan [9]) lèt iafnan
oddriódum [10]) vinr [11]) hodda.

Fylgdarmenn Kolbeins, er verit höfdu ok þá voru med Brandi,

[1]) vantar í *A. C. E. St.* þ.
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) vel. *A. C. St.* þ.
[4]) vatla fyllir. sömu.
[5]) lítt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) sveitum. *C. St.*
[7]) seim. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) brióti. sömu.
[9]) optgèfna. *B. E. Gr.* opt gèfa. *A. C. St.* þ.
[10]) oddriódr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[11]) vinum. sömu.

fóro [1]) med dansageörd, ok kvam þat til eyrna Þórdar ok líkadi honum lítt, en er Brandr vard var vid flymtan þeirra, bad hann þá ei med fara slík illindi ok leggia skeótt nidr, segir at þar mundi mikit íllt af standa, en ekki gott, geördist þá mikill ordasveimr midli hèradanna, Þórdr var fáordr um, en líkadi þó þúngt alltsaman gèms þeirra ok þúng málaefni er honum þótti þeir hafa vid sik, mart var þá í Skagafirdi röskra manna, en þessir voro mest til rádageördar [2]) med Brandi Kolbeinssyni Broddi Þorleifsson mágr Kolbeins, Asbeörn Illhugason, Einar Lángr, Oláfr Kámi, hann beó á Miklabæ í Blöndohlíd, ok fleiri adrir, er verit höfdu vinir Kolbeins Unga. Þórdr hafdi mart fylgdarmanna med sèr. [Eptir iólin um vetrinn giördist [3]) ber feandskapr midli hèrada, en vidbárust öll vandrædi framan til páska, en grid stódo midli manna fram um alþíng, var sú sætt stofnud, at tólf manna dómr skyldi á öllum málum, þeirra er best þætto tilfallnir á öllu Islandi. Opt sást stearnan Cómeta um vetrinn. Menn Þórdar fóro iafnan vestr í feördo um vetrinn at eyrindum sínum, sendi Þórdr ord vinum sínum þeim er hann vildi nordr kvæmo at finna hann. Teitr Styrmisson fór nordr midli ióla ok föstu, hann átti bú í Flateyu ok hafdi um haustit fengit Sigrídar Hálfdánardóttur. Rafn Oddsson ok Eyúlfr frændi hans kvamo vestan á föstunni, þeir Þórarinn Tómásson ok Hákon Galinn kvamo þá ok vestan frá Sturlo. Þórarinn var heimamadr Þórdar [4]), Beörn Drumbr fór þá ok nordr ok Páll Kappnógr [5]). Um varit á páskum sendi Þórdr Nikolás Oddsson ok Almar [6]) Þorkèlsson nordr til Eggsárfeardar [7]) í lidsamnad, ok stefndu þeir lidino nordan í páskaviko.

40. Snimma föstunnar sendi Brandr menn sína sudr til Gissors, Gègni Illhugason ok Hámund Þórdarson med brèf þat er sva sagdi: «Gissori Þorvaldssyni sendir Brandr Kolbeinsson [8])

1) vóru eigi trúir at því at þeir færi ei *o. s. fr. A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) rádastodar. sömu.

3) ok giördist raunmikill ordasveimr er áleid vetrinn, var þá *o. s. fr.* sömu.

4) Sturlu. *C. St.*

5) Kappi. *A. C. St.* Þ.

6) Alm *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

7) Eyafiardar. sömu.

8) af Siad, bæta vid *B. E. Gr.*

«kvedio guds ok sína fullkvâmna vinátto. Slíkt hit sama er mitt «skaplyndi um samband vid þik, frændi, sem í fyrra sumar mælt «var [1]), ok fyrir því at ei mínkar naudsyn hverratveggio, at vèr «höldum saman sem best. Kyrrt má kalla um hagi Þórdar allt til «föstu-inngángs, þá giördist marga vega umleitan um handsöl á «löndum í Skagafirdi í hèradi varo, ok heitast at kalla sáttarrof, «ef þat er ei uppilátit, miök leita ok Þórdar menn sína vini undan «oss at heimta, med slíko sem þeir fá hellst vidkvamit, leitat hefir «ok verit vid at semia adra sætt en þá er ádr var giör med oss, «er þat ordtak Þórdar, at eingar megu heilar sáttir verda, nema «hann hafi allan Nordlendíngafeórdúng til forráda, hann þykist nú «ok eiga allan Borgarfeörd ok kallar Þorleif í Görðum eingan [2]) «vin sinn. Nú giör sva vel, frændi, reyn slíka menn fullri [3]) «raun, þat vildum vèr ok, at þú tækir alla kosti af Borgarfirdi «eptir bodi kóngs, þvíat oss þykkir allgott þar at at veita. Sann-«spurt höfum vèr ok, at Þórdr sendi brèf Sigvardi biskupi, ok bad «hann lofa sèr kyrkiogaungo ok sex mönnum med honum, ok «þar med, at hann skyldi halda ydr frá málunum vid oss Skag-«firdínga, ok hann hafi því heitit, en þat vitum vèr, at biskup «sendi brèf Steinmódi presti, at leida hann í kyrkio, ok sva giördi «hann. Vel treystumst vèr hèradsmönnum flestum öllum, ef þú «synir þik hiá oss, tregt veitir oss heldr at fá giördarmenn, þykkir «vant ok mikit í at gánga. Nú at sva kvamno máli þá vilium vèr, «at þèr sækit nordr hegat á varn fund, sva sem þú mátt fyrst, «þvíat vèr treystumst ei voro sambandi, nema þú kvamir til, en «vèr megum fyrir eingan mun sakir háska hèradsbygdarinnar yd-«varn fund sækia.» Þeir Gègnir kvamo sunnan frá Gissori til Brands í páskavikunni [ok segia at Gissor mundi sunnan kvama [4]).

41. Þat er sagt, at Þórdr átti fund á Grund fiórda dag páska vid alla bóndr þar í hèradi, nema Hall á Mödrovöllum, þvíat hann var þá heimamadr í Bæ [5]) sudr. Þórdr giördi þá bert, at

[1]) ræddum vid. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) öruggan. *A. B. E. Gr.* Þ. vantar í *C. St.*

[3]) sannri. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) vantar í sömu.

[5]) Bár. sömu.

hann ætladi vestr til Skagafiardar med flokk þann er hann fengi til ok reka harma sinna, at því er hann kalladi, vid þá Skagfirdínga. Klippr Kètilsson svaradi fyrstr máli Þórdar: vel er, þótt vèr förum nú til Skagafeardar, ei manum vèr nú skeótligar í brott fara [1]) en nærstum, er vèr vórum þar med flokkana. Eingi madr mælti þar í móti Þórdi, en fylgdarmenn hans fysto miök ok lögdo hardliga til. Sunnodaginn eptir páskaviko fór Þórdr heiman ok útí Hörgárdal, en þridiadaginn vestr yfir heidi, rido fylgdarmenn Þórdar fyrir, Eyulfr Þorsteinsson var fyrir þeim, þá kvad hann [2]) víso:

Hvatr [3]) fer höldr at vitea
hlyrgards Skagafeardar,
van er hreggs, ef heima
hearlstrídandar bída.
Nú giörist nordr á heidí,
níds man herr rek-errinn [4]),
þeód dregst á veg vída,
vindligt, grettis [5]) strindar.

Allr flokkrinn fór á Silfrastadi um kveldit, Þórdr hafdi þá nær fimm hundrud manna. Brandr spurdi lidsamnad þenna í páskavikonni, er Þórdr hafdi haft, dró hann þá lid saman fyrir vestan heidi um allt hèrad ok or Fleótum, sva segir Skáld-Hallr í drápo þeirri er hann orti um Brand Kolbeinsson:

Brandr dróst yta [6]) undir,
atreid [7]) var [8]) þar [9]) skatna,
brátt [10]) um breidar sveitir [11])
búendr saman stemndo [12]).
Þusto Vatnsskard vestan
vinir Brands ok sva handan,

1) reknír. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) Ingialdr. sömu.
3) hart. *A C. St.* þ. hratt. *B. E. Gr.*
4) reka eriu. *B. E. Gr.* reka erni. *A. C. St.* þ.
5) grottis. *C. St.* glerils. *B. E. Gr.* glettis. *A.* þ.
6) ytri. þ. ytis. *A.*
7) útreid. *C. St.*
8) vard. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
9) þá. *A. B. E. Gr.* þ. því. *C. St.*
10) dráttr. *C. St.* þ. brattr. *A.*
11) brautir. *C. St.*
12) saman strendo. *B. E. Gr.*

skeótt frá ek heldr at hittost
hèradsdrótt ok lid Fleóta [1]).

Þat er nú at segia frá þeim Þórdi, at þeir lágo úti á vellinum á Silfrastödum um náttina, vindr kvam á þá, er fólkit hafdi sofit um ríd, ok þaut miök í speótunum, vakna þeir þá vid þytinn ok hugdo at úfridr væri atkvaminn, lupo þá upp ok brugdo vapnum, bördust þeir þar seálfir innbyrdis, sumir lupo á hús upp ok vördust þadan, en sumir sótto þar at í ákafa, ok vard löng ríd ok snörp atlaga ádr þeir kènndust. Midvikodaginn rido þeir Þórdr ofan í Vallaholt, einn madr hafdi fallit er Eyríkr hèt, en margir ordit sárir. Brandr var þá á Vídimyri med flokk sinn ok hafdi sex hundrud manna, fóro þá menn ímillum þeirra Ivar [2]) prestr Pálsson ok Vermundr Halldórsson, er sídan vard ábóti á Þíngeyrum, ok enn fleiri kènnimenn, varo þá grid sett til medalgaungo, budo Skagfirdíngar í dóm Gissorar, hvern sem Þórdr tæki til, en Þórdr vildi ei nema seálfdæmi, en þeir æpto á móti því, ok vard ei af sættum. Beörn hèt prestr ok var Starason, hann fór í lidsamnad í Laxárdal ok Reykeaströnd, hann var at Saudá [3]) midvikonáttina, þá er þeir bördust fimtadaginn eptir, hann dreymdi þegar er hann sofnadi um kveldit, at madr kvam at honum ok laut upp yfir hann ok mælti þessi ord: *domine Jesu* [4]), *accipe spiritum meum.* Þá vaknadi prestr ok gèkk út ok sídan til hvílunnar aptr ok sofnadi, ok bar fyrir hann hit sama, þetta skèdi þrisvar, þann mann þóttist hann kènna geörla bædi at hárferd ok yfirlitum, at þat var Brandr Kolbeinsson, ok þá er Skagfirdíngar vóro á Vídimyri, kvam sótt í lid þeirra med því móti, at þar fèllo í úvit nær þriátygi manna ok varo úfærir, þar var Páll bródir Brands í því lidi [5]).

42. Midvikodagskveldit reid Þórdr á Ulfsstadi med allan flokk sinn, en Skagfirdíngar varo á Vídimyri of náttina ok fóro þadan snimma fimtadaginn nordr yfir Jökulsá ok namo stadar fyrir sunnan Diúpadalsá [6]) á skridunni ok fylkto þar lidi síno ok höfdu

[1]) Flytta. *A. C. St.* Þ.
[2]) Isar. *A. B. E. Gr.* Þ.
[3]) Saudafelli, *C. St.*
[4]) *Criste*, bæta vid *B. E. Gr.*
[5]) flódi. *B. E. Gr.*
[6]) Diúpadal. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

framarliga á siötta hundradi manna ok var allvel búit. [Eysteinn Hvíti [1]) fylkti lidi Brands, þeir bido þar Þórdar ok hans manna. Þórdr hafdi ok nær sex [2]) hundrud manna ok var þat lid allt vel búit [3]). Fylkíng Skagfirdínga horfdi móti vestri, ok ætla at Þórdr skyldi þadan atgánga ok menn hans, en Þórdr ok þeir rido ofan med brekkonum ok stigo af hestum [4]), þeir horfdo á iadarinn fylkíngar Skagfirdínga, þeir Brandr snerust vid ok brast þá fylkíng þeirra, ok varo torfgrafir fornar [5]) midlum þeirra, ok gèngo þeir Þórdr þar yfir. Þórdr var í midri fylkíngo sinni ok þó fremstr, en í hinn nedra [6]) arminn varo Svarfdælir ok Nordanmenn, Eyfirdíngar varo í hinn sydra arminn ok fórst þeim hveriumtveggium seinna um grafirnar, þar varo þeir Brandr fyrir ok fylgdarmenn hans. Þórdr rèdst þegar á þá, er mættust fylkíngar, var fyrst greótríd, en þá speótalög, losnadi þá skeótt fylkíng Skagfirdínga, sem klambrar-veggr væri rekinn. Þar heitir Haugsnes [7]) upp frá, er bardagi var ofan frá á grundinni, sva segir Skáld-Hallr:

Brátt var [8]) ferd at frèttom
fundr á Haugsness grundo
hættr sá er hölldar átto,
hlíf raudst, fíra lífi.
Lagdi lydr þar er dugdi
landsfólk saman randir,
ok fullhardra [9]) firda
fylkíngar atgèngost.
Ruddost bryndom broddi,
Brandr neytti vel handa,
af þar er eggear skífdo
audbaldurs luti skealdar.
Geystust geirar traustir,
gèkk ramn at þar [10]) drekka,

1) Austmadr. *A. B. E. Gr. Þ.*
2) fimm. *B. E. Gr.*
3) frá [ vantar í *C. St.*
4) ok lióþu saman. bæta vid *B. E. Gr.*
5) vantar í *C. St.*
6) nordari. *B. E. Gr.*
7) Hauksnes. *B. C. E. Gr. St.*
8) vard. *B. C. E. Gr. St. Þ.*
9) fullhardar. *B. E. Gr.*
10) af því. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

fast af firda breóstum  
fen dreyrugra [1]) benea [2]).

Þess gètr ok Hallr, at Brandr var frammárla í fylkíngunni um daginn [3]) öndverdan [4]), ok gèkk þá fram fyrir hann Jón Skídason er kalladr var Krappi [5]), mikill madr ok sterkr [6]).

Gèkk þar er geirar [7]) stukko,  
godi var med heör [8]) rodinn [9])  
fyrst [10]) í fylkíng trausta [11])  
framm ok Þórdr hinn rammi.  
Fast hygg ek feandr [12]) at lysto,  
ferd ofradi sverdom,  
el vard yggear bála  
öndótt [13]), saman röndom.

Jón Skídason, er framm leóp fyrir Brand, lagdi tveim höndum speóti til Þórdar, sva at hann fèll vid, en Skagfirdíngar æpto at, Þorsteinn Gunnarsson lióp framm yfir hann, þá urdu margir atburdir senn í höggum ok speótalögum, vard þetta snörp orusta, sva at eingi hefir slík ordit á Islandi bædi at feölmenni ok mannfalli. Þórdr stód upp skeótt eptir fallit ok kvad sik ekki saka. Gègnir Illhugason gèkk ok einnin vel framm, hann lagdi til Hákonar Galins, ok kvam speótit í augat ok bryndi út um hnakkann, vard þat hans bani, vard þá mikit mannfall af hveriomtveggiom. Einar Audunarson [14]) hèt madr, hann beó í Vík út frá Stad, hann átti Ingibeörgo Bergsdóttur [15]) frændkono Þórdar, hann var til þess settr, sem hann giördi, at hann flydi fyrstr manna ok Brandr son hans ok þar margir eptir þeim. Þeir Þórdr gèngo þá at fast, er

[1]) dreyrugar. *B. E. Gr.*  
[2]) beniar. sömu.  
[3]) bardagann. sömu.  
[4]) vantar í *A. C. St.* Þ.  
[5]) Kór-Kiappi. *B. E. Gr.* Kappi mikill ok sterkr. *A. C. St.* Þ.  
[6]) sva segir Hallr, bæta vid *B. E. Gr.*  
[7]) grænir. *A. C. St.* Þ.  
[8]) her. sömu.  
[9]) traustr. *C. St.* traustum. *A.* Þ. rodnum. *B. E. Gr.*  
[10]) fyrstr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.  
[11]) traustri. *B. E. Gr.* hrausta. *A. C. St.* Þ.  
[12]) frændr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.  
[13]) öndurt. *B. E. Gr.*  
[14]) Audmadr. sömu.  
[15]) Bergþórsdóttur. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

þeir seá at flóttinn brast, ok vard þá enn mikit mannfall [af hveriumtveggiom [1]). Hafur Bearnason ok Brandr Atlason ok enn fleiri menn med þeim Fleótamenn [2]) ok Slètthlídíngar kvamo á fylkíngar arm Þórdar hinn nyrdra ok gèngo at drengiliga ok drápo þeir tuttugu menn af Nordanmönnum, sva at hver lá heá ödrum, þá brast flótti á hèradsmenn ok Vestanmenn yfir heidi ok mart manna med þeim, en ef þeir hefdo stadit kyrrir, þótt þeir hefdo ei giört at fleira, þá hefdo Skagfirdíngar kosit á vid Nordanmenn, en nú bar ei sva til. Þórarinn Tómasson kvamst á hest ok rak flóttann, Þorbeörn Sælendíngr [3]) Snorrason [4]) reid undan med ödrum flóttamönnum, þá heyrdi Þorbeörn kall á bak sèr aptr, at hann skyldi drygea dád ok duga sèr. Þorbeörn sneri skeótt aptr ok sá at tveir menn sótto Svein Eldbodúng ok var annar á hesti, Þorbeörn lagdi þegar til þèss er á hestinum var ok í gègnum hann med speóti, var þat hans bani, var þat Þórarinn Tómasson, drepinn var ok hinn annar er at Sveini sótti. Ari Finnsson, er beó í Bearnastadahlíd, vildi ei flya, hann studdist á eggsi sína ok saung [versit *Ave Maria* [5]), sva at menn heyrdo sídast til. Almar Þorkèlsson heó hann banahögg. Broddi Þorleifsson, Einar Lángr, Gègnir Illhugason, Jón Krappi [6]), Asbeörn Illhugason ok Skarf-Helgasynir [7]) þrír [Kollsveinn, Þorvaldr ok Bergþór [8]), þeir gèngo allir fram röskliga ok mikil sveit med þeim, gèngo þeir sva fram fyrir Brand medan þeir voro heilir ok ei sundrskila, at honum vard vid eingo hætt, í móti þeim kvam Þórdr ok fylgdarmanna sveit hans ok mikil sveit önnur, vard þá at nyo hit hardasta el, þá vard Gègnir Illhugason fráskila fèlögum sínum, sótto hann þá þrír eda fiórir, vardist hann vel ok drengiliga, vard hann módr miök, þvíat hann hafdi þúnga bryneo ok fèll hann fyrir þeim, fletto þeir upp um hann brynionni ok vágo hann sva. Healti hèt madr, er kalladr var Járnauga, hann var vaskligr madr, ok fèll

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) Flóamenn. *A. C. St.* þ.
3) Sælendr *B. E. Gr.* Seldælíngr. *A. C. St* þ.
4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) Maríu-vers. *B. E. Gr.*
6) Kiappi. *B. E. Gr.* Kappi. *A. C. St.* þ.
7) Karphelgasynir. *B. E. Gr.*
8) vantar í *A. C. St.* þ.

hárit bleikt nidr á herdarnar undan stálhúfunni, þat ætludo Nordanmenn Pál Kolbeinsson ok sóttu at honum þrír saman, hann segir, at eingi einleypíngr edr leysíngi skyldi sídr hlífa þeim en hann, sótto þeir hann lengi ádr en hann fèll, hann hafdi þriátíu sára ok lèt líf sitt [vid gódan drengskap [1]). Jón Skídason lèt sem eingan sæi hann annan en Þórd ok sótti hann í ákafa, sagdi Þórdr sva sídan, er um var talat, ef slíkir hefdo þrír verit Krapparnir [2]), at hann hefdi þá aldrei sídan sól sèd, sótto þá allir í ákafa, er vid hèldust med Brandi, sva segir Hallr í Brands-drápo:

Hardr frá ek heldr at yrdi
hildarleikr, þar er gildir
baugskèrdandar bördost,
bito sverd í hlym [3]) rítar.
Yggs vard [4]) annar-tveggi,
atgèngust þá [5]) skatnar,
oddameidr í óda
alls [6]) gnyhreggi falla.
Lèto líf fyrir speótum
lásk ey þar var háski
súngo vapn á vánga
víghleódir bóndr gódir.
Vítt lá valr á grytto [7]),
var tafn gèfit [8]) rafni,
gunnar [9]) mar yfir gaurom
gall, Haugsnesi fallinn.

Ok er laung ríd hafdi sva gèngit, þá ridlast sveitir Brands ok urdo þá mest manndrápin. [Rani Kodransson færdi stein mikinn at Jóni Skídasyni ok kvam á bríngona ok gèngu inn bríngspalirnar [10]) ok vard þat hans bani, vardist Jón þó nokkra stund sídan, er hann

[1]) med mikilli hreysti. *A. C. St.* þ.
[2]) Krapparnir. *B. E. Gr.* Krappir. *A. C. St.* þ.
[3]) hlin. *A. B. C. E. St.* þ.
[4]) var. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) þar. *C. St.*
[6]) allir. *Gr.*
[7]) grytu. *C. St.* þ.
[8]) búit. *B. E. Gr.*
[9]) gumar. *C.* þ.
[10]) bríngspelirnir. *B. E.*

hafdi nær eingi sár önnur, ok lèt hann þar líf sitt med miklum drengskap ok hreysti ágætrar karlmennsko [1]). Brandr kvamst á hest ok var tekinn midli Grunda í flóttanum. Kolbeinn Grön tók hann ok færdi hann upp á grundina þar sem nú stendr krossinn. Kolbeinn fann Þórd ok segir at Brandr var handtekinn. Þórdr mælti: hví drepit þèr hann ekki? Þórdr sat þá upp á grundinni, var þá miök lokit bardaganum. Kolbeinn mælti: ek vissa ei nema þú vildir til gánga. Þá stód Þórdr upp. Þá mælti Rafn Oddsson: gáng ei til, Þórdr, ef Brandr skal ei grid hafa. Þá fèkk Þórdr Sigurd Glúmsson til at vega at honum, gèkk Kolbeinn Grön þá til þar sem Brandr var handtekinn ok margir menn med honum, Sigurdr heó eggsi til Brands, hann skaut yfir sik búklara, Kolbeinn snaradi af honum búklaranum, þá heó Sigurdr um þvert höfud Brandi ok klauf hann at eyrum nidr, lèt Brandr þar líf sitt, varo vid líflát hans nær þriátygi manna, [var þar sett upp róda sem Brandr fèll, ok heitir þar Ródogrund sídan [2]). Eyúlfr Þorsteinsson fèkk tekit Einar Láng frænda sinn ok gaf honum grid, [ok hafdi hann drengiliga barizt [3]), fleiri menn varo þar teknir, þeim er grid vóru gèfin af ymsum frændum sínum ok vinum, en þeir flydo allir er því kvamo vid [4]). Nær fiörutíu fèllo af Þórdi, en feöldi vard sár, fèllo þar hinir besto bóndr or Eyafirdi, [Klippr Kètilsson, Þórgils Hólasveinn, Gudmundr Gilsson, Magnús Narfason, Vígfús Þórgilsson [5]). Af Brandi fèllo siötíu manna, þar fèll Brandr Kolbeinsson, Jón Haflidason, Kloppiárn Hallsson, Oláfr Kámi, Illhugi frá Svínavatni, sva segir Ingealdr í flokki þeim er hann orti um Brand, ok kvedr á hve mart látizt hafi:

Hregg-sulli [6]) tók halla [7]),
hnè ferd í dyn sverda
sköglar forsi [8]) at [9]) skíra
Skagfirdínga styrdum.

[1]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) vantar í *A. C. St.* þ.
[4]) þar fèllu margir af hveriumtveggium, bætir *E.* vid.
[5]) vantar í *A. C. St.* þ.
[6]) hríngs-ulli. sömu.
[7]) alla. sömu.
[8]) fus. sömu. fars. *B. E.* fars. *Gr.*
[9]) á. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Hvítr [1]) hefir hundrad látit [2])
healdur lands [3]) í styr manna,
trautt má tal þat er hittum,
tírætt, or því fætta [4]).
Skipto sköp sem eptir [5])
skörúngr fèll í dyn heörva
ædstr [6]) med ordstír bestan
úsvífr frá [7]) lífi.
Fár má fleina skúrar
[frægri stórlagi [8]) bægea [9])
seid [10]) nè sínum dauda
svipskordandi forda.
[El-grundar bearg þú öndo
ædstr þiódkonúngr nærstr [11]),
gódsamir [12]) búdlúng beida
Brands [13]) vid feörnis landa,
hvíld fái ödlíngr [14]) aldar
allvís paradísar,
prútt sá er pínslom lèttir
Páls bródur fridi sálo [15]).

Þórdr reid á Flugomyri af fundinum, giördi hann þá bert, at allir menn skyldo í gridum kvama á hans fund, þeir er sættast vildo vid hann, sótto menn þá til hans þeir er á fundinum höfdo verit ok margir adrir, seldu þá allir honum seálfdæmi ok svördu honum trúnadar eida, tók hann nú undir sik öll hèrödin ok fór vid þat nordr heim, ok sat nú um kyrrt nokkra stund.

[1]) hvíts. *B. E. Gr.* hnyts. *A. C. St.* þ.
[2]) látizt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) hialds-lands. *B. C. E. Gr. St.* þ. hialts-lands *A.*
[4]) frètta. *A.* C. *St.* þ.
[5]) optar. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) æstr. *C. E. St.*
[7]) firra. *A. C. St.* þ. fíra. *B. E. Gr.*
[8]) frægaldur lagi. *B. E. Gr.* frægr á stórlagi. *A C. St.* þ.
[9]) bægiast. *C. St.*
[10]) seids. *B. E. Gr.* sèr. *A. C. St.* þ.
[11]) mæztr. *B. E. Gr.*
[12]) godsamr. sömu.
[13]) Brandr. sömu. [14]) ödlíngs. sömu.
[15]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

43. Lík Brands var flutt til Stadar ok þar iardat fyrir sunnan kyrkiona vid saunghús [fyrir stúkodurum [1]), ok var hann miök harmdaudi mönnum sínum. Sva segir Ingealdr í Brands flokki:

Mildr rĕd skĕmr en skyldi
skealdreirs [2]) höldr [3]) aldri,
þrym-kĕnnis tók þannig
[þúngr harmr [4]) suno únga.
Vegg [5]) mega [6]) varla hyggea
vedurtams svanabediar,
armbliks [7]) neótar ſtrir
audmilds [8]) skörúngs dauda.

Tídindi þessi fóro [9]) um allt land, ok þóttu mikil, sem var, en er Gissur spurdi þessi tídindi, dró hann lid saman ok fór nordr um land, hafdi hann nær fiögur hundrud manna, hann kvam í Skagafeörd, ok þá heimbod med fimtánda manni at Jórunnar Kálfsdóttur [10]) ok hèt henni ok sonum þeirra Brands sinni ásiá [11]) ok vinátto. Jórunn gaf Gissuri gódar geafir. Skagfirdíngar sótto þá á fund Gissurar ok iátto honum sínum trúnadi, þá gèngo neósnarmenn til Þórdar, ok samnadi hann mönnum ok fèkk enn mikit lid, en menn hans vóru hremmdir ok vard þeim ei iafnlètt um vígit sem um varit fyrir fundinn; þá tókust medalferdir ok fóro þessir á milli, Þórir Tottr Arnþórsson, hann átti skip á Eyrum ok var med Gissori, margir adrir fóro í midlum þeirra, ok vard sáttum ákvamit med því, at Hákon kóngr skyldi um giöra med þeim vid þá menn er hann vildi vid hafa, skyldu þeir bádir fara utan um sumarit Þórdr ok Gissor, svördo tólf menn þessa sætt or hveriutveggia lidino [12]), at þessi sætt skyldi haldin, en ei fundust þeir seálfir, sídan fór Gissur heim sudr.

1) vantar í *A. C. St.* þ.
2) skialdeirs. sömu.
3) hatadr. sömu. hötuds. *B. E. Gr.*
4) þúngharmr. *B. E. Gr.*
5) vegs. *A. C. St.* þ. vígs. *B. E. Gr.*
6) megn. *B. E. Gr.*
7) amsblik. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
8) audmildr. *A. C. St.* þ.
9) flugu. *A. B. C. St.* þ. spurdust. *E. Gr.*
10) at Stad, bæta vid *B. E. Gr.*
11) lidveizlu sinni traustri. sömu.
12) ríkinu. sömu.

44. Þórdr beóst til utanferdar, fèkk hann ríkit til geymslo Hálfdáni mági sínom, skyldi hann vera á Grund ok Steinvör ok börn þeirra ok fylgdarmenn Þórdar Kolbeinn Grön ok Almar Þorkèlsson. Þórdr gipti Þorrídi Sturludóttur Eyúlfi Þorsteinssyni, ok skyldo þau vera á Grund um vetrinn, en þeir fóru utan med Þórdi Nikolás Oddsson, Þorsteinn Gunnarsson, Ingealdr Geirmundarson, þeir fóru utan í Eyafirdi, en Gissor fór utan á Eyrum ok med honum Önundr biskupsfrændi, Gudmundr Þórhildarson[1]), Þorleifr Reimr, þeir kvamo hvarirtveggio til Noregs um haustit ok fundo Hákon konúng í Beörgvin, ok fóro bádir med honum nordr til Þrándheims, þvíat kóngrinn sat þar um vetrinn. Hákon kóngr lagdi stefno til mála þeirra Þórdar ok Gissors, ok á stefnunni lèt Þórdr[2]) lesa upp rollo lánga, er hann hafdi látit rita um skipti þeirra Haukdæla ok Sturlúnga, birtist þar á margr skadi er Þórdr hafdi fengit í mannalátom. Þá mælti kóngr: hvat flytr þú hèr í mót, Gissor? hann svarar: ekki hefir ek skrásett sögur mínar, en þó kann ek hèr nokkro móti at svara, en þó kallak hèr einardliga frásagt vorum skiptom. Þann ordróm fengo þeir bádir, at menn sögdust ei[3]) hafa einardligar flutt, en hver flutti sitt mál, sva mart sem í hafdi ordit, mælti hvergi í móti ödrum nè úsannadi annars sögo, en þat þóttust menn skilia, at kóngrinn viki meir áleidis med Gissori, þat allt er honum þótti sva mega, ok höfdo menn þat fyrir satt, at þat mundi vera fyrir sakir mála Snorra Sturlusonar, er lát hans hafdi nokkut[4]) leitt af kónginum, þá budo þeir málin öll á kóngsdóm, en kóngr [dró heldr á frest[5]) ok vildi eingan orskurd giöra þeirra á midli um vetrinn, [en um varit fór kóngrinn sudr til Beörgyniar ok bádir þeir med honum Gissor ok Þórdr ok menn þeirra[6]), var þá enn talat um málin er þeir kvamo sudr, en er Þórdr kærdi um mál Snorra Sturlosonar, svaradi kóngr þar fyrir ok segir, at hann ætti þat at bæta, en bad Gissor svara ödrum málum Þórdar, þótti mönnum þá sem kóngr mundi lid-

[1]) Þorvaldsson. *B, E, Gr.*
[2]) kóngr. *C. St.*
[3]) heyrt, bæta vid *A, B, C. E, Gr. St.* Þ.
[4]) mikit. *C, St.*
[5]) lèt þá ei festa. *B, E, Gr.*
[6]) vantar í *A, C, St,* Þ.

sinna Gissori allt þat er honum þótti sèr sæma eptir honum at mæla, vóru þeir nú bádir med kóngi. Einum vetri eptir Haugsness-fund kvam út Henrekr biskup ok Þórdr Kakali.

*) 45. [Nú skal hèr taka til á Islandi [1]). Þat sumar eptir Haugsness-fund ok fall Brands var fridr á Islandi. Stadar-Kolbeinn var þá til ráda á Hólum ok var heill lítt um sumarit eptir fundinn, naut hann hverki svefns nè matar ok þótti mikit fráfall Brands sunar síns, hann kvam til Stadar at finna Jórunni nokkro fyrir Oláfsmesso hina fyrri ok gisti at Stad, ok fèkk ei talat vid Jórunni nè adra hugdarmenn sína, þadan reid hann upp á Vídimyri til Ingigèrdar [2]) dóttur sinnar, lagdist hann í rekkio, er hann kvam þar, ok andadist Oláfsmesso hina sídari, ok þótti þeim mönnum er giörst visso sem honum mundi mannamissir hellst grandat hafa, var hann færdr til Stadar ok iardadr fyrir sunnan kyrkio heá Brandi syni sínum. Kolbeinn var þá nær siötugum manni er hann andadist, en Brandr var hálffertogr er hann fèll, vetri yngri en Kolbeinn Ungi, iafnlengd Brands ok þeirra manna, er þá [3]) lètust, er fiórum náttom fyrir Jónsmesso Hóla biskups, þá var lidit frá falli hins helga Oláfs kóngs sex vetur hins tíunda [4]) tugar ok hundrad tólfrædt, en frá brennonni í Hítárdal, er mest tídindi höfdo þá önnur ordit hèr á landi, tveim [5]) vetrum fátt í tíu tugi vetra [6]), þá er Brandr fèll var Innocentius páfi í Róma, Fridrekr var keisari, Eyríkr Eyríksson kóngr [7]) í Svíþiód, [Eyríkr ok [8]) Abel í Danmörko, Hákon kǫngr í Noregi, Jón [9]) kóngr í Englandi.

**) 46. [Vetri eptir Haugsness-fund kvam híngat í nordrlönd ok til Beörgyniar Vilhiálmr kardínali sendr af papa Innocentio til þess at vígea Hákon kóng undir króno, hann vígdi ok postula

*) í *A. C. St.* þ. er þessi kapit. sá 47di, í *B. E. Gr.* sá 46ti.

[1]) vantar í *B. E. Gr.*

[2]) Ingirídar. sömu.

[3]) þann dag. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) níunda. sömu.

[5]) þrim. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) ára. *A. E. Gr.* þ.

[7]) einvaldskóngr. *A. C. St.* þ.

[8]) vantar í sömu.

[9]) Jóhannes. sömu.

**) þessi kap. er sá 45 í *B. E. Gr.*

kyrkio í kóngsgardi á Swithonsmessodag [1]) um sumarit [2]). *) Hákon kóngr lèt þá Gissor ok Þórd kæra [3]) mál sín sva at kardínallinn var vid [4]) ok lèt teá honum alla málavöxto þeirra. En er kardínallinn heyrdi ok skildi mannlát þau er Þórdr hafdi fengit í skiptum þeirra Gissorar, þá veik hann þar miök eptir, ok þótti iafnan sem hans lutr mundi hafa vidbrunnit, vildi hann þat eitt heyra [5]), at Þórdr færi þá til Islands, en Gissor væri þar eptir, kvad þat ok rád at einn madr væri skipadr [6]) yfir landit, ef fridr skyldi vera, þá var ok vígdr Henrekr biskup til Islands til Hólastadar, ok dró hann miök fram lut Þórdar vid kardínalinn ok sva vid kónginn, var þá ok allkært med þeim biskupi ok Þórdi. Um sumarit Oláfsmesso var Hákon kóngr vígdr undir kóróno, hafdi hann þá veizlo mikla útí naustino, þá var þat rádit, at Þórdr skyldi út, ok var hann þá skipadr yfir allt land til forráda [7]), en Gissor var þá eptir ok þótti honum þat allþúngt, var honum þá skipud sysla nordr í Þrándheimi. Þórgils frændi Þórdar var þá eptir heá kóngi sva sem í nokkurri gislíngo fyrir Þórd til trúnadar vid kóng.

**) 47. Sumar þat sem Þórdr fór til Islands, var tveim vetrum eptir þat er Kolbeinn Ungi andadist ok Svarthöfdi Dugfússon fór utan í Hvítá med vöro þá er Kolbeinn lagdi til utanferdar Þórdi, var Svarthöfdi þann vetur í Noregi sem Þórdr var á Grund, en þat sumar er Þórdr fór utan, kvam Svarthöfdi út í Vestmannaeyum. †) ††) Þat sumar er Hákon kóngr var vígdr, fóro þeir Henrekr biskup [8]) ok Þórdr til Islands, kvam Þórdr í Vestmannaeyar, tók hann þar vín mikit er hann átti, er Svarthöfdi hafdi út flutt ok látit þar eptir í eyunum, fór Þórdr upp til Kèldna, fann hann þar

1) Hvítasunnumessudag. *B. E. Gr.*
2) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
*) hèdan frá til enda þessa kapítula er framhald ok endir 47 kap. í *A. C. St.* þ.
3) tala um. sömu.
4) heyrdi á. sömu.
5) tilleggia. *B. E. Gr.*
6) settr. *A. C. St.* þ.
7) þá skrifadist datum Anno 1247, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
**) þessi kapít. er sá 48 í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
†) Hèr vid bæta *B. E. Gr.* því sem er vísad bls. 96. *) og lúka þar med 48. kap.
††) Hèr byriast 49. kap. í *B. E. Gr.*
8) Kársson, bæta vid *B. E. Gr.*

Hálfdán mág sinn ok Steinvöru, vóru þau brott or Eyafirdi, hafdi þeim lítt líkat til fylgdarmanna Þórdar. Þórdr reid sídan nordr til Eyafeardar til Grundar ok dvaldist þar nokkra hríd ádr hann fór vestr í sveitir, ok er hann kvam í Borgarfeörd, tók hann undir sik sveitir allar ok allt fè Snorra Sturlosonar ok sva hèradit í Borgarfirdi, hann fór í Garda til Þorleifs ok tók af honum trúnadar eida ok skipadi hann mest yfir hèradit, sendi hann þá menn á Bersastadi ok tók bú þat til sín, ok hafdi þadan mölt mikil ok flutti upp í Reykiaholt, ok ætladi þar at sitia um hávetrinn, en hann fór þá vestr til Saurbæar ok var á Stadarhóli med Sturlo um iólin öndverd, sídan fóro þeir Þórdr ok Sturla bádir sudr í Reykiaholt ok sáto þar fram miök til fösto [1]), þá kvamo vestan Einar Þorvaldsson ok Rafn Oddsson ok iátudust allir Vesfirdíngar til hlydni vid Þórd. Þann vetur kvangadist Nikolás Oddsson í Reykiaholti, kvam þá sunnan Sigvardr biskup, ok urdo þeir Þórdr ei miök sáttir hit fyrsta sinn sín í midli, en greiddo þó vel, gaf Þórdr til stadarins í Skálaholti Skógteörn á Alftanesi fyrir sálo födur síns ok módur, hon hafdi andazt um haustit ádr hann fór nordan. Þórdr reid [um vetrinn fyrir fösto [2]), ok tók undir sik öll hèrud í Nordlendíngafeórdúngi, mælti þá eingi madr í móti Þórdi, eingar baud hann bætr eptir Brand frænda sinn, enda beiddi eingi bóta, vóru synir Brands þá úngir, annar átta vatra [3]), en annar níu. Um varit geördi Þórdr bú annat í Gèldíngaholti í Skagafirdi ok var þar löngum, var þar fyrir Kolfinna Þorsteinsdóttir, hon var fridla Þórdar, ok átto þau dóttur er Halldóra hèt. Þórdr átti tvo sonu vid Ingveldi Ulfsdóttur, Þórd ok Alf [4]). Styrmir hèt son hans ok Nereidar Styrmisdóttur. Jón Kátinn [5]) var ellztr, hann var fæddr upp í Vestfeördum. Þetta sumar reid Þórdr til Þíngs med feölmenni mikit, vóru þá ok hinir stærsto menn flestir á Þíngi, ok veitto allir Þórdi tillæti á Þíngi, nema Sunnlendíngar þeir er vóru menn Gissorar, ok enn sumir Averiar þeir er ei hlyddo rádum Hálfdánar, þá vóru þeir brædur [6]) úngir í Austfeördum synir Þór-

1) lángaföstu. *C. St.*

2) mót páskum. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

3) þrèvetur. *A. C. St. Þ.*

4) Ulf. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

5) Karinn. *A. B. E.* Kárinn. *C. St. Þ.* Karni. *Gr.*

6) frændr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

arins Jónssonar Þorvardr ok Oddr, ok höfdo þeir födurleifd sína ok viko þeir öllum málum sínum undir Þórd ok hans forseá. Sæmundr Ormsson hafdi Sídona ok födurleifd sína, Gudmundr brôdir hans var þá úngr ok rèd Sæmundr fyrir þeim, hann var vitur madr ok heldr ágearn ok þótti líkastr til mikils höfdíngia, hann beó at Kálfafelli, hann mælti til hinnar mesto vinátto vid Þórd, ok vildi at hann hefdi forseá fyrir honum ok beiddist at giörast heimamadr Þórdar, en Þórdr rèd einn öllu á þíngino, hann tók til lögmanns Oláf Hvítaskáld Þórdarson, hann ýfdist heldr vid Sunnlendínga, ok kvadst seá hverra födurbóta þeir vildo honum unna, er þeir vildo honum sídr þeóna en ödrum manni á Islandi, en þeir gáfo ei gaum at því, hann hèt þeim því, at þeim mundi ei gagnast at halda þeirri stærd fram, en þó reid Þórdr nordr af þíngino ok var heima um sumarit, en um haustit þá er skipagángr var reyndr ok vitat var at Gissor kvam ei út, reid Þórdr sudr um Keöl med mikla sveit manna ok fór um alla sveit Gissurar, mæltu þá flestir menn ei móti at þeóna honum, ok var þat þeim þó hin mesta naudúng, hann lagdi ok fègeald á alla bóndur ok þótti þeim þat lèttara en þeóna [opinberliga, sagdi Þórdr þat [1]) þeir vóro einfaldir í sinni þeónusto vid Gissor. Þórdr fór ofan [allt á nes [2]) ok sva upp í Borgarfeörd, [var þá kvaminn til hans Sæmundr Ormsson [3]), fór Þórdr or Borgarfirdi vestr í Dali ok skipti ríkium med þeim frændum sínum Sturlu Þórdarsyni ok Jóni Sturlusyni, þat geördi hann á Þorbergsstödum, reid hann nordr Laxárdalsheidi ok sat á Grund um vetrinn. Þann vetur gipti hann Ingunni Sturludóttur Sæmundi Ormssyni, fóro þau um sumarit austr til bús þess er Sæmundr átti þar, giördist hann þá ofsamadr mikill ok þótti líkligr til höfdíngea. Þetta sumar reid Þórdr til þíngs, mælti þá eingi madr í móti honum á þíngino, guldo Sunnlendíngar þat geald er Þórdr lagdi á, ok gèkk þat þó allt med hinni mesto naudúngo. Þetta sumar urdo þeir nokkut missáttir Sæmundr Ormsson ok Ögmundr Helgason, kærdo þeir þat fyrir Þórdi, ok setti hann þá nidr þær greinir, er þeirra vóru í midli, mælti þá

[1]) opinberliga til Þórdar, þvíat. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) á Alftanes. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) vantar í sömu.

eingi madr í móti því er Þórdr vildi at væri. Sumar þetta kvam út brèf Hákonar kóngs til Þórdar, ok var honum stefnt utan, þar voro á nokkrar sakargiftir ok átölur vid Þórd, um þat hann hefdi meiri stund álagit at kvama landino undir sik en kónginn, sem honum Þótti einkamál til standa. Henrekr biskup fylgdi ok þesso, at Þórdr hèldi ei þat er hann hafdi kónginum heitit, ok fóru þá í margar greinir med þeim Þórdi, sva at nær eingi lutr kvam saman med þeim, svall þetta sundrþykki sva, at Henrekr biskup brá til utanferdar þetta sumar ok kvam á fund Hákonar kóngs, tók hann vid biskupi forkunnar vel, ok vissi at hann hafdi einardliga fylgt hans máli á Islandi, en biskup flutti ei miök mál Þórdar, ok kvad hann ei efna þat er hann hafdi heitit, kvad kóngs vilia aldrei mundo vidgángast á Islandi, medan Þórdr rèdi sva miklo. Biskup var med kóngi um vetrinn, ok hlyddi kóngr allmiök á hans sagnir, er þá var fátt þeirra manna í Noregi er miök drægio fram lut Þórdar, nema nokkrir lögonautar [1]) hans. *) Sva er sagt, at þá er Hákon kóngr Hákonarson hafdi þriátíu vetur rádit Noregi, kvam Vilheálmr kardínali í Noreg, ok vígdi hann Hákon kóng undir króno, þat var á fimta ári páfadóms Innocentii, þá var kiörinn til lögmanns Sturla Þórdarson. A þeim misserum andadist Arni Öreyda Magnússon Amundasonar. Brandr prestr Jónsson var vígdr til ábóta á því ári, er Hákon kóngr var vígdr undir króno, hann rèd fyrir austr í Þykkvabæ ok var ágætr höfdíngi, klerkr gódr, vitur ok vinsæll, ríkr ok gódgearn, hann hafdi mannheill mikla, Halldóra Arnórsdóttir var módir Brands, en módir Halldóro var Gudrún dóttir Brands biskups Sæmundarsunar.

**) 48. Ormr Jónsson beó at Svínafelli, hann var godordsmadr þar um Sídona, hann átti Alfheidi Niálsdóttur [2]) or Skógum, synir hans voru þeir Sæmundr, Ormr [3]) ok Gudmundr, þeir varo brædur Brandr, er sídan vard biskup at Hólum, ok Þórarinn fadir

[1]) legunautar, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

*) Þad sem eptir er þessa kapítula, er 45 kap. í *A. C. St.* Þ., en í *B. E. Gr.* fylgir þad eptir «Vestmannaeyum» bls. 93 l. 25.

**) þessi kap. er sá 46 í *A. C. St.* Þ., en sá 47 í *B. E. Gr.*

[2]) Mársdóttur, *A. C. St.* Þ.

[3]) vantar í *B. E. Gr.*

þeirra þorvardar ok Odds [1]), systur þeirra vóro þær Solveig ok Steinunn, þau varo fimm syskin. Þá beó Digur-Helgi í Kyrkiobæ, hann átti Arnfrídi [dóttur þorsteins bónda frá Hofi [2]), synir þeirra vóro þeir Ögmundr, þorsteinn ok Arnór, er sídan vard ábóti í Videy, [Sokki ok Finnbeörn [3]). Ögmundr Helgason átti Steinunni Jónsdóttur, þessi varo börn þeirra: Jón Karl, Sigmundr ok Sokki, Gudrún, þóra ok [4]) Arnbeörg nunna [5]). Skèggi Niálsson [6]) beó í Skógum, hann átti Solveigo [7]) Jónsdóttur, þessi vóro þeirra börn: Klængr, þorsteinn, Eyúlfr, Jón prestr, Arnbeörg, er átti Gudmundr [8]) þorsteinsson er beó í Skardino eystra á Rángárvöllum. Helgi Loptsson beó þá í Skál, hann átti Asbeörgo [9]) þorláksdóttur systur Arna biskups. þau Helgi átto [mörg börn, Lopt ok Bearna prest, Magnús ok Arna, er sídan vard biskup [10]). Helgi í Skál átti þann bródur er Svartr hèt, hann var gódr bóndi, hann átti Astrídi Gudmundardóttur, þau átto son er þorkèll hèt. Snorri Sveimr beó í Holti í Medallandi, hann var fèmadr mikill ok þó lítilsháttar [11]), hann var vinr Ögmundar [12]). Madr hèt Egill Skirfinnakkr, hann beó í Mörtúngo [13]), Ragnheidr hèt kona hans, en Einar hèt sun þeirra, med þessum öllum var gód vinátta. þat var eitt sumar, er Ormr Jónsson var á þíngi, at verk laust í hönd honum, [þá kvam til hans Helgi læknir [14]) er þá beó á Mássstödum [15]), hann kvad ei mundo teá atgiördir, ok at því vard. þat segia sumir menn, at Ögmundr Helgason tæki Ormi blód þar á þíngino [á gióssædinni [16]), ok sídan felldi sóttina at honum, [reid Ormr af þíng-

1) ok Ormr Svínfellíngr, bæta vid *B. E. Gr.*

2) vantar í *A. C. St.* þ.

3) vantar í sömu.

4) Helga, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) vantar í *A. C. St.* þ.

6) Helgi Mársson, sömu.

7) Helgu, sömu.

8) Gudni, sömu.

9) Arnbiörgu. *B. E. Gr.*

10) þriú börn, Lopt ok Biarna prest ok Gudníu er átti þórdr á Mödruvöllum. *A. C. St.* þ.

11) lítill bóndi. *B. E. Gr.*

12) ekki átti hann barna, bæta sömu vid.

13) Mostúngo *A. C. St.* þ.

14) hann lèt senda í búd eptir Helga lækni. *B. E Gr.*

15) í Vatnsdal, bæta sömu vid.

16) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

ino í Skálaholt vid mikinn þúnga, ok lagdist þar í rekkio ok lá lengi sumars í þessum vanmætti, kvam þá Alfheidr húsfreya hans austan ok margir frændr hans ok vinir at finna hann, þvíat hann var vinsælastr af öllum úvígdum höfdíngeum á Islandi í þann tíma, þvíat hann leiddi mest heá sèr allan þeirra hernad ok úvild [1]) þá er þeir vöfdust í, en hèllt lut sínum úskèrdum fyrir öllum þeim [2]). Ormr bóndi andadist þrim náttum fyrir Mariomesso [3]) sídari í Skálaholti, var hann iardadr fyrir austan kyrkio. [þá fór Alfheidr húsfreya hans med barni, ok fæddi hon á þeim misserum svein ok var kalladr eptir födur sínum Ormi [4]). [Þat haust var veginn Snorri hinn Fródi í Reykiaholti [5]). Sæmundr tók godord eptir födur sinn ok stadfesto, en Ögmundr Helgason baud Gudmundi heim til fósturs til Steinunnar födursystur sinnar. Sæmundr tók þar fè Gudmundar í Kyrkiobæ, en Ögmundr vardveitti fè Gudmundar, þá var Gudmundr siö vetra er fadir hans andadist. Þat fannst brátt á, er Ormr var frákalladr, at Ögmundr hèllt sèr vel fram um hèradsstiórnina ok giördust margar greinir í med þeim Sæmundi. Þat var eitt sumar, at Sæmundr lèt eidfæra [6]) úmaga á landseta Ögmundar er Höskuldr hèt. Ögmundr reid þegar at seá yfir efni hans, ok vildi hann kalla þat, at Höskuldr ætti ekki at annast úmagann fyrir feár sakir, sídan fèkk Ögmundr mann til at færa aptr úmagann. Sæmundr vard reidr vid þetta ok kvad Ögmund rángt giört hafa, ok er nú kyrrt um vetrinn.

*) 49. [7]) Um varit fór Sæmundr stefnofór í Kyrkiobæ, stefndi hann Ögmundi um þat, er hann þóttist ei ná rètti af honum, heyrir Ögmundr á stefnona ok sva Gudmundr bródir Sæmundar, sídan rídr Sæmundr ofan í Holt í Medalland ok tekr þar upp bú Snorra Sveins [8]), [sva at þar var fátt fèmætt eptir [9]), þadan rídr

1) völd. *B. E. Gr.*
2) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
3) Olásmesso. *B. E. Gr.*
4) vantar í sömu.
5) vantar í sömu.
6) færa, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

*) þessi kap. er sá 50ti í *B. Gr.*
7) *A. B. C. Gr. St.* þ. bæta vid: Nú er þar til máls at taka, er ádr var fráhorfit, at *o. s. fr.*
8) Sveinssonar. *A. C. St.* þ.
9) vantar í sömu.

hann í Mörtúngo [1]) ok skiptir fè med þeim Egli ok Ragnheidi, ok rak þadan í brott fè allt, en segir Egli Skirhnakk, at hann skal heimila vist eiga at Svínafelli, þeim stundum er hann vill verit hafa, Egill tekr því hverki vel nè illa, sídan rídr Egill í Kyrkiobæ ok segir Ögmundi til hvar kvamit var, Ögmundr giörir þar ekki at, en bydr Egli med sèr at vera, Egill þakkar honom bodit ok lèzt þar lengstum vera mundu, en ei med Sæmundi, ok er þeir ræda þetta, rídr þar heim Snorri Sveinr [2]) ok ber upp vandrædi sín. Ögmundr bad hann vel verda vid, ok kvad ei mat skorta mundo í Kyrkiobæ, ok skal oss iafndriúgt verda, segir hann. Ögmundr sendir menn í þykkvabæ til Brands ábóta at segia honum [hverio þeir fóro fram [3]), ábóti bèt at leggia til samníngs med þeim, en bad Ögmund ei halda vini sína til rángra luta med ofrkappi, því þess er van, at Sæmundr vili ei slíkt hafa hverki af ydr nè ödrum mönnum [4]). [Abóta líkar ok illa feárupptektin, þótt sakir væro til, ok kvadst ugga at til meira mundi draga med þeim en þá var framkvamit, þvíat Sæmundr var ofsamadr mikill ok úeirinn, ok giördi at því eingan mannamun, en Ögmundr var útillátssamr ok átti mikit undir sèr [5]). Um sumarit feölmennti Sæmundr miök til þíngs, Brandr ábóti reid til þíngs ok Gudmundr [bródir Sæmundar [6]) med honum, á þíngino vill Sæmundr sækia Ögmund til sekta, ábóti bad þá nidrleggea, ok sva bad hann Gudmund vægea Ögmundi fóstra sínum. Abóti reid heim af þíngino, ok þótti hann þá sem iafnan sèr hinn besta lut afdeila þar er hann var vidstaddr. Sæmundr giördi fyrir ord ábóta ok hafdi eingi mál frammi vid Ögmund at sinni, [reid Sæmundr sídan nordr í Gèldíngaholt til þórdar Sighvatssonar [7]) ok bad Ingunnar Sturludóttur bródurdóttur hans, ok var hon honum gipt. þórdr bad Sæmund ei leggea lut sinn fyrir Ögmundi, kvad hann hverki skorta feölmenni nè mægdir. Sídan rídr Sæmundr heim til Svínafells med kono sína, ok þegar hann kvam heim [8]), byr hann þar veizlo ok

[1]) Mostúngu. *A. C. St.* þ.
[2]) Sveinsson. sömu.
[3]) tiltektir Sæmundar. *B. E. Gr.*
[4]) vantar í sömu.
[5]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
[6]) bródurson hans *B. E. Gr.*
[7]) med þórdi Sighvatss. sömu.
[8]) frá [; Sæmundr var giptr bródur-

bydr þángat Gudmundi bródur sínum or Kyrkiobæ. [Gudmundr kvam til veizlonnar [1]) ok med honum Egill Skirhnakkr. Þeim brædrum vard feölrædt [2]) um veizlona ok visso menn úglöggt hvat þeir töludo. Gudmundr reid heim af veizlonni í Kyrkiobæ. Sæmundr gaf honum hest gódan, [er hann nú í Kyrkiobæ þat er eptir var sumars [3]). Um haustit beidir Gudmundr Ögmund brottfarar ok vill hafa fé sitt med sèr. Ögmundr tók því seinliga ok vill þó ei banna honum brottferdina. [Steinun husfreya bad Ögmund vel leysa Gudmund af hendi [4]). Ögmundr greiddi Gudmundi innstædur þess feár, er hann tók vid, [sem var til hundrads hundrada [5]) ok fè allt, fór Gudmundr med þetta efni til Sæmundar, [sitia þeir nú um kyrrt fram um iól [6]).

*) 50. Eptir iólin dregr Sæmundr lid saman ok fara med áttatíu manna í Kyrkiobæ, ok um myrgininn er þeir ætludo at fara, bad Alfheidr [7]) módir Gudmundar at hann færi ei þessa ferd med Sæmundi, [fyrir þá sæmd ok velgiörnínga, er Ögmundr hafdi honum veitta [8]). [Gudmundr bad hana ei þess bidia at hann færi ei med bródur sínum, man ek ei þá meira virda er halda rèttindum fyrir honum [9]). Alfheidr bad hann gánga til litlostofo med sèr ok geöra klædaskipti, ok er hann klæddist, gèngr hon í brott or stofonni ok rekr fyrir lás, ok er hann vard þessa vís, brytr hann frá hurdina med steini ok kvamst út, þá vóro þeir Sæmundr búnir. Þeir rido í Kyrkiobæ, þat var náttina eptir Pálsmesso. Illhugi Gudmundarson var þar briti, Bergleót hèt kona hans, þau

dóttur Þórdar, sem fyrr var ritat, ok biuggu þau at Svínafelli *o. s. fr. A. C. St.* Þ.

1) Gudmundr segir at hann man koma, en Steinun húsfreya födursystir hans bad hann ei fara; Gudmundr reid þó til veizlunnar *o. s. fr. B. E. Gr.*

2) alltídrædt, sömu.

3) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

4) vantar í sömu.

5) vantar í sömu.

6) vantar í *B. E. Gr.*

*) þessi kap. er sá 51ti í *B. Gr.*

7) húsfreya, bæta vid *B. E. Gr.*

8) vantar í *A. C. St.* Þ.

9) frá [: en hann svaradi henni heldr styggliga, kvadst sva á aldur kominn at hann mundi siálfr ráda ferdum sínum. Hún kvad hann þó ei mundu fara sva búinn ok bad hann *o. s. fr. B. E. Gr.*

vóro at sodníngo í eldahúsi um náttina ok Þorvaldr Penni[1]), rakki lá í eldahúsino, hann spratt upp ok gó. Illhugi[2]) fór út ok gèngr upp á húsin, hann sèr at hundrinn horfir nordr af húsunum, heyrir hann þá manna mál ok kènnir glöggt mál þeirra brædra Sæmundar ok Gudmundar. [Illhugi gèngr til skála ok segir bónda[3]) at menn fóro at bænum, ok má vera at ei sèo med gódum huga til þeirra sem fyrir ero. Ögmundr mælti: hverir mano þar vera? Steinunn húsfreya svarar: [þat þykiumst ek giörla vita, at Sæmundr man vera fyrir flokki þessum[4]), [ok giörit fyrir guds sakir ok naudsyn ydra, at þèr aukit ei vandrædi vid frændr mína[5]). [6])Þeir klæddust skiótt[7]), Ögmundr bóndi tekr mörg speót[8]) ok ber út til kyrkio ok allir heimamenn hans gèngu med vapnum til kyrkio[9]), var þar fimtíu vígra karla er Ögmundi þótti vapnfært. Ögmundr ok Pètur Grímsson gèngo í stöpuldur, en í adrar gèkk Jón Karl ok Snorri Sveimr, þeir lèto horfa út speótsoddana, en í þesso leypa þeir Sæmundr heim á hladit, ok kalla at þeir skyldu laupa fyrir durin ok sva fyrir þær er nordr horfdo á husunum, gángit nú inn skörugliga, segir Sæmundr, ok látit þá einga vidtöko fá. Þá mælti Ögmundr: ef þèr vilit nokkra menn finna, þá gángit út til kyrkionnar, þvíat húsin ero aud af mönnum. Þá svarar eingi ok laupa allir senn ofan til kyrkionnar ok slógo ríng um hana ok brugdo sverdum. Ögmundr heilsar þeim bádum brædrum, þeir tóko því seinliga ok spurdo, hví þeir væro í kyrkionni? Ögmundr kvad vart hafa vordit vid ferd þeirra ok þótti þeir ei láta fridliga, en ef þeir vilit med ödro efni fara,

1) Feni. *B. E. Gr.*

2) bad Þorvald forvitnast at hverio hann gó, hann, bæta sömu vid.

3) frá [: Þorvaldr giörir ekki vart vid sik ok gèkk heim skiótt ok innar í skála at rúmi bónda ok segir, bæta sömu vid.

4) frá [: ekki þarf ek lengi at gèta til, þeir munu vera frændr minir Sæmundr ok Gudmundr. *B. E. Gr.*

5) vantar í sömu.

6) Ögmundr stendr upp þegar ok tekr bryniur nokkrar tíu, er hèngu fyrir rúmi þeirra, ok kastar eptir setunum ok bad menn upp standa, bæta vid *B. E. Gr.*

7) þvíat liós brann hveria nótt, bæta sömu vid.

8) er bundin vóru í kèrfi, bæta sömu vid.

9) ok er bóndi kèmr í kyrkiuna, telr hann lidit, bæta sömu vid.

þá skal ydr hèr heimil gistíng. Sæmundr svarar: ei manum vèr hèr mat eta at sinni, en þess bidr ek at þú gángir brott af kyrkionni. Ögmundr kvadst ei mundi útgánga fyrr en lysti, kvadst þá mundi giöra sem honum líkadi. Þá mælti Gudmundr: hvat manto þá meira kost undir þèr eiga, þótt lysi af degi? Ögmundr svarar: þat ætladik aldrei, fóstri minn, at þú mundir slíkum ordum mæla, sem nú heyrik. Ei man nú verda farit at því, hveria virdíngo þú leggr á, segir Gudmundr, [því at þú villt vera fullkvaminn úvin okkar brædra, ok launar illa þann velgiörníng er fadir okkar veitti þèr [1]). Feörgardr [2]) (Feargadr) Austmadr mælti, sá var med þeim brædrum: gaungum at ok látom ei kyrkiona standa fyrir þeim. Sæmundr kvadst þat ei giöra mundi, ok bad eingan mann dirfa sik at því, at giöra grand heilagri kyrkio. Módúlfr diákn [er kalladr var Gani [3]), hann fèkk brotizt út undir kyrkio-sillona ok hafdi hamar einn í hendi. Teitr fylgdarmadr þeirra, [er kalladr var Hafur-Teitr [4]), fèkk tekit diákninn ok spurdi hvat hann vildi er hann leóp sva? Þat skaltú brátt vita, segir diákninn, hvat ek vil, hefr upp hamarinn ok lystr á hálsinn [5]) sva at Teitr lèt þegar laust, [diákninn kastadi sèr út á ána [6]) ok lagdist yfir, því at hon var þyd midli höfudísa, hann fer á þann bæ er í Túngo heitir, ok segir Halldóri bónda heimsóknina, ok bad alla menn skunda til móts vid Ögmund, ok senda skeótt á bæi eptir mönnum, diákninn fór aptr hina sömo leid, ok er hann kèmr á bæinn, fer hann í badstofo, því at honum var kallt ordit. Teitr segir Sæmundi, at madr hefdi brott kvamizt, ok brátt mundo menn kvama. Sæmundr bad þá skeótt brott verda, ok vil ek rída í Skál til Helga Loptssonar. Þeir giördo sva, ok er miök var liόst, kvamu í Kyrkio-

1) Vera má, at sva sè, segir Ögmundr, en mæla mano þat sumir menn, at ek væri annara orda ei úmakligri frá þèr. Sva skyldi ok vera, segir Gudmundr, ef þú hefdir ekki fyrri valdit upphöfum ok fullkomnum fiandskap vid okkur brædur, þar sem fadir okkar veitti þèr þat upphald, attú mant aldrei fá sva gódu launat, þótt þú leitadir vid, þat sem þú skyldir, en ei med vèlum ok prettum, sem þú er nú sannprófadr at. *B. E. Gr.*

2) Fiargadr. *A. C. St.* Þ.

3) Gammadr. *B. E.* Gamenmadr. *Gr.* frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

4) vantar í *A. C. St.* Þ.

5) handlegginn *B. E. Gr.*

6) Módúlfr hleypr þegar at anni framm Kyrkbæíngaá, *A B. E. Gr. St.* Þ. Kyrkiubæará. *A. C. St.* Þ.

bæ áttatíu manna til móts vid Ögmund, þar var Svártr bródir Helga or Skál ok eggear miök eptirreidar ok þess fysto fleiri. Steinunn húsfreya latti eptirreidar, [kvadst hon bædi tilspara bónda sinn ok bródursono[1]), fysto þess fleiri ok kvádu íllt mundo hliótast af herlaupi þesso. Eptir þat rída þeir Ögmundr í brotto ok eirir undan þá enn fyrst, hann rídr nordr um land med siöunda mann á fund Þórdar Sighvatssonar, hann sat þá í Gèldíngaholti. Ögmundr segir Þórdi vandrædi sín, Þórdr kvad Ögmundi seálfrátt, í hvern stad at leggea lut sinn fyrir Sæmundi, þvíat þú hefir meira feárkost ok ert vinsæll af bóndum, þótt þú hafir ei godord, heyrik at bóndr vilia þèr betr en Sæmundi, ok þótt Sæmundr sè mægdr vid mik, þá mælik þat ei eptir honum at hann ofsæki[2]) nè einn mann, ok ver med mèr slíka stund er þèr líkar. Ok er þeir brædur Ormssynir spyria brottferd Ögmundar, þá [sendir Sæmundr menn[3]) í Kyrkiobæ ok bad bóndr kvama til móts vid sik, þeir fundo Sæmund í Skál. Sæmundr tók þat upp, at þeir bóndr hefdo synt sik í mótgángi vid sik, þar sem þeir vóro hans þíngmenn, baud hann þeim tvo kosti hvert þeir vildo heldr, at vinna honum trúnadareida edr láta fè sitt edr limo, en þeim syndist heldr at sveria þeim brædrum trúnadareida[4]), skildo þeir at því ok rido heim eptir þetta, ok er nú kyrrt ok tídindalaust um vetrinn.

*) 51. Nú er at segia frá Ögmundi, at hann er í Gèldíngaholti um vetrinn med Þórdi Sighvatssyni, en um varit eptir fardaga rídr hann sudr um Keöl ok vill ei rída í Kyrkiobæ, giörir Ögmundr vart vid, at hann var kvaminn í hèradit. Bóndr sendo þá ord Ögmundi, at þeir þóttust vera nokkut sva hremmdir, en kvádo þó Ögmundi iafnfreálsar sínar eignir sem siálfs síns, hvers sem hann þyrfti vid. Fór Ögmundr þá brott af Sído, ok visso menn úgiörla um ferdir hans, hvert hann mundi snúit hafa[5]). Þá slást í þessi mál med Ögmundi Þórarinssynir Þorvardr ok Oddr.

[1]) sonu sína. *B. E. Gr.* frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

[2]) sæki. *B. E. Gr.*

[3]) snúa þeir Sæm. *Gr.*

[4]) at skiliast ei vid þeirra mál, bæta vid *B. E. Gr.*

*) þessi kap. er sá 52ar í *B. Gr.*

[5]) hèr bæta *B. E. Gr.* inní því sem til er vísad á bls. 104 [4]).

Teitr Hallsson [1]) var med þeim brædrum Sæmundi ok Gudmundi ok undo þeir ei, er Ormr Svínfellíngr hafdi gèfit Þórarni godord þau er Gróa Teitsdóttir módir hans hafdi átt ok Ragnfrídr systir hennar [2]), ok aldrei höfdu þær leyfi tilgèfit at lógat væri godordunum. Nú fèkk Sæmundr eign godordanna af þeim, er lögliga átto ok at erfdum höfdo tekit. Þessi mál varo kærd á alþíngi ok lögdo hveritveggio undir Þórd Kakala. Þórdr giördi þat, at Þórarinssynir skyldo kcósa hvert er þeir vildo gealda fimtíu hundrud [3]) Sæmundi ok eignast þá godordin, ok skyldo handsalamenn framkvama, ádr þeir rido or Fliótshlíd. Þeir keöro at eiga heldr godordin, en eingir kvamo fram handsalamenn, kallar Sæmundr nú til godordanna, en þó er fyrst kyrrt, þó vex sundrþykki at nyu med þeim, reisa þeir flokkinn Þorvardr ok Oddr, fer Þorvardr sudr í Rángárhverfi ok bidr menn til atfara vid Sæmund. Oddr fór nordan vid áttatíu manna, ok þar sem þeir kvama, hrekia þeir menn. Sæmundr giörir menn nordr móti þeim, þá laupa þeir á einn klett allir, nema Oddr ok þeir þrír rido frá þeim, en hinir er á klettinum varo gèngo til sættar ok sóro Sæmundi trúnadareida, handsöludo þeir honum, at hann skyldi giöra af þeirra fè sva mikit sem hann vildi, ok þá er hann vildi, ok þar med at þeir brædur skyldo eiga allt fè þeirra, ef þeir lypo í flokk móti Sæmundi, ok fara útlaga af eignum, en þat giördu þeir þó sama sumars. [Þat sumar var mikil þíngreid, var Þórdr Sighvatsson feölmennr ok sva Sæmundr Ormsson. Þórdr rèd þá öllum Sunnlendíngafeórdúngi ok Nordlendíngafeórdungi eptir fall Brands Kolbeinssonar, en Gissor var þá utan. Sæmundr hefr fram mál þat er hann hvarf frá hit fyrra sumarit, þá er Brandr ábóti var á þíngino, er þat nú audveldt, þvíat eingi var til svaranna fyrir Ögmund, lykr nú sva, at Ögmundr verdr sekr, rídr Þórdr heim nordr ok eptir þat fór hann utan [4]). Um sumarit fyrr [5]) hafdi Þórdr ridit sudr til Hvols ok kvam þar um nátt med úfridi, gèkk

[1]) Hálfsson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) hans. sömu.

[3]) hundrad hundrada. sömu.

[4]) ok er þat mál manna, at hann skildi hardliga vid þetta mál, bæta vid *B. E. Gr.* frá [ setia *B. E. Gr.* innf ad framan bls. 103. [5]).

[5]) ádr Þórdr fór utan. *B. E. Gr.*

Philippus út ok þeir menn er inni fyrir varo, þá vildi Rani Kodransson liósta Philippum med keyri, en Þórdís Flosadóttir [1]) kona Philippusar var hiá ok brá hon hendinni vid med skikkionni ok bar af honum höggit, en sá vard skilnadr þeirra at sinni, at Philippus festi Þórdi utanferd sína á því sumri. Þadan reid Þórdr til Kèldna, þá sendi hann Aron í Odda, ok skyldi hann kvama Haraldi til móts vid Þórd, ok er Aron finnr Harald, segir hann, at þeir skulo flytea hans mál, ef hann vill fara med þeim, ok hans kostr skyldi sá vera bestr, ok segir honum annat úrádligra. Nú med því Haraldi þótti ei örvænt, at Aron fengi þat flutt, at hann færi ei utan, en trúdi honum vel, þá fór hann til móts vid Þórd, var þá eingi annar kostr af Þórdi, en Haraldr festi utanferd sína, ok þat fór fram, ok vard Aron honum at eingo lidi, var þat mál manna, at hann giördi þat ei at makligleikum. Þetta haust kvangodust Þórarinssynir, fèkk Þorvardr Solveigar dóttur Hálfdánar Sæmundarsonar ok Steinvarar Sighvatsdóttur, en Oddr fèkk Randalínar Philippusdóttur ok vóru bædi senn brúdlaupin at Hvoli. Um haustit eptir þat Sæmundarsynir vóru utan farnir, var Sigvardr biskup at brúdlaupino ok fór utan sídan ok Þórdr Sighvatsson. A því ári var veginn Gudmundr Healtasun.

*) 52. Madr hèt Rani Kodransson, hann var mikill ok skrámleitr, lángnefeadr nokkut ok hafit upp framanverdt nefit. Þórdr Sighvatsson hafdi vinabod [2]) á Grund ok baud mörgum manni, þar kvam Rani Kodransson, Eyúlfr Þorsteinsson, Rafn Oddsson, Sæmundr Ormsson, Sturla af Stadarhóli, Þorleifr or Gördum. A þeim fundi skipti Þórdr ríki med þeim, skyldi Eyúlfr hafa ríki í Skagafirdi ok búa í Gèldíngaholti, Rani skyldi taka vid búi á Grund ok vera fyrir Eyafirdi, Þorleifr skyldi vera fyrir Borgarfirdi, en Sæmundr fara austr til ríkia sinna, hver þeirra skyldi veita ödrum, ef nokkut þyrfti vid, þeir skyldo fyrir eingum laus láta ríki, nema brèf Þórdar kvæmi til edr hann seálfr, gaf Þórdr þeim öllum gódar geafir at skilnadi, fór hann þá utan, ok þótti mönnum hann lítt hafa skilizt vid málin þeirra Ormssona

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [2]) vinaveizlu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
*) þessi kap. er sá 53di í *B. Gr.*

ok Ögmundar. Rafn Oddsson beó at Saudafelli í Dölum, hann átti annat bú á Eyri í Arnarfirdi. Rafn fór iafnan til Borgarfeardar ok vingadist þar vid bóndr. Nikolás Oddsson átti Gydo Sölmundardóttur, hann var lengi med Þórdi Sighvatssyni ok fèkk af honum mikinn sóma, hann var hirdmadr Hákonar kóngs ok í gódri virdíngo med honum. Þau Gyda átto tvo sonu, hèt annar Valgardr, en annar Sölmundr [1]), en Helga dóttir, hon var gipt Þorláki Narfasyni, þeirra son var Kètill. Nikolás átti bú í Kalmanstúngo ok var löngum med Rafni, ok var med þeim mikil vinátta. Allir hinir stærsto bóndr í hèradino vóru trúnadarmenn Rafns [2]), Egill Sölmundarson, Þorkèll prestr í Sídomúla ok Finnr af Sámsstödum.

*) 53. Þá er Sæmundarsynir kvamo á fund Hákonar kóngs, tók hann vel vid þeim, gáfo þeir þá upp godordin í vald Hákonar kóngs ok varo med honum tvo vetur, sídan gèfr kóngr þeim ordlof til Islands, ok fær þeim aptr ríki sitt ok kvadst skyldo auka sæmd þeirra, fóro þeir í skip med Kolbeini Svarta ok Skèggia Hvíta ok sigldo í haf ok höfdo lánga útivist ok laugardaginn [3]) fyrir Michaelismesso sigldo þeir austan fyrir Myrdalseyri [4]) ok sva vestr fyrir ok stód Haraldr á búlkabrún ok skodadi land, hvesti þá sva vedrit sem áleid náttina, ok þat vedur giördi mánadaginn at skipit leysti undir þeim, leópo menn þá í bát ok tyndust þeir allir, en fiórir menn lupo í stafnlok skipsins, ok sögdu þeir sva sídan, at þeir kèndo at Philippus kvamst þridi [5]) á keöl, en þeir varo þrettán dægr á skipflakino ok höfdo harda útivist, þeir höfdo eingan drikk nè vist, nema einn smiörlaup ok áto þar vid svardreidann, sídan fundo fiskimenn þá or Vestmannaeyum ok flutto þá med sèr til eyanna, [þar var Ari Ingimundarson, Sighvatr Kostr, Mör-Kári, Ögmundr var hinn fiórdi [6]), varo þeir miök þrekadir sem van var.

[1]) Sigmundr. *St.*

[2]) en mest, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

*) þessi kap. er sá 54di í *B. Gr.*

[3]) drottinsdaginn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) Mydalseyri. *A. C. E. St.* þ.

[5]) þrisvar. *A. B. E. Gr.* þ.

[6]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

*) 54. Nærsta vetur eptir þat er Þórdr Kakali fór utan, reid Sæmundr Ormsson í móti þeim Oddi ok hafdi seálfdæmi af mönnum hans, ok þat sama sumar er Sæmundr var á þíngi, tók Þorvardr Þórarinsson Gudmund Ormsson ok nokkra menn med honum ok flutti þá naudiga til Austfearda, ok varo þar haldnir til Oláfsmesso, Þorvardr vard sekr um hernad á alþíngi ok Oddr [1]), Loptr Hálfdánarson [2]) ok Magnús Jónsson, eptir þat sættust þeir um sumarit í Skagafirdi, ok handsöludo hvarirtveggio fyrir sína menn öll þau mál er giörzt höfdo sveitanna á medal, vard þat at sætt, at þeir skyldo lutast um hver giöra skyldi vid eid Sæmundar ok Þorvardar [3]), ok laut Sæmundr at giöra. Þessari giörd var upplokit undir Lónsheidi [4]), ok var þat upphaf, at Sæmundr giördi sèr til handa sextíu hundrud fyrir töko Gudmundar á hendr Þorvardi, en tvö hundrud á hendr hverium hinna er fóro med honum, ok skyldi annar eyrir uppgèfast er annar væri goldinn. Fyrir sekt Þorvardar giördi hann sèr þriátíu hundrud til handa, ok enn giördi hann sèr þriátíu hundrud af Oddi fyrir sekt hans, eitt hundrad á hendr hverium þeirra er fóro med Oddi til hernadar nordan á sveitina, tuttugu ok fimm hundrud giördi hann sèr fyrir sekt Lopts Hálfdánarsonar [5]), fimtán [6]) hundrud fyrir sekt Magnúsar Jónssonar, þat mannaforrædi giördi hann sèr til handa er þeir höfdu um deilt, en þat var nordr frá Lónsheidi um feördu til Grepils [7]) ok til Eyvindar-ár upp í hèradi, ok skyldi þat iafnt skèrda lut þeirra brædra beggia, skyldo þeir þat med sèr iafna, en hafa þau godord er nordr varo þadan, sídan sór Sæmundr eid at giörd sinni, eptir þat baud hann þeim heim, en þeir sótto bodit, ok at skilnadi gaf hann þeim sæmiligar geafir. Fám [8]) vikum sídar lèt Oddr drepa Þorstein Teörvason, ok var ílla látit yfir því verki, hann átti Þórdísi Jónsdóttur födursystur Odds.

*) Þessi kap. er sá 55ti í *B. Gr.*

[1]) bródir hans, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) Hálfdán Loptsson. sömu.

[3]) Sæmundr ok Þorvardr, sömu.

[4]) Lómsheidi, sömu.

[5]) Hálfdánar Loptssonar. *A. B. C. E. Gr.* Þ. Ormssonar. *St.*

[6]) tuttugu ok fimm. *B. E. Gr.*

[7]) Gèrfils. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[8]) fimm. *B. E. Gr.*

*) 55. [Nú er þar til máls at taka, sem ádr var frá horfit, at [1]) sekt Ögmundar fréttist af þíngino, en er Brandr ábóti spyr þat, þá lèt hann illa yfir, en Sæmundr reid í Kyrkiobæ ok hádi fèránsdóm eptir Ögmund, var þá skipt fè öllu því er þar var, fyrst var fráskipt stadar-eign, en þá sídan í helmínga med þeim hiónum, tók Steinunn til sín allt þat fè er hon kalladi sèr, ok þar med þat fè sem Ögmundr hafdi gèfit henni, en Sæmundr kvadst því vel trúa er hon segdi til, en miök þótti fylgdarmönnum Sæmundar þat í móti skapi, er hann lèt þat fè laust, en hann kvad þá ei því ráda skyldu, en er þeir ráko í brotto fèit, þá æpto nokkrir menn upp ok sögdu: þetta kèmr húsfreyo í grát. Sæmundr bad þá þegea, þá mælti ein kona, at varkunn væri þótt henni þætti mikit at seá eptir slíku fè. Húsfreya svarar: þat manto ætla, at ek gráti fè þetta er þeir reka í brotto, en þat er ei, þvíat ek vilda gearna at þeir hefdo er meir medþyrfto, ef sva hefdi ei tiltekizt, sem nú er, heldr græt ek þat er ek uggir at eptirkvami sídar, gèkk hon þá til kyrkio ok bad fyrir þeim öllum iafntsaman, bad hon þess gud, at vidbærist vandrædi med þeim mágum, medan hon lifdi, ok sva vard sem hon bad. Sva mikit fè var brotto rekit ok kvam í helmíng Ögmundar, þriátíu kyr ok tólf kúgilda úngra gèldneyta, fiögur arduryxn, hundrad ásaudar, fimtíu gèldíngar, siötíu veturgamallra sauda, tuttugu hross, hálfr þridi tugr svína, fimtíu heingása [2]), tólf skildir, tólf speót, sex stálhúfur, sex bryniur ok tíu kistur, dúnklædi á hest. Þetta fè, sem nú er upptalit, ráko þeir til Svínafells ok sáto nú um kyrrt þat er eptir var sumarsins, ok höfdu þeir Ormssynir mannmargt.

**) 56. Nú rídr Brandr ábóti at finna Sæmund frænda sinn ok bidr at hann sættist vid Ögmund, Sæmundr tekr þesso, ef hann kynni sik med hófi at halda, bad Sæmundr ábóta at semea fullkvamlig grid ok sætt þeirra í midlum ok fastan frid. [Abóti vard feginn vid gódgirnd sína [3]), þakkar hann nú Sæmundi ord sín ok

*) þessi kap. er sá 56ti í *B. Gr.* **) þessi kap. er sá 57di í *B. Gr.*

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) heingása. *B.*

kvadst vænta honum mundi vel fara, rídr ábóti heim eptir þat ok kèmr í Kyrkiobæ ok segir Steinunni systur sinni, at Sæmundr hafi heitit honum at sættast vid Ögmund, hon vard þesso allshugar fegin ok giörir þegar mann á fund Ögmundar ok bidr hann heim rída, rídr hann þegar heim, hon tekr vid honum feginsamliga, segir enn ekki góds skorta þess er hafa þyrfti, vóru nú sett fullkvamin grid midlum þeirra Sæmundar ok Ögmundar ok veittar fullkvamligar trygdir af gódvilía ok rádum Brands ábóta ok Steinunnar húsfreyo ok Alfheidar módur Sæmundar ok tillögum annara gódra manna, [bad Steinunn nú Ögmund at halda vel þessa sætt [1]). *) Egill Skirhnakkr rídr nú um haustit til Svínafells, Sæmundr tekr vel vid hónum, var hann hinn besti búþegn, hann hafdi aldrei færri eptirgaungomenn en fimtán, þeir er honum fylgdo iafnliga, en opt flerri [2]). [Egill segir Sæmundi mörg vingearnlig ord Ögmundar, tók hann því vel [3]). **) Sva bar til, at Sæmundr reid um vetrinn eptir sættina [um farinn veg [4]) ok kvam í Kyrkiobæ, med hónum var þorsteinn Skèggeason ok fátt af fylgdarmönnum hans, Ögmundr gèkk út í móti honum ok allir vígir karlar sem á varo bænum [nema prestr [5]) ok höfdo allir vapn nokkut í höndum, [verda í fyrsto ekki skeótar kvediur, en þó [6]) sneri Ögmundr þá á gledi [7]) vid Sæmund ok bydr honum þar at vera, en hann kvadst rída mundi, sem hann giördi, til fundar vid Brand ábóta, snèri Ögmundr þá á leid med Sæmundi, [ok fór med þeim sæmiliga [8]), en er þeir höfdo skilit, mælti þorsteinn Skèggeason til Sæmundar: [hugleiddir þú þat allir menn hèr höfdo nokkut vapn í hendi þeir er útgèngo í móti þeir? Sæmundr svarar: hví mundi þat saka? [9]) þorsteinn mælti: þá mundir þú þat hafa vitat, ef Gudmundr hefdi hèr verit bródir þinn. [Sæmundr mælti: hættu

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) frá *) kèmr eptir [5]) bls. 110. l. 10 í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) vantar í sömu.
5) vantar í sömu
6) frá [ vantar í sömu.
7) gledil, *B. C. E. Gr. St.* þ.
8) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
9) kvad synast Ögmundr ekki trúligr. Sæmundr bad hann þegia ok mæla ekki sliki, þar sem vid erum menn sáttir, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

skeótt ok drag ei á þat, at Ögmundr mágr okkar mani ei vel halda sættir varar [1]. Sæmundr fann Brand ábóta, [ok dvaldi þar nokkra ríd [2], ok segir ábóta at mönnum þætti ei Ögmundr trúligr um gridin. Abóti segir, at hann mundi ei sannr at því. Sæmundr mælti: þat bydr mèr hugr [3], at mèr þykkir sárt at segia feörrádin Ögmundar vid mik, er þú trúir ei [4]. Abóti bad hann vel halda sætt sína, kvad þat mesto varda. Sæmundr kvad sva vera skyldo, sídan skildust þeir med blído ok fundust ekki þadan af lífs [5]. Þat vard til tídinda í Kyrkiobæ um vetrinn á lángafösto, at Steinunn húsfreya tók sótt ok lá um föstuna, hon var oleud [6]) skírdag, en andadist laugarkveldit fyrir páska, ok þótti mönnum þetta mikil tídindi ok stór skadi, en bónda hennar ok sonum mest [7], hon var iördud annan dag páska, yfir grepti hennar stód Brandr ábóti bródir hennar ok mart annara manna, þvíat hon var mönnum hugþekk medan hon lifdi. Þetta hit sama var í páskaviko sendi Ögmundr Helgason brèf [8] Sæmundi Ormssyni [9] ok bad at hann skyldi halda vináttо vid sik þadan frá sem tengdum þeirra heyrdi til, ok kvad þess Steinunni húsfreyo hafa bedit med miklum alhuga ok gódgirnd ádr hon andadist, [ok mart annat var á því brèfi sæmiliga talat [10], [ok med ödrum lutum var Sæmundr bedinn til med mörgum fögrum ordum, at hann skyldi vægia sveitarmönnum ok fara ei med margmenni, þótt hann færi at finna Brand ábóta módurbródur sinn, var þat tilfundit at varit var heldr hart ok íllt til heya, trúdi Sæmundr þesso ok reid vid fá menn heiman [11] ok lèt heima sitia alla fylgdarmenn sína.

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í *B. E. Gr.*

3) herra! bæta sömu vid.

4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

5) frá **) gèngr á undan *) bls. 109 l. 11 í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. Ögmundr var um vetrinn ok heldr fálátr, hann taladi iafnan miök vingiarnliga til þeirra brædra, þá er þeirra var gètit, bæta vid *B. E. Gr.*

6) olierud. *B. E. Gr.*

7) vóru þá þegar sögd tídindin til Þykkvabæar, bæta sömu vid.

8) bod. sömu.

9) med manni sínum, stód þat þar í med ödrum ummælum, bæta sömu vid.

10) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

11) frá [: hann bad ok Sæmund vera hægan vid bændur um þá luti er þeir ætti saman, kvad þá því traustara

*) 57. Föstudaginn eptir páskaviko reid Sæmundr heiman med fiórda mann, var í reid med honum Gudmundr bródir hans ok þeir frændr hans Skèggiasynir Klængr ok Þorsteinn, ætludo þeir at finna Brand ábóta, sem ádr höfdo þeir ord sendst sín í midli, en sídan ríða í Skál til Helga vinar síns, þeir rido föstokveldit á bæ þann er á Hörgslandi heitir, þat var á Sído, Sæmundr átti þar bú, þar var fyrir búi sá madr er Sölmundr hèt, hafdi Sæmundr hann þar fyrir settan, sídan hann tók landit af Helga [1]) Smid Módúlfssyni. Um kveldit er þeir gèngo frá badi, mælti Sæmundr vid kono þá er honum þeónadi [2]): gnú þú um háls mèr þerrunni [3]), þvíat mèr klæar miök, hon giördi sem hann mælti. Ekki gnyr þú [4]), segir hann, tekr hann nú af henni dúkinn [5]) ok gnyr sem tídast, [ekki vard þar fleira til tídinda [6]). Um morgininn segir Gudmundr draum sinn, en ei er eptirtekit. Þetta spurdist nú í Kyrkiobæ, at Ormssynir væro á Hörgslandi [7]). Verkmenn í Kyrkiobæ stódo upp at vanda [8]) laugardags myrgininn, ok spurdo bónda hvát þeir skyldo giöra? Ögmundr mælti: gángit fyrst til matar, ok er þeir varo mettir, gèngo þeir til Ögmundar, var hann þá klæddr, ok þótti þeim hann undarliga búinn, þvíat hann var í brynio ok pansara um utan, stálhúfo á höfdi ok öll ridug, eggsi hafdi hann í hendi Svartleggio, þá er hann gèkk opt med, en búklara í annari, hann var manna mestr ok sterkastr, vel á sik kvaminn ok raudhærr, þykkr í andliti, digrnefeadr ok biúgt nefit, fámæltr hversdagliga. Þar var ok Þórarinn Snorrason or Asum, Egill Skirhnakkr, Snorri Sveimr [9]), Arni Gullskèggr, Brandr Gudmundar-

honum vera mundu ok veita honum meira eptirgáng, hvörs sem hann þyrfti vid, fara ok heldr fámennr um hèradit nú, er hallæri væri mikit ákomit, þvíat nú er vetrar ríki mikit ok er bædi íllt til matar ok heya. Sæmundr svarar hèr fáo um, en íhugadi þó slík ord, þó reid hann sídan vid fá menn heiman, sva sem hann trydi þessu, *o. s. fr. B. E. Gr.*

*) Þessi kap. er sá 58di í *B. Gr.*

1) Hákoni. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

2) þerdi. sömu.

3) þurkunni. sömu.

4) nógu fast, bæta vid *A. C. St. Þ.*

5) þurkuna. *A. C. St. Þ.*

6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

7) um nóttina, bæta vid *B. E. Gr.*

8) til verka sinna, bæta sömu vid.

9) Sveinsson. *A. C. St. Þ.*

son, þar varo ok heá honum synir hans Jón Karl [1]) ok Sigmundr [2]), þessir varo allir alvapnadir. Ögmundr fèkk vapn húskörlum sínum, sva at hann gèkk út vid þrettánda mann ok snyr til kyrkio ok dvelst þar litla ríd, eptir þat gèngr Ögmundr eptir geilum austr vid þessa menn, nema þeir nú stadar í hvammi einum skammt frá veginum. Nú er at segia frá þeim Sæmundi, at þeir rísa upp um morgininn á Hörgslandi, ok bádu taka hesta sína, þeir rido allir í steindum södlum, rido sídan til Kyrkiobæar ok kvamo at því síki er leid liggr til Kyrkiobæar, ok skammt var frá þeim hvammi er þeir Ögmundr sáto í. Sæmundr reid þeirra fyrst, hann var í hálfskiptum [3]) kyrtli raudum ok grænum ok hafdi kastat yfir sik sölovod ok voro saumadir saman iadrarnir, [því at þoka var myrk ákafliga ok hraut or af væto [4]), ok stálhúfo á höfdi, girdr sverdi ok búklara á södulboga, hann var medalmadr á vöxt, manna kurteysastr, liósbærr ok fölleitr, vel eygdr, [nokkut munnliótr ok þó vel farinn í andliti [5]) ok manna best knár. Gudmundr bródir hans reid nærst honum*), þá Þorsteinn Skèggiason, þá Klængr, allir vapnadir. Ögmundr stendr upp, er þeir rída á síkit, ok bad taka þá. Þorsteinn Skèggeason mælti þá: þar sèr þú, Sæmundr, at Ögmundr sitr hèr fyrir oss med marga menn. Sæmundr svarar: hvat kèmr til þess? Er sem má, segir Þorsteinn. Sæmundr rídr þá fram í götuskardit, gèkk Ögmundr þá fram á bakkann ok tók bádum höndum um Sæmund fyrir nedan axlir ok ætladi at færa hann af baki, en hann stód sva fast í stigreipom [6]), at ekki gèkk fyrir, tóko þá til þrír menn adrir med Ögmundi, en sumir spretto giördum, ok tóko þeir sva Sæmund af baki, en þeir Snorri Sveimr ok Brandr Gudmundarson tóko Gudmund af baki, Þórarinn Snorrason ok Arni Gullskèggr tóko Þorstein af baki, Klængr kvamst af síkino ok leóp af baki ok brá sverdi, þat sèr Egill Skirhnakkr ok leggr til Klængs med speóti, sva at hann fèll þegar aptr á bak í

[1]) hann var líka i hríngabryniu ok vopnadr. *B. E. Gr.*

[2]) vantar í sömu.

[3]) hálflitum, *B. E. Gr.*

[4]) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

[5]) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

*) hèr bæta *B. E. Gr.* inní því sem seinna er til vísad.

[6]) er hann reid í standsödli, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

síkit ok vard honum laust sverdit, þá gèkk at honum Jón Karl ok rètti at honum speótit ok bad hann taka í, Klængr tók í speótskaptit ok mælti: grid vildak, frændi. Vel má þat, segir Jón, ok man ek taka vid vapnum þínum, Klængr giördi sva. Þá gèkk Jón at Þorsteini ok baud honum grid, tók hann þá vid vapnum hans. Þá mælti Sæmundr: hvat skal nú þessi fyrisát, Ögmundr? ek hugda vèr mundom nú sáttir. Ögmundr mælti: [þú skalt nú deya ok sva Gudmundr bródir þinn [1]. Prestsfund vildak fá, segir Sæmundr. Fyrir skèmstu manto hann haft hafa, segir Ögmundr. Giör nú sem gud kènnir þèr, segir Sæmundr. Jón Karl segir, at fara skal eptir presti, þrír varo prestar á stadnum, Þormódr hèt stadarprestr, annar Healti, þridi Sæmundr, nú kvamo prestarnir til ok bádo þeir þeim grida, vard Sæmundr prestr hardordr [2] ok kvad Ögmund seint mundo fá bætt glæp sinn, ef þetta gèngi fram. Ögmundr hlyddi á, hvat þeir sögdo, ok gaf sik ekki at. Sæmundr Ormsson bad, at hann sendi eptir Brandi ábóta ok kvadst vilia finna hann, Ögmundr kvad þess einga van, ok er eingi van var grida, skriptadist Sæmundr vid Þormód prest, en Gudmundr vid Healta prest ok tóko bádir þeónusto [3], eptir þat láso þeir Litaníam, sídan varp Sæmundr af sèr yfirhöfninni, fèll á knè ok leit í gaupnir sèr ok bad gud almáttkan miskunar, hann vard vid daudann heálpvænliga, en þó ei hardliga. Ögmundr mælti til Arna Gullskèggs: tak hèr eggsi ok högg í höfud Sæmundi, ef hann leggst ei nidr. Sæmundr lagdist þá til iardar ok hafdi hendr fyrir augum sèr. Arni heó þá á hálsinn sva at eggsin stód í sandinum, en höfudit hnè af honum, en þat undrudust menn er ekki blæddi líkamanum. Þá súngo prestarnir siö psálma ok Gudmundr med þeim, ok fann [ekki á honum annan veg en hvat hann kvad nokkut hardara at ordúnum en adrir [4]. [Gudmundr var í blám kyrtli ok hafdi yfirhöfn stríprenda, hann reid vid alvæpni, hann var lágr

[1]) at Sæmundr skyldi ekki kunna leingi at segia frá tídindum. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) hrapordr. sömu.

[3]) hold ok blód Jesu Christi [i sinn líkama. *B. E. Gr.*], bæta vid *A. B. C. E. Gr. St* þ.

[4]) eingi madr, at hann brygdi sèr nokkut vid þessi tídindi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

madr ok svolvaxinn [1]), herdamikill ok midmiór, raudgulr á hár ok hærdr miök, þykkleitr ok frídr madr synum, blídr í vidrædo. Þorsteinn var medalmadr vexti ok fálátr madr í skaplyndi. Klængr var hár ok grannr, leós á hár ok vel á sik kvaminn.*) [Bádir höfdu þeir brædur Sæmundr ok Gudmundr husladir verit [2]). Þá var Gudmundr átián [3]) vetra. Ok er prestarnir höfdo súngit psálmana, mælti Gudmundr til Ögmundar: gott væri enn at lifa ok vildak grid, fóstri. Ögmundr svarar [4]): ekki þorum vèr þat nú, fóstri, ok var hann þá raudr sem blód. Gudmundr mælti: skammt liggr sá nú hèdan, er þú lèzt drepa, [at ei man einsætt at bidia þik nokkurrar lífgeafar [5]), er ei betra at semia vid ydr ok lifa eptir hann daudan. Gèkk Ögmundr frá eptir þat ok settist nidr ok var þrútinn miök í andliti. Þá mælti Jón Karl: slíka för skalto fara, Gudmundr, sem Sæmundr bródir þinn. Jón kvaddi þá til nokkra menn at vinna á Gudmundi, en eingi vildi þat giöra, þvíat Gudmundr var flestum mönnum þar hugþekkr. Þorsteinn hèt madr er kalladr var Hrakauga, hann hafdi sótt korn um daginn ok kvam heim til eldhússdyra, þar var Illhugi briti, Þorsteinn spurdi hvar menn væro allir? Þat skiptir þik eingo, segir Illhugi, ok tak af reidínginn ok fær hestinn á gras. Þorsteinn skèr þá gagntökin [or klifberanum [6]) ok hrindr ofan reidínginum med klifionum, lióp hann þá á bak ok rídr sídan austr or gardi, allt til þess er hann kvam til móts vid þá Ögmund. **) Jón kvad hann hafa skyldo eyrindi, ok fèkk honum þá sömo eggsi, er Sæmundr var höggvinn med. [Þorsteinn tók vid eggsinni ok hafdi eingi ord fyrir [7]). Þá tók til orda Sigmundr son Ögmundar, ellefu edr tólf vetra gamall: giör þú, Þorsteinn, þat sem þeir vilia! [Annat skal honum verr [8]), segir Jón Karl. [Gudmundr mælti enn sem fyrr, at gott væri at lifa, en eingi svaradi honum [9]), hann lagdist þá nidr nær brosandi

[1]) sívalvaxinn. *B. E. Gr.*

*) frá [ setia *B. E. Gr.* á 112 bls. *)

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) þrettán. *B. E. Gr.*

[4]) leit frá ok mælti. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í sömu.

[7]) frá [: en hann mæltist undan. *A. B. E. Gr.* Þ. frá **) vantar í *C. St.*

[8]) annar — verri. *B. E. Gr.*

[9]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

ok bad gud heálpa sèr, gèkk þorsteinn þá at med reidda öxina, hann heó til Gudmundar, ok kvam höggit þar er mættist hálsinn ok herdarnar ok sneiddi miök út á herdarbladit, var þat allmikit sár, [gèkk sú hyrnan miklo lengra nidr er út vissi á herdarnar ok á öxlina [1]), gèngo þá flestir frá [sem ei var haldit ok ætludo brott at fara, ok þótti þá flestum ærit at unnit ok fannst mikit um þessa atburdi [2]), en er prestarnir tóku til at syngia, þá gèkk at Brandr Gudmundarson ok tók hendi sinni ofan í sárit [ok vildi vita hversu diúpt var ok leitadi med fíngrinum [3]), sídan mælti hann [vid Ögmund ok Jón son hans [4]): eigi vilit þèr Gudmund feigan, ef ei skal meira atvinna. Jon kvaddi þá enn til þorstein Hrakauga at vinna á honum annat sinn sva at yfirtæki med öllu, en hann neitti því. Jón kvad honum annat skyldo verra. þorsteinn gèkk þá aptr til þar er Gudmundr lá ok ætludo flestir menn hann þá sáladan þeir sem þar varo, en prestar súngo fyrir sál hans, þorsteinn reiddi þá upp eggsina hart ok hátt ok heó á hálsinn sva at aftók höfudit. [þá gèngo þeir fèlagar frá ok heim [5]), en prestar beoggo um líkami þeirra brædra, [líkama Gudmundar blæddi þá miök [6]), en Skèggeasynir varo teknir ok byrgdir í einni lítilli stofo ok hèt Ögmundr þeim dauda þegar eptir helgina, þá var af nóni.

*) 58. Sídan skipto þeir Ögmundr lidi síno, reid hann í þykkvabæ at Svarti Loptssyni, hann var í eldahúsi, ok var þvegit höfud hans, sveinninn þorkèll son Svarts mælti, er hann sá mennina rída í túnit, kvaminn er prestr, fadir, segir hann. Svartr gèkk þá út, tók Ögmundr hann þegar, Svartr heilsar honum ok spyr tídinda, Ögmundr segir slík sem var, þá bad Svartr sèr grida. Ei skal drepa þik, segir Ögmundr, en handhöggva skal þik. Ekki þykkir mèr þat betr en daudi, segir Svartr. þat skal þó giöra, segir Ögmundr, þótt þèr þyki þat verra. Vilia manto, segir Svartr, at ek bæti fyrir mik fè ok fari utan ok kvami aldrei til Islands

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) frá [ vantar í sömu.

[3]) vantar í sömu.

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) vantar í sömu.

*) þessi kap. er sá 59di í *B. Gr.*

medan ek spyr at þú lifir. Vel má ek seá þik, segir Ögmundr, en ei má vita hverium best vinnast peníngarnir, sídan felldi hann Svart ok hèllt í fíngurna framanverda ok bad Arna Gullskègg höggva hönd af honum, [Arni kvadst þat ei vilia [1]), þú skalt þat giöra, segir Ögmundr, þá gèkk Arni at med reidda eggsina, Ögmundr mælti þá: högg þú ei á hönd mèr. Arni kvadst þat víst [2]) vilia, Arni heó þá á hönd Svarti fyrir ofan úlflid ok tók ei af, Ögmundr skaut þá undir búklara, þá heó Arni annat sinn á höndina þar er handleggr var digrastr ok tók af þegar, lèto þeir hann þá uppstanda, gèkk hann inn ok vard vid hit hardmannligasta, [þá ber Ögmundr hann inn í stofo ok bindr um höndina ok rídr sídan [3]). Nú skal segia frá Jóni Karli, hann rídr vid siötta mann út í Skál at Helga, hann stód úti á hladi vid nokkra menn ok hafdi á sèr kápo [4]), þá kvam Egill Skirhnakkr at ok fèkk tekit í kápona, Helgi lèt lausa kápona ok kvamst í kyrkio, þá mælti Egill: þar sá refr rakka, en rakki hafdi ekki, ok skal kyrkian ei standa fyrir þeim, segir hann, þvíat hon er úvígd. Jón kvadst ei mundi draga hann or kyrkio, ok manum vèr nú ei södla sva glæp á úhapp, ok rido vid þat í brott, ok lèt Ögmundr illa yfir ferd þeirra. Þeir Þorsteinn flutto lík þeirra brædra til kyrkio med kènnimönnum, þá sendi Ögmundr mann eptir Brandi ábóta ok reid hann skeótliga í Kyrkiobæ ok stód yfir grepti þeirra brædra. Ögmundr leggr þetta mál undir Brand ábóta ok þá Skóga-Skèggea, þeir giördu níutíu hundrud fyrir hvern þeirra brædra, en fyrir handhöggit Svarts þriátíu hundrud, skyldi Ögmundr ei vera þrim náttom lengr á Sído nema hann færi í klaustur at Þykkvabæ [5]). Jón Karl skyldi sudr gánga ok vera utan þriá vetur, þeir Þorsteinn Hrakauga ok Arni Gullskèggr skyldo utan fara ok kvama aldrei til Islands. Þeir Jón ok Þorsteinn fóro utan á eino skipi ok ætludu at gánga sudr, þá leysti fót undan Jóni í knèlidnum, ok dó hann af því, en Þorsteinn settist aptr af sudrgaungunni [6]). Arni

1) Arna lèzt þat íllt þykia. *B. E. Gr.*
2) ei, bæta vid *A. C. St.* Þ.
3) vantar í sömu.
4) Egill Skirhnakkr rídr upp fyrir austan kyrkiuna, Helgi kènnir mennina ok gèngr til kyrkio, bæta vid *B. E. Gr.*
5) Miklabæ. *C. St.*
6) ok kom hann ei til Islands, bæta vid *B. E. Gr.*

Gullskèggr fór utan á skipi Sindra [1]) ok lèzt þar. [Ögmundr gallt fèit sem ákvedit var [2]). Þetta var fór Ögmundr bygdum sínum í Dal undir Eyafiöllum ok hafdi þá lítit fè. Egill Skirhnakkr fór med honum ok Snorri Sveinr, en í Kyrkiobæ fór Arnór [3]) prestr Skríll [4]) at rádi ábóta.

*) 59. Um sumarit eptir var þíngreid mikil nordan or sveitum, [fëölmennti Eyúlfr Þorsteinsson miök [5]), hann átti þá bú í Gèldíngaholti, hann reid til þíngs med sex hundrud manna, Gissurarsynir feölmennto miök. Um vètrinn ádr lèt Hallr Gissorsson drepa Börk [biskups frænda [6]) á Bersastödum, er verit hafdi fylgdarmadr Þórdar Kakala. Broddi Þorleifsson ok Páll Kolbeinsson gèngo á milli ok bóndr med þeim, sva at þeir nádo ekki at berjast. Þat sumar reid Oddr Þórarinsson til þíngs ok giördi Rana Kodransson sekan skógarmann, fyrir þat er hann laust keyrishögg Philippum Sæmundarson, þá er þeir Þórdr Sighvatsson sótto hann heim til Hvols [7]). **) Rani baud ekki bod fyrir sik [8]). Þat sama sumar fundust þeir í Vatnsdal Eyúlfr, Rafn, Sturla ok Þorleifr or Gördum ok ángradi þá miök dráp Sæmundar fyrir sakir mægda ok sambands þess er Þórdr hafdi þá samanbundit ádr hann fór utan, giördo þeir þat rád, at þeir mundo bída til þess er skip gèngio [af Noregi [9]) ok Þórdr kvæmi út, edr hitt ella, at hans væri ei van. Þat var þar ok talat ok samtekit, ef Gissor kvæmi út, at þeir skyldo halda ríkin fyrir honum edr hverium ödrum er til kalladi. Þorleifr fór í öllu þessu seinliga, ok þótti þeim hann í öllu slær, ok skildust at því, en Eyúlfr baud þeim heim öllum í Gèldíngaholt at Laurentiusmesso, ok skildust vid þat.

[1]) sydra. *A. B. C. Gr. St.* Þ.
[2]) vantar í *B. E. Gr.*
[3]) Arni. *A. B. C. Gr. St.* Þ.
[4]) er kalladr var Skull. *B. E. Gr.*
*) Þessi kap. er sá 60ti í *B. Gr.*
[5]) lèt Eyúlfr Þorsteinsson, er Þórdr hafdi sett fyrir sveitirnar, fiölmenna miök nordan úr hèrödum. *B. E. Gr.*
[6]) son. *B. C. Gr. St.* Biskups-Börk. *E.* Þ. frá [ vantar í *A.*
[7]) Hóla. *C. St.*
**) en þó höfdu þeir brædur Philippus ok Haraldr druknat annat sumarit ádr sudr fyrir Mundakseyri, var þá ei fyrir Philippus at meta málaferli vid Hrana, bæta vid *B. E. Gr.*
[8]) á þínginu, ok ridu menn vid þat heim, bæta sömu vid.
[9]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

*) 60. Um sumarit at Laurentiusmesso var veizla mikil í Gèldíngaholti, kvam þar til Rafn Oddsson, Sturla Þórdarson, Þórdr Hítnesíngr, Nikolás Oddsson. Þorleifr í Gördum hafdi sent Eyúlfi brèf, var þat lesit at veizlunni, segir hann sva, at Ögmundr Helgason beó sva nær kyrkio, at ei mundi sva at honum kvamit, þótt hann vildi á hefnileid róa, at ei mundi hann skeótt ná kyrkio, segir Þorleifr sik traustan ok öruggan til slíks er þeir vildo upptaka. At aflidinni veizlo rido menn í brott, reid Sturla á Gunnsteinsstadi um kveldit, þat var midvikoaptan fyrir Maríomesso, en er þeir kvamo á leid um myrgininn, var Sturla hlióðr. Þórdr Hítnesíngr spyr, hví hann væri sva hlióðr? en hann kvadst hugsa um draum sinn. Þórdr spurdi, hvat hann hefdi dreymt? Hann kvad sik dreymt hafa, at fadir hans kvam at honum, ok kvadst hann spyria hann tídinda, en hann kvadst eingi segia, ok spurdi í móti, ef hann vissi nokkur, [en hann kvadst eingi vita[1]), frètt manto hafa, segir Þórdr, skipkvamo í Eyafirdi ok er þar á vidbeörn[2]), er Bödvar á frændi okkar á Stad, ok sagt dyr þetta heldr ólmt, en er ek vilda spyria fleira, þá vaknadi ek. Þórdr spurdi, hvat hann hygdi þann draum vera mundo? hann kvadst giörla vita edr ætla, at Þórgils Bödvarsson mundi annathvert kvaminn vid land edr kvama allbrátt, þeim þótti þetta glíkligt[3]), þá spurdi Þórdr, hví hann hefdi sva fár verit í Gèldíngaholti? Sturla segir: því at mèr var þar vidbeódr vid öllu, ok allt kvam mèr þar verr at haldi en veitt var, en ei kèmr mèr þat úvörum, þó ei sè enn búit um skipti var Eyúlfs. Eptir þetta reid hver heim.

**) 61. Gissor Þorvaldsson var þessar stundir med Hákoni kóngi, sídan hann fór utan um sumarit eptir Haugsnessfund[4]), fór Þórdr Sighvatsson til Islands, sem fyrr er ritat, en Gissor var

*) Þessi kap. er sá 8di kap. af nærsta þætti í *A. C. St.* Þ., en sídari hluti sama kap. í *B. E. Gr.*

1) vantar í *B. E. Gr.*

2) hydbiörn. *B. Gr.*

3) albert. *B. E. Gr.*

**) Þessi kap. er sá 60ti í *A. C. E. St.* Þ.

4) hafdi hann iafnan nokkra syslu, hvört sem kóngr sat nordr eda sudr, ok er þeir Þórdr Sighvatsson höfdu einn vetur verit í Noregi eptir Haugsnessfund, bætu vid *B. E. Gr.*

þá eptir í Noregi ok undi illa vid sinn lut, ok vard honum fèskortr mikill, en uggdi miök um frændur sína ok vini, at þórdr mundi þeim hardr verda í horn at taka, rèd Gissor þat þá af, at hann fór af landi brott ok gèkk sudr til Róms. Broddi þorleifsson var þá ok utan ok fóro þeir Gissur bádir samt út til papa ok nokkrir menn saman. þá var Innocentius papa í Róma. Gissur fèkk þar lausn allra mála sinna. þá var Eyrekr [1]) kóngr í Danmörko Valdimarsson, [Valdimar var þá kóngr í Svíþiód [2]). þeir fóro af landi brott med Gissori Önundr biskupsfrændi, þorleifr Reimr systurson hans, Audun Kollr, Arni Beiskr, þeim gèkk allt vel sudr ok sunnan, kvamo ok allir heilir heim aptr til Noregs*), ok er Gissur hafdi verit fióra [3]) vetur í Noregi eptir Rómför sína, þá fèkk hann ordlof af Hákoni kóngi at sigla til Islands, fóro þeir út á eino skipi Henrekr biskup Kársson ok mart íslenzkra manna, þar var þórgils Skardi Bödvarsson, Finnbeörn Helgason, Arnór Eyreksson ok margir adrir íslenzkir menn, þat skip kvam at Gásum í Eyafirdi, því styrdi Eysteinn Hvíti, þeir sögdu út híngat andlát Sigurdar erkibiskups, hafdi hann andazt um vetrinn sex [4]) náttum fyrir Gregoríusmesso, var þá Sörli kosinn til erkibiskups. Gissori var skipadr miök sva allr Nordlendíngafeórdúngr, en þórgilsi Skarda allr Borgarfeördr, Finnbirni Reykiadalr ok þadan nordr til Jökulsár. þar kvam ok til skipsins Brandr ábóti Jónsson, hann var þá fyrir öllum kènnimönnum um alla syslo Sigvardar biskups. Brátt rido þeir allir feölmennír vestr til Skagafeardar, var þá fundr stefndr feölmennr á Hestaþíngshamri, vóru þar upplesín kóngsbrèf, ok iátto allir fúsliga at taka vid Gissori til höfdíngia yfir sik. Eyúlfr þorsteinsson var ok á þeim fundi ok fylgdarmenn hans, ok fannst honum fátt til Gissorar. þá vóru kærleikar med þeim Henreki biskupi ok Gissuri. Gissor sendí menn sudr til sona sinna, at þeir skyldo kvama til móts vid hann í Hvinveriadal [5]) med síötíu manna, en hann valdi lid or Skagafirdí sextíu manna, rido

[1]) Valdimar. *A. C. St.* þ.

[2]) Byrgisson, bæta vid *B. E. Gr.* frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

*) hèr endar þáttrinn í *A. C. St.* þ.

[3]) þriá. *B. E. Gr.*

[4]) þrem. sömu.

[5]) Vínveriadal. sömu.

þeir med honum sudr í Hvinveriadal, kvamo þar synir Gissors til móts vid hann þrír, Hallr, Isleifr, Kètilbeörn, var hann þá átián [1]) vetra, hinir vóru eldri, allir vóru þeir skörugligir menn at sèr [2]), vard þar mikill fagnafundr med þeim fedgum ok ödrum vinum Gissorar. Skagfirdíngar rido þá nordr aptr, en Gissur sudr, sat hann í Kaldadarnesi um vetrinn ok hafdi feölmennt um sik. Þá um haustit, er Brandr ábóti kvam sudr til sveita, giördi Gissur brúdlaup til Gróu Alfsdóttur módur þeirra Halls ok Isleifs, var þat þá samþykki kènnimanna, ok at því brúdlaupi var Brandr ábóti. Henrekr biskup fór heim til Hóla til stóls síns, en Þórgils Skardi reid sudr til Borgarfeardar ok tóko hèradsmenn vid honum ok heldr fáliga, hann sat í Stafaholti um vetrinn ok hafdi mart röskra manna med sèr, þá var med honum Arni [3]) Eyreksson, Bergr Amundason ok mart annara manna. Finnbeörn reid nordr til Reykiadals ok var um vetrinn á Greniadarstödum. Eysteinn Hvíti styrimadr var á Hólum med Henreki biskupi.

*) 62. Þetta sumar er Gissor kvam út, sendi Þórdr Sighvatsson til Islands Kolbein Grön ok Ara Ingimundarson til vina sinna, kvamo þeir út sudr á Eyrum ok fóro þadan vestr um sveitir til þeirra Rafns Oddssonar ok Sturlo Þórdarsonar. Rafn beó þá at Saudafelli í Dölum, en Sturla at Stadarhvoli. Vígfús Gunnsteinsson beó í Garpsdal, hann átti Gudnío Sturludóttur. Brátt er þeir Kolbeinn ok Ari kvamo vestr, þá fundust þeir allir iafntsaman Sturla, Rafn ok Vígfús ok adrir vinir þeirra [4]), ok rèdo þá atför at Gissori ok fóro um vetrinn fyrir iól sudr á sveitir med siötíu [5]) manna, í þeirri ferd varo margir röskvir menn, en þeir vóru fyrir ferdinni med áeggian Kolbeins Rafn ok Sturla, þeir kvamo á úvart í Stafaholt til Þórgils ok bruto upp hurdir. Þeir Þórgils lupo upp ok fylgdarmenn hans. Rafn vildi láta drepa Þórgils, en Sturla vildi þat ei. [Les hèr um giör sögo Þórgils, er hèr eptir fylgir, fara hèr nú margar sögur saman iafnframt ok má eina

1) fiórtán. *B. E. Gr.*
2) at siá. sömu.
3) Arnór. sömu.

*) Þessi kap. er sá 61ti í *E.*
4) Þórdar. *B. E. Gr.*
5) áttatygi. sömu.

senn rita, man nú um sinn sagt verda frá Þórgilsi Skarda, ok kvama þessar sögur þar saman er þeir kvamo út Henrekr biskup, Gissor ok Þórgils, þat sumar er Ormssynir varo vegnir ádr um varit. [1])

[1]) frá [ sleppa *B. E. Gr.* úr, en bæta vid: tóko þeir hann med valdi, ok svardi hann þeim trúnadareida, at hann skyldi í eingo fari á móti þeim vera ok eigi veita Gissuri, skildo þeir vid þat. Rido þeir Rafn ok Sturla med flokkinn sudr Bláskógaheidi, varo margir menn í þeirri ferd giarnir á líf Gissurar ok ætludo nú, at eigi skyldi vidbera at fundr þeirra bæri saman. Þeir rido þartil er þeir kvamo at Ölvi-á, ok var þat um nótt, ok var áin þá í leysíngo, sva at ongvan veg mátto þeir yfir hana kvamast, verdr þat þeirra rád, at þeir snúa aptr vid svabúit ok rída heim vestr. Þeir Rafn ok Sturla varo bádir á Stadarhóli um vetrinn, var þar aldrei færra en áttatygi karla, var þá vída faungum til sópat, varo þat ekki beiliga rán köllud.

63. Kap. Þat er at segia frá Þórgilsi Skarda, at hann reid nordr til Skagafiardar, þegar er þeir Rafn ok Sturla rido sudr á heidi, var hann med Henreki biskupi um iólin ok þeir átta saman. Arnór Eyreksson var med þridia mann á Vídimyri, tveir varo á Stad med Páli Kolbeinssyni. Þórgils reid sudr til Borgarfiardar fyrir föstuna ok sat í Stafaholti ok hafdi vördo sterka. Eigi fundust þeir Gissur um vetrinn; hèr vid bæta *B. E. Gr.* enn fremr sídari hluta 18da kap. af áttunda þætti, frá "um vetrinn milli íóla ok föstu", ok til enda.

64. Kap. Siá fyrri helmíng 1ta kap. af níunda þætti, frá "Eyúlfr Þorsteinsson fór búnadi sínum", *o. s. fr.* ok til "reid sídan heim nordr á Flugomyri".

# Átti þáttr.

Af útkomu Þórgils Bödvarssonar, Gissurar Þorvaldssonar ok annara Islendínga. Skikkun Hákonar kóngs um eignir Snorra, ok annat hèr á landi. Rafn Oddsson ok Sturla Þórdarson giöra heimsókn í Stafaholt. Þórgils lofar at vera þeim medfylgiandi í atförum at Gissuri, en þat bregdst, hann rídr til Hóla. Rafn ok Sturla snúa aptr vegna vedráttu. Gissur giörist höfdíngi í Skagafirdi. Rafn, Sturla ok hann sættast, med ödru fleira.

1. Bödvar sun Þórdar Sturlusunar beó at Stad, hann átti Sigrídi Arnórsdóttur, synir þeirra vóru þeir Þórgils, Sighvatr[1]) ok Gudmundr, dætur þeirra vóru þær Helga, er fyrr átti Páll Sámsson, en sídar Þiódúlfr Kotkarl[2]), ok Alfdís, er átti Þórdr Hítnesíngr, ok Hallbera er átti Gudlaugr prestr Hallfredarson, ok Gudrún ok Vígdís. Þórgils var ellstr sona Bödvars. Gudmundr biskup biskupadi hann tvævetran, [ok spurdi hverrar ættar hann væri? honum var þat sagt[3]). Biskup var þá atspurdr, hvat honum litist um sveininn? hann mælti: ef þessi madr fær aldur ok þroska, þá man hann verda hraustr madr ok höfdíngi mikill, en ei kèmr þat mèr úvörum at hann verdi ei ellidaudr. Gudmundr biskup gaf sveininum gullsilgiu ok mælti vel fyrir honum. Þórgils var vænn madr yfirlits, herdamikill ok giörviligr, hvítr á hár ok hörund, eygdr manna best, midmiór, herdabreidr[4]), hrokkit hár ok fór vel, hann var hraustr ok hardgiör, syndr vel ok hinn mesti hardfari[5]) í hvívetna, fámæltr ok fastheitinn, hvert hann hèt gódu eda illo, þá var hann ör í at efna, í efri vör hans var skard þat er hann var med alinn, því var hann kalladr Þórgils Skardi. Sighvatr[6]) Bödvarsson var seingiör[7]) madr í uppvexti, en vard þó

[1]) Sigurdr. *A. E.* þ.

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) frá [ vantar í sömu.

[4]) vantar í *B. E. Gr.*

[5]) snarfari. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) Sigurdr. *A. E.* þ.

[7]) seinligr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

mikill madr [ok miúkr [1]) ok vel glímofær, hann var ok syndr vel ok hagr ok ordigr [2]) nokkut ok [lagamadr mikill [3]), ekki var hann frídr synum, en þó var hann yfirbragdsmikill ok kvaminn á sik vel, [brygdlyndr ok nokkut brádskapadr [4]). Gudmundr Bödvarsson var frídr synum, mikill madr á vöxt, hardfengr í knáleikum, hægr hversdagliga ok hèllt miök til gledi. Þórgils Bödvarsson óx upp at Stad med födur sínum, þar til er vard víg Snorra Sturlusonar í Reykiaholti, giördi Gissur þann kost Bödvari at sveria honum trúnadareid edr fá honum gisla, tók Bödvar þat rád, at fá honum í gislíngu Þórgils son sinn ok Guttorm Þórdarson bródurson [5]) sinn, Þórgils var þá fimtán vetra gamall, vóru þeir þann vetur í Túngo med Gissuri, fèkk hann sinn mann hverium þeirra til þeónustu, [hèt annar þeirra Beörn Sigurdarson, en annar Steinn Bersason [6]). Gissur var vel til Þórgils, ok þótti hann meira háttar ok setti hann hit nærsta sèr. Þórgils var heldr illr vidskiptis ok vandlyndr. Guttormr var hægr ok gódr vid hvern mann. [Gróa húsfreya var best til þeirra. Sá atburdr vard þar, at þá skildi á um tafl Þórgils Bödvarsson ok Sám Magnússon frænda Gissurar, vildi Sámr bera aptr riddara, er hann hafdi teflt í uppnám, en Þórgils lèt því ei ná, þá lagdi til Markús Mardarson, at aptr skyldi bera riddarann, ok látit ykkr ei áskilia um tafl. Þórgils sagdist ekki fyrir hans ord giöra mundu, ok svarfadi taflino ok lèt í púnginn ok stód upp ok laust vid eyra Sámi sva at blæddi ok mælti vid: mikit er þat at vita, at vèr skulum eingan lut þora at halda til iafns vid frændr Gissurs, þá var laupit fram ok sagt Gissori, ok kvam hann inn ok spyr, hvert Sámr þyrdi ei at hefna sín? Þau Guttormr ok Gróa höfdu setit á palli, er Gissur kvam í stofo, ok heyrdu at hann andsakadi sveinana reidugliga, gèngu þau til ok prestr med þeim. Þórgils svaradi Gissori heldr skapraunasamliga, Gróa tók í hönd Gissori ok mælti: hví lætr þú sva reidugliga? mèr þætti þú eiga fyrir at svara, þótt hann hefdi þat nokkut giört er bótþurfa væri. Gissor mælti: ekki vil ek á þesso þinn dóm.

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) ördugr. *B. C. Gr. St.* þ.
3) lágr madr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) bródur. *B. Gr.*
6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Hon svarar: ek skal þá bæta, ef þarf. Leiddu þau Þórgils á brott ok bádu hann vel svara Gissuri, en Þórgils kvadst þat ei mundu giöra. Lögdu þá margir til ok kölludu þetta vera bernsko bragd, fèll þat þá nidr, ok var Gissur færri vid Þórgils en ádr [1]). Fyrir iól lèt Gróa giöra Þórgilsi grænan kyrtil af nyo klædi, en hann átti ádr bláan ok gaf hann Sámi [2]), ok voro þeir iafnan sídan gódir vinir. Þenna vetur lèt Urækia Snorrason drepa Klæng Bearnarson í Reykiaholti [annan dag ióla [3]), ok fór sídan at Gissuri í Skálaholt, var þar þá bardagi hinn níunda dag ióla, Þórgils var þá í kyrkiunni, þvíat [Gissur vildi ei [4]) at hann væri í bardaga, fór þá sva at þeir Gissur ok Urækia sættust, fór Þórgils eptir þat vestr til Stadar ok þeir fèlagar.

2. Þat er nú því nærst at segia, at þá er Þórgils var átián vetra, rèdst hann til utanferdar med þeim manni er Eyríkr Skardi [5]) hèt, hann var madr norrænn, sá madr fór med Þórgilsi er Bergr hèt son Amunda Bergssonar [6]) [ok Þóru Þorvardsdóttur frá ——*), en er Þórgils var vid skip, kvam þar Þórdr Sighvatsson ok mæltust þeir Þórgils vel vid, hèt Þórdr honum sínu trausti, nær sem hann kynni þurfa, baud hann honum til sín, ef hann vildi þat, Þórgils kvadst þat mundi þegit hafa, ef hann hefdi fyrr bodit, en kvadst nú ei vilia bregda ferd sinni. Þórdr kvad þat fyrir höndum, þótt sídar væri. Skildo þeir med vinátto, lèto þeir Þórgils í haf ok fórst þeim vel, tóko þeir land vid Beörgvin. Eyríkr baud Þórgilsi til vistar med sèr ok þeim fèlögum, ok fóro þeir med honum inní Sogn, en Þórgils kvadst med þeim manni vera vilia, er göfgastr væri í því hèradi, en þá var ríkastr madr í því hèradi Bryniúlfr son Jóns Stáls [7]), hann átti höfudból at Hvoli. En er Þórgils kvam heim med Eyríki, veitti Eyríkr honum vel ok

1) frá [ bls. 123. l. 16. vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) þeim hafdi ádr til komit úr tafli, ok hafdi Þórgils slegit hann, en hann var náskyldr Gissuri, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) vantar í sömu.

4) þeir vildu þá ei. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5) vantar í sömu.

6) vantar í sömu.

*) eyda í handritinu; frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

7) vantar í sömu.

med mikilli sæmd, mátti Þórgilsi þar gott þykkia fyrir manna sakir, en ei gazt honum þar at hybylum. Þar var vandi Eyríks, þá hann kvam heim or kaupferdum, at hann hafdi vina veizlo ok baud til vinum sínum ok grönnum, ok eigi nú sízt, er þar vóru kvamnir med honum þeir menn er mikils þóttu verdir, baud hann þángat Bryniúlfi frá Hvoli ok Þóri af Stedia, þar var ok annat feölmenni mikit ok veizla gód, vóru þeir sessunautar Bryniúlfr [1]) ok Þórgils, töludu þeir mart ok lagdist vel á med þeim, þóttist Bryniúlfr finna, at Þórgils var miklo meira háttar en alþiód manna, vissi hann ok gód skil á ætt hans ok baud honum heim med sèr ok þeim fèlögum ok lagdi ei á neina öfusu. Þórgils vildi þat þiggia, en Bergr var þess hvergi fúsari [2]), þó rèd Þórgils, ok fóru þeir med Bryniúlfi, en er þeir kvamo heim, tekr hann vid þeim bádum höndum, ok slær á algleymíng vid Þórgils, ok setr hann hit nærsta sèr. Bryniúlfr fèkk honum svein til þiónusto er Pètur hèt, fór þat sva at sveinninn var ei athugall, en Þórgils þág heldr illa, ok var útraust at hann svipadi honum ei stundum, en Bryniúlfi gazt ekki at því, er sveinninn var skyldr honum. Þar vóru hybyli gód ok mannmart laungum, drykkiur miklar ok gladværi, urdu bóndr misiafnt vid drykkinn. Geirmundr hèt nágranni [3]) Eyríks Skarda [4]) ok frændi, hann hafdi vingazt vid Þórgils, er hann var med Eyríki, ok gèfit honum tapar-eggsi [5]) snaghyrnda ekki mikla ok hit besta iárn, hann var í iólabodi Bryniúlfs med Eyríki ok drakk ei varliga, vóru þar miklar drykkiur [ok mörg víti [6]). Beörn hèt madr er var med Bryniúlfi, aldradr madr ok hafdi lengi verit med honum, ok hafdi þat starf, at hann giördi öl ok vardveitti drykk hversdagliga. Þórgilsi þótti Beörn vera heldr fastr af drykk hversdagliga, hafdi hann af því grun, at Beörn færi med rógi ok hviksögum [7]) milli þeirra Bryniúlfs, ok var þá heldr fátt med þeim. Beörn var madr skapbrádr, ok þóttist eiga traust mikit ok öruggt,

1) Stál, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) úfúsari. *sömu.*
3) vantar í *B. E. Gr.*
4) Skrúda. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) exi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) vantar í *C. St.*
7) kvissögnum. *A. B. E. Gr.* kviksögum. *C. St.* þ.

var áleitinn ok öfundsamr. Eyríki var skipat [hiá Bergi, þá Geirmundi [1]), þá sáto bóndr hver hiá ödrum ok höfdu sveit ei all-litla. Bergr drakk iafnan lítit, þvíat hann var kránkr, ok skyldi hann því ei meira drekka en hann vildi ok eingi víti, var Bryniúlfr vel til hans, þótti hann vera [2]) gègn ok úskapbrádr. Þórgils var hinn mesti [drykkiomadr ok [3]) misiafnt skapgódr vid drykkio, þat var hit áttunda kveld ióla at drukkit var allrafastast, var þá drukkit vín er áleid. A annan bekk sáto frelsíngiar Bryniúlfs ok tveir hirdmenn Hákonar kóngs Arni Ivarsson ok Kètill Lángr, varo þar fyrst drukknar sveitardrykkiur, sídan slógust í knífildrykkiur, giördust þá flestir drukknir þeir er inni varo, taladi Geirmundr flest um, [at hann þóttist vera ofsettr [4]), en þótti sem drykkr væri falsadr, þá bar Beörn kèr at Geirmundi, en hann drap vid hendinni ok sló upp í fáng honum, fór drykkrinn nidr í hálm, Beörn reiddist vid ok vard málódi, kvad Geirmund vera snáp mikinn ok laust med knefa sínum á nasir honum, sva at blód flaut um hann allan [ok mælti íllt vid [5]). Þórgils vard skeótastr upp at laupa, þreif hann upp dyrshorn mikit ok þúngt af búníngi silfurs ok steina ok setti millum herda Birni sva at hann steyptist áfram ok kvam ennit nidr, ok vard þar undir kèrit er hann hafdi haldit á, skeyndist hann á ennino, en kèrit brotnadi allt í sundr. Þórgils vildi leósta annat, en Bergr hèllt honum. Bryniúlfr leóp þá upp ok allir menn hans, slíkt hit sama Eyríkr ok bóndr med honum, var Þórgils þar í lidi, hèllt þá madr á manni, Bryniúlfr var hinn reidasti. Eyríkr mælti til Bryniúlfs: geymit til bóndi, at hark þetta semist, ok er þat ydar sæmd ok allra þeirra er hèr eigu lut at. Bryniúlfr mælti: lítill vani hefir þat hèr verit, at menn væro bardir í hybylum mínum. Þá mælti Arni: lítit á hitt, bóndi, hver fyrstr [6]) bardi, ok er þat sidr ydar Sygna, at drekka þar til at eingi veit hvat at sèr horfir [7]), en Birni kvam þetta ei fyrr at

[1]) hit næsta Geirmundi, þá Bergi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) gagn ok greidi. bæta sömu vid.

[3]) mesti kappi, en. bæta sömu vid.

[4]) vantar í sömu.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) olli upphafinu. *A. C. St.* Þ. upplaupinu. *B. E. Gr.*

[7]) hefr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

höndum en van var, lögdu nú margir gott til. Arni mælti þá enn: þat er betr at hèr er eingi madr sakadr [1]), er fyrir þat gott um at tala, ok förum fyrst at sofa, *)en tölum um þetta á myrgin er vèr erum údrukknir, man oss þá öllum einn veg synast. Eyríkr [stód vel undir [2]) þetta ok margir adrir, fóro menn þá at sofa [3]), en um myrgininn eptir hlyddi Bryniúlfr tídum, sídan gèngo menn til drykkio, ok er menn varo þar kvamnir, þá setiast menn nidr, þá mælti Arni: þat er öllum mönnum kunnigt þeim sem hèr ero, hverir atburdir hèr urdo í gærkveld manna í millum, erum vèr nú allir údrukknir ok megum virda þessi mál eptir sönnum efnum, er þat ei vel, bóndi, at sva vard er þèr mislíkar, en mèr lízt sva sem sá væri ei fridarins allmakligr er braut iólafridinn fyrstr í þínum hybylum. Kètill mælti: sva lízt mèr. Beörn mælti: þat kann ek þèr segia, Arni, þótt ydr þyki mín skömm lítilsverd, at vera skal annathvert, at ek skal hafa fyrir fulla sæmd edr hefna mín seálfr. Þórgils svarar: ef þú heitist vid mik, Beörn, at giöra mèr eina skömm, þá skal ek giöra þèr tvær [4]) skammir, þær er þú skalt mega bádar hendr á festa. Beörn mælti mart, en Þórgils þagnadi. Ei má þar inna hwers manns tillögur, en þeir lögdu þar best til hirdmennirnir Arni ok Kètill, Eyríkr ok Bergr, bádo þeir Þórgils vægia til fyrir Bryniúlfi bónda [ok rádi þeirra manna er þar varo mest virdir [5]), en Þórgils þagdi, sem hann var vanr, ef hann reiddist. Allmisiafnt lögdu menn til, en þessi vard lykt á med rádi Bryniúlfs bónda ok þeirra manna er þar varo mest virdir í hiá ok best vildo tilleggia, at mál þessi fèllust í fadma, ok skyldi eingi ödrum fè bæta, seldi þá hver ödrum grid, en sídan settust þeir nidr ok drukko, var bóndi þá allkátr ok hver vid annann, drukku nú af iólin, fóro nú bóndr heim sídan ok kúrradi [6]) þat hver í sínum hybylum, at veturgèstr Bryniúlfs mundi ei vera hversdagsleika [7]). Hèr um kvad Gunnar íslenzkr madr er var med Bryniúlfi ok orti sva at gaman vard at:

1) skadadr. *B. E. Gr.*
2) undirstód vel. *A. St.* þ.
3) frá *) vantar í *B. E. Gr.*
4) þriár. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) knurradi. *B. E. Gr.*
7) hvers manns liki. *B. E. Gr.* hvers manns leika. *A. C. St.* þ.

Herdar laust hríngs neördr
horni [1]) var [2]) at brynn þorn [3])
á Birni bilgearn
blunda [4]) fyrir Geirmund.
Steypast tók galinn glópr,
gauri [5]) vard fyrir nausum aur,
þetta þótti þiód gott,
Þórgils [6]) samdi honum pínsl [7]).

Eptir iólin vard med Bryniúlfi ok Þórgilsi eingir margleikar, en þó gódar afleidíngar. Þat er nú þessu nærst at segia, at Bryniúlfr átti eyrindi yfir feörd, at sækia skeöldu sína ok vapn, þótti honum vel, at hann reyndi hve audsveipr Þórgils væri, ok beiddi at hann mundi vera fyrir ferd þessari, er þá var ekki mannmart heima, en Þórgils segir: at þess eins sendimadr edr lestreki vill hann vera í Noregi, er enn væri ríkari en Bryniúlfr. Bryniúlfi þótti þar opt hit sama uppspretta. Bergr baud Bryniúlfi at sækia skeölduna fyrir Þórgils med ödrum manni, ok þat vildi hann. Bergr tók siúkleik um vetrinn ok lá lengi ok var atkvaminn bana, ok batnadi er áleid, var nú atburdalaust hèdan frá um þarvist Þórgils, sva at vèr vitum frá at segia.

8. Um varit eptir páska byriadi Bryniúlfr ferd sína sudr til Beörgvinar til móts vid Hákon kóng, fór þá med honum Þórgils ok Bergr, var hann þá fær, en er þeir kvamo sudr, fundo þeir Hákon kóng, tók hann þeim vel. Kóngr hafdi frètt af, at um vetrinn hafdi verit med Bryniúlfi íslenzkr madr einn af Sturlúnga ætt, er ord fór af, hafdi þar þat sannast, sem mælt er, at mörg ero konúngs eyru, hafdi hann frètt af þeim vidskiptum, sem vordit höfdo millum þeirra Bryniúlfs ok Islendínga um vetrinn. Aron Hiörleifsson var þá med kóngi, hann hafdi reynt af Bödvari vinátto mikla, þá er hann var skógarmadr Sturlu Sighvatssonar. Aron

1) horn. *B. E. Gr. St.*
2) vard. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
3) brynþorni. *B. Gr.* brynþyrn. *A. E.* þ. brynkorn. *C.*
4) buldi á. *B. Gr.* bulda. *E.*
5) gaura. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) Þórgísl. *Gr.*
7) píls. *C. St.* písl. *A. B. E. Gr.* þ.

var hirdmadr Hákonar kóngs ok var kær kóngi, var hann ok gódr drengr. Aron gèkk at Þórgilsi ok fagnar honum vel, ok skal þèr heimillt allt þat gott, er ek hefir til at veita þèr, hvert sem þat er fè edr fulltíng. Þórgils þakkadi honum vel ok kvad ei annat líkara þykkia en hann mundi med honum vera, en fyrst man ek vera med Bryniúlfi, en Aron hafdi feárkost ekki mikinn, en spardi eingan lut vid vini sína, baud hann Þórgilsi því til sín, at hann átti gard, var hann iamnan fullr af íslenzkum mönnum, skildust þeir Þórgils ok Aron, fór Þórgils med Bryniúlfi til þess herbergis er hann átti, settust þeir þá til drykkio. Um daginn mælti Bryniúlfr: þèr hafit verit med mèr í vetur, ok vil ek kalla at vel hafi farit, en fundit hefir ek þat, at augu ydar standa lengra fram til þess at þeóna ríkara manni en ek er, er þat ok satt at slíkt ero[1]) kóngsmenn, en ei mæli ek því þetta, at ek spari mat vid þik edr drykk, vil ek vera búinn til at flytia mál þitt vid kóng, at hann taki vid þèr ok giöri þik sinn mann, sem mik grunar at þèr leiki í skapi. Þórgils þakkar honum sín ummæli, en kvadst fúsastr at fara til Islands, en ef hann nædi því ei, vildi hann giarna gánga til handa kóngi ok giörast hans madr. Litlu sídar fundust þeir kóngr ok Bryniúlfr, ok verdr þat í tali þeirra, at kóngr spur at hinum íslenzka manni er verit hefir med honum um vetrinn. Bryniúlfr segir kóngi frá ætt Þórgils, ok kannast hann skeótt vid, þvíat margir Sturlúngar höfdu verit med honum. Bryniúlfr segir kóngi, at Þórgils vildi fá af ydr fararleyfi til Islands, kóngr kvad þess einga van, þvíat í þann tíma hèllt Hákon kóngr mörgum ríkra manna sonum í Noregi, þvíat hann hafdi miök í hug at fá skatt af Islandi. Kóngr mælti: mundi þessi madr vera med þèr í gær [er vid fundumst[2]), mikill madr ok drengiligr, frídr ok bragdmikill, ok [á lyti mikil[3]) í andlitino, ok sva úngr, at ei man grön sprottin? Sá er rètt hinn sami, segir Bryniúlfr, ok giörit sva vel, herra, at þèr takit vid honum sæmiliga ok giörit hann ydar mann, ef hann skal ei ná at sigla til Islands at vitia frænda sinna ok eigna, er hann ekki hèr peníngaríkr. Kóngr tók því vel, lèt Bryniúlfr þá senda

[1]) kalla ek. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.* [3]) álitamadr. *C.* vantar í *B. E. Gr.*
[2]) vantar í sömu.

eptir Þórgilsi, kvam hann þá fyrir kóng ok kvaddi hann, kóngr tók því vel, þar var þá Aron Hiörleifsson ok flutti med Þórgilsi, at kóngr tæki vid honum sæmiliga, kóngr segir at hann man ná hirdmannsnafni, ef hann reyndist eptir því sem þeir Bryniúlfr ok Aron sögdo, ef honum syndist, en kvad þat ekki mundu skiótt rádast, Þórgils kvadst þess ekki mundi lengi bída at sinni, þótti ei örvænt at kvama mætti hann þar, þótt hann leitadi annara landa, at hann kvæmi sèr í sveit med ríkum mönnum, þvíat Oláfr födurbródir hans hafdi verit í Danmörku med Valdimari kóngi, ok fengit af honum mikit sóma. Aron mælti: takit þèr, herra, vel vid þeim sumum, sem ei man iafnmikit mannkaup í sem þessum manni. Bryniúlfr mælti: sva skulut þèr ætla, herra, at hraustum karlmanni man skipat í þat rúm, sem Þórgils hlytr at standa. Kóngr brosti þá. Þórgils mælti: yilit þèr, herra, gèfa ordlof til, at ek sè freáls ok fari hvert er ek vil annarstadar, ef ek fer ei til Islands? Víst ei, segir kóngr, ek skil at þú mant vera madr brádlátr ok heldr ákaflyndr, en eingum sæmdum þykiumst ek hafa afsvarat þèr, þótt ek vili fyrr reyna, hversu mèr gèzt at þinni þeónusto, skildu þeir at þesso, segir Þórgils Aroni, at hann mundi rádast í gard hans, skildu þeir vel Bryniúlfr ok Þórgils. Ragnhildr hèt kona Arons, ok var hon hinn [mesti öflunarmadr[1]), [en hann eyddi ei seinna enn hon afladi[2]). Þórgils var þar um ríd ok vard íllt til feár, þvíat hann sá, at Aron var fèvani, en hann vildi hvervetna fullt fyrirleggia þann kostnad er Aron hafdi fyrir honum, höfdu þeir sveit mikla ok varo ekki dælir.

4. Þá er skip tóku at búast um varit, lèt Þórgils rita á vaxspialdi ok sendi kóngi, var þat þar á, at hann beiddi at kóngr leyfdi honum at fara til Islands edr ella til annara landa, kvadst ei lengr vera vilia í úfrelsi[3]). En er kóngr sá þetta, virdi hann sva sem Þórgilsi gèngi til stærd ok metnadr, er hann vildi ei siálfr flytia vid sik sem adrir menn, en þó sendi kóngr eptir honum, kvam Þórgils þá fyrir kóng. Margrèt drottníng ok Ivar Engla-iarl[4])

[1]) miök aflandi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) úleyfi. *C. St.*
[4]) iarl. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

fèhirdir kóngs ok fátt annara manna var þá hiá kóngi, med Þórgilsi var Aron ok Bergr. Drottníng var hinn mesti vin Sturlúnga, sem verit hafdi Skúli hertogi [1]) fadir hennar, hon bad Þórgils setiast nidr hiá sèr, en hann settist á fótskèmil [2]) hiá fótum hennar. Kóngr mælti þá: beiddist þú út til Islands, Þórgils? Já, herra, segir hann. Kóngr mælti: [ek man nú segia þèr, hversu vera skal um hag þinn [3]), þú skalt hèr vera, en hvergi fara, man ek giöra þik minn mann sem þú beiddist, en sva hefir mèr spurzt, sem þèr fèlagar þykki verit hafa ekki spakir til fulls. Drottníng mælti: slíkt verdr opt úngum mönnum. [Aron mælti [4]): ek skal þar fyrir svara, ef þat þykkir nokkurs áfátt hafa verit. Kóngr mælti þá brosandi: ek veit ei hvert þú mátt nokkut á hendr takast meira en svara fyrir þik. Tók kóngr þá til at spyria Þórgils af Islandi frá födur sínum ok frændum, Þórdi Kakala ok ödrum höfdíngium, en Þórgils segir kóngi slíkt er hann spyr. Kóngr spyr, hver sá madr er, sem fylgdi Þórgilsi? hann nefndi sik ok födur sinn. Aron kvad födur hans hafa verit vitran mann ok vel fèadan ok hinn besta bónda, hann beiddist hirdgaungo ok hirdmannsnafns, herra, sem ydr má kunnigt vera, kóngr segir: man ei þat vel fallit? þvíat ek hefir af honum þá frètt, at hann man vera spakr madr, skaltu Þórgils ok þèr fèlagar vera í bodi míno uppstigníngardag, en sídan giörast handgèngnir. Gaf kóngr Þórgilsi laufgrænt klædi fiórtán álna lángt, sídan var Þórgils í bodi kóngs uppstigníngardag, en sídan giörast handgèngnir ok hirdmenn föstudaginn eptir þeir bádir Þórgils ok Bergr, gaf kóngr þá Þórgilsi skiöld ok brynio, þvíat þau vapn skorti hann ádr, var Þórgils þá laungum á kóngsgardi ok þótti vera heldr skapbrádr.

5. Sá atburdr giördist þar, at eina nátt var þar eldr laus í bænum, var þá blásit um allan bæinn, ok er þetta herbod kvam í kóngsherbergi, klæddist hann nú seálfr skeótt ok hèt á þá menn er hiá honum varo, lèt hann blása út allri hirdinni ok öllum bæar lydnum til þessa úfridar, ok vapnudust menn sem til bardaga, ok

[1]) iarl. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) fótskör. sömu.
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) vantar í sömu.

skipadi kóngr hird sinni þar sem honum þótti mest þurfa, bad kóngr menn fara varliga ok þó diarfliga, vard eldsgángrinn sva ákafliga mikill, at úlíkligt þótti at slökkt mundi verda, var þá margs í leitat, borit í vatn ok sær ok brotin vída herbergi, kóngr kvad á, hvar Þórgils skyldi standa, en hann vildi framgánga miklu lengra, fèkk hann sva mikinn háska vid þat, at þat þótti med úlíkindum, er hann hèllt lífi meidíngarlaust, um sídir lèt kóngr taka kóngsskips [1]) segl ok giöra alvott ok bera at eldino, vard þá þat um sídir at eldrinn sloknadi med guds miskun ok hamíngio kóngs, en Þórgils fèkk þann ordróm af kóngi seálfum ok öllum ödrum er visso, at eingi madr hefdi þar iamnvel borit sik ok borgizt [2]) sem hann [í iafnmiklum háska [3]), sva sem Sturla Þórdarson hefir kvedit í erfidrápo þeirri sem hann orti um Þórgils, ok þessa naut Þórgils iafnan sídan hiá kóngi, sva at hann þoldi honum betr en flestum ödrum iafnar tilgiördir. Nærsta dag eptir brennuna kvam Þórgils í herbergi drottníngar, tók hon honum vel, ok þakkadi honum, hvat drengiliga hann hefdi gèfizt um náttina, ok er hon sèr, at klædi hans ero brunnin, þá gaf hon honum vel sex álnir af skarlati, hann þakkadi henni þetta, fèkk Þórgils af þessu mikla sæmd, sem þar er kvedit um:

Laus vard eldr fyrir öldu [4])
allbrátt, er tók nátta,
út gèkk hird med hörda
hildíngi vegmildum.
Nádi Þórgils þiódum
þrekbrádr lofi ráda,
þar [5]) er rennum [6]) á lid lióna
lögreitar brá heitum.

6. I þann tíma kvam af Islandi Þórdr Kakali, hafdi þá ádr ordit Haugsnessfundr ok þau tídindi er þar af leiddi, var þá Gissor í Noregi ok settust þeir þar undir kóngsdóm [7]), segia þá sva [8])

[1]) lángskips. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) at biarga. sömu.
[3]) vantar í sömu
[4]) öldum, *A. B. E. Gr.* Þ.
[5]) þat. *B. Gr.*
[6]) rennr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[7]) sem ádr er ritat, bæta sömu vid.
[8]) vantar í sömu.

einardliga fram sín málefni fyrir kóngi, [at þá greindi ekki á [1]). Þórgils kvam þá til fundar vid Þórd ok var löngum med honum, ok einn dag er þeir drukko í kóngsherbergi, mælti kóngr til Þórdar: hví lætr þú ei giöra at lyti frænda þíns? Hann svarar: þar þurfum vid, herra, at neóta vid þinna ráda, en ek vil þar ei fè til spara, ef þèr ætlit at megi giöra. Kóngr mælti: þat ætlak at at megi giöra, ok nefndi til lækni þann er Vilhiálmr hèt, var þá leitat at lækninum ok urdo þeir kaupsáttir, giördi hann med kóngsrádi at, sat kóngr seálfr hiá, þóttust menn þat seá, at þetta var mikil þrekraun, en Þórgils þoldi þat vel, grèri sárit sva at Þórgils vard madr lytalaus ok var nú madr fegri yfirlits en ádr. Þórdr Kakali fèkk ei ordlof til Islands, dvaldist hann med kóngi um ríd, þar til er honum var skipud sysla. Þórgils var med kóngi nokkra vetur ok þóttist vera haldinn ok kunni því illa.

7. Hákon kóngr hafdi skipadan iarl í Þrándheimi Knút son Hákonar iarls Galins. Knútr iarl var mikill madr vexti ok vænn synum, hann hafdi [margar náttúrur [2]) fram yfir adra menn, eingi var sá madr í Noregi, er sva kunni skynia steina [3]) náttúro sem hann, var hann drykkiumadr mikill ok þótti vera nokkut vanstilltr vid drykkio, þá er á hann fèkk. Hinn sídasta vetur er Þórgils var í Noregi, var hann nordr í Þrándheimi med Eysteini Hvíta, ok höfdu þeir sveit mikla af norrænnum mönnum ok íslenzkum mönnum. Eysteinn var bóndi gódr, mart var annara manna handgènginna med honum í bænum bædi hirdmenn ok gèstir, kóngr var ei í bænum. Þórgils var mest fyrir kóngsmönnum. Knútr iarl var þá ríkastr madr í bænum, ok var med honum sveit mikil, mart vard til greina um vetrinn med kóngsmönnnm ok iarlsmönnum. Þat var eitt sinn, at þeir Knútr iarl drukku í einu herbergi ok Þórgils ok mikill feöldi annara manna, ok vóru nokkut drukknir, var þá talat mart, mælti Knútr iarl heldr hádugliga [4]) til Islendínga, [taladi til [5]) Snorra Sturlusonar ok annara íslenzskra manna,

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) náttúru. sömu.
[3]) list ok, bæta sömu vid.
[4]) hardliga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) cinkum, sömu.

er verit höfdu med Skúla hertoga, tók iarl á þeim öllum lítilmannliga, en Þórgils svarar sva í móti, at þeir frændr hans mundo verit hafa, at ei mundu sik allir vanta þykkia á vid hann fyrir utan nafnbót, þetta líkadi iarli stórilla, urdu þeir af þessu miök sundrorda, kvam þá sva, at iarl lióp upp bölvandi [1]) ok greip eggsi, en er Þórgils sá [2]) þat, sprettr hann upp ok brá sverdi, lupu menn þá á milli sva þykkt, at þeir nádust ekki til, skildu þeir at því, gèngo þeir Þórgils á brott litlu sídar, leid af náttin, stód iarl upp ok hlyddi tídum, sídan sendi hann eptir Þórgilsi ok baud honum í bod sitt, var Þórgils tregligr, en Eysteinn fysti Þórgils, fór til med honum Eysteinn ok miök margir saman, var iarl þá hinn blídasti, ok skildu [gódan afleidíng [3]), var þá kyrrt um ríd ok áttust fátt vid. Þat bar til eitthvert sinn, at ágreindi iarlsmann ok gèst kóngs, ok urdu þeir miök andorda, allt þángat til gèstrinn vann á iarlsmanni, þat var síd dags, en er gèstrinn kvam til herbergis síns ok segir frá þessum atburdum, var þar fátt manna fyrir, en flestir fysto hann at fara í kyrkio edr á traust kóngsmanna, þángat sem fleiri væro fyrir. Jarl vard skiótt var þessara tídinda, þvíat hann vissi giörla hvert er hann hafdi farit. [Manninum hafdi sva dvalizt, at hann var þá kvaminn út af herbergino, er [4]) iarlsmenn kvamo at ok tóko hann ok færdu hann iarlinum ok lèko hann illa, þá var myrkt, sva at iarli þótti ei tóm til at drepa hann, var hann þá settr í feötra ok kastat inn ok læst herbergi ok fengnir menn til at vardveita hann. Gèstrinn hafdi átt fridlo í gardinum, ok þegar er hon vissi hvar kvamit var, lióp hon kallandi med gráti miklum í gard Eysteins Hvíta, ok segir þeim Þórgilsi Skarda ok ödrum kóngsmönnum, hversu madrinn var nauduliga kvaminn, [ok hann mundi drepinn, nema þeir frelsto hann med nokkro móti [5]), bar hon sína sögo med hinum mesta ákafa. Þórgils vildi þegar at þeir tækio manninn út med valdi, en Eysteinn vildi, at þeir stefndo at sèr kóngsmönnum, þótti þeir of lidfáir vera til hverstveggia, fyrst at taka út manninn,

[1]) blótandi. *B. E. Gr.*

[2]) fornam. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) vel. sömu.

[4]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) vantar í sömu.

en veria sik eptir, ok sva giördu þeir sem hann vildi vera láta ok fleiri lögdu rád eptir, stefna at sèr kóngsmönnum ok búast um í gardinum, sídan er á leid náttina, fer af hvers lidi þá er þeir vóru búnir, fara þeir Þórgils med sína sveit til þess herbergis er madrinn var inn kastadr, verda vökumenn vid þat varir, skipast þeir fyrir durum, ok hyggia at þessir mano ekki sva hardliga at gánga, en Þórgils laust þann er fyrir honum vard [eggsarhamars-högg mikit[1]), ok fleiri varo þar lamdir er fyrir vóru ok stukkó frá, gèkk Þórgils at hurdinni ok braut, tók manninn í fáng sèr ok bar út, braut sídan af honum feötrinn, fór þessi madr med Þórgilsi heim í gardinn, en vardmenn segia iarlinum, hversu hardliga þeir varo leiknir, vard hann vid þat reidr miök, ok lèt blása saman hirdmönnum sínum ok handgèngnum[2]) mönnum ok öllum þeim er hans flokk vildu fylla, lèt iarl þá bera út merki sitt ok [vapnadist seálfr ok allir hans menn[3]), gánga þeir nú út eptir bænum, ok er nú sagt þeim Þórgilsi, at iarl fer at þeim med her mikinn vapnadan ok lèto heldr úfridliga. Þórgils heitir nú á menn sína at þeir skulu gánga út á vígin[4]) er þeir höfdo giört ok veria hendr sínar röskliga, ef þess þarf vid, ok látum konúng þat spuria, at hann hefir drengium skipat, en ekki dádleysíngium, gèngu þeir þá út ok fram í vígin, kvam þá iarl at í því ok spurdi: hefir þú, Þórgils ok þèr fèlagar, giört hèr sva mikit hervirki, brotit upp herbergi ok barit menn mína, [en tekit þann í brott med valdi, er siálfr hafdi unnit til dauda[5])? Þórgils kvad þat satt, at þessi madr var á þeirra valdi er hann leitadi eptir, en annat ætlak þat eitt giört er lítillar umrædu sè verdt, er nú vel at þú reynir þat í dag hvert Islendíngar ero sva linir ok lítilsháttar, sem þèr sögdut í vetur. Jarl mælti: slíkt er mikit ofbelldi útignum mönnum at halda til iafns vid oss edr meira. Taldi hann nú margar sakir vid Þórgils ok eggiadi þá menn sína til atsóknar. Þórgils segir sèr þat vel líka, skulut þèr, iarl, minni til reka, ádr þèr náit manninum, menn urdu seinir til atsóknar, þvíat þeir vóru margir

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) hardfengum. sömu.
[3]) fylkti lidi sínu siálfr. sömu.
[4]) út úr víginu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ
[5]) vantar í *C. St.*

med iarli, er þar átru frændr ok vini í gardinum edr adra randamenn. Eysteinn bóndi var sva vinsæll, at eingi af bóndum var vinsælli, þá lögdu hinir betri menn til ok báro sáttmál í millum þeirra, en iarl var hinn ódasti ok bad bera eld at bænum, en Þórgils gèkk út í gardinn med brugdit sverdit, ok bad iarl þar undir gánga, ef hann þættist eptir nokkro eiga at siá þar, tókust þá medalgaungur, tiádu menn þá fyrir iarli hver úfæra honum væri at giöra sva mikit hervirki á kóngsþegnum ok í kóngslandi [1]), kvam þá sva fyrir iarli, at hann mundi taka seálfdæmi, en er Þórgilsi var þat tiád, neitadi hann því þverliga, bad iarl þá sækia edr fráhverfa. Eysteinn segir, at Þórgils mundi vilia kóngsdóm á málinu. Þórgils segir, at hann vildi, at sva búit stædi til kóngsfundar, en sídan giördi hann rád fyrir sættinni. [Eysteinn segir ei sid, at mál stædi opin [2]). Þórgils mælti: sèr ek, Eysteinn, at þú ert sáttgiarn. Sva er víst, segir Eysteinn, þykkir mèr gódr fridrinn, því ek er honum vanastr, en haltu þó, Þórgils, þessu máli sva fast sem þú vilt, fyrir því at ek man ei fyrstr vid þik skiliast, ok fyrr skal hèr í gardinum etit ok drukkit allt þat er ætt er, en ek taki naudasætt af iarlinum. Mæl þú drengia heilastr, segir Þórgils. Þá gèkk Jórun húsfreya út í gardinn ok mælti sva: þess bid ek þik, Þórgils, ef ek hefir nokkut sva giört, at þèr þykkir vel, þá styr þú ekki þesso máli í sva mikit vandrædi, at þú hafir þik í vedi edr bónda minn med ödrum gódum mönnum, ef þú átt kost sæmiligra sátta, ok fyrir hennar fortölur hneigdist Þórgils, áttu nú margir hèr lut í at menn skyldu sættast, kvam þá sva, at iarl vard at því leiddr med fortölum vina sinna, at hann baud alla málavöxtu á kóngsdóm, gèkk þá sættin saman, sva at þegar skyldi kóngr dæma öll mál [úskorud þau er þeirra í milli vóru ordin ok honum þætti dóms þurfa [3]), þótti Þórgils vel hafa fylgt þessu máli, ok fèkk hann hèr fyrir gott ord.

8. Um varit eptir páska fóru þeir Þórgils á kóngsfund, tók hann þeim vel, segia þeir kóngi slíkt sem í hafdi giörzt med þeim Knuti iarli, líkadi kóngi vel þessi málalok, dvaldist Þórgils þá med

[1]) kóngsgardi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) vantar í sömu.

kóngi, þá var med kóngi herra [1]) Henrekr biskup, Gissur Þorvaldsson ok Finnbeörn Helgason, vóru þeir þá allir rádnir til úkferdar ok beiddust skipanar af kóngi, kóngr kalladi arf Snorra Sturlusonar hafa fallit undir sik, slíkt hid sama lendur þær er Snorri hefdi átt á deyanda degi utan stad í Reykiaholti, skyldi Þórgils vera semiandi [2]) ok sækiandi allra þessara mála er lög mættu á standa um medferd þessa feár. Finnbirni skipadi kóngr ríki fyrir nordan [3]) Vödlaheidi, ok ætlar honum bústad á Greniadarstödum. Gissur hafdi ríki sitt fyrir sunnan land ok skyldi hver þeirra veita ödrum Gissur ok Þórgils, hit sama var Finnbeörn skyldadr at veita þeim ok sva þeir honum. Henrekr biskup hèt kóngi ok öllum þeim sínu trausti. En er þetta var allt rádit, þá beoggo þeir skip sín til hafs ok fóru þeir allir í skip med Eysteini Hvíta ok fóru þetta sumar til Islands. Þórdr Kakali sat eptir í Noregi, ok líkadi honum þat ílla, þvíat hann hafdi ádr skipat eignir Snorra Sturlusonar vinum sínum, Eyúlfi Þorsteinssyni Skagafeörd ok búnad í Gèldíngaholti, Rana Kodranssyni Eyafiörd ok búnad á Grund, Þorleifi Þórdarsyni Borgarfiörd. Rafn Oddsson, Sæmundr Ormsson, Sturla Þórdarson ok Nikolás Oddsson varo bundnir í trúnadi ok tengdum vid Þórd ok í vinátto. Um varit ádr Þórgils kvam út ok Gissur, lèt Ögmundr Helgason drepa Sæmund ok Gudmund Ormssonu, þótti þeim Eyúlfi ok Rafni þat skadi mikill *).

9. Fyrsta [4]) dag eptir Maríumesso fyrri vard landfast at Gásum skip þat er Þórgils Bödvarsson var á, þeir kvamo til Stadar Barthólómæusmesso [5]), fögnudu frændr hans honum vel, stefndi Þórgils at sèr vinum sínum ok tengdamönnum, kvam til hans Einar Halldórsson frændi hans, Þórdr Hítnesíngr mágr hans, [Gudlaugr Hallfredarson [6]), birti Þórgils þá rádagiördir sínar, ok lèt

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) heimtandi. sömu.

[3]) land vestr at, bæta vid. *B. E. Gr.*

*) hèr eptir fylgir 6oti kap. í 7da þætti í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) nærsta. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) ok fleiri. sömu.

lesa skipunarbrèf sitt ok kvaddi menn til ferdar med sèr, vikust menn vel undir þat, reid Þórgils frá Stad ok nær fiörutíu manna med honum, var þar Bödvar Þórdarson fadir hans, Einar Halldórsson [1]), Þórdr Hítnesíngr mágr hans, Helgi bródir hans ok þeir menn er út vóru kvamnir med Þórgilsi, reid hann sudr til Borgarfiardar ok gisti í Stafaholti, þá beó þar Oláfr Þórdarson. Eptir þat stefndi hann fund undir Höfdahólum, kvam þar til Þorleifr or Gördum ok Eigill or Reykiaholti ok adrir hèradsbóndr, lèto hèradsmenn heldr driúgliga. Oláfr Þórdarson stód upp ok hóf sva mál sitt: at hann bad gud geyma allra manna, er þar varo kvamnir, med sinni mildi ok miskun, bad ok þess i annan stad, at menn tækio sæmiliga brèfum ok eyrindum sva ágæts [2]) herra, sem Hákon konúngr var, en giöra ei sem margr áugurgapi, at svara fólsko tíginna manna eyrindum, sem gud láti ei vera hèr í dag, [þat er framkvæmd [3]) sem hans er vili til, en öllum gègndi best. Sezt Oláfr nidr, en Þórgils stód upp ok mælti: þat er mönnum kunnigt, at ek hefir stefnt fund þenna, en þat er fyrir þá sök, at ek er skyldadr til í dag at reka kóngs eyrindi, man hèr lesit verda kóngsbrèf, bid ek at menn gèfi hèr til gott hliód ok hyggium sídan at svörum, hèllt þá Þórgils [4]) á brèfino ok syndi innsiglit, bad Þorleif at fá til mann at lesa, ef hann vildi, Þorleifr kvadst þat ei mundu giöra, fer því þannveg at margir ero fúsir til hèrads þessa, en fáir ero til mótsvara í dag, má þat vel bída annars dags edr þess at vid er Rafn ok Sturla ok vèr giörum allir saman rád fyrir svörum, ok vitum vèr, at þèr er skipat hèrad þetta af konúngi, ok þat er eyrindi hans í dag, en margir mæla þat, at hann eigi ekki í, en ek em ekki arfi Snorra Sturlusonar, þótt ek hafi hèr nokkra forsiá med rádi Þórdar, er ek ekki fyrir svörum um þetta mál meir en adrir, þat studdo margir med Þorleifi, þótti konúngr ekki makligr at hafa nokkur forrædi á fè Snorra Sturlusonar [5]). Þórgils mælti: vita skulut þèr þat, Þorleifr, at ek ætla at láta lesa hèr í dag kóngsbrèf tvö edr þriú opinberliga sva at þèr heyrit, ok skal

[1]) Hallfredarson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) ok virdugligs, bæta sömu vid.
[3]) þat framkvæmist. *B. E. Gr.*
[4]) Þórdr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) edr erfd, bæta sömu vid.

ek ei myrda þetta kóngsbrèfit, þótt þú hafir myrdt þau kóngsbrèf, er til þín hafa send verit, ok má vera, at þú eigir því hèr at svara í dag ok þurfir ei til annara svörum at víkia. Þorleifr drap þá nidr höfdi ok svaradi eingo, ok vóru hans tillögur fár í hávada, lèt Þórgils þá lesa brèf kóngs, ok giördi þat Þórdr Hítnesíngr, en er brèfit var lesit, þá tóko menn ei skiótt til svara, þá mælti Oláfr Þórdarson: þat er sidr hæverskra manna, at þegia ei á móti kóngs eyrindum, en flestir mano hèr meta svör vid Þorleif. Þorleifr svarar: ei man ek halda hèrad fyrir kóngi ok ei reisa flokka í móti þeim er í sezt, en ekki lof legg ek þar á. Eigill kvadst [frelst hafa Þórdi [1]) mannaforrád þat er hann hafdi átt, ok á ek þar nú ei fyrir at svara, flestir lögdu þar erfitt til. Haukr af Alptanesi mælti sva: þat er mín tillaga, at unna eingis máls á fyrr um hèrad en Rafn ok Sturla væro vid. Þórgils segir þetta ei til hans kvama, mano þín ord hèr um eingis metin, en ei örvænt, at menn muni þínar tillögur. Þadan frá urdu þar eingi mótmæli berliga, enda ekki skörugligt iáord. Þá lèt Þórgils lesa kóngsbrèf þat er Þorleifi var sent, var hann miök ávítadr um þat, er hann hafdi brotit brèf kóngs, var þar mikit ámæli ok heitan vid Þorleif, ef hann giördi ekki kóngi þá sæmd, [er sæo fyrir hans hönd [2]) Gissur Þorvaldsson ok Þórgils Bödvarsson. Þorleifr svarar því vel, ok vil ek þat bæta med gódra manna sann, er hann hafdi seinna farit á kóngsfund en honum vóru ord til send. Var þá leitat vid Eigil í Reykiaholti [3]) ok Þórarinn prest Vandrádsson [4]), ef þeir vildu gèfa Þórgilsi upp búit í Reykiaholti, fèkkst þat at lyktum, ok kvam þat flestum mönnum miök úvart, skildu menn at þessu, reid Þórgils af fundinum í Stafaholt ok var þar um náttina ok greiddi ferd manna sinna út á Strönd, reid hann sídan upp í Reykiaholt ok tók þar vid búi, skyldi vera hin sama rádskona Gudlaug [5]) Aladóttir fylgikona Þórarins prests, settist Þórgils þá um kyrrt, vard brátt kostnadr mikill, þvíat þar var ádr

[1]) frelsi hafa af Þórdi ok. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) edr sæi — hönd med. sömu.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) vantar í sömu.

[5]) Gudrún, sömu.

feölmenni ok mart kvam vid, var þá ok mikil atsókn, en eingum afhundit. Eyvindr Brattr rèdst til vistar í Reykiaholt [um haustit [1]) ok Suniva húsfreya hans. Eyvindr var hirdmadr Hákonar kóngs, var hann gamall madr ok úskygn ok vin Sturlúnga, en úvin Gissurs.

10. Um haustit eptir Maríumesso reid Þórgils Bödvarsson sudr á nes vid siöunda [2]) mann ok gisti í Gördum at Þorleifs, ok fór med þeim heldr fáliga, þadan reid Þórgils til Hólms, ok tóku þar skip er Þorleifr átti ok fóru yfir um feörd ok gisto í Saurbæ at Magnúsar Arnasonar, þá spurdi Þórgils, at Gissur var kvaminn ofan á nes, fór Þórgils til fundar vid hann, fundust þeir í Videy, fór med þeim álitliga, sídan reid Þórgils heim ok hafdi med sèr landsleigu af Eyvindarstödum ok Bersastödum. Þórgils gisti í Bæ at Bödvars, gaf hann honum hesta tvo brúna ok skiöld raudan ok gulllögd lauf á, segir Þórgils Bödvari hversu fáliga hafdi fallit med þeim Þorleifi, ok sva at honum vard ei sva fastligr trúnadr af Gissuri sem hann hugdi, reid Þórgils þá heim í Reykiaholt, vóru þá menn sendir í saudakvöd um hèrad allt, [fèkkst þat [3]) at kalla. Þórgils sendi Berg ofan til Brekko at fala sláturfè [4]) at þeim brædrum Oláfi ok Þórhalli, ok fèkkst þar ekki af, gazt Bergi þó lítt at svörum þeirra. Nær vetur-náttum reid Þórgils heiman ok fylgdarmenn hans med honum ok ætladi at rída út á Snæfellsnes, reid hann til Borgar um kveldit, beó þar þá Loptr biskupsson, vóru þeir Þórgils tólf saman, var þar allvel vid þeim tekit. Myrar lágu illa, mátti þar tillast á vetrarbrautum. Þadan reid Þórgils út um daginn til Brekko [5]), stigo þar af baki ok lèto gèfa hestum undir gardi. Bóndi kvam ei út, gèngo þeir Þórgils þá til stofu ok settust á annan bekk, Oláfr bóndi sat á palli, en Þórhallr bródir hans var í pallinum ok hafdi hælana undir sèr, þeir heilsudu Þórgilsi, en beóda honum eingan greida. Þórgils faladi sláturfè at þeim brædrum, en þeir svara sem fyrr ok vildu ei selia, mælti Þórgils til vel í fyrstu, en er áleid ræduna,

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) tólfta. sömu.
3) svo. sömu.
4) slátur. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) vantar í *A. C. E. St.* Þ.

lèt hann fara nokkur heitanar ord, þeir segia Þórgils mundi mega ræna [1]) þá, ef hann vildi, en ei er þá örvænt at nokkrir rètti lut yarn, manum vèr ei selia því heldr. Þórgils spratt upp ok mælti: miök vilia [mik öll strá [2]) stánga, ok laust Oláf med stálhúfunni. Oláfr hafdi smeygt tvöfaldri hetto á höfud sèr, kvam högg þetta á vánginn ok á öxlina, hnígr Oláfr þá í pallinn ok veltr ofan fyrir stokkinn, tók þá húsfreya til hans ok reisti hann upp seint þat, ok skreiddist hann upp í pallshornit. Þórgils laust Þórhall annat högg í höfudit, var þat mikit högg ok brast vid, fèll hann af út ok krepti undir sik hælana, laust Þórgils þegar annat högg milli herdanna, lèt þá í Þórhalli, ok hugdu menn hann meiddan mundo. Eptir þetta ridu þeir Þórgils ofan á Alptanes, en er þeir ridu at bænum á hladit, var úti fyrir þeim madr einn er Sölvi hèt ok var son Oláfs Lángs. Þórgils spurdi: hvar er Haukr diöfullinn? Sölvi svarar: ekki veit ek, bóndr sæll, hvar hann er. Þórgils laust eptir honum med keyrino er hann hèllt á, var þat sva mikit högg, at ennit kvam fyrst nidr á Sölva ok kastadi fótunum fram yfir höfudit, hestrinn skridnadi á svadanum undir Þórgilsi ok stökk hann af baki ok kvam standandi nidr. Sölvi sneri þá undan, laust Þórgils hann annat högg med keyrino, fèll Sölvi þá enn á knèn ok stakk undir sik höndunum, Þórgils bad hann þá segia til Hauks, ef hann vissi þá giör, Sölvi lióp þá undan ok mælti: ber þú mik ekki, bóndi minn, því ek veit ekki hvar Haukr er, þá kvam út Gróa húsfreya ok kalladi: Þórdr, látto ekki hèr giöra íllt, ef þú rædr nokkro. Þórgils mælti: hvar er Haukr bóndi þinn? hon mælti: þat er bædi, at ek veit ekki, enda mundak ei segia, þótt ek vissa. Þá kvam út kona er Ragnhildr hèt ok spyr Þórdr [3]): veiztu hvar Haukr er? þat hygg ek, segir hon, at hann færi út í [Koranes at búa um sallad sinn [4]), ridu þeir Þórgils út þángat, ok var Haukr ekki þar, en er þeir kvamo heim, var þeim sagt, at Haukr var í kyrkio, en húsfreya var í kyrkiodurum ok Illhugi prestr, húsfreya heilsadi Þórgilsi ok baud honum gistíng, hann kvad henni vel mundu fara, húsfreya beiddi Hauki grida, ok ef

[1]) reyna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) menn mik allstórum, sömu.

[3]) Þórgils. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) nes at gæta sauda sinna, sömu.

hann hefir mælt edr giört sva at þèr þykkir illa, þá vil ek þar ei til spara mitt, at þid semit sem best. Þórgils kvad hann eingi grid mundu fá fyrr en hann fengi sætt af honum þá er honum líkadi. Gróa spyr, ef hann vildi siálfdæmi? Bergr segir: ei man sekt meiri vera en þetta man velbodit. Þórdr mælti þá: hvar man betr fallit at ræna en hèr, ef nokkurstadar skal, en þurfi þó? Gróa mælti: söm eru enn tillög Þórdar. Bergr bad Hauk siálfan beóda fyrir sik siálfdæmi. Haukr giördi þá sva, sættust þeir at því, var Þórgils þar um náttina vid vidtökur gódar, um myrgininn var regn mikit, budu þau Þórgilsi at vera þar um dag, en hann vildi rída, Haukr bad hann þá lúka upp giördinni, kvadst gialda mundi slíkt er hann giördi. Þórgils mælti: Gróa húsfreya, ek vil gèfa upp giörd þessa, en þid giörit aflausn slíka sem þid vilit, má þá eigi naudúng metast, þenna kost tóku þau, gaf Haukr Þórgilsi tvö sáld malts ok sáld [1]) korns ok sex vættir [matar [2]), ok eggsi mikla er Þorleifr í Gördum hafdi gèfit Hauki. Gróa gaf Þórgilsi fíngrgull, skildu þau lagliga, reid Þórgils þadan á Hítárnes, ok þadan á Snæfellsnes, ok gisti at hinna meiri bónda ok gáfu allir honum giafir, fundust þeir Sturla Þórdarson frændr at Helgafelli, ok fèll med þeim heldr fáliga, segir Sturla, sem allir þeir er ríki hèldu af Þórdi Kakala, at þeim var úþokki mikill á allri skipan Hákonar kóngs, vildi Sturla draga Þórgils frá kóngs trúnadi, en Þórgils vildi heimta Sturlu frá sambandi vid þá Rafn ok Eyúlf, skildu þeir frændr med eingri vinátto, reid Þórgils þadan sudr til Stadar ok þadan sudr í Reykiaholt, fór med honum af Strönd utan [3]) Ingimundr bródir hans ok Gudlaugr prestr mágr hans ok Hallbera systir hans, [Hallbeörn hinn mikli ok [4]) Beörn sonr hans, skyldi hann vera þriti í Reykiaholti, Sveinn Ormsson ok Sveinn Ivarsson, Þórdr Hítnesíngr [5]) ok Magnús Gargan [6]). Eigill bóndi hafdi verit iafnan fyrir utan Hvítá med vinum sínum, medan Þórgils var vestr, höfdu þeir Nikolás mágar fundizt á Sámstödum, hafdi Eigill tekit skapskipti vid Þórgils af vidrædum þeirra. Eptir Marteins-

1) þriú sáld. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) ad auk. sömu.
3) Þórdr ok, bæta sömu vid.
4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) vantar í sömu.
6) Gregan, sömu.

messo kvam nordan af Eyri Marteinn Ivarsson[1]) ok Hallr son Páls prests af Eyri. Þetta vor ádr höfdu ordit víg í Dölum vestr, hafdi Marteinn vegit Tanna Gunnlaugsson, þar var ok veginn Páll Ivarsson bródir Marteins, tók Þórgils vid Marteini at ordsendíngu Páls prests, var Marteinn því sídr í ferdum, at hann var í skriptum ok kárino. A öndverdum vetri kvam austan af Sído Klængr Skèggiason, var hann sendr af Brandi ábóta nordr til Hóla á fund Henreks biskups, Klængr bar brèf ábóta, stód þat í brèfi því, at hann hefdi tekit Þórgils til giördar um víg Ormssona med Gissuri Þorvaldssyni, ok þat annat, at hann bad hann at vera spakliga í hèradi ok betr en þá lèk ord á, ok þat hit þridia, at kvamit hafi vestan or fiördum [Snörtr Seldæll[2]) ok sagt honum, at þat var ord á, at Rafn Oddsson væri hinn mesti úvin Þórgils, en Sturla minni vin en vera skyldi, ok bad hann vera varan um sik, reid Klængr þadan tveim náttum eptir Cæciliumesso[3]), reid Þórdr Hítnesíngr med honum í Nordrárdal í Hvamm ok vóru þar um náttina, um kveldit kvam vestan or feördum Þorsteinn Gèllisson heimamadr Þórgils, hafdi hann verit tvær nætr á Stadarhóli, ok segir honum, at Rafn var þar kvaminn ok hann hafdi þá margt talat vid þá báda, segir hann, at þeim lægio vel ord til Þórgils ok vildu giarna gott vid hann eiga, ok at þeir vildu finna hann [annan dag viku[4]) eptir messodagana á Hellu fyrir vestan Amótsvad vid Hvítá, hafdi Þorsteinn þar grid er hann skyldi selia Þórgilsi til fundar þessa, en Þórgils skyldi selia þeim grid í móti, skyldu hverir vera med fimtánda mann, en er leid helgin, reid Þórgils til fundarins vid fimtánda mann, þeir kvamo miök iafnsnimma hverirtveggio, vóru þar kvediur gódar med mönnum, vóru þeir þar Rafn ok Sturla, Nikolás Oddsson ok Kolbeinn Grön, þeir vóru fimtán saman, bundu menn hesta sína ok settust nidr á völlinn, Rafn var mest fyrir frèttum, spurdi at ferdum Þórgils ok at tídindum or Noregi. Sturla kallar á Þórd[5]) ok kvadst vilia tala vid hann, en er þeir kvamo saman, spurdi Sturla hversu mikil vinátta honum

[1]) Mársson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Jón Otradæll. sömu.
[3]) Seliumessu, *B. E. Gr.*
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) Þórgils. *C. St.*

þætti vera med þeim Gissuri ok Þórgilsi? edr hvert nokkut mundi stoda at leita þess at Þórgils skildist vid Gissur? Þórdr kvadst hyggia at þat mundi ei tiá, ok Þórgils mundi eingo því bregda er hann hafdi kóngi heitit, þótt hann giördi þat ei fyrir Gissors sakir, en hitt mæla sumir menn, segir Þórdr, vid þik Sturla bóndi, at þèr sæmdi ei verr at halda vinátto ok fèlagsskap vid Þórgils frænda þinn, en bindast í trúnadi vid þá menn, er ei ero vinir hans. Sturla svarar: vid fundumst á hausti at Helgafelli, ok kvamum vid þá eingo ásamt medal okkar, máttak ekki þat mæla, er ei tæki hann med forsi ok fcandskap, man hann vera þrályndr í skapi sem fadir hans, en hafa breóst verra, ok nú heyrdu þeir at upp gèkk talit fyrir þeim Rafni, lupo þeir Sturla þá þángat til, þeir Þórgils ok Nikolás töludu um eignir þær er hann hafdi tekit í heimanfylgio med Gydu af arfi Snorra Sturlusonar, ok Þórgils var tilskipadr fyrir at seá, Rafn kvad lítilsverdt um lönd þau ef þeir felldu saman vinátto sína, man Þórgils hlióta af vinátto vid Gissur ekki nema skömm ok skada, sva sem adrir Sturlúngar, ok ekki víst hvert all-lángt er at bída. Þórgils bad hann ei heitast vid sik, en gæt þess, bóndi, at þú stelst [1]) ekki á mik, því þat man illa fyrirmælast, ef ek sny baki vid þèr, ef vid erum iafnlida ok iafnbúnir, en þat sem kóngr hefir mèr skipat, hvert sem er ríki edr eignir, þá ætlak at heimta, sem ek vinnumst til, hvert sem vardveitir Rafn edr Nikolás. Reid Nikolás [knút á því [2]), at hann mundi aldrei lausar láta þær eignir er hann vardveitti, hver sem tilkalladi, medan Þórdr kèmr ei til, Rafn ok Sturla hètu Nikolási at fylgia ok skiliast ekki vid hann, vard nú þat eitt í tali þeirra, at hèllt vid heitan ok hardindi, lögdu flestir þat til at þeir skildu. Þeir Bergr ok Þórdr lögdu þat til, at þeir Þórgils ok Sturla töludu tveir samt, ok budust til vid at vera. Þórgils kvadst þess vin vera skyldu sem hann reyndi vinátto af ok þess frændi sem hann reyndi frændsemi af. Bergr mælti: undarligt er slíkt um sva vitra menn sem þid erut, at þid siáit ekki missmídi á slíku er allir þykkiast seá. Sturla svarar, at vera mætti

[1]) seilist, *B, Gr.*

[2]) brott þat segiandi, *A, B, C, E, Gr, St, Þ.*

at bert yrdi sídar um sakir þær er þá mundu ei uppbornar. Þórgils kvadst vel mundu vidbúinn at veria þær, ef ei væri logit á hann. Sturla segir, at ekki mundi verda af tali þeirra, stódu menn þá upp ok gèngu til hesta sinna, ridu þeir Rafn fyrr. Þórgils reid heim í Reykiaholt ok þóttist nú vita vísan úþokka þeirra Rafns vid sik, en ekki ætladi hann at þeir mundu atförum sæta vid hann, sat Þórgils nú heima ok lèt búa drykk til iólaföstu, en hafdi niósnir fyrir vestan Hvítá. Skip hafdi kvamit um haustit vestr í Dyrafirdi, var þar styrimadr sá er Klement hèt, ok annar Öndóttr Hialltr, hann var hirdmadr ok kunnigr Þórgilsi. Öndóttr fór um vetrinn vestan ok sudr um heidar at heimta skuld er hann átti at Katli [1]) Kètilssyni, hann fann Kètil í Kaldadarnesi ok fèkk ei skuldina, [ok kènndi hann þar nokkut Gissori af [2]). Gisti hann í Reykiaholti, er hann fór sunnan, ok dvaldist þar nokkrar nætr. Hann bar þángat brèf, er Önundr [3]) biskupsfrændi sendi Þórgilsi legunauti sínum, hefir ek, segir hann, gèngit á hugraun vid Gissur, (eptir því sem Þórgils baud honum um haustit í Videy) legg ek þat rád á med þèr, legunautr, at þú haldir [4]) vináttu vid Gissur, en treystir honum þó ekki til vináttu [þeirrar er töluverd sè [5]), en gott eina vil ek frá honum segia, en ei íllt, ætlak honum þykkia til at spuria gott at þú deilir fyrst vid Vestfirdínga. Öndóttr segir mart frá Vestfirdíngum, hann hafdi fundit Rafn á Stadarhóli, er hann fór vestan, var þá Rafn kvaminn sunnan or Borgarfirdi af Hellufundi, var ek þá hafdr at vidsiármanni, segir hann, en þat kvedst hann vita, at Kolbeinn ok Svarthöfdi vóru [6]) sendir vestr í feördo, þótti mèr [sva, sem kvikt [7]) væri allt vestr um sveitir, en eingan kalladi hann vera flokkadrátt sva at hann vissi, en þat vissak, segir hann, at þeir [beoggust vid nokkro illu [8]), bad hann Þórgils vera sem varastan, veit ek, segir hann, at þeim Rafni hefir illa líkat vid þik á Hellufundi, reid Öndóttr

[1]) Kata. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) Amundi, *A. C. E. St.* þ.

[4]) hallist til. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) komnir at vestan, þeir höfdu verit, bæta sömu vid.

[7]) sem sækvikt. sömu.

[8]) höfdu nokkut í sinni. sömu.

þadan þridia dag í sæluviko, hèt hann Þórgilsi at giöra honum neósn; ef hann yrdi var vid úfrid. Þridia aptaninn kvam heim Eigill Sölmundarson utan um á, var Eigill þá kátr vid alla menn nema vid Þórgils ok Þórd, vid þá mælti hann ekki ok ekki þeir vid hann. Midvikudaginn, er tídum var lokit, segir Þórgils fylgdarmönnum sínum, at hann mundi rída um daginn ofan í Stafaholt ok finna Oláf Þórdarson frænda sinn, en er þeir beoggust, kvam í Reykiaholt Þorsteinn Arnason or Sídumúla ok fann þat til eyrindis at hann færdi þángat mórent vadmál, er Þorkèll prestr sendi Þórdi. Þorsteinn var þar medan þeir beoggust ok fór ei fyrr en þeir voru farnir, ok vissi hann þá um ferdir þeirra, því eingi madr varadist hann.

11. Nú ridu þeir Þórgils þar til er þeir kvamo í Stafaholt, varo þeir fimtán [1]) saman, var þar med Þórgilsi Þórdr Hítnesíngr, Bergr Amundason, [Arnór Eyreksson, Þorsteinn Gèllisson, Ingimundr Þorgeirsson, Steingrímr Stiúpr, Þorsteinn Kuggi, Sveinn Ormsson, Sveinn Ivarsson, Hallr Pálsson, Jón Ivarsson [2]) ok strákar [3]) þrír, er ætladir varo til at geyma hesta, var þar vel vidtekit ok drukkit lángt á nátt fram, vapn sín höfdu þeir fest á tialdsnagla í stofo, en þeir gèngu med sverd sín, allir vóru þeir bryniolausir nema Þórgils. Þeir höfdu talat mart frændr Þórgils ok Oláfr um frèttir þessar; ok drap Oláfr því öllu á dreif [4]), kvadst hann senda mann á Stadarhól at eyrindum sínum, ok [skyldi sá verda var hvat vid sik væri vestr um sveitir [5]), man ek ekki trúa, at Sturla gángi í nè-einn úfrid á móti þèr. Þar vóru menn til fengnir at vaka, strákar þrír. Vapn Þórgils vóru fram höfd, en nær eingi önnur, því eingum kvam í hug at þar mundi vapn vidþurfa. Þar var sva hvílum [6]) skipat, at Þórgils lá í midium skála í stafnrekkio ok Þórdr [7]) hiá honum. [Fyrir innan þilit lá Bergr ok Þorsteinn Gèllisson [8]). Ödrummeginn gègnt hvíldu þeir Ingi-

1) fiórtán. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) frá [ vantar í sömu.
3) vantar í sömu.
4) dref. sömu.
5) frá [: kvadst verda var vid ekkert. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) hybylum. *St.*
7) Þorsteinn. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
8) vantar í *C. St.*

mundr [Þorgeirsson ok Magnus Gargan [1]), [þar ödrummeginn hiá til stofu lágu þeir nafnar Sveinn Ormsson ok Sveinn Ivarsson, þar ödrummeginn gègnt Steingrímr Stiúpr ok Þorsteinn Kuggi [2]), ok er menn kvama í sæng, sofna þeir fast. Þat höfdust menn at í Stafaholti um náttina, at húsfreya var at ölgiörd ok med henni Beörn Sigurdarson rædismadr, ok höfdu úti hitu-eldinn, þvíat þau vildu ei giöra reyk at mönnum ok varo því dur allar opnar, er þau fóru iafnan út edr inn, kyrrt vedur var ok túnglskin allmikit, hiarn at rída bædi á vötnum ok myrum. Nokkrir af mönnum Þórgils vöknudu vid þat at þeir heyrdu dyn mikinn, Þórdr heyrdi dyninn ok vakti Þórgils ok kvadst hyggia at ridit væri hiá úti. Þórgils vaknar lítt at ok kvad sveina mundo rída hestum til vatns, sofnadi hann þegar. Litlo sídar heyrdu þeir mikla atreid ok lánga, ok gnaudadi [3]) þá fast, sva at skiálfa þóttu húsin, var kallat inn í skálaglugginn, at Þórgils skyldi vaka ok menn hans, þvíat her manns færi at bænum ok med brugdnum vapnom, ok hygg ek at úfridr sè. Þórdr vakti þá Þórgils skèliga [4]). Þórgils vaknar, ok segir Þórdr honum at kvamit var feölmenni. Þórgils bad menn upplaupa skiótt ok taka vápn sín, hann spratt upp skeótt, vóru mönnum úgreid klædin, er myrkt var inni, ok í þessu lupu þeir í skálann er kvamnir vóru í þær dur er nær vóru kyrkio med bölvan ok kalli. Þórgils mælti, at menn skyldu láta hliótt medan klæddust, ef því kvæmi vid. Þórgils fèkk skrúdhosu ok skinnhosu, Þórdr fèkk skinnhosur tvær ok ekki innaní, Þórgils fèkk kyrtil grænan, en Þórdr treyo. Tóko menn þá vapn sín. Þórdr þreif ofan skeöld, er hèkk yfir rúmino, ok fèkk Þórgilsi. Þórdr fèkk stálhúfo ok kèndi at þat var húfa Þórgils. Þórgils hafdi brugdit sverdino ok lèt standa hiá sèr medan hann klæddist. Þá var laupit ödrummeginn í skálann. Bergr mælti í gègnum rauf er á var þilino millum rúmanna: Þat hygg ek, Þórgils, at hèr sè Sturla frændi þinn. Þá mælti Rafn fyrst, sva at heyra mátti: Þat er þeim nú rád, er hærst báro höfudin á Hellufundi ok heitudust

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

2) frá [: en þar utarfrá lágu enn adrir tveir, ok sva hver at ödrum. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

3) grunadi. *A. C. E. St. Þ.* grunnadi. *B. Gr.*

4) skiótliga. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

vid oss, at gánga nú fram ok fela sik ei. Þórgils mælti: ef þèr leitit mín, þá man ek ei felast, en spyria vil ek, hvert ek skal grid hafa ok menn minir edr ei? en fyri hvad farit þèr híngat med sva [miklum stormi [1]) ok styriöld. Rafn svarar: eingum gridum mun ek þèr heita ok fám þínum mönnum, edr hvert er Marteinn Ivarsson hèr fiandinn? Ei er Marteinn hèr, segir Þórgils, en ei dyl ek at hèr er nokkur fiandinn innkvaminn, ok nú kvamo log inn í skálann, þá mælti Þórgils: hvert er Sturla Þórdarson hèr? Hèr er ek, segir hann, þótt ek sè nokkut torkèndr, gèkk Sturla þá inn fyrir rúmin í kvennaskálanum. Þórgils mælti: Sturla! viltu gèfa mèr grid ok mönnum mínum. Rafn svarar þegar: ei skal Sturla fyrir gridum ráda, en þú skalt hafa slík grid sem þú ætladir Sturlu frænda þínum. I þessu settist upp Oláfr Þórdarson ok mælti: þat skulu þeir vita Rafn ok Sturla ok allir þeir menn er í flokki ero med þeim, at öll sú skömm er þèr giörit stadnum ok mèr, skal ek áleggia slíka reidi sem ek vinnst til, skal ek þess bidia almáttkan gud ok hinn heilaga Nicolaum biskup er stadinn á, at hann hefni á ydur sinna meingiörda, ok betr þætti mèr þèr sóma, Sturla, at standa fyrir rúmi Þórgils med mönnum þínum vapnudum, en þar sem nú ertu. Sturla mælti: veit ek at þú mant gott tilleggia, en ei man nú at því verda fyrst [2]). Nú vóru þeir Nikolás ok Kolbeinn kvamnir upp í sætit at húdfatino, þá mælti Nikolás: grid bcódum vèr Kolbeinn Bergi ok Arnóri hirdmanni míns herra. Arnór iátti því skeótt, en Bergr kvadst vilia þiggia grid, ef Þórgilsi væro gèfin, en ei elligar. Rafn mælti: grid vil ek gèfa Þorsteini Gèllissyni ok Ingimundi Þorgeirssyni, þeir tóko því vel. Þórgils spurdi Rafn ok Sturlu, hvat þeir gæfo honum at sök til sva mikils feandskapar? Rafn kvad þat til saka fundit, at Þórgils hafi þat svarit Hákoni kóngi at drepa Sturlu frænda sinn, ok vinna sèr þat til ríkis. Þórgils kvadst þess úsannr vera, veit ek ei hvert firr mundi fara, at Hákon kóngr mundi slíkt nídíngsverk fyrir mik leggia, edr ek mundi undir þat iátast. Rafn segir, at diarft mundi at dylia, ero hèr vottarnir, segir Rafn, ok nefndi til Kolbein ok Ara Ingimundarson. Þórgils spurdi hvert Ari

[1]) mikit stórmenni, *A. B. C. E. Gr. St.* þ. [2]) farit, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

edr Kolbeinn segdo sva? þeir kvádust slíkt mundo segia sem fyrr. Bergr ok Arnór ok fleiri þórgils menn mæltu á móti ok segia, at þetta var hin mesta álygi, hver sem þat segdi, ok væri med eingo móti tilhæft. þórgils mælti: þèr manut ráda vilia. Rafn segir: um grid mán þann veg fara, ef þú verst, þá er þat víst, at þú fær eingi grid, en ef þú gèngr á vald okkar Sturlu ok lætr okkur skapa ok skèra slíkt [1]) milli var, þá giörum vèr um slíkt sem okkur synist. þat er víst, segir þórgils, at seálfdæmi sel ek þèr aldrei, Rafn, ok ei þèr, Sturla, ok eingum manni ödrum á Islandi, medan Hákon kóngr er á lífi, byd ek mál vor á kóngs dóm. þeir neitudu því skeótt. þórgils mælti: um vörn ok vapnabúnad sè ek lítit muni verda, þótt vid stöndum hèr tveir, en öllummeginn alvapnadir menn, ok beint í þessu kastadi þórgils vapnunum upp í rúmit ok lióp fram á gólfit or hvílogólfino ok í þraungina. Tóko þeir hann þá þegar. Nú mælti Rafn ok Sturla at hann gèngi út í litlo stofu ok menn hans, spurdi Sturla, hví þórdr færi ei? hann kvadst ei fara mundo fyrr en hann væri klæddr. Rafn bad Sturlu at gánga til litlu stofo. Tók þórdr þá at klædast ok var leiddr utar í litlo-stofo, vóru þá þángat leiddir menn þórgils hver sem klæddr var. Rafn mælti, at þorsteinn Gèllisson skyldi fara innar í stofu til þeirra. þeir Rafn fara nú í stofuna ok settust í rádagiördir sínar, en hespa var látin á litlu stofu, liós var beart í stofunni, en kuldi var þar mikill. Sáto þeir þar lengi einir saman, sva at eingi madr kvam til þeirra, lagdist þórgils nidr ok fèkk ei sofit, orti þórdr ord á hann ok spur hví hann væri sva fár? ek hugsa þat, segir þórgils, hve íllt mèr þykkir, ef eingi skal saga gánga frá mèr ádr en þryti líf mitt, sva at ek gèti ei á hefnileid róit um svívirdíng þá er mèr er nú giör. þórdr mælti: giör ei þat í hug þèr, giör þá sem þèr synist, ef þú þiggr lífit, en ef þú skalt nú deya, þá er þèr því betra sem þú átt færrum ábyrgdum at svara. Ekki kvídi ek vid dauda mínum, segir þórgils. þórdr kvedst þat ætla, at þeir mundo flestir med honum vera, at sva mundu þola dauda, sem at hverki mundi honum nè þeim skömm í því. þórgils kvad sva vera mundo.

[1]) sekt. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

12. Þá [1]) kvam Guttormr Þórdarson í stofuna, hann var í þúngo skapi ok andvarpadi miök er hann settist nidr. Þórgils heilsadi honum ok spurdi enn, hvat hann vissi af rádagiördum höfdíngianna? Hann kvad þar þúngt af at segia, kvad þess þykia meiri van, at Þórgils mundi ei grid hafa, ok bíd ek þúnga daga, ef ek skal þess bída, at Þórgils væri drepinn, þættumst ek láta þann mann annan, er ek hugda best, ef þetta úhæfuverk færi fram. Mælti hann þat til Sturlu bródur síns, þar var nú talat um þver knè sèr, hveria sætt Þórgils mundi taka, edr hvert hann mundi utan fara ok kvama aldrei út, ef þess væri kostr. Þórgils svarar: hver man þá hefna skammar minnar? ok ekki man þess audit verda, hèr man ek bein bera á Islandi, segir hann, hvert sem nú er edr í annat sinn. Litlu sídar kvamo þeir Dugfússynir í stofuna Kolbeinn ok Svarthöfdi ok settust nidr, kvádust sendir vera af Rafni ok Sturlu til Þórgils at vita hveria sætt hann mundi taka, hvert hann mundi vinna til lífs sèr at fara at Gissuri med þeim ok binda þat fastmælum. Þórgils kvadst þat eitt mundi vinna til lífs sèr, at honum væri hverki at sídan skömm nè klæki. Fóru þeir vid þetta á brott ok segia sva búit Rafni ok Sturlu. En er þeir vóru á brott, tók Þórdr til orda; þat er tillag mitt, Þórgils, at þú vinnir hvervetna til lífs þèr, allt er annat audkeyptara en lífit, en ef þú fær grid, þá er ei skyldt at efna meira af naudasátt þessari en synist, veit þá enn ei sídan í skiptum ydrum hve verda má. Þess fysto allir Þórgils menn at taka sætt, ef kostr væri. Nú leid löng stund ádr Oláfr Þórdarson kvam í stofuna ok þeir Dúgfússynir Kolbeinn ok Svarthöfdi [ok Guttormr Körtr [2]). Oláfr mælti: ek hefir verit á tali vid þá Rafn ok Sturlo, ok giör nú bæn mína, Þórgils, at þú tak nú þann kost er vænast er at hlydi, at firrast mætto hin stærsto vandrædi, ok minnsto á þat, hve marga ok mikla skömm þú átt Gissuri at gialda, fyrst í drápi Snorra Sturlusonar, er vèr værum skyldir at hefna ef vèr mættum, er þat sannast at segia, at Gissur hefir drepit mestan hlut ættar varrar, en þótt þú sèrt sva þrár, at þú vilir eingis manns

[1]) Nú sem þeir vóru þetta at tala, *o. s. fr.* *A. B. C. E. Gr. St. þ.* [2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

rádi hlyda, þá manto litit veita Gissuri, ef þú ert hèr drepinn, ok hlyzt þat þá af Gissuri sem hann mundi vilia, en þat ero kostabod vid þik, at þú skalt fara í för þessa med þeim at Gissuri ok standa iafnfram þeim at öllu er til tídinda giörist í ferd þessari, en sídan skulu þeir giöra þèr sæmdir vid vorn sann, er þèr kvamit aptr. Þórgils svarar: þat man heldr brádkiört at gánga í allmikla úfæru med þeim, en gèta í knefa þeim til launanna. Oláfr svarar: ór vöndu er at ráda, frændi, ok takit þann upp, sem minnst mein mætti at verda. Þetta studdu margir med Oláfi ok bádu at Þórgils frelsti líf sitt med nokkro móti. Þórgils bad þat segia Rafni ok Sturlu, at þeir mætto kvama utar þángat, ef þeir vildo til umtals leggia, ætlak ekki at vera sva hræddr, at ei megik bædi heyra ok siá þá. Var þá gèngit eptir þeim Rafni ok Sturlu, kvamo þeir utar þángat at annari stundo ok vóru miök margir, var þar Rafn ok Sturla, Vígfús Gunnsteinsson, Nikolás Oddsson, Einar Þorvaldsson, Svarthöfdi ok Kolbeinn Dugfússynir, ok sva mart manna sem stofan vannst. En er hlióтt var, innti Oláfr til hvat hann hefdi flutt milli, ok spurdi hvat þeir vildu þar at giöra? Þeir kvádu hann satt eina flutt mundo hafa. Oláfr mælti: giörit fyrir guds sakir ok vægit til hverir vid adra. Nikolás segir: veiztu þat víst, Oláfr, at þá er betr, at annat sinn gángi mál til vegar. Þá mælti Kolbeinn: þess vil ek beida, at þeir menn allir, er hèr vilia íllt til leggia, göri annat hvert, at þeir gángi brotto edr þegi, því ek ætla at hèr þurfi öll þau gódo tillögin, ef vel skal verda. Guttormr [1]) mælti: úfimliga [2]) verdr, ef vèr giörum hèr nídíngsverk á frændum vorum saklausum, en sá gángi undan er þèr eigut allan feandskap at gealda, þetta þótti mörgum vel tillagt. Þórgils bad Rafn ok Sturlu segia, hvern kost þeir vildu giöra honum. Rafn segir: Sturla bóndi, þetta man ekki sva fara sem í nótt hefir farit, at ek mani hèr vera bædi fyrir svörum ok atgiördum, skaltu nú gánga iafnframt mèr at hveriotveggio, ok kalla þá ekki utan þitt samþykki giört, hvert sem giört er vel edr ílla. Sturla mælti: Oláfr hefir sagt hverstveggia samþykki. Þórgils neitadi þessari sætt. Sídan töludu þeir Rafn ok Sturla [ok Oláfr, ok er þeir hætto

[1]) Svarthöfdi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ. [2]) ófinliga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

talino, mælti Sturla[1]): nú er þannig, Þórgils frændi, at nú er sátt rádin af vorri hendi, sú er vær manom framast at gánga.

13. Þat er upphaf at sætt þessari, at þú, Þórgils, skalt fara hèdan med oss at Gissuri þegar med fylgdarmenn þína, skulum vèr binda saman lag vart ok festa þat med svardögum, ok eigi skiliast nema hel skili ádr lykr úfridi þessum, en ef vèr vinnum nokkut í, skal eiga þridiúng hver var, en slíta ei fyrr flokkinum, en vèr bídum annathvert bót edr bana. Þórgils svarar: á þessa sætt væri lítanda, ef ek rífa ekki eid minn vid kóng ok mèr væri unnt fullrar sæmdar fyrir atför þessa, en ekki er mèr Gissur sva ástfólginn, at ei mættak giöra þat at mèr, þvíat vid erom ekki eidum samanbundnir. Nú átto menn lut í at sættin gèngi saman, lagdi flest til Oláfr Þórdarson ok Bergr ok Þórdr ok Dugfússynir ok margir adrir, gèkk at þessu sætt saman, ok var þat nú med eidum bundit af Rafni ok Sturlu ok Þórgilsi, gèngo sídan á brott ok hèldu á ferd sinni ok þóttust allt til lengi dvalit hafa. Þórgils spur Rafn ok Sturlu, ef þeir vildu lofa honum at hann ridi heim í Reykiaholt ok byggist þadan ok ridi þá á heidi. Þeir vóru þess heldr tregir, en leyfdu þó. Rídr Þórgils nú heim í Reykiaholt[2]). Eigill fagnar vel Þórgilsi, ok er þat vel, at þú ert heill heim kvaminn, segir hann. Gèkk Þórgils þá til kyrkio, spurdi Eigill ok Eyvindr Brattr tídinda um ferdir Þórgils, en hann segir þeim af lèttilíga ok sva hvar þá var kvamit, ok skyldi þegar rída sudr á Bláskógaheidi, þvíat hann var til ferda rádinn med þeim um kveldit ok fara at Gissuri. Vard Eigill vid þessa sögo allgleymr[3]) ok sva Eyvindr. Var þá gèngit til borda, en Eigill ok Gudlaugr prestr lèto iárna hesta þeirra med slíko sem tilfèkkst. Eigill fèkk öllum mönnum Þórgils nokkut til þessarar ferdar, vapn edr klædi edr hestaiárn, nema Þórgilsi ok Þórdi. En er þeir vóru mettir, gèngo þeir Þórgils ok Þórdr til laugar, þvíat hestar varu ei búnir. En er þeir sáto í lauginni, mælti Þórgils: Þórdr, hvat

[1]) frá [ vantar í *C. St.*

[2]) En er hann kvam upp at Amótsvadi, datt hestrinn daudr nidr undir honum, þeir fluttust yfir ána ok tóku þar annan hest, ridu þeir Þórgils þá heim í Reykiaholt, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) allgladr, sömu.

þykkir þèr rád, at ek haldi sættina? Þórdr spurdi, hvat ráds hann ætladi fyrir sèr, ef hann hèldi ei sættina? Ei annat, segir Þórgils, heldr en rída nordr til Henreks biskups. Þórdr spurdi, hvert hann þættist bregda eidum vid Hákon kóng, ef hann hèldi sættina? Hann kvadst víst bregda þykiast. Meiri naudsyn þykkir mèr, segir Þórdr, at þú haldir þann eid er þú svardir kóngi til sæmdar þèr, en þann er þú vannst naudigr til lífs þèr. Þat man ek kiósa, segir Þórgils, at rída nordr til biskups. Var þat þá rádit, ádr þeir gèngu í brott þadan, klæddust þeir þá ok tóku vapn sín, vóru þá hestar búnir, tveir gèngu fyrir hestum þeirra [Eyúlfr Skopr ok Þorsteinn, ridu sídan [1]), en er þeir kvamo upp or gardi, kalladi Þórgils á Berg ok segir honum þessa rádagiörd. Bergr tók vel á því, kvedst þessarar ferdar fúsari en fara at Gissuri. En er þeir kvamo upp um Breidabólstad, bad Þórgils sína menn nema stadar, ok sva giördu þeir, segir Þórgils þá upp rádagiörd sína, tóku menn undir þetta vel, hann sendi Þorkèl Raunarmann sudr á Bláskógaheidi at segia þeim Rafni ok Sturlu, at hans er ei van þángat til móts vid þá, ok hann segir upp naudasætt þessari, fór Þorkèll eptir þetta.

14. Nú ridu þeir Þórgils upp eptir Reykiadal, þeir kvamo til Húsafells, varo þar menn allir í svefni. Þórgils lèt beria at hurdum ok lèt kalla út Sigmund prest, ok heilsadi hann Þórgilsi ok baud honum þar at vera, en Þórgils vill rída, bad Sigmund fá sèr mann þann er kynni leid um Tvídægro, Sigmundr kvadst eingan mann hafa þann er [leid kynni, edr hví farit þèr [2]) um nætr? Þórgils segir Sigmundi atförina, bad hann nokkut or ráda um leidsögomanninn, vísadi Sigmundr honum til Reidarfells, er þar sá madr, segir hann, er kunnigar ero allar leidir nordr til hèrada, sá madr hèt Sighvatr [3]) Steingrímsson, allra manna fóthvatastr ok af æskoskeidi, þeir rido þá ok kvama til Reidarfells, rèdst Sighvatr til ferdar med þeim vid áeggian Þórrídar Skèggiadóttur fridlo Sölmundar, fóru þeir þar til er þeir kvamo í Kálmanstúngo, þar

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) farit hefir eptir Tvídægru edr yfir, sömu,
[3]) Sigurdr, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

átti bú Nikolás Oddsson, drápo þeir á dur, ok gèkk út madr er Þórhallr hèt, Þórgils spurdi, hvert Gyda væri heima? hann kvadst ei skyldr til frá at segia, Þórgils laust med eggsi lítilli í höfud honum, ok sprakk nokkut í hárrótunum, hopadi hann þá undan ok kvadst bardr vera, Gyda kvam þá út í durin ok baud Þórgilsi slíkan greida sem þeir vildu. Þórgils mælti: ekki hefir ek ætlat för mína híngat til þess at eta mat, er ok Nikolás meira ílls frá mèr verdr en ek man giöra hèr at sinni. Þess bid ek þik, frændi, segir Gyda, at þú látir hèr ei ræna edr giöra hervirki, en haf hèdan slíkt er þèr þykkist þurfa [í byrgdum [1]) í heimild. Þat er líkast, segir Þórgils, at sva sè nú at sinni ok nytr þín at því, skildust þau vel Þórgils ok Gyda, ridu þadan leid sína ok höfdu þadan hey á einum hesti, nú fóro þeir ok kvamo ofan í Gnúpsdal föstokveldit, var rökkvit nokkut, þeir ádu þar hestum sínum þegar þeir fengo hey, hestar höfdu ordit haltir fyrir þeim, Arnór átti haltan hest er [Eigill hafdi gèfit honum [2]), vildi hann láta svífa ofan eptir hèradino ok hafa hesta skipti, en Þórgils vildi rída nordr yfir hálsa hit efra, vard Sighvatr þar eptir ok þakkadi Þórgils honum ferdina ok spretti frá sèr gullsilgiu ok gaf Sighvati ok bad hann vitia sín sídar ef hann þyrfti. Þórgils reid nordr hit efra yfir hálsinn til Vídidals, kvamo laugarmyrgin í Túngu, tók Jón vid Þórgilsi vel, ok lögdust þeir fyrst til svefns, ok varo þar um daginn ok bidu þar messo ok átu mat, þat var Tómasmesso, ridu þeir þadan um kveldit, ok slóst til ferdar med þeim Jón Járnbúkr, ridu þeir til Svínavatns [um kveldit [3]), þar beó Kolþerna Einarsdóttir, vóru þar hinar besto vidtökur, biuggust þeir þadan sídan, kvadst Þórdr [4]) ei mundi rída fyrr undan en hann yrdi var vid Arnór, ok [dvaldi hann [5]) ferd þeirra drottinsdaginn, en um hádegis skeid kvam Arnór ok hafdi eingar frèttir sunnan um heidi, ridu þeir þadan ok kvamo um kveldit á Vídimyri, var þar vel vid þeim tekit, ok vóru þar um náttina, ok höfdu þar tídir Þorláksmesso, ok var þar fastat um daginn, ridu þadan í As ok

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) honum hafdi gèfinn verit, sömu.
3) vantar í *B. E. Gr.*
4) Þórgils. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) dvaldist, sömu.

rèdu þat at hafa þar dagverd, Arni bóndi vildi gèfa þeim dagverd[1]), en bad þá seálfa ábyrgiast, hvert þeim var þat lofat edr ei, edr hvert vilit þèr kiöt eta edr ei, segir hann, þeir kvádust þat giarna vilia ok sva var giört, ok er þeir vóru mettir, ridu þeir upp til Hóla, kvamo í þat mund er biskup gèkk til aptansaungs, mættust þeir biskup fyrir kyrkiudurum, kvaddi Þórgils biskup, ok tók biskup honum blídliga ok baud honum þar at vera sva lengi sem hann vildi ok öllum hans mönnum, [var þat bædi at biskup spurdi eingis, enda var honum ekki sagt[2]). En er biskup gèkk inn í stöpulinn, þá gèkk til hans Þormódr Grímsson ok mælti hliótt vid hann, þá spyr biskup Þórgils, hvert nokkrir hans menn föstudu[3]) þurt? eingi í kveld, segir Þórgils, eigi munut þèr kiöt eta í kveld, segir biskup, kiöt átum vèr í dag, segir Þórgils, [biskup segir: bú þeim gott kiöt ok digurt[4]). Gèkk biskup þá til aptansaungs, en er aptansaung var lokit, gèngu þeir biskup ok Þórgils upp í stofu, segir Þórgils þá biskupi allan tilgáng þángatkvamo sinnar. En er þeir skildu talit, gèkk Þórgils til bords ok menn hans, en biskup at sofa, var þar hit besta vidtekit[5]). En um morgininn var sèd fyrir hestum þeirra, var biskup hinn kátasti, leid þá af dagr þessi, kvamo þá bodsmenn Broddi bóndi[6]) frá Hofi, Einar Faxi ok Jón Skídason. En ióladaginn í midmesso gèkk biskup í[7]) kór ok prèdikadi af hátídinni[8]), en er því var lokit, þá segir hann um þángatkvamo Þórgils ok öllum þeim atburdum, er þar höfdu giörzt, kallar þá vera landrádamenn Rafn ok Sturlu ok alla þá er þeim veitto, setti hann þá út af heilagri kyrkio ok forbodadi þá, en kvadst bída mundu at siálfu banni, þar til er hann spurdi fleira íllt af ferdum þeirra. Biskup mælti: allir menn, sem vilia hafa at nokkro mín ord, verdi Þórgilsi at trausti, ef hann þarf nokkurs vid. Broddi tók vel vid Þórgilsi. Jóladag skipadi

1) mat. *B. E. Gr.*

2) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

3) fasti vid. sömu.

4) Biskup skipar Þormódi at búa þeim kiöt til bords. sömu.

5) vidtak. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

6) Þorleifsson, bæta vid *B. E.* bródir Þorleifs. *Gr.* b. Þorleifr. *C. St.* b. Þorl. *A.* þ.

7) á. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

8) í hámessunni. *C. St.*

biskup mönnum í sæti, setti hann Þórgils hit nærsta sèr á pall ok sva hans menn, sem bekkrinn vannst. Þar var þá á vist med biskupi Eysteinn Hvíti ok Jórun kona hans ok Aron Hiörleifsson, sat Eysteinn gègnt biskupi ok þar bodsmenn hiá honum.

15. Þat er nú fyrst at segia, at biskup baud Þórgilsi þar at sitia ok öllu hans föroneyti um iólin. Var Þórgils þar hinn fyrsta dag ióla ok annan kyrr, þridia dag ióla reid hann upp á Flugumyri snimma [1]), var þar stefndr fundr hinn fiórda dag ióla, ridu þar til hèradsmenn, biskup var ok þar ok segir hèradsmönnum allt um ferd Þórgils. Broddi bad menn minnast á ástud þá er menn höfdu haft vid Kolbein Unga, ok kvadst opt heyrt hafa, at menn vildu þann höfdíngia, er af hans ætt væri, er nú þess kostr, segir hann. Var þar nú mart umtalat, ok rædst þat af, at ekki vard af tillögum at sinni. Þórgils sendi þá niósnarmenn vestr til Midfiardar ok sudr [allt í Reykiaholt [2]). En er þeim fundi var slitit, var Þórgils á Flugomyri þriár nætr, reid sídan út til Hóla ok sat þar í kyrdum, varo þar drykkiur miklar ok bylífi. Siönnda dag ióla kvamo [sunnan or Reykiaholti [3]) Gudlaugr [4]) prestr mágr Þórgils ok med honum Ingimundr Bödvarsson ok Sveinn [5]) Ivarsson, tók Þórgils vel vid þeim, þvíat honum var forvitni mikil á tídindum, Gudlaugi var skipat hiá Brodda. En er biskup vissi at hann var kvangadr ok prestr, gazt honum ekki at því, ok var vid siálft búit at hann mundi ei ná at gánga í kyrkio ádr Þórgils bad fyrir honum, ok litlu sídar gèngo þeir Þórgils upp í stofu ok Gudlaugr prestr, var þar fyrir Henrekr biskup, var þá Gudlaugr spurdr at tídindum frá ferdum þeirra Rafns ok Sturlu, tók hann þar til er þeir Þórgils höfdu skilit: ridu þeir Rafn ok Sturla sudr á Bláskógaheidi, þar til er þeir kvamo sudr um Hallbearnarvördur, stigu þeir af baki ok bidu Þórgils þar fram á náttina allt til þess er sendimadr Þórgils kvam ok segir at hans væri ei þángat van. Þeir Rafn spretta upp [allir giörvallir [6]), var nú

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) vantar í *B. E. Gr.*
[4]) Gunnlaugr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) Sverrir. sömu.
[6]) skiótt. *B. E. Gr.*

kurr mikill í flokkinum, segia sumir at Þórgils hefdi svikit þá, en sumir virdu til varkunnar, ok þótti þetta iafnt van, kèndi hver ödrum um fyrirmannanna, en þó gnúdi [1]) þetta mest á Sturlu. [Sturla svarar fáu [2]), en mælti þetta sva at nokkrir menn heyrdu, at þótt hann hefdi vitat þetta fyrir, at sva hefdi ordit sem nú var, at þá vildi hann heldr þenna kiósa en standa yfir [3]) drápi Þórgils frænda síns, ok vita þat víst, at hann þætti aldrei slíkr madr sem ádr. Vígfús kallar, at þetta hafi gèngit at gètu sinni. Nikolás mælti: þat ætlak at Þórgils hafi því undandregit at sinni, at þeim mundi meira íllt af honum leida ádr þeirra skiptum væri lokit. Rafn kvadst vilia annathvert, at glettast ei vid Þórgils edr eiga hann ei yfir höfdi sèr, en kvadst Sturlu kènna hverttveggia. Sturla bad nú hvern um tala slíkt er vildi, en meira man nú annat til framkvæmdar en hindrast [4]) eptir þessu. Spurdu þeir nú Þorkèl at ferdum Þórgils, en hann kvadst hyggia, at Þórgils mundi riddinn af hèradi. Rafn mælti: hvar skildist þú vid hann? Þorkèll mælti: fyrir ofan Breidabólstad. Hvert reid hann þá, kvad Rafn? Upp eptir Reykiadal, kvad Þorkèll. Þá segia sumir, at til ílls mundi draga, sumir mæltu at Þorkèl skyldi beria, sumir mæltu at hann skyldi fara med þeim, sumir kölludu, at þeir skyldu taka hesta sína, ok kölludust ærit lengi hafa þar verit. En þá er mestr var gnyrinn [ok menn beoggust allir sem ákafast [5]), stökk Þorkèll á brott [6]) ok vestr á heidi, ok lèttir ei fyrr en hann kèmr í Reykiaholt. Sturla ok Rafn höfdu giört niósnir frá sèr, en ridu med flokk sinn sem ákafast, tók þá vedr at þykkna ok giördi á barvidri ok regn mikit ok hit mesta íllvidri med stormi áköfum, ridu þeir þar til er þeir kvamo ofan med Ölvisvatni í Styfíngadal, kvamo þá í móti þeim neósnarmenn þeirra ok segia at Ölfusá er ofan laupin med ís ok væri lángt um úfær. Tóku þeir þat rád, at þeir snero aptr, hèllst [7]) íllvidrit, vóru menn þá margir meök þrekadir sva at til eingis vóru færir ok barg hver þeirra ödrum þeirra er betr

[1]) gnuddi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) eptir. *C. St.*
[4]) hindra. *A. B. E. Gr.* Þ. hnidra. *C. St.*
[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) strauk — af stad. sömu.
[7]) hellst olli því. sömu.

mátto, slödrudu þeir þá vestr af heidinni sva at menn hèldu lífi, en urdu [1]) sem væsödstir [2]). Drottinsdags aptaninn kvamo þeir Sturla ok Rafn í Reykiaholt, [skipudu þeir mönnum á bæi ok varo nær þriátygi manna í Reykiaholti [3]), tók Eigill bóndi vid þeim bádum höndum, sátu þeir þar Þorláksmesso [4]) ok drukko, ok urdu þá sannfródir, at Þórgils hafdi nordr ridit á Tvídægro [ok farizt vel [5]), þvíat sá var aptr kvaminn er farit hafdi med honum, ok atfángadag ióla reid Rafn yfir Nordrá í Skard, en Sturla í Stafaholt. Þeir ridu af hèradi at öndverdum iólum, ok þóttust hèradsmenn haft hafa af þeim ágáng [6]), ridu þeir vestr í sveitir. Reid Sturla heim, en Rafn var á vist á Stadarhóli med Sturlu ok stundum at Saudafelli, en flokkrinn reid vestr í Feördu ok dreifdist ok undu illa sinni ferd. Lauk Gudlögr sva sinni sögo.

16. Þórgils sat um kyrrt at Holum í hinni mesto sæmd, hann hafdi neósn fyrir vestan Vatnsskard. Biskup taladi iafnan um þat, at honum þætti vel vordit, er þeir höfdu ei nád Þórgilsi, ok þakkar gudi þat. Lidu nú iólin fram til hins tólfta dags med mikilli gledi ok skèmtan, skorti þar ei hinn besta drykk [7]) ok önnur faung. Hinn tólfta dag, er biskup var at aptansaung, gèkk madr í kyrkiu, var hann sniógr allr, hann var lágr ok kollóttr [8]) at siá, en þó gèkk hann heldr en valt. En er hann kvam í kyrkiuna, mælti Þórgils til Þórdar: þessi madr er Lodinn Sigurdarson frændi minn, gèkk Þórgils at honum ok mynntist vid hann. Var þá súnginn aptansaungr til lykta. En er menn kvamo inn í stofo, varo dregin klædi af Lodni ok þeim fèlögum, fór med honum Bárdr Kampi ok annar madr er hèt Audúlfr, bar Lodinn biskupi kvediu Gissurar ok sva Þórgilsi, ok segir honum Gissur heilan ok kátan, segir hann ok sva frá ferd Rafns ok Sturlu slíkt sem Gudlaugr [9]), segir ok at Gissur hefdi fengit niósn, sva at þeir mundu

1) undu. *E.* Þ.
2) vesælastir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) vantar í *C. St.*
4) Nikolásmesso. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
5) vantar í sömu.
6) Þúnga. *B. E. Gr.*
7) ok skèmtan, bæta vid *C. St.* Þ.
8) sköllóttr. *B. E. Gr.*
9) Gunnlaugr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

þá ei ná honum, þótt áin hefdi ei þá ofan laupit. Hafdi Lodinn bréf at færa biskupi ok Þórgilsi, var þar á vinmæli hin mestu vid hverntveggia. Lodinn var hinn mesti vin Gissurar, en hinn mesti úvin Vestanmanna. Biskup var sóttr at trausti, at hann hèldi Skagfirdíngum undir Gissur, en er Þórgils vard þess vís, setti hann þegar hug sinn móti Gissuri, en hann vildi ei opinberliga segia biskupi, taladi Þórgils þetta fyrir Aroni legunauti sínum, lagdi hann þat til, at Þórgils skyldi fyrir hvers manns dur rída med þriátygi manna, en hann vildi þat ei. Hinn þrettánda dag ióla var veizla hin besta ok drukkit fast, urdu menn Þórgils miök drukknir. Eptir iólin reid Broddi í brott ok adrir bodsmenn, baud hann Þórgilsi til veizlu út til Hofs at geisladegi, reid Þórgils út til Hofs ok þeir tíu saman, fengu þeir þar hina bestu veizlo [1]), var þar heldr feölmennt bædi drottinsdag ok annan dag viko, en adra nátt viko, er menn höfdu einu svefn sofit, var þar [hurdar kvadt [2]) heldr ákafliga [3]), þar var kvaminn Steingrímr Stiúpr [4]) frá Hólum, segir at niósnarmenn Þórgils væro kvamnir vestan ok segia at Rafn ok Sturla mundi kvama vestan í Lángadal at drottinsdags-helginni vid þriú hundrud manna, lètu þat fylgia sögo, at meiri van væri, at Rani mundi kvama nordan ok sva Eyúlfr, spratt Þórgils þá upp ok klæddist, ok vard þeim heldr seint, þvíat hestar þeirra vóru annarstadar á bæum til fódurs, vard þá at sækia, rèdst Þórgils þá um vid Brodda, lagdi hann þat til at senda menn um allt hèrad at safna mönnum, sendi Broddi mann í Sæmundarhlíd til Páls Kolbeinssonar, en annar var sendr Einari, at hann skyldi safna mönnum um Blönduhlíd. Biskup hafdi sent mann upp í Túngu, skyldi þetta lid saman kvama á Flugumyri. Biskup kvadst ok mundi uppstanda af stadnum med alla vígda menn. Þórgils reid utan þridia dag at safna mönnum um Höfdaströnd, reid hann utan um Kolbeinsdal, kvamo þeir þar allir um kveldit, ok kvamo saman nær fiögur hundrud manna, kvam Aron þar ok Ingimundr ok kvádu mann kvaminn vestan or Lángadal ok segia Rafn ei þar

[1]) vidtekt, *B. E. Gr.*

[2]) barit, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) var þá til hurdar gèngit, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) vantar í sömu.

kvaminn, ok einga flokka vera ok ei til Rafns spyriast, vóru þá sendir menn vestr í Vatnsskard, en bóndr beiddo heimfararleyfis [1]) var ok þat rádit, at bóndr skyldu veria hèrad ef þyrfti, en fara hvergi af hèradi. Aron Hiörleifsson var kvaminn á hest sinn ok reid at þórgilsi ok mælti: rída vil ek nokkut, annathvert vestr eda austr, væri þat nærri mínu skapi at rída nordr at Rana ok lystum [2]) þann feanda af ádr þeir kvami sèr saman, en snèrum þá á móti hinum ef þeir kvæmo vestan. Ei ætlak þat einsætt, segir þórgils, ef bóndr vilia hvergi af hèradi fara. Aron mælti: þess vardi mik ei, þórgils, at þú mundir ragr vera, enda kann ek þèr at segia, at ek skal ei kvama af stadnum í vetur, hvers sem þú þarft vid, ef nú skal ek ekki athafast, snèri hann þá hestinum í kríng ok kvadst brott mundi rída. Hart þótti mèr þú at mèr kveda, segir þórgils, ok veit ok at þèr var þat gaman, en eingi alhugi [3]), ok því tek ek þat fyrir gaman, dreifdust þá flokkarnir ok hèto þeir allir þórgilsi, at hver skyldi þegar uppi, ef manna þyrfti vid, en sumir beiddu þess, at þórgils ridi af hèradino, ok þótti sem ei mundi ágèngit hèradit, ef ei væri hann þar, ok þá ridu þeir þórgils á Heggstadi, gèngo þeir þar á tal biskup ok þórgils ok Broddi ok nokkrir menn adrir, var þá snúit skapi biskups, vildi hann þá leita um sættir medal þeirra Rafns ok Sturlu ok þórgils ok stódu [4]) margir undir þat. Baudst biskup at fara sudr til Borgarfeardar ok stefna fund, var því iátat af þórgilsi, [at biskup hefdi hèradsfund í Borgarfirdi [5]) ok skyldi hann keósa med sèr mann af mönnum þórgils, en hann kaus þórd, ridu þá til Hóla ok biuggust skyndiliga. Med biskupi fór Eysteinn Hvíti ok heimamenn biskups. Biskup reid til Flugumyrar ok gisti þar at búi síno ok þórgils med honum. þórgils reid med honum til Vatnsskards, reid hann þá aptr. þeir biskup höfdu vötn úfærlig ok þeyi mikla, þeir gisto at Stad í Rútafirdi nærsto nátt fyrir Pálsmesso, þar kvam til hans Jón Járnbúkr. þadan var sendr Rafn Snati ok þorsteinn Gèllisson til móts vid þá Rafn ok Sturlu, vildi

[1]) orlofs heim. *A, B, C, E, Gr, St, þ.*
[2]) leysa. sömu.
[3]) alvara, sömu.
[4]) studdu. *A, B, C, E, Gr, þ.*
[5]) vantar í sömu.

biskup eiga fund vid þá í Borgarfirdi. Pálsmessodag var [mikil þoka[1]), drífa ok myrkur mikit, reid fyrir Jón Járnbúkr, þeir kvamo í Hvamm um kveldit í Nordrárdal, ok varo þar um náttina. Reid biskup þadan um daginn til Reykiaholts, ok var þar vid honum tekit sem menn kunno. Biskup sendi menn í Skálaholt til Brands ábóta, at hann skyldi kvama sunnan sem skiótast. Þeir kvamo vestan Rafn ok Sturla ok ridu til Amótsvads, bádu þar kvama biskup kyndilmesso at færu vedri, annars mundu þeir bída á Hellu, mundu þeir vera vid fimtánda mann, en biskup skyldi ok ei feölmennari en vid fimtánda mann, bóndr skyldu vera sva margir sem þeir vildu, þá tók af snæ allan ok var lengstum þeyr[2]) ok vötn mikil, en kyndilmesso var vedur allgott, ok saung biskup tídir allskynsamliga, ridu menn þá er búnir vóru, var þar Eigill bóndi ok mart hèradsbónda, ridu þeir þá ofan til Amótsvads ok var áin heldr mikil, en er þeir kvamo yfir ána, vóru þeir ei kvamnir.

17. Litlu sídar kvamo þeir ok ridu á hæd nokkra skamt þadan er biskup hafdi af baki stígit, Sturla sendi Svart Þórisson til Þórdar ok bad hann kvama til móts vid sik í gridum, ok er þeir fundust, spurdi hann, ef Þórdr vildi þat sveria, at Þórgils væri hvergi í nánd, sva at hann mætti þeim mein giöra þann dag? Þórdr kvadst víst ei vilia sveria, en segir þat, at Þórgils mundi nú eingi svik búa, ok er hann ei nær en í Skagafirdi. Rafn kvad aldrei mark at hvat hann segir, ok kvad hann allt liúga mundu. Sturla mælti: satt man hann segia, er þat ei skap Þórgils edr þeirra frænda. Lètu þeir þá lausa hesta sína ok gèngu til biskups ok tóku ofan stálhúfur sínar ok kvöddu hann, þagdi hann vid. Settust menn þá nidr ok spurdu tídinda. Eptir þat tóku þeir at tala um málaferli, ok spyr biskup hveria sætt þeir vildu beóda Þórgilsi? Þeir kvádust einga beóda mundo, en heyra til ef biskup bydi nokkra, hafit þèr sent oss ord til þessa fundar, en ei höfum vèr ydur sent. Biskup tók á þeim erfidliga, kallak ydur, segir hann, fridbrotsmenn á hirdmanni kóngs. Þeir bádu hann bera fram sáttarbod af hendi Þórgils, edr sá er hann fengi til. Biskup

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ. [2]) þydt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

kvad á þat, at Þórdr skyldi frambera sættarbod af hendi Þórgils. Þórdr segir þat vera sættarbod af hendi Þórgils, at hann vill halda ok hafa Borgarfiörd í fridi ok frelsi ok öll þau ríki sem kóngr hafdi honum skipat, sídan vill hann hafa fyrir Stafaholtsför þeirra sex manna dóm, sem þeir allir samt vilia tilnefna iafnmarga hverir. Þeir svara: at um þat væri ekki at leita, at þeir mundu gèfa upp Borgarfiörd, edr önnur ríki sem Þórdr hefdi þeim skipat, fyrr en brèf hans kvæmi til; kölludust ei kóngs skipun vilia hafa á hèrudum. Eysteinn mælti: ekki mundut þèr þora þat at mæla, ef þèr sætut iafnnær kóngi sem nú biskupi, man þá sætt ydar sæmiligust, ef þèr leggit allt á kóngsvald ok farit hverirtveggio utan. Þeir neittu því þverliga [1], mantu ei, Eysteinn, ráda sættum manna, þó þú þykkist gódr kaupmadr, segia þeir, er Þorleifr skipadr yfir hèrad med varo samþykki. Var þá mart talat. Þá sást mannareid upp med Hvítá at sunnan, vóru þeir menn ei færri saman en tólf, ok skino vid vapnin, [varo þar ymsar gètur á [2]), sumir ætludu at vera mundi Þorleifr or Görduin, sumir ætludo vera mundo hèradsbóndr, sumir ætludu at vera mundi Þórgils Bödvarsson. Bar þá menn brátt at, var þar Brandr ábóti ok Bödvar or Bæ ok adrir bóndr, þar vóru kvediur blídar med biskupi ok ábóta, settist ábóti þegar nidr, ok segir biskup ábóta hvada efni þar var talat. Abóti kvad þat Rafni ok Sturlu vel fara at unna Þórgilsi gódra sætta, sva ílla ok úmannliga sem þeir hefdu brotit frid á honum í Stafaholti. Þeir töldu þat, at hann hefdi brotit frid í hèradino ok barit bændr, en suma kúgat ok bætt eingum. Abóti kvad þat ílla vera, ok þyrfti þat þeim at bæta er brotit var á, en ei hinum er áfríudu. Bödvar bóndi mælti: víst var þat satt, at Þórgils var hardr sumum bóndum, enda var hans ei med blídu leitat. Var þá því firr um sættir sem fleira var um talat. Rafn mælti: ei vardi mik, Bödvar, slíkra tillaga af þèr. Sva med því, segir Bödvar, at eru þeir sumir, at í svikum hafa verit vid Þórgils, ætlak þá marga, er sín [3]) mundu tilliá at svíkia hann, ef þeir hefdu mátt. Lupu þeir Rafn þá upp ok spurdu ef þá væri.

[1]) berliga. *B. E. Gr.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) sik. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

sèt fyrir enda um sættina? Biskup segir vera lokit því er hann mundi tilleggia. Sigurdr Sótt [1]) var med þeim Rafni ok Sturlu, ok kèndi Þórdr at hann var girdr sverdi því er hann lèt í Stafaholti, ok beiddi at hann mundi laust láta. Tók Þórdr þá til sverdsins [er Sigurdr var girdr med, en hann hèllt á [2]), ok togdust þeir um, en er menn sá þat, þá fór til Kolbeinn Dugfússon ok kvadst vilia at hann lèti laust. Sigurdr kvad hann eingo mundu fyrir ráda, þá gèngo þeir til Rafn ok Sturla ok bádu Sigurd laust láta sverdit ok deila ei um slíkt, máttu vita at þú átt ei. Sigurdr spurdi Rafn, hvert hann skyldi laust láta? Rafn mælti, ek hirdi aldrei hvert þat er laust edr ekki. Þórdr togadi í sverdit ok þeir er med honum vóro, þar til er þorninn gèkk í sundr í sverdsfetlinum, var þá laust sverdit. Sigurdr hèllt um skálpinn, Þórdr greip sverdit or slídrum, ok tók Jón Járnbúkr vid því, en þeir hèldu á umgiördinni. I því kvam at Brandr ábóti [ok Bödvar [3]), bad ábóti þá ei deila um þat er lítils væri verdt, en þú, Sigurdr, mant ei vilia at menn hlióti iafnillt af þèr sem fyrr. Þreif Kolbeinn um handlegg Sigurdi fyrir ofan úlflid, lèt Sigurdr þá rakna [hendr af skálpinum [4]). Rafn mælti þá nokkur hádúngarord til Þórdar, er slíkt vel fallit at launa þèr sídar. Þórdr kvad nú ei mundi at því farit verda. Fóru þá hverirtveggio at taka hesta sína ok skildu med feandskap. Biskup var þá á bak kvaminn. Hvítá var allmikil, ok vildu þeir ei at biskup ridi í standsödli þeim er hann hafdi ádr í ridit, þótti sem hann mundi verda ofvotr. Reid biskup þá hesti þeim er átti Eigill í Reykiaholti, á sína hlid reid hver Jón Járnbúkr ok Bödvar or Bæ, reid Jón vid strauminn, en Bödvar forstreymis. Eigill ok Eyrekr Birkibeinn ridu fyrir vadit, áin tók síduna, þá snaradi biskup af baki, ok fèkk hann ei uppi setit ödruvís en þeir hèldu honum á baki, ok slödrudu sva til lands. En af baki rak Eindrida af Raudsgili ok Sigurd or Kálfanesi, ok vard þeim borgit. Biskup mælti, er hann kvam af ánni, at hann mundi aldrei á iafnúfært vatn rída sídan. Reid biskup ok ábóti í Reykiaholt, þeir súngo hatídliga Blasíusmesso ok prèdikadi ábóti, hann

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) frá [ vantar í sömu.
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) vantar í sömu.

kvam ok vid forbod þat er biskup hafdi sett á vid þá Rafn ok Sturlu, kvadst vilia í hvívetna framhalda ok samþykkia, en prestar skyldu skripta þeim, ef þeir vildu iáta Þórgilsi iafnsætti, ok vera þá í kyrkio frá skírdegi ok til alþíngis. Blasíusmesso ridu þeir biskup ok ábóti upp til Gilsbakka, ok þadan reid biskup nordr til sveita. Ábóti reid aptr til Bæar ok þadan sudr. Þórdr reid heim á Hítárnes, en Rafn ok Sturla vestr á sveitir.

18. En er biskup kvam nordr til Hóla, segir hann Þórgilsi frá ferd sinni, þótti mönnum hans eyrindi lítit ordit. Biskup var hinn blídasti vid Þórgils sem ádr hafdi hann verit. En þessi kurr fór af rádamönnum, at mikill kostnadr þætti standa af þarvist Þórgils. En er Þórgils heyrdi þann kurr, beóst hann til brottreidar. Þórdr hafdi ritat brèf til Þórgils, at ábóti baud honum heim í Skálaholt ok þótti hann betr kvaminn í Skálaholti en í Skagafirdi. Reid hann þá nordan ok skildust þeir biskup med blídu, ok hèt honum sinni vinátto, hann þakkadi biskupi margfaldliga sinn velgiörning. Reid Þórgils þá á Arnarvatnsheidi ok í Reykiaholt, ok sendi [mann til [1]) Þórdar á Hítárnes, en hann var ridinn til Stadar. En er hann kvam ei at því [2]) er Þórgils hafdi ákvedit, þá reid hann sudr í Skálaholt ok þeir tólf saman, tók ábóti vid þeim forkunnar vel, vóru þeir þar um varit í hinum besta fagnadi. Þórgils hafdi mælt, at Þórdr skyldi til hans kvama í Skálaholt hit sídasta eptir páskaviko, ok vildi at þeir Gudlaugr [3]) prestr keypto [þriggia hundrada kaupi bú [4]) í Reykiaholti, ok þeir giördo svá. Stód nú kyrrt fram um páskaviko [5]). Reid Þórdr sudr eptir páskaviku ok Ingimundr Bödvarsson [6]), ok er þeir kvamo sudr á heidi, tók at drífa, ok fèll snær sva mikill at hestarnir máttu ei vada, treystust þeir ei at rída Língdalsheidi, ok snèro til Giábakka ok kvamo miök þrekadir til Brúa um kveldit, þeir bádu þar greida ok fengu ei, tóku þeir þar vöndul heys fyrir hest hvern ok lágu undir túngardi, því bóndi lèt byrgia hurdir vandliga, fóru þeir

1) bod eptir Þ. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
2) þeim tíma. sömu.
3) Gunnlaugr. sömu.
4) þriú hundrud í búit. sömu.
5) páskaver. *C. E. St.* þ. páskir. *A.* páskavor. *B. Gr.*
6) bródir hans. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

þegar í sólar upprás, var þá vedur bíart, kvamo þeir til Búrfells, höfdu þar messo ok dagverd, ridu þeir um kveldit í Skálaholt, var þá Þórgils í badi ok kvam litlo sídar inn ok fagnadi þeim vel. Þeir ábóti varo nykvamnir heim austan af sættarfundi þeim er giör var um víg Sæmundar ok Gudmundar Ormssona. Segir Þórgils Þórdi, at hann skyldi fara vestr til Stadar ok efna þar til bús, þvíat hann ætladi þángat til at fardögum. En Þórdr segir honum úfimligt[1]) frá högum Bödvars. En er ábóti vard þess var, þá latti hann þess miök, ok baud honum med sèr at vera fram til alþíngis. Þórgils þakkar honum blídliga bod sitt, en þó vil ek vestr rída, vil ek, segir hann, ei lengi felast fyrir þeim Rafni. Þórdr rídr þadan á Þíngvöll, en annan dag í Reykiaholt. Um náttina kvam á ríd mikil. Þórdr segir, at Þórgils mundi ei kaupa þar í bú framan til fardaga. Líkadi Eigli þat ílla ok fór med þeim Þórdi stuttliga, gèkk þá í sundr búit, reid Gudlaugr[2]) prestr þá vestr um heidi ok Hallbera, ok Alfdís[3]) Sigmundardóttir frá Húsafelli fór heim til födur síns. Ingimundr Bödvarsson fór med Þórdi, ok allt þat lid sem med Þórgilsi var fór þá í brott, skildust þeir Þórdr ok Eigill ekki med kærleikum. Þórdr fór þegar hann kvam heim til Stadar ok segir Bödvari rádstofnan Þórgils, tók Bödvar því vel. Kolgrímr í Bearnarhöfn lagdi til búss vid Þórgils fimm kúgildi. Þórdr stefndi fund at Stad ok beiddi at hver bóndi sá er tilfær væri skyldi lána Þórgilsi kúgildi. Gèngu menn undir þetta vel ok hugdu gott til at Þórgils kvæmi til Stadar. Litlu sídar kvam Þórgils sunnan, höfdu þeir ábóti skilizt med kærleikum, ok gaf hann Þórgilsi uxa fimm vetra gamlan [ok kullt[4]). Þórgils fèkk Gudlaugi land á Hítárnesi, ok bcó hann þar, en Þórdr fór til Stadar ok Alfdís, ok var hon þar fyrir búi, ok fèkk Þórgils þeim land at Þorgeirsfelli. Bödvar rèdst til Eyrar ok giördi þar bú. At Stad vóru fiörutygi kúa ok hundrad ásaudar, hafdi Þórgils rausnar rád fyrir sakir feölmennis ok hybyla. Fæd sú er verit hafdi med þeim Bödvari ok Einari Halldórssyni taldist öll or þegar Þórgils kvam til, ok vard med þeim hin mesta vinátta med frænd-

[1]) ófrynligt. *St.*

[2]) Gunnlaugr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) Aldís. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) ok annat meira. sömu.

semi, hafdi Þórgils hann miök vid rád sín ok virdi hann mest allra hèradsmanna. Þórgils sendi Eyúlf Þorvardsson til alþíngis med godord, hann skyldi ok nefna dóma fyrir Reykhyltínga godord ok Jöklamanna godord, en Eyúlfr þóttist því ekki fram kvama, ok nefndi Þorleifr dóma fyrir öll höfdíngia godord med stirk Rafns. En er Eyúlfr kvam heim, taldi Þórgils á hann ok kalladi hann hefdi ei skörúngsskap til haft at giöra sem hann hefdi fyrirmælt, ok líkadi Þórgilsi stórilla. *) Um vetrinn milli íóla ok föstu kvam Gissur sunnan til Skagafiardar, ok keypti hann Flugumyri at Henreki biskupi, þvíat Helga Sæmundardóttir hafdi biskupi í hendr fengit. Hallr son hans var med honum ok nær tuttugu menn. Segir hann bóndum í Skagafirdi, at hann mundi búnad sinn reisa um varit á Flugomyri, þat segir hann ok Eyúlfi Þorsteinssyni, at hann vildi hann ei í Skagafirdi. Eptir þat reid Gissor sudr ok var þá kyrrt um vetrinn þadan frá. Rafn fór heim til Saudafells á föstunni. Um varit eptir fardaga fór Gissur sunnan til Flugumyrar ok Gróa kona hans ok Hallr son þeirra, nær þriátygi manna varu þau saman, var þá bú reisugligt samansett á Flugumyri. Gissur reid til þíngs um sumarit nordan med þriú hundrud manna, Isleifr ok Kètilbeörn synir hans kvamo til móts vid hann á Beitivöllum med fiögur hundrud manna, þeir ridu allir samt á þíng. Þíngreid var lítil vestan or sveitom. Oláfr [1]) Þórdarson hafdi þá lögsögo, hann reid þá ei til þíngs ok ei þeir Rafn fyrir úfridi. Þórdr Andresson reid til þíngs med Gissurssonum, ok veitti þeim at öllum málum á því þíngi ok Andres fadir hans. Med rádi Gissurar tók lögsögu á því sumri Teitr Einarsson ok allra þeirra manna er þar vóru á þíngi. Gissur gèkk til lögbergis ádr hann reid af þíngi ok lèt lysa fiörráda sökum vid sik á hendr Rafni ok Sturlu ok öllum þeim mönnum er í þeirri ferd vóro um vetrinn. Sídan ridu menn af þíngi, fór Gissur heim á Flugumyri [2]).

19. Nú er frá því at segia, at þetta var giördi Gissur bú á Flugumyri ok gèngu undir hann hèradsmenn allir til Rútafiardar, en skipadi þau ríki er hann átti fyrir sunnan land sonum sínum

[1]) Sturla, *B. Gr.*

[2]) frá *) er sett í 63 kap. af 7da þætti í *B. Gr.*

Halli ok Isleifi, giördist Gissor hinn [mesti virdíngamadr [1]). þetta sama var fóru menn á milli þeirra Gissors ok Rafns, ok var leitat at kvama sættum saman med þeim ok vinátto [2]). þá bad Hallr Gissursson Ingibeargar dóttur Sturlu, ok rèdst þat á þíngi um sumarit, hon var þá þrettán vetra. þá tók Teitr Einarsson lögsögo, en Oláfr þórdarson lèt lausa fyrir vanheilso sakir. Rád skyldu takast med þeim Halli ok Ingibeörgu at veturnáttahelgi á Flugumyri. þá beó Rafn Oddsson at Saudafelli, hann var vinmargr ok hinn mesti úvin þórgils, sem fyrr segir, hann setti niósnir fyrir utan heidi. Madr hèt Halldór Vilmundarson, hann var diákn at vígslo, hann hèllt niósnum fyrir Rafn fyrir utan heidi, sva at hann vissi síd ok snimma hvat þar var tídinda, hann beó at Raudamel hinum ytra. þat var ord á, at búit mundi ei standa mega atfángalaust at Stad. þórgils reid med heimamenn sína til Raudamels ok leitadi eptir vid Halldór ok húsfreyo hans, at þau færo til Stadar ok væro þar fyrir búi. Halldór neitti því þverliga. þórgils baud at leita [3]) vördslu vid bóndr hina bestu fyrir kvikfè hans, en hann vill eingan [4]) á giöra. þórgils kvadst einga þá menn vilia vera láta þar í sveit, er honum væro útrúir, hvert sèm ero vígdir edr úvígdir. Halldór kvadst ei þessa valdr. þórgils bad hann þá sveria fyrir, hann mælti: ek man eingan eid þèr sveria. Lèt þórgils þá reka kyr hans ok ær til Stadar. Prestr vildi ei eta þann mat edr adrir kènnimenn, er undan því fè [5]) var. Halldór fór at finna Gudmund umbodsmann [6]) til Helgafells ok sendi hann bródur þorhall [7]) ok beiddi at þórgils lèti rakna rán þetta, en setti hann af kyrkio ella ok alla þá er af neytto ránino. þórgils kvadst ekki rán mundo rakna láta, en Gudmundr rádi kyrkiogaungum. Halldór fór til Saudafells ok segir Rafni til sva búins. Rafn vard vid allbeiskr ok baud Halldóri til sín ok öllu hans skuldalidi, vil ek ei, segir hann, at þit deilit ílldeildum, en ek man seá fyrir máli, ok skal þat mælt,

[1]) virdugligasti höfdíngi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) ok giördist þat af, at med Rafni ok honum var mælt til hinnar mesto vináttu, bæta sömu vid.

[3]) veita. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) kost, bæta vid *B. C. E. Gr. St.*

[5]) þeim peníngi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) kènnimann. *C. St.*

[7]) Halldór. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

at þessa máls skal rekit verda. Reid Hálldór þadan sudr til Kolbeinsstada ok fann þar Kètil prest ok Narfa, lögdu þeir þat rád á med honum, at hann færi í Skálaholt at finna Brand ábóta ok segia honum til sva búins ok fara hans rádum fram, þar sem þú ert messodiákn at vígslo. Halldór fór til ábóta ok segir honum [um hvad hann á at vera[1]), ok bad hann áseár. Abóti segir þat ljóst fyrir augum, at vid hann var rángliga búit, en hitt veit ek úgiör hversu þú ert sekr um tilgiördir. Halldór afsakadi sik fyrir ábóta, en hann tók honum ei margliga, synist mèr sva, segir hann, sem flestir menn sèo honum ofskinia[2]) vestr þar, ef hit sanna væri uppi. Abóti giördi þó brèf med Halldóri ok sendi ord Katli presti, at hann færi med honum út til Stadar. Fór hann þá ok fann Kètil, [reid hann med honum út til Stadar[3]). Þórgils tók vel vid Katli, bar hann fram brèf ábóta, ok var þess beidt, at Þórgils lèti rakna ránit, ok bydi iafnadardóm á máli þeirra Halldórs ok hætti Þórgils heldr stórmælum. Þórgils svarar vel eyrindum ábóta ok kvad rán skyldu rakna á hveria leid er hann vildi, en dóm á máli okkro Halldórs kvadst hann eingum mundi í hendr fá nema siálfum sèr. Leitadi Kètill þá um sættir, ok fèkkst þar ekki annat af, en Þórgils hèt Halldóri afarkostum sem[4]) hann kvæmi því vid. Lauk því sva, [at Þórgils skyldi sæma Halldór nokkro, eptir því sem sannr hans væri til. Var þá fè á brott rekit, en Þórgils gaf[5]) Halldóri messoklædi, ok ádr þeir skildu gaf hann Þórgilsi þriá gèldinga ok uxa fiögra vetra gamlan ok bad hann vinátto, en Þórgils hèt því. En er Rafn spyr þetta, þótti honum hann farit hafa lítilmannliga.

20. Þat er nú um sumarit at Þórgils rídr heiman í Lángadal til Páls prests ok þeir níu saman, fór Þórgils at siá Ingibeörgu dóttur Páls prests, hon var þá úgèfin, ok[6]) synist honum þat ei upp at bera, því honum leizt konan úfrid. Þeir Páll töludu mart ok leitadi hann eptir, ef hann fengi nokkut saman kvamit med

1) hvat um er. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) afskinia. sömu.
3) vantar í sömu.
4) þá. sömu.
5) frá [: at Halldór fèkk fèit ok þarmed gaf Þórg. *o. s. fr. A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) er hann sá hana, bæta sömu vid.

þeim Þórgils ok Rafni. Þórgils tók því líkliga ok kvadst fús vera at semia vid Sturlu, ef hann mætti kvamast at vinátto hans fullkvamliga, vil ek ok, segir Þórgils, hafa fulla sæmd af Sturlu fyrir þá vanvirdíng er hann hefir til mín giört. Páll segir þá Sturlu allt þetta, ok lízt mèr Þórgils sva sáttfús, at þat mundi audsótt vera, legg ek ok þat rád á, at þú rídir til móts vid Þórgils [1]), þvíat ek veit at þú trúir honum. Reid Þórgils þadan til Helgafells ok var þar um nátt, var Gudmundr hinn kátasti, fór Gudmundr at leita um sættir med þeim Þórgils ok Rafni, en hann kvadst ei sætta mundo bidia Rafn, en svara því er honum syndist, [ef bednar væro [2]). Baudst Gudmundr til medalferdar ok leiddi þat fyrir augo Þórgils hversu litla kosti hann hefdi til at halda stríd vid stórmenni, hygg ek at Gissur mani meiri vinr Rafns en þinn, en rádnar tengdir vid Sturlu. Þórgils tók þessu seinliga ok gazt ei at þesso tali. Þórgils reid þá í Bearnarhöfn ok var þar um nátt. Þórgils leitadi eptir ef þau Kolgrímr ok Þorrídr dóttir hans rèdist til Stadar til forvistar, þau tóko því seinliga, en þó rèdst þat af, at hon fór þegar sudr med þeim Þórgils, ok er hon kvam til Stadar, tók hon þegar vid búi, hon var hæfilát ok sínk, en þó sæmdarmadr. En er Þórgils kvam heim, sendi hann Þórd sudr í Borgarfiörd at helga Þverárleid, varo þeir siö saman ok gisto í Stafaholti, latti Oláfr þá at fara til leidar, kvad Þorleif ok hèradsmenn vera ílla til Þórgils, en Þórdr vildi giöra sem fyrir hann var lagt, ridu þeir um daginn til leidar, vóru þar hestavíg mörg ok allmikit fiölmenni, gèkk Þórdr í þíngbrekko ok mælti þar þeim málum öllum sem hann skyldudu lög til fyrir Reykhyltínga godord. Þorleifr ok Eigill ok adrír hèradsmenn segia Þórgils hafa hófliga mikit af hèradi, þótt hann lèti helga leid edr mælti slíkt er hann vildi. Þórdr kvad hann eingo at firr, þótt hann lèti þetta lögliga giöra, ridu þeir sídan heim til Stadar, ok lèt Þórgils vel yfir þeirra ferd.

21.*) Þat var einn dag er Þórgils reid til Lysuhvalslaugar at skèmta sèr ok fylgdarmenn hans med honum, þar beó Vestar

[1]) Sturlu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) ef Bödvar væri þar. sömu.

*) Þessi kap. vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Torfason, Jóreidr hèt kona hans, hon var væn. Þeir Þórgils stigo af baki vid sundlaug, Jóreidr var þar fyrir ok þó klædi, Þórgils tók í hönd henni ok glensadi vid hana, þetta sèr Vestar ok hlióp heiman ok til vapna þeirra, ok tekr eitt sverd ok bregdr ok leypr upp at lauginni, ok er fylgdarmenn siá þat, laupa þeir upp ok taka Vestar ok vilia hrekia hann ok tóko af honum sverdit, en er Þórgils sá þetta, leypr hann til ok bidr þá ei hrekia hann, þvíat hann er madr at vaskari, þótt hann vildi hefna svívirdo þeirrar er hann hugdi honum væri giör, þótt hèr væro ei þau efni í, en legg ekki hug á þat, Vestar, at ek vili þá nokkra luti eiga vid kono þína, at hon sè þá verri kona en ádr, en fyrir raun þína vaska vil ek gèfa þèr eggsi þessa, ok skildu þeir at því.

22. Litlu sídar reid Þórdr vestr á Stadarhól ok töludu þeir Sturla allmart um skipti þeirra frændanna, ok fannst Þórdi, at Sturla væri sáttgiarnligr, en taldi þat upp í annan stad, at hann þóttist vera miök fèvani til stórra gialda. Sturla spyr, hvert sættarefni hann gæfi þeim? Þórdi kvadst þykia tvennir. kostir til, [beóda Þórgilsi iafnadar dóm, ok mundi hann svara fègiöldum eptir því sem dómr fèlli á, sá annar, at unna Þórgilsi seálfdæmis [1]) ok beóda honum frændsemi [2]) góda ok skiliast aldrei vid hann, hvers sem hann þarf vid, vid hvern sem hann ætti. Lèzt Þórdr vænta, at Þórgils mundi vægia honum um fègiöld, ef hann tæki þetta upp med gódra manna fortölum. Mæltu þeir þá fund med [þeim Þórgils ok Sturlu [3]) um haustit, þá er þeim þætti tími til. Reid Þórdr heim til Stadar, tók Þórgils hans eyrindum vel, en kvad raun mundu eptir fara um efndir [4]), þótt fagurt væri talat. Rafn hafdi ridit um sumarit vestr í feördo, ok var þar til þess er hann var bodinn til veizlo [5]) á Flugomyri, var hann leyndr þessum rádagiördum. Þórgils taldi þat opt fyrir fylgdarmönnum sínum, hve illa hann yndi vid þá úvirdíng er hann þóttist fengit hafa í Borgarfirdi, kèndi hann sumum feörrád, en sumum svik ok illvilia, en

[1]) frá [ vantar í *C. St.*
[2]) frændsemis, *C. St.* Þ.
[3]) sèr Þórgils ok Sturla. *A. B. C. E. Gr. St* Þ.
[4]) efnad. *B. E. Gr.* efnid. *A. C. St.* Þ.
[5]) brullaups. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

ekki til umbóta nema gymbíngar ok ámæli vid sik, en þóttist vanafli til þess at reisa úfrid í móti sva miklo feölmenni sem hèradit bygdi [1]), en kvadst víst ei una at sva búit stædi. Litlu sídar fundust þeir Þórgils ok Einar Halldórsson í Vatnsholti, rèdu þeir þat þá at giöra hleypiflokk í Borgarfiörd í Reykiaholt, ok hafa siálfdæmi af Eigli, edr giöra honum nokkra skömm ok enn fleirum, er honum þætto makligir til vera. Lèt Þórgils nú kvedia menn til ferdar, ridu þeir frá Stad fimta daginn fyrir Michaelismesso at álidnum degi hálfr fiórdi tugr manna, þeir ridu sudr at Straumfirdi ok sváfo þar um náttina, [en þeir vöknudu ei vid feöru um náttina [2]), en um myrgininn vissu þeir ei hvert seór fèll út edr at, tóko þeir þá hesta sína ok ridu fyrir ofan Straumfeörd, þeir ridu föstudag allan sva at þeir kvamo hvargi til bæa fyrr en á Valbearnarvöllum, þar reid Þórgils at durum ok hitti Eylíf bónda er þar beó, hann spyr tídinda or hèradi, en Eylífr segir kyrrt ok tídindalaust, var hann ádr nykvaminn sunnan or Bæ, hann kvad Þorleif í Gördum heima, þá er hann vissi, ok Eigil í Reykiaholti, hann spyr, hvert Þórgils ætladi? Þórgils kvad hann þat eingo skipta. Bergr bad Eylíf rída leid fyrir þeim sudr til Nordrár, en hann kvadst hvergi rída mundo únaudigr, [þvíat hann lèzt ei vita hvert eyrindi þeirra var í hèrad. Þá mælti Sigmundr Brandsson, at þeir þyrfto ekki at spara at hann ridi naudigr [3]). Þórgils mælti: ekki hark skulum vèr honum giöra, en þat skal kaup med oss, þú skalt fara hvergi nema þú vilir, enda bera einga neósn fyrir oss ödrum mönnum. Eylífr kvad sva vera skyldo, vísadi hann þeim leid, tók þá at kènna annars litar, þoka var allmikil, reid Bergr fyrir sudr um myrarnar fyrir ofan Munadarnes, ok er þeir kvamo til Nordrár, ádo þeir, segir Þórgils þá mönnum sínum, at hann ætlar at rída í Reykiaholt ok taka Eigil höndum, ef sva vildi verda, en bannadi mönnum at bera vapn á hann. Þorsteinn Arnason [4]) hafdi rádizt til Reykiaholts til rædismanns [5]) um vorit, ok var Þórgilsi hann lítt þokkadr, þvíat honum þótti sem hann

[1]) hèldi. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) vantar í *A. C. St.*

[3]) frá [ vantar í *B. E. Gr.*

[4]) Arnórsson. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) rædis. *B. E. Gr.*

hefdi vísat til hans í Stafaholti þeim Rafni ok Sturlu. Ridu þeir þadan þegar þeir vóru búnir yfir Hvítá á Amótsvadi, Þórdr Hítnesíngr reid á Snældubeinsstadi, en þeir Þórgils skyldu bída hans [vid Amótsvad [1]) þar sem gatan liggr yfir um Reykiadalsá. Þeir Þórdr kvamo á Snældubeinsstadi ok fengo þar kyndla stóra, þadan fóro þeir til Reykiadalsár [2]), var þar fyrir Bergr Amundason ok þeir fimtán saman, visso þeir ei til Þórgils ok til þeirra Einars, hafdi Þórgils stígit af baki eyrinda sinna, [en þeir Bergr höfdu fyrir ridit [3]) ok fundizt ei sídan. Þá ridu þeir upp til Reykiaholts ok á götuna fyrir ofan Grímsstadi, átto þeir Bergr þá rád um hvert þeir skyldo rída heim, stigu af baki ok bídu Þórgils, ef hann bæri at, tóko þá hundar at geya í Reykiaholti. Rèdu þeir þat nú af at rída heim í Reykiaholt, skiptu þeir þá mönnum í helmínga, gèngu þeir nordan or [4]) kyrkiogardi Þórdr ok hans menn, en Bergr sunnan frá laugo at sudurdurum, en er þeir kvamo at durum hveriomtveggiom [5]), varo þær byrgdar rammliga. Þá tóku þeir þat rád, at þeir lyptu Bödvari [6]) Kampa upp á virkisvegginn, ok dró hann lokur frá hurdum. Gèngu þá inn hverirtveggio ok mættust fyrir skáladurum. Þá sótto þeir eld í eldahús, ok er eldr kvam seint, gèngu þeir Bergr ok Þórdr í skálann, lióp þá madr í fáng Þórdi ok tók hann þann ok spyr hver sá væri? Eigill er hèr, mágr, segir hann, ok vildak grid hafa, í þessu kvamo liós inn, [gèngu þá menn í skálann [7]), tóku þá menn upp at setiast, ok mælti Bergr at þeir skyldu liggia kyrrir, ef þeir vildu ekki láta vinna á sèr, lögdust menn þá nidr ok töludust vid, gèngo þeir þá um allan skálann ok ransökudu hvert rúm ok fundo ei Eigil, þá tók Bergr at ransaka litlo stofo ok lopt, ok vard þess var, at Þorsteinn Arnason [8]) lá í loptino. Þá spurdu þeir Þórd prest Bersason, [hvert Eigill væri heima? [9]) en hann spyr, hví þeir færo

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) yfir — Á. sömu.
3) frá [ vantar í sömu.
4) med. *C. St.*
5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) Lodinn. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) vantar í sömu.
8) Arnórsson. sömu.
9) hvar Bergr væri ok Eigill. *A. E.* Þ. hvar Egill væri *B. Gr.* hvar Þorsteinn ok Egill væri. *C. St.*

þángat med sva [mikinn storm?[1]) þeir kvádo þär eingan storm giörvan, prestr segir Eigil ridinn út á Akranes. I þessu kvamo þeir þórgils ok Einar ok höfdu þeir farit villir miök ok vordit því seinir. þórdr prestr heilsadi þórgilsi ok beiddi heimamönnum grida, ok varnadi Eigils ok kvad hann ei heima vera. þórgils kvedst eingum gridum heita. þá segir Bergr honum, at þorsteinn Arnason lægi upp í lopti. Frètti þórgils þá at Eigli, ok er hann var fullnumi í því, at Eigill var ei heima, þá gèkk hann upp í loptit ok bar á þorstein feörrád, at hann hefdi vísat til hans í Stafaholti, en hann gèkk ei vid ok kvadst siúkr vera. þórgils bad taka hönd hans ok höggva af, ok kvaddi til Sigurd Knappsödul. þórdr bad hann ei höggva, þótti vera nídíngsverk at vinna á siúkum manni, urdu þeir mágar miök sundrorda. Kvaddi Bergr þá til þorkèl Hvíta, en þórdr gèkk á brott ok út, hió þorkèll höndina miök sva af þorsteini. Ridu þeir þórgils á brott eptir þat ok nordr til Sídumúla, Bergr vard þeim fráskila ok fór villr ok nokkrir menn med honum, kvam þó nokkro sídar í Sídumúla. En er þeir þórgils ridu nedan at gardi í Sídumúla, þá reid þórdr at þórgilsi ok mælti: ef þú ætlar at giöra hervirki í Sídumúla, þá vil ek frá rída, en ef þú ætlar hèr til sættar eda samníngs, þá vil ek allan lut í eiga. þórgils mælti: hèr ætlak ei til annars en til sætta, ok skalto hèr miklu umráda, ef þeir vilia þín ord nokkurs meta.

23. Nú ridu þeir heim, ok reid þórdr fyrir heim ok med honum Bödvar Kampi, stigu þeir af baki ok drápu þegar á dur, ok gèkk madr til hurdar, ok þegar upp var lokit hurdinni ok hann sá mennina, sneri hann þegar inn aptr, gèkk þórdr inn ok spurdi þorkèll prestr hverir menn væro kvamnir? en þórdr segir til sín. [Hvad er kvamit fleira, segir prestr? þórdr mælti[2]): þórgils Bödvarsson vid nokkra menn, vildak at þú giördir hans ferd híngat sæmiliga ok unna honum gódra sætta fyrir þat er hann telr á ydr. þorkèll prestr svarar skiótt: alls eingrar sættar man ek hèr af unna, þvíat ek er ei sakadr. þá skal þat vera þitt rád, segir

[1]) mikit stórmenni ok storm, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) frá [: ok kvad kominn.. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Þórdr, ef vel er rádit, ok þó á annan veg sè, en afsel ek þá vanda mèr af höndum hversu sem gèfst. Sneri hann þá út, en þeir Þórgils inn ok Einar tveir einir, ok namo stadar á gólfino, þá var spurt hverir kvamnir væro? Einar segir: Þórgils Bödvarsson ok nokkrir menn med honum. Þá var hann enn spurdr, hvat hann vildi? Þórgils svarar: fer ek at leita vina minna, því ek þykiumst þá lítt hèrtil fundit hafa sudr híngat. Þórgils mælti: er prestr heima edr synir hans? þá var sagt, at hann væri heima, en eingi greidi var ágiör um sonu hans. Þar stódu þeir Þórgils ok Einar um stund á gólfino, ok var þá hliótt, þá mælti Þórgils: nú má vera, Einar, at vid þurfum ei at spyria hvert heima eru synir prests. Einar mælti, [hversu þá? Þórgils mælti: höggvit er [1]) til okkar ofan úr sætino. [Einar segir [2]): man ei [þá rád at hrökkva vid [3]) sem fyrst? brugdu þeir þá sverdum ok hiuggo í móti, gnusto þá saman vapnin, ok gèkk þat um ríd, þá mælti Þórgils, laust er mèr ordit sverd mitt. Einar mælti: þetta er úfimligt [4]), at vid beriumst hèr í myrkri, göngum út í brott ok sèo kveikt liós ok viti menn þá hvat um sik er. Kvam Þórdr þá í móti þeim í durunum, hann sá blód á þeim er þeir gèngu út ok spyr, ef þeir væro sárir? Einar kvad þat ei vera. Gèngu þeir Þórdr ok Magnús Gargan [5]) þá inn ok enn fleiri menn med brugdnum vapnum eptír endilaungum skála ok urdu vid ekki varir. Spurdi Þórdr þá, hvar þeir væro er beriast vildo? en eingo var svarat, ok er hann kvam at skáladurum, vard hann var, at madr gèkk at honum, ok spurdi hann hver þar væri? en hann nefndist Snorri, var hann slippr ok berfættr ok lèt Þórdr hann gánga út durin, lióp hann þegar út ok kastadi þeim manni er nærst honum stód, lióp hann út med vegginum, þeim vard bilt, Þórgils bad menn rída eptir honum, en [þat vard ekki, ok setti hann þegar á brott [6]). Nú var gèngit med logum um öll hús ok leitat manna, fundu þeir Valgard í skálanum undir tialdi, tóku þeir hann ok leiddu út, var

[1]) frá [ hraustliga er nú höggvit. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) best at verda vid. sömu.

[4]) ófímligt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) frá [: hann rann þeim hvarf. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

honum þá heitit drápi, fannst sverd Þórgils, ok gèkk eingi vid at upp hefdi tekit. Þá gèkk út Ingibeörg [1]) kona Valgards ok baud fyrir hann allt þat er hon hafdi til. Þórgils kvadst af eingum manni bod taka nema födur hans. Gèngu menn þá at Þórkatli presti ok bádu hann beóda þeim sæmdir fyrir feörrád ok fyrir ákvamur þær er heimamenn hans hefdu veitt þeim Þórgils ok Einari medan þeir varo inni, því hvertveggi þeirra var skeindr á hendi er þeir kvamo út. Þorkèll kvadst einga beóda, man þeim annat meir verda til feár en þetta. Þá skal hann drepa, segir Þórgils. Þá beiddist Valgardr at skriptast vid födur sinn, ok var þat þegar uppi látit, þóttust menn þat heyra, at hann bad födur sinn leysa sik ok fèkk ei. Fèkk Þórgils þá til Eyúlf smid at vega at honum, [eptir þat var Valgardr drepinn [2]). Sídan ridu þeir þadan á brott ok útá Kolbeinsstadi um kveldit, ok leysti Narfi prestr þá til samneytis, ok varo þeir þar um náttina. Þórgils reid um daginn eptir heim til Stadar, ok lagdist misiafn ordrómr á um ferd hans.

24. Nú kvam vestan af Stadarhóli Blödru-Svartr [3]) ok segir Þórgilsi at Sturla vildi at þeir findist ádr Sturla ridi til bods nordr á Flugumyri. Þórgils vildi at Sturla ridi til móts vid hann yfir Raudamelsheidi, ok skyldu þar hverirtveggio kvama vid fiórda mann leyniliga at ákvednum degi. Reid Þórgils þann dag heiman, ok fundust þeir í Eldshólmum [4]) fyrir sunnan Hafsfiardará, töludu þeir þá mart um Stafholtsferd ok áburdi þá er þeir höfdu haft vid Þórgils í Stafaholti, bar hann þat af sèr at hann væri nè-eitt sakadr vid Sturlu, hèllt Sturla þá ekki á því, baud Þórgils mál þeirra undir dóm Páls prests, en Sturla vildi þat ei, vil ek at þú skipir seálfr. Var nú sva sætt þeirra, at Sturla seldi Þórgilsi seálfdæmi, sættist hann fyrir sik ok fyrir þá menn er med honum höfdu verit í Stafaholti, ok kallar hann þat fiörutygi manna. En er þeir vóru sáttir, lauk Þórgils þegar upp giördinni, hann giördi af Sturlu fimm hundrud fyrir hvern mann, en tíu hundrud fyrir Sturlu. Þeir töludu mart um Sídumúlareid, ok lèt Sturla yfir henni

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) frá [ vantar í sömu.
[3]) sá madr er Svartr hèt. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) Eldshólnum. sömu.

illa. Sturla bad Þórgils vera varan um sik, en ádr þeir skildust, mynntust þeir vid, þá tók Þórgils í hönd Sturlu ok mælti: nú hefir þú, frændi, sellt mèr scálfdæmi ok giört mèr þat til sæmdar, hefik sagt á þik fè mikit ok þó hvergi meira en mèr þykkir verdt, veit ek ok giörla fèskort þinn, nú vil ek ei at okkr verdi þat til deilo um skuld þessa, vil ek nú, frændi, gèfa þèr upp alla giördina, sva at ek skal þat aldrei heimta ok eingir mínir erfíngiar, hvert sem med okkr fer betr eda verr. Sturla þakkadi honum vel sva mikla frændsemi, sem hann hefdi honum synt. Bundu þeir þá þetta med fastmælum at hver skyldi veita ödrum slíkan stirk sem tilfær væri, skildu þeir þá med mestum kærleikum, reid Sturla þá vestr í Lángadal, ok giördi þat bragd [1]) á at hann hefdi fundit Pál prest, en Þórgils reid heim til Stadar.

25. Um sumarit kvam nordan á Stadarhól Rani Kodransson ok var þar nær viko. Undrudust margir menn um hans ferd, ok medan hann var þar lèt Einar Asgrímsson fóthöggva Magnús Sodkrók, var hann fátækr madr, kèndi Einar honum þat at hann niósnadi um vistir [2]) hans af hendi Vígfúsar. Þá var med Einari Eyúlfr Rögnvaldsson [3]). Fór Einar þá vid átiánda mann á Reykianes á Breidabólstad [4]) at Vígfúsi, var þar Rögnvaldr [5]) fadir Eyúlfs ok Skèggi Ingimundarson ok Hallkèlssynir Halldór ok Eylífr, þeir varo nykvamnir af siá ok höfdu lagzt nidr [í badstofu [6]) um kveldit ádr þeir Einar kvamo, en er dynrinn kvam [undir húsin [7]), hlupo þeir upp ok í skálann, ok kölludu at úfridr er atkvaminn, þeir hlupu til stofo, þvíat þar vóru vapn þeirra flestra, urdu þeim þau at eingo gagni, ok er þeir Einar laupa inn í andyrit, hlióp Skèggi í skáladurin ok vardist alldrengiliga, ok fèll hann þar. Þá leypr í durin Hallr Gunnsteinsson ok Þórdr Ivarsson ok Eyúlfr Rafnhaus, var þá hörd atsókn, en þeir vördust vel. Jafnframm höfdu þeir Einar borit eld at ödrum durum, sótti þá at þeim eldr ok reykr.

1) ord. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) ferdir. *C. St.*
3) Magnússon. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) til Stadar. sömu.
5) Eyúlfsson, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) vantar í *St.*
7) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

þá kalladi Eyúlfr á födur sinn ok bad hann þrisvar útgánga, en hann svaradi hino sama, kvadst aldrei hirda útgánga, ef Vígfúsi væro ei grid gèfin, þá mælti Eyúlfr: brendu þar þá, diöfuls karlinn. Vígfús hafdi seint vaknat, ok lióp hann upp í skyrto ok línbrókum, þreif hann spiót ok lagdi til Páls Teitssonar [þremsinnum, þá stökk Páll í brott. Rögnvaldr fèkk einn stein mikinn ok fór upp á fótabrík er var vid þilit, er eingi var biórinn milli húsanna, Hann mælti, er hann kastadi: fardu þar, steinn, ok kvami þar nidr er gud vill. Steinninn kvam framan á stálhúfobard Einari ok gèkk frá ok nidr á vörina efri, sva útgèngo tennurnar tvær, heykctist hann vid ok nær í úvit, vard þadan af eingi atsóknin. Gunnsteinn hafdi leitat um grid, fèll þá ofan skálinn allr utar, Einar iátar þá gridum, ok þat fór fram. Þeir Einar Gudmundarson urdu sárir meök, allir urdo þeir sárir ok allir græddir ok sva Skèggi. Þá kvamo þeir út or stofunni Hallkèlssynir[1]) ok eggiudu atgaungo, en Vígfús vildi þat ei, þvíat grid vóro sett, ridu þeir þá í brott. Skip hafdi stadit uppi í Dyrafirdi um vetrinn, fór þar utan Sigurdr Selr ok Kolfinna Þorvaldsdóttir[2]) [utan frænda rád. Aron Heörleifsson hafdi kvamit út[3]) med Gissuri ok Erlíngr Snagi, hafdi Hákon kóngr sætt þá um víg Sigmundar födur Erlings. Fór Aron þá vestr í fiördu ok beiddi sèr feár til vígsbótanna, ok fèkk hann nokkut. Þat sumar kvam út Þorleifr Gudmundsson. Um haustit beóst Sturla til brúdlaupsferdar[4]) med Ingibeörgo dóttur sína, henni var þá hinn fiórtándi vetur, hon var væn kona ok kurteys ok kvenna högust. Rafn Oddsson var í ferd med Sturlu ok Snorri prestr undan Felli, þar var ok Þorleifr Gudmundarson ok hit besta mannval vestan or sveitum. Rafn var bodsmadr Gissurar.

[1]) Hallsteinssynir. *B. E. Gr.*

[2]) Þórhallsdóttir. *C. St.*

[3]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

[4]) brúdlaupsgiördar. *A. C. St. þ.*

# Níundi þáttr.

Af Eyúlfi Þorsteinssyni, hans lidsafnadi, brullaupi ok brennu á Flugumyri. Gissur kèmst af undarliga, fær sèr lid, drepr brennumenn hvar hann kann, setr Odd Þórarinsson yfir hèrád, en siglir siálfr. Eyúlfr safnar lidi, fer at Oddi, Oddr fellr, en verst þó drengiliga, nokkut seinna hefnir Þorvardr Odds bródur síns med hiálp ok stirk Þórgils ok Sturlu, sva Eyúlfr fellr. Rafn ok Asgrímr flya, biskup bannsyngr Þórgils ok Þorvard. Þórgils verdr höfdíngi yfir Skagafirdi móti biskups vilia, Rafn, Sturla ok Þórgils sættast, item biskup ok Þórgils. Biskup siglir, andast í Noregi. Af óvinskap ok vidskiptum Rafns ok Sturlu at nyu ok þeirra sátt, einnin af drápi Þórgils.

1. Eyúlfr Þorsteinsson fór búnadi sínum um varit nordr á Mödruvöllo í Hörgárdal, fèkk Henrekr biskup honum stadinn til ábúdar, kvam Eyúlfr sèr í kærleika vid Henrek biskup af flutníngi seálfs síns ok framkvæmd. Eyúlfr var bædi [1]) mikill ok sterkr, [hann hèt Eyúlfr Ofsi [2]), vel audliti farinn ok hinn drengiligasti madr at seá, med honum fóru nordr margir þeir menn er verit höfdu med Þórdi Sighvatssyni. Ofeigr Eyreksson beó þá á Ulfsstödum, hann átti Vígdísi Gilsdóttur, Gissur vildi ei bygd þeirra í Skagafirdi, fóru þau nordr med Eyúlfi á Mödruvöllo. Risu þá þegar miklir úfar [3]) med þeim Gissuri. Þetta sumar andadist Þórarinn ábóti Sveinsson at Þíngeyrum fiórum náttum fyrir Barthólómæusmesso, var þá fyrir forrádum [4]) stadarins Vermundr prestr Halldórsson. Sá atburdr vard útí Fleótum þetta sumar, at þat æpti í feallino Túngofeálli mikit stóróp, ok varo hrinur illar á eptir, þat heyrdu menn nokkurum sinnum, Vígfús bóndi Illhugason heyrdi þetta óp ok fleiri menn adrir. A Flugomyri um sumarit

[1]) bóndi. *B. E. Gr.*
[2]) vantar í sömu.
[3]) miklar úfarar. *B. E. Gr.*
[4]) fiárforrádum, sömu.

tóko nær allir menn siúkleika, nema Gissur ok Hallr ok Gróa húsfreya, sva at menn fóru af ödrum bæum þángat til verknadar. Um haustit er áleid var stefndr sættarfundr med þeim Gissuri, Rafni ok Sturlu vestr í Vesturhópi, varo þá grid sett til fundarins ok fór Þorsteinn Hiálmsson á milli er þá beó á Breidabólstad, þeir fundust þar á Breidabólstad, kvam þar Gissur med þriátygi manna, þeir kvamo ok vestan med þriátygi manna Rafn ok Sturla, gèkk þar sætt saman greidliga med þeim Gissuri ok Rafni, sva at giöra skyldi Brandr ábóti. Þá hóf ok Hallr Gissursson bónord sitt ok bad Ingibeargar Sturludóttur, ok var [1]) hon hans heitkona ádr þeir skildo. En sú var ályktan [2]) þeirra Gissurs ok Sturlu, at þeir skyldo seálfir semia sættir sínar, en Rafn vera oddamadr, ef þá skildi á. Brúdlaup þeirra Halls ok Ingibeargar skyldi vera at veturnáttom á Flugomyri, var Rafn bodsmadr beggia þeirra Gissurs ok Sturlu [3]). Skildust þeir Gissur ok Rafn med kærleikum miklum, Hallr reid med þeim í Sælíngsdálstúngo, þar var Ingibeörg med Jóreidi Hallsdóttur módurmódur sinni, Jóreidr fèkk Ingibeörgo til heimanfylgio landit í Sælíngsdal fyrir þriátygi hundrud ok þar med tíu hundrud, en Sturla fadir hennar fèkk henni sextygi hundrud. Þau Hallr ok Ingibeörg rido þá bædi ásamt vestr á Stadarhól, var þar þá drukkit fast, Hallr var þar nær viko ok reid sídan heim nordr á Flugomyri*). [Eyúlfr Þorsteinsson beó á Mödruvöllum, sem fyrr var sagt, hann giördi þetta sumar veizlu móti Henreki biskupi [4]) ok baud honum til sín, var þar mikit feölmenni [ok fögur veizla [5]) ok drukkit fast. At þessari veizlo var Asgrímr Bergdórsson af Kaldadarnesi frændi Eyúlfs Þorsteinssonar, þar var ok Broddi Þorleifsson frá Hofi, [þeir vóru sessunautar ok sátu þeir utar á bekk bádir saman, en biskup sat á

[1]) vard. *B. E. Gr.*

[2]) sætt. sömu.

[3]) skyldi hann koma vestan med Sturlu, Hallr reid vestr vid fimta mann med þeim Rafni ok Sturlu, bæta vid *B. E. Gr.*

*) frá uppháfi þessa kapít. ok híngad til vantar í *A. C. St.* Þ. en í *B. E. Gr.* stendr þat þar sem ádr er til vísad, bls. 121.

[4]) Um sumarit ádr en brullaupit var um haustit á Flugomyri giördi Eyúlfr Þorsteinsson Henreki biskupi mikla veizlu á Mödruvöllum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í *B. E. Gr.*

palli ok Eyúlfr á adra hönd honum [1]. Broddi mælti til Asgríms, at Eyúlfr frændi þeirra væri skörugligr madr at siá. Asgrímr mælti: þat er annathvert, þar sem er Eyúlfr frændi okkar, at hann byr yfir miklo í síno skapi, edr hendir hann nokkra hluti þá [2]) er betra væri skard í ætt varri, en þat kvæmi fram sem nú sitr hann um. Broddi vard nær úkvædi vid. Eyúlfr leysti Henrek biskup brott med sæmiligum giöfum, ok var med þeim allkært ok skildo med blídu. Medr Gissuri ok biskupi var þá ei iafnblídt sem verit hafdi. Þá beó Rani Kodransson á Grund, ok var hann fyrir feárstarfi [3]) Þórdar Sighvatssonar, þeir vóru at eino rádi ok Eyúlfr Þorsteinsson, ok vóru [vinir Þórdar margir [4]) nordr þar. Alitliga var med þeim Gissuri um sumarit ok Eyúlfi, ok reid hann til Skagafiardar at finna Gissur ok skildu þá vel. Eyúlfr átti Þorrídi dóttur Sturlu Sighvatssonar ok Vígdísar Gilsdóttur. Þat er sagt eitthvert sinn um sumarit helgan dag, at menn sátu þar úti á Mödruvöllum í gódu vedri, Eyúlfr bóndi ok húsfreya hans [ok þau Ofeigr ok Vígdís Gilsdóttir [5]), ok þar varo heimamenn hans, þá mælti Eyúlfr at gamni sèr til Vígdísar: hvat mundi Gissuri til gánga er hann vildi ei bygd þína í hèradi í Skagafirdi? Vígdís svarar fáo um. Þá svarar Þorrídr dóttir hennar: þvíat Gissuri, segir hon, þótti hver herkèrlíng glíkligri til at hefna födur míns en þú, sá hann þat, at þèr var litr einn gèfinn. Eyúlfr svarar eingo ok vard raudr sem dreyri. Þá varo þar med Eyúlfi Kolbeinn Gröu ok Ari Ingimundarson, ætladi hann þá utan um sumarit, sem hann giördi, med Eysteini Hvíta [at Gásum [6]), ok vóru þeir þá hardir í tillögum vid Gissur. Nú lídr á sumarit, ok láta þeir út skip sitt Eysteinn ok hans fèlagar ok verda sídbúnir, sigla út or Eyafirdi ok sva nordr fyrir landit. Þeir fá brátt mótvidri ok storm mikinn ok verda aptrreka, ok breóta skipit vid Flateyardal, hinn nærsta dag um haustit fyrir Matthæusmesso [7]), tyndist þar Eysteinn Hvíti ok á siötta tugi manna, en af kvamust átta edr níu, þar kvamst

1) frá [ vantar í A. B. C. E. Gr. St. þ.

2) er betr væri óunnir ef framkvæmu, bæta sömu vid.

3) fiárfari, B. E. Gr. starfi, A. C. St. þ.

4) vinmargir. A. B. C. E. Gr. St. þ.

5) frá [ vantar í A. C. St. þ.

6) vantar í sömu.

7) Marteinsmessu, sömu.

af Ari Ingimundarson ok Aron Heörleifsson ok Þorgeir Káti, mart rak líka upp. Lík Benedikts Hesthöfdasonar [1]) rak upp fyrst, hann hafdi vegit Asgrím prest Illhugason at Bardslaugu um vorit þrim náttom eptir Hallvardsvöko [2]), vetri fyrr en þetta var, hafdi hann nú ætlat ferd sína til umbótar ok sudurgaungo. Ari Ingimundarson ok þeir Þorgeir Káti fóru þá til Eyúlfs á Mödruvöllo.

2. Nú lídr at brúdlaupsstefno, rída þeir Rafn ok Sturla nordr vid siötygi manna, [þeir höfdu gott mannval, med þeim var Fells-Snorri prestr, Vígfús Gunnsteinsson, Þorleifr Fagurdæll ok mart annara gódra manna. Ei er frá ferd at segia fyrr en [3]) þeir kvamo föstukveld hit sídasta í sumri í Skagafiörd. Tók Rafn gistíng á Vídimyri ok þeir tíu saman, [Arnór Eyreksson var þá heima [4]). Sturla gisti á Reykiarhóli, var þar Helga kona hans ok Ingibeörg dóttir þeirra, varo þau fimtán saman, þá var skipt á adra bæi. Laugarmorgininn kvam á Vídimyri Asgrímr Þorsteinsson ok þeir sex [5]) saman, hann gèkk til tals vid Rafn ok segir honum ætlan sína ok þeirra Eyúlfs bródur síns ok Rana, at þeir ætli at stefna at Gissuri ok sonum hans ok drepa þá brátt eptir brúdlaupit, edr brenna hann inni, ef þeir fengi þá ei med vapnum sótta, ok beiddo þeir Rafn at hann mundi þá sækia med vapnum inni í húsum, en þeir med eldi at utan. Rafn kvadst þat ei giöra mundu ok latti þessa úráds, en kvadst ei nenna mundi at segia þá upp, vid þat skildu þeir ok reid Asgrímr nordr. Gissur hafdi bodit mörgum bóndum um Skagafiörd ok sva or Eyafirdi. Gissur baud Páli frá Stad ok Brodda frá Hofi ok fór hvergi. Þorvardr or Saurbæ fór nordan ok Gudmundr frá Rafnagili ok þeir fedgar or Miklagardi Þorvardr ok Örnúlfr son hans ok enn fleiri bóndr nordan. Sunnan kvam Isleifr Gissursson ok Kètilbeörn, ok kvam hann fyrst, Sámr Magnússon ok Amundi ok þeir tíu, fiöldi bodsmanna Gissurar var mikit á ödru hundradi, hinir besto bóndr or öllum sveitum þar í nánd. Nú kvamo menn til brúdlaupsins um kveldit á

[1]) Hesthöfda. *A. C. St.* Þ.

[2]) Hallvardsmessu. *B. E. Gr.*

[3]) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

[4]) vantar í sömu.

[5]) þrír. *B. E. Gr.*

Flugomyri. Þar var sú mannaskipan, at Gissur sat á [hinn eystra [1]) lángbekk midian ok Rafn innar frá honum hit nærsta, þá förunautar hans ok fèlagar innar frá honum, utarfrá Gissuri hit nærsta sat Hallr son hans brúdguminn, þá Isleifr, þá [Þórir Tottr [2]) Arnþórsson, þá Sámr [3]), þá Þorvardr [4]) or Saurbæ ok þeir Eyfirdíngar. A vestra bek midiau sat Sturla, innarfrá honum Snorri prestr, utarfrá honum Vígfús Gunnsteinsson. Forsæti vóru fyrir endilaungum bekk hverium tveggia, kyrkiostólar vóru settir eptir midio gólfino ok þar var setit at tveimmegiun. Kètilbeörn son Gissurar sat á akstóli [5]) innar miök vid pall ok þeir hiá honum synir Brands Kolbeinssonar Kálfr ok Þorgeir, ok horfdu at þeim bekk er Gissur sat á, ok er mönnum var í sæti skipat, vóru log uppdregin í stofunni, ok því nærst stód Gissur upp ok taladi, ok sagdi sva: Gud sè med oss nú ok iafnan. Hèr er nú gott mannval samankvamit, þess er kostr er á landi þessu. Kunnigt er flestum mönnum þeim er hèr ero um málaferli þau er ordit hafa midlum manna hèr á landi, þat er nærst ber oss. Nú er þeim málum, er betr er, til gódra lykta kvamit med þeim öllum hinum bestu mönnum er hèr ero nú samankvamnir. Sturla bóndi ok Rafn Oddsson! vil ek vænta med guds miskun at varar sættir fari vel af hendi, ætlak at þessari samkundo skulum vèr binda med fullo varn gódan fèlagskap med mágsemd þeirri er til er hugat, en til varygdar vil ek grid setia allra manna á milli þeirra er hèr ero samankvamnir, at hver sè í gódum hugum til annars í ordi ok verki. Sídan mælti Gissur fyrir gridum ok taladi þá enn vel ok skörugliga ok lauk vel síno máli. Eptir þat vóru bord upptekin um alla stofuna ok liós tendrud. Stofan var sex álna ok tuttugu laung, en tólf álna breid, sexfállt var setit í stofunni, ok er menn höfdo matazt um rád, kvamo innar skeinkiarar [6]) í stofuna, átta menn fyrir hvern bekk, Þorleifr Reimr var fyrir þeim, fiórir menn

[1]) vantar í *A. C. St.* þ.

[2]) Þórarinn, Teitr. sömu.

[3]) Sæmundr. *B. Gr.* vantar í *A. C. St.* þ.

[4]) Þórarinn. *St.*

[5]) stóli. *A. C. St.* þ. þeim stóli. *B. E. Gr.*

[6]) kvam — skeinkr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

skeinkto konum [ok gèngo allir med hornum [1]). Var þar drukkit fast þegar um kveldit bædi miödr ok munngát, var þar hin besta veizla er verit hafdi í þann tíma hèr á landi, hefir þat lengi kynfylgia verit Haukdælum ok Oddaverium at þeir hafa hinar besto veizlur haldit. Um daginn eptir var ágæt veizla, sat þá Isleifr Gissurson innar frá Rafni ok drukko þeir af eino silfurkèri, ok mynntust vid iafnan um daginn, þá er hver drakk til annars, ok er veizlu þraut, ridu menn í brott, ok gaf Gissur mörgum mönnum gódar geafir, Rafni gaf hann stódross gód er Miklgèrdíngar höfdu átt ok gèfit honum Þorvardr ok Örnúlfr. Mánadaginn kvam þar Ari Ingimundarson, gèkk Halldór í móti honum med silfurkèri ok fagnadi honum allvel. Þá segir Ari Rafni fyrirætlan þá er sídar kvam fram. Flestir menn rido tyrsdaginn í brotto, mánadaginn reid Rafn í brott síd, ok töludu þeir Gissur ádr ok Rafn ok Hallr, ok sat Gissur í litlu stofu, sagdist Gissur vilia at Eyúlfr kvæmi til hans, ok mælti til Ara: kvam inn, Ari minn, at finna mik, segir Gissur, ok giörum sættir varar gódar ok trygdir. Ari mælti: efa aldrei þat, Gissur, segir hann, at vèr kvamum at finna þik, ok eigi skulum vèr Kolbeinn Grön frændi minn vera med Eyúlfi, ef ei kvamum vèr at finna þik. Gissur grunadi ekki slík ord, [en kalla mátti at Ari segdi honum í hverio ordi [2]). Rafn rídr nú í brott ok mælti varúdar málum vid Gissur, bad hann vera varan um sik. Já, Rafn minn, segir hann, edr veizto mèr nokkurs ótta van? Eigi veit, segir Rafn, hvadan ódr edr ölr [3]) kèmr at. Rídr Rafn út til Hóla um kveldit. Rafn segir Sámi ádr hann reid í brott, at þeim mundi brátt ei liúgast úfridr. Sturla reid í brott fyrr um daginn, ok skildu þeir Gissur med blído mikilli. Tveir menn vóru eptir med Ingibeörgo dóttur Sturlu, [Þorbiörn Nef Þórdarson módurbródir hennar, annar Svartr Þórisson [4]). Þorleifr Reimr reid í brott þridiadaginn ok þeir nokkrir saman upp í Túngo ok ætludo sudr um heidi, en Isleifr vard ei búinn þridia kveldit ok þeir Sunnanmenn, vóru sumir hestar hans ei kvamnir, en sumir úiárnadir.

[1]) vantar í *A. C. St.* þ.

[2]) frá [ vantar í sömu.

[3]) ælr. *A. B. C. E. St.* þ. ædr. *Gr.*

[4]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

3. Nú er at segia frá Eyúlfi Þorsteinssyni, at hann samnar mönnum at sèr, hann sendi ord Rana Kodranssyni, ok var hann út í Flatey, hann fór or Flatey adra nátt vikunnar ok kvam á Mödruvöllu í dagan ok þeir sié saman. Þessir menn vóru med Rana: Einar Grímsson, Þórdr [1]) Beörnúlfsson [2]), [Koll-Þórdr, Einar Bördúngr, Þórir Búkksúngi, Þorgeir Selnasi bródir hans [3]). Þessir vóru menn med Eyúlfi: Asgrímr bródir hans, Kolbeinn Gröu, Ari Ingimundarson, *) Eyrekr Brandsson, siötti Ingialdr Skortr [4]) Eymundarson [5]), Kvistúngar tveir Steinþór ok Jón, þeir brædur Hermundr [6]) ok Kolgrímr [7]), Þorgeir Káti, Ofeigr Eyreksson, Andreas Brandsson, Jón af Bakka ok Liótr son hans, ok ero nú fimtán nefndir, Hafsteinn ok Þórarinn Liótsúngi, Þórgilsar þrír, ok ero nú tuttugu, Þorsteinn Gènia ok Fótar-Örn, Steingrímr Naddsson, Einar or Gardsvík [8]), Skraf-Oddr, ok ero nú tuttugu ok fimm, Vígfús Fundi, Asmundr af Bríngo, Þorleifr Fagurdæll, Einar Þorgrímsson [9]) af Yxnahóli, Þorvaldr Sveinsson, Brekko-Kári [10]), Helgi Færeigill, Brynio-Hallr ok Konall bródir hans Ragnhildarsynir [11]). Tveir menn hins fimta tugar vóru med Eyúlfi, ok varo þriátygi manna í hríngabryniom ok tvær treyur med, þeir rido þridia daginn þartil er þeir kvamo upp til Yxnadalsheidar, þar kvam í móti þeim Þorvardr or Saurbæ ok Gudmundr frá Rafnagili ok Drumb-Beörn [12]), Þorleifr Fagurdæll ok enn fleiri menn. Kolbeinn Grön bad Beörn bródur sinn fara med þeim, en hann vildi þat víst ei, leitat var þess vid Þorvard or Saurbæ, ok var þar þvert nei fyrir, en Þorleifr snèri aptr med þeim. Helgi Leistr [13]) hèt madr, hann beó í Fagranesi uppi vid heidi, hann var son Þorvalds Gudmundarsonar hins dyra, hann var þrimenníngr Gissurar at frændsemi, hann

1) Þormódr, *B. E. Gr.*
2) Bödvarsson, *A. C. St.* Þ. Braudnefr. *B. E. Gr.*
3) Selnasabródir. *B. E. Gr.* frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.
4) Skart. *B. E. Gr.*
5) Eyúlfsson. sömu.
6) Hámundr. sömu.
7) ok eru nú tíu, bæta vid *B. E. Gr.*
8) Gaddsvík. sömu.
9) Grímsson. sömu.
10) Brennu-Kári. sömu.
11) frá *) vantar í *A. C. St.* Þ.
12) vantar í sömu.
13) vantar í sömu.

lióp um daginn til Hörgárdals ok hit efra um feöllin ok vildi bera neósn Gissuri ok sonum hans, ok er þeir Eyúlfr kvamo af Yxnadalsheidi, þá var Helgi kvaminn gègnt þeim ok heyrdi reidina, tóku þeir þá at rída mikinn, treysti Helgi þá ei at hann gæti fylgt þeim, var þá miök sett degi, snèri hann þá brátt aptr. Þeir Eyúlfr kvamo á Hökostadi [1]), setto þeir þar eptir Þorbeörn Arnarúnga [2]) ok mann med honum, skyldi hann gæta at þadan væri ei neósn giör. Þar var fyrir Þorvaldr Kampi ok heitadist Eyúlfr vid hann, en ekki var at honum giört, ok er þeir kvamo til Skèliúngsstada [3]), segir Eyúlfr öllo lidino, at hann ætladi at stefna á Flugomyri öllum flokkinum ok sækia Gissur ok sonu hans med vapnum edr eldi, ef hann fengi ei ödruvís sótt. Margir vóru þeir menn, er hverttveggia þótti íllt at fara ok at hverfa aptr, snèri ok eingi aptr sá er þar var kvaminn. Tóko þeir nú á reid mikilli ok var allgott at ríla ofan eptir hèradino, hafa menn þat ok á ordi haft sídan, hve skiótt þá bar at, ridu þeir [er grun höfdu af reidinni þar til er þeir kvamo út um Diúpadalsá [4]) hit efra med feallino fyrir ofan Bygghól ok ofan frá feallino í gard á Flugomyri., þeir stigo allir af baki vid rètt þá er var fyrir sunnan húsin ok bundo þar hesta sína ok gèngo þá í einum dun heldr hliódliga heim at húsum. Tveir menn vóru á verdi út í túni Markús Mardarson ok Beinir Steinsson, Markús liópþegar af bænum er hann vard var vid úfridinn ok nam ei fyrr stadar en hann kvam út til Þverár, ok liop þar í kyrkio ok urdu menn sva vísir úfridarins vída um náttina, liop Markús þá ofan í Hegranes ok yfir til Stadar, sá menn eldinn þadan ok vída um hèradit, lupu menn hvervetna saman þegar vísir urdu, [en eingir sva at þeim yrdi at gagni er fyrir vurdo vandrædino [5]). Beinir liop inn í skálann ofelltiliga ok bad menn uppstanda ok kvad úfrid atkvaminn, liop hann þá or skálanum ok ætladi til útiduranna hinna sydri, sem hann giördi, ok veria sem hann mætti, hann hafdi eina handeggsi vapna, þá vóru þeir Kolbeinn Grön kvamnir fimm inn í andyrit ok vann

[1]) Haukastadi. *B. E. Gr.*
[2]) Arnór únga. *St.*
[3]) Skèliúngsskála. *B. E. Gr.*
[4]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ. — bar at, þeir er grun höfdu af reidinni, ok er þeir komu — Diúpadalsá, ridu þeir hit efra *o. s. fr. B. E. Gr.*
[5]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

Kolbeinn á Beini, hió hann med sverdi í höfudit hinum vinstrameginn, ok svaddi sverdit ofan á kinnarkiálkann, var þat mikill áverki, Beinir hratadi undan í skálann. Þeir lágo í einni hvílo Gissur Gladi ok Sámr, Rafn hafdi varat Gissur Glada vid úfridnum um kveldit, en honum hafdi or hug lidit at segia nafna sínum Gissuri Þorvaldssyni. Gissur Gladi var skeótastr á fætr ok Beörn son Oláfs Káms. Gissur hafdi skyrtuna á hálsi sèr ok var ei í ermunum er hann spratt upp, ok kvamst í brynio ok fèkk skeöld einn, þvíat allir skildir varo innbornir um kveldit ádr at áeggian Gróu húsfreyo, ok er Gissur kvam fram or hvílunni, þá var Sámr rekkiofèlagi hans höggvinn banahögg, Gissur heyrdi er Sámr mælti þetta er hann fèkk höggit, slíks var van at, segir hann, þeir varo ok vegnir í hvílunni Amundi ok Magnús sunnlenzkir menn bádir. Gissur Gladi lióp í kvennaskáladurin ok hafdi skeöld fyrir sèr ok setti hann í durin, ok sva sem væri hann undir skildinum ok hèllt honum sem fastast, en þeir Beörn ok Beinir vördu dyrnar yfir höfdi honum. Nú urdu margir atburdir senn, ok má þó frá einum senn segia. Gissur Þorvaldsson ok þau Gróa lágu á vinstri hönd innar í skálanum vid þilit þat er næst var kvennaskálanum, en Hallr son hans ok Ingibeörg lágu þar fyrir utan næst vid þilit í stafnrekkio ok var gluggr krínglóttr milli rúmanna, í þann glugg leóp Gissur um náttina ok utar á þau Hall son sinn ok bad hann vakna skiótt. Gissur kvamst í brynio ok fèkk stálhúfo setta á höfud sèr. Gróa tók sverdit Bryniobít ok spretti fridböndunum ok fèkk Gissuri, hann brá þá sverdino. Hallr leóp upp skiótt ok fèkk öll vapn sín, en eingi klædi [fyrst nema línklædi [1]), hann eggiadi menn þegar at duga vel ok kvad ekki mundo til saka. Þeir Eyúlfr höfdu sva skipat lidi til atgaungo, at Eyúlfr gèkk at sudrdurum med tuttugu menn, var þar Kolbeinn Grön ok Ari Ingimundarson. Þorsteinn Gènia gèkk at sudrdurum med Eyúlfi, en med Rana sveitúngar hans, Jón af Bakka, Einar af Yxnahóli, en tveir hèldu logum Skraf-Oddr [2]) ok Þórarinn Leótsúngi [3]). Þessir menn fengo vapn sín í skálanum ok snerust allir til varnar,

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [3]) Bokksúngi, *A. C. St.* Þ.
[2]) Skrapoddr, *A. C. St.* Þ.

Gissur seálfr Þorvaldsson ok synir hans þrír, Gissur Gladi, Beörn Oláfsson, Beinir Steinsson, Þorsteinn Skèggiason, Gudmundr Ofsi [frændi Gissurar [1]) ok Þorbeörn Nef, ok ero nú tío, Svartr Þórisson ok Grímr Lömbúngr [2]), hann leóp upp einhver manna skiótastr ok þreif húdfat or sætino ok rak fyrir skáladurin nyrdri, sva at aldrei gèkk upp med vörn Halls Gissurssonar ok þeirra sex er þar vördo med honum, fengo þeir Rani aldrei kvamizt í skálann, dugdi þeim því lengi drengilig vörn, at einum meginn var at þeim sótt. Asgrímr hèt madr er enn fèkk vapn, nordan frá Þverá, hann var med Þorleifi múnki ölgiördarmanni [3]) ok Halldór Ögmundarson [er sídan var Hálshögg kalladr [4]), þessir fimtán veitto vörn alldrengiliga. Jón prestr Halldórsson hafdi ei vapn, en þó vardist hann drengiliga ok eggiadi alla menn at duga sem best ok bar klædi á vapn þeirra Eyúlfs iafnan er hann mátti. Skapti Dálksson [5]) hann einn var sva í skálanum, at ekki var fulltíng at. Steinn Smidr fèkk boleggsi [6]), hann var lítt í vörn, en þó var hann hiá fèlögum sínum. Gudmundr Fálkason ok Skèggi Ormsson höfdu sofit í litlostofo, Kètill Svarti [7]) ok Kórmakr briti ok Guttormr [8]) piltr varo í klefa ok Kolbeinn Vælúngr [9]), þeir kvamust eingir í skálann. Nú veittu þeir Eyúlfr atsókn harda í skálanum, tókst þar nú hardr bardagi ok snörp atgánga, þvíat varit [10]) var hit drengiligasta, þeir bördust lengi nætr ok höfdu sva hardan atgáng at því er þeir menn hafa sagt er þar vóru, at eldr þótti afhreóta er vapnin kvamo saman, ok sva sagdi Þorsteinn Gudmundarson sídan, at hann kvadst hvergi þess kvamit hafa, at menn hefdu iafnfrækiliga barizt, ok allir hafa þá vörn ágætt er var á Flugomyri bædi vinir ok úvinir. Kolbeinn Grön var fremstr Eyúlfs manna ok Ari Ingimundarson, [Kvistúngar, Þorsteinn ok Gudmundr synir Eyreks Brandssonar [11]), þeir heoggo bædi hart ok títt. Beörn Oláfsson, Gissur Gladi, [Gudmundr Ofsi,

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) vantar í sömu.
3) vantar í sömu.
4) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.
5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) exi. sömu.
7) sútari. *B. E. Gr.*
8) Gudlaugr. sömu.
9) Veliúngr. *B. E. Gr.* Velúngr. *A. C. St* Þ.
10) vidnámit. *B. E. Gr.*
11) frá [ ok nokkrir fleiri. *A B. C. E Gr. St.* Þ.

þórdr diákn, þorbeörn Nef [1]) giördu slíkt á móti. Reiddi þá Kolbein Grön stundum utar í skálann, en stundum vikö hinir undan innar nordr í skálann, þeir bördust lengi nætr ok tóku hvíldir sem í skinnleik, ok er þeir Rani [kvamust ei [2]) inn í skálann, þá fór Jön á Bakka upp á húsin ok þrír menn med honum ok vóru á verdi. Fótar-Örn var lengstum á hesti ok skygndist um. þeir Rani gáto uppkvamit sva hurdinni at leggia mátti sverdum, en þó urdu fáir menn af því sárir. þeir Beörn [3]) Oláfsson ok Gissur Gladi höfdu brotit nokkur speót or krókum er stódu fyrir framan stafnrekkio fyrir kvennaskáladurum, ok vard mönnum því gott til varnar, margir Gissurarmenn höfdu skeöldo. þorsteinn Skèggiason vardi stafnrekkio gègnt rúmi því er Hallr hafdi legit í, hann hafdi skeöld ok sverd ok vardist allvel, Isleifr Gissursson vardist þar ok med honum. þorsteinn gèkk fram fyrir Isleif ok bárust sár á hann. Beörn Oláfsson [4]) lagdi speóti til Eyúlfs þorsteinssonar ok fèll hann á bak aptr vid kisto ok vard ekki sár. Beörn eggiadi iafnan um náttina fèlaga sína ok bad þá reka Eyúlf af sèr, [kvad þeirra ekki úvænna er fyrir varo, ok hans vörn brá Gissur vid iafnan sídan, at hann kvadst aldrei röskvara mann sèd hafa [5]). Gissur þorvaldsson leóp upp í stafnrekkiona er sár bárust á þorstein, ok þá sóttu þeir Eyúlfr nordr um kvennaskáladurin ok vard Eyúlfr þá framarliga, þat sá Gissor er hann var í stáfnrekkionni ok ætladi at höggva tveim höndum á handlegg Eyúlfs med Brynio-bít, en blódrefillinn kvam upp í tealdsmottann [6]), ok kvam þat ei á Eyúlf. Aldrei sá þeir Eyúlfr Gissur um náttina ok eggiodo þó at hann mundi láta seá sik, en hann svaradi eingo. þá bad Kolbeinn Grön at honum skyldi hrinda á fylking þeirra Gissursmanna, ok var þat giört. Var þá í [reidíngo mikilli [7]), ok í þeirri svipan heó Ari Ingimundarson hönd af Kètilbirni Gissurarsyni, hann [8]) mælti sveinninn er hann lèt höndina sva at aftók: skall þar einum,

[1]) frá [: ok adrir fleiri. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) kvamu. sömu.

[3]) þorbiörn. sömu.

[4]) Eyúlfsson. *C. St.*

[5]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) tialdsprotann. sömu.

[7]) hraungl mikit. *B. E. Gr.*

[8]) hei! *A. C. St.* þ.

segir hann, ok skyldi brátt meir. Skildir margir hengo í skálanum, bad Gissur menn taka skeöldnna ok skeóta skealdborg í þeim durum er skálar mættust, ok sva var giört. Sóttu þeir Rani ok Kolbeinn fast at ok gáto ekki atgiört skealdborginni. þrífr Kolbeinn þá til ok ætladi at rífa af þeim skeöldnna, en Gissur heó á höndina ok bördust þá enn lengi, ok þá er Eyúlfr sá at seint sóttist, en ugdi at hèradsmenn mundo at kvama, þá báro þeir eld at. Jón af Bakka hafdi haft teöropinn med sèr, þeir tóko gærur af þönum er þar voro úti ok báro þeir í eld ok teörona, [sumir tóku tödo ok trádo í gluggana ok lögdu þar eld í[1]), ok vard þá brátt mikill reykr í húsunum ok svæla mikil. Gissur lagdist nidr í skálanum med setstokkinum ödrummeginn ok lagdi nasirnar ok höfudit vid gólfit ok var Gróa kona hans hiá honum, Þorbeörn Nef lá ok þar hiá honum, ok horfdust þeir Gissur höfdum at. Þorbeörn heyrdi at Gissur bad fyrir sèr á marga vega ok háleitliga til guds, sva at aldrei þóttist hann heyrt hafa slikan formála, hann þóttist ei mega sinn munn í sundr hefia fyrir reyk, ok eptir þat stód Gissur upp, ok hèllt Gróu á honum, ok gèkk hann þá í andyri hit sydra, ok var honum þá erfidt miök bædi af reyk ok hita, ok var þá í hug at leita út heldr en vera lengr svældr inni. Gissur Gladi stód úti vid durin ok taladi vid Kolbein Grön, baud Kolbeinn honum grid, því þeir höfdu þat fyrr vidmælzt, at hver mundi ödrum grid gèfa sem vald hefdi til. Gissur Þorvaldsson stód at baki nafna sínum medan þeir mæltust þetta vid ok svaladi honum heldr medan. Gissur Gladi mælti: kiósa vil ek mann med mèr til grida. Kolbeinn iátti því þegar, ef frá værо skildir Gissur ok synir hans. Þá kvam þar til Gróu í durin Ingibeörg Sturludóttir ok var hon í náttserk einum ok berfætt, þá var hon fiórtán[2]) vetra gömul ok var mikil vexti ok sköruglig at siá, silfurbelti hafdi vafizt um fætr henni er hon kvam or hvílunni fram, þar var á púngr ok í gull mörg er hon átti, hafdi hon þat þar med sèr. Gróa vard miök fegin henni ok sagdi at eitt skyldi yfir þær gánga bádar. En er Gissur hafdi svalat sèr, þá vard honum ei þat fyrir at laupa út, var hann í línklædum ok brynio ok stálhúfo á höfdi ok sverdit

[1]) frá [ vantar í *A. C. St. Þ.*

[2]) þrettán. *A. B. C. Gr. St. Þ.* þriátygi. *E.*

Bryniobít í hendi. Gróa var í náttserk einum, Gissur gèkk at henni ok tók fíngurgull tvö út or brókabeltis pussi sínum [1]), gullit annat hafdi átt Magnús biskup födurbródir hans, en annat Þorvaldr fadir hans, vil ek, segir hann, at þessara gripa nióti vinir mínir, ef sva fer sem ek vilda. Gissur fann á Gró at henni þótti mikill skilnadr þeirra, leitadi þá Gissur innar eptir húsunum ok med honum Gudmundr Ofsi frændi hans, hann vildi aldrei vid hann skilia, þeir kvamo at litlostofudurum ok ætladi Gissur þar út at leita, þá heyrdi hann þar úti mannamál ok bölvan, brott hvarf hann þadan.

4. Nú skal hèr fyrst frá hverfa. Þær Gróa ok Ingibeörg gèngu í dyrin, Gróa bad Ingibeörgo útgaungo [2]), en ek verd at leita sveinsins Þorláks [3]) systursonar míns, segir hon. Þorleifr Reimr var fadir hans, sveininn hafdi út laupit ádr ok logudu um hann línklædin [4]) er hann kvam ofan á völlinn, hann var tíu vetra gamall, kvamst kann til kyrkio. Þat er sumra sögn, at Þorsteinn Gènia hrindi Gró inn í eldinn, ok þar fannst hon [5]) í andurum. Kolbeinn Grön leóp inn í eldinn eptir Ingibeörgo ok bar hana til kyrkio, tóku þá húsin miök at loga. Hallr Gissursson kvam litlu sídar at þeim hinum sydri durum ok Arni Beiskr med honum fylgdarmadr hans, þeir varo bádir miök þreyttir ok módir af hita. Bordi var skotit um midiar dyrnar, Hallr horfdi lítt á, lióp þegar út yfir bordit, hann hafdi sverd í hendi, en ekki annat. Einar Þorgrímsson var þar nærstaddr er Hallr lióp út ok heó í höfud honum med sverdi, ok var þat banasár, en er hann fèll, hió annar á fótinn hægra fyrir nedan knè ok miök undan. Þorleifr [6]) múnkr frá Þverá ölgiördarmadr var útgènginn ádr ok var þar í túnino, hann tók gæro eina ok skaut undir Hall, þá er þeir Einar

[1]) ok fèkk henni í hönd, því hann ætladi henni líf, en sèr dauda, bæta vid *B. E. Gr.*

[2]) Þat heyrdi Kolbeinn Grön frændi hennar ok bad hana útgánga til sín, hon kvadst þat ei vilia nema hon kiöri mann med sèr, Kolbeinn kvad eigi þat mundo. Gróa bad hana útgánga, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) Þorálfs. *B. Gr.* Þorlafs. *E.*

[4]) klædin. *B. E. Gr.*

[5]) daud, bæta vid *A. C. St.* Þ.

[6]) Þórólfr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

gèngo frá honum, ok kippti [1]) öllu saman Halli ok gærunni á leid til kyrkionnar, þá er þeir hugdu ei at, en Hallr var fáklæddr ok kvam kuldi mikill í sár hans. Múnkrinn var berfættr ok kól hann ok kvam hann þeim bádum í kyrkio um sídir. Arni Beiskr lióp þegar út eptir Halli, hann drap fótum í bordit, var hann þá vid aldur, ok fèll hann þá er hann kvam út. Þeir spurdu hver þar færi sva hraparliga? Arni Beiskr er hèr, segir hann, man ek ei grida bidia, sèr ek at sá liggr skamt frá mèr er mèr líkar ei ílla at fara slíka för. Kolbeinn Grön mælti þá: [hvert man nú eingi Snorra Sturluson? [2]) bádir unnu þeir á honum hann ok Ari Ingimundarson, ok fleiri hiuggo þeir hann, ok lèt hann þar líf sitt. Þá fèll skálinn ofan, fyrst nordan sudr í loptit er í var skálanum. Þessir menn urdu þar undir: Isleifr Gissurarson ok Kètilbeörn bródir hans, Beörn Oláfsson ok Steinn Smidr, Kolbeinn ok Asgrímr, Guttormr [3]) piltr [4]), Kètill Svarti [5]) ok Kórmakr briti lètust í klefanum, Skèggi [6]) Ormsson í litlustofo, Páll hèt lausamadr er fannst í bordhúsi daudr í stofunni. Snaudir menn níu köfnudu í gèstahúsi. [Þorfinnr hèt madr fadir Þórúlfs tinsmids er þar lèzt [7]), hálfr þridi tugr manna lèzt í brennunni. Halldór Ögmundarson [8]) kvamst út sudrdur, var þar fyrir Eyúlfr Þorsteinsson ok gaf honum grid, ok er hann kvam at kyrkiunni miök, var þar fyrir sá madr er Þórgils [9]) Smidr [10]) hèt, er sídan var vèginn á Mödruvöllum, hann tók til hans ok kvad hann [11]) ei annt í kyrkiona, en annar heó til hans med sverdi vid kyrkiona [12]). Nú tóku at loga öll húsin, nema eldahús brann ei ok litlastofa ok skirbúr.

5. Nú er at segia frá Gissuri Þorvaldssyni, hann kvam at skirbúri ok Gudmundr frændi hans fylgdi honum, Gissur bad hann

[1]) lypti. *B. E. Gr.*

[2]) frá [ þá man — Sturluson, ef þá fær grid. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) Gudlaugr. sömu.

[4]) prestr. *C. St.*

[5]) sútari. *B. E. Gr.*

[6]) Sokki. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[7]) frá [ vantar í sömu.

[8]) Gudmundarson. *B. E. Gr.*

[9]) Þorkèll. sömu.

[10]) vantar í *A. C. St.* Þ.

[11]) honum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[12]) forkyrkiuna. *B. E. Gr.* ok bæta vid: ok kvam framan á hálsinn hinum hægra meginn ok hraut blódit allt á kyrkiuna ok vard þat mikill áverki ok komst hann vid þat í kyrkio.

brott fara ok kvadst heldr einn megà fá nokkut undanbragd, ef þess yrdi audit, þat er ei fengio tveir. Kvam þar þá Jón [1]) prestr Halldórsson [2]), ok bad þá báda brott fara at sinni. Gissur steypti þá af sèr brynionni ok stálhúfunni, en hafdi sverdit í hendi. Þeir Jón prestr ok Gudmundr leitudu til sudrdura [af búrino [3]) ok fengu bádir grid. Gissur gèkk í búrit, hann sá at skirkèr stód á stokkum í búrino, þar leypti hann sverdino í ofan Bryniobít í skirit, sva at sökk upp yfir hiöltin. Gissur sá at kèr var í iördu hiá lítit ok var í syra, en skirkèrit stód yfir ofan ok huldi miök syrokèrit hitt er í iördunni var, þar var rúm svá at Gissur kvamst nidr í syrokèrit, ok settist hann nidr í syruna í línklædum einum ok tók honum syran í geirvörtur, kallt var í syrunni. Skammaríd hafdi hann þar verit [4]) ádr hann heyrdi mannamál, ok var umtalat ef hann findist, at þrír menn varo ætladir til áverka vid hann ok skyldi sitt högg hver þeirra höggva, ok fara ei ótt at ok vita hvernig honum brygdi vid, til þess var ætladr Rani [5]) ok Kolbeinn Grön ok Ari Ingimundarson. Nú kvamo þeir í búrit med ljósi ok leitudu allt þar til er þeir kvamo at kèrino er Gissur sat í, ok lögdu í kèrit þremsinnum med spiótum edr fiórumsinnum, þrættu þeir um, sögdu sumir at fyrir yrdi nokkut, en sumir ekki. Gissur hafdi lófana fyrir kvídi sèr sem hógligast, at þeir skyldo sem sídst kènna at fyrir yrdi, hann skeindist á lófunum ok sva framan á kniánum ok á sköflúngunum; vóru þat lítil sár [ok mörg [6]). Sva hefir Gissur sagt sídan, at ádr þeir kvæmo í búrit, þá skalf hann af kulda, [sva at þvagladi [7]) í kèrino, en er þeir kvæmo í búrit, þá skalf hann ei. Tvisvar leitudu þeir [8]) um búrit ok fór sva í hverttveggia sinni. Eptir þat gèngo þeir út ok biuggust í brotto, gèngu menn þá til grida [9]) Gudmundr Fálkason, Þórdr diákn ok Oláfr er sídan var kalladr Gèstr, ok hafdi Einar Þorgrímsson ádr unnit á honum [10]). Þat var í dagan. Stigu brenno-

1) Jóan. *A. C. St.* þ.
2) vantar í sömu.
3) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) setit. *B. E. Gr.*
5) vantar í *A. C. St.* þ.
6) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) frá [ vantar í *A. C. St.* þ. svagladi. *B. E. Gr.*
8) med loga, bæta vid *A. C. St.* þ.
9) þeir er lífs vóru, bæta vid *B. E. Gr.*
10) þeim. *A. C. St.* þ.

menn þá á bak ok ridu or gardi, Fótar-Örn reid sídar or gardi ok segir hann Eyúlfi at hann sá mann gánga til kyrkio ok var leiddr ok kvadst hyggia at Gissur væri, ok kvad þat eitt rád at rída aptr, margir svörudu ok kvádu þat ei vera mega, var ok ei aptr snúit. Gissur hafdi þá gèngit til kyrkio sem Örn ætladi, því at sva var honum kallt ordit at hann þoldi ei lengr þar at vera, ok er hann kvam í kyrkio varo klædi borin at honum, ok vermdi sú kona hann á lærum sêr er Hallfrídr hèt ok var köllud Gardafitia [1]), er sídan var heimakvona á Vídimyri med Kálfi Brandssyni, [ornadi honum brátt [2]), var hann miök hás ordinn af reyk ok kulda. Gissur hrestist brátt, ok bar hann sik vel ok drengiliga eptir slíka mannraun ok harma. Hallr Gissorsson andadist þá er hálfléóst var. Þá er brenna var á Flugumyri, var lidit frá Önundarbrenno fiórum vetrum fátt í sextygi, en frá Þorvaldsbrenno hálfr þridi tugr vetra. Þessi tídindi spurdsut brátt vída ok þótti öllum vitrum mönnum þessi einhver mest vordit hafa, sem gud fyrirgèfi þeim er giördu med sinni mikilli miskun ok mildi. Gissur reid upp í Túngo fyrst um myrgininn ok fátt manna med honum, giördi hann þat til varúdar, ef úvini hans bæri at, reid hann þá skeótt aptr á Flugumyri ok nokkrir Túngo bóndr med honum. [Páll Kolbeinsson frá Stad kvam þá til móts vid hann ok mart manna med honum [3]), þá var borinn út á skildi Isleifr son hans, var hann ekki brunninn, nema búkrinn steiktr innan í brynionni. Þá fundust breóstin af Gró ok vóru þau ok útborin á skildi at Gissuri. Þá mælti hann: Páll frændi! segir hann, hèr máttu siá Isleif son minn ok Gró kono mína, ok þá fann Páll at hann leit frá ok stökk or andlitino sem haglkorn væri. A Flugumyri brann fè mikit, er margir menn átto þeir er þar varo, ok margir menn höfdu þángat lèd gripi sína, dúnklædi ok annara gripa, ok brann þat allt, en þat brann þó mest í fèmunum er Gissur átti, fyrst bærinn á Flugomyri, er eingi var iafnvirdiligr í Skagafirdi utan stadrinn á Hólum, þar vóru öll hús miök vöndud at smíd, forskálar allir alþiliadir til stofu at gánga, skáli altialdadr ok stofa, þar

[1]) Gardafylia. *A. B. C. E. Gr. St.* þ. [2]) frá [ vantar í *B. E. Gr.*
[3]) frá [ vantar í sömu.

brunno ok allmargir gripir er Ingibeörg átti Sturludóttir. [Ingibeörgu baud til sín eptir brennona Halldóra dóttir Snorra Bárdarsonar frændkona hennar er þá beó í Odda, fór hon þángat ok förunautar hennar med henni, var hon miök þrekud, en barn at aldri [1]).

6. Þat er at segia frá brennumönnum, at þeir rido á Hofstadi til matar, þar beó Einar Faxi, þadan ridu þeir til Hóla út ok tóku lausn af Henreki biskupi, tók hann vel vid þeim ok mötudust einir sèr, [ok sváfu um náttina í almannastofo [2]). Þar var fyrir Rafn Oddsson ok þeir tíu saman fèlagar, [ok rèdst Rafn þadan í ferd med brennumönnum [3]), ok er brennomenn vóru á stadnum, spurdu þeir at Gissur var á lífi ok þótti þat mörgum þeirra ei glíkligt, [ok urdo vid nokkut hliódir. Rafn segir þat mundi giöra þeirra bana mun verra [4]), ok bad þá sva vidbúast [5]). Þadan ridu þeir allir saman nordr á Mödruvöllo til bús Eyúlfs ok sáto þar ok höfdu sterka vördu á sèr. Þá kvam reidr mikil á land stadarins á Mödruvöllum, ok átti Eyúlfr miök sva allan hvalinn. Gissur samnadi nú mönnum saman at sèr, ok vard honum þá gott til lids, eggiudu þá margir at þegar skyldi rída eptir brennomönnum út til stadarins. Gissur sagdi sva, at þó aldrei gæti hann sinna harma rekit, at aldrei skyldi hann þá á stadinn sækia. Fór hann þá ofan í Gèldíngaholt, ok sitr hann þar med þriú hundrud manna [6]), gèkk þá upp bú allt ok var drepit búfè allt þat er þar var, þar beó þá Kolfinna Þorsteinsdóttir systir Eyúlfs. Gissur sendi menn sudr um heidi til vina sinna, at þeir kvæmo til móts vid hann. Þá kvam þar sunnan Andreas Sæmundarson ok Þórdr son hans ok höfdu þriátygi manna, or sveit Gissurar fóru sextygi manna, vóru þat hinir besto menn, var þar Páll Þorsteinsson af Hvalsnesi, fóru þeir til Skagafiardar. Gissur lèt þá lidi samna um hèradit, ok menn kvamo or Lángadal til móts vid hann, ok er lidit kvam

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í *C. St.*

3) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

4) segir þat margra þeirra bana mundu verda. *B. E. Gr.*

5) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

6) þridia mann. *St.*

saman, vóro þat sex hundrud[1]) manna, vóru þat hinir besto menn or hèradino, Páll ok Broddi ok Asbeörn Illhugason, hann beó þá í Vidvík. Þeir ridu nordr Yxnadalsheidi. Gissur kvam med flokki þessum á Bakka, var þá höggvit bú allt ok rænt hvívetna þat er fyrir höndum var. Jón var vel feáreigandi ok átti at öllu vel fyrirgiört, var þá allt snaudt ok fátækt er þeir fóru á brott. Fór Gissur út ok settist á Mödruvöllo med flokkinn, var þar rænt öllu því er ei var í kyrkio borit, ok drepit fè þat allt er þeir visso at Eyúlfr átti. [Brennomenn stukko þá undan ok þeir Rafn ok á skip ok fóru út til Hríseyar[2]). Páll Kolbeinsson ok þeir sem med honum vóru höfdu ekki ránsfè ok varo á sínum kosti, ok því vóru þeim ei sakir gèfnar af Eyúlfi. Einn brennomadr var þar tekinn á ströndinni Helgi Færeigill ok var drepinn út frá bænum á Mödruvöllum, Jón prestr va at honum. Gissursmenn nokkrir fóru yfir feörd til Gardsvíkr ok rænto þar. Gissur sat vel viko á Mödruvöllum. Þá fór Eyúlfr áboti ok Andreas Sæmundarson milli ok gódir menn med þeim. Þeir fundust út vid Hialtaeyri, vóru brennumenn þar ok þeir Rafn á skipum út fyrir eyrinni, ok töludust menn vid nokkut, Rafn hafdi miök ord fyrir þeim. Eyúlfr segir sva, at nú mundu menn una at sættast vid Gissur, er hann hefdi nokkut á beisko bitit, ok baud öll mál úskorud á dóm Hákonar kóngs, en sú var sætt nefnd edr vandrædis firríng þá í stad, at grid vóru sett þann vetur med þeim öllum, skyldi Eyúlfr ei vera at búi síno ok ei nær èn med Finnbirni á Greniadarstödum, en Rani í Flateyo, Rafn skyldi vera med Andresi mági sínom austr í Skardi, Kolbeinn Grön skyldi vera med Þórvardi Þorarinssyni austr at Hofi í Vapnafirdi. Gissur snèri þá med flokkinum til Skagafiardar, fóru þá Sunnlendíngar[3]) sudr, Rafn fór sudr med Andresi Sæmundarsyni ok Ari[4]) Ingimundarson, Eyúlfr fór á Greniadarstadi ok þeir tíu saman, Asgrímr Þorsteinsson ok Eyrekr Brandsson ok enn fleiri saman fóru vestr til Þíngeyra, Rani fór til Flateyar ok þeir tólf[5]) saman, þá fóru adrir til búa sinna ok heimila. Gissur tók þá vid

[1]) nær fimm hundrud. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

[3]) fór — sumt lidit. *A. C. St.* þ.

[4]) Arni. *C. St.*

[5]) siö. *B. E. Gr.*

búi í Asi í Hegranesi þeirra Arna Bearnasonar ok Steinunnar Eyreksdóttur, ok sat hann þar um vetrinn fram um iól, þá var vetur miök sva gódr, hafdi hann miök feölmennt um vetrinn, bóndr or hèradi efldo þá kost hans um búit. Kyrrt var þá um vetrinn fram um iól, þá var vetur sva gódr, sem fyrr segir, at menn mundo ei slíkan. Eptir brennuna kvad Gissur víso þessa:

Enn man ek böl þat [1]), er brunno
baugahlín [2]) ok [3]) mínir,
skadi kènnir mèr minni
minn [4]), þrír synir inni.
Gladir [5]) mano [6]) göndlar [7]) rödla
gny skèrdandi [8]) verda,
briótr lifir siá vid sútir
sverds, nema hefndir verdi.

7. Brandr ábóti sendi menn sunnan til Þórgils, at hann skyldi fara nordr til Hóla at sækia skript sína til Henreks biskups. Reid Þórgils nordr fyrir iólaföstu, hann fann Gissur á Flugomyri ok giördi hann hit mesta lèttabragd á sèr, reid Þórgils til Hóla, ok skriftadi biskup honum fyrir víg Valgardar, ok fór med þeim vel ok vingearnliga, en er Þórgils reid aptr, fundust þeir Gissur á Flugomyri, ok reid hann med Þórgilsi í Vatnsskard, töludu þeir mart ok fèll med þeim álitliga, en þó ei med fullum trúnadi, skildu þeir skipuliga, reid Þórgils þá til Stadar ok sat heima um kyrrt þann vetur.

8. Gissur Þorvaldsson sat í Asi um vetrinn, sem fyrr var ritat, ok bar vel af sèr sína harma ok var kátr um vetrinn vid menn sína ok vini, er til hans-kvamo, hann var mikill bordi [9]) ok lèt lítt á sèr finna þat er at höndum hafdi borit, ok aldrei bar honum þá luti til handa í úfridi edr ödrum mannraunum at honum

[1]) þar. *A. C. St.* Þ.
[2]) bauglín. *B. E. Gr.*
[3]) menn, bæta vid *A. C. St.* Þ.
[4]) minnir, *B. Gr.* mínir, *A. C. St.* Þ.
[5]) gladr. *B. E. Gr.*
[6]) munat. sömu.
[7]) grundar. *A. C. St.* Þ.
[8]) skèrandi. *C. St.*
[9]) bóndi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

stædi þat nokkut fyrir málsnilli edr málsvefni [1]). Um vetrinn eptir iól reid Gissor vestr um heidi ok brá því á at hann mundi rída vestr til Midfiardar, en hann reid ei lengra en á Audkúlostadi til Bearna bónda. Hann reid skiótt vestan [ok samnadi at sèr mönnum skiótliga [2]). Þat spurdu brennomenn er hann reid vestr ok höfdu engi vardhöld á sèr. Gissur ætladi nordr ok til brennumanna sem hann giördi, þótti honum ei haldizt hafa vidmæli þeirra um vistaför brennomanna. Kolbeinn Grön var annat skeid í Eyafirdi med Gudnyo Mánadóttur í Gnúpofelli. Þessir menn vóru nefndir med Gissuri heimamenn hans, Asbeörn Illhugason var þá med honum ok Gryto-Brandr [3]) fylgdarmadr hans ok Þorleifr Heimr systurson hans, Páll Hvalnesíngr, Gudmundr Otsi [4]), Markús Mardarson, [Guttormr Guttormsson, Eyúlfr [5]), Oláfr Gèstr [6]), Jón prestr, [Ögmundr Vandrædamágr, Ormr Uppspretta, Þórarinn [7]) Grautnefr, þar vóro bóndr or hèradi Geir Audgi Þorvaldsson, Snorri bródir hans, Hiálmr af Vídivöllum, þrír Gèllissynir Arnoddr, Þrándr ok Grímr, Örnúlfr af Þverá, Einar Faxi [8]). Sex menn fóru hins siötta tugar. Nú rídr Gissur med flokki sínum nordr Yxnadalsheidi laugarnátt fyrir Pálsmesso, en hon var drottinsdag eptir. Þeir kvamo á Bakka er skamt var af dagsetri, þá nátt lá Jón fyrsto inni í skála ok þeir Liótr son hans, en ádr höfdu þeir legit í kyrkio þar til. Þeir bruto upp hurdina menn Gissurar ok gèngo inn ok tendrudo liós, Jón lióp upp á þvertrè í skálanum, Ormr Uppspretta lagdi spióti upp til hans, fèll hann þá ofan ok bad gud gæta sín ok helgan Jón postula kyrkiodrottinn sinn, Ormr va hann. Liótr fannst ekki ok gaf honum þat líf, Asbeörn Illhugason skaut honum undan frændi hans. Eptir þat ridu þeir í brott ofan eptir dal, ok er þeir kvamo gègnt Yxnahóli, ræddi Gissur um at hann mundi kvama þar ok finna Einar, snero þeir þá þángat vid þriátygi manna, kvamo þar á úvart ok bruto upp hurdir.

1) svefni. *A. C. St.* þ.
2) frá [ vantar í *B. E. Gr.*
3) Grílu-Brandr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
4) frændi hans, bæta sömu vid.
5) Þorleifsson, bæta vid *B. E. Gr.*
6) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
7) Þórir. *B. E. Gr.*
8) Fálki. *Gr.* frá [ vantar í *A. C. St.* þ., en hafa í þess stad: ok fleiri adrir röskvir menn.

Einar lióp upp er hann heyrdi brestinn ok gat fengit vapn sín, hann lá í lokhvílo ok vardist þadan um ríd vel ok drengiliga, í því var hann tekinn ok útleiddr, Oláfr Gèstr va hann. Brátt ridu þeir af Yxnahóli ok fundust þar nidri á eyrunum um náttina. [Frostvidri var á ok kallt [1]). Þeir ridu nú þar til er þeir kvamo á Mödruvöllo, þar vóru fyrir þrír brennomenn Andres Brandsson, Ofeigr Eyreksson, Þórgils Sveinsson, þeir lágo í skèmmo nordr frá húsum, brotin var upp skèmman, var Ofeigr tekinn ok leiddr út, Ögmundr Vandrædamágr va at honum. Andreas kvamst út hiá þeim ok ætladi til kyrkio, Einar Faxi tók hann ok ætladi at fylgia honum til kyrkionnar, tóku þeir hann í höndum Einari, ok var hann höggvinn, margir unno á honum. Þórgils kvamst or skèmmunni ok innar í almannastofo ok vardist vel ok drengiliga, margir sótto þeir at honum, Páll Þorsteinsson ok Þorleifr Reimr, vard hann handtekinn. Mart fólk lá í stofunni ok flest konur. Þórgils mælti ádr þeir leiddo hann fram: lifid nú vel, konurnar allar í stofunni [ok heilar! [2]) en er hann kvam út, va Uppspretto-Ormr hann. Gissur sendi nokkra menn út á Hafgilsstadi [3]), þat er hit næsta Mödruvöllum, þar átti Hámundr Vatnsbelgr [4]) bú, Gissur mælti at þeir mundo drepa hann, þángat fóru menn tíu edr tólf, þeir tóku hús á honum [ok bruto upp hurd [5]). Kolbeinn [6]) Kröbbungr [7]) var á húsum uppi ok á badstofo ok horfdi forvidris, ok kvamst Hámundr þar út á baki honum um badstofu glugg í skyrtu einni ok línbrókum ok kvamst til næsta bæar ok var þar fólginn, dróst hann sva undan ok var kalinn á fótum, þat var í ördverda dagan. Þeir Gissur ridu af Mödruvöllum, þeir áto dagverd í Hlíd, sumir at Gríms Einarssonar Skèggs [8]), sumir á ödrum bæum, þadan ridu þeir upp eptir Eyafirdi, þá kvam á móti þeim á Eyrarlandi [9]) Eyúlfr Andvaka er Gissur hafdi sent á niósn, ok segir hann Gissuri, at Kolbeinn Grön var uppi í Eyafirdi ok fyrir skömmo nordan kvaminn af Greniadar-

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í sömu.

3) Hallgilsstadi. *E.* Hallgrímsstadi. *B. Gr.*

4) Valbergr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

5) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

6) Kolbiörn. *B. Gr.*

7) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

8) vantar í *A. C. St.* Þ.

9) vantar í sömu.

stödum. Gissuri var [reiknnarsamt í ordnm [1]) ádr hann spurdi þetta, ok þótti þat eina hafa fyrir ordit er lítil hefnd var í. Þeir ridu nú til þess er þeir kvamo gègnt Rafnagilslaugu, Gissur bad nokkra menn sína snúa til laugarinnar ok vita hvat þar væri, viko þegar af tíu menn. At lauginni var einn brennomadr ok konur nokkrar Asmundr af Bríngo, konur lágu á honum ofan, ok grunadi þá ekki um þat ok ridu upp eptir allt þar til er þeir kvamo gègnt Rafnagili, gèkk Gudmundr bóndi ofan til þeirra ok baud Gissuri þar at vera, [Gissur þakkadi honum bodit ok kvadst ríla mundu lengra, ok töludu þeir Gissur ei miök lánga stund [2]). Sva er sagt, at Gissur reid svartblesóttum hesti, þá er þeir ridu upp eptir Eyafirdi, hann var vapnadr vel ok í blárri kápo, varo lodnir kálfskinnsskúar á fótum [3]), þá hafdi hann sanna frètt af at Kolbeinn Grön var í Eyafirdi. Nokkrir menn hans ridu fyrir á Espihvol, skyldi þar leika um daginn, Örnulfr Jónsson ok þeir fimm saman, var þeim svarat skotyrdum [4]) er þeir kvamo á bæinn. Leika skyldi ok á Mödruvöllum [5]) um daginn, þar kvam til leiks Þorvaldr brennomadr einn Sveinsson ok kvad betr mundu leikit á Espihvoli, ok þángat fór hann um daginn. Nú kvam flokkr Gissurar í tún, Þórdr bóndi Ormsson gèkk út ok heilsadi Gissuri, ok tók í tauma hestsins ok leiddi undir honum sudr eptir túni, Gissur bad hann ei leida hest undir sèr, bad alla menn af baki stíga ok ransaka bæinn, var sva giört at allir menn stigo af hestum sínum. Gissur var úti ok allr flokkrinn nema tíu menn gèngo inn, Þorleifr Reimr ok Jón prestr. Kolbeinn Grön var þar fyrir ok hafdi sèt flokkinn sem van var at, ok vildi hann ei í kyrkiona, var hann þá kvaminn í stofo ok stód undir tialdi. Jón prestr sá at grænt kyrtilsblad kvam undan tealdino, var hann þá tekinn ok útleiddr. Kolbeinn beiddi prestsfundar, en þeir gáfo at því eingan gaum, þótti þeim þar fángs van at frekum úlfi er hann var, ef nokkut undanbragd yrdi, ok er Gissur sá Kolbein, brá hann sverdino Bryniobít ok þótti ei sva skeótt á honum unnit sem hann vildi, ok spurdi hví þeir væro nú sva

[1]) eiskrandamikit, *B. E. Gr.*
[2]) frá [ vantar í *A C. St.* Þ.
[3]) þvíat frost var mikit ok kuldi, bæta vid *B. E. Gr.*
[4]) skollyrdum, *Gr.*
[5]) í Mödrufelli, *B. E. Gr.*

handlátir?[1]) Þá hcó Jón prestr til hans, kvam þat í höfud Kolbeini ok var þat mikill áverki, ok fèll hann ei. [Kolbeinn greip til manna driúgum ok kippti fast er madrinn var öflgr, ok lagdi nærri at hann mundi kippa sumum undir höggit, unnu þeir þá margir á Kolbeini, ok fèll hann ei[2]). Þá heó Jón prestr annat högg í höfud Kolbeini ok gèkk þat sár ofan í ennit, þá fèll hann á knèn bædi upp vid vegginn nordr frá brandadurum, ok þar vago þeir hann, ok vard vid allhraustliga sitt líflát. Þorvaldr Sveinsson var úti í túni, ok visso Gissurs menn ei hver þar var. Gissur spurdi, hver er sá hinn lausligi er þar reikar um túnit? Ok er Þorvaldr heyrdi ord Gissurar, brá hann vid ok vildi laupa til kyrkio, en á kyrkiostèttinni stód [Geir Audgi, Þorvaldr brá sverdi ok vildi leggia til hans[3]), en lagit[4]) kvam í lær Þorbirni Sælendíngi[5]) föronaut þeirra siálfra, ok var þat mikill áverki. Þorvaldr vard tekinn, ok va Ögmundr hann Vandrædamágr. Eptir þat ridu þeir Gissur á brott, ok reid allr flokkrinn í Saurbæ um kveldit til Þorvardar. Þá gèkk niósn til þeirra Eyúlfs á Greniadarstadi, kölludu þeir þetta sættarrof ok leitudo at forda sèr ok rída upp Laxárdal ok til Myvatns, ætludu þeir at Gissur mundi nordr á snúa, en hann reid þegar vestr aptr til Skagafiardar. Þá kvad hann víso þessa:

Borg lèt brennovarga,
ben[6]) stofnandi[7]) klofna[8])
sonar [sex ok einum[9]),
sá ek deili þess, heila.
Bergstióra gledr báro
blik strídandi sídan
hregg, en hafnak[10]) muggom[11]),
heldr sèst[12]) Kolbeinn[13]) felldr[14]).

1) Iathendir. *B. E. Gr.*
2) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
3) Geir bóndi hinn audgi Þorvaldsson ok vildi leggia til Þorvalds. *B. E. Gr.*
4) spiótit. sömu.
5) Seldælíngi. *A C. St.* þ. Sellendíngi. *B. E. Gr.*
6) biór. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
7) klofnandi. *A. C. St.* þ.
8) stofna. *A. C. St.* þ. tofna. *B. E. Gr.*
9) frá [: siö í einu. *C. St.* siö ok einum. *A.* þ.
10) hrafna. *C. St.*
11) muggu *B E. Gr.* múgum. *A. C. St.* þ.
12) sízt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
13) Kolbein. sömu.
14) felldan. *A. C. St.* þ. felldum. *B. E. Gr.*

Páll þorsteinsson kvad þá víso:

Siö hygg ek særda [1]) liggia,
sylg gáfom vèr ylgi,
búk sneid blódigr mækir,
brennumenn [ok renna [2]),
gunn-mildum [3]) hefir nú goldit
Gissur, sva at ek vissa,
meidum [4]) mistar glóda
minníng [5]) skada sinna.

Gissur settist í Ási med sveit sína, en sumir bændr fóru heim. Ok er Henrekr biskup spurdi þessi tídindi, lysti hann stórmælum yfir Gissuri ok þeim öllum mönnum, er þessa ferd fóru med honum, kvad hann þá vera gridnídínga, gèngit á grid ok giörvar sættir, ei skyldi hríngia nè syngia sva at þeir væri hiá. Brátt eptir víg þessi reid Gissur vid nokkra menn vestr til Lángadals í Geitaskard til Gunnars Klængssonar [6]) ok tók til sín Ingibeörgo Gunnarsdóttur til fridlu ok unni henni mikit brátt, hon var rösklig kona ok gód vidfángs fyrir margra luta sakir, fór hon heim í Ás med honum. Þá var fátt med þeim Henreki biskupi ok Gissuri, vard þeim mart til, hafdi biskup hardmæli [7]) mikil til Gissurar um víg þessi, Gissuri þótti biskup halda ríkt med [8]) brennomönnum, reid hann þá sudr til sveita á föstunni ok flest þeirra manna er til víganna vóro med honum um vetrinn, hann var í Kaldadarnesi er þeir kvamo sudr.

9. Rafn Oddsson var austr í Skardi þenna vetur, sem fyrr er ritat, med Andresi Sæmundarsyni mági sínum vid siö menn, veitti Andres honum vel. Þórdr Andreason átti þá bú á Völlum, ok var vinátta þeirra mikil med mágsemd. Þá fóru ord midli þeirra Gissurs ok Rafns at þeir mundo finnast á föstunni er álidi, tóko hverirtveggio því glíkliga. Þenna vetur er Gissur var sudr farinn, kvam austan or feördum til móts vid Eyúlf Þorsteinsson

[1]) sæfila. *B. E. Gr.*
[2]) frá [: í renno, sömu.
[3]) gunnmildr. *C. St.*
[4]) meidíng. sömu.
[5]) minnigr. *C. St.*
[6]) vantar í *A. C. St.* þ.
[7]) stórmæli. sömu.
[8]) vantar í *B. E. Gr.* þ.

Þorvardr Þórarinsson med sveit manna ok segir at honum mislíkadi miök dráp Kolbeins, er hann var heimamadr hans um vetrinn, þótt hann væri skamma hríd. Þeir Þorvardr ok Eyúlfr fóru þá vestr á sveitir, fyrst til Eyafiardar [ok þadan til Skagafiardar [1]), þeir kvamo miök á úvart til Silfrastada, Geiri [2]) bónda Þorvaldssyni var sagt, at þeir ridu sunnan eptir vellinum, gèkk hann út vel snúdigt, ok er hann kvam at kyrkiogardinum, leypti Hámundr Vatnsbelgr [3]) sunnan í túnit. Geir [4]) fór þá til kyrkio ok hratt upp hurdunni, lagdi Hámundr spióti í því ok kvam í kyrkiohurdina, en ekki á Geir, skildi þá med þeim. Þá varo þar flestir brennomenn þeir er á lífi vóru í þeirri ferd, ok þar var allr flokkrinn um náttina ok rænto öllu því er þeir kvamo höndum á, en mart var ádr í kyrkio borit, þvíat vísa van þótti mörgum, at þeir mundo kvama á hèradit, þegar Gissur væri á brott farinn. Tödu gáfo þeir mikla á Silfrastödum. Um myrgininn ridu þeir yfir í Túngo ok fundu þar þann mann [yfir hiá Stöpum [5]) er Snorri hèt ok var Brúsason, hann sögdu þeir haldit hafa neósn fyrir Gissuri, hann handhiuggu þeir, þat var hinn nærsta dag fyrir Maríumessò [6]) í fösto. Ridu þeir ofan í Gèldíngaholt ok þadan vestr í Lángadal, ok gátu ei nád þeim mönnum er þeir vildu, því flestir varo sudr med Gissuri, þeir ridu brátt nordr yfir heidi, ok settust þá á Grund allir í þat bú er Rani hafdi þar vardveitt ok Þórdr Sighvatsson átti. Þá varo flutt faung utan af Mödruvöllum. Um varit litlo fyrir páska ádr Oddr kvam til Gissurs, var fundr stefndr í Laugardal [7]) med Gissuri ok Rafni, fór Andreas Sæmundarson þar í milli, varo ádr grid seld, skyldu hverir kvama med tólf menn, en Gissor kvam vid fiörutygi manna, þótti Andresi þá ei trúligt ok Þórdi syni hans, þeir varo þar bádir med Rafni. Settust menn nidr ok töludu úti, ok var Gissur því hardari í talino sem þeir tölödu lengr. Þá gèkk at Rafni Teitr Olason [8]) ok taladi einmæli, bad

1) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.

2) Þorvaldi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

3) Varbelgr. *B. E. Gr.* Valbergr. *C. St.* Valbelgr. *A.* Þ.

4) Þorvaldr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

5) vantar í *A. C. St.* Þ.

6) sídari, bæta sömu vid.

7) Lángadal. *A. C. St.* Þ.

8) Alason. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

hann skyldi því iáta er Gissur beiddi, kvad honum ei annat mundo duga þar sem þá var kvamit, ok sva giördi Rafn, ok sór Gissuri þá eida, at hann skyldi aldrei honum á móti vera ok aldrei veita brennumönnum á móti honum. Skildu þeir vid sva búit, reid Rafn vestr til sveita skírdagsnátt ok lángafriádag allt hit efra um feöll frá Skardi ok kvam vestr í Dali at páskum. Gissur sagdi sva sídan seálfr, at hann kvadst ei vita hvat Rafni hefdi hlíft á þeim fundi, því hann kvadst einrádit hafa ádr fyrir sèr at meida hann at nokkru, blinda edr gèlda. Rafn reid þá vestr í feördu ok hafdist þar vid um sumarit.

10. Um varit fóru ord milli þeirra Þórgils ok Rafns, ok var þá lagdr fundr med þeim á Raudamel, seldi Rafn Þórgilsi seálfdæmi fyrir Stafaholtsför, giördi Þórgils af Rafni níutygi hundrada, fimm hundrud fyrir mann hvern [1]), tíu hundrud fyrir Nikolás, tuttugu hundrud fyrir Rafn siálfan. Vígfús skyldi seálfr sættast fyrir sik, ok hafdi Þórgils seálfdæmi af honum, [varp Þórgils sva á [2]), at hann skyldi leysa sæmiligum gripum. Þórgils sat nú heima í búi síno at Stad.

11. Gissur ok Oddr Þórarinsson bundu nú lag sitt, kvam Oddr til móts vid Gissur þá er hann var sudr, segir Gissur Oddi at hann vill utan um sumarit, kvad íllt þykia at hafa forbod biskups á sèr, ok kvadst vænta at hann mundi hafa alla sæmd af þessum málum, ef hann findi sinn herra Hákon kóng, bad hann Odd vera fyrir sveitum medan, en Oddr var þess traudr ok ridu þó bádir samt nordr til sveita fyrir páska ok höfdu þá mikla sveit, tóku þá bóndr vel vid þeim í Skagafirdi. Þeir söfnudu þá lidi þegar eptir páskana ok ridu þá nordr Hörgárdalsheidi nær [þriú hundrud [3]) manna. Þeir Eyúlfr ok Þorvardr höfdu neósn af, ok leyptu brennumenn á skip, Rani var þá þar med þeim. Þorvardr reid þá til móts vid Odd bródur sinn, var þá rádit at brennomenn skyldo finna Gissur í Glæsibæ. [Fór Eyúlfr [4]) ábóti þá í milli. Gissur ok

[1]) er med honum var, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) ok gaf Þórgils upp sídan, sva, sömu.

[3]) tvöhundrud. *B. E. Gr.* hundrad, *A.* þ. hundrad ok tíu. *C. St.*

[4]) Brandr. *A. B. E. Gr.* þ.

Oddr kvamo í Glæsibæ [1]), brennumenn kvámo á þrennum skipum ok treystust ekki á land at gánga, ok gèkk þar eingi sætt saman, voro þar afaryrdi med mönnum at lyktom, ok skildu vid þat at hverki urdo víg nè áverkar.

12. Þetta sumar beó Gissur mál til á hendr brennomönnum ok kvaddi heiman níu [2]) búa, sem þá varo lög til, sídan reid hann sudr um heidi, en Oddr settist þá á Flugumyri. Oddr spurdi at Rani Kodransson [3]) fór út til Grímseyar ok þeir nokkrir saman, en Eyúlfr reid nordr med Þorvardi til Reykiadals, en Þorvardr reid austr aptr í fiördu. Oddr Þórarinsson samnar at sèr mönnum ok skipum ok ætlar út til Grímseyar at Rana, hann hafdi skúto frá Hofi er átti Broddi Þorleifsson, adra skúto hafdi hann or Fliótum er fyrir var Ari Styrkársson, þridia skip af Skaga, [siö [4]) skip höfdu þeir [5]) ok sextygi [6]) manna. Asbeörn Illhugason fór med Oddi ok mart röskra manna, bædi or hèradi ok or Fliótum, driúgum heimamenn Gissurar þeir er verit höfdu um vetrinn med honum. Þórdr Hvalnesíngr fór er átti Helgo [or Hvammi [7]) dóttur Gríms [8]), Gèllissynir fóru tveir Arnoddr [9]) ok Hallr [10]), [Einridi Þormódarson fór [11]) med Asbirni, or Hvammi fór Einar Steingrímsson. Þeir fóro fyrst til Flateyar ok tóku þar undir kyrkiunni einn brennomann Þóri Búkksúnga, ok vildu flestir at hann væri drepinn, Asbeörn mælti hann undan ok þeir Einar or Hvammi, ok þat samþykkti Oddr er hann var sva nær tekinn kyrkionni. Þadan fóru þeir til Grímseyar ok kvamo þar föstomyrgin hinn nærsta fyrir hvítasunno. Þeir kvamo miök á úvart at eyunni, ok lögdu at í Sandvík. Þeir Rani þóttust vita at úfridr mundi vera þegar þeir sáo til skipanna. Þetta var í fardaga vikunnni. Þar varo fyrir tuttugu vígra manna. Þeir Rani leópo ofan í fiörona ok hans fèlagar ok

1) frá [ vantar í *C. St.*
2) tíu. *A. C. St.* þ.
3) skógarmadr hans, bæta vid *B. E. Gr.*
4) fiórda. sömu.
5) frá [ vantar í *C. St.*
6) siötygi. *B. E Gr.*
7) vantar í sömu.
8) Gissurar. sömu.
9) Oddi. *A. C. St.* þ.
10) Þrándr. *B. E. Gr.*
11) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

ætludu at veria þeim Oddi landgaungo, sem þeir giördu. Þeir vóru med Rana Þormódr Braudnefr ok Einar Grímsson, þeir varo brennomenn bádir. Þeir Oddr lögdu at alldearfliga, þeir Asbeörn varo á einu skipi ok varo þá herklæddir. Oddr liόp þá þegar fyrir bord er skip hans kèndi grunns ok hver at ödrum hans manna. Þormódr Braudnefr liόp í mót Oddi ok hió med handeggsi á öxl Oddi hina vinstri ok gèngu í-sundr treyur tvær ok brynian lúdist, ok vard Oddr úvígr þeirri hendi, en lítt sár, lupu menn þá þykkt utan af skipunum. Asbeörn Illhugason heó til Þormódar med sverdino Nídíngi ok af honum fótinn í ristarlidnum vid feörogrióti no ok skoradi miök annan. Þormódr fèll þá, var hann særdr banasárum, ok lá hann þar í feörunni [ok var þó ei daudr [1]), hann fèkk sídan alla þiónusto. [Tókst þar nú bardagi í feörunni [2]). Rani vardist vel, en þó stökk hann [til baks [3]) annan veg á eyna, þá er hann sá at ei mátti vidhaldast. Þar í feörunni fèll Einar Grímsson ok lèt líf sitt, ok hafdi vel varizt. [Tófi hèt madr er þar lèzt, ok enn var hinn fiórdi madr er lèzt [4]). Rani leóp á skip, Oddr bad sína menn eptir honum sækia, tóku menn þá skip ok sóttu eptir þeim miök margir, [Arnoddr Gèllisson ok Kolbeinn [5]) Kröbbúngr [6]), Asbeörn [7]) Illhugason tók ok skip ok bad hann Odd at Rana væro grid gèfin. Þá svarar Þórdr Þorsteinsson: þá er allíll ferd var vid Rana sekan ef hann skyldi enn lifa lengr, ef menn giæto nú nád honum, [erum vid Oddr sárir bádir, en sá gángi undan er nokkur er hefnd í [8]). Oddr kvadst honum aldrei skyldi grid gèfa. Þeir Arnoddr lögdu nú at Rana, þá kvam Asbeörn at ok vildi veria hann, Kolbeinn þreif sverdit Nídíng af herdum [9]) Asbearnar med umgiördinni ok slaungdi útbyrdis öllu saman, ok hefir þat aldrei fundizt sídan, at flestra manna sögu. Asbirni líkadi nú allílla ok kvadst þessa hefna skyldo þegar hann má. Þá kvam Oddr at ok bad drepa Rana.

1) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

2) frá [ vantar í sömu.

3) í brott til Báss. sömu.

4) frá [: tveir menn lètust þar enn í Söfrunni. sömu.

5) Kolsveinn. *B. E. Gr.*

6) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

7) Oddr. *C. St.*

8) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

9) höndum *B. E. Gr.*

þá heó Asbeörn hártaug, er skipit var med fest, ok var hon ferföld, ok tók handeggsin ei í sundr allt bandit ok urdu þeir ei lausir, hèldu menn þá skipino, en sótto at Rana. Þá mælti Rani vid þá, bad velia tvo menn af lidi þeirra at gánga á land upp ok beriast vid hann, Oddr kvad ei sva fara mundu, ok bad menn gánga skeótt at honum. Rani beiddi prestsfundar, kvam þá til hans Hákon [1]) prestr út á skipit, lagdi Rani af sèr vapnin medan ok tók rádníng af prestinum. Allir menn sáu þat er hann stód upp, at hann hafdi miök vidkvamizt. Rani mælti þá: þat kann vera, segir hann, at ydr þyki ei karlmannliga vid ordit minnar handar, en mik má miök ugga, at ei sè vís gistíng sú er ydr [2]) gègni. Sídan taladi hann vid prest, eptir þat tók hann vapn sín ok kvad þat hverium manni bodit at veria líf sitt. Þeir sóttu at honum, en hann vardist hraustliga, brátt fèkk hann lag af speóti í augat, vard þadan af lítit um vörn hans, var þá unnit á honum af mörgum, lèt hann þar líf sitt mörgum sárum særdr [3]). Þeir Oddr varo þar í eyunni um hvítadagahelgina ok fóru eptir helgina í brott þegar gaf. Þórdr Þorsteinsson var sár ordinn mikit sár í kinnina. Oddr fór á Flugomyri ok hans fèlagar. Jón Sturluson andadist ádr um varit [VIII kal. Aprilis [4]), en Solveig módir hans Sæmundardóttir líka þat sama var þrem náttom fyrir Jónsmesso Hóla biskups [5]) MCCLIV [6]). Skamma ríd var Oddr á Flugomyri, ádr hann spurdi at Eyúlfr Þorsteinsson hafdi ridit nordan or Eyafirdi ok þeir nokkrir menn saman allt hit efra fyrir ofan bygdir allar, ok ætludu sva at leypa vestr um horn [7]) þeim Oddi. Brá hann þá vid skiótt ok reid vestr [8]) eptir þeim vid sextygi manna, hann kvam med flokk sinn í Vesturhóp, bar þá í sundr med þeim, reid Oddr þá nordr aptr, en þeir Eyúlfr vestr í fiördu [til móts vid Rafn Oddsson [9]), varo þar allir samt um sumarit. Þetta

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) mèr, sömu.
[3]) Iafnleingd Rana er ok þeirra manna er þar lètust, fiórtán nóttum eptir Hallvardsmessu, en ellifu nóttum fyrir Cólúmbamessu, bæta vid *B. E. Gr.*
[4]) frá [: fiórum náttum eptir Ambrosíusmessu. *B. E. Gr.*
[5]) frá [ vantar í *A. C. St. Þ.*
[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[7]) at, bæta sömu vid.
[8]) í Vestrhóp, bæta vid *A. C. St. Þ.*
[9]) frá [ vantar í sömu.

sumar öndverdt rėdst kaup med þeim Þóri Tott [1]) ok Herdísi Einarsdóttur [2]) Þorvaldssonar Gissurssonar, var brúdkaup þeirra Jónsmesso Baptistæ í Haukadal, var at því brúdkaupi Brandr ábóti Jónsson ok mart annara gódra manna, bædi norrænir menn ok íslenzskir, þar var drukkit fast, hina sídari nátt kvamo þeir af fealli ofan Oddr Þórarinsson ok þriátygi manna med honum, þeir tóku þar svefn á sik, ok um daginn vildi ábóti ei vid hann tala. Reid Oddr þadan upp á þíng til móts vid Gissur. A því þíngi vard sekr Eyúlfr Þorsteinsson ok þeir fimtán brennumenn, þá vard ok sekr Þorsteinn Jónsson í Hvammi fadir Eyúlfs um feörrád vid Gissur ok sonu hans, hann hafdi þar verit litlu ádr [en Asgrímr, hann hafdi vitat brennona ok bar því búa kvidr á hann málit [3]).

13. Þetta sumar á milli Oláfsmessna þá er Gissur ætladi utan, ridu þeir Rafn ok Eyúlfr vestan frá Saudafelli vid siötygi [4]) manna, í þeirri ferd var mart röskra manna, brædur Rafns Oláfr ok Gudlaugr, Vígfús Gunnsteinsson, Svarthöfdi Dugfússon, Eyúlfr Eyúlfsson, Oláfr Oláfsson, Ari Gudbrandsson [5]), Helgi Halldórsson, þeir ætludo at Gissuri ok drepa hann. Ridu þeir sudr Reykiardal [ok hit efra um hálsa ok ofan í Hvítársído ok þadan á Bláskógaheidi ok sva sudr hiá Skialdbreid ok ofan at midium dal [6]), þá giördu þeir neósnarmann ofan í hèradit þann er Gèllir hèt, en sú neósn kvam aptr brátt til þeirra, ok sagdi at Gissur var á Eyrum vid skip, hann sagdi ok útkvamo Sigvardar biskups ok þeir Gissur væro sáttir ok Gissur ætladi utan. Þá syndist þeim úrádligt at rída um endilángt hèrad, ei vid meira lid, ok hurfo aptr vid sva búit margir miök naudigir. En þá sömo nátt var Gissur í Lángaholti at Gissurar Glada, ok hafdi verit fundr [7]) í hèradino ádr um daginn [8]) ok att hestum ok reid Gissur af fundinum í Lángaholt. Þeir Rafn ádo í Vídikèrum, þá dreymdi Svarthöfda Dugfússon, at Vígfús Gunnsteinsson væri' horfinn or lidi þeirra, rèdu sva sumir menn

[1]) Arnþórssyni, bæta vid *B. E. Gr.*
[2]) Erlíngsdóttur. *C. St.* Erlendsdóttur. *A* Þ.
[3]) frá [ vantar í *A, C. St.* Þ.
[4]) sextygi. sömu.
[5]) Gudlaugsson. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) frá [ vantar í *A. C. St.* Þ.
[7]) frammi. sömu.
[8]) helgina. sömu.

þann draum, at lítil mundi verda þeirra ferd um vígaferlin, ok ridu þeir heim vestr vid sva búit.

14. Sigvardr biskup kvam út sem fyrr segir ok fór Þorkèll prestr at finna hann ok sótti hann at eptirmáli um víg Valgardar. Tók biskup vid málino til forsiár, reid hann þá vestr til Borgar [1]) þegar, [ok sendi ord Þórgilsi [2]). Fundust þeir biskup at Lángárfossi, leitadi biskup þá um sættir med þeim Þórgilsi ok Þorkatli presti, var biskup fyrir máli prests, gèkk sú sætt skiótt saman, skyldi biskup dæma ok taka á sik alla skyldu vid Þorkèl, en biskup skyldi eiga um vid Þórgils. Rafni var ætlat at gialda Þórgilsi [3]) tuttugu hundrud, biskup giördi fyrir Sídumúlafför ok víg Valgardar fiörutygi hundrud, varo þeir [á sittir ok fór vel med þeim biskupi ok Þórgilsi. Rafn skyldi ok gialda Þorlióti [4]) fyrir Steinþórsstadaland, hann skyldi ok gialda Eyvindi Bratt tuttugu ok fimm hundrud, var þá uppskipat allri þeirri sekt er Rafn átti at gialda Þórgilsi.

15. Þetta sumar fór Gissur utan á Eyrum ok nokkrir íslenzkir menn med hónum, Þorleifr Reimr fór ok utan Skildu þeir Gissur ok Oddr á Eyrum, var þat þá miök rádit at Oddr mundi vera fyrir sveitum Gissurs öllum. Reid Oddr þá nordr brádliga til sveita ok átti fund á Hestaþíngshamri, hann segir bóndum at Gissur skipadi honum at vera fyrir sveitum medan hann væri utan, bóndr kvádust þat giarna vilia, ok bádu hann vera sinn forstióra, en þat rèdst med fullnadi viko sídar á Hestaþíngshamri, vóru bóndr miök ákafir at hann væri formadr þeirra. Oddr reid þá brádliga vestr til Vatnsdals í Hvamm til Þorsteins ok lèt reka þadan saudfè mart, bædi ásaud ok gèldfè, en naut þau öll er þeir kvamo höndum á, kalladi hann þat sektarfè, var þat fè þegar sumt etit, en sumt nytiat. Henrekr biskup spurdi þetta ok sendi menn til Odds ok bad hann láta rakna ránit, en hann kvadst þat ei giöra mundu. Þá bannsyngr biskup Odd ok nokkra menn med

[1]) Borgarfiardar. *Gr. St.*

[2]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) Þorkatli. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) Þrálióti, sömu.

honum Maríomesso hina sídari, hon var þá á þridiadag, [en kyrkiodagr á stadnum var mánadag ádr [1]). Einar Lángr var þá med Henreki biskupi heimamadr hans bródir Þorsteins í Hvammi, ok var hann grámúnkr [í Tötro [2]). Nú leid sva fram á sumarit. Litlu [sídar en [3]) Oddr var bannsúnginn, samnar hann mönnum at sèr ok rido út á Fagranes, hann spyr at biskup mundi þar vera ok vígia kyrkio, þat var friádag hinn næsta fyrir krossmesso, en hon var mánadag eptir. Þessir menn fóru med Oddi: Steinúlfr bródir hans, Hallageir, Þorgeir Kidlíngr [4]), Örnúlfr Jónsson, Már Eyúlfsson, Halldór Galpin [5]), Kodran Pálsson, [Þórarinn Grautnefr, Þórir Rödd ok fór hann út fyrir á Fagranes á neósn ok kvadst mundo kaupa skreid til handa Bergþóri bónda or Hèradsdal, grunadi hann eingi madr, ok eru nú tíu menn, Eindridi Kórmaksson [6]), Markús Gudmundarson, Eyúlfr Steinúngi, Hvopta-Kolr, Þórdr Kröbbúngr [7]), Ögmundr Priónn, Bángar-Oddr [8]), tveir Isleifssynir [9]), þeir kvamo á Fagranes ok varo á þridia tugi manna. Þá var biskup ok hans menn undir bordum ok matr á bord borinn, en ei tiltekit. Þá beó Brandr Þiódúlfsson á Fagranesi. Þeir gèngo flestir í stofuna. Biskup bad í brott bera matinn, ok sva var giört. Þá tók Oddr til máls: því er ek hèr kvaminn, herra, segir hann, at ek vil at vèr sættumst, vil ek beóda af minni hendi at rída af hèradi ok mínir fèlagar, ef ydr þykkir sva betr, en heitit mèr því í móti, at brennomenn kvami ei á hèrad sva at bóndum verdi mein at. Biskup kvadst þat ei mega ábyrgiast. Oddr beiddist sættar med nokkro móti. Biskup bad Odd rída af sveitum þessum ok austr til fiarda ok bæta Þorsteini rán þat er Oddr rænti hann. Oddr kvadst þat ei mundo giöra, munut þèr víst ei einir öllu ráda. Hvopta-Kolr segir sva, at biskup vildi þat eitt reyndar at fara med þeim, [er hann lítt armveitigr [10]) um

1) Frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
2) vantar í sömu.
3) eptir Maríumessu er. *B. E. Gr.*
4) Keilíngr. sömu.
5) Galapín. *St.*
6) Þormódsson. *B. E. Gr.*
7) Kvolb. *B. E. Gr.*
8) Baugar-Oddr. sömu.
9) Asleifarsynir. *B. E.* Asleifar. *Gr.* Frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
10) er hann liti örmáttugr. *A. C. St.* þ. kvad hann lítt armvitkan. *B. E. Gr.*

flest, ok lítt harmadir þú þótt menn væro inni brendir á Flugomyri, segir hann. Biskup segir: víst harma ek þik, ok þat harmak at sál þín skal brenna í helvíti, ok viltu[1]) þat, því er verr. Sva hardnadi talit sem þeir höfdu lengr talat. Þá gèngo þeir at pallinum innar Oddr ok menn hans ok lögdo hendr á biskup Hvopta-Kolr ok Þórarinn Grautnefr. Oddr kvad þat öllum mönnum úrád skyldu at halda biskupi, en biskup hafdi á sèr sull, ok vard honum sárit vidkvæmt, er þeir tóku á honum. Þeir höfdu einga vidtöko er fyrir varo, ok því treystust eingir, fór biskup þá út med þeim, allir mátto þat seá at hann var miök naudigr. Sumir menn Odds gèngo út or stofunni þegar þeir sá í hvad fór, Ögmundr Priónn[2]) ok Einar[3]) Þormódarson[4]) stigu á hesta sína ok ridu sudr á völlinn. Var biskupi þá búinn hestr til reidar, Þórarinn prestr Kaggi fór med honum, þeir ridu um náttina upp á Flugumyri. Þeir Oddr færdo biskup upp á virkit þat er Kolbeinn Ungi hafdi giöra látit, vóru þar þá enn hús nokkur, var biskup í þeirra valdi nokkrar nætr. Þessi tídindi spurdust brátt, sömnudust þá saman gódgiarnir menn bædi norrænir ok íslenzkir. Asbeörn Illhugason var fyrir hèradsmönnum, vóru þeir nær tvö hundrud manna. Oddr hafdi þá mannfátt. Fóru nú menn milli þeirra, vóru Austmenn hardir í tillögum, vildu þeir beriast til biskups, ef hann væri ei skeótt laus látinn. Asbeörn sendi ord Oddi leyniliga ok bad hann greida til um þetta mál, ok sva vard, lèzt Oddr þetta giöra mundo sakir bænda í Skagafirdi, var biskup þá laus látinn ok fór hann heim til Hóla. Þessa stund, er biskup var ei siálfrádi, vóru hvergi tídir súngnar vid tón ok hvergi hríngt í hans biskups syslo. Páll Kolbeinsson frá Stad ok Hallr Þorsteinsson [or Glaumbæ[5]) ridu frá búum sínum sudr um heidi, var Páll um vetrinn med Birni Sæmundarsyni [á Velli[6]) módurbródur sínum, Hallr var í Odda med Sigrídi[7]) systur sinni. Oddr Þórarinsson reid brádliga sudr um heidi ok þeir menn med honum flestir er

[1]) vittu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) príor. *A.* [3]) Indridi. *B. E. Gr.*
[4]) Þórarinsson. *E.* Ögmundr Priónn ok Þormódr. *St.*
[5]) vantar í *A. C St.* þ.
[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[7]) vantar í *B. E. Gr.*

med honum höfdu verit í Fagranesi, fór hann þá [1]) til þess er hann kvam austr í feördu ok settist á Valþiófsstadi ok var laungum fálátr medan hann var þar heima. Ekki er þess gètit at þeir Þorvardr brædr findust.

16. Nú er at segia frá þeim Eyúlfi Þorsteinssyni ok Rafni Oddssyni, þeim kvam ordsendíng Henreks biskups at þeir kvæmo nordr at frelsa hann af ánaud þessi ok kvama Oddi af hèradi, þvíat hann þverknytti þat þann tima er hann sendi þann mann Rafni ok Eyúlfi at hann mundi laus verda ok rekinn utan. Nú sendu þeir Rafn ok Eyúlfr ord Þórgilsi, ok fundust þeir á Eyri at Snorra, beiddu þeir hann nordr ferdar med sèr, en Þórgils lèzt fara mundo, ef þeir ynno honum at sitia í Skagafirdi, ok því iátto þeir, ef þat væri samþykki biskups ok bænda, enda fengi þeir stökkt Oddi or hèradi ok [2]) drepit hann. Þórgils sendi eptir Sturlu frænda sínum, ok brá hann þegar vid ok samnar mönnum. Rafn sendi eptir Þorleifi, ok fóru Borgfirdíngar med honum ok höfdu mikinn flokk, þar var ok Vígfús Gunnsteinsson med Króksfirdínga, Einar Þorvaldson med Isfirdínga, Seldælir ok synir Gísla af Raudasandi, Strandamenn ok Steingrímsfirdíngar, var þessi ferd um haustit eptir Maríomesso hina sídari, var á því vorpit at í flokki þessum mundu vera þrettán [3]) hundrud manna. Drógo þeir her þenna nordr um land, en er þeir kvamo í Vatnsdal, var þeim sagt at biskup var látinn laus, en Oddr ridinn af hèradi, ok visso menn þat þó úgiörla ok var ei dreift flokkinum [4]). Þórgils reid um kveldit á Audkúlustadi, en þeir ridu til Svínavatns Einar Halldórsson med sveit manna, ok var þeim þar vel fagnat, þar beó þá Kolþerna Einarsdóttir systir Kolbeins í Grímstúngum. Þau Einar ok Kolþerna vóru systrabörn, vóru þeir saman fiörutygi, hafdi Þórgils [5]) mælt, at þeir skyldu vera til hlífdar vid hana hvat sem at kynni bera. Madr hèt Ari son Smid-Skèggia, hann átti dóttur Kolþerno, hann reikadi á hladino um kveldit. Þá rido þeir þar

[1]) í hrídinni. *B. E. Gr.*

[2]) eda. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) átta. sömu.

[4]) gèkk sva sögn at Oddr mundi ridinn til Austfiarda, bæta vid *B. E. Gr.*

[5]) Einar. *C. St.*

at Rafn Oddsson ok Eyúlfr med flokk sinn, Eyúlfr lióp af baki ok mælti vid fylgdarmenn sína: takit hann Ara ok látit hann beria. Hámundr Vatnsbelgr [1]) vard skiótastr ok fèkk tekit hann ok hèllt honum, en fylgdarmenn Eyúlfs knyllto [2]) hann med keyrum. Þá kvam madr inn ok segir, at Eyúlfr Þorsteinsson ok menn hans vóru kvamnir úti ok hröktu Ara mág húsfreyo, ok kostit [3]) þèr Einar ok dugit honum, ef þèr megut. Einar spratt þá upp ok þeir fèlagar ok tóku vapn þau er nærst vóru hendi, lupo þeir þá út, Steinn Arnórsson [4]) ok Jón, vard hann skiótastr, lióp hann undir Hámund ok tók hann upp ok keyrdí nidr mikit fall, vard Ari þá laus ok leóp inn, Eyúlfr kastadi eptir honum búklara ok kvam á dyrastafinn, varo þeir Einar þá kvamnir í dyrin. Eyúlfr bad menn sína inn laupa ok taka hann Ara. Einar kvad honum þat mundo [med kaupi [5]) at sinni, höfum vèr [íllri heilli ydvarn flokk fylldan [6]), ef venzlamenn varir skulo vera hraktir í höndum oss, ok skulum vèr vera hraktir fleiri, ef hann er. Var nú stadar numit ok gèngit ei at, þá reid Rafn at í því ok spurdi hvat þeir ættust vid, en honum var sagt. Þá mælti hann: ridum vèr, Eyúlfr, opt munum vèr kost eiga at giöra vid Ara þat er vèr vilium, þótt vid beriumst ei vid heimamenn okkra. Sídan ridu þeir Ögmundr Isúlfsson ok þeir fèlagar þar at, þeir höfdu tekit hest frá Bearna á Audkúlustödum, en Þórgils bad Þórd rída til þeirra ok taka af þeim hestinn, hann giördi sva, ok færdi aptr á Audkúlustadi. Ridu nú um kveldit allir flokkarnir nordr yfir Blöndo ok lágo þar um náttina í saudahúsum, en giördo niósnarmenn í Vatnsskard at vita þadan sönn tídindi. En er menn höfdu af hestum tekit, settust menn nidr, spurdi Rafn Þórd ef hann gèngi vid því, at hann hefdi hrakt menn hans um daginn ok rænt? Þórdr kvadst vid því gánga, at hann heimti hest Bearna er þeir höfdu tekit. Rafn kvad úfimliga [7]) stiórn mundu um flokka þessa, ef hverir skulo ræna adra, en vit þat víst, at þèr skal skamt til meiri hrakn-

1) Varbelgr. *A. B. E. Gr.* Þ. Valbergr. *C. St.*
2) knyttu. *St.*
3) komit. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) vantar í sömu.
5) miskaupi. *B. Gr.*
6) illa fylgt ok fyllt ydvarn flokk. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) úfímliga. sömu.

íngar, brá honum ok því at hann hefdi stadit yfir vígi Valgardar fóstursunar síns ok mörgu ödru, kvad ok makligt at hann findi sik fyrir. Þórdr kvadst ei standa mundi kyrr fyrir mönnum Rafns, ef þeir væro iafnlida, kvadst ei vita at annat sinn mundi betr tilfallit en nú. Rafn mælti: þú iafnyrdir mik, en þèr, Ögmundr, er ok ílla farit, ert manna íllgearnastr, en þorir þá ei er þú þarft til at taka. Vígfús mælti stundar hátt: sitto, Ögmundr. Sturla mælti þá: ekki er þat rád, Rafn, at hrekia Þórd um þetta, var þetta annara manna naudsyn, er honum [1]) hefir málaefni giört, en ef þú lætr drepa Þórd múg varn, þá munum vèr freysta at vèr kvamum í hel nokkrum mönnum fyrir þèr. Skutust þeir Rafn ok Sturla á nokkrum ordum ok þótti sinn veg hverium. Þórgils bad sína menn uppstanda ok gánga brott. Stód Þórgils þá upp ok Sturla ok menn þeirra ok gèngo annan veg á túnit, lögdust þeir þá nidr med vapnum sínum ok klædum. Þórgils lèt nokkura menn vaka um náttina, ok um morgininn snimma ridu allir flokkarnir til Bólstadahlídar, ok stigo menn af baki ok ádu, en höfdíngiar gèngu á tal, gèkk Þórgils tregr til, en þó fór hann, vóru þeir fiórir saman, Þórdr ok Einar ok Bergr. En er þeir settust nidr, spurdi Rafn: skulu allir þessir menn hèr vera? Þórgils svarar: vèr skulum allir hèr vera edr allir brott gánga, settust þeir nidr ok vard lítit af tali, en þat var helst rádit at þeir mundo rída til Skagafiardar ok hafa þar hèradsfund drottinsdag. Laugardag í ymbrodögum um haustit reid Rafn ok Eyúlfr í Gèldíngaholt med sína flokka ok Þorleifr [2]) med þeim, Þórgils ok Sturla rido á Vídimyri, Vígfús reid til Sæmundarhlídar, Gudlaugr Oddsson ok Seldælir, [Audun ok Snörtr [3]) í Glaumbæ. Þá sendu þeir Eyúlfr mann til Hóla, ok fundust þeir biskup Rafn ok Eyúlfr [4]). Nidri var fundr mánadaginn á Hestaþíngshamri, kvamo þar þá allir þessir flokkar ok mart hèradsfólk, þar kvam Henrekr biskup. Þórgils Skardi fór til tals vid biskup ok töludu tveir skamma ríd, ok þá stód Þórgils upp ok segir alþydo [5]), at honum þótti ei efnt vid

[1]) hann. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Þórgils. *A. C. St.* þ.

[3]) vantar í sömu.

[4]) nidr í Hegranesi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) í hávada, bæta sömu vid.

sik þat er honum var heitit, at hann skyldi setiast í Skagafiörd. Rafn spurdi hverium hann vildi kènna þat mest? Eyúlfi, segir Þórgils, [hversu sem enn fara skipti vor[1]. Eptir þetta var eydt flokkinum, reid Þorleifr[2]) sudr, en Vígfús ok Einar vestr, Rafn ok Eyúlfr nordr til Eyafiardar, ok sva Sturla ok Þórgils ridu nordr til Gása til kaupa ok brádliga vestr aptr. En er Þórgils reid nordan, sendi hann Þórd til Asbearnar ok vildi vita hvern stirk hann skyldi þar eiga, ef hann leitadi aptr til hèrads, fannst Þórdi þat í svörum Asbearnar, at hann tók á öllu hræddr[3]), en kalladi þat þó nærst síno skapi at þeóna Þórgilsi, sagdist ok ei vita drauma sína ef Þórgils yrdi ei höfdíngi yfir Skagafirdi, [en kvadst þat rád áleggia, at Þórgils sæi um hèrad í Skagafirdi[4]) þenna vetur, ok siá sva fyrst fyrir hverio rymdi, ok kalladi sèr sva hug um segia, at mikil breytni mundi á verda þenna vetur, en þó lauk sva, at Asbeörn hèt slíkum hlutum ok stirk sem hann beiddi ok hann mætti sèr vidkvama, þó at hann leitadi sídan aptr til hèrads. Ridu þeir þá heim til Stadar ok sátu um kyrrt.

17. Þeir Rafn ok Eyúlfr settust á Grund í Eyafirdi. Brátt reid Asgrímr ok Eyúlfr nordr yfir Vödlaheidi, sneri Eyúlfr med fimtán menn til Reykiadals á Helgastadi, þar tóku þeir Halldór Galpin um morgininn í badstofo ok drápu hann, en þeir Asgrímr tíu saman ridu til Laxárdals til Þverár ok tóku þar Jón son Eyúlfs prests Svalberdíngs ok hiuggo hönd af honum, þvíat hann var frændi Gissurs ok hafdi verit í ferd med honum, ridu sídan aptr til Eyafiardar á Grund ok flutto þángat faung at sèr. Þeir vóru stundum um vetrinn á Mödrovöllum í Hörgardal at búi Eyúlfs, ok varo heldr úspakir um vetrinn. Fóru þá menn midli þeirra Henreks biskups um vetrinn, fór iafnan allt vingearnliga med þeim.

18. Oddr Þórarinsson fór af Valþiófsstad þenna vetur þegar fyrir iólaföstо, ok fór allt hit sydra ok kvam at iólum í Haukadal til Þóris Totts, ok var þar vid þeim vel tekit, þadan fóru þeir

[1]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.
[2]) Þórgils, sömu.
[3]) tæpt. *B. E. Gr.*
[4]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

þórir [fimta dag ióla [1]) med þriátygi manna [2]) nordr á feall. þá giördi á harda vedrátto ok hrídir á feallino, ok hinn siöunda [3]) dag ióla höfdu þeir hríd, tók þá lidit at dasast miök. þorgeir Kidlíngr lagdist þá fyrir, ok kvamust þeir ei med hann, dó hann sudr frá Hvínveriadal [4]), Gudrún var módir hans dóttir Alfheidar Tumadóttur, var hann þar kasadr. Oddr bargst vel á feallino ok gaf mörgum mönnum líf ok limo, ok lypti á bak fólkino í fiúkino ok í úfærdinni er ei vurdo siálfbearga, þeir kvamo í Hvínveriadal ok varo þar um náttina fyrir hinn átta dag. Um daginn eptir fóru þeir or Hvínveriadal, var þá vedur nokkro lèttara, ok er þeir varo skammt kvamnir, þá kvam hræliós á speót þeirra giörvallra, ok var þat lengi dags. Tíunda dag ióla kvamo þeir síd um kveldit ofan í Svartárdal, varo þá margir miök þrekadir af kulda, þar skiptust þeir á bæi í dalnum ok hvíldust þar tvær nætr. þadan fóru þeir tólfta dag ióla [5]) ofan í Bólstadahlíd til þorvardar Arnasonar. þrettánda dag ióla ridu þeir til Skagafiardar, ok var Oddr á Vídimyri, þórir Tottr á Reykiahóli. Sendi Oddr þá bod um hèrad ok lèt menn uppkveda, kvamo brátt menn til hans, fór Oddr med flokkinum ofan í Gèldíngaholt, ok varo þar miök viko. Var þá höggvit fè [6]) Kolfinno húsfreyo ok etit á medan vannst. þá kvam lid til Odds ok var mart lausligt. Fóru margir heim um kveldit þeir er heimili átto skamt þadan. Asbeörn Illhugason kvam til móts vid Odd í Gèldíngaholt med sveit manna, ok giördi sik gladan vid Odd í lidveizlo, en Asbeörn var þó fyrir austan vötn med sveit sína, kvadst þar vera mundo þartil er þeir væro búnir at rída nordr á sveitir, þvíat Oddr ætladi nordr at þeim Eyúlfi þegar hann þættist búinn. Fliótamenn [7]) kvamo utan til móts vid Odd, Einar or Hvammi Steingrímsson ok þeir tíu saman.

19. Eyúlfr ok þeir Rafn sátu á Grund med sveit sína, þá gèngo neósnir um ferd Odds, sendu þeir menn út í Svarfadardal

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) 25 saman. sömu.
[3]) siötta. sömu.
[4]) Vinveriadal. *A. B. E. Gr.* þ. Vínberiadal. *C. St.*
[5]) þrettán saman, bæta vid *A. C. St.* þ.
[6]) bú. *B. E. Gr.*
[7]) fleiri menn. *A. C. St.* þ.

í lidsamnad. Þórgils Hialtason frá Urdum ok þeir tólf saman fóru inn til Eyafiardar til móts vid þá Eyúlf ok Rafn, þeir fengo nær áttatygi manna. Guttormr Körtr [1]) kvad þá víso er þeir biuggust til ferdar, hann var þá med Rafni frænda sínom.

Fold skal fregna aldrei,
fagurleit dígulsveita,
gladir hyggiom [2]) svan sedia
sárs, úgledi vára,
þó at valnístendr [3]) vestra [4])
vigrar [5]) seids um heidar,
lítt hyggr ferd á flótta,
[fridvan segi [6]) granna.

Þeir ridu til Hörgárdals um kveldit af Grund, reid Eyúlfr á Mödruvöllu, en Rafn í Fornhaga. Þá dreymdi Rafn um náttina, at hann þóttist úti vera þar í Fornhaga, madr gèkk at hónum mikill, Rafn þóttist spyria hver hann væri? hann kvadst Höskuldr heita. Rafn spurdi hversu fara mundo med þeim Oddi málaferlin? hann svarar: sva sem glíman man fara med okkr. Þessi madr rann á Rafn ok þóttist hann í fyrsto forvida verda, en þess at fastari þóttist hann fyrir verda sem þeir höfdu lengr atgèngizt, ok Höskuldr hrökk allr fyrir um þat er lauk. Þá vaknadi Rafn ok sagdi Guttormi Körti drauminn. Guttormr mælti: hvert þótti þèr hann seint leida namn sitt edr skiótt? Víst heldr seint, segir Rafn. Þá kallak hann Haust-skuld [7]), segir Guttormr, ok munum vèr nú gealda Oddi haustskuldina [8]), er hann tók á hausti Henrek biskup ok fè Þorsteins bónda í Hvammi, ok þat hefir hann sagt, at sva mundi fara med oss Oddi sem glíman fór med ykkr, ei kann ek ödrovís at ráda þenna draum. Glíkliga er upptekit, segir Rafn. [Siöunda dag frá þrettánda degi [9]) ridu þeir upp um Hörgárdal ok áto mat í ofanverdri [10]) bygd, þeir ridu til Hialtadalsheidar, ok er þeir

[1]) köttr. *C. St.*
[2]) hiuggum. sömu.
[3]) valmstendr. *B. C. E. Gr. St.* þ. valstemdr. *A.*
[4]) vestr. *C. St.* vestan. *A. B. E. Gr.* þ.
[5]) vidar. *B. E. Gr.*
[6]) fridvanliga. sömu.
[7]) Haustkulda. *E.* [8]) haustkulda. *E.*
[9]) En geisladag. *B. E. Gr.*
[10]) fyrir ofan nyrdri. *C. St.*

kvamo upp á heidina, kèndu þeir at lit brá. Rafnar tveir flugo med þeim um alla heidina. Rafn kvad þat sèr vel líka er nafnar hans varo med þeim í þat sinni. Þá kvad Þorvardr Trèfótr víso:

Brands flugo [1]) tveir med tyri
tafns leitandi rafnar,
oss bydr Oddr hinn hvassi,
álmskúr ok dyn hiálma.
Enn man örva [2]) senno [3])
Eyúlfr búinn heya,
en geir-ríd at gæda [4])
gèt ek minnst at vèr letiom.

Ok er þat sannast sem mælt er, at á mörgo henda spakir menn mid. Góda átto þeir færd um heidina ok sva um hèrödin, bar því skiótt yfir ferd þeirra, var lidit vel búit, en formennirnir einhardir ok skèligir um allt þat er þeir vildu at hafast, tóku þeir þá á reid mikilli. En er þeir kvamo ofan í dalinn, ádu þeir litla stund ádr þeir ridu upp [5]) eptir hèradino. Þeir kvamo nokkrir í Ás í Hegranes ok höfdu sanna frètt at Oddr var í Gèldíngaholti ok á ödru hundradi manna med honum ok þá lid hans hèr ok hvar um hèradit.

20. Oddr sendi menn geisladag ofan á Hafsteinsstadi til Jórunnar Kálfsdóttur er þar beó ok lèt fala at henni naut nokkur til matar mönnum um kveldit, [þá var friádagr eptir [6]). Jórun sendi honum uxa fimm vetra gamlan, var hann drepinn ok etinn þegar um kveldit. Oddr lá í almannastofu um náttina, ok sva mart manna sem stofan tók vid. Oddr svaf lítit um náttina ok saung lengi ok las psaltara sinn. Rafn ok Eyúlfr ridu med flokk sinn upp eptir ísinum, ok er þeir ridu utan at vellinum, reid Svarthöfdi í fyrra lagi Dugfússon ok Jón Járnbúkr ok nokkrir menn med þeim. Hestr Svarthöfda rasadi er hann reid at túngardinum, ok stökk hann af baki ok liόp skiótt á hestinn fyrir aptan södulinn ok sídan

[1]) fliúga. *B. E. Gr.*
[2]) orna. *A. C. St.* þ.
[3]) sinnu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) græda. *A. C. St.* þ.
[5]) ofan. sömu.
[6]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

reid hann heim í túnit. Einn madr af lidi Odds sá er Tosti hèt hafdi farit um náttina til hesta út á völlinn, hann vard fyrstr fyrir lidi þeirra Eyúlfs, Sveinn Eyþiófsson [1]) lagdi hann spióti til bana. Eptir þat ridu þeir heim á bæinn ok hlópu af hestum millum kyrkiogards ok útibúrs þess er stód út ok ofan frá brandadurum í túnit. Þeir gèngo þá hliódliga heim at durum ok allir menn þeirra med dregludum stálhúfum. Kona hèt Aungul-Þóra, hon vard fyrst vör vid úfridinn ok gèkk skiótt til stofunnar, vóru þá margir menn vaknadir ok töludu um med sèr, hvar nordr í sveitum þeir mundo finna þá Rafn ok Eyúlf, hon svarar Þóra, at ei mundi lángt at leita þeirra, þvíat nokkrir menn kvamo í túnit med dregludum stálhúfum ok biörtum brynium. Lupo þeir Oddr þá upp skiótt ok tóku vápn sín er þar hèngo í stofunni ok lupu fram til útidura. Eyúlfr ok Rafn gèngo at brandadurum ok fylgdarmanna sveit þeirra, Asgrímr gèkk at eldhúsdurum ok Svarfdælir med honum, Svarthöfdi Dugfússon at synnstum durum [ok þeir Kvistúngar [2]). [Jón Járnbúkr leóp fyrst upp at durunum ok þeir Kvistúngar [3]), Jón dúdi spiótit inn í dyrnar ok spurdi, hvert skölli væri inni? Þeir Oddr lupo nú í durin ok fylgdarmanna sveit hans med honum ok mart annara manna, Hallageir ok Sumarlidi hinn sterki, Einar Þormódarson, Már Eyúlfsson, Hiálmr af Vídivöllum, Einar or Hvammi Steingrímsson, þessir ero nefndir med Oddi í brandadurum. Skipadi hann nú til varnar sínum mönnum. Þórir Tottr [4]) ok sveit manna med honum liópo í eldhússdur ok vardi þar. Steinúlfr Þórarinsson [5]) vardi synnsto dur ok sveit manna med honum. Nú vörðo þeir hverir sem skipat var, en sóttó þar at hverir sem fyrr var sagt. Tókst nú hardr bardagi, veitti Oddr góda vörn ok hans menn miök lánga ríd, en sumir hlífdust vid miök. Þá mundi þridiúngr lifa nætur er þeir tóku at beriast. Þraungt vard þeim Oddi í durunum ok úhægt vörn vid at kvama. Eyúlfr Þorsteinsson [6]) hlóp brátt uppá húsin ok nokkrir menn med honum ok rifu

[1]) Eyúlfsson. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) ok sveit manna med honum. *B. E. Gr.*

[3]) frá [ vantar í. *A. G. St.* þ.

[4]) Þórdr Köttr. *C. St.*

[5]) bródir Odds, bæta vid *A. B. C. F. Gr. St.* þ.

[6]) Þórdarson. *A. C. St.* þ.

þakit, lögdu þar inn ok grytto, vard þeim Oddi þat skeinusamt, vurdu þá margir sárir [bædi af greóti ok vapnom[1]). Þórir Tottr veitti harda vörn um ríd, hann var í pansara öruggom ok stálhúfa norræn á höfdi ok spiót mikit í hendi, ok lagdi því bædi hart ok tíduin. Þórir var skamma ríd í durunum ok stökk hann út eldahússdurin ok nokkrir menn med honum, Þórir kvamst í kyrkio, ei þykkiast menn sèt hafa hverio faraldi er hann kvamst í kyrkio. Med honum leóp út Þórarinn Grautnefr, ok er hann kvam ofan í kyrkiogárdinn, mælti hann: strauk hann ydr þar Grautnefr, segir hann. Þá var kastat eptir honum búklara ok kvam í knèsbætr honum ok fèll hann á bak aptr, lupo menn þá til af lidi Eyúlfs ok drápo hann, þá var ok veginn Þórir Rödd, þeir varo bádir Fagranessmenn, ok er þeir varo útgèngnir, þá var gèngit í eldahússdyrin, gèkk þar inn Rafn Oddsson ok sveit manna med honum. Oláfr Oláfsson var med honum, Guttormr [Körtr, Audun Thómasson[2]) ok Snörtr bródir hans, Ari Ingimundarson, Halldór Greppr ok Erlíngr[3]) bródir hans[4]). Eggiadi Rafn þá menn sína, at þeir skyldu trúliga rydia skálann, ef þeir kvæmo í skálann. Þá var fyrir í skálanum Þorbeörn Þórúlfsson af Ríp[5]), ok var hann lagdr med spióti til bana. Már Eyúlfsson var þá í skálanum, hann lióp upp í stafnrekkio vid sydri skáladur ok vardist þadan vel ok drengiliga, sva at hans vörn hafa margir vidbrugdit þeim er kunnast var um. Rafn hió til hans ok í setstokkinn, en Már heó um þverar herdar Rafni, er hann laut vid er hann vildi ná sverdino or stokkinum, ok vard höggit lítit, er honum var úhægt til at höggva yfir bríkina, ok vard Rafn ekki sár. Már leóp þá úr hvílunni fram ok kvamst í andurit til Odds. Þorbeörn Sælendíngr[6]) Snorrason vardi brandadur med Oddi, ok var þá enn eí eptirbátr vaskra manna[7]). Þorbeörn stód í durunum hiá Oddi, hann var í pansara ermlausum ok hafdi skiöldinn fyrir sèr í vinstri hendi, en va med sverdi hinni hægri hendi. Audun

[1]) frá [ vantar í *B. E. Gr.*

[2]) vantar í sömu.

[3]) Eyríkr. sömu.

[4]) frá [ vantar í *A. C. St.* þ.

[5]) Ríf. *A. C. St.* þ.

[6]) Seldælíngr. *C. St.* Snælendíngr. *Gr.*

[7]) þar er karlmennsko skyldi fremia, brøta vid *B. E. Gr.*

Thómasson [1]) Seldæll [2]) heó med sverdi til Þorbearnar á hendina vinstri fyrir ofan olnbogann, þat var mikill áverki. Audun mælti: skall þar einum! Þorbeörn svarar: lítt var þat! en Þorbeörn hafdi ádr vegit Þórarinn bródur hans á Haugsnessfundi, en þó kèndi Audun ei Þorbeörn, en Þorbeörn vissi giörla hver á honum vann, sagdi hann sva ok sídan, at hann var af honum makligastr áverka at taka allra þeirra manna er þar vóru. Þeim Oddi vard þraungt miök í andyrum, rofin húsin yfir þeim, en sótt at þeim miök hardfengiliga öllummeginn. Oddr mælti vid menn sína þá er honum varo nærstir at þeir mundo útleita, man ek laupa út fyrst, segir hann, en þèr fylgit mèr, ero þá mörg gód rád ef vèr kvamumst á vídan völl, ok látum ekki stánga oss hèr inni sva audvirdiliga, margir hètu at fylgia honum. Oddr lióp út or durunum, hann hafdi skeöld ok sverd ok stálhúfo, hann var í grænum kyrtli, sva var sem kólfi skyti er hann lióp út, kvamst hann ok lángt [3]) ofan frá durunum, skiöldinn hafdi hann yfir höfdi sèr, en sveifladi sverdino í hring um sik, hann var manna fimastr vid skeöld ok sverd allra þeirra er þá vóru á Islandi. Már Eyúlfsson lióp út eptir honum ok kvamst ofan í túnit hiá honum, ok er Oddr gat sèt Má, mælti hann: þar ertu enn gódr fèlagi, segir hann, skildi þá med þeim ok var þá margr um einn. Már hrökk upp at vegginum ok fèll hann þar fyrir vapnum ok var þó lítt sár, skaut hann yfir sik skildinum, en kreppti upp undir fæturna, vóru honum þá grid gèfin, ok bergr hverium nokkut er ei er feigr. Nú er Oddi veitt atsókn af mörgum mönnum, ok kvamo þeir lítt sárum á hann medan hann stód uppi, hann hlífdi sèr med skildinum, en va med sverdino ok sveifladi því um sik [4]). Illhugi Svartakollr son Jóns Markússonar lagdist til fóta Oddi ok giördi heptíng at, fèll Oddr þar ok þá mælti hann: prestsfund vildak í guds nafni, segir hann. Þat heyrdi Svarthöfdi Dugfússon er hann sat

[1]) vantar í *B. E. Gr.*

[2]) Seldælingr. *A. C. St.* þ.

[3]) skammt. sömu.

[4]) hann vardist sva frekliga, at varla finnast dæmi til at einn madr hafi betr varizt sva lengi fyrir sva margra manna atsókn. Eyúlfr Þorsteinsson var uppi á húsum, hann eggiadi miök sína menn ok sagdi þeim stóra skömm at þeir sóttu einn mann sva margir. bæta vid *B. E. Gr.*

á kyrkiostodinni [1]) ok margir adrir. [2]) Var þá unnit á Oddi, Nikolás Þórarinsson heó í höfud honum ok var þat banasár, Hallbeörn Hali Jónsson vann ok á honum, lèt Oddr þar líf sitt vid mikla hreysti ok drengskap. Þá var lyst nokkut er Oddr lèzt, ei flettu þeir hann [3]), var þá skotit skildi yfir líkit þar í túnino. Oddr var mikill madr vexti, ei mátti hann stirkvan kalla at afli, en þó var hann hinn knásti ok hinn fimasti ok best at íþróttum búinn [ok manna miúkastr [4]) — *) Þorvardi bródur sínum ok Kolbeini [5]) ——*). Oddr var liósiarpr á hár ok vel fallinn í andliti, bláeygdr ok manna best á sik kvaminn, blídr ok gódr vid alþydo ok ör af fè, manna var hann vapnfimastr, ok sva segir Þorvardr bródir hans, at þat var eingis manns færi eins á Islandi at skipta vapnum vid Odd. Þótti öllum mönnum mestr skadi at honum þeim er hann var kunnastr. Eyrekr hèt madr austfirzkr er Lióma var kalladr, hann var veginn í útibúri því er stód nordr frá brandadurum, var þar atsókn mikil um náttina, fleiri menn vóru þar særdir í útibúrino, Hallageir var miök sár bædi í höfdi ok annarstadar. Brandr hèt madr er kalladr var Hrúga, hann lagdi höndina uppá þilit hina hægri, þá var höggvit á hendina ok tók af fióra fíngur vid þilinu allt uppi vid knefann, kènna flestir Hámundi Vatnsbelg [6]) þenna áverka. Atta menn lètust í Gèldíngaholti med Oddi, [Kollsveinn Krabbi, Þorbeörn Þórúlfsson, Tosti, Þórarinn Grautnefr, Þórir Rödd, tvo nefnik eigi [7]). Flestum mönnum vóru grid gèfin þegar Oddr var fallinn. Oddr var nær hálf-þrítugr er hann fèll. Menn Odds flutto líkama hans upp til Seilo ok grafinn þar sídan undir kyrkiogardinum, en þó var eingi gröptr at þeirri kyrkio, ok sva lángt inn undir kyrkiogardinn. Þeir Rafn ok Eyúlfr ridu nordr skiótliga ok settust enn á Grund ok höfdu þar feölmennt.

[1]) kyrkiustèttinni, *B. E. Gr.*

[2]) Oddr var þángat til ekki miök sár, bæta sömu vid.

[3]) klædum, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) vantar í sömu.

*) eyda í handritinu.

[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) Valbelg. *B. E. Gr.* Valberg. *A C. St.* þ.

[7]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ., en hafa í stad þess: þó ei sè hèr nefndir.

21. Nú frèttust þessi tídindi, fall Odds, ok þótti Þorvardi bródur hans mikill skadi ok mörgum ödrum, þóat þeir brædur bæro ekki med öllu audno til samþykkis. Randalín Philippusdóttir, er Oddr hafdi átt, hèllt búi síno á Valþiófsstödum [1]), vóxu þar upp börn þeirra Odds med henni Gudmundr er Grís var kalladr ok Ríkissa dóttir, þau vóru bædi mannvænlig. Nú leid vetrinn af hendi ok varit, ekki hafdi Þorvardr mála tilbúnad eptir Odd bródur sinn. Þenna vetur er nú var frásagt rídr Þorsteinn Arnason [2]) ok Finnr af Sámstödum midvikudaginn í efsto viko út á Hítárnes, bad Þorsteinn Þórd at hann ridi med þeim til Stadar at leita um sættir med þeim Þórgilsi. Ridu þeir nú til Stadar skírdag, leitadi Þórdr eptir vid Þórgils, ef hann vildi nokkra sæmda unna Þorsteini fyrir handarhöggit, taldi þat til at hann hafdi sótt á fund hans nær einnsaman, ok þat annat at þá stód yfir sva mikill [3]) miskunnartími sakir píníngar vors herra Jesú Christi, ok var Þórgils heldr tregligr í fyrsto, en þó lauk sva at þeir sættust, ok skyldi Þórgils dæma. Sættust þeir þá med fullo ok var mælt fyrir trygdum, Þórgils giördi fimtán hundrud ok fèllu nidr sum fyrir gagnsakir, ok hèt honum síno vinfengi ok fulltíngi. Þórgils Skardi ok Þorvardr Þórarinsson vóru þrimenníngar at frændsemi, ok því kvam Þorvardi þat í hug at leita þángat lidsinnis edr nokkurs traustsz. Sendi hann þá mann austan um vorit med brèfum [til Stadar [4]) at leita eptir ef hann vildi nokkurn kost á giöra at veita honum lid at hefna Odds bródur hans, ok hann fengi fyrir víg hans fulla sæmd, vil ek þar ei góds til spara. Þórgils bar þetta mál fyrir Sturlu ok fyrir adra vini sína. Rèdst þat af at Þórgils stakk ei af um lidveizlo, en segir þat sva framt mundo rádast er þeir findist, en bad Þorvard siá fyrir fundi þeirra, vil ek hvergi af hèradi rída. Þetta sumar fyrir alþíng drógu þeir Rafn ok Eyúlfr flokka saman ok fóru sudr til Borgarfiardar, höfdu þeir frètt af at menn höfdu farit í millum þeirra Þorvardar ok Þórgils, settust þeir þá í Borgarfiörd med flokkana ok ætludu at Þórgils skyldi ei ná þángat [5]) reid, snero þeir þá á hann feandskap, var þat ok sva

[1]) Valþiófsdalsstödum. *A. C. St. Þ.*
[2]) Arnórsson. *B. E. Gr.*
[3]) sá hinn mesti. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[5]) Þíng- sömu.

at þórgils reid ei til þíngs ok ei Sturla, var þat þá mælt at farit mundi at þórgilsi ok mundi hann sæta afarkostum nokkrum, en ei vard af því. þá er þeir visso at þorvardr reid ei til þíngs, dreifdu þeir flokkunum, ridu þeir Eyúlfr þá nordr til sveita ok setto til Nikolás í Kalmanstúngo ok Eigil í Reykiaholti at giöra sèr niósn ef þeir yrdo vid nokkurn úfrid varir edr flokkdrátt.

22. þenna tíma kvam austan or feördum Magnús Jónsson frændi þorvardar, hafdi hann farit lítt med bygdum, en iafnan um nætr, gèkk því cingi neósn af hans ferdum fyrr en hann kvam til Stadar, skoradi hann [þá enn at nyo [1]) á þórgils til lidveizlo fyrir hönd þorvardar, segir hann þá at þorvardr mundi á ferd kvaminn austan ok vildi at þeir findist Margrètarmessodag á vestanverdri Bláskógaheidi, ok skyldi þórgils vera sva feölmennr, at þeir þættust færir þadan, hvert rád er þeir vildu upptaka. Var þorvardr þá heit-bundinn í því at sú ein skyldi vera sætt þeirra í milli Rafns ok Eyúlfs, at þórgils skyldi ná hèradi í Skagafirdi, sva at hann þyrfti ei þá at ugga. Sturla var þá ridinn vestr til Stadarhóls at giöra þar upp stofo, ok sendi þórgils heimamann sinn, at hann kvæmi vestan til fundar vid þá þorvard, ok því betr er hann væri feölmennari. Magnús hafdi kvamit til Raudsgils [2]) er hann fór austr aptr ok var hann þar kèndr. Höfdu þeir Nikolás [3]) ok Eigill á þesso neósn ok sögdu þeim Rafni ok Eyúlfi at þeim þótti útrúligt um ferdir Magnúsar, en höfdu einga sanna fregn af þorvardi. Reid Rafn þá nordan ok stefndi fund vid þorleif í ofanverdum Rútafirdi vid feöll uppi, kunni þorleifr ei annat at segia en allt væri fiandskaparfullt af þorvardi vid þá. þá mæltust þeir þat vid at þorleifr skyldi búinn til lidveizlo vid þá Rafn ok Eyúlf, þegar þeir þyrfto nokkurs vid. Rafn reid þadan til Saudafells ok spurdi at þórgils var at Stad, en Sturla at Stadarhóli, vard hann ei annars var en allt væri kyrrt í sveitum, reid Rafn nordr eptir þetta, en þorleifr var uppi í hèradi ok sat þar fyrir frèttum. þórgils Bödvarsson lèt stefna mannamót feölmennt at midsumarshelgi, kvam

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Raudagils, *Gr.* Gilsrauds, *A. E.* þ.

[3]) þorleifr. *A. B. E. Gr.* þ. þorvardr. *C. St.*

þar Einar Halldórsson ok mikit feölmenni, kvaddi Þórgils þá menn til ferdar med sèr, man ek rída sudr undir Hraun til Kráks ok til móts vid Sturlu frænda minn, kvaddi hann þá til þess er honum þótti best tilfærir fyrir vapna sakir. Vurdu þeir saman nær siötygi manna, var þar hinn fyrsti madr Einar Halldórsson frændi hans ok þar med bóndr adrir edr bóndasynir. Ridu þeir þegar af mannamótino sudr yfir feörur ok grunudu menn miök at nokkut mundi undir búa þessari ferd. En er þeir kvamo sudr af Selalóni, þá sendi hann Glúm [1]) Haflidason [2]) ok Bödvar Vermundarson [3]) á Hítárnes til Þórdar, bad hann kvama til sín upp undir Raun ádr sól væri upp kvamin. Kvamo þeir á Hítárnes um midnætti, vóru þar allir menn í svefni, þeir báro upp eyrindi sín er þeir kvamo, stód Þórdr þá upp þegar ok beó sik, þeir sögdu honum ei fleira, beóst hann því af skyndi miklo ok hafdi einga brynio, en önnur vapn hafdi hann. Med honum reid Þorkèll [4]) Brennir, ok er þeir kvamo undir Raun, var Þórgils ei upprisinn, ok er hann var klæddr, kalladi hann Þórd til máls vid sik ok segir at hann ætlar at rída sudr í hèrad til móts vid Sturlu frænda sinn, átu þeir þar dagverd á ymsum bæum ok ridu sídan. En er þeir kvamo á leid, þá spurdi Þórdr at nyo um ferd Þórgils, segir hann þá af hit liósasta. Hefir ek spurt, segir hann, at Þorleifr hafdist vid í hèradi ok skyldi halda neósnum fyrir þá Rafn ok Eyúlf, ef Þorvardr kvæmi sunnan edr Þórgils utan, þóttist hann hafa vargoldit Þorleifi fyrir úþokka þann er hann hafdi lyst vid hann í Borgarfirdi, ok sva fyrir þat er hann hafdi ætlat at fara at Þórgilsi um sumarit med þeim Rafni ok Eyúlfi. Um sumarit hafdi Rafn látit rída eptir Þórdi mági Þórgilsar [5]) ok lysti í því feandskap vid hann, en Þórdr setti undan vestr til Stadarhóls, er honum var ekki fært um dali fyrir Rafni, átti Sturla þar annat bú, en annat hafdi hann giört í Hítárdal um vorit, ok hafdi hann þat tregliga fengit af Katli ok þó naudúngarlaust. Sat Sturla um sumarit ymist á Stadarhóli edr í Hítárdal. Þetta var urdu þeir sekir á Þórnessþíngi

[1]) Glaum. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) vantar í sömu.

[3]) Vermund Bödvarsson, sömu.

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) Þórdar. *C. St.*

Gísli af Sandi ok synir hans, deildu þeir Seldælir um bergtoll af Bardsgnypo, veitti Þórgils Seldælum frændum sínum á þíngino, en þèr hèto honum í móti sínum stirk, ok er Þórdr kvam á Stadarhól, var þat til tídinda, at Sturla stód úti einnsaman, ok vóru menn at kasta steinum í stofovegginn, heilsadi Sturla honum ok spurdi hann tídinda edr hvat hann vissi at segia frá þeim Rafni ok Eyúlfi? Þórdr segir þat, at hann vissi þat til Rafns, at hann var þá kvaminn til Stadar í Rútafirdi ok þeir Þorleifr ok Rafn mundo finnast ok Rafn mundi rída til Dala ok vita hvat þeir Sturla ok Þórgils hefdust at, edr hve kyrrligt honum þætti vera í sveitum. Sturla kvadst siá at bióst til úfridar med þeim öllum, Þórdr bardi því nidr. Sturla kvad ekki skipta hvat þeir segi, því at nú í sumar man barizt vera, ok mano ei allir þadan frá tídindum segia. Madr hèt Helgi, [hann var kalladr Keis [1]), heimamadr Sturlu, hann var lítill madr ok audvirdiligr, hann kastadi torfi á stofovegginn, honum þótti torfit borit at sèr of-skiótt, var veggrinn hár, en hann úkröptugr ok gèkk honum ílla upp at kasta, ok vilit þèr sprengia mik, segir hann. Sturla mælti: gèfstu vel, fóstri, annat man þèr verda en þú springir af torfkasti, ok manto þó ei eiga lángt úlifat, þat gèkk sva eptir, at Helgi Keis var drepinn annat sumar eptir á Stadarhóli, þá er þeir Rafn ok Asgrímr sótto Sturlu heim. Þetta sumar sættust Seldælir ok Raudsendir, ok var Gísli ok synir hans iafnan vinir Þórgils sídan.

23. Nú er þar til máls at taka er þeir talast vid mágar Þórgils ok Þórdr. Þórgils kvad þat upp nú at hann ætladi at Þorleifi, kvadst frètt hafa at hann var kvaminn í hèrad ok vóru þeir optast saman tíu edr tólf. Þórgils reid þá sudr um Myrar þar til er hann kvam í skóginn sunnanverdan gègnt Galtarholti, stigu þar af baki, ok litlo sídar kvam Sturla þar, vóru þeir saman nær sextygi manna, en Þórgils hafdi siötygi manna, vóru þar med honum tveir Rafns menn Oláfr ok Grani Arnórssynir. Þeir Þórgils ok Sturla gèngo þá á tal ok nokkrir menn med þeim, þóttist Sturla spurt hafa, at Þorleifr hefdi verit drottinsdag á mannamóti þann sama at Furuósi, ok at allt væri

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

þar kyrrt í hèradino. Þá var ok nykvaminn vestan or Saurbæ Stari Kaupúngr, segir at [Sturla var á Stadarhóli ok mundi þar vera þar til er stofa hans vard uppgiör ok rída sídan heim í Hítárdal, hann kvadst spurt hafa at[1]) Þorleifr reid til Bæar drottinsdags aptan[2]), ok þat ord á, at hann mundi brátt rída út á Akranes, þegar hann spurdi kyrrt or öllum sveitum, þar var Þorkèll Rútr giör á nesn sudr yfir Hvítá ok skyldi hann forvitnast um ferd Þorleifs, lögdust menn þá nidr ok sofnudu, en er á tók at lída kveldit, lögdu menn á hesta sína ok rída svá sem götur lágo sudr til Vallavads. Kvam Þorkèll Rútr þar til móts vid þá ok hafdi spurt, at á nóni dags var Þorleifr í Bæ ok hann mundi þar vera um náttina. Þorleifr hafdi verit í laugo um daginn fyrir nón ok lagdist sídan til svefns sem vandi hans var til, ok er hann vaknadi, segir hann Bödvari bródur sínum at hann hefdi dreymt mart, ek þóttumst vera staddr hèr í Bæ ok þóttumst ek siá út á Borgarfiörd, mèr þótti skip mikit sigla utan eptir firdinum miök mikit ok leggia upp í Hvítá, ek þóttumst spyria mann er stód hiá mèr hver skip þat mundi eiga? en hann segir þat ætti Þórgils Skardi. Ek þóttist siá at flugo gneistar margir af skipino ok þótti mèr sumir fliúga ok dreifast híngat í Bæ, en sumir upp eptir Reykiadal ok sva nordr til fealla sem menn mátto auga reka[3]). Bödvar mælti: þat man vera, frændi, fyrir vedrum, en mèr lízt úfridligt, segir Þorleifr, bad hann þá taka hesta þeirra, vil ek rída heim, segir hann, út á Akranes. Þeir Þorleifr átu þar náttverd ok ridu sídan [um kveldit[4]) út í skógana fyrir Grióteyri ok sváfu þar um náttina, en ridu snimma um myrgininn út á Akranes heim ok höfdu einga frètt or hèradi. Þórgils hitti Þorkèl Rút, ok segir hann slíkt er hann var vís ordinn, þótti mönnum þat glíkast at Þorleifr mundi vera í Bæ. Þórgils varadi vid því alla menn mest at giöra Bödvari nokkurt grand ok sonum hans edr nokkrum hans varnadi sakir mágsemdar ok þó vinátto. Sturla var ei mikill vin Bödvars; þótti hann því rádit hafa at Kètill gèkk tregliga af Stadnum í Hít-

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) vantar í sömu.

3) á festa. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) vantar í *B. E. Gr.*

árdal. Þórgils kvad þat ei fyrir standa mundo, þótt Þorleifr væri þá í Bæ kvaminn. Ridu menn nú upp til Bæar ok kvamo þar miök sva um myrknætti, vóru þá útidur opnar, menn höfdu heyrt gnyinn, tók Bödvar þá klædi sín ok synir hans ok heimamenn. Gèkk Þórgils inn þegar ok menn hans. Sturla var úti ok hans menn ok svipast at rossum er úti vóru vid garda. En er Þórgils kvam í skálann, gèkk Bödvar bóndi í móti honum ok var þá klæddr, hafdi hann í hendi eggsi snaghyrnda. Bödvar spurdi hver þar færi sva úfridliga? þvíat nokkrir menn höfdu brugdit vapnum er inngèngo. Þórgils segir til sín. Bödvar mælti: þat mundak þèr sízt ætla at þú mundir híngat fara úfridarferd sakir vanda ok vidmæla [1]). Eingan úfrid ætlak þèr at giöra, segir Þórgils, ok eingum þínum heimamönnum. Þórgils spurdi hvert Þorleifr væri þar? Þá svarar Herdís húsfreya: því er betr, frændi, at hann er ei hèr, ok lát þèr fara sem best til Bödvars míns. Vel skal mèr til hans fara, segir Þórgils. Þar var fátt manna í skálanum, urdu þeir þá þess varir at Þorleifr var ei þar, ok hafdi hann brott ridit um kveldit. Snèri Þórgils þá út ok sva Bödvar ok synir hans, en nokkrir menn lupu inn ok [þriſo ofan sverd nokkur [2]). En er þeir kvamo út, þá gèngo þeir á tal Þórgils ok Bödvar ok nokkrir menn med þeim, taldi Bödvar á vid Þórgils um atreid þessa, en hann þóttist ei sakadr vid Bödvar, em ek eingi þinn íllviliamadr, segir hann, vil ek unna þèr sæmda fyrir ferd þessa sva at þèr líki vel. Bödvar mælti: ekki em ek nú miök fèþurfi, skortir þik meir fè en mik, tók þá vel at semiast med þeim mágum, segir Bödvar, at hann mundi veria Þorleif bródur sinn, þótt hann væri þángat heimsóttr, ef hann mætti því vid kvama, man ek ok veria þik, Þórgils, ef Þorleifr sækir þik heim híngat, hefir ek opt latt [3]) Þorleif at giöra samband med þeim Rafni ok Eyúlfi, ætlak ok at hann leidi einga sæmd af þeim, hefir ek þat tillagt med þèr, Þórgils, at þú skyldir Þorleifs med gódu leita, en hann því med gódu taka, ok hefir hvergi viliat hafa mínar tillögur. Þar urdu nokkrar rossa kippíngar [4]), ok vildi Bödvar at Þórgils færi med ross sem hann

[1]) vinmæla. *C. St.*

[2]) báru út vapn nokkur. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) bannat. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) kífíngar, sömu.

vildi upp í Reykiaholt [1]), en hann vildi eingi ross liá Sturlu ok hans mönnum. Baudst Bödvar til medalgaungo med þeim Þórgilsi ok Þorleifi, Þórgils iátti því, man ek þín ord, segir hann, hèr um mikils virda. Ridu þeir Þórgils þá upp til Reykiaholts, höfdu þeir þá spurt at Eigill var heima, ætladi Þórgils at þá skyldi greidast um mál þeirra Eigils. Þeir Þórgils kvamo upp í Reykiaholt þá er miök var morgnat, en þat bar saman at þeir ridu frá Grímsstödum ok madr gèkk út í Reykiaholti sá er Kodran hèt ok var kalladr Skröggr [2]), hann sá rída marga menn vapnada eptir götunni frá Grímsstödum ok ridu heldr mikit, hann lióp inn ok segir Eigli at [feöldi vapnadra manna [3]) reid at gardi, lióp Eigill þá upp ok geymdi ei at klædast ok tók kyrkio lykil ok mælti: þar man vera Þórgils frændi ok ei horfinn heimsóknum vid mik. Kvamst Eigill í kyrkio ok lauk aptr hurdinni. Þórgils gèkk upp at kyrkiodurum, var þar Þórdr prestr kvaminn fyrir kyrkiodurin ok heilsadi Þórgilsi, en hann tók vel kvediu hans ok spurdi hann brátt at Eigli hvert hann væri heima? Prestr segir hann væri heima ok þá í kyrkio kvaminn. Þórgils mælti: satt manto segia ok kvadst sèt hafa veslínginn er lauk upp kyrkiohurdinni ok syndist sem ei væri klæd-margr. Prestr mælti: ei veit til hvers happs hætti, þó hann hefdi bedit, Þórgils minn [4]). Þórgils gèkk þá til manna sinna ok bad þá af baki stíga ok baud þeim öllum þar at vera, látit hesta ydar gánga í tún. Sturla kvad ei þat rád at giöra þat, þvíat [5]) Pètur postuli [6]) á töduna ok hefir hann ekki til saka giört vid Þórgils. Einar bóndi ok Bergr bádu menn af reka hestana vellinum, [ok Þórgils baud þeim um at þeir mundo fá menn til at annast hestana [7]). Þeir segia sva vera skyldo. Vóru þá hestar reknir af túni ok gætt úti í nesiom. Menn sveimudu þá þegar inni um húsin ok fundo drykk í kiallara Eigils ok sögdu Þórgilsi, ok vildi hann ei at drukkinn væri, vil ek, segir hann, eingo spilla láta. Fóru þá menn í milli þeirra Þórgils ok Eigils Bergr Amundason

[1]) Reykiahlíd. *Gr.*

[2]) Skruggr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) úfridr. sömu.

[4]) manna. sömu.

[5]) Sáncti, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) vantar í sömu.

[7]) frá [ vantar í sömu.

ok Þórdr prestr, [stódust þeirra þykkiur fiar[1]), þóttist Eigill eiga á Þórgilsi stórsakir fyrir heimsókn þá er hann hafdi þángat farit, þá er Þorsteinn var handhöggvinn. Atto þá margir gódan lut at, var einn af þeim Sturla Þórdarson frændi þeirra, Einar Halldórsson[2]), Bergr Amundason[3]), Þórdr prestr. Var Þórgils þá sva þver, at hann sagdi sva, at hann skyldi þar þat hervirki giöra at Eigil ræki allan aldur minni til, þótt hann hèldi lífi. Töldu menn þá um fyrir Eigli at meiri van væri at hans luti mundi þá því meir vid brenna, sem lengr stædi misþykkt þeirra. Lèt Eigill þá beida sèr grida ok þat fèkkst.

24. Gèkk Eigill þá út or kyrkio, töludust þeir frændr þá vid, baud Eigill dóm Sturlu á málum þeirra, taldi hann á Þórgils margar sakir ok sva um stadar ábúd[4]) ok feár-audn þá sem ordit hafdi um vetrinn er Þórgils tók vid búino ok úgreidd stód, ok atför í Reykiaholti, ok slíkar fiártökur sem þá höfdu vordit um vetrinn. Þórgils taldi á Eigil útrúnad[5]) mikinn ok fiörrád, kèndi honum ok mest af úþokka þeim er hèradsmenn höfdu til hans um vetrinn er hann var í Reykiaholti. En hvat sem þar var umtalat, þá vard þat at lyktum, at Eigill gèkk til handsala vid Þórgils ok seldi honum seálfdæmi, skyldi hann skipa öllum málum þeirra sem hann vildi. Lögdust þeir Þórgils þá til svefns ok allr flokkr þeirra, nema þeir menn er vöktu, en Eigill beó til greida, ok er Þórgils vaknadi, lèt hann syngia sèr messo *de sancta Margareta*, en er tídum var lokit, gèngo þeir í stofu, var hon vel tiöldud ok uppsettir beórar, var þá Eigill hinn gladasti ok beini hinn besti ok drukkit nokkut af alþiód. En er menn varo mettir, lèt Eigill kalla Þórgils ok Sturlu[6]) í litlu stofo ok sva mart manna sva at stofan var full, var þá drukkit fast ok veizla hin besta. Tiádu menn þá fyrir Þórgilsi hversu vel Eigli fór, hann tók því vel ok lèt sèr finnast um fátt. I þenna tíma kvam Högni Bödvarsson or Bæ ok nokkrir menn med honum, hann segir, at herra Brandr ábóti hafdi

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) bóndi. sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) ábyrgd. *E.*
[5]) átrúnad. *C. St.*
[6]) Einar Halldórsson ok fleiri menn, bæta vid *A. B.* | *C. E. Gr. St.* þ.

verit um náttina at Lundi [í Reykiadal [1]) ok hann var þá kvaminn í Bæ, ok hefdi Bödvar því ei þángat ridit, at hann vildi rída med ábóta þángat at álidnum degi. Þórgils tók blídliga vid Högna ok skipadi honum upp hit nærsta sèr. En er kvam at nóni dags kvamo þángat tveir menn, [Þórarinn hèt annar, en annar Jörundr Gèstr [2]), þeir varo sendir af Þorvardi Þórarinssyni [3]), sögdu at hann var kvaminn ofan at Raudsgili, vildi hann at Þórgils kvæmi til móts vid hann ok töludu um rádagiördir sínar, segia þeir at Þorvardr var med tíu tugi manna. Brá Þórgils vid þegar ok bad leggia á hesta, en er menn varo búnir, lèt Þórgils kalla til sín Eigil, gèngu þeir á tal, var þar vid Sturla ok Einar ok Bergr Amundason ok Þórdr Hítnesíngr, sagdi Þórgils þá upp giörd med þeim Eigli, var þat fyrst, at Eigill skyldi gialda stadnum í Reykiaholti fè þat allt er eydzt hafdi þann vetur er Þórgils átti þar bú, Þórgils skyldi rakna láta þat sem tekit var í Reykiaholti hit fyrra sinn, Eigill skyldi ok eingum manni veita í móti Þórgilsi, en giöra honum niósn, ef hann vissi honum háska van. Þórgils hèt Eigli trausti síno hvar sem hann kvæmi því vid. Á hverigan varo þar fègiöld skild, en þadan af skyldu þeir fella saman frændsemi þeirra ok fulla vinátto, ok hèldu þeir þat vel, þóttust menn þat brátt finna at Eigill undi vel vid. Þórgils kvaddi Eigil at hann skyldi rída med til móts vid Þorvard. Eigill baud honum þángat um kveldit ok þeim mönnum er hann vildi. Ridu þeir þá til Raudsgils ok var Þorvardr þar fyrir, var med honum Finnbeörn ok Ögmundr Helgason, Magnús ok Helgi Helgason, Sumarlidi hinn sterki, Þorgeir [4]) ok Oddr [5]) ok Ögmundr Priónn [6]), Oláfr frá Bustarfelli. Gèngo þeir þá á tal Þórgils ok Þorvardr frændr ok Sturla ok nokkrir menn, töludu þá um med sèr hvat í milli hafdi farit um vetrinn, ok greindi þá þar lítt á.

25. En er þeir höfdu talat um ríd, kvam þar rídandi Brandr ábóti ok med honum Bödvar or Bæ mágr hans ok þeir fimm saman,

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) vantar í sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) vantar í *B. E. Gr.*
[5]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[6]) Prím. sömu.

tóko menn vid honum blídliga. Abóti var fár vid þórgils, þótti honum ílla er hann hafdi farit med skari nokkro at Bödvari í Bæ, ábóti hafdi vitat ferd þorvardar. Tók þorvardr þá at leita lidveizlo vid þórgils, at hann veitti honum til hefndar eptir Odd, bródur sinn vid þá Rafn ok Eyúlf, taldi þar til frændsemi vid þá Odd, en ei sídr, þat er þeir Rafn ok Eyúlfr höfdu synt vid þórgils, ok at engi madr mundi sæmdum sínum halda medan þeirra umgángr [1]) væri ok ei yrdi lægdr þeirra ofstopi ok úiafnadr med nokkuro tilfelli, sóttak þík, segir þorvardr, at rádum, at mèr þótti þú glíkastr til nokkurrar lidveizlo hèr um, manto nú ok siá þann afla er ek hefir fèngit or Austfeördum ok væntir ek at góda raun mani gèfa, er þat þó miök lítit móti slíko ofrefli sem vid er at skipta, man ek þat syna vilia at mèr þykkir betr at þú stirkir mik til þessa. þórgils mælti: mèr lízt meira vandrædi á þessum lut, en ek giöri hèr um skióta orlausn, vil ek rádast hèr um vid herra Brand ábóta ok Sturlu frænda minn ok adra vini mína. Gèngu þeir þá bádir þórgils ok Sturla, ok kölludo þeir þá til Brand ábóta, þórgils kalladi til med sèr Einar [2]) ok þórd, ábóti kalladi til med sèr bródur Hemíng ok Bödvar or Bæ, spurdi þó ábóti fyrst at sættum þeirra þórgils ok Eigils, ok segir þórgils honum þar frá. Abóti mælti, at vel væri þótt Borgfirdíngar hlyto þúngt af þórgilsi, þvíat þeir vóru þá ílla [er hann var góds frá þeim verdr [3]). þórgils tiádi þá fyrir ábóta beidslo þorvardar ok alla þeirra vidrædo, bad hann leggia til heilrædi med sèr hversu hann skal svara um þetta vandrædi, man ek ydr best til trúa at þèr manut hafa vit ok gódvilia at ráda hèr um. Abóti svarar skiótliga: letia vil ek þik ok alla frændr mína ok vini at fara med úfridi á annara manna sveitir, en ekki skal þorvardr þat ætla ok ekki þú, at eigi [forþykki mèr þat [4]) í drápi Odds frænda míns, þar sem hann var kasadr í urd sem melrakki edr þiófr, en mèr er þat bannat at eiga nokkurn lut í mannrádum edr nokkurskyns úfridi, en þat er þèr ei verra at vera ei einum saman, ef þèr þykkir þess van at þú

[1]) uppgángr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) þorvard ok Berg, bæta vid *C. St.* Berg, bæta vid *B. Gr.* þorvard, bæta vid *A. E.* þ.
[3]) frá [: er hann leitadi góds til þeirra, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) þyki mèr íllt, sömu.

manir ekki um kyrrt sitia, edr hvat leggr þú til, Bödvar? Fátt kann ek til slíks at leggia, segir Bödvar, en þat vildak at þeir Rafn ok Þórgils yrdo gódir vinir, en úspar er mèr Eyúlfr til úfara, ef sva mætti verda, því hann vard hèr all-úvinsæll í hèradi í sumar, er mèr lítil van at Þórgils siti um kyrrt, þegar þeir mega vidkvamast. Þá svarar Sturla: ekki þykkir þat vandalaust at veita Þorvardi ok rádast med honum í fearlægar bygdir edr sveitir med lítit lid, en vèr trúum hveriomtveggium ílla Borgfirdíngum ok Dalamönnum; en vèr höfum lid fátt, en búit ílla, Þorvardr synir nú ok allan sinn stirk, [vænist hann ok eingra manna lidveizlo, má þá siá hversu úrádligt er at fara med alllítinn afla á sva stórar sveitir [1]), edr hvat viltu Þórgils til mæla vid Þorvard, ef þú vilt nokkurn kost á giöra? Þat er knefat, segir Þórgils, at ek vil hafa Skagafiörd ok sveitir nordan at Rútafirdi, þóat Þorvardr sættist vid Rafn ok Eyúlf, edr elligar forlíkast þeir med ödro móti. Abóti svarar: betr ynnak þèr, Þórgils, at neóta Skagafiardar ættleifdar varrar, en þeim sem at nú hafa, en ei vil ek fysa þik ferdar, því at mèr þykkir ei laust fyrir liggia. Spratt ábóti þá upp ok bad at verda skyldi guds vili. Mæltu þá sumir menn at honum lypi kapp í kinn, því at hann var dreyrraudr á at siá ok mælti þetta er hann gèkk í brotto: hart er þat at vèr skulum bera frændr vora göfga bótalausa fyrir bóndasonum ok sva mundi þykkia Ormi bródur mínum, ef hann lifdi. Nú gèkk [Þórgils til Þorvardar [2]), sótti Þorvardr þá enn um lidveizlo vid Þórgils med frambodnum fègiöfum ok öllum þeim sæmdum sem hann mætti honum veita, ok at leggia líf sitt vid hans naudsyn, ef hann kynni þess at þurfa, kvad þá ei skyldo skilia medan líf þeirra væri, vid hveria menn sem skipta væri. Þórgils mælti: med bænastad þínum, Þorvardr, ok fögrum framheitum um lidveizlo ok adra luti, má ek giöra kost á því at fara nordr til sveita, vid þat ef Sturla vill fylgia mèr, ok skiliast ei fyrr vid þik en þessi mál lúkast med einhverio móti. Þá mælti Sturla: fylgia man ek þèr, frændi, hvert á land sem þú vilt fara, sva sem ek hefir heitit, vid hveria menn sem eiga er,

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) Þorvardr til Þórgils, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

en litlu rádi þykkir mèr sæta ferd þessi at fara nordr um land med sva lítit lid ok lítt búit, þvíat sumir hafa nokkur vapn, en sumir eingi, ok þó lítt hesta byrgir. Þórgils mælti: veit ek, frændi, at þèr man vel fara, þykkiumst ek þinna ráda miök þurfa, þar sem þú ert kalladr hinn vitrasti madr, þykkir mèr ok þik tildraga nokkut fyrir þann skada úbættan er þú hlauzt í brenno á Flugumyri í drápi Halls mágs þíns, þykkir mèr Þorvardr eiga þeim öllum gódu at launa, er í þessa ferd rádast, vil ek ok spyria Einar ok Þórd mág minn, hvert þeir vilia fylgia mèr í þessa ferd, en fylgdarmenn mína ok þíngmenn þykiumst ek friálsa eiga til fylgdar vid mik. Þeir segia at þeir mundu fylgia Þórgilsi, en þótti Þórgils þurfa at honum innist nokkut til sæmdar ef ferd þessi tækist vel, en margir mæltu þat, at farit hefdo flatt fyrir þeim Rafni ok Eyúlfi þótt vænna hafi tilhætt. Lauk Þórgils þá upp fyrir Þorvardi hvern hann mundi ágiöra, vil ek, segir hann, hafa Skagafiörd ok þau ríki er vestr ero þadan, ef þeir Þorvardr ætto at ráda, sem flestum þótti úglíkligt, ok at þeirri einni sætt skyldi gánga [Þorvardr sem Þórgils lèti sèr vel atgètast ok hann þættist sæmdr af. Var þá sagt Brandi ábóta ok Eigli ok Bödvari, vildi ábóti ei til gánga [1]) ok kvadst fullkvamliga vilia letia fararinnar, man hèr mörgum manni saklausum [vera misgiört [2]) í þessi ferd, sva at úsæmiligt er at ek leggi þar samþykki til, ok má vera at mèr kènni heiptar vid suma menn, sva at ek fái ei allra orda gætt sem skyldi, ef ek tala mart til. Eigill vildi ok ei tilgánga sakir vinátto vid Rafn, Þorvardr iátti því öllu sem hann var beiddr. Tóku þeir Þórgils þá höndum saman ok skildi Sturla fyrir handlagi, hèt Þorvardr ok Þórgilsi sinni lidveizlo med frændsemi, sva sem hann ynnist til medan þeir væro bádir uppi. Var nú rádin nordrferd þeirra, ok skildu at því. Þórgils reid í Reykiaholt ok med honum þriátygi manna, ábóti reid í Bæ, en Sturla í As. Þórdr reid ofan eptir Reykiadal, þvíat hann átti þar van hests. Brandr ábóti sagdi at þeir Þórgils mundu finnast um daginn eptir.

26. Um morgininn reid Þórgils ekki snimma or Reykiaholti ok reid Eigill á leid med honum ok gaf honum hesta tvo brúna,

[1]) frá [ vantar í *C. St.*

[2]) vænt gráti. *A. B. C. E. Gr. St. þ.*

ok skildust þá med kærleikum. Reid Þórgils þá upp í Kálmannstúngo, Nikolás var heiman farinn þegar spurdist flokkadráttrinn ok út á nes at eyrindum sínum, en giördi þeim Eyúlfi ok Rafni menn nordr um Arnarvatnsheidi Magnús Atlason ok þá tólf saman, var þar Hermundr Standali ok Beörn Eyreksson. Þórgils reid upp í Öxnatúngur, hann sendi menn hit efra eptir Þórdi. Sigfús í Fliótatúngo gaf Þórgilsi brynio. Nú er Þórdr reid upp af Sámstödum, sèr hann rída nedan frá Háfafelli menn miök ákaft, beid hann þeirra ok var þar ábóti ok Bödvar, spurdi ábóti þegar at ferdum Þórgils, en Þórdr vissi ei annat af en Þórgils reid um daginn snemma or Reykiaholti ok ætladi at rída á Gilsbakka ok bída þar ábóta, en er þeir kvamo þar, var Þórgils í brotto, þá mælti ábóti: ei man ek rída lengra, því ek sè hversu at þetta fer, í gærkveld á fundi varom þótti mèr úrád at fara ferd þessa, en æ dregst fram iafnan þat sem fyrir er ætlat, ok er þess van at ei verdi med öllu ábyrgdarlaust, en mèr synist lid ydvart lítit ok ílla búit, en [ei allúbragdligt ok [1]) ei all-feigligt, skaltu nú bera Þórgilsi frænda mínum kvedio mína ok bid hann at hann giöri sem minnst rángt iafnan saklausum mönnum, þætti mèr nú allmiklu skipta hvat ek spyrda til hans, ok miök man ek vera áhyggiosamr um ferd þessa þar til er ek spyr hverninn ydr tekst, vildak, mágr, at þú fylgdir Þórgilsi vel ok fystir hann iafnan hins betra, vildak nú at gud væri ydr fyrir vapn ok vörd ok hyliaпar-madr [2]) Thomas erkibiskup, en treystit lítt á drengskap Þorvardar, því mèr segir ekki miök hugr um hversu til enda gánga skipti þeirra Þórgils ok Þorvardar, ok ætlak Þorvardr valdi afbrygdum. Skildust þeir nú ok gaf ábóti Þórdi blessan ok bad hann vel fara. Rídr Þórdr nú skyndiliga upp eptir Sído þar til er hann kvam í Fliótstúngo, var þar fyrir Magnús Atlason ok þeir menn er Þórgils hafdi þar eptir sett, sögdu þeir Þórdi at Þórgils reid upp í Öxnatúngur ok mundi þar bída hans, ridu þeir þá skyndiliga í Öxnatúngur, var Þórgils þar fyrir ok allr flokkrinn, ok hafdi hann sofnat. Þórgils gaf þá Þórdi bryniona Sigfússnaut. Þeir Þórgils ok Sturla höfdu giört tólf

[1]) frá [ vantar í *B, E, Gr.*

[2]) ok hylist nú at, *A, B, C, E, Gr. St.* Þ.

menn nordr á heidina, ok vóru þar fyrir settir Bergr ok Magnús Jónsson, Bergr var manna best hestfær. Þórgils [1]) hafdi þess var ordit í Kálmannstúngo at Nikolás giördi niósn fyrir þeim, höfdu þeir farit at dagmálum, skyldu þeir fara dagfari ok náttfari, þár til er þeir hitto Rafn ok Eyúlf, þeir visso ok at Þorvardr var austan kvaminn, en Þórgils ok Sturla varo kvamnir í Reykiaholt, ok mönnum grunr á at þeir mundo rída nordr um land at þeim Rafni ok Eyúlfi, Nikolás ætladi at Asgrímr Þorsteinsson mundi heima vera í Hvammi í Vatnsdal, skyldo þeir þángat fyrst fara, þeir höfdu hestakost lítinn ok fórst þeim seint, en þeir Bergr ridu ákaft nordr eptir heidinni ok gáto tekit niósnarmenn Nikolásar hiá Grímstúngna selium, varo þeir þegar bundnir ok bardir miök, en er þeir kvamo eptir Þórgils ok Þorvardr, bádu niósnarmenn sèr grida, ok vóru þeim grid gèfin ok fóru aptr þadan, ádu menn þár nokkra stund. Sögdu þá höfdíngiar at rída skyldi sem ákafast ofan eptir hèradino í Hvamm at sem sízt mætti niósn fyrir þeim gánga, þeir menn er heima varo í Hvammi, sáu reidina ofan eptir hèradino, ok þóttust víst vita at úfridr var. Hafdi Ingun húsfreya látit bera í kyrkió allt þat er mátti, var þar fólk allt á laupi, ok niósn hafdi gèngit vestan til Asgríms or Dölum, at Þórgils væri heiman ridinn ok Sturla, hafdi Asgrímr þegar heiman ridit med slíkar frèttir sem hann hafdi fengit, ok med honum Saxi hinn mikli ok Bergr [hinn úsvifi [2]), lètto þeir ei fyrr en þeir fundo Rafn ok Eyúlf ok sögdu slíkt er þeir höfdu frètt.

27. Nú er at segia frá þeim Þórgilsi ok Þorvardi at þeir kvamo í Hvamm med flokkinn, lupu þegar af baki ok til kyrkio ok var hon byrgd, sumir lupo inn í húsin ok var þar audt. Þorvardr beiddi at upp væri lokit kyrkiunni, en Ingun hafdi ord fyrir þeim er inni varo ok segir at ei mundi upp látin kyrkian. Þá spurdi Þorvardr hvert Asgrímr bóndi væri heima? Ingun kvad hann ei þar vera, ok manto, segir hon, taka vitni prests hèr um, prestr ok allir heimamenn sögdu at hann var brott ridinn. Þorvardr trúdi því varla. Þorvardr giördi laup at kyrkionni tveim sinnum ok spyrndi á hurdina fætinum sva fast at hèllt vid at brotna mundi.

[1]) Sturla, *A, B, C, E, Gr, St,* þ.   [2]) vantar í *A, B, C, E, Gr, St,* þ.

Þórgils ok nokkrir menn lögdo til at hann skyldi ei brióta hurdina. En er [Ingun vissi at[1]) Þórgils Bödvarsson var fyrir ferdinni, þá kvadst hon mundi upplúka kyrkiunni, ef Þórgils hèti gridum þeim er í kyrkio vóru, Þórgils hèt Ingunni gridum ok öllum heimamönnum ok fè því sem í kyrkio var kvamit, þá var upplokit kyrkiunni ok gèngo þeir innan um kyrkiona ok fannst Asgrímr ei sem van var, beoggust menn þá í brott at rída. Baud Ingun Þórgilsi mat at eta þar ok þeim mönnum med honum sem hann vildi, en hann vildi þat ei, ridu menn þá í brott. Þeir Bergr, Finnbeörn ok Ögmundr höfdu ridit upp frá Mardargnúpi hit efra um hálsa til Svínadals[2]). Þat var sagt, at tveir heimamenn Eyúlfs[3]) hefdu verit í Grímstúngum um náttina, þeir höfdu uppstokkit þegar þeir sáu flokkinn, ridu þeir þá ofan eptir hèradi. Þeir Finnbeörn ok Ögmundr gátu tekit þá á hálsum nordr vid Svínadal, var þá unnit á ödrum þeirra, en annar var bardr[4]), sva at hvergi var þadan fær. Þeir Finnbeörn kvamo til móts vid flokkinn hiá Blöndo ok sögdu frá sinni ferd, lèto menn yfir því vel. Nú giördu þeir Þórgils ok Þorvardr ok Sturla rád sitt, var þá ridit í lidsbón, ok vildu fáir menn uppgánga, kvam þá Finnr af Eyvindarstödum ok þeir fiórir, ei fengust fleiri fyrir vestan Vatnsskard, vóru þá neósnir sendar allt nordr til Öxnadalsheidar, en flokkrinn fluttist fram um náttina nordr yfir Vatnsskard til Skagafiardar ok nordr yfir Jökulsá, þar sem heitir á Lángamyri, stigo þeir þar af baki, var flokkrinn miök sifiadr. Þá var þat rád giört, at þeir Finnbeörn ok Ögmundr skyldu rída upp til Hörgárdalsheidar ok gæta at hverki færo menn nordr nè nordan, skyldu þeir gègna um niósnir ok annast vego alla, Þorvardr skyldi kvedia upp menn um Sæmundarhlíd ok Lángaholt, sendi hann ok menn upp í Túnguna. Þórgils lèt safna lidi um Blönduhlíd, en hann reid vid tíunda mann út til Hofs at hitta Brodda mág sinn, hann setti Einar eptir at gæta flokksins ok afla þeim vista, Sturla var ok eptir med sinn flokk. Arnór Einarsson[5]) hafdi ridit nordr med

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Svínavatns, *B. E. Gr.*
[3]) menn Rafns, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) særdr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[5]) Eyríksson. *B. Gr.*

Asgrími ok Sigurdr Eldiárnsson, [Sigurdr Illhugason[1]) ok Jón af Lítíngsstödum ok med þeim nokkrir bóndr. En er Asgrímr kvam nordr, brugdu þeir Rafn ok Eyúlfr þegar vid at samna lidi þar um hèrad, ok allt sendu þeir nordr í Eyafiörd, gèngu menn upp heldr tregliga, en þó fengu þeir mikit lid ok allvel búit, höfdu þeir á þridia hundradi manna, en stórbóndr allir í Eyafirdi settust heima. Hèldu þeir Eyúlfr ok Rafn flokkinum í Eyafiörd ok höfdu frèttir, en fengo cingar.

28. Þórgils reid út til Hofs, sem fyrr var ritat, at finna Brodda mág sinn, hann átti Þiódbeörgo[2]) Arnórsdóttur, módursystur Þórgils, fèkk hann þar gódar vidtökur, hann sótti Brodda at málum ok sva um lidveizlu. Broddi lèzt ei árædi til bera, kvadst vera miök gamladr ok ei herfær ok leidr úfridrinn, segir hann Þórgilsi frá hrakníngum þeim er hèradsmenn höfdu fengit af þeim Eyúlfi ok Rafni sídan Gèldíngaholtsfundr var, ok kvadst hyggia at þróttr allr væri skèkinn[3]) or hèradsmönnum náliga til uppreistar móti þeim, sumir höfdu vordit fyrir ránum af þeim, [sumir fyrir ábarníngum[4]), en nær allir fyrir nokkrum afarkostum, þeir hafa ok í brotto vapn öll ok hesta alla þá er neytir ero, ok þykkir mèr vanligt at þèr fáit lítinn afla, [þótt þèr þykki ei úvænt útsigla[5]), hefir þat reynt verit, at þeir ero bædi hardfengir ok sigursælir, þykkir nú sem þeim mani ekki kolla[6]), en ef gud vill sem vèr, þá mundi þeirra úiafnadr brátt steypast, en þat er tillaga mín at þú sækir at lidveizlo Asbeörn Illhugason mág þinn í Vidvík, hann þykkist mestr bóndi í þessu hèradi, en á brynstar sakir vid þá, bædi fyrir rán ok atfarir, er hann madr úngr ok vel hestfær. Þórgils rídr þadan um kveldit sídla. Sendi Broddi þá ord Aroni á Hvol[7]) ok Þórgilsi í Unadal at þeir skyldu uppstanda ok mundi hann fá þeim vapn, hann sendi ord Gudmundi Fálkasyni á Osland, hann baud Þórgilsi skeöldu fimm ok nennti hann

1) vantar í *B. E. Gr.*
2) Þorbiörgu. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) slokinn. sömu.
4) vantar í sömu.
5) frá [: þvíat þeir þykkiast úrírir útsigla. *A B. C. E. Gr. St.* Þ.
6) bella. *A. C. E. St.* Þ. bila. *B. Gr.*
7) Hól. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

ei med at fara. Þórgils reid þá til Vidvíkur ok lèt kalla út Asbeörn, segir hann honum þá hvernig af stód um ferd hans ok at flokkar vóru at vestan kvamnir ok þeir þóttust lids þurfa, beiddi hann Asbeörn til ferdar med sèr, en hann taldi á því mörg tormerki, er ek, segir hann, ílla hestbyrgr ok ekki vapna, en ærin væri naudsyn til þessarar ferdar, skal ek ok ei eptir sitia hversu miök sem ek er vanbúinn, edr hví er Broddi ei hèr kvaminn? ero þar rád bændanna allra er Broddi er. Því er hann ei hèr, segir Þórgils, at hann er madr gamall ok ei herfær [1]), ok má ei starfa í úfridi. Eigi er þat, segir Asbeörn, hann er betr fær en margir úngir, en ei man ek mína ferd undir honum eiga, en satt er þat at ei hefir honum iafn nærri gèngit úiafnadr þeirra Rafns ok Eyúlfs sem mèr, en þat er audvitat at meir man þèr rádagiörd Brodda en fylgd mín. Beóst Asbeörn þá at taka hest sinn ok klæddi sik skiótt, hann hafdi ei fleira vapna en eitt sverd fenglítit ok búklara. Þórgils fèkk honum brynio þá er Broddi hafdi gèfit honum, ridu þeir þá upp eptir hèradi ok kvöddo menn upp þá er fyrir vóru. Þórgils snyr þá upp á Lángamyri til lids síns, hann sendi Þórd Hítnesíng ok Magnús Atlason at samna mönnum um Blönduhlíd ok kvama til móts vid hann at nóni laugardaginn á Silfrastödum, stefndu þeir þá saman mönnum öllum ok fengo fá, en ekki af vapnom, stefndu þeim á Silfrastadi til móts vid Þórgils, en hvar sem þeir kvamo á bæi, þá var þetta mælt ok hver herkèrlíng er mæla kunni, at gud skyldi bregda úiafnadi þeirra Rafns ok Eyúlfs. En er þeir kvamo á Silfrastadi, þá var þar fyrir Þórgils ok fagnar þeim vel, ok er Þórgils vissi at þar varo sumir menn vapnlausir kvamnir, þá skoradi hann á Geir hinn audga at hann mundi orráda vid hann um vapn ok fara seálfr med honum. Geir syniadi ferdar ok allra tillaga, kvadst ei ádr haft hafa minnsta lag af hraknfngum, en ef ek gèng í þetta vandrædi, þá man hverki úhætt verda fè nè feörvi, ok at þar mundi ekki þykkia vid kollóttan at [2]) ryskiast er hann var. Þórgils sótti á því meir, en Geir fór undan, sló þá í heitan ok hardyrdi fyrir Þórgilsi. Lagdi Sturla þá til at

[1]) hestfær, *Gr.*

[2]) klást eda, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Geir skyldi giöra nokkra aflausn, en hann svaradi þverliga. Menn Þórgils höfdu rekit heim stódross er Geir átti, hest liósbleikan ok nokkur ross önnur. Þeir stódu þá sínummegin hestsins hver er þeir tóku at deila, tók Þórgils þá at bölva ok hrekia hann alla vega, [hann svaradi styggiliga [1]), færdi Þórgils þá upp búklarann ok vildi liósta hann, en Geir lèt fallast undan, Asbeörn Illhugason skaut [2]) búklara yfir höfud honum ok kvam þar í höggit. Bádu menn þá Geir tilláta ok sögdu at ekki mundi annat duga. Tók Geir þat rád at hann lèdi Þórgilsi ross nokkur ok sva vapn ok pansara þykkvan ok stirkvan er Sturla Þórdarson var í á Þverárfundi. Þeir Þórgils rido þadan laugarkveldit upp eptir Nordrárdal ok fundust þá flokkarnir. Kvamo þar Þorvardr ok Finnbeörn ok Ögmundr med flokk sinn, [fundust þeir hiá Hökostödum [3]), sögdu þeir Finnbeörn at þá grunadi at niósn hefdi kvamit nordr til Eyafiardar [frá Hofi í Goddölum [4]) hit efra um fiöll. Ridu þeir Þorvardr ok Þórgils til Hörgárdalsheidar ok mundo hafa or Skagafirdi nær siötygi [5]) manna, var Asbeörn þar fyrir skipadr ok vóru þeir allir af Þórgilsar hendi. Drottinsmyrgininn kvamo þeir ofan til Hörgárdals, skipudust menn þá á bæi, Þórgils reid á Þúfnavöllo, en er menn vóru mettir, kvam þar allr flokkrinn saman, var þá talt nær tvö hundrud, tóku menn þá vapn sín sva sem fengust. Spurdist þat til Rafns ok Eyúlfs, at þeir vóru í Eyafirdi ok höfdu flokk mikinn ok einvala lid. Ridu menn nú til þess er þeir kvamo um Glæsibæ, þar stendr saudahús, ridu þeir í saudahússtúnit ok stigu af hestum sínum ok lèto þar lausa, lèt Þorvardr þá gánga í einn stad flokkinn allan ok töludu höfdíngiar hlióտt nokkra stund. Sídan mælti Þorvardr ok hóf sva málit, ok bad at gud skyldi geyma hans ok allra þeirra manna er í þann flokk höfdu rádizt. Nú vil ek, Þórgils, þakka þèr þann stirk er ek vættir at þú manir uppi láta vid mik, segir hann, ok sva til Sturlu, því næst tiádi hann þat, hvers feandskapar hann ætti at minnast vid þá Rafn ok Eyúlf fyrir þat er þeir höfdu drepit Odd bródur hans ok þá menn

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) lèzt skióta. *B. E. Gr.*

[3]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ

[4]) frá [ vantar í sömu.

[5]) tuttugu, sömu.

adra er í Gèldíngaholti fèllo, ok Þorvardr kallar sína þíngmenn verit hafa, tiádi sídan hver naudsyn þat miök til þessarar ferdar dregr, ef hann skyldi ei þykia athlæi edr úmannan, kvadst spurt hafa at þeir Eyúlfr ok Rafn væro upp í Eyafirdi ok höfdu lid mikit ok vel búit, þykkir mèr meiri van at ei sè lángt til fundar vors, er þat mikill drengskapr þeim mönnum er mèr eigo ekki gott at launa, [en þeim ekki íllt er þessi mál taka ei til handa, at beriast med mèr ef þess þarf vid, sva lítinn strídskost sem vèr höfum [1]), á ek allan þenna lids afla at þakka Þórgilsi frænda mínum ok Sturlu, væntir ek at þeir einir mano hèr kvamnir at hvorium man hugat at fylgia vel ok drengiliga sínum höfdíngia. Skal ek ok, ef ek á um at mæla, öllum nokkra aumban [2]) atgiöra þeim sem nú standa hèr hiá mèr í þessari naudsyn, er þat mitt rád at menn marki nú stálhúfur sínar ok búi sik ok veri sem varastir, þvíat nú er hvergi álaupa örvænt, er vèr erum kvamnir hèr í úkunnig hèrud, en ef nokkur er sá hèr er þat veit á sik at ei vill beriast þótt þurfi, þá segi sá nú heldr en sídar, er ek ok í því heitbundinn at taka þá eina sætt er Þórgilsi líkar bædi fyrir mína hönd ok hans, en mart hefir vel fallit med okkr Eyúlfi, ok ekki fiarri em ek sættum ef þær ero giörvar, er ek þykkiumst sæmdr af, en ella man ek á fund hætta þótt hann þykki ei iafnligr, ok væntir þess at málaefna munr mani skipta. Vil ek nú þess bidia, at hver madr syngi *pater noster* þrem sinnum, ok bidium þess at gud gèfi oss gott rád ok geymi hver sín, en gud allra. Nú taladi hvertveggi fyrir sínum mönnum Sturla ok Þórgils, bádu þá vakra vera hvers sem vid þyrfti ok halda sèr upp vel, hefir Þorvardr mikit frændskard fengit í drápi Odds bródur síns þótt hann væri þar ei vid, ok adilldarmadr, er þat ok skap mitt at veita honum í þessari ferd med fullum drengskap, giöra þeir einir minn vilia er vel duga, skal ek gialda hverium minna manna eptir því sem verdr giörist, hèto flestir menn um þat gódo. Stigo menn þá á bak er búnir vóru ok reid flokkrinn samfast inn med Eyafirdi [3]), ok er

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ., en hafa í þess stud: þó þeir gángi nú frá heldr en sídar, ef vèr þurfum at beriast.

[2]) umbaun, *B, E, Gr.* umbun, *A, C, St.* Þ.

[3]) Eyafiardará. *Gr.*

þeir kvamo inn med Eyafirdi, kvam í móti þeim Beörn bóndi frá Kroppi, segir hann at Rafn ok Eyúlfr hefdo ridit af hèradi nordr til [Fnióskadals, ok þat ord á at þeir mundo rída allt til [1]) Reykiadals edr til Eggsarfiardar móti lidi því er þeir átto þadan van. Lögdu menn á þat ei fullan trúnad er hann sagdi, því Beörn var nokkut snotur ok sva nokkut grályndr kalladr. Ridu menn þá yfir Eyafiardará ok í ey þá er liggr í Eyafiardar kvíslum, hon er vídt land ok eingi gott. Vóru þá greiddir út hestverdir bædi yfir eptir hèradi ok nordr til heida, en sumir svifo at nautum ok kötlum ok eldividi, lágu menn þar um náttina ok sváfo undir vapnum sínum.

29. Þá er Rafn ok Eyúlfr höfdu sanna frètt af at þeir Þórgils vóru vestan kvamnir, reid Eyúlfr inn til Gása til skips ok vildi fá vapn af þeim Austmönnum, þar var kvaminn Ingimundr Arnórsson er þá beó í Fagurey á Breidafirdi, hann var frændi ok fóstbródir Rafns, [hann var mikill madr ok stirkligr [2]). Eyúlfr bar honum kvediu Rafns ok þat med at hann vildi at hann kvæmi til móts vid hann inn í Eyafiörd ok veitti honum lid ef barizt væri til þess er lýki þessum málum, kvadst víst vita at þú mundir skiótt til hans kvama þegar þeim ordum væri til þín kvamit, þóttist ok fá þann sendimann at þú mundir ei mistrúa. Ingimundr svarar, ei er ek giarn í úfrid, hefir ek verit med Sturlu í vetur ok hefir mèr vel til hans líkat, vil ek ei vera í andskota flokki hans, ok man ek hvergi fara. Eyúlfr mælti: minni verdr þú í vafi um þetta er hann ætladi. Já, segir Ingimundr, mart man þèr þykkia mèr lítilmannliga verda, en gæta ætlak þess at [Rafni verdi ei at mèr mein [3]). Eyúlfr mælti: alla vega þykkir mèr þèr fara sem lítilmannligast. Skildust þeir at því. Tveir brædur Ingimundar höfdu verit í flokki med þeim Þórgils ok Sturlu, [Grani ok Oláfr [4]), leyndust þeir eptir á Arnarvatnsheidi, þvíat þeir vildu ei fara at Rafni, [lèzt Oláfr ei mundu hafa heiman farit, ef hann vissi at vid

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) Rafn — minni at mèr. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) vantar í sömu.

Rafn var at skipta, en lèzt nú Þórgilsi fylgia mundi sem hann hefdi drengskap til, hvad sem fyrir liggr[1]).

30. Bændr í hèradi, er þeir spurdu úfrid þenna, fóru á fund Eyúlfs ábóta ok bádu hann medalgaungo. Annan myrgin víko kvam til þeirra Þórgils Þorsteinn prestr Titlíngr, hann hafdi verit til kènnslu í Stafaholti med Oláfi Þórdarsyni ok var hann kunníngi [Þórgils ok Sturlu ok[2]) allra Vestanmanna, gèngu þeir Þórgils ok Sturla þegar á tal vid hann ok fögnudu þeir honum vel ok spurdu at hvar hann hefdi verit um náttína? hann kvadst hafa verit á Drablastödum um náttina. Þeir spurdu hvat hann vissi til þeirra Eyúlfs ok Rafns? Hann kvad þá öndverda nátt hafa ridit nordr til Fnióskadals, hafa þeir, segir hann, verit á Vödlaheidi ok sèt flokk Vestanmanna ok utanreid eptir firdinum, hafdi þeim synzt mikill ok þóttust ei hafa afla til at bída, en trúdu illa hèradsmönnum, segir þeir ætludu at rída nordr [til Eggsarfiardar[3]) ok samna mönnum ok feölga þannig lid sitt, en hrökkva vid er þeir hefdu faung á edr færi þat er yfirtæki, ef eptir væri ridit, tóku flestir menn undir þat lèttiliga, ok þótti þá van at bardagi mundi undan dragast, en menn mundu mega fara friálsliga sèr til naudsynligra byrgda um hèradit, trúdu flestir menn því er hann sagdi, þvíat hann tók mikit af at þetta væri satt, en eingi madr tók af því iafnmikit sem Þórdr Hítnesíngr, at hann mundi ei liúga til. Þá svarar Sturla, hèr er ek í annari huxan, hann ætlak allt liúga, ok hygg ek þat ei satt er hann segir hèr um, samþykkia þeir þessu Þorvardr ok Þórgils. Reid prestr þá í brott. Litlo sídar sá þeir ríða menn miök marga út med fiallino ok stefna inn eptir hèradi hit efra, var þeim á því forvitni, þvíat þeim þótti sem þeir væro nordan kvamnir, ok mundu menn þar fá frèttir, ef þat væro ei flokka menn. Var þar skipadr til Magnús Jónsson, ok varo þeir sex af Þorvardar mönnum, [Þórdr Hítnesíngr af Þórgils mönnum[4]), þeir vóru átta, Þorbeörn[5]) Nef af

[1]) frá [ vantar í *B. Gr.*
[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) Vödluheidi. *B. E. Gr.* Öxnadalsheidi. *A. C. St.* Þ.
[4]) frá [ vantar í *C. St.*
[5]) Þórdr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Sturlu mönnum, ok vóru þeir fiórir, þessarar ferdar vóru flestir úfúsir, þeir ridu upp eptir Myrum ok stefndu fyrir þá, hinir ridu seinliga, ok er þeir fundust, var þar Eyúlfr ábóti ok nokkrir múnkar med honum ok kènnimenn. Þeir spurdu ábóta hvat hann vissi til Eyúlfs ok Rafns? en hann segir, at þeir lágu uppi á Raudahialla yfir kaupángi, ætla þeir, segir hann, at laupa þegar ofan á flokkinn er þeim þætti færi á vera, hefir ek, segir ábóti, sent menn til þeirra Þórgils at segia þeim, at þeir væro sem varastir ok gæfo ekki færi á sèr, en ek man kvama brátt þángat til ydvar, reid ek því til þeirra at leita um sættir ok þótti mèr þeir mæla um þat ei úglíkliga, en vera þó tregligir. Reid ábóti þá, en þeir Þórdr til Þverár hinnar litlo ok mötudust þar, sídan ridu þeir til móts vid þá Þórgils. Þeir Rafn ok Eyúlfr höfdu sèt reid þeirra Magnúsar ok Þórdar, skipudu þeir til sveit at rída at þeim, ef þeim þætti færi á, var þar fyrir Svarthöfdi Dugfússon, en þó frestadist fyrir því at þá bar fyrr ofan at flokkinum en þá vardi. Litlu sídar kvam ábóti í Þórunnareyo, ok segir þeim Þorvardi ok Þórgilsi sætta umleitan þá er hann hafdi haft vid þá Rafn ok Eyúlf, kvad hann þá beóda at leggia mál þeirra Þorvardar öll undir [iafna hönd [1]) ok sættast at því, en skilia undan hèrads sektir ok utanferd ok ríki þau öll er Þórdr Sighvatsson hafdi þeim skipat, töludu þeir þar mart um, var Þorvardr ei fiarri sættum ok giördi þann kost, at mál þeirra mundo fara í iamnadardóm, en Eyúlfr skyldi fara utan ok láta lausar sveitir, Rafn skyldi hafa sveitir sínar vestr í fiördum ok vera ei vistum fyrir sunnan Gilsfiörd. Abóti mælti: hèr er lángt í millum, þeim þótti Oddr hafa unnit til úhelgi sèr ok giört úhæfur í hèradi er hann tók med ráni ok hèt þeim atförum, en Eyúlfr sagdist hafa kóngsbrèf ok skipan fyrir Skagafirdi, þóttist eiga stórsakir á Þórgils ok Sturlu fyrir atfarir, en vera saklaus. Þat mæltu þeir ok, segir ábóti, at þeim syndist at mál þeirra öll færo undir kóngsdóm ok færo utan at sumri annarhver edr bádir Eyúlfr ok Rafn, ok annarhver edr bádir Sturla ok Þórgils, en Þorvardr fyrir sitt mál ok væri þá undir kóngssætt ok sveita skipan. En þeir Þórgils ok Þorvardr vildu þat víst ei,

[1]) iafnmarga. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

vildu þeir at Eyúlfr færi utan samsumars ok rymdi sveitir nordr þar, en Þorvardr tók ei af fyrir utanferd sína at sumri, ef hann yrdi lidugr til. Þórgils lèzt ei mundi fara utan nema kóngr sendi honum ord; Sturla kvadst ei þat giört hafa sva at hann vissi at hann þyrfti land at flya, ok þótti þeir giört hafa sèr grylur um sumarit, var hann ei miök sættfús. Abóti sagdi þeim, at honum þótti búnadarmunr mikill, ok þótti vera hit mesta hættorád at beriast, en sá man á baugi ef ei er sætzt. Sturla mælti: má vera at minni hætta verdi en til er hugat, segir mèr sva hugr um at Eyúlfr mani miök fyllt hafa sína lífdaga. Þeir Þorvardr ok Þórgils kvádust á mundo hætta at beriast med guds miskun, ef ei væri þeirra sætta unnt er þeim gætist at. Fór ábóti þá vid sva búit til þeirra Rafns ok Eyúlfs ok vildu þeir ei þessari sætt iáta, tók Eyúlfr ei fyrir utanferd at sumri, en þverknytti [1]) at láta hèrad fyrr en þat væri kóngsvili, en Rafn var í allri sætt tregari ok fúsari at beriast, þóttust þeir hafa sanna frètt at lidsafli var lítill, en búníngr minni, hafdi þeim ok iafnan veitt lèttiliga at beriast, ok hugdu þeir at enn mundi sva vera. Giöra þeir nú þau ord med ábóta, at þeir skulu finnast á grundinni hiá Þverá fyrir nordan ok beriast til umskiptis, standa iafn-fram ok stelast hverigir at ödrum. Fór ábóti nú ofan til Þórgils ok þeirra ok segir at ei gángi sætt saman at þessum bodum, þeir budu at beriast á Þveráreyrum til umskipta. Kiöru þeir Þórgils heldr at beriast. Abóti mælti: þann kiósa nú hverirtveggio er verr gègnir, er ek, segir hann, heitbundinn at láta þá Rafn vita hvat upp væri tekit. En er þeim Rafni ok Eyúlfi kvam þessi ordsendíng, urdu þeir gladir vid þetta ok lid þeirra. Stendr þá Rafn upp ok talar fyrir lidino, ok segir þeim at nú er þar kvamit at skamt man at bída bardaga, bad þá alla menn segia sinn vilia heldr en sídar, ef nokkrir ero þeir menn er ei vilia beriast, munum vèr eingum úþökk fyrir kunna þeim er nú segia, þótt ei vili beriast, en laupa þá ei frá er vèr kvamum í raunina. Audun Seldæll mælti: ei væri mèr þannig, ef ek væra feigr. Þá svarar Eyúlfr: þat er gèta mín, at þeir mano ílla gèfast hverio sem þeir hèto, væri þat ei firr míno skapi at hætta ei

[1]) Þorvardr knytti, *A. B. C. E. St.* Þ.

[at sinni [1]), er þat ei sídr mitt hugbod at ei sè víst hvert vèr sigrumst á sva stórbornum mönnum á feölda fundum, þótt oss hafi veitt vel í álaupum, med skyndirádum edr skiótum atburdum, ætlak mèr, Rafn, ei at renna frá þèr í dag, þótt vèr kvamum í nokkra raun, enda treystir ek þèr vel at þú manir ei renna frá mèr. Rafn kvadst ei mundo renna edr láta elta sik um sveitir vid sva frækiligt lid, þykkir mèr vid hætt hafa á úvænna ok hefir vel dugat, vættir ek ok enn at sú audna fylgi oss til sigurs sem fyrr, ok sè ei enn frá oss horfin. Biuggust þeir þá til ofanreidar ok höfdu lid frækiligt ok búníng gódan, vóru flestir menn fúsir at beriast.

31. Nú er þar til máls at taka er þeir Þórgils ok Þorvardr ok Sturla bidia nú lid sitt búast til bardaga hvern eptir sínum faungum, ok er þar hart frá at segia, þvíat vapnabúnadr var alllítill, höfdu Austfirdíngar skiöldu nokkra, en Vestanmenn fáeina. Þorvardr taladi þá enn fyrir lidi þeirra ok hèt þá at nyo vináttu sinni öllum þeim mönnum er med honum berdust. Þetta var hinn nærsta dag fyrir Þorláksmesso um sumarit, þá var heitit á allsvaldanda gud ok hinn heilaga Þorlák biskup, at allir þeir menn sem heilir kvæmist þadan, skyldu fasta dag ok nátt fyrir Þorláksmesso annat sumar, ok syngia psaltara, en sumir hèto at fásta æfinliga, fór þat þá med handtökum, ef þeir sigrudust. Gèngu menn þá til skripta ok biuggust sídan, stíga þá á bak ok rída upp á grundina til Þverár, stigo menn þar af baki ok bundo hesta sína. Tók Sturla þeim stad hvar þeir skyldo beriast, þar sem honum þótti griót audfengit, en þó slètt at standa. Var þá skotit á fylkíngo, varo menn Þórgils í hinn vestra [2]) fylkíngar arm, skipadi hann þar fyrir Einari Halldórssyni ok Þórdi mági sínum, þar varo þeir menn er upp höfdu stadit í Skagafirdi, var fyrir þeim Asbiörn Illhugason. Þórgils kaus af lidino níu menn, en hann var hinn tíundi, ætladi hann at þeir skyldu þar framkvama sem mest þótti manna vid þurfa. Sturla var fyrir midri fylkíngo ok med honum Ögmundr Helgason, Þorvardr var í hinn eystra fylkíngar arm ok

[1]) á at beriast. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.* [2]) vinstra, *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

Austfirdíngar med honum. Eyúlfr ábóti vildi enn sættum á kvama ok gánga á milli, en Þórgils segir þat mundi til eingis kvama [ok þeir siálfir mundu ásættast [1]). Abóti kallar á brædurna ok adra kènnimenn ok bad þá frá rída, því ekki vinnum vèr hèr.

32. Nú rída þeir Rafn ok Eyúlfr ofan af heallanum ok stigo af baki ok bundo hestana, skutu sídan á fylkíngo ok slóu upp heróp ok gèngo at ofan. I þessu bili fèll sá madr í úvit í lidi þeirra Þorvardar ok Þórgils er Þórdr Krabbi hèt ok var Sigfússon, ok er hann raknadi vid, segir hann mönnum, at hann þóttist sèt hafa fyrir lidi þeirra Rafns ok Eyúlfs þann úhreinan anda er hann átti ei stad vid at siá, ok því fèll hann nidr. Segir Sturla sva í Þverárvísum, at Þórgils vakti fyrst bardaga þenna.

Þik sá ek Þórgils vekia
þíng-mót hèdins [2]) snótar,
iárnfaldínn [3]) gèkk aldar [4])
oddr í ferdabroddi.

Nú sigo saman fylkíngar, lupo þeir Rafn þar at ofan er þeir Einar ok Þórdr stódu fyrir med sveit Þórgils, hrukko þeir vid vel er fremstir stódu, en hinir grytto er sídar gèngo, ok þótti þeim Rafni þar hart vid at eiga ok lèt hann svífa þadan frá ok þángat sem þeir Helgasynir varo, en Þórgils var í midri fylkíngo hiá Sturlu, því þar var mest þörf, ok bardist ágæta vel ok þótti annarstadar audveldara á at sækia en þar er hann var fyrir. Þórgils hafdi mikit lid haft af Snæfellsnesi vestan med sèr, sem fyrr segir, ok veitti hann Þorvardi mikit lid med siálfs síns framkvæmd ok röskligri [5]) framgaungo, þess gètr Sturla í drápo þeirri er hann orti um Þórgils.

Veitti heörra [6]) hættir [7])
hergarda [8]) Þorvardi

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) heidins. *A.* Þ. heidin. *B. E.*
[3]) iárnfeldinn. *C. St.*
[4]) aldrei. sömu.
[5]) vizkuligri. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) hiörva. sömu.
[7]) hreytir. sömu.
[8]) hergèrda. *A. E.* Þ.

nordr fór her med hirdi-
hardr til Eyafiardar.
Ok valköstu vestan
vedur bliks lidi miklo
herdi baldr at hildi.
hiálmfaldinn [1]) þraung [2]) aldrei [3]).

Sturla gèkk í fyrstunni fram frá ödrum mönnum, hann hafdi pansara ok sverd, skiöld ok stálhúfo. Þórgils mælti vid hann, hví hann færi sva úvarliga? Sturla svarar: lát mik siá fyrir báti mínum sem audit má verda. Þórgils hióp fram til hans ok sagdi þeir skyldu bádir saman vera. Þessa gètr Sturla í Þórgilsar drápu, [er Þórgils gèkk fram fyrir skeöldu ok bardist alldiarfliga [4]).

Rym-gædir [5]) nam rióda
ríkr valslaungo [6]) bríkar,
at [7]) þar er aldir [8]) sættust [9]),
odd [10]) í ferdabroddi.
Hlífdi bríóst, en brusto
brandvorpin sky [11]) randa,
höldr [12]) gèkk hratt [13]) fyrir skiöldu,
hríngdrífs frömo lífi.

Nú þá er þeim Rafni ok hans fèlögum sveif frá þeim Einari ok Þórdi, þá eggiudu þeir at fram skyldi gánga fylkíngin ok herda á eptir, beygdu þeir Þórdr ok Einar at þeim þann fylkíngar arminn, ok hlutu þá hverirtveggio nokkura áverka, sveif Rafn þá undan ok þar at sem Þorvardr var fyrir ok þeir Austfirdíngar, gèkk Audun á adra hönd honum, en Eyúlfr Eyúlfsson á adra hönd ok fylgdarmenn Rafns adrir ok bördust allvel [14]), lagdi Rafn þá þegar til

1) hiálmbaldinn. *A. B. C. E. Gr. St* þ.
2) þróttug. *A. B. E. Gr.* þ. þáttug. *C. St.*
3) aldir. *A B. C. E. Gr. St.* þ.
4) frá [ vantar í sömu.
5) raungúdr. sömu.
6) valslögu. *A. C. St.* þ.
7) út. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
8) aldrei. *E.*
9) lètust. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
10) ord *C. St.*
11) styr. *A. C. St.* þ.
12) hollr. *C. St* heldr. *B. E. Gr.*
13) hvatr. *A. B. E Gr.* þ. hnotr. *C. St.*
14) ok lengi, vard þar hörd hríd, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Þorvardar ok hver til annars ok kvam í munn hveriomtveggia ok vard hvertveggi sár, ok þó Þorvardr meir sár, þá lagdi Þorvardr til Audunnar bádum höndum [ok kvam á hann midian [1]), ok fèll hann sva vid at fótunum kastadi fram yfir höfudit, en sva var hann öruggliga búinn at hlífum at ei gèkk á, en þó höfdu menn þat fyrir satt at hann meiddist fyrir lagino. Þórgils var þar í orusto er straungust var ok bardist best sinna manna, gèkk þar ok ei á sem hann var fyrir, hrukko menn fyrir honum, þvíat hann lagdi hart ok títt ok hió stórum, hann lagdi til eins manns sva at herdarnar kvamo nidr á grundina, en sva var hann búinn at ei gèkk á, hann stód seint upp. En er þeir Þorvardr ok Rafn varo skildir, snyr Rafn þar at sem Austfirdíngar vóru, gèngo þeir Rafn sva fast at, at hinir hrukko frá ok gèngu þeir í gègnum fylkínguna, fèllu þar nokkrir [2]) menn af Austanmönnum. Ögmundr Priónn hèt madr, hann var Fagranessmadr, hann var í lidi med Þorvardi, hann sótti at Rafni sva sem hann ætti ei annat at giöra en höggva til hans í ákafa. Rafn átti vid fleirum at siá, lagdi hann þá til Ögmundar ok kvam framan í stálhúfuna ok í gègnum hana, ok var þat hans banasár ok fèll hann daudr til iardar, þar fèll ok Oláfr frá Bustarfelli ok enn fleiri menn [3]) adrir, fèllu þar ok nokkrir menn af Rafni. Sva sögdu menn, er Þorvardr fèkk áverkann af Rafni, at hart var vid hann at eiga ádr, en sídan þóttist sá best hafa er honum stód firrst hans mótstödumanna, tók þá ok at ridlast lid þeirra Eyúlfs, [ok þá [4]) stökk Rafn or bardaga ok Asgrímr Þorsteinsson ok þeir þriátygi saman, sèr Rafn þrotin var van sigurs, snyr hann þá til hests síns ok steig í stigreipit ok ætladi á bak ok gèkk ei þvíat hann var þrotinn miök af mædi, þá lypti Þorsteinn Hvítakollr honum á bak, hann var hestasveinn þeirra ok hafdi ei verit í bardaga, rído sídan í brott, [þeir Rafn rido þegar um náttina vestr Skiálgdalsheidi, namo þeir ei fyrr stadar en í Gèldíngaholti [5]). Eyúlfr Þorsteinsson stód í midri fylkíngo þeirra Rafns öndverdan bardagann ok bardist vel ok drengiliga ok gèkk

[1]) frá [ vantar í *C. St.*

[2]) margir. *B. E. Gr.*

[3]) Austanmenn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) Rafn var nú miök þrotinn af mædi ok med því hann sá lidit dreifdist. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) frá [ vantar í sömu.

þar ei lengi á er hann var fyrir, stód hann fast ok þeir sem honum fylgdu. Eyúlfr hafdi fengit steinshögg framan á bríóstit í bardaganum, vard honum vid þat heldr ervitt, vóru hans atgiördir þadan af minni en elligar mundo, gèkk þá bardaginn sem snarpast um hríd, sóttu menn þá fast at Eyúlfi, ángradi hann þá mædi, var þat miök iafnsnimma, at þá brast flóttinn í lid þeirra Rafns ok Eyúlfs, vildi hann þá leita til hests síns ok sneri þá upp á grundina, en er hann tekr stigreipit ok ætlar á bak, lióp í því at honum Jörundr Gèstr ok þreif um hálsinn ok hnekkti á bak aptr ok felldi hann ok fór á hann ofan ok rak af honum stálhúfuna, kvam þá at honum Þorvardr ok menn hans ok spurdi hvern hann hefdi þar undir? Jörundr svarar: ek kènni hann fullgiörla at hèr er Eyúlfr Þorsteinsson. Gèkk Þorvardr þá at ok tók speótit tveim höndum ok lagdi til Eyúlfs, kvam þat lag í munninn ok nidr í gègnum hnakkann vid vellinum. Sá madr hió í höfud Eyúlfi er Kimbi [1]) hèt med breideggsi [2]), ok greinast menn at hver fyrri áverki vard, Kimbi var sídan drepinn, ok segia menn þat væri af rádum Rafns fullkvamliga, fleiri áverka hafdi Eyúlfr. Lík Eyúlfs Þorsteinssonar var fært til Múnkaþverár ok grafit hiá Sturlu Sighvatssyni.

33. Þessum atburdum miök iafnfram, sem nú er sagt frá, giördist þat sem fyrr var rítat, at Rafn reid í brott ok vestr Skiálgsdalsheidi, er þat skeótast af at segia, at hann lètti ei fyrr en þeir kvamo til móts vid Þorleif, hann var kvaminn sunnan á Arnarvatnsheidi med flokk. En nú er at segia frá þeim mönnum er eptir vóru á Þverárfundi, at þeir leitudu undan, sumir í kyrkior, en sumir í bænahús, [sumir vóru þar teknir ok flettir vapnum ok klædum [3]), sumir beiddu grida. Þórgils var gódr af gridagiöfum. Þórgils hitti á grundinni í flóttanum Audun Thómasson, spurdi Audun ef Þórgils vildi gèfa honum grid? hann kvadst þat giarna vilia ok spurdi, ef hann væri nokkut sár? hann kvadst ekki sár vera, en ákafliga módr. Audun kvadst vilia vera eptir ok hvílast, Þórgils setti eptir hiá honum [Ingimund bródur sinn ok Dal-Jón

[1]) Kumbi. *A. C. Gr. St. Þ.*
[2]) handöxi. *C. St.*
[3]) frá [ vantar í *C. St.*

at gæta hans [1]). Audun settist nidr vid árbakkann [2]) ok kvadst þyrsta, [Ingimundr gaf honum at drekka þremsinnum, sídan hnè hann aptr ok dó litlo sídar [3]), [hann var lítt sár ok sprakk miök af mædi, at því er sumir segia, þvíat hann hafdi borit sik miök vapnum. Snörtr bródir hans fór í sídasta lagi af hinum betrum mönnum ok kvamst í kyrkiu at Þverá ok heitadist Þorvardr at draga hann út or kyrkiunni ádr hann nædi brynionni af honum þeirri er Oddr bródir Þorvardar hafdi í Gèldíngaholti, þá er hann var veginn [4]). Þórgils reid til bæar upp til Þverár hinnar litlo, vóru þar margir menn í bænahúsi. Þar var kvaminn Svarthöfdi Dugfússon undir bænahussvegginn ok var hann særdr meidsla sárum, höggvinn um þvert andlitit, bad hann grida heldr ákafliga, Þórgils gaf honum grid. Þar var ok tekinn Oláfr Oláfsson [5]), bad hann sèr grida, en Þórgils var í því heldr tregr, sótti Oláfr þá at Þórd Hítnesíng at bidia sèr grida, ok því iádi Þórgils um sídir. Þeir Þórgils ok Þorvardr ridu upp eptir hèradi til Múnkaþverár ok vildu vita hvert Rafn hefdi ei þar kvamizt í kyrkio, en er þeir kvamo þar, var ábóti heim kvaminn ok segir at Rafn var ei þar, ridu þá út aptr allt þar til er þeir kvamo í Þórunnareyo, samnadist þángat flokkrinn ok vóru þar þat er eptir var næturinnar. Þorláksmessodag ridu þeir upp á eyrina þar sem bardaginn hafdi verit, ok sá þar tídindi slík sem ordin vóru, lágu þar líkamir þeirra er fallit höfdu, en sumir varo brott fluttir. Þessir menn fèllo þar: [6]) Eyúlfr Eyúlfsson [Kárssonar, hann var höggvinn í sundr í miödmunum, hann var Rafns madr [7]), Audun Thómasson, Halldór bóndi af Skinnastödum [Helgason, hann var frændi Eyúlfs Þorsteinssonar, Gudny Asgrímsdóttir var módir hans [8]), Þorkèll hinn mikli, en alls fèllo af þeirra lidi átta menn edr níu. En af Austfirdíngum fèll Ög-

[1]) frá [: nokkra menn, *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) miök módr, bæta sömu vid.

[3]) frá [: bad gèfa sèr drekka, var þat giört, drakk hann tvisvar edr þrisvar, litla stund þar eptir fèll hann í úmegin ok andadist, sömu.

[4]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) Eyúlfr Þorsteinsson, bæta sömu vid.

[7]) frá [ vantar í sömu.

[8]) frá [ vantar í sömu.

mundr Priónn, Oláfr frá Bustarfelli ok enn fleiri, sextán menn edr seytián fèllo í bardaganum, en margir vurdo sárir. Tóku þeir til at beriast milli midsaptans ok náttmála, en eptir sólarfall var þat er flóttinn brast. Þar vóru margir menn bædi flettir vapnum ok klædum, ok urdu hinar mesto hrakníngar, en þat var lengi öndverdan bardagann at þeim Eyúlfi þótti horfa hvergi úvænna, en þessi vard endir á sem margir menn vito, at Eyúlfr lèzt þar, en þeir höfdu sigur er úvænna þóttu útsigla. Um myrgininn ridu þeir Þórgils ok Þorvardr upp á Grund, þar kvam Eyúlfr ábóti ok margir kènnimenn [1]) med honum, vóru menn þá leystir til samneytis. Finnbeörn bóndi hafdi fengit sár í bardaganum ok var hann lagdr í óstin, þótti þat sár lítit at siá, en þat vard at miklo [2]), var Finnbeörn hress í ferdum med Þorvardi um sumarit, en þat sár leiddi hann til bana, andadist hann um haustit Michaelismesso-dag, var eptir hann hinn mesti mannskadi.

*) 34. Sá madr beó sudr í Midiumdal skamt frá Laugarvatni er Páll hèt, hann var prestmadr ok góðr búþegn, kona sú var med honum er Jóreidr hèt ok var Hermundardóttir. Þetta dreymdi Jóreidi sextán vetra gamla þar í Midiumdal um messo Mariumesso Magdalenæ í kyrkio, þá var ei spurt fall Eyúlfs Þorsteinssonar, hon þóttist vera úti á hladi þar í Midiumdal, hon sá kono rída vestan fyrir hladit á grám hesti í dökkvum klædum, mikill var hestrinn ok sva konan, Jóreidr þóttist spyria hvadan hon kvam at? nordan kvam ek at, segir hon, or Násheim. Hvat veizto til Þorvardar, segir mærin. Þat veit ek algiörla, segir draumkonan.

Hann er hurd fyrir heim
ok bryniadr í sveim
ero brennomenn þá
mannhundar hiá,
mannhundar hiá.

Er þat nokkut mark er þú segir mèr, kvad mærin?

Mark er þèr
sem þínum födur

[1]) menn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) meidslum, sömu.

*) þessi kapituli vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

ok öllum ydrum
ættnidiúngum,

segir hon. Hvar ero brennomenn, kvad mærin? Hon svarar:

Ero menn þá
er þeim vegnar sva,
heldr vísak þeim
í heliu heim,
í heliu heim.

Hvad ætla þeir þá er þeim vegnar sva, kvad mærin? Hon svarar: þá ætla þeir med íllvilia sínum at kvama heidni á allt landit. Þá vaknadi Jóreidr. Enn dreymdi Jóreidi sex náttum sídar, ok sá þessa sömo kono, ok spurdi hvadan hon kvam nú at? nordan or sveitum, segir hon. Hvat veizto nú til Þorvardar, segir Jóreidr? Hon svarar:

Nú er Þorvardi
þraungt um hiarta,
þó er budlúngi
bót hit nærsta,
bót hit nærsta.

Hvad er um Steinúlf bródur hans, segir Jóreidr? Hon svarar:

Nú er Steinúlfr
í styrstraumi
ok stagli pyndr med Agli,
vertu í reit
vinar míns,
en ek man med svinnum at sakbótum.

Þá vaknadi Jóreidr. Þá spurdist sudr þángat fall Eyúlfs ok þau tídindi önnur sem þar urdu. Enn dreymdi Jóreidi, at þessi kona kvam at henni, hon var þá í blám klædum, ok syndist henni konan mikilúdlig, hon reid þá enn grám hesti, hon mælti þá, hví spyr þú mik eingis ok eigi at nafni? Mærin svarar, mèr er ótti at þèr, en þó vil ek nú vita hver þú ert eda hvat þú heitir? Hon svarar, ek heiti Godrún Giúkadóttir. Hví fara heidnir menn hèr, kvad mærin? Eingo skal þat þik skipta, segir hon, hvert ek em heidin edr kristin, en vinr em ek vinar míns. Hvat veizto nú til Gissurar Þorvaldssonar, segir mærin? Hon svarar:

Minnir mildíng
morgin sáran,
hvart man Gissuri
gánga at óskum,
vildak at óskum
ödlíngssyni
öll æfi sín
eptirgèngi.

Hversu er þá, segir mærin, ef sva fer? þá rædr hann Islandi til aldurslita, segir draumkonan. Er þèr vel til hans, segir mærin? Hon svarar: aldrei þykkia mèr þeir gódir fuglar sem hátt fliúga. Hvernin er þèr til Rafns, segir Jóreidr? Leidir ero mèr allir svartir fuglar, segir draumkonan. Hvernin er þèr til Þórgils Skarda, segir mærin? Hon svarar: illir þykkia mèr allir þeir fuglar er í sitt hreidur skíta. Ok þá kvad hon:

Segdo Þorvardi
þessa grímo
úngum andskota,
ef þik eptir spyr,
en þó at þik ei
eptir fregni,
satt skalto segia
syni oddvita.

Nú hefir þetta þrísvar borit fyrir þik, enda verdr þrísvar allt fordum, þat er ok eigi sídr at góð er guds þrenníng. Þá vaknadi Jóreidr. Um haustit er nátt tók at myrkva, dreymdi hana á sömo leid fram. Eina nátt dreymdi hana þat Jóreidi, at þessi kona reid austan fyrir hladit þar í Midiumdal ok hafdi mann bundinn í tagl hestinum. Jóreidr spurdi, hver þar væri sva hardliga leikinn? Draumkonan kvad þat vera Eyúlf Þorsteinsson, skal ek nú launa honum, segir hon, er hann dró Hall Gissurarson um klakann á Flugumyri, ok þá keyrdi hon hestinn ok leypti út ok sudr eptir túnino ok kvad þetta:

Þá var betra,
er fyrir baugum rèd

Brandr hinn örvi
ok bur skata,
en nú er fyrir löndum,
ok lengi man,
Hákon kóngr
ok hans synir.

Þá vaknadi Jóreidr.

35. Þorláksmessodag var fundr stefndr vid Diúpadalsá, kvamo þar til margir hèradsmenn, var þá talat um tídindi þessi, fráfall Eyúlfs bónda. Beiddi Þorvardr sèr vidtöku af bóndum ok flutti þat med honum Þórgils ok Sturla, vard at því lítill rómr, orti Þorvardr á um orskurdi vid bóndurna, Þorvard or Saurbæ, Hall af Mödruvöllum, Örnúlf or Miklagardi ok enn fleiri adra. Þorvardr or Saurbæ svaradi fyrst, lèzt ekki rád eiga meir en eins manns, má ek vel sæma vid þann, at best er at eingi sè, þeir Hallr sögdu, at þeir mundu ei taka rád þessi fyrir hendr bóndum. Gèngu bóndr þá á eintal, en er þeir höfdu talat um ríd, gèngu þeir aptr á fundinn, sagdi Þorvardr at þat var samþykki bónda, [at þeir vildu ei taka vid honum í hèrad [1]), er oss Þorvardr sagdr hinn mesti ofsa-madr, en fèvani miök, en eigi þó at svara stórum vandrædum, vilium vèr bída þess er Hákon kóngr ok Þórdr Sighvatsson giöra rád fyrir. En er Þorvardr skilr, at eingi er þessa kostr, þá rido þeir af hèradi ok vestr til Skagafiardar, gisti Þorvardr á Silfrastödum, en Þórgils í Flatatúngo. Var þá fundr stefndr vid Vallalaug, kvamo þar til bóndr flestir. En um daginn, er þeir ridu ofan eptir Jökulsárbökkum, talast þeir vid Þorvardr ok Þórgils um lidveizlo þá er Þorvardr hafdi heitit Þórgilsi um til hèrads í Skagafirdi, en Þorvardr færdist or fángi, segir at eingis mundo sín ord metin, þar var hiá Finnbeörn, gèkk þá í nokkur grein med þeim Þórgils ok Þorvardi. Finnbeörn mælti: mikla fylgd ok góda átto at launa Þórgilsi, ok mikit hefir hann til sæmdar unnit vid þik ok gódu hefir þú honum heitit, ok mælti at honum nokkrum ordum. Þorvardr kvadst allt halda mundu vid Þórgils þat er hann hafdi honum bestu heitit ok hann átti undir sèr, þótti honum

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

þórgils hafa verit ekki tillagamikill í Eyafirdi. Ridu þeir þá til fundar, var þá kvamit feölmennt. Beiddist þórgils þá af bóndum, at þeir tækio vid honum til höfdínga yfir hèradit, taldi til frændsemi vid Kolbein at rèttum erfdum, þóttist nærst kvaminn til ríkis í Skagafirdi. Broddi svarar fyrstr manna, ef hann skyldi þar nokkrum höfdíngia þióna, vildi hann helst þórgilsi, en betr at þióna eingum, ef hann mætti kyrr siást. Sturla flutti þetta mest manna ok Asbeörn. I þessu kvam þórarinn prestr Kaggi sendr af Henreki biskupi, las hann þar upp brèf, stód þat á brèfi því, at biskup kallar þórgils ok þorvard í banni ok alla þá menn er á þverárfundi hafa verit ok farit med úfridi þángat á sveitir í móti þeim Eyúlfi ok Rafni, fyrirbaud hverium manni at taka vid þórgilsi í hèrad, ok hèt þeim banni ok afarkostum er at því yrdi kunnr. Var þá því lokit at bóndr mundo nokkurn kost á giöra at taka vid þórgilsi, lagdi þorvardr þar ok ekki til, sagdi þórgils bóndum at hann var ei at heldr hèradi horfinn, ok hann mundi til leita þegar hann þættist faung á hafa ok hirda ei hvad biskup segdi. Broddi kvad allt mega þó naudigr skyldi, skildi sva þenna fund ok töludu þeir þórgils ok Broddi lengi hliótt. þat spurdist vestan or sveitum at Rafn var kvaminn til móts vid þorleif, ok þeir höfdu flokk mikinn, vóru þat Borgfirdíngar, þat er ok sagt, at Rafn lèti samna mönnum um dali, ok þótti þá ei fridligt at rída vestr á sveitir. [Beiddi þórgils þorvard at rída vestr med sèr [1]), en hann baud at fylgia honum um Borgarfiörd til Bláskógaheidar. þorvardr þóttist ei til hafa hestakost ok taldist undan alla vega at fylgia honum í Vestfiördu, en bad þórgils at rída austr í feördo vid sva marga menn sem hann vildi, ok vera þar til þess er lyki málum þeirra. Finnbeörn baud þórgilsi at rída vestr med honum ok vera vid siöunda mann, þótti þórgilsi hann vanfær sakir sárs þess er hann hafdi fengit ok þótti hann lítill afli ok vildi hann þat ei, skildust þeir þórgils ok þorvardr vid Vatnsskard, var þar skilnadr lagligr, þakkar þorvardr þá enn at nyo þórgilsi lidveizlo ok hafdi uppi hin fegursto frammheit, þórgils svarar því fáliga. Reid þórgils vestr Vatnsskard, en er hann kvam í Lánga-

[1]) frá [ vantar í *C, St.*

dal, þá vóru þar slíkar fréttir allar sem fyrr höfdu verit af þeim Þorleifi ok Rafni, þá giördi Þórgils Þórd Hítnesíng ok þá tólf saman at þeir mundu ríða um feöll fyrir ofan allar bygdir ok kvama til móts vid hann í Haukadalsskardi, en ek vil ríða [hit fremra [1]), Þórdr skyldi ok ríða til móts vid Þórgils, ef hann yrdi var vid flokkinn. Þeir Þórdr ridu þar til er þeir kvamo fyrir Vatnsdalsbotn, fundu þeir þar Gèlli Pálsson, Lítíng Arngeirsson ok Sigmund Gèstsson [2]), þeir vóru sendir af Þorleifi á niósn, at vita um ferd þeirra Þórgils ok Þorvardar, kvöddust þeir kynniliga ok sögdu hverir ödrum lausnar tídindí, segia Borgfirdíngar Rafn hafa kvamit til móts vid þá á Arnarvatnsheidi ok beidt Þorleif at hann mundi rída med þeim nordr at þeim Þórgilsi ok Þorvardi, en Þorleifr vildi hvergi rída á sveitir med flokk, en baud Rafni at rída til Borgarfiardar ok lèzt þá mundi veria hann med Borgfirdíngum, ef hann væri þángat sóttr, Rafn vildi þat ei, segia þeir at hann reid heim til Saudafells, ok hyggiom vèr at hann sè heldr feölmennr. Skildu þeir at því, ok ridu þeir Þórdr þá til Midfeardar ok leitudu þar til fararskióta, ridu sídan í Haukadalsskard ok kvamo þar um myrknætti sem Þórgils var, ok svaf allr flokkrinn, en er þeir ridu at, vard af dynr mikill, vöknudu menn vid þat, vindr var af landsudri, en þeir höfdu sett upp speót sín, þeir vóru miök svefnvana [3]). Einar bóndi spratt upp fyrstr manna ok þreif til speóts síns ok mælti: nú rída diöflarnir hèr at oss, sprettum upp ok dugum vel. Þórdr mælti: menn rída at, en ei diöflar, ok þá kèndi Einar mennina. Þórgils spratt upp ok nokkrir menn fleiri, segir Þórdr þau tídindi sem hann hafdi spurt, ridu þeir Þórgils þá, þegar þeir varo búnir, þar til er þeir kvamo at Vestlidaeyri, þar ádu þeir miök lengi, menn ræddu um at þat væri úrádligt, sva feölbygdar sveitir sem þar vóru, at rída þar um. Þórgils kvadst ei vilia laupa um horn Rafni sva at hann ætti ei kost at finna hann ef hann vildi. Sturla segir, at Rafn mundi ekki í þessu sinni áræda, þar sem hann hafdi ádr forvida vordit. Rafn var heima at Saudafelli ok sá reid Þórgils, var þar báng mikit um at-

[1]) at fram. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.* [3]) svefnugir. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*
[2]) ok enn fleiri, bæta sömu vid.

reid, en þeir hepto sik siálfir. Ridu þeir þórgils um kveldit á Raudamelsheidi, skildust þeir frændr med kærleik miklum, baud þórgils Sturlu til Stadar heim med sèr, en Sturla reid heim í Hítárdal, sátu heima um kyrrt um sumarit. Rafn var lengstum at Saudafelli, var þá gridalaust med mönnum ok sættalaust, ok atfaralaust þó at kalla. Sturla reid vestr til Saurbæar litlo sídar, en Rafn til Borgarfiardar, dvaldist Sturla litla ríd vestr ok reid heim þadan.

36. þórgils Bödvarsson reid heiman frá Stad tveim náttom fyrir Maríumesso hina fyrri [1]), hann setti Einar til hèrads at gæta, því hann ætladi sèr ei aptr hinn nærsta vetur, hann sendi ord þórdi mági sínum, at hann mundi fara med honum, fundust þeir at Raudamel. Madr hèt Sigurdr Grímsson, hann var kalladr Snókr, hann átti heima at sydra Raudamel, en er hann vissi at þórgils var kvaminn til Raudamels, þá leypti hann vestr til Saudafells med niósn, lèt Rafn þegar mönnum samna. þórgils var vid tuttugasta mann, þeir Sturla höfdu mælt med sèr mót á Vestlidaeyri, þá um kveldit ridu þeir þórgils þángat, var þá sólarfall, Sturla kvam litlo sídar, giördist þá myrkt miök, rídu menn þá inn [2]) yfir Vadla. þórgilsi þótti ei fært at rída um Haukadalsskard, þvíat hann vissi at Rafni mundi gánga niósn um ferd þeirra, reid hann þá til Laxárdals, en Sturla vestr til Saurbæar, þá var sva mikit myrkur, at eingi madr sá annan, þegar nokkut var í milli. þat bar sva til, at Bergr reid nokkut í fyrra lagi, en er þeir urdu varir at þeir ridu at grafarlæk nokkrum ok menn vóru ödrummeginn, lèt Bergr þá stad nema ok beid þórgils ok mælti at menn skyldo hliódir vera, en er þórgils kvam at fram, bad hann menn búa sik ok rída á hvat sem fyrir væri, [en þeim Bergi ok þórdi þótti rádligt at vita hverir fyrir væro [3]). þórgils spurdi, hverir menn væro ödrummeginn lækiarins? þeir segia þat væri Biörn bóndi Drumbr or Hiardarholti. Menn þórgils nokkrir þeir er ridit höfdu fyrr í náttmyrkrino, ridu leid sína til Midfiardar um kveldit ok sídan til Skagafiardar nordr. Rafn hafdi stefnt mönnum saman ok hugdi

[1]) sídari. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) út, sömu.
[3]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

at Þórgils mundi rída at honum, en þat sinn ridu hverigir at ödrum. En er Þórgils kvam til Skagafiardar, reid hann fyrst í Vidvík til Asbearnar, hann hafdi búskylt[1]) ok lítit upptak, en lid mart. Brandr hèt madr Ölvidarson er þar beó á sumo landinu vid lítinn feárkost, var þá leitat eptir faungum til Arons[2]) Karlsúnga ok Geirs Audga ok fèkkst hvarki. Þá kvamo ord frá biskupi, var þeim borit bann ok gudsreidi, bannadi biskup hverium manni at samneyta þeim edr giöra þeim nokkurn greidskap, en þó mælti hann, at heldr skyldu menn bera siálfir mat fyrir Þórgils en ræntir væro, en gèfa leifarnar hundum. Þórgils fór þá útí Vidvík, tók hann þar vid búi þeirra Asbiarnar ok Brands, giördust þeir þá hans heimamenn. Þórgils stefndi fund at Vallalaug, kvamo þar til allir bóndr or hèradi, ok beiddi Þórgils sèr vidtöku. Bændr töldu nú upp vandrædi mörg þau er vóru, bann biskups ok þar med þótti horfa úfridliga, medan stórmæli þessi vóru úsætt er hann átti at svara. Broddi lagdi þat rád til, at bóndr skyldu taka vid Þórgilsi, hygg ek[3]), segir hann, at þèr munut honum seint af ydr kvama. Bóndr kvádu mikinn kostnad mundu af honum leída þar sem hann væri kvaminn med tvær hendr tómar. Broddi mælti: ei má fyrir öllu siá, mano þeir biskup brátt sættast, en Skagfirdíngar hafa iafnan haldit formann sinn med kostnadi. Þórgils segir þeim slíkt þykkia mundu lítit, [at taka vid honum til höfdíngia[4]) vid þá Eyúlf ok Rafn. Var þat þá at lyktum, at flestir menn iátto at taka vid honum til höfdíngia. Var þá talat um tillögur, giördi Broddi þat rád fyrir, at hafa skyldi saudakvöd. Settist Þórgils þá í Vidvík, en biskup lèt læsa kyrkio ok lysti yfir þeim banni. Þórgils hafdi þar marga fundi ok iáttu bóndr honum hèradi á hveriom fundi, en eingi mælti í mót. Var þá höfd uppi saudakvöd um hèrad allt nordan til Rútafiardar, gèngo menn þá undir þat, var med þeim Þórgilsi ok biskupi hin mesta fæd. I Vidvík var gledi mikil ok gott at vera, leikar ok fiölmenni mikit. Þat var einn drottinsdag at þar var dans mikill, kvam þar til feöldi manna. Hámundr prestr frá Hólum hafdi súngit á Miklabæ í Oslandshlíd

[1]) búskylft. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) Arnórs. *C. St.*
[3]) hyggit at. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[4]) frá [ vantar í sömu.

um daginn ok rídr hann í Vidvík til dans ok var þar at leik, ok dádu menn miök dans hans, en er hann kvam heim til Hóla, rak biskup hann or kyrkio med hrakníngum ok vildi ei siá hann, en er Þórgils vissi þat, baud hann presti til sín, en er Hámundr prestr birti þat fyrir vinum sínum, þá tók biskup hann í sætt fyrir bæn manna, en var vid hann aldrei iafnvel sídan sem ádr. Var Hámundr litla ríd at Hólum med biskupi ok rèdst eptir þat austr í feördu, margir lygi-kvittir varo þar ok mörg upplaup [1]).

37. Þat er nú þessu nærst at segia, at Henrekr biskup fór heiman nordr í syslu sína um haustit. I þann tíma kvam austan or feördum Þorvardr Þórarinsson ok med honum Finnbeörn Helgason. Þorvardr sendi ord Þórgilsi at þeir skyldu finnast í Svarfadardal, [fór Þorvardr þíngum um alla sveit ok leitadi sèr vidtöko ok fèkk ei. Reid Þórgils nordr Heliardalsheidi, fundust þeir á Grund í Svarfadardal [2]), töludu þeir um vandrædi sín ok áfelli þat er biskup lagdi á þá Þórgils ok nokkut á þá alla. Rèdu þeir þat med sèr, at rída inn í hèrad til móts vid biskup, er hann fer nordan or syslo sinni, ok beidast af honum sætta, var Þorvardr þá hinn blídasti, ok fór þá med þeim frændum vingiarnliga, segir Þorvardr Þórgilsi um hvat hann ætti at vera ok hèradsbóndr þótti honum miök vera tvídrægir, en biskup feandskaparfullr vid sik. Finnbeörn bóndi var miök kránkr af sári því er hann hafdi fengit um sumarit á Þverárfundi, var hann hress á fótum, en miök hás í máli. Þeir ridu nú inn til Eyafiardar, þá gisti biskup á Mödruvöllum, ætludu þeir Þórgils ok Þorvardr þángat til fundar vid hann. En er biskup vissi þat, reid hann í brott þegar ok ofan til Múnkaþverár ok gèkk þar í kyrkio ok lèt læsa kyrkiunni. En er Þórgils ok Þorvardr spurdu þat, ridu þeir til Þverár vid þriátygi manna, en er ábóti fann þá, fagnadi hann þeim vel ok segir þeim at biskup vildi at þeir rido á brott ok vildi ekki vid þá mæla. Abóti baud þeim Þórgilsi þar greida þann er þeir þyrfto ok hestaskipti, hvert sem biskupi líkadi betr edr verr. Þórgils ok Þorvardr bádu ábóta at hann skyldi gánga á milli ok kvama á med þeim stefnulagi til umtals mála sinna, hèto þeir biskupi gridum

[1]) áhlaup. *B. Gr.*

[2]) frá [ vantar í *C. St.*

ok hans mönnum, hversu sem fèlli med þeim, en kölludust ei mundo brott rída, fyrr en þeir nædo fundi biskups, ella skal hann kost eiga at vera í kyrkiunni medan honum þykkir gott. Fór ábóti þá í millum ok Hallr af Mödruvöllum ok stód þar fiarri um tilmæli allra sætta, ok vard þat at lyktum at biskup gèkk or kyrkio fyrir bæn ábóta, var þá gèngit í ábóta stofo, [þar var vid rædu þeirra ábóti [1]) ok Þórarinn prestr Kaggi. En er Þorvardr ok Þórgils ok þeirra menn gèngo í stofuna, kvóddu þeir biskup, en hann svarar eingo. Settust þeir þá nidr ok hóf Þorvardr þá mál sitt á þessa leid: Herra, þat er eyrindi vart híngat, at allt þat er vèr höfum brotit vid heilaga kyrkio ok raskat gudsrètti vilium vèr bióda á ydvarn dóm, ek ok Þórgils frændi minn ok Finnbeörn, [vilium vèr hafa þar í mót af ydr lausn ok lögliga sætt [2]), en þær sakir sem giörzt hafa millum vor ok annara leikmanna, skilium vèr undan ydrum dómi, ok um allar hèrads ísetur vilium vèr ei ydro rádi hlyta, þvíat oss þykkir sem þèr munit þar eingar sakir á eiga, er þessi minn vili ok Þórgilsar. En ef þèr, herra, þykkist eiga at skripta oss, þá vitum vèr at þèr eigut at leysa oss af sökum þeim er hèr hafa giörzt í sumar, vilium vèr undir þat blídliga gánga, er þá mitt bod allt at sinni. Þat er ok mitt bod, herra, segir Þórgils, en hvervetna vil ek tilsveigia ydvars samþykkis sakir fyrri vinátto, þat ek þykkiumst ei siálfan mik miök minnka til, en hèrad man ek ei uppgèfa, en miök undrak þat þèr hafit sva fliótt fengit mikit skapskipti sídan vid vórum hinir kærusto vinir, veit ek mik vandliga vera saklausan vid ydr bædi í ordi ok verki at minni skynsemi, ok hart þykkir mèr þat er þèr heitit bóndum afarkostum, ef þeir gèfa mèr mat edr mönnum mínum, edr skipta um hesta vid mik, þá má þat vera af stundu at ydr edr vinum ydrum þykki þat litlu betr rádit, ok meiri van at þá kènni fleiri kulda af en ek einn ok minir menn. Biskup vard þá reidr miök ok mælti mörg úþægilig ord vid Þórgils þau er ei hæfir at rita, hann mælti, at Þórgilsi ok hans mönnum mundi þat ei heimilt er bóndr gæfo honum, ok ei skal ydr heimil iörd at gánga á, ok eigi himin

[1]) frá [ vantar í *C, St.*

[2]) frá [ vantar í *A, B, C, E. Gr, St, Þ.*

at horfa á, ok eingan lut heimilan nema helvíti. Þórgils þagdi ok svaradi eingo. Biskup kærdi sakir á Finnbiörn, en Finnbiörn svaradi því af sinni hendi. Herra, segir hann, þessi ord sem þèr hafit hèr talat ídag vid Þórgils lögonaut minn, mano synast vitrum mönnum úskynsamliga tölud, þótt hinn heimskasti madr taladi, ok sva hinn illgiarnasti, þá mundi hann þykkia nær dauda fyrir verdr, en ek er nú heldr hás at svara ydr í dag, mætti gud gèfa þat at ek væri á ödrum fundi miklo sneallmæltari, er þat nú lióst fyrir allra manno augum, at þá gullhálsana sem hèr hafa geysat yfir sveitir med ránum ok refsíngum, hafit þèr látit standa hiá ydr hiá altari í heilagri kyrkio, ok lagt á þá alla virkt, ok er þat lygilaust, ok þeir hafa marga menn brent inni, ok marga menn fátæka saklausa inni kæft í reyk, um sum illvirki þeirra er sumum mönnum ei tvímælislaust, hvert þèr manut þurrt hafa umsetit allar vitundir, en þat vita allir menn, at brennuvargar eru rækastir giörvir bædi í gudslögum ok manna. Spratt biskup þá upp ok kvad diöful mæla fyrir munn honum [r]), margir lögdu þar gott til ok vann þat ekki. En Þórgils mælti, þá er biskup gèkk brott, sva at hann heyrdi; ei man ek leggia hendr á ydr, herra, ok ekki ræna stadinn á Hólum, en sva munut þèr til mega ætla, at ek mani lítils virda ydvarn vilia í hèradi, ef þèr virdit minn vilia eingis. Gèkk biskup þá í brott ok allir þeir. Gèngu þeir Þórgils þá til hesta sinna, en Þorvardr gèkk til biskups ok taladi vid hann, sagdi Þorvardr sídan, at hann hefdi beidt biskup lausnar, en biskup vísadi honum til umbodsmanna í Austfeördum, ok lofadi honum lausn ok öllum hans mönnum, ef hann ridi af hèradi ok veitti Þórgilsi eingan stirk. Ridu þeir Þorvardr þá í brott ok skildust yfir á Espihvoli, reid Þórgils þá til Skagafiardar ok heim í Vidvík. Þeir Þorvardr ok biskup höfdu þegar fundizt ok samdist þá vel med þeim Finnbirni, reid Þorvardr þá nordr til Fnióskadals, en er þeir kvamo á Draflastadi, þyngdi Finnbirni sva at hann var ei fær, lagdist hann þar eptir, en Þorvardr reid austr í feördu, Þá

r) Þú segir, sagdi biskup, hvat þeir hafa athafzt ok um brennuna, en þar yfir þegir þú hvat þeim var ádr tilgiört í manndrápum ok ödrum svívirdíngum; bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

kvam til Finnbearnar Oláfr prestr Kráksson ok leysti hann umbodsmadr ok oleadi hann ok andadist hann Michaelismesso af sári því er hann hafdi fengit á Þverárfundi, ok þótti Þórgilsi at honum mikill skadi, er hann spurdi, ok mörgum ödrum. Til Þórgils kvamo um haustit miök margir menn or hèradi, einn af þeim var Bödvar Klængsson frá Bearnargili or Fleótom er sídan var allra manna knástr, fèkk hann sídan sæmd mikla ok fè gott ok giördist fylgdarmadr Þórgils sídan. Sá madr kvam vestan or Vídidal er Gudmundr hèt, Galltnesíngr, úngr madr ok vaskligr. Þórgils hafdi menn á niósnum vestr til Vatnsdals, þvíat á eingri stundo þótti örvænt, at þeir Rafn ok Asgrímr mundo kvama vestan med úfridi. Þórgils sat þá lengstum heima í Vidvík, þess í milli er hann fór yfir hèrad at eyrindum sínum, var med þeim Þórgilsi ok biskupi slíkt edr meiri feandskapr en ádr þeir höfdu fundizt í Eyafirdi.

38. Skèggi hèt madr, hann var messodiákn at vígslu, hann [1]) átti bú at Kálfstödum, vellaudigr at fè ok hafdi gnótt í búi, en er sauda var kvadt, vildi hann eingan saud gèfa ok ekki tillæti Þórgilsi giöra. Þat var um haustit at Þórgils sendi upp þángat Ingimund bródur sinn ok med honum Flióta-Bödvar Klængsson ok Snorra Gèmsúng, vóru þeir saman fimm edr sex [2]), skyldu þeir fala fè til sláturs at Skèggia, edr beida hann nokkurra tillaga, en ef þeir fengio þat ekki, þá bannadi Þórgils þeim ei [3]) at giöra þar nokkrar úspektir, en baud þeim þat ei. Fóru þeir nú upp þángat, sem fyrr var sagt, Skèggi vildi hverki gèfa nè selia ok ekki gèfa þeim mat, þar var mart manna fyrir bædi konur ok karlar, sló því í ordahnippíngar, lèt Ingimundr þá laupa til ok höggva ofan krof nokkur, urdu þá áhöld med mönnum, var þar lidsmunr med þeim, vóru heimamenn fleiri, vard Snorri undir hafdr um ríd ok sva Ingimundr, varadi Skèggi menn vid því miök at giöra Ingimundi mein, Bödvari þótti þar ok lítit giört af sèr. En er Ingimundr kvamst á fætr, laust hann húskarl Skèggia med búklara, var þar þæfa miök laung, skildu þeir vid þat at þeir Ingimundr

[1]) var rádamadr at Hólum, en, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) siö. *A. C. St.* Þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

höfdu þadan eingan lut ok fóru heim vid svabúit, lèt Þórgils ílla yfir þeirra ferd, hafit þèr, segir hann, farit audvirdiliga ok lítilmannliga, var kyrrt um ríd [1]).

39. Þat var einn dag á öndverdum vetri at Þórgils var heima í Vidvík, þá var vedur gott ok giördi á nordrænt, ok er dró at sólarfalli, var Þórdr Hítnesíngr staddr sudr á vellinum ok nokkrir menn med honum, þeir sáu rída tvo menn allmikit ok þegar á túngardinn þar sem þeir kvamo at, en er Þórdr fann þá, kèndi hann þar Gudmund Galltnesíng ok med honum annar madr Víddælskr. Þórdr [2]) spurdi tídinda edr fyrir hví hann færi sva ákaft? Gudmundr kvadst eingi tídindi segia, en þat er sagt, at Rafn ok Asgrímr sèo kvamnir vestan or feördum med [hálft fiórda hundrad [3]) manna í Dali, ok ætlödu fyrst at rída til Hítárdals at Sturlu ok sídan nordr at Þórgilsi, ok þeirra van þar til er þeir kvama. Fóru þeir þá heim allir saman, spurdi Þórgils Þórd at tídindum hver Gudmundr segdi? Þórdr svarar, hann segir at Rafn ok Asgrímr sèo kvamnir vestan or feördum [4]) med feölmenni [5]), þóttist hann þat sannliga vita, er þat glíkast, segir hann, at Sturla frændi þinn sè annathvert drepinn edr höndum tekinn, man honum þykkia þín lidveizla heldr fiarri sèr. Þórgils mælti: má vera at betra sè en þú segir, svellr niósnarmönnum opt í munni sèr miök. Rèdst Þórgils þá um vid fylgdarmenn sína hvert rád upp skyldi taka, var þat þá til ráds tekit at samna mönnum. Þórdr fór í Fliót út, Asbiörn um Sæmundarhlíd, Þórgils um Blönduhlíd, en allr flokkr skyldi kvama upp í Krossanes um daginn eptir. Er þar af sagt, at um kveldit eptir kvamo saman fiögur hundrud manna í Krossanes. En um kveldit, er menn beoggust til svefns, var Þórgilsi sagt at kvamnir væro úti menn nokkrir þeir er ei vóro þar hèradsmenn ok ei varo kèndir, hann bad Þórd útgánga ok spyria tídinda. Þórdr gèkk út ok kèndi þá menn skiótt, var þar kvaminn Gudmundr prestr [6]) Oláfsson [7]) ok Eyúlfr Þórgilsson ok þeir nokkrir

[1]) hèradit. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Þeir. sömu.
[3]) fiögur hundrud. sömu.
[4]) ok í Dali, bæta sömu vid.
[5]) fiögur hundrud manna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) vantar í sömu.
[7]) Þórólfsson. sömu.

saman, leiddi Þórdr þá inn ok tók Þórgils vel vid þeim ok blídliga, segir Gudmundr eyrindi sitt at hann var sendr af þeim Rafni ok Sturlu til þín, Þórgils, hefir Rafn ridit sudr til Hítárdals, ok hafdi Sturla kvamit til móts vid hann, höfdu þeir sættst ok skyldu nefna menn iafnmarga til giördar um öll mál sín, skyldu hverirtveggiu halda hèrödum sínum ok ríkium utanferdalaust, skyldi Þórgils kiósa hvert hann vildi vera undir þessari sætt edr ei, en ef hann vildi sættast, þá fór Gudmundr med gridum, ok vildi Rafn at þeir findist ok handsöludu siálfir sætt sína. Þykkir mèr van, segir Gudmundr, ef þú vilt ei sættast, at Rafn rídi nordr á sveitir med þat lid er hann fær ok man þat vera margs manns mein. Lagdi Gudmundr allan hug á at kvama sættum saman med þeim Rafni ok Þórgilsi. Játti hann því þá at rída vestr, en skildi þat til at þeir mundu láta rakna vapn ok hesta er þeir hefdu tekit á Þveráreyrum. Tók Þórgils þá þegar grid af Gudmundi, en seldi honum grid á móti þau er hann skyldi selia Rafni, ok fundr vera allraheilagramessodag at Hólavadi í Vatnsdal. Reid Þórgils þá nordr med allan flokkinn, en Gudmundr reid vestr fyrir móti þeim Rafni at hnekkia flokkum, fann hann Rafn í Midfirdi, segir hann honum vidtal þeirra Þórgils ok þat at fundr var stefndr allraheilagramesso dag vid Vatnsdalsá. Rafn var hinn tregasti at bregda flokkinum, en þó rèd Gudmundr því.

40. Reid Rafn þá nordr med nokkra sveit manna ok þeir Asgrímr. Þórgils kvam nordan allraheilagramesso, reid hann med flokkinn um hálsa, þadan mátti siá öll tídindi til Hólavads, var þá flokkrinn alltregr eptir at dveliast, mæltu þá margir, at ei þyrfti at rækia sparmæli vid Rafn, ef færi gæfi á, Þórgils vildi þat ei, bad þá hafa menn á niósnarbergi, ef ei væri trútt, ok þyrfti hann manna vid ok verda þá sem best fángaráds. Reid Þórgils þá ofan til árinnar vid fimtánda mann ok yfir ána, kvam Gudmundr þá til móts vid hann ok segir at Rafn hefdi verit um náttina á Breidabólstad ok væri hans þángad van, en mundi þykkia heldr mannmart á hálsunum, þeir bidu þar um hríd ok kvam Rafn ei, ok þótti þá ei víst at hann kvæmi, en þá er minnst vardi, reid Rafn þar at med fimtánda mann, var þat lid hid vígligasta [1]), stigo þeir Rafn

[1]) vegligasta, *A, B, C, St, Þ.*

þá af baki, en þeir Þórgils spruttu upp, gèngo þá hverir í móti ödrum ok snèro fram spiótum. Gudmundr prestr gèkk í millum ok þeir menn er med honum vóro, tók hann þá at inna upp sætt þeirra sem giör var í Hítárdal ok hvad milli þeirra hafdi farit, vóru þar margar áminníngar um tídindi þau er ordit höfdu manna á millum, en þat vard at lyktom at þeir sættust at því sem Gudmundr hafdi flutt á millum þeirra, var þá dagr miök álidinn, ok var mönnum mál at rída til gistíngar. Reid Þórgils á Breidabólstad um kveldit, en Rafn til Hóla. Um morgininn kvamo þeir Rafn á Breidabólstad, var þá med þeim Rafni ok Þórgilsi glensan ok gledi, varo þá borin fram vapn ok hestar [1]), var þat mælt, at [Þórgilsi þætto þar best fram fara greidslur ok borit allt best til stánga þat er rænt hafdi verit, ok hans fylgdarmönnum [2]). Skildust þeir þá skipuliga, reid Þórgils þá nordr til Skagafiardar, átt höfdu þeir Þórgils ok Rafn fund um haustit í Rútafirdi, ok vard þá ei af sættum, þvíat hvergi var þar Þorvardr nè Sturla. Skildist nú flokkrinn, hèto þeir nú Þórgilsi fullkvamliga síno trausti hvers sem hann þyrfti vid, reid Þórgils þá heim í Vidvík, þóttust margir eiga at launa honum mikit fullting, at hann hafdi rètt rán þau er þeir höfdu ræntir verit í Gèldíngaholti.

41. [Eptir þetta reid Þórgils upp á [3]) Kálfsstadi, var þar fyrir Skèggi bóndi, ok þegar hann sá mannareid, steig hann á hest sinn ok reid í brott, en bannadi þar hvervetna þat er hann átti, báro menn þá faung hans til kyrkio, vard til þess skamt tóm, þvíat Þórgils bar brátt at, lupo þeir fyrir kyrkiodurin karlar ok konur ok segia at Skèggi hefdi þar alla luti bannat ok úheimilat hverium manni nokkra afneyzlo. Þórgils þótti þat vel vera ok kvad hann mundo ei meira vidþurfa, mælti Þórgils fyrst at breóta skyldi stakkgard ok leida þángat hesta ok til matar skyldi búa, vildu þat hverki giöra karlar nè konur, mælti Þórgils þá at hans menn skyldo

1) framleiddir, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) frá [: Þórgils lèti allt reidugliga aptr ok hans fylgdarmenn þat er rænt hafdi verit, sömu.

3) frá [: Nú lída sva stundir fram Þórgils sitr um kyrrt ok byr hann sik nú med nokkra menn at rída á. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

tilgánga, þó at þeir þættu ei hagliga tilbúa, var þá tekit mart ok mörgu spillt, var þá fólk allt hrætt. En er biskup spyr þessi tíðindi, þá líkadi honum stór-ílla, tók hann þat rád, at hann sendi út til Hofs um náttina til Brodda, ok lèt hann úbrátt vid at fara, kvam sá heim ok segir biskupi at meiri van væri at Broddi kvæmi ei, biskup sendi annan mann ofan á Kálfsstadi at segia Þórgilsi at biskup mundi þann sama dag bannsyngia hann ok steypa kèrtum ok meiri van hann bannsetti allt hèrad. Þórgils svarar: biskup man ráda saungvum sínum, en vèr ætlum hann mani snart eiga at tala um meiri vanrædi, man ek taka vini hans ok vandamenn ok hrekia suma, en ræna edr beria suma, ok gódra gialda vert ef ekki ero drepnir sumir. Giördist þá íllr kurr í [1]) heimamönnum biskups ok vinum ok þótti ei sva búit standa mega. Var þá sendr Þórarinn Kaggi út til Hofs ok lagt ríkt vid at Broddi skyldi utan kvama, lèzt biskup hans tillögur mikils virda ef hann vildi tilkvama. Broddi kvadst fara mundu, en kvad slíks van, er biskup lagdi strídu á stóra [2]) höfdíngia, at sva litlum sökum sem mönnum virdist at Þórgils hafi tilgiört vid biskup. Kvam Broddi þá til biskups, kærdi biskup þá fyrir Brodda úiafnad þann er Þórgils hefdi veitt honum ok vinum hans. Broddi taldi í móti, at honum þótti biskup hafa ofbrádliga [3]) farit at Þórgilsi, ok kvadst hyggia, at hann mundi ei vid þat mykiast at sva væri med farit. Lauk sva at Broddi fèkk kvamit á stefnolagi med þeim, rèdst þá til medalgaungo Broddi ok Einar prestr Brandsson [4]) ok Einar Faxi, var Þórgils hinn tregasti, kvad þá vel at úfridr stædi medan biskup vildi, en þó lèt Þórgils leidast eptir bæn Brodda, at hann reid upp til Hóla ok menn hans, gèngo inn í stofu ok hestum var gèfit úti, kvámo þá inn heimamenn ok segia at biskup bannadi at gèfit væri hestunum. Þórgils kvad gèfa skyldi allt ad eino. Báro þá húskarlar frá hestunum, en Þórgilsar menn báro fyrir. Madr hèt Gísli ok var kalladr Sauda-Gísli, manna fóthvatastr ok heimamadr at Hólum, hann kvam inn á stofugólfit, annar hèt Gudmundr, hann var

1) bændum ok, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) slíka. sömu.

3) ófhardliga. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

4) Bergsson. sömu.

bródurson Þórdar prests Asbiarnarsonar [1]). Þórgils mælti, hafit þid borit hey frá hestum varum? vid giördum þat eptir rádum biskups, segia þeir. Þórgils mælti, ek man þá giöra annat til skaps biskupi, ok erot þid verdir eggsarhamarshöggs, vóru menn til þess audkvaddir [2]), lupu þeir þá upp ok bördu þá, vard Gísli sakadr [3]) nokkut, en hinn lítt, lupu menn þá til ok segia biskupi hver endemi til vóru tekin, at menn vóru bardir heima á stadnum. Biskup [mælti, at Broddi skyldi fara inn ok hepta [4]) úfridinn ok bad Þórgils kvama upp í stofo til tals vid sik, gèkk Þórgils þá upp þángat vid nokkra menn, [vard þá ekki af kvedium [5]), tók Broddi þá til at tiá hver missmídi þeir bádir mundo á siá, ef sva færi úfimliga fram í hèradi, at þeir væro úsáttir ok hve mörgum manni mein þat mætti verda, ok band Þórgils þá eindæmi biskups á öllum þeim málum sem hann hefdi vid kyrkiorètt ok kènnimanna brotit, ok þat prófadist lögliga, en fyrir þat skiótrædi er hann hafdi þar haft á stadnum, skyldi biskup þá taka or banni ok veita þeim skript, en ferd á Kálfstadi vildi hann dæma vid sann Brodda. Gèkk þessi sætt saman, skyldi nú hver þeirra vera annars vin, skyldi biskup heimta [6]) hèradsmenn til vinátto vid Þórgils, en Þórgils skyldi stirkia biskup í alla stadarins naudsyn til rèttinda, tóku þeir at því höndum saman ok vóru þá vel sáttir. Þá lèt biskup leida þá í stöpul [7]) ok leysa þá, sídan skriptadi hann þeim, eptir þat fóru þeir upp í biskupsstofu, lèt hann þá gèfa þeim at drekka, var hann kátr yfir fram, en þó þótti mönnum sem þat væri ei med fullu. En er Þórgils hafdi setit um ríd, þá vildi hann heim rída, en er hann var búinn til at rída, mælti biskup til Þórgilsar: nú man ek lúka upp giörd okkarri. Þórgils segir, þat er heldr skeótt, herra, var þat skilit í sætt okkarri at ek skyldi bæta med samþykki skynsamra manna ok yfirsyn, hvat ek þykkir brotit hafa vid heilaga kyrkio, en gæta vil ek til skaps ydvars ef þèr vilit sva vera láta, en bad hann sva stillà giördina sem hann vildi

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) fúsir. sömu.
3) sár. sömu.
4) bad menn inngánga ok stilla *o. s. fr.* sömu.
5) frá [ vantar í *E.*
6) heita á. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) stofu. sömu.

at hèldist sætt þeirra. Biskup taldi þá á Þórgils margar sakir, hann hlýddi til ok þótti þær ekki allar sannar vera, en er biskup hafdi allar talt, þá gaf hann Þórgilsi upp allar sakir þessar. Þórgils þakkar biskupi blídliga uppgiöfina ok baud honum heim þá er hann þættist til þess búinn vera, tók biskup því vel ok hèt þángat ferd sína. Þórgils lauk þá upp giörd sína vid Skèggia, segir at þeir Broddi ok Einar skyldu fara á Kálfsstadi ok virda skada þann er þar hafdi giörr verit, en glíma sú er þeir glímdu vid menn Þórgils skyldi nidr falla. Broddi svarar: um skada þann, mágr, er Skèggia hefir giörr verit, skaltu þèr eingo af skipta, ek man þat bæta, en betr þætti mèr at þú giördir Skèggia nokkra sæmd. Þórgils kvad þat ei mundu verda nema hann giördist þess verdr, skildust þeir Þórgils þá vel. Reid Þórgils þá heim, en biskup lèt lúka upp kyrkio í Vidvík ok syngia þar tídir. Tveim náttum sídar kvam Skèggi bóndi í Vidvík, lèt hann leida þángat uxa níu vetra gamlan ok hest er á vóru þriár vættir matar ok gaf Þórgilsi, tók Þórgils þat þakksamliga ok vard sídan med þeim hin mesta vinátta. Sat Þórgils þá um kyrrt ok giördist hinn vinsælasti madr í hèradi. Litlu sídar fór Þórdr mágr hans vestr á Hítárnes til bús síns, gaf Þórgils honum at skilnadi gódar giafir tvö hundrud vöru, hest ok brynio.

42. Eptir um varit fór Þórgils búi síno í As í Hegranes, innti hann þá af hendi bod þat er hann hafdi bodit Henreki biskupi, var þar veizla virduglig ok giafir stórar. Hann gaf biskupi stódross þriú ok þriú hundrud vöru ok fíngurgull ok bók góda, [Skèggia gaf hann ok gódar giafir ok mörgum ödrum [1]), skildu þeir biskup þá vinir ok hèldu þat vel sídan, biskup beóst þá til utanferdar, stirkti Þórgils hann at fararefnum ok öllum lutum ok fylgdi honum til skips, mæltust þeir vel vid at skilnadi, fór biskup þá utan ok andadist í Noregi. Adra veizlo hafdi Þórgils um haustit, baud hann þá til sín flestum öllum hèradsbóndum hinum bestum, ok var þá veizla fiölmenn ok veitt med hinni mesto rausn, varo ok giafir stórar at útlausnum, ok eingi fór giafalaust í brotto sá

[1]) frá [ vantar í *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

er bodit hafdi verit. Af þessari veizlo fèkk Þórgils mikla virdíng af bóndum, budu flestir bóndr honum þá heim ok fór hann at veizlum um vetrinn um allt hèrad ok þág af bóndum hinar sæmiligustu giafir. Var nú í hèradi gledi mikil ok þóttust bóndr þá hafa náliga himin höndum tekit, er þeir hafa fengit slíkan höfdíngia, þótti þeim nú Kolbeinn aptr kvaminn ok endrborinn, er þá lángadi æ eptir.

43. Þenna vetur er Þórgils var í Vidvík, reid hann vestr til Stadar til bús síns ok skipadi þar fyrir rádsmenn þá er vera skyldu framleidis, [budu margir menn honum heim vestr þar ok tók hver vid honum eptir föngum hinum bestum [1]. Þá baud honum Sturla heim frændi hans í Hítárdal, var þar veizla hin virdugligasta, var þar mart manna med Þórgilsi, var í fylgd hans Einar bóndi Halldórsson [2]) ok Gunnlaugr Hallfredarson. Gaf Sturla giafir gódar Þórgilsi frænda sínum ok skildu þeir med kærleikum miklum, fór Þórgils þá heim nordr ok hafdi aflat sèr vini marga ok mikla sæmd. Eptir um varit færdi Sturla bú sitt í Svignaskard ok færdi bæinn upp á hamrana, hafdi hann þat af hèradi sem hann fèkk, tóku nú at gánga í med þeim Rafni margar greinir, þrútnadi þá med þeim, þar til er þeir Rafn ok Asgrímr ridu vestr á Stadarhól at þeim Sturlu, hafdi Sturla ridit heiman um kveldit ok fylgdarmenn hans, ok lágu þar í hlídinni upp frá Biarnastödum, þvíat úfridligt var sagt af Rafni, en um morgninn snimma vildu fylgdarmenn hans heim rída, en Sturla lèt rádligra at þeir bido mids-morgins, ok ef ydr synist þá einsætt heim at rída, þá man ek ei letia ydr, en ekki vita þá draumar þeir er mik hafa dreymt í nátt, ef þèr erut þá iafn-fúsir. En um mids-myrgins skeid, þá siá þeir menn marga rída ofan frá Þverfelli um eyrarnar, leypti þá hver yfir annan fram, en sólin skein á vapnin, var þar Rafn ok Asgrímr, lètto ei fyrr en þeir kvamo á Stadarhól, höfdu þeir hleypiflokk þvílikan sem siá mátti. Þeir Sturla sá atreidina, þá mælti Sturla: erot þèr nú iafnfúsir heim at rída sem í morgin? eingi iátti því, lèt Sturla þá taka hesta sína ok rída sídan upp á

[1]) frá [ vantar í *C, St.*

[2]) hinn hellsti, bæta vid *A, B, C, E, Gr. St.* þ.

feallit, en þeir Rafn ok Asgrímr gèngo inn á Stadarhóli, ok drap Asgrímr þar í durunum Helga Keis, dvöldust þeir þar skamma ríd þegar þeir visso at Sturla var ei heima, ridu þeir þá sudr aptr yfir heidi, Sturla kvam heim litlo sídar. Eptir um sumarit fóru menn í milli þeirra ok leitudu um sættir, ok var fundr áttr hiá Glerá, Sturla reid því ei lengra, at hann trúdi þeim ei til fulls. Fóru þá menn í milli þeirra ok leitudu um sættir, ok fór því firr sem lengr var umtalat, ok er þrotin var van sætta, lèto þeir Rafn taka hesta sína ok ætludu at rída at Sturlu, sá þeir Sturla þá reidina ok tóku hesta sína ok ridu undan upp til Krosshóla ok ridu þar á feall upp. þeir Rafn leyptu þá eptir ákafliga, dróu þeir þeim sva nær, at þeir unnu þá á Sturlu mönnum þeim er sídast ridu, þá va Ofeigr Isúngr Einar Jónsson, vóru þeir þá kvamnir midleidis. Vedur var heidbiart, en í því skaut yfir þoko sva myrkri at eingi þeirra sá annan, skildi þar med þeim Rafni, ridu þeir Rafn þá aptr, en Sturla dróg undan, ok var nú lokit um sættir med þeim Rafni ok Asgrími ok Sturlu.

44. þat sumar er þórgils beó í Asi, kvam til Islands Ivar Arnliótsson, segir hann, at Hákon kóngr hefdi spurt dráp Eyúlfs þorsteinssonar, fór Ivar med kóngsbodskap, hafdi hann út hans brèf til þórgils, var þat þar á, at hann hefdi skipat þórgilsi Eyafiörd til fyrirvistar ok allar sveitir nordr þadan til feórdúngamóts [1]), gèngu þá allir bóndr undir þórgils ok iádu honum til yfirmanns. Eptir andlát þórdar Kakala kalladi Steinvör Sighvatsdóttir sèr hèrad í Eyafirdi ok landit á Grund ok adrar eignir þær er þórdr hafdi átt, þvíat þórdr átti eingi börn skilgètin, en Steinvör var skilgètin systir hans. þetta haust [2]) kvam heim í As Gudrún Gunnarsdóttir, tók þórgils hana fridlutaki, áttu þau dóttur er Steinunn hèt, giördist þá Illhugi bródir hennar heimamadr þórgils. þenna vetur fór þórgils vestr á Snæfellsness til Stadar til bús síns, vóru þar saman [á þridia tugi [3]) manna, fórst þeim vel ok fengo færdir gódar, en er þeir ridu ofan eptir Haukadal, var á þeyvidri, ok er þeir ridu

[1]) þvíat þórdr Sighvatsson Kakali var þá andadr, bæta vid *A, B, C, E, Gr, St, þ.*

[2]) sumar. *C. St.*

[3]) þriátygi, *A, B, C. E. Gr. St. þ.*

á Haukadalsá, lióp áin ofan sva ákafliga, at þá rak af baki er á ánni vóru, drukknadi þar Sveinn Ivarsson, hann var sem [1]) fylgdarmadr, en þeim lagdi öllum nærst Þórgilsi, Bergi ok Asbirni, þetta var Vincentiusmessodag. Þótti mönnum þetta kyn mikil, þvíat vötn öll vóru lítil bædi ádr ok sídan. Þórgils lèt flytia lík Sveins til kyrkio til Vatnshorns sudr ok gaf med líkino kú til kyrkiunnar. Reid Þórgils þá sudr til Stadar til bús síns ok dvaldist þar nokkra hríd, reid hann sídan heim nordr, ok vard ei fleira til tídinda í þessi ferd, sat hann þá nu kyrrt í fridi gódum.

45. Um sumarit eptir tók Þórgils vid búi á Miklabæ í Blönduhlíd, þvíat honum þótti þat land stirkvara undir bú at heyfaungum, en þó bær mikill, var þar eflt rausnarbú bædi at mannfeölda ok tilföngum. Þá rèdst til hans um varit Asbiörn Illhugason, þá var ok med honum Bergr Amundason ok Guttormr Guttormsson ok Bödvar Klængsson ok mart annara fylgdarmanna, var nú virdíng Þórgils med miklum blóma. Þann vetur giördi Þórgils annat bú í Audbrekko í Hörgárdal, var þar ok mannmart ok feöldi feár, þetta var lèt Steinvör giöra bú á Grund. Þetta sumar efnadi [2]) Þórgils til mikillar þíngreidar, sendi hann ord öllum hinum meirum mönnum er vóru í hans sveitum, at þeir skyldu rída til þíngs, vikust menn vel undir þat, vard hann allfeölmennr, hafdi hann allgott mannval. Hann sendi ord Einari Halldórssyni at hann ridi til þíngs ok feölmennti sem mest, hann hafdi hundrad manna. Þar kvam Sturla ok Saurbæíngar ok Strandamenn med honum ok slíkt or Borgarfirdi sem hann fèkk. A þíngino kvam til móts vid Þórgils Þorvardr Þórarinsson, ok var med þeim fagnafundr, höfdu þau ord í millum farit at þeir skyldu med einni fylkíngo á þíng rída, var þíngit kyrrt, rèd Þórgils mestu á þíngino, med Þórgilsi var Jón Járnbúkr mágr hans, Þorvardr þóttist eiga á honum sakir ok kèndi þat Jóni at hann hefdi nær gèngit Oddi bródur hans, vóru þá búin mál til á hendr Jóni, Þórgils ok Sturla leitudu um sættir, [ok töldu hann undan sökum [3]), vard þeim þar ervid-drægt [4]), þvíat Þorvardr hafdi lagt á Jón hinn mesta feandskap.

[1]) siötti. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) efldi. sömu.
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[4]) ervidt. sömu.

En er kvam at því at dómar skyldu út fara, þá töludu[1]) þeir Þorvardr ok Þórgils þetta mál ok var Þorvardr því fastari fyrir sem meir var eptirleitat. Þá mælti Þórgils: þat segi ek þèr, Þorvardr, þótt þú giörir Jón sekan skógarmann, at þú mant hann eiga til mín at sækia ok ek man honum ei útkasta fyrir því. Þá lagdi Sturla til: þat man mælt, Þorvardr, at Þórgils hafi unnit til þess vid þik, þótt hann rádi eins manns sætt, lögdu þá til fleiri at menn lèto sèr ei þetta verda at sundrþykkiu, fór þá sva at Jón var ei sóttr. Mælti Þorvardr þá er hann gèkk í brott, at á slíku mætti siá hversu Þórgils vildi einn öllu ráda, þóttust menn þat siá at hverirtveggio lögdu á mál þessi mikla þykkio. Þeir Þórgils ok Þorleifr Þórdarson höfdu sættst á úþykkiur þær er verit höfdu á milli þeirra, skyldi Þorleifr þá sætt uppgreida í gripum, lèt Þorleifr nú þær giafir fram at þínglausnum, gaf hann Þórgilsi stódross ok bryniur tvær, skiöldu tvo, þriú hundrud vöru ok fíngurgull mikit, tvö sáld malts, skildust þeir med vinmælum, þótti mönnum Þórgilsi nú flest til sæmdar horfa. Skildu þeir Þórgils ok Þorvardr álitliga[2]), reid Þórgils þá nordr til Skagafiardar, en Sturla reid til Saurbæar, Bergr reid vestr med þeim Einari[3]), en er þeir ridu um Bláskógaheidi, segir Bergr þeim Einari ok Amunda draum þann er Bergþór í Hèradsdal hafdi dreymt. Bergþór þóttist kvama út um nátt, hann þóttist siá vid ána á Vídimyri hvar stóll mikill stód ok gèkk madr at stólnum ok tók undan fótinn ok halladist þá eptir stóllinn nær til falls ödrummeginn, þá þótti honum gánga at kona ok mæla: hvat stóli er þettà? eda hver á hann? Þá kvad hann[4]) þetta:

Bála ben sóla,
brennum[5]) [stól þenna[6]),
kióla kiölryir[7])
kènnir stól þenna.

[1]) tóku. *B. E. Gr.*
[2]) alhuga. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) Halldórsayni, bæta sömu vid.
[4]) hún. *A. C. E. St.* Þ.
[5]) brennu. *C. St.*
[6]) fiölmenni. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[7]) kiöleyrir. sömu.

Þá tók hon undir:

Eggiar öld seggia
yggiar [1]) fagur byggia
bendr [2]) man rymr [3]) randa,
rísa Þórgilsi.

Þá syndist Bergþóri stóllinn vera blódigr, sídan vaknadi hann. Þorvardr reid austr yfir ár af þíngi ok fundust þau Steinvör, fèkk hon þá í hendr Þorvardi bú á Grund ok allar heimildir þær er hon þóttist eiga í Eyafirdi eptir Þórd bródur sinn, segia menn hon eggiadi hann á at halda sem hann væri drengr til.

46. Nú er þar til máls at taka, er fyrr var frá horfit, at hinn sami fiandskapr var med þeim Rafni ok Sturlu, en um sumarit vard þat til tídinda, at Sturla reid í Túngo at Oláfi bródur Rafns, ok þetta spurdi Rafn, rídr hann þegar vestan or fiördum ok þeir Asgrímr sudr í Skard at Sturlu, hann var ei heima ok var hann ridinn ofan á Myrar. Þeir Rafn tóku hús á mönnum í Skardi, ok er þeir visso at Sturla var ei heima, giördu þeir þar eingi manndráp, en fóru úspakliga ok giördu hrakligt, gèkk Sturlu þá niósn, reid hann þegar út eptir Myrum hit nedra, þar til er hann kvam í Krossholt, lèt hann þadan fara med sèr Þorkèl Brenni ok reid út í Borgarhraun, sendi hann þá menn til Bödvars ok Einars at úti væri almenníngr um nesit at fara med honum at þeim Asgrími ok Rafni. Bödvar vildi uppstanda, en Einar vildi ei fara at Rafni nema Þórgils sendi ord til, en ek man veria Sturlu ef hann kèmr út híngat, ef þeir Rafn vilia sækia hann. Giördi Sturla [þá sva ok var þat rádit [4]), at Þorkèll Brennir skyldi rída nordr til Þórgils sem ákafast, vildi Sturla at Þórgils kvæmi til móts vid hann ok skærist or á einhvern veg med þeim. Einar kvam utan til móts vid Sturlu, beiddi Sturla hann lids, en Einar segir slíkt sem fyrr. Reid Sturla þá út til Stadar, en er hann fann Bödvar bródur sinn, vóru þar vidtökur gódar, en Bödvar kvam eingo til leidar med lidveizlo, vildu menn ei gánga í flokk med

[1]) yggr. *Gr.*
[2]) bendir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[3]) ryar. *A. B. C. E. St.* þ. ryr. *Gr.*
[4]) frá [: þat statt. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

Sturlu. Reid hann þadan til Helgafells ok þadan inn á Eyri, var hann þar nærsto nátt fyrir Maríumesso hina sídari. Nú er at segia frá ferdum Þorkèls, at þá er hann kvam á Miklabæ, var Þórgils ridinn nordr til Eggsarfiardar, reid Þorkèll þegar nordr eptir ok fann hann í Reykiadal, er hann var nordan á leid, segir hann Þórgilsi sín eyrindi. Brá hann þegar vid ok reid nordan sem ákafast ok lèt samna mönnum fyrir sèr sva sem hann kvamst vid hvervetna um sveitir, fóru þeir sem mest mátto þeir nordan, var þat nær med fádæmum hve skiótt þeir fóru sva lánga leid, þeir fóru til þess er þeir kvamo í Haukadalsskard. Rafn hafdi niósnir um skardit, en Þórgils hafdi giört [1]) niósn fyrir sèr nordan yfir skardit, ok sá niósnarmenn Rafns þeir er vörd hèldu í skardino reid Þórgils manna, leyptu þeir þegar aptr til Rafns ok kvamo til Saudafells um tídir Maríomesso. Rafn átti bú í Hundadal [2]), lèt hann bera út kiöt ok ætladi at snæda, en til þess var ei tóm, giördi hann adra [3]) niósn á hálsinn hiá Þykkvaskógi [4]), þóttist Rafn þegar vita at þessi afspríngr mundi vera af ferd þeirra Þórgils er þeir höfdo sèt, siá þeir þá at rídr ferdarbroddrinn flokksins nedan eptir Gárganseyri [5]), leypto þeir Rafn á feall upp, hafdi hver slíkt er fèkk af vistum [6]). Þeir Þórgils kvamo litlo sídar í Hundadal, vóru þá hestar þeirra miök dregnir, var þá ei færi á at rída eptir Rafni ok skildi þar med þeim. Þórgils vildi þar eingo ræna láta [7]) ok kvad nióta skyldi at því Þorrídar frændkono sinnar, ok ekki vildi hann þar úspakligt giöra láta, kvad þat vera eingan frama þar sem konur einar vóru heima. Fóru þeir Þórgils þá ofan til virkis, varo þá sótt naut ok sandir á bæi til matar mönnum, vóru þeir Þórgils í virkino um náttina.

1) Sturlu, bæta vid *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

2) Haukadal. sömu.

3) ádr. sömu.

4) Þykkvabæarskógi. sömu.

5) Graganseyri. *A, B, E, Gr,* Þ. Grágardseyri. *C, St.*

6) *C, St.* bæta vid:
Neyd fyrir nafni,
ei nádist kiötát,
niósn hrökk af Hrafni,
hreifdist öld kát,
neyd fyrir nafni,
neyd fyrir nafni.

7) á Saudafelli, bæta vid *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

47. Sturla var um náttina á Eyri, sem fyrr var ritat, en er hann klæddist um morgininn, segir hann sik sva dreymt hafa, sem hann mundi nokkut brátt spyria til Þórgils frænda síns. Var súngit snimma, reid hann sídan inn til Dala, þótti flestum sú ferd úvarlig, ætladi hann at rída um náttina nordr Haukadalsskard ok til móts vid Þórgils. En er þeir ridu inn um ströndina, segir Sturla opt hit sama, at þeir Þórgils mundu skiótt finnast, menn hans sumir heitudust at rída frá honum ok vestr til Saurbæar, Sturla bad þá ei frá sèr rída, ok sva var, en er þeir rido inn hiá Hólmslátri, sá þeir mann rída á móti sèr, segir Sturla at hann vildi þann mann finna, man hann kunna nokkut at segia í frèttom. Þar var Erlíngr prestr Þorkèlsson, hafdi hann ridit inn til Snóksdals, vissi hann niósn þá er kvamit hafdi til Saudafells um tídir, þóttist Sturla þá vita at Þórgils mundi annathvert kvaminn edr úkvaminn at eins. Ríla þeir Sturla á Vestlidaeyri, kvam þar Þorkèll Brennir ok segir sönn tídindi af ferdum Þórgils ok þat hann hafdi eltan Rafn á feöll upp, ok at Þórgils var þá kvaminn til virkis ok hafdi ei færra en fiögur hundrud manna. Sturla reid til Hamraenda ok át þar náttverd, reid hann sídan til virkis, vard mikill fagnafundr med þeim frændum, segir hver ödrum þá tídindi er giörzt höfdu í ferdum hvers þeirra. Rafn sendi menn til Þórgils at leita um sættir, er ek nú undan kvamin sva at ei er víst at hann nái mèr at sinni. Ekki man tiá um sættir at leita í kveldi, segir Þórgils, ok eingi fengust þá grid. Um morgininn eptir kvam til Kètill prestr Þorláksson ok Gudmundr Oláfsson ok Páll prestr or Lángadal ok Snorri prestr undan Felli ok Þórarinn Sveinsson, varo þá sett grid ok kvamit á stefno. Ridu þeir Rafn ofan af feallino til fundarins, varo þeir tólf saman, var þá talat um sættir, horfdi þat seinliga, var Sturla all-úsáttfús, þóttist setit hafa fyrir mörgum atförum, en þó man Þórgils ráda. Þórgils var sáttfús, en þó sátta vandr, kvam sva at Rafn ok Asgrímr budu dóm Þórgils á málum þeirra, en vildu halda sætt vid Þórgils þá er þeir sættust vid hann í Vatnsdal, en því var ei iátt, en er þetta fèkkst eigi, þá budu þeir öll mál í dóm Þórgils. Þórgils neitti því, manut þèr, segir hann, kalla þat naudasætt, ero þat mín rád at vèr sættumst heilum sáttum, edr verum úsáttir ella, skulut þèr hèdan í gridum rída,

þótt vèr sættumst ei, vil ek nú bióda ydr at vèr nefnum til iafnmarga menn þá er nú þykkia best til fallnir, má ei þat þá mæla at þèr takit knefanar [1]) kost, þótt nú þykki nokkur aflamunr. Vard þessi sætt med þeim, at giöra skyldi Snorri prestr frá Skardi ok Snorri prestr undan Felli, Páll prestr or Lángadal, [en af Rafns hendi Þorkèll prestr [2]), Gudmundr Oláfsson, Þórarinn Sveinsson, var nú lagdr fundr til í Bearnardal daginn eptir, fundust þeir þar at ákvedno. Kvam þar Einar [3]) ok Strandmenn til Þórgils, var þar lengi umtalat ok urdo giördarmenn ásáttir sín í milli, ef þat væri vili Þórgils, en segia ei fyrr upp en þeir hefdu samþykki af honum, at hann vildi at sva væri, fannst þat á at Þórgils var ei smálátr, þótt hann þyrfti or sínum siódi at leggia. Vóru þar giördir uppsagdar ok iafnat sökum þeim er sva þótti tilheyra, en bættr skakki [4]) sá sem á þótti vera, varo þar margir menn hèradssekir ok eingir af landi giörvir, en halda godordum sínum, hèldu þeir þessa sætt medan þeir lifdu allir. Reid Þórgils þá ofan eptir Nordrárdal ok reid Rafn med honum ok var hinn blídasti, töludu þeir margt ok skildust vel, en Asgrímr ok sum sveitin reid ofan eptir dalnum, þóttust þeir allir eiga vantalat vid hann, reid þá til annar, en annar frá, bægdi hver ödrum, en Asgrímr var því ríkari en adrir at hann hèlt í stigreip hans ok gætti sva til at honum yrdi ei fråbægt, töludu þeir lengi ok skildu blídliga, fann eingi þat at Asgrímr edr adrir þeir minntust þess at nokkrar sakir edr sundrgreinir hefdu verit med þeim. Þeir mynntust allir vid Þórgils ok bádu hann vináttu [5]), var hann vid þá alla blídr ok bad hann þá vel fara.

48. Þórgils ok Sturla ridu um kveldit til Dalsmynnis, ok um myrgininn skildust þeir frændr, reid Þórgils út á Hvanneyri [6]), var þar fyrir Sigvardr biskup, tók hann vel vid Þórgilsi ok taladi fyrir honum mart ok um skipti þeirra Þórdar Andreassonar ok vid hvert vandrædi hann þóttist þar kvaminn vera, beiddi hann

[1]) naudúngar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[2]) frá [ vantar í sömu.
[3]) Eyrar. *C. St.*
[4]) skadi. *C. St.*
[5]) en budu sína á móti, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) Hvammseyri. *C. St.*

Þórgils þar til fulltíngs, ef hann kynni at þurfa, hèt Þórgils at eiga þar at gódan lut, ef hann mætti sèr vidkvama, skildust þeir med hinum mestum vinmælum, baud biskup Þórgilsi heim í Skálaholt um haustit þá er hann vildi kvama. Reid Þórgils þá út um kveldit á Kalastadi, þar hófu þeir bónord vid Eyrnío dóttur Halldórs prests fyrir hönd Asbearnar Illhugasonar, ok svarar hon því seinliga, en Halldór prestr ok Þorsteinn son hans tóko því vel. Þórgils var í Saurbæ adra náttina ok vard eingo kevpt, reid Þórgils á brott ok Þorsteinn reid á leid med honum ok baud honum til Hests, skildust þeir þar Einar ok Þórgils ok gaf Einar honum stódross gód ok uxa sex vetra gamlan, ok kvad þeirra frændsemi skyldi aldrei skilia medan þeir lifdu. En er Þórgils reid upp eptir hèradi, ridu bóndr at honum ok bad hann hver þeirra slíkt af sèr hafa sem hann vildi, en margir gáfu honum, reid hann þá heim nordr ok þótti siá ferd rösklig.

49. Nokkru sídar reid Þórgils sudr til Borgarfiardar Arnarvatnsheidi. Reid Eigill or Reykiaholti út í Saurbæ [til Halldórs prests [1]), rèdst þat þá af at Asbiörn skyldi fá Eyrníar, kvam Þórgils nidr bodi í Reykiaholti, var þar veizla gód. Eigill segir Þórgilsi at þar vóru fimm Rafnsmenn, Oláfr bródir hans ok menn med honum, skaltu skípa Oláfi, segir Eigill, sem þú vilt. Þórgils svarar, hann skal vera velkvaminn ok sitia hit næsta mèr, þvíat vèr Rafn erum nú vel sáttir. Þat vard til nylundu í veizlunni, at þar sem braud var kastat á bord fyrir þá Þórgils ok Oláf, sá þeir blóddropa nyblædda á einum hleifinum, þeim þótti þetta undarligt, var þá leitat ef nokkur væri sár nær sá er blæddi edr hvadan þat blód væri kvamit, ok fundust til þess eingi glíkindi. [Reid Þórgils þadan til Skálaholts ok þá giafir at biskupi, ok þadan reid hann heim nordr, var Asbiörn nú kvangadr ok vóru þau um vetrinn á Miklabæ med Þórgilsi [2]).

*) Þórgils reid sudr med Asbirni til brúdlaups síns med þriátygi manna, fèkk Asbiörn Eyrníar ok ridu þau í brott bædi med

[1]) frá [ vanter í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) frá [ vantar í sömu.

*) I handritinu er hèr þessi fyrirsögn: Þessi kapítuli finnst ekki skrifadr í siálfri Þórgilssögo,

Þórgilsi frá bodino, Þórgils ætladi at rída aptr Kialarleid, ok er hann var kvaminn med sínum fèlögum til fialls upp, þá kvam til hans sendimadr Sigvardar biskups Oddr hinn smámælti ok fór med brèfi biskups til Þórgils ok bad hann rída skiótliga ofan í Skálaholt. Þórgils giördi sva, tók biskup vid honum all-blídliga, ok var þat í tali biskups, at hann kvad Þórd Andreasson hafa ræntan stadinn í Skálaholti, en því var sva háttat at biskup hafdi keypt til þriátygi hundrada slátur fyrir austan ár á Rángárvöllum, en Þórdr Andreasson vildi ei láta brott selia or sveitinni ok nádi biskup ei kaupino, hann bad Þórgils hèr fulltíngs um þetta mál, í ödru lagi hafdi Þórdr ræntan Thómas son Sigvardar biskups, [bad biskup Þórgils þar tènadar um [1]). Þórgils stefndi nú fund vid Þórd at Idu hiá Skálaholti, kvamo þar hverirtveggio ok vóru sínom meginn Hvítár hverir ok trúdu hverigir ödrum vel. Þá vóru grid seld til fundar ok af fundi. Fóru þeir [Þórdr til móts vid Þórgils [2]) ok samdist þat at lyktom, at biskup skyldi hafa kaup sitt, en þeir fengu ei samit um Thómás mál, skildust þeir vid sva búit. Reid biskup ok Þórgils í Skálaholt, ok giördi biskup þá góda veizlo Þórgilsi ok hans fèlögum. Biskup segir at hann mundi nordr med Þórgilsi ok vera med honum á Miklabæ. Nú ridu þeir til fialls upp allir, ok þá giördi úvedráttu harda ok reid biskup heim í Skálaholt ok skildu þeir med kærleikum miklum. Thómas biskupsson reid nordr med Þórgilsi ok hèt Þórgils at rètta hans mál vid Þórd. Nú ridu þeir Þórgils á feall ok höfdu harda vedrátto, þeir varo um náttina í Hvinveriadal [3]). Þórgils ræddi um at hann vildi liggia um náttina í durum sæluhússins, ok bad þar búa um sik, var sva giört, lögdu þeir undir hurdina frá húsino ok þar ofan á klædi, ok lá hann þar um náttina. Þórgils dreymdi brátt er hann var sofnadr, at honum þótti kona gánga at húsdurunum mikil ok hafdi barnskykkio á herdum, heldr var hon dapurlig, hon mælti: þar liggr þú, Þórgils, ok manto eittsinn á hurdu

heldr eptir hana, á þó hèr beint inn, hefir hann einhver annar tilsett en siálfr sögomeistarinn.

1) frá [, vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) Þórgils til móts vid Þórd, *B. E. Gr.*

3) Vinveriadal. *A. B. E. Gr.* Þ. Vínberiadal. *C. St.*

liggia sídar. Þórgils vaknadi, ok um morgininn er þeir ridu nordr frá sæluhúsino, þá segir Þórgils Sveinbirni presti drauminn, ok þótti presti sem audfundit at Þórgilsi fannst um þenna draum, þeir ridu til þess er þeir kvamo heim á Miklabæ. Á því sama hausti vard mannfall í Midfirdi frá Maríumesso sídari, en lètti ei fyrr en eptir páska, andadist fiögur hundrud manna. [Sættust þeir Þórgils ok Rafn [1]).

50. Um haustit kvam Þorvardr austan or fiördum ok settist á Grund í bú þat er Steinvör hafdi gèfit honum. Þórgils reid brátt nordr til Eyafiardar, þvíat hann hafdi þar frá mörgo vanluktu gèngit, þá er sendimadr Sturlu kvam til hans. Þeir Þorvardr fundust ok kalladi Þorvardr þá til hèrads í Eyafirdi eptir því sem Steinvör hafdi hann tilskipat. Þórgils vildi ei hèrad láta, hefir ek til þess kóngsskipan ok iáord bónda þeirra er byggia hèradit, var ok þat sva at bóndr vildu Þórgilsi þióna, en ei Þorvardi. Þeir fundust nokkrum sinnum um haustit ok fèll med þeim heldr fáliga, en ávalt stilltu þeir ordum, ok á öllum fundum var Þórgils fcölmennari ok hafdi meira stirk en Þorvardr. Þat var enn á einum fundi, at menn fundu þat mest á Þorvardi at honum misþóknadist miök, þótti honum þrotin van at hann mundi nokkut fá af hèradi. Þorvardr hafdi setit á fundinum á lángbekk utanverdum vid hornstafinn, stód hann þá upp ok menn hans med honum ok gèkk út ok mælti þetta: ei manum vèr eiga úvænna en hornvan. Gèngo þeir Þorvardr þá til hesta sinna ok rido sídan, ok er þeir vóru skamt kvamnir, stigu þeir af baki ok ádu. Litlu sídar ridu þeir Þórgils í brott, ok sendi Þórgils menn sína á ymsa vega í brott á bæi at eyrindum, urdu þeir þá ei margir eptir, þat sáu þeir þá er þeir Þorvardr stigo á bak [2]) at þeir snero hestunum [ok bölldrudust, sem þeir væro [3]) úrádnir hvert þeir skyldo ríða, en af stundu rido þeir í brott. Þeir Þórgils höfdu stadit á hladino med vapnum sínum, þar til er Þorvardr reid í brott, var Þórgilsar mönnum hinn mesti grunr á, at Þorvardr mundi ætla at stefna at Þórgilsi, ef honum þætti færi á vera,

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[2]) af baki. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[3]) frá [: ok vóru, sömu.

Þórgils bad þá þegia ok vil ek slíkt ei heyra. Reid Þórgils þá heim til Skagafiardar, er hann hafdi lokit eyrindum sínum, sat hann þá heima fram um iól, ok hafdi veizlur miklar ok iólabod mikit, baud hann þá til sín mörgum stór-bóndum ok gaf þeim stórgiafir, var þar þá hin mesta rausn bædi sakir fiölmennis ok hybyla. Þar á Miklabæ urdu margir fyrirburdir ok vídar annarsstadar þar um hèrad, lèt Þórgils því öllu á dreif[1]) drepa ok þeim eingum uppihaldit ok því ritum[2]) vèr þar ekki af.

51. Eptir iólin beóst Þórgils at rída nordr yfir, fyrst til Svarfadardals ok þadan nordr til Eyafiardar, þessarar ferdar lötto hann margir hans vinir, þvíat mörgum var uggr á hve Þorvardr mundi trúr, en Þórgils vildi þat ekki heyra, ætlak ei þat Þorvardi, segir hann, er ek man ei ætla seálfum mèr. Þat vissi Þórgils at fundr var stefndr med þeim Þorvardi ok Rafni vestr í Vatnsdal, mælti Þórgils þat vid rádamenn heima þar, at þeir skyldu taka sem best vid Þorvardi, ef hann kvæmi þar, ok láta honum til reidu hestaskipti ok allan þann greida er hann þyrfti at hafa, reid Þórgils þá heiman, varo þeir saman nær þriátygi, var þat flest einvalalid, var ei sagt frá ferd Þórgils fyrr en hann reid inn til Eyafiardar, ok fundust þeir Þorvardr ok töludu mart um hèradit ok um skipti sín, ok kvam aldrei allt ásamt med þeim í öllu, enda urdu aldrei þverbrot med þeim í talino, þóttist Þorvardr eiga Eyafiörd, þótti varnat sèr sæmdar ok sínum mönnum, ef hann nædi því ei, en Þórgils baud honum upp allar sveitir nordr frá [var Vardgeá[3]). Þorvardr neitti því, þótti sèr ei bodit [þar af Eyafirdi[4]). Madr hèt Pètur er beó á Aungulsstödum, hann hafdi Þorvardr látit handhöggva, hann var vin Þórgils, um þat taldi hann á vid Þorvard, þótti honum til hafa verit litlar sakir edr eingar, kvad hann ok þat suma menn mæla, at Pètur hefdi lítt notit frá honum vinátto vid sik, gèkk þat ok ei til vegar, taldist med slíku sundr med þeim ok skildust heldr fáliga. Þorvardr í Saurbæ var hinn mesti vin nafna síns af bóndum í Eyafirdi, hafdi

[1]) dref. *B. E. Gr.*

[2]) vitum. *E.*

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) frá [: ef ei væri Eyafiördr, sömu.

Þorvardr Þórarinsson iafnan tal vid hann, hann þótti vera nokkut úheill ok íllrádr. En er þeir Þórgils skildu, reid Þorvardr út med Eyafirdi, ok var þat ord á at hann mundi fara til móts vid Rafn. En er Þórgils var á leid kvaminn, reid Magnús Jónsson aptr til Þórgils [ok taladi vid hann nokkur ord [1]), ok spurdi hve brátt hann mundi vestr rída? en hann leysti ei or því greidliga. Hann spurdi, hvert hann mundi um kveldit? en hann segir, at hann mundi rída til Rafnagils. Þórgils bad þá fara spakliga vestr um sveitir, en þá er þèr kvamit á Miklabæ, segir hann, takit þar hestaskipti ok slíkan greida sem þèr þurfit, kvad hann sèr þat mundo falla úsmátt vid Þorvard frænda sinn. Skildu þeir at því, bad hver annan vel fara. Bergr Amundason taladi um vid Þórgils, at hann skyldi rída til Múnkaþverár, þvíat mèr leitst ílla á Þorvard ok trúik honum ílla, segir hann. Þórgils brosti at ok mælti: ekki man þat vera ok man ek rída til mágs míns, sem ek hefir ádr ætlat, Bergr kvad hann ráda mundo, en fúsari værak at rída til Múnkaþverár. Þórgils reid til Rafnagils, var honum þar vel fagnat, skipadi hann mönnum sínum þar á bæi, honum var kostr á bodinn hvat til gamans skyldi hafa sögur edr dans um kveldit, hann spurdi hveriar sögur í vali væro? honum var sagt at til væri saga Thómasar erkibiskups, ok kaus hann hana, þvíat hann elskadi hann framar en adra helga menn, var þá lesin sagan ok allt þar til er unnit var á erkibiskupi í kyrkiunni ok höggvin af honum krúnan, segia menn at Þórgils hætti þá ok mælti, þat mundi vera allfagur daudi, litlu sídar sofnadi hann, var þá hætt sögunni ok búizt til borda. En er menn varo miök mettir, töludu þeir Bergr ok Gudmundr bóndi at halda skyldi hestvörd, en Þórgils kvad þess ei þurfa mundu, ok kvadst eingan grun mundo hafa á Þorvardi frænda sínum, fórst þat ok fyrir ok vard ekki af. Þorvardr sendi þángat mann er *Halldór* hèt ok var kalladr *Skraf* [2]), hann skyldi geyma at hurdir væro opnar, ef þeir Þorvardr kvæmo þar um náttina, hann skyldi ok kunna at segia þeim í hverri rekkiu Þórgils hvíldi, en ef þat brygdi nokkut [at Þórgils ridi sem ætlat var [3]), þá skyldi

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Skrafari. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) frá [ vantar í sömu.

Halldór segia Þorvardi ok sva ef nokkur væro vardhöld. En er Þórgils kvam í hvílo, lá Halldór á hvílustokki hiá honum ok taladi vid hann lengi allt þar til er Þórgils var sofnadr, gèkk Halldór þá ok lauk upp hurdir. En er þeir Þorvardr ok Þórgils höfdu skilit, reid Þorvardr út med firdi, en er þeir kvamo [í gröf eina út [1]) í Skialdarvík, stigo þeir af baki, tók Þorvardr þá til orda: hèr kèmr at því sem mælt er, at hvert kèr kann verda sva fullt at yfirgángi, ok þat er at segia, at ek þoli ei lengr at Þórgils siti yfir sæmdum mínum sva at ek leiti eingis í, vil ek ydr kunnigt giöra, at ek atla at rída at Þórgilsi í nátt ok drepa hann, ef sva vill verda, vil ek at menn geymi, ef færi verdr á at bera þegar vapn á hann, ok vinna at því úgrunsamliga, sva at hann kunni ei frá tídindum at segia, þvíat þá er allt sem unnit, ef hann er afrádinn, megut þèr sva til ætla at Þórgils er eingi klekkíngarmadr [2]). Nú ef nokkur er sá hèr sem mèr vill ei fylgia, segi hann til þessa nú. Þá mælti Jörundr Gèstr: þat kann ek frá mèr at segia, at fyrir sakir míns herra Hákonar kóngs ok lögoneytis vid Þórgils, þá man ek frá rída ok kalla þetta hit mest nídíngsverk ok úrád, sem þèr hafit med höndum. Þorvardr mælti, eigi gèngr þèr drengskapr til þótt þú rídir frá, hlópu þeir Þorvardr þá á hesta sína, ok ridu allir med honum nema Jörundr Gèstr, [hann hvarfladi þar eptir [3]).

52. Nú rídr Þorvardr ok hans fèlagar þar til er þeir kvamo til Rafnagils, fóru þeir heldr hlióðliga ok kvamo þar at opnum durum, gèngu þegar inn med brugdnum vapnum, fundu þeir Halldór ok segir hann þeim hvar Þórgils hvíldi, Magnús gèkk at hvílunni, en Þórgils svaf ok horfdi í lopt upp, ok var einn í rúmino, segia menn at Magnús hyggi til hans med eggsi um þvera bríngspöluna, hafa menn þar deilzt at, hvert þat mundi einhlytt til bana edr ei. Vaknadi Þórgils vid þat, spratt hann þá upp ok þreif ofan sverdit [4]) ok hió þegar til Magnúsar, hann hió í sundr stálhúfobardit sva at þegar gèkk frá, hió hann þá hvert högg at

[1]) frá [ vantar í *B. E. Gr.*

[2]) glettíngamadr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) frá [ vantar í *Gr.*

[4]) er hèkk hiá hvílunni, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

ödru, Magnús horfadi undan ok fèll á knèn, í því gèkk hialtit af sverdino lit efra ok lióp þá brandrinn fram or medalkafla [1]) umgiördinni, var Þórgils nú vapnlaus, lióp hann fram at Magnúsi ok rak hann undir sik. Þeir Þorvardr lióþu þá fram at í því ok vunno á honum hver sem vid mátti kvamast. Þórgils spurdi Þorvard, hvert hann skyldi grid hafa? Þorvardr mælti: hafa muntu nú slík sem þú mátt siá, þá mælti Þorvardr at þeir skyldu draga hann út, tók Þorvardr þá undir brókabeltit ok drógu þeir hann utar eptir skálanum, en er þeir kvamo þar gègnt er Þórdr prestr hvíldi, þá mælti Þórgils: Þórdr prestr, ek vildi giarna skriptast vid þik, ok rètti til hans höndina. Þórdr prestr spratt upp ok vildi seilast í móti honum ok bad diöflana láta hann ná at skriptast, en þeir hrundu honum frá ok hratadi hann í frá ok nádi Þórgils ei prestinum. Þórgils spurdi þá, hvar væro sínir menn? Þorvardr svarar, þessa skaltu nú fyrir þína menn hafa, ok er þeir kvamo í utanverdan skálann, lagdi Þorvardr hann med sverdi, en er þeir kvamo út í durin, kvaddi Þorvardr til þann mann er Jón hèt ok var kalladr Usli [2]) at vinna at honum, Jón hió í höfudit nidr vid þreskyldinum af hiarnskálina í hárrótunum, var Þórgils þá útdreginn, gèngu þeir Þorvardr þá inn í skálann aptr, tóku þeir þá Berg ok Asbiörn ok leiddu þá út, en þeir beiddu sèr grida ok fengu ei, varo þeir drepnir bádir, [Halldór Skraf va at Bergi, en at Asbirni va [3]) ——*), en adrir menn fengo grid þeir sem med Þórgils höfdu verit, sídan var þar mörgu stolit ok rænt. Ridu þeir Þorvardr um daginn uppá Grund, þetta var Vincentíusmessodag á þridia degi viko, þat var í öndverda dagan er þeir Þorvardr kvamo. Um myrgininn [4]) eptir kvamo þeir menn Þórgilsar er verit höfdu á ödrum bæum um náttina. Tóku [5]) þeir Gudmundr bóndi ok Guttormr Guttormsson líkama Þórgils. Þá var sent til Múnkaþverár ok sögd ábóta tídindin, þóttu öllum þessi tídindi mikil ok íll, fór hann þegar í móti líkino ok med honum brædur ok prestar. En er ábóti kvam, var honum syndr líkami Þórgils ok mörgum ödrum

[1]) riódelkafla. *C. St.* Þ.
[2]) Usti. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) frá [ vantar í sömu.
*) eyda í handritinu.
[4]) middegi. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[5]) þvógu. sömu.

[ok sveipadr [1]), nú hafa þeir sva sagt er þar stódu yfir, at Þórgils hefdi tuttugu ok tvö sár, ok siö ein af þeim höfdu blædt, eitt af þessum var þat á hiárnskálinni, er af var höggvin hausinum, [veittist Þórgilsi þat at hann hafdi þvílikt sár sem sagt var um kveldit at hinn heilagi Thómas erkibiskup hafdi særdr verit í kyrkionni í Kantarabyrgi, ok Þórgilsi þótti um kveldit fagurligast vera mundu at taka slíkan dauda [2]). Lèt ábóti þá sveipa líkit ok segir sva, sem margir hafa heyrt, at hann kvadst eingis manns líkama hafa sèt þekkiligra en Þórgils, þar sem siá mátti fyrir sárum. Lèt ábóti þá aka líkino upp til Múnkaþverár ok iarda sæmiliga, stód þar margr madr yfir med harmi miklum. Þorvardr var miök úþokkadr af verki þessu um öll þau hèröd sem Þórgils hafdi yfirsókn haft, mæltist þetta verk ílla fyrir, tala flestir menn er visso at ei visso nokkurn mann hafa launat verr ok úmannligar en Þorvard slíka lidveizlo sem Þórgils hafdi veitt honum. Er nú lokit at segia frá Þórgilsi. Rídu fylgdarmenn Þórgils þá vestr til Skagafiardar, ok spurdust tídindi þessi um allt land, lètu menn ílla yfir þessum tídindum, hvert sem verit höfdu menn Þórgils edr ei. Víg Þórgils var, þá lidit var frá holdgan vors herra Jesú Christi þúsund ára ok tvö hundrud fimmtygi ok átta [3]) ár, *XI* [4]) *kalendas Februarii*, Vincentíusmessodag [diákns [5]). Þorvardr brauzt nú til hèrads at nyo ok fèkk ekki af hèradi, vildu bóndr nú því sídr iátast undir hann sem öllum þótti hann nú verri madr en ádr af verki þessu, sat hann nú á Grund þat sem eptir var vetrarins.

53. Þetta sumar eptir er Þórgils Skardi var drépinn, var veginn Teitr Einarsson lögsögumadr austr í fiördum. Þá stódu uppi tvö skip á Gásum í Eyafirdi, Hólmdælan er Sindri [6]) styrdi ok Gràbússan er Eyúlfr Audgi styrdi, þá var ok skip í Skagafirdi í Kolbeinsárósi er Bárdr rèd fyrir Hallfredarson. Þat sumar fór sunnan um kiöl Jörundr prestr Þorsteinsson [er sídan var biskup at Hólum [7]) ok Kolskèggr prestr, þeir höfdu verit í Skálaholti med

[1]) vantar í *C. St.*

[2]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) sex. sömu.

[4]) IX. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) vantar í sömu.

[6]) Svidri. sömu.

[7]) frá [ vantar í sömu.

Sigvardi biskupi, þeir ætludu nordr til Eyafiardar til Gása ok þar utan um sumarit á Grábússunni, ok er þeir kvamo í Mælifellsdal, brótnadi fótr í hesti Jörundar prests, fór hann þá til Kolbeinsáróss ok þar utan um sumarit, [en Kolskèggr prestr fór til Eyafiardar ok fór utan um sumarit á Grábússunni med Eyúlfi Audga [1]). Þá um sumarit rèdust til skips margir íslenzkir menn [med Sindra [2]) bædi brennomenn ok Fagranessmenn ok tveir synir Gísla af Raudasandi Einar [3]) ok Magnús ok fleiri adrir íslenzkir menn, [Þórgils or Öxnafelli, Þorgeir Káti, Ari Ingimundarson, þar fóru ok utan Hallageir ok Bángar-Oddr, Fagranessmenn tveir [4]). Þessi skip lèto út bædi senn at Gásum, tyndist Hólmdælan sudr fyrir Myrom, kvamust af nær fimm tugir manna, en iafnmart tyndist ok flestir íslenzkir menn þeir er þar varo á. Grábússan tyndist ok hvert mannsbarn er á var. Þat sumar rænti Vígfús Gunnsteinsson Oláf at Anabrekko [5]) miklu ráni bædi búfè ok ödrum lutum, mæltist þat ílla fyrir.

54. Gissur Þorvaldsson fór utan, sem fyrr segir, nærsta sumar eptir Flugomyrarbrenno, hann kvam vid Hördaland, frètti hann at Hákon kóngr var í Túnsbergi, stè hann þar á land ok þegar í byrdíng ok fór austr til kóngs, tók kóngr honum allvel. Þórdr Kakali var þá í Biörgvin er skip þat kvam þángat er Gissur hafdi á verit, þar vóru margir íslenzkir menn á skipino. Þá frètti Þórdr þau tídindi er giörzt höfdu á Islandi, ok sva bar til litlu sídar er þeir höfdu uppskipat, at Þórdr ok nokkrir menn gèngu hiá stofo einni ok heyrdu þángat manna mál. Þeir namo stadar ok heyra at sagt var frá drápi Kolbeins Dugfússonar, sá madr sagdi frá er Þórdr hèt ok var Steinunnarson, þóttust þeir þat finna, at hann bar allar sögur betr Gissuri en brennomönnum, kvad alla menn undrast er Kolbeini vard ekki fyrir. Þá gèngr Þórdr í stofuna ok mælti: nú skal siá hversu mikit þèr verdr fyrir, laust hann þegar med eggsi er hann hèllt á, sva at Þórdr fèll þegar í úvit [6]).

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) Þorsteinn, sömu.

[4]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[5]) Arnabrekku. *C. St.*

[6]) ok gèkk sva brott, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

Litlu sídar fór Þórdr Kakali austr til Túnsbergs, ok tók kóngr honum ei margliga. Gissur var þar fyrir, ok er Þórdr hafdi þar skamma ríd verit, bidr hann kóng at hann lèti Gissur á brott fara ok segir ei örvænt at vandrædi aukist af, ef þeir væro í einom kaupstad bádir. Kóngr svarar: hver van er þèr þess at ek reki Gissur frænda minn frá mèr fyrir þessi ummæli þín? edr mundir þú ei vilia vera í himnaríki, ef Gissur væri þar? Vera giarna, herra, segir Þórdr, ok væri þá lángt í milli okkar [1]), [en þó giördi kóngr þat, at hann fèkk hveriumtveggia þeirra syslo [2]), [hafdi Þórdr syslu í Skidinni [3]). Þeir fóru bádir til Hallands med kóngi, er þar mikil saga frá Þórdi. Þórdr var vinsæll í syslo sinni ok þykkir sem fáir íslenzskir menn hafi slíkir verit af siálfum sèr sem Þórdr. Sva segir Kolfinna Þorvaldsdóttir, ok var hon þá med Þórdi, at brèf Hákonar kóngs kvamo til hans síd um kveld er hann sat vid drykk, [þat er Þórdr vottadi at kóngr hafdi gèfit honum ordlof til Islands ok giöra hann mestan mann [4]), vard hann sva gladr vid at hann kvad eingan lut þann tilbera at honum þætti þá betri, þakkadi hann kónginum mikiliga, drukko menn þá ok vóru all-kátir. Litlu sídar taladi Þórdr, sagdist ok ei fara skyldi af Islandi, ef honum yrdi audit út at kvama, litlu sídar segir Þórdr, at svifi yfir hann, var honum þá fylgt til hvílo sinnar, tók hann þá sóttin sva fast at hann lá skamma stund ok leiddi hann til bana [5]), er frá honum mikil saga. Hafdi Gissur nú meiri metord en ádr af Hákoni kóngi, ok þat sumar er nú var frásagt, gaf Hákon kóngr Gissuri iarlsnafn ok skipadi honum allan Sunnlendíngafeórdúng [ok Nordlendíngafiórdúng [6]) ok allan Borgarfeörd. Hákon kóngr gaf Gissuri iarli stórgeafir ádr hann fór út um sumarit, hann fèkk honum merki ok lúdur ok setti hann í hásæti hiá sèr ok lèt skutilsveina sína skeinkia honum sem siálfum

[1]) kóngr brosti at, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) frá [ vantar í *C. St.*

[3]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) frá [: ok er hann las þau, mælti hann, at kóngr hefdi gèfit sèr útfararleyfi til Islands ok lofadi at giöra sik þar mestan mann. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ

[5]) ok var sva virdugliga grafinn, bæta sömu vid.

[6]) vantar í sömu.

sèr. Gissur iarl var miök heitbundinn vid Hákon kóng at skattr skyldi vidgángast á Islandi. I Biörgvin var Gissuri iarli nafn gèfit á fyrsta ári hins fimta tugar kóngdóms Hákonar, þá skorti Gissur vetur á fimtugan, en þá skorti hann vetur á fertugan er hann gèkk sudr, vetur á þrítugan er Örlygsstadafundr var, vetur á tvítugan er hann giördist skutilsveinn [1]).

55. Vetur þann er Þórgils var veginn átti bú at Stad á Snæfellsnesi Bödvar ok Sighvatr [2]) son hans, var Bödvar þá gamall, en Sighvatr úngr. Gudmundr bródir Þórgils hafdi verit á Miklabæ med honum um vetrinn. Þá er tídindi þessi spurdust vestr í sveitir, þótti mönnum mikill skadi at um Þórgils. Gudmundr reid nordr litlu eptir vígit ok fann Rafn, baud Rafn honum til sín ok hèt honum vináttu ok lèt ílla yfir vígi Þórgils. Þeir Sighvatr, Rafn ok Sturla fundust í Borgarfirdi í Þíngnesi á lángaföstu, þótti Sturlu at Þórgils hinn mesti skadi, ok þótti sèr ei allmiök á úvart kvamit hafa, þóttist hann Þórgils sem mest vid því varat hafa at trúa Þorvardi til fullnadar. Sighvatr leitadi á Rafn til lidveizlo, en hann fór undan alla vega, ok vildi í cingo bindast ok fèll ei med þeim mart. Um vorit í páskum söfnudu þeir Sighvatr ok Sturla mönnum, fóru þeir þá med flokka nordr til Skagafiardar, gaf þeim vedráttu sva ílla at menn visso ei dæmi til at iafnhart var væri, þá var ok sóttin mikla í Midfirdi. Fylgdarmenn Þórgils ok bóndr nokkrir í hèradi stódu upp med þeim, þeir spurdu at Þorvardr var á Grund, ridu þeir þá nordr Hraunárheidi ok ofan Vaskárdal [3]), kvamo þeir á Grund nær náttmáli. Þorvardi hafdi kvamit niósn um kveldit eptir nón af Jóni í Glæsibæ, hafdi Þorvardr þegar brott ridit ok út í kaupáng ok ætladi þegar nordr af hèradi, því nær ekki gèkk manna upp med honum. Nú er þeir Sighvatr ok Sturla kvamo á Grund, vóru þar brotnar upp hurdir, ok fannst Þorvardr þar ei sem van var, var þar farit heldr úspakliga [4]), menn höfdu hesta þrotna. Sighvatr vildi þegar rída eptir

[1]) vetur á sextugan er hann dó, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) Sigurdr. sömu, ok ætíd framvegis.

[3]) Vatnsskardsdal. *A. B. C. E. Gr St* Þ.

[4]) ok spilltu mörgu, bæta sömu vid.

Þorvardi, var þat ætlat at hann mundi ei rída lengra en til kaupángs, reid Sighvatr ofan um náttina eptir firdi, hafdi hann nær fiörutygi [1]) manna, ok er þeir kvamo í kaupáng, var þeim sagt at Þorvardr væri ridinn út til Svalbards, ef hann væri ei á heidi ridinn, menn sá reid Þorvardar, ridu þeir Sighvatr þá eptir þeim, en þeir urdu ei meir en tíu, vard þá aptr at hverfa, Þorvardr reid nordr, en Sighvatr reid á Grund ok sat á Grund nokkrar nætr, Þá kvam nordan Oláfr prestr Kráksson, var hann sendr af Þorvardi at leita um sættir, lèt nú Þorvardr all-sáttgiarnliga. Var þá fundr lagdr vid feördinn á Gásaeyri ok grid sett, kvam þar til Eyúlfr ábóti ok flestir hinir besto hèradsbóndr. Þorvardr kvam feölmennr, vóru med honum Reykdælir ok Fnióskdælir, var þá rædt um sætt at málin skyldu fara í dóm vid iafnmarga menn, en Brandr ábóti var þar til yfirsyndar, skyldi Þorvardr þá ei sitia í hèradi. Ridu þeir Sturla ok Sighvatr vestr heim, Þorvardr reid á Grund ok dvaldist þar skamma stund, reid hann sídan austr í fiördu, vard hann aldrei sídan höfdíngi yfir Eyafirdi. Loptr Hálfdánarson tók þá vid búi á Grund, stód þetta mál þá kyrrt, dróst fundr undan ok vard eingi á því sumri.

[1]) fiögur hundrud. *C. St.*

## Tíundi þáttr.

Gissur Þorvaldsson kèmr út med iarlsnafni, kaupir Stad á Reininesi, giörist höfdíngi nordanlands. Sturla Þórdarson giptir tvær dætur sínar. Asgrímr ok iarlinn sættast, Asgrímr fer til Róm, kèmr út med Hallvardi Gullskó. Islendíngar iáta hlydni ok skatti Hákoni kóngi. Gissur iarl í háska. Þórdr Andresson aftekinn. Osamþykki Rafns ok Sturlu, Sturla hlytr at sigla, skipadr sídan til lögmanns, andast í gódri elli.

1. [Þetta sumar kvam Gissur út [1]) med iarlsnafni á Eyrum ok hafdi hann haft miök leidsögu í hafino, urdu honum fegnir frændr hans ok vinir, þá hafdi hann fióra vetur utan verit, hann setti bú saman í Kaldadarnesi ok lèt þángat föng tilflytiast, sat hann þar med feölmenni um vetrinn ok hafdi rausn mikla í búi, hann hafdi mikil drykkiofaung út haft, ok var iamnan drukkit fast um vetrinn. Ekki fór Gissur iarl til Skagafiardar um haustit, þvíat skip þat er hann var á kvam síd um haustit. Sva er sagt, at Gissur kvam vid Sudreyar er hann fór or Noregi, þar fèkk hann sverd þat er hann kalladi sídan Eyfararnaut, dvaldist hann þar miök fram á sumarit ok fór sva til Islands. Gissur iarl giördi menn nordr til sveita [2]). Fór þá Ingibeörg sudr í Kaldadarnes Gunnarsdóttir, hon var þá fridla iarls sem ádr hann fór utan, þá fór ok sudr til iarls Eyúlfr Þorleifsson ok Guttormr Guttormsson. Um vetrinn allraheilagramesso giördust menn handgèngnir Gissuri iarli þriátygi manna, sumir hirdmenn, sumir gèstir.

2. Þenna vetur um [3]) fösto lèt Vígfús Gunnsteinsson drepa þá Rögnvald Iilhugason ok sonu hans tvo Eyúlf ok Vagn upp frá Arnesi þar í feöllunum, ok vóru ginntir tveir heiman af bænum [ok

[1]) frá [: Nú byria ek þar frásögu er Gissur Þorvaldsson kèmr út frá Noregi. o. s. fr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) um vetrinn, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) fyrir, sömu.

sviknir í gridum[1]). Um varit eptir fór Gissur iarl sunnan ok hafdi nær þriátygi manna, hann kvam til Skagafiardar, tóku menn vel vid honum. Hann reid nordr til Eyafiardar ok giördi Eyúlfr ábóti veizlo í móti honum, gèngo menn vel í móti honum í Eyafirdi ok gáfo honum margir fè, sídan reid hann til Skagafiardar ok keypti hann þá Stad at Páli Kolbeinssyni fyrir hundrad hundrada, en Páll keypti þá Ulfsstadi ok fór þángat bygdum, en Gissur iarl fór til Stadar um varit[2]), var þá feölmennt vorþíng, efldu bóndr í Skagafirdi bú iarls, gaf honum hver madr á sá er þíngfarakaupi átti at gègna. Gissur iarl reid til þíngs um sumarit, þá var fátt med þeim Þórdi Andressyni, ok sva var um vetrinn ádr er iarl var sudr. Þórdr var á þíngi ok feölmennr, Rafn Oddsson reid ei til þíngs. Sturla ok Sighvatr[3]) rido til þíngs, giördust þeir Sturla ok Sighvatr þá menn iarls, en hann hèt þeim lidveizlo sinni til hefnda eptir Þórgils. A þessu þíngi var lyst hernadar sökum á hendr Þorvardi, sótti Sighvatr Þorvard ok vard hann sekr fullri sekt ok margir þeir menn[4]) er verit höfdu at Rafnagili. Reid Sturla heim af þíngi, hann hafdi þá bú á Stadarhóli. Rafn var vestr í fiördum lengstum, Vigfús var at Saudafelli. Gissur iarl reid heim af þíngi, ok var þá kyrrt um sumarit.

3. Sighvatr giördi bú at Stad á Snæfellsnesi, var hann mikilsháttar madr, var med þeim Gissuri ok Sighvati aldrei fullr trúnadr, brauzt þat í milli at Gissuri þótti Sighvatr eiga at rekast eptir Þorvardi, en Sighvati þótti Gissur aldrei vilia veita sèr. Sat Sighvatr nú heima at Stad ok urdu med þeim Rafni margar greinir. Þá kvam á Kolbeinsstadi sá madr er Sveinn[5]) hèt ok lèzt vera sendr af Gissuri med brèfum, sendi Gissur ord Narfa presti mági sínum at færa brèfin Sighvati, var ek, segir hann, ei sendr lengra, fór hann þar med Ingigèrdi Asbiarnardóttur er Kètill Kètilsson hafdi

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) Einar prestr Illhugason er ádr bió á hálfum Ulfsstödum, gaf upp stadinn Gissuri iarli á vorþíngi um vorit, bæta sömu vid.

3) Sigurdr. *A. B. C. E Gr. St.* Þ. ok ætíd framvegis.

4) ok módursynir, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

5) Steinn. *B. E. Gr.*

barnat, tóku þau Valgèrdr systir hans vid henni ok Narfi prestr, en sendi brèfin til Stadar, var þar á, at Sighvatr skyldi kvama vid fimtánda [1]) mann í Reykiaholt til móts vid Gissur. Sighvatr fór ei, enda kvam Gissur ei. Rafn kvam med þriátygi manna, hafdi hann reyndar sent brèf þetta med Saura [2]) Sveini, en er Sighvatr var þessa var, heitadist hann at ræna Narfa prest, en þó fórst þat [3]) fyrir.

4. Vígfús Gunnsteinsson sat at Saudafelli ok höfdu þeir Sighvatr sættst á sín mál ok skyldi þar heita lètti-vinátta [4]). Milli þeirra Þorvardar ok Vígfúsar höfdu farit vináttomál, þeir fundust at Kèldum ok var Vígfús lengi med Þorvardi um vetrinn. En er Vígfús kvam heim, fann hann Sturlu mág sinn ok bad at Sturla skyldi draga saman sætt med þeim Þorvardi ok Sighvati, bar Vígfús þá fram ordsendíng Þorvardar ok sáttarbod ok flutti þat [5]) med mikilli kunnátto [6]). Sturla fysti sátta ok kvadst þykkia úsyn leidrèttíng um hefndir eptir Þórgils, þótt sva búit stædi, taldi Sturla þat upp at Sighvatr hefdi bedit Gissur ok Rafn lids ok vildi hvergi veita honum til atfara. Var þá fundr ákvedinn sudr í Videyo, annan dag viko í efsto viko á lángaföstu, ef ei meinudo forföll. Sendi Vígfús þá menn til Þorvardar at segia honum svabúit. En er Sighvatr reid heiman, fór hann med leynd sva at hverki vissi þat Gissur nè Rafn, hann reid í Reykiaholt, var þar Hallvardr Gullskór, hann hafdi kvamit út um sumarit med bodskap [7]) Hákonar kóngs [8]), var hann þá virdr mikils, [gèkk þá skattr yfir land, sem mörgum mönnum er kunnigt ordit ok ritum vèr þar ekki fleira af, en þó ero þar mikil sögoefni [9]). Rèdust þeir Hallvardr ok Eigill til ferdar med Sighvati, ok er þeir kvamo sudr til Hallbearnarvardna, kvam þar í móti þeim Sturla ok Vígfús, reid Vígfús, Eigill ok Hallvardr til

[1]) tuttugasta. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) ekki, bæta vid *B. E. Gr.*

[4]) leiti-vinátta. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) af alvöru ok, bæta sömu vid.

[6]) vinátto, *B. E. Gr.*

[7]) brèfum. *A. B. C. E. Gr. St* þ.

[8]) er hann hafdi látit rita til Islendínga, bæta sömu vid.

[9]) frá [ vantar í sömu, en hafa í þess stad: sem sídar skal sagt verda.

Þíngvallar, Sturla ok Sighvatr ridu sudr til Laugardalsskarda. Tók þá vedur at þykkna ok giördi á drífo ok þvínærst fiúk, giördist þá færd íll, lögdust þá fyrir bædi menn ok hestar af úvedri [1]), þeir lágo úti um náttina í skördunum, en vedur rauf upp í móti degi, fóru þeir þá sudr af heidinni ok varo drottinsdag í Laugardal, en ridu mánadag í Skálaholt, segia heimamenn at biskup bannadi þeim allar heyagiafir, ok eingan beina vildi hann láta þeim vinna, þótti honum þeir draga flokka á stadinn. Gèkk Sighvatr þá til biskups ok kvaddi hann, en biskup svarar lágt. Sighvatr mælti, herra, látit gèfa hestum vorum hey ok mönnum vorum mat. Litlu sídar kvamo þeir í Skálaholt Þorsteinn Skèggiason ok Jón Kátinn [2]), segia Þorvard vera kvaminn til Ido, fóru þeir þar med gridum fyrir hann, ok tóku önnur í móti af Sighvati. Var þá fundr stefndr í Laugarási. Biskup var beiddr at fara til fundarins, en hann vildi ei, ok heimti at Sighvati fè þat er hann þóttist átt hafa at Þórgilsi, kalladist goldit hafa fyrir hann fiörutygi hundrud fyrir víg Valgardar, vildak giarna, segir biskup, hafa gèfit þat fè til þess at Þórgils væri heill ok lífs ok þó annat iafnmikit, en nú vil ek hafa ut hvert hundrad. Sighvatr mælti: þá skuld man ek gialda, at sál Þórgils mætti fyrir þess feárhalds sakir ei hardt hafa. Fóru þeir Sighvatr til fundar, var þar mart talat í hliódi, en sumt opinberliga, gèkk þá sátt saman, var þat þá handsölum bundit, skyldi þá þegar uppliúka, skyldu dæma fyrir hönd Sighvats Sturla ok Hallvardr [er verit hafdi lögunautr ok vin Þórgils, ok Eigill Sölmundarson [3]), en fyrir hönd Þorvardar Vígfús Gunnsteinsson, Þorsteinn Skèggiason, Jón or Asi, sagdi Sturla upp giördina at þeir giördu [hálft annat hundrad [4]) hundrada fyrir víg Þórgils, skyldu nidurfalla þriátygi hundrud fyrir atför vid Þorvard ok rán ok spellvirki þau er giör höfdu verit á Grund, var þat mælt at hverir skyldu gialda sínum mönnum sem tilyniist. I sætt þeirra Rafns í Bearnardal hafdi Þórgils hlotit at gialda örfum Finnbearnar tuttugu hundrud, ok skyldi Þorvardr þat gialda, ok þá skyldi biskup taka skuld sína í stadinn af Þorvardi. Þorvardr skyldi gialda Sig-

1) úfærd. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
2) Karin. sömu.
3) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
4) tvö hundrud. *C. St.*

hvati sextygi hundrud, skyldi vera þridiúngr í gulli ok brendo silfri, annar í gripum sæmiligum ok [1]) dugandi löndum, [hinn þridi [2]) í þeim gripum er eingi væri minna en tíu aura verdr, gripagiald þat er á Sighvats luta kvam skyldi Þorvardr láta fara vestr til Stadar ok skyldi Sighvatr láta virda, en þeir allir er sannir urdu at áverkum vid Þórgils edr vidrgaungo, skyldu utan fara [ok vera utan þriá vetur edr gialda tíu hundrud fyrir hvern. Jón Usli [3]) er þeir kèndo víg Þórgils skyldi utan fara [4]) ok kvama aldrei út, en eingir þeir, er sannir urdu at áverkum vid Þórgils, skyldu vera vistum í Vestfirdíngafeórdúngi medan þeir Sighvatr ok Gudmundr væri uppi. Þorvardr var ei or landi giör, en hann lysti því, at hann ætladi utan ádr þrír vetur væro lidnir. Fyrir víg Bergs vóru giör sextygi hundrud ok sva fyrir víg Asbearnar vóru giör sextygi hundrud, ef adildarmenn vildu því hlyta. Vígsbætur allar, þær er dæmdar vóru fyrir víg Þórgils, greiddi Þorvardr vel ok skörngliga, þakkar Þorvardr þeim mönnum er í dómi höfdu setit ok lèzt friáls þykkiast, er hann var sáttr vid þá brædur, ok skal ek, segir hann, þetta iafnan bæta vid frændr hans ok tengdamenn. Hann gaf Sighvati silfurkèr gott, skarlatskyrtil ok fíngurgull, Gudmundi silfurbelti. Fór Þorvardr austr yfir ár, en Sighvatr var um náttina í Skálaholti. Um morgininn ridu menn í brott, en Sighvatr var eptir, hafdi hann ei lokit eyrindum vid biskup, segir hann honum þá hversu til var ætlat um skuld hans. Biskup kvad sèr þat vel líka. Sighvatr segir sva biskupi, ek er hestlaus, segir hann, ok bad hann biskup liá sèr edr selia nokkurn hest, sva at hann væri fær þadan. Biskup syniadi alls þverliga, þótti honum Sighvatr hafa mælt vid sik ádr ei sva sæmiliga sem honum líkadi. Sighvatr keypti þá hest at Katli presti, vóru þeir Sighvatr þar um daginn ok átu þar náttverd þrír, lèt biskup gèfa þeim at drekka, reid Sighvatr út til heidar um kveldit, ok vard fátt af kvediu med þeim biskupi, [en hann kvam heim til Stadar föstudaginn lánga [5]).

[1]) hinn þridi í. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) en þat sem meira er skyldi vera *o. s. fr.* sömu.

[3]) Usti. *C. St.* Ussi. *A. B. Gr.* þ.

[4]) frá [ vantar í *E.*

[5]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

5.*) Um sumarit eptir fóru þeir utan med Hallvardi Gullskó Sighvatr [1]) ok Sturla. Sighvatr kvam á fund Hákonar kóngs ok giördist hans madr, fèkk hann þar sæmd góda af kóngi ok giördist mikill madr ok sterkr. Hann fór or landi med Hákoni kóngi vestr á Skotland [2]), [fèkk þar allgott ord [3]) sakir hreysti ok hvatleiks, hèt Hákon kóngr honum stórsæmdum ádr þeir skildu, ef þeir væro bádir heilir. Í þeirri ferd tók Hákon kóngr sótt þá er hann leiddi hèdan af heimi, þótti Sighvati þat ok mörgum manni ödrum miök úbætiligr skadi. Fór Sighvatr þá austr til Noregs med líki Hákonar konúngs [4]), ok sótti þá til Magnúsar kóngs sonar hans, fèkk Sighvatr þá sva mikla virdíng, at eingi af íslenzkum mönnum fèkk þá slíka. Sighvat ángradi miök missir Hákonar konúngs, sva at honum þótti eingi sèr [5]) í Noregi samiafn. Magnús konóngr lofadi honum ei út at fara, undi hann þá ei í Noregi ok fór hann or landi ok ætladi út í Jorsalaheim, en er hann kvam í Raudahafit, tók hann sótt ok andadist siö náttum fyrir Michaelismesso, ok þótti at honum mikill skadi.

6.**) Gudmundr Bödvarsson beó á Stad sæmiligu búi, hann fèkk Þrúdar Bearnardóttur [6]). Gudmundr fór utan þá er hann hafdi búit at Stad miök lengi, var þá Þrúdr húsfreya hans öndud. Gudmundr giördist hirdmadr Magnúsar kóngs, en er hann hafdi verit einn vetur í Noregi, tók hann sótt ok andadist í Biörgvin siö náttum fyrir Colúmbæmesso.

7. †) Nú sitr Gissur iarl af [7]) Stad, en á Hafsteinsstödum beó Jórun Kálfsdóttir ok synir hennar [8]), þau vóru öll skyld Gissuri iarli, en þó var ekki mart med þeim, um sumarit fóru þeir

*) þessi kapítuli er sá 11ti í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[1]) Sigurdr. sömu.

[2]) er kóngrinn hèllt í hernad, bæta sömu vid.

[3]) hèllt kóngr mikit af honum, sömu.

[4]) ok margir adrir göfugir menn ok hofþènarar, bæta sömu vid.

[5]) honum. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

**) þessi kapítuli er sá 12ti í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[6]) Biarnadóttur. *A. C. St.*

†) þessi kap. er sá 5ti í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[7]) at. sömu.

[8]) Kálfr ok Þorgeir, bæta sömu vid.

til þíngs med iarli. Um sumarit er áleid, sendi Þórdr Andresson mann med brèfum sínum til þeirra Brandssona frænda sinna þann er Krákr hèt, en þat var ummál í brèfi hans, ef þeir vildu vera í þeim rádum med Þórdi frænda [1]) sínum at ráda af [2]) Gissur iarl [3]) þar fyrir at hann sat á födurleifd þeirra, en unni þeim eingis góds fyrir. Þessi ordsendíng þótti þeim ill, en módur þeirra verri, vil ek, segir hon, at þid sèut í eingum rádum þeim er til svika megu verda vid Gissur iarl, þeir iátto því, en þótti ei gott til orráda, er frændr þeirra átto lut at. Þeir mæltu þá mikit vid sendimann Þórdar at hann skyldi ei finna Gissur iarl, en Krákr giördi ei sva, var hann tekinn ok færdr iarli, tóku þeir hann á Hafsteinsstödum, ok bar iarl þat at Kráki at hann hefdi farit med neósn edr nokkur úrád í móti iarlinum, hann syniar þess miök, sídan var hann bardr ok bundinn á stiga ok sva afhyddr at menn þóttust eingan mann sèt hafa meir hyddan [ok hræddan [4]), ok veit iarl ei giör af Kráki hvert hans eyrindi var, mæltu þá iarls menn, at þessi madr mundi fyrr sagt hafa slíkt sem iarli þótti van um hans eyrindi, en taka þvílíka meidíng. Jarl mælti: þótt þèr ætlit at ek liúgi, en hann segi satt, þá hefir hann allt at eino med nokkut íllt farit, en nú skal hann at sinni fara hvert er hann vill fyrir mèr. Setr Krákr þá södul á hest sinn, en þeir ransaka allan hans reidíng ok allan hans klædnad ok þíng ok finna þar ekki, nú byst hann ok ero þeir þar hiá honum, hann bregdr þá knífi litlum er hann hafdi, gèngr at ok sprettir södulgiördunum ok lèttir södlinum upp af þófanum, ok undir södulfiölinni sprettir hann upp speldi, tekr þar upp brèfit, bidr nú fá iarlinum, ef honum er forvitni at vita hvat á er. Jarlinn mælti er hann hafdi álesit: þegar vissak, er ek sá hann, at hann mundi med illu fara, ok verdi hann nú á brott sem skiótast. Þeir brædur ridu heiman ok kvamo til Stadar, Kálfr mælti, er þeir iarl töludu tveir, bad iarl vera varan um sik, þvíat ek veit hvad ek segi, ok má ek þó framar segia, ef ek vil.

[1]) mági. *B. E. Gr.*

[2]) dögum, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) edr rída í móti honum med þá menn er þeir fengi upp í Mælifellsdal, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) edr bardan ytat hafa. *B. E. Gr.*

Jarl mælti, sva má vera, en hygg at því frændi, nær þat skard verdr bætt í ætt þinni, ef ek er or höggvinn, vid þat skildu þeir, ok kèndi iarl þeim feörrád, en þat samdist þó med þeim fyrir gódra manna tillögur ok ord.

8.*) Gissur iarl lèt þá lidi samna um allt hèrad, hann sendi ok menn til Eyafiardar. Gissur iarl reid sudr á sveitir med fimm hundrud manna, [hann hafdi ok nokkra menn or Runamannarepp er hann kvam sudr, ok reid austr yfir ár med átta hundrud manna [1]). Sturla Þórdarson kvam vestan med mikinn flokk til móts vid Gissur iarl, ok höfdu vingiarnlig ord milli farit þar um sumarit. Þórdr reid austr undan í Þórsmörk ok þar í skóginn, þá var vída rænt á Rángárvöllum ok drepin tíu hundrud nauta um haustit. Um sídir fóru menn í millum þeirra, vóru þá grid seld, ok fundust þeir at Þíngskálum, ok skyldo bændr giöra med þeim þeir er þeim syndist til at nefna, en þat var skilit í sætt þeirra, at Þórdr skyldi vera med Gissuri um vetrinn, en þat vard ei sva, en þó hèllzt sætt þeirra þann vetur. Gissur iarl reid aptr til Skagafiardar, var þá dreift flokkum. Sturla reid heim vestr, ok skildu þeir Gissur iarl med kærleikum miklum, var þá ákvedin brúdkaupsstefna á Stad med iarli, er Sturla gipti Ingibeörgu dóttur sína Þórdi syni Þorvardar or Saurbæ. Tveim náttum fyrir Marteinsmesso um vetrinn kvam Sturla vestan vid tuttugu manna. Sighvatr [2]) Bödvarsson var med honum ok fleiri göfgir menn, fèkk Þórdr Ingibeargar Sturludóttur. Þar var fögur veizla ok feölmenn, skorti ei drykk gódan, vóro menn útleiddir med giöfum ok skildo med vinátto. Þá giördist Sturla lendr madr Gissurar iarls [3]), hèt Gissur Sturlu Borgarfirdi ok þar ödrum sæmdum med [4]).

*) þessi kap. er sá 6ti í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

1) frá [ vantar í sömu.

2) Sigurdr. sömu.

3) þá gipti ok Sturla Gudnyu dóttur sína um vetrinn Kálfi Brandssyni, þat var ok mikit brullaup, bæta vid *A. B C. E. Gr. St.* þ.

4) en Sigurdr Bödvarsson fèkk eingar sæmdir af iarlinum í þat sinni, þóttist hann hafa verit ginntr til at giörast handgènginn Gissuri iarli ok skildust þeir allfáliga, bæta sömu vid.

9.*) Annat sumar er Gissur iarl var at Stad, reid hann af þíngi austr yfir ár med fiölmenni mikit, var þá fundr stefndr at Þíngskálum med Gissuri iarli ok Rángæíngum, var Loptr Hálfdánarson fyrir þeim ok Beörn Sæmundarson, sóro Rángæíngar þá trúnadareida Hákoni kóngi ok Gissuri iarli. Þórdr Andresson var í lidi med Gissuri iarli ok reid nordr med honum til Skagafiardar, ok var med iarli um vetrinn, þá var vetur mikill ok fèlldu menn miök fè sitt. Þat vor stofnadi Gissur heit til guds ok hins heilaga Oláfs kóngs á vorþíngi, at vatnfasta skyldi iafnan fyrir Oláfsmesso [hina fyrri[1]) alþiód manna á Islandi, var þat heit þá fest ok iátat af allri alþydo. Gissur iarl sendi menn med brèfum sudr til Sigvardar biskups, ok gèkk þat vid um alla biskups syslo hans, vard ok sva vid um heitit, at bati var at vedrátto bædi skiótr ok gódr. Sigvardr biskup lèt festa heitit páskadag siálfann í Skálaholti, þvíat Gissur iarl ritadi til hans á föstunni, var ok þann dag vedur sva gott, at lángliga hafdi aldrei slíkt kvamit.

10.**) [Um sumarit eptir[2]) kvam skip í Hvítá í Borgarfirdi, var þar styrimadr Hallvardr Gullskór, fór hann med brèfum Hákonar kóngs, þá var Rafni Oddssyni skipadr Borgarfiördr, en tekinn af Gissuri iarli, en iarl hafdi ádr skipat Sturlu Þórdarsyni, þótti honum þá ei efnd vid sik þau hin fögro heit er fram voro mælt vid hann, þá kvad Sturla vísu þessa:

Rauf vid randa styfi,  
rètt innik þat, svinnan  
allt, þvíat oss hefir vælta,  
Odinn, þar[3]) er hèt gódu.  
Skaut sá er skrökmál[4]) flytr[5]),  
skil ek hvad gramr man vilia,

*) þessi kapít. er sá 7di í *A, B, C. E. Gr. St.* þ.

[1]) vantar í sömu.

**) þessi kapít. er sá 8di í *A, B, C, E, Gr, St,* þ.

[2]) þat þridia ár er Gissur iarl beó at Stad. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) þat. sömu.

[4]) skrautmál. *B. Gr.*

[5]) flytir. *A. C. E. St.* þ.

gautr ynni [1]) sèr sleito,
slægr iarl, en [2]) mèr [3]) bægi.

Asgrímr Þorsteinsson fór þat sumar utan er Gissur iarl kvam til Stadar ok sættist hann vid iarl ok seldi honum siálfdæmi. Asgrímr [4]) fór af landi brott ok út til páva [5]), þá var Alexander pávi, hann var nærstr eptir Innocentium papa. Asgrímr kvam út í Hvítá med Hallvardi Gullskó ok hafdi brèf Einars erkibiskups til stadarins á Greniadarstödum at honum var skipadr, giördi hann þar bú um vorit eptir, hèldu þeir Gissur vel sætt sína [6]). Þat sumar kvam Ingibeörg í Noreg drottníng, dóttir Eyrcks kóngs hins helga. Þá var Magnús kóngr vígdr undir kórónu Oláfsmessodag hinn fyrra. A því ári andadist Knutr iarl [7]).

11.*). Um sumarit eptir er Hallvardr kvam út, var þíngreid mikil nordan or sveitum, feölmennti Gissur iarl miök, reid Asgrímr þá med honum [8]), Rafn feölmennti þá ok miök vestan, reid med honum á þíng Hallvardr Gullskór, Einar Vatnsfirdíngr, Vígfús Gunnsteinsson [9]), ok mundo þeir hafa sex hundrud manna. Gissur iarl hafdi alls ei færra med lidi því er hann tók upp sudr en átta hundrud manna, var á því þíngi svarinn skattr Hákoni kóngi um allan Nordlendíngafeórdúng [ok Sunnlendíngafeórdúng fyrir vestan Þiórsá, skattr var þá ok svarinn um allan Vestfirdíngafeórdúng [10]). Þessir tólf menn sóro skatt or Nordlendíngafeórdúngi: Asgrímr Þorsteinsson, Hallr Tysti [11]) ok Gudríkr, or Eyafirdi Hallr af Mödruvöllum, Þorvardr or Saurbæ, Gudmundr fra Rafnagili, or Skagafirdi Geir Audgi [12]), Kálfr ok Þorgeir Brands-

[1]) unni. *B. E. Gr.*
[2]) vid. *A. E. C. E. Gr. St.* Þ.
[3]) mik. *Gr.*
[4]) sterki, bæta vid *E. Gr.*
[5]) Rómaborgar. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[6]) ok vóru vel til vina, bæta sömu vid.
[7]) son Hákonar Galins, bæta sömu vid.
*) Þessi kap. er sá 9di í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[8]) ok margir göfugir bændr, bæta sömu vid
[9]) ok enn fleiri stórbændr, bæta sömu vid.
[10]) frá [ vantar í *C. St.*
[11]) Kvistr. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
[12]) Þorvaldsson, bæta sömu vid.

synir, en fyrir vestan Vatnsskard Bearni â Audkûlustödum. Sigurdr or Hvammi, Illhugi Gunnarsson. Tólf menn svördu skatt or Vestfirdíngafiórdúngi, [ok sva Rángæíngafiórdúngi ok Borgarfirdi[1]) A því sumri sættust þeir Gissur ok Rafn, vóru þá trygdir veittar[2]).

12.*) Nú er þar til máls at taka, sem fyrr var frá horfit, at Sturla reid heim vestr til sveita, átti hann nú bú at Stadarhóli, en Rafn giördi bú í Stafaholti med rádi Sturlu. Þat sumar er skattr var svarinn Hákoni kóngi af Islandi, fór utan Brandr ábóti, ok þá kvam Oláfr Grænlendínga biskup til Islands. Annat ár eptir var vígdr Brandr biskup til Hóla ok kvam út til Islands, varo þá þrír biskupar á Islandi. Þá fór Hákon kóngr til Skotlands. Þorleifr Reimr var lögmadr. Nú þróast synir Sturlu Snorri ok Þórdr, hèllt Þórdr sik til kènnimanns ok var hóglátr [í hvívetna[3]), en Snorri giördist uppivödslomadr mikill ok hèllt hann sveit nokkura, vóru þeir fedgar miök úskaplíkir. Snorri reid um haustit sudr til Borgarfiardar á Alptanes at Hauks, ok tók þar vid búi, hafdi hann heldr fiölmennt um vetrinn, ok þóttu þeir ei spakir í hèradi, lagdi Rafn hinn mesta úþokka á Snorra, ok því vurdu þeir allúvinsælir af hèradsmönnum, kvam því sva at Snorra þótti ei vidvært, stukko þeir þá upp, fór Snorri þá fyrst nordr til födur síns, var þá fullr feandskapr med þeim Sturlu ok Rafni. Um vetrinn er áleid fundust þeir Vígfús Gunnsteinsson ok Snorri Sturluson ok Eyrar-Snorri í Liáskógum, mæltu þeir saman vingan med sèr, skyldi hver þeirra veita ödrum, ef þyrfti, í móti Rafni, þóttust þeir skilia at eingi yrdi uppgángr þeirra, ef sva búit stædi ríki Rafns. Litlu sídar sendi Snorri Pálsson menn á fund Rafns ok bad hann senda sèr eggsi nokkra breida ok mikla ok bitrliga, skyldi sá forvitnast hvad tídinda væri í hèradi. Rafn sendi einga eggsi, ok kvadst einga til

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) Gèkk þar til Rafn ok Sturla son hans. Tókust þeir í hendr fyrir kyrkiudurum á alþíngi, var þar vid Sigurdr biskup ok Brandr ábóti Jónsson, Sigurdr Bödvarsson ok Sturla Rafnsson. Höfdu nú þrír fiórdúngar gèngit undir skatt vid Hákon konúng. Þann vetur sat kóngr í Nidarósi, hæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

*) Þessi kap. er sá 17di í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) ok sidsamr madr. sömu.

hafa, ok man ek senda sídar, hann heyrdi menn Rafns segia, at hann þóttist spurt hafa at þeir höfdu þá sömu eggsi ætlat honum til líf láts. En eptir páska um varit biuggust þeir til at ríða at Rafni Sturla ok Snorri son hans ok Snorri Pálsson, en Vígfús dró sik or atferd er at kvam. Snorri mælti vid födur sinn, kvadst þeim illa trúa er hiá sáto ok ekki vildu halda af vidrædum þeirra. Sturla mælti: ei man oss mein verda at Vígfúsi, en sakir vina Rafns munum vèr fara leyniliga um Dali, þeir svara nafnar: þat má vel vera, en sva vildum vèr þessa ferd fara, at ei yrdi eyrindislaust. Þá mælti Sturla: þat er satt, at ek hefir miök latt þessarar ferdar iafnan hèr til, en nú nenntak ei vid áeggiàn ydra at sitia heima, þvíat ek vissa at þèr vildut þó fara, en þat er áhugi [1]) minn at af þessari ferd hlióium vèr mikinn útíma, en eingan framgáng, ef sva fer, sem mik varir. Þeir segia at hann mundi ekki at þessu sannspár verda.

13.*) Ridu þá sudr um heidi ok namo stadar í skóginum ofan frá Grísartúngo, þeir sendo mann til Nordrár at vita hvert áin væri reid, þvíat vatna vextir varo miklir, eda hvert Rafn væri heima í Stafaholti, kvam aptr sendimadr þeirra ok segir at áin væri úreid, snero þeir þá ofan med Nordrá ok út á Myrar. Rafni gèkk niósn vestan or Dölum, ok nokkro sídar kvam Snorri Markússon sendr af Vígfúsi [2]) til Rafns med niósn, ok þótti Rafni sem Vígfús mundi mátt hafa þessa ferd látit verda skiótari, ef hann hefdi öruggr í verit. Stefndi Rafn þegar at sèr mönnum, ok um daginn eptir ridu þeir út yfir Nordrá, spurdu þeir þat at Sturla hafdi ridit útá Myrar, ridu þeir þar til er þeir visso at þeir mundo ei ná þeim at sinni. Þeir Snorri Sturluson ok Snorri Pálsson ridu vestr til Skógastrandar ok fengo sèr þar skip ok fóro vestr í feördu ok heldr úspakliga. En er þeir Sturla tóko [3]) undan, þá ridu þeir Rafn heim í Stafaholt, stód nú med þeim allt atgiördalaust [4]). Litlu sídar beóst Þorrídr Sturludóttir heiman, kona Rafns,

[1]) hugr, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

*) þessi kap. er sá 18di í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) á Saudafelli, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) ráku. sömu.

[4]) gridalaust, sömu.

at fara vestr á Eyri í Arnarfeörd til bús þeirra, var þat eyrindi hennar reyndar, at hon bar Vestfirdíngum ord Rafns at fara vestan til móts vid hann at ákvedinni stundo, ætladi hann þá at fara at þeim Sturlu þann tíma er þeir kvæmo vestan, varo þar nefndir til Einar Vatnsfirdíngr, Loptr Gíslason af Sandi ok Súdvíkíngar, ok allt hit besta mannval vestan or feördum. Vestfirdíngar brugdu vid skeótt, ok giördu sva mikit afrek, at þeir flutto stórskip yfir þær heidar, er varla þótti lausum mönnum fært. Rafn safnar lidi ok reid vestr á Skógaströnd, hann sendi ord Gudmundi Bödvarssyni, at hann kvæmi til móts vid hann vestr á Breidafeörd ok hefdi med sèr af Snæfellsnesi skip þau er hann fengi. Bödvar Þórdarson bad Gudmund þvíat eins fara at hann vildi Sturlu verda at því lidi sem hann mætti. Gudmundr svarar sva, at Sturlu mundi ekki verda at honum mein, en þat veit ek at honum verdr ei lid at mèr ef ek verd heima, fór Gudmundr er hann var búinn ok hafdi mikla sveit manna. En er hann kvam til Helgafells, var þar fyrir Ari Gudlaugsson ok nokkrir menn Rafns, þeir segia Gudmundi at Rafn var kvaminn á Eyri, en Vestfirdíngar allmargir kvamnir med mörgum skipum [1]) ok miklu feölmenni, höfdu þeir Börkr af Svíuanesi eltan Eyrar-Snorra, ok kvamst hann á land undan ok á vald Rafns ok var í gridum.

14. *) En Snorri Sturluson var í Öxney er Vestfirdíngar kvamo þar, vóru þeir í svefni ok höfdu einga niósn af fyrr en madr kalladi at úfridr færi at þeim. Snorri kvamst þá í bænahús ok þeir fèlagar, hlópu Vesfirdíngar þá at bænahúsino, lögdu menn þar misiafnt til, hvert bænahúsit skyldi halda þeim, þat rèdst af at bída þess er Rafn kvæmi til. [Sturla var þá vestr á Stadarfelli [2]). Rafn kvám um daginn í Öxneyo, ok höfdust þeir Snorri þá ord vid, beiddi hann sèr grida ok mönnum sínum. Rafn kvadst því ei heita mundo at sinni, frètti Rafn þá at Sturla var inn undir Stadarfelli, snyr þá þángat med Borgfirdínga ok allan flokkinn miök sva, en er Sturla sá at mörg skip fóru at landi, sagdi hann

[1]) stórskipum. *A. B. E. Gr.* þ.

*) þessi kap. er sá 19di í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

vera mundo úfrid, ero þetta miklu fleiri skip en vorir menn höfdu ok mano þeir Rafn kvamnir vera, þvíat mik dreymdi sva í nátt, ok manum vèr rída undan nordr um feall til Skardsstrandar, ok er þeir ridu upp í brekkur, sáu þeir at hver madr hióp yfir annan fram af skipunum, þóttust þeir þá kènna at Rafn var í ferdarbroddi, ridu þeir þá undan ok þraut hesta fyrir þeim, var sá einn úþrotinn er Guttormr átti, reid Sturla þá þeim hesti, vóru þeir þá þrír saman Sturla ok Guttormr ok Þorbeörn [1]), settu þeir undan nordr um feallit til Strandar, stökk sinn veg hver þeirra bræðra Oláfr ok Þorsteinn. Oláfr fal sik, en Þorsteinn kvam í bænahús á Arastödum. Nikolás Þórarinsson kvam eptir þeim Rafni í heidarbrekkunni, var Rafn þá miök módr, en mart manna þrotit. Rafn mælti at Nikolás mundi striúka eptir þeim er fremstir voro, ef hann væri ei þrotinn. Þá spurdi Nikolás hver vapn skyldi bera á Sturlu, ef hann yrdi tekinn? Þat veit ek nú ekki, segir Rafn, enda [vil ek nú þat ei [2]). Nikolás fór þar til er hann fann Oláf Oláfsson [3]), ok segir Oláfr at Sturla væri undan dreginn. Nikolási þótti þat breytiligt, hvurfo þá Rafns menn aptr sumir ok fóru at leita Þorsteins, ok fundu hann í bænahúsi á Arastödum, ok leiddo hann út or bænahúsino ok drápo hann. Rafn kvam nordr til Skards ok bad Bearna Snorrason [4]) fara at leita Sturlu, en hann vildi þat ei, nema honum væro grid seld, Rafn giördi þat. Fór Bearni þar til er hann fann Sturlu ok seldi honum grid af Rafns hendi, en Sturla önnur af sinni hendi, var þá fundr ákvedinn á Dögurdarnessi, fundust þeir Rafn ok Sturla at ákvedno, var þar Oláfr áhóti Hiörleifsson [5]), Gudmundr Bödvarsson, urdu þau málalok at menn Sturlu fengo lífs grid ok lima, en Rafn rèd einn sáttum, ok rèdst þat at Sturla skyldi fara utan um sumarit á Eyrum, en þau Snorri ok Helga giördu bú á Stadarhóli, en Rafn átti bú í Stafaholti, en er Sturla fór til skips, var útkvaminn Hallvardr Gullskór, sem fyrr var ritat, fann hann Þórd mág sinn á Þíngvelli, segir hann honum þau tídindi, at Hákon kóngr var or landi

[1]) Þórarinn. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) frá [: veit ek ei hvert þèr náit honom. sömu.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) vantar í sömu.

[5]) vantar í sömu.

farinn, en Magnús kóngr var fyrir landstiórn ok drottníng ok Gautr af Mæli [1]), barst Sturla þat fyrir at kvama sèr í kærleika vid þau, þegar hann vissi at Hákon kóngr væri or landi, þvíat hann uggdi hans feandskap mest, fór Sturla þá á Eyrar sudr, var þar þá Gissur iarl, ok lèt ei vel vid Sturlu, [þá kvad Sturla víso þá, er fyrr er ritud: Rauf vid randa styfi [2]).

15.*) Eptir þetta fór Sturla utan á Eyrum, hafdi hann nær ekki í fè, fórst þeim vel ok tóko land vid Beörgvin, ok var þar fyrir Magnús kóngr. Þá var ok í Beörgvin Gautr af Mæli [3]), gèkk Sturla þegar á fund Gauts, tók hann því vel ok mælti: ertu Sturla hinn íslenski? sva er víst, segir hann. Gautr mælti: heimill er þèr matr med mèr sem ödrum Sturlúngum. Sturla mælti: ei er víst at ek eigi betra kosti, fór hann þá til vistar med Gauti ok segir honum af hit liósasta um þángatkvamo sína, en Gautr segir honum aptr á móti, hversu miök hann var affluttr vid Magnús kóng, en þó meir vid Hákon kóng. Litlo sídar gèngu þeir Gautr ok Sturla til Magnúsar kóngs, kvaddi Gautr kóng, en hann tók því vel. Sturla kvaddi ok kóng, en hann svarar eingo. Kóngr mælti: seg, Gautr, hver þessi madr er, er med þèr fer. Gautr mælti: þessi madr er Sturla skáld Þórdarson, ok er nú kvaminn á ydar miskun, ok hyggr ek vera, herra, vitrann mann. Kóngr mælti: þann hyggium vèr, at hann væri ei hèr kvaminn, ef hann væri seálfrádi, en þó man hann reyna þá hann finnr födur minn. Gautr mælti: þat hyggr ek at hann mani hafa ydr kvædi at færa ok sva födur ydrum. Þat er líkast, segir kóngr, at ei látik drepa hann, en ekki kèmr hann í mína þiónusto. Gèkk Gautr ok Sturla þá í brott, en er þeir kvamo til herbergis, mælti Gautr vid Sturlu: þúngliga þótti mèr kóngr taka þíno máli, en þó ero þèr grid rádin, ok ætlak þú hafir miök affluttr verit. Sturla svarar: ei efar ek þat, heldr þykkiumst ek vita, at Rafn man mik hèr miök afflutt hafa, er mèr þótti á Islandi tiltínt [4]) smátt ok stórt, satt ok logid.

[1]) Meli. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) frá [ vantar í sömu.
*) þessi kap. er sá 20ti í sömu.
[3]) Meli. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[4]) tilhendt, sömu.

Annan dag eptir gèkk Gautr ofan í kóngsgard, ok er hann kvam aptr ok þeir Sturla töludust vid, mælti Gautr: skipazt hefir nú um mål þitt, fyrir því at kóngr vill nú at þú farir med honum sudr med landi. Sturla mælti: man ei kóngr hlióta at ráda, en ei fysir mik í brott hèdan, rèdst hann þá til ferdar med kóngi ok var skrásettr [1]) í skip, gèkk hann þá til skips ok var fátt manna kvamit, hafdi hann húdfat ok sviptikisto, settist hann fram á þyliur.

16.*) Nokkro sídar gèkk kóngr á bryggiur ok sveit manna med honum, stód Sturla þá upp ok hneigdi honum ok kvaddi hann, en kóngr svarar eingo ok gèkk aptr eptir skipi til lyptíngar, silgdu þeir um daginn sudr med landi, en um kveldit, er menn brutu upp vistir sínar, sat Sturla kyrr ok baud eingi madr honum til matar, þá gèkk þiónustumadr kóngs um skipit ok spurdi Sturlu ef hann hefdi nokkra vist ok drykk? hann kvadst hverki hafa. Sídan gèkk þiónustumadrinn til kóngs ok mælti vid hann hliótt, sídan gèkk hann fram í skip til Sturlu ok mælti: þú skalt fara í mötuneyti med þeim Þóri [2]) Munn ok Erlendi Maga, þeir tóko vid honum ok heldr fáliga, en er menn lögdust til svefns, þá spurdi stafnbúi kóngs hver skèmta skyldi? Flestir lèto hliótt yfir því. Þá mælti hann: Sturla hinn íslenzki, viltu skèmta? Rád þú, segir Sturla; segir hann þá Huldarsögo betr ok fródligar en nokkur þeirra hafdi fyrr heyrt er þar vóru, þraungdust þá margir fram á þyliurnar ok vildu heyra sem giörst, vard þar þraung mikil. Drottníng spurdi: hvada þraung er þar fram á þyliunum? madr segir: þar vilia menn heyra til sögo er hann Islendíngrinn segir. Hon mælti: hvad sögu er þat? hann svarar: þat er frá tröllkono mikilli ok er gód sagan, enda er vel frásagt. Kóngr bad hana gèfa at þesso eingan gaum ok sofa. Hon mælti: þat ætlak at Islendíngr þessi man vera gódr drengr, ok sakadr minnr en flutt hefir verit. Kóngr þagdi. Sváfo menn þá af náttina, en um myrgininn var logn, ok eingi byr ok lá kóngr í sama laginu, en er menn sáto at drykkio um daginn, sendi kóngr Sturlu sendíngar af bordi,

[1]) skrádr. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.* [2]) Þórarinn. *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

*) þessi kap. er sá 21ti í sömu.

mötunautar Sturlu urdo vid þetta gladir, ok hlytst betra af þèr en vèr hugdom, ef slíkt venst [1]) opt á. En er menn vóro mettir, sendi drotníng eptir Sturlu, bad hann kvama til sín ok hafa med sèr tröllkono söguna, gèkk þá Sturla aptr í lyptínguna ok kvaddi kóng ok drottníngu, kóngr tók kvedio hans lágt, en drottníng vel ok lèttiliga, bad drottníng hann segia þá sömo sögo, er hann hafdi sagt um kveldit, hann giördi sva, ok sagdi mikinn luta dags sögu, en er hann hafdi sagt, þakkadi drottníng honum ok margir adrir, ok þóttust skilia at hann var fródr madr ok vitur, en kóngr svarar eingo ok brosti at nokkut sva. Þóttist Sturla þá siá, at allt skap kóngs var þá lèttara en hinn fyrra daginn, segir hann þá kóngi at hann hefdi ort kvædi um hann ok sva um födur hans, vildak at þèr hlyddut til. Drottníng mælti: látit hann kveda, þvíat mèr er sagt at hann sè hit mesta skáld, ok man kvædit vera ágæta gott. Kóngr bad hann kveda ef hann vildi, þat er þú þykkist um mik ort hafa. Þá kvad Sturla til þess er lokit var. Drottníng mælti: þat ætlak at kvædit sè vel ort. Kóngr mælti: kanntu miök giörla at heyra? Hon mælti: ek villda at ydr þætti sva, herra. Kóngr mælti: spurt hefir ek at Sturla kann at yrkia Kvaddi Sturla kóng ok drottníngu ok gèkk til rúms síns.

17. *) Gaf kóngi ei at sigla þann dag, en um kveldit ádr hann fór at sofa, lèt hann kalla á Sturlu, ok er hann kvam, kvaddi hann kóng, ok mælti sídan: hvat vilit þèr mèr, herra? Kóngr bad taka silfurkèr fullt af víni ok drakk af nokkut, fèkk sídan Sturlu ok mælti: vin [2]) skal til vinar drekka. Sturla mælti: gud sè lofadr, at sva sè. Sva skal vera, segir kóngr, en nú vil ek at þú kvedir kvædi þat er þú hefir ort um födur minn. Sturla kvad þá kvædit, en er lokit var, lofudu menn miök ok mest drottníng. Kóngr mælti: þat ætlak at þú kvedir betr en pávinn. Kóngr spurdi Sturlu at um þángatkvamo hans. Sturla segir kóngi vel ok einardliga frá skiptum þeirra Rafns, en nú veit ek, herra, at ek hefir afíluttr verit vid födur ydvarn ok ydr af úvinum mínum ok ei med sönnu efni, nú þarf ek sem allir adrir guds miskunar ok ydvarrar

[1]) veitist. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) vín, sömu.

*) Þessi kap. er sá 22ar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

ásiár, herra, ok nú er allt mitt mál á ydro valdi. Kóngr svarar vel ok hógliga ok mælti: nú hefir ek heyrt kvædi þín, Sturla, ok hyggr ek at þú manir vera hit besta skáld, nú man ek þat at launum leggia, at þú skalt heimkvaminn med mér í nádum ok gódum fridi, en fadir minn á sök á sínum málum er þit finnist, en gott man ek tilleggia. Drottníng þakkadi kóngi ok kvadst hyggia at Sturla væri hinn besti drengr. Kóngr tók þá Sturlu vel ok tærdi honum vel ok sæmiliga. Drottníng var til hans forkunnar vel, ok sva giördu adrir eptir, ok litlu sídar kvam Sturla í hina mesto kærleika vid kóng, ok hafdi kóngr hann miök vid rádagiördir sínar ok skipadi honum þann vanda at setia saman sögo Hákonar kóngs födur síns, eptir siálfs hans rádi ok hinna vitrusto manna forsögn.

18. *) [En ádr hann lét setia sögana saman [1]), hafdi Hákon kóngr andazt í Orkneyum, ok þótti mönnum þat mikil tídindi um öll nordrlönd ok hinn mesti skadi [2]). Ok þá í annari utanferd Sturlu var hann enn med Magnúsi kóngi [vel haldinn ok mikilsmetinn [3]), þá setti hann saman sögo Magnúss kóngs eptir [bréfum ok [4]) siálfs hans rádi, giördist hann þá hirdmadr Magnúsar konúngs ok þar nærst skutilsveinn. Hann orti mörg kvædi um Magnús konúng ok þág margfalda sæmd þar fyrir. Sídan kvam utan af Islandi Helga Þórdardóttir kona Sturlu ok synir hennar, var hon þar [fyrir sakir Sturlu [5]) tekin í hina mesto sæmd af drottníngu. Þórdr Sturluson kvam utan ok fór til kóngs, ok var þar vígdr til prests, ok vard sídan hirdprestr Magnúsar kóngs ok fékk mikla virdíng ok andadist þar. Sturla orti um Birgi iarl af Svíþiód tólf vísna flokk, [ok þág þar laun fyrir, var þat kumpás af baldikinn edr kyrtill hálfermadr, balldikinn ok skarlat ok ágætt kaprún [6]). En er þeir Magnús kóngr ok Birgir iarl fundust, [þá færdi Sturla

*) Þessi kap. er sá 23di í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[1]) frá [ vantar í sömu.

[2]) Sturla þág ordlof til Islands, er skip gèngu, sídan sigldi hann enn at nyu nokkru sídar, bæta sömu vid.

[3]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) vantar í sömu.

[5]) vantar í sömu.

[6]) frá [: iarlinn gaf honum ágætan kyrtil, skarlat ok herligt kaprún, sömu.

drápu er hann hafdi ort um Byrgi iarl, þakkadi iarl honum vel kvædit[1]) ok baud Sturlu upp í Svíaveldi med sèr, skal þik hverki skorta góda hesta nè gángsilfur. Sturla gaf iarli þar fyrir gódar þakkir, en kóngr hefir mèr gèfit útferdarleyfi til Islands, en kóngr leit frá ok brosti vid, þvíat þeir Sturla höfdu ei um þat talat, en þó lèt kóngr honum leyft vera þat sumar út at fara til Islands. Hit nærsta sumar eptir andlát Hákonar kóngs[2]) andadist Brandr biskup Jónsson at Hólum, þá fór Oláfr Grænlendínga biskup af Islandi. Þat haust fyrir Michaelismesso lèt Gissur iarl drepa Þórd Andresson.

19.*) Þat er frá Sturlu sagt, at hann fór til Islands med lögbók þá er Magnús kóngr hafdi skipat. Var hann þá skipadr lögmadr yfir allt Island, vóru þá lagaskipti á Islandi, tók hann þá vid búi um haustit í Fagradal af Skèggia bónda. Þann vetur var med Sturlu Þórdr Narfason[3]). Þat var eitt sinn um vetrinn, at þángat kvam til Sturlu Bárdr son Einars Asgrímssonar, hann fór á skipi, en þann dag eptir er þeir fóro á brott, laust á vedri miklo fyrir þeim ok uggdu menn at þeir mundo tynast. Þórdr gèkk út ok inn ok hugdi at ef vedur mínkadi, ok eitt sinn er hann kvam inn, mælti Sturla: vertu kátr[4]), Þórdr, ei man Bárdr frændi þinn drukkna í þessari ferd. Þat mantu alldrei vita, segir Þórdr, en þat frèttist þá sídar [sem Sturla sagdi[5]). Nokkro sídar um varit tók Bárdr sótt, þá spurdi Þórdr Sturlu, hvert Bárdr mundi upp standa or sóttinni edr ei? Skil ek nú, segir Sturla, hví þú spyr þessa, en fá mèr nú vaxspeöld[6]) mín, lèk hann þar at um ríd, litlu sídar mælti Sturla, or þessari sótt man Bárdr andast, þat fór sva. Sturla fór þá til Stadarhóls búi síno ok hafdi lögsögo[7]) þar til er hófust deilur milli kènnimanna ok leikmanna um stadamál. Lèt Sturla þá lögsögu lausa ok sett-

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[2]) Anno MCCLXIIII, bæta sömu vid.

*) þessi kapítuli er sá 24di í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[4]) kyrr. sömu.

[5]) segir Sturla. sömu.

[6]) spiöld. sömu.

[7]) mörg ár, bæta sömu vid.

ist hiá öllum vandrædum er þar af giördust. Margir menn heyrdu Arna biskup þat mæla, ok þótti þat merkilgt, at Sturla mundi nokkurs mikils góds at nióta, er hann gèkk frá þessum vanda. Tók þá lögsögu Jón Einarsson ok Erlendr sterki [1]). Sturla giördi bú í Fagurey, en fèkk Snorra syni sínum land á Stadarhóli til ábúdar, sat Sturla þá í gódri virdíngu [2]) þar til er hann andadist einni nátt eptir Oláfsmessodag, [var hann ok Oláfsmessodag fyrst í heim ok Oláfsmessodag sídast [3]), hann var þá siötogr er hann andadist, var líkami hans færdr á Stadarhól ok iardadr þar at kyrkio Pèturs postula, er hann hafdi nær mesta elsko á haft af öllum helgum mönnum.

* * * * †)

20. *) Gissor Þorvaldsson var þessar stundir í Noregi med Hákoni kóngi frænda sínum, hann fór til Hallands med kóngi, þá er þar var brennt, ok bádir þeir Þórdr Sighvatsson, áttust þeir þá ekki vid, hafdi hvertveggi þeirra gód metord af kóngi. Þat haust andadist Þórdr Sighvatsson, sem ritat er, hafdi Gissur sídan meiri metord en ádr af Hákoni kóngi. Þat sumar er nú var frá sagt gaf Hákon kóngr Gissuri iarlsnafn ok skipadi honum allan Sunnlendíngafeórdúng ok Nordlendíngafeórdúng ok Borgarfiörd allan. Hákon kóngr gaf Gissuri iarli stórgiafir ádr hann fór út um sumarit, ok leysti hann vel af hendi. Kóngr gaf Gissuri iarli merki ok lúdur ok setti hann í hásæti hiá sèr ok lèt skutilsveina sína skeinkia honum sem siálfum sèr. Gissur iarl var miök heitbundinn vid Hákon kóng at skattr skyldi vidgángast á Islandi. I Biörgvin var Gissuri iarlsnafn gèfit á eino ári hins fimta tugar kóngdóms Hákonar, þá skorti Gissur vetur á fimmtugan, en þá skorti hann vetur á þrítugan er Örlyggsstada fundr var. Nú lètu þeir í haf, ok

1) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

2) mörg ár í elli sinni, bæta sömu vid.

3) frá [: var hann ok oleadr messudaginn fyrri ok sva hinn sídari. sömu.

†) Handritid hefir þessa fyrirsögn fyrir þeim kapítulum sem eptir fylgia: Nú hefr hèr aptr at segia frá Gissuri iarli, er þetta þó marthvad ádr skrifat, hefir þetta annar sögumeistari samansnarat, því ei segir eins frá öllum atvikum.

*) þenna kap. vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

hafdi hann miök leidsögn í hafino, ok kvam skipino vid Sudreyar ok var þar um vetrinn, ok þar fèkk Gissur iarl sverd þat er sídan kalladi hann Eyfaranaut. Eptir um sumarit lètu þeir í haf, ok hafdi Gissur iarl þá enn miök leidsögn. Þeir kvamo skipino á Eyrar síd um haustit, urdu þeim fegnir frændr ok vinir, þá hafdi hann fióra vetur utan verit. Hann setti bú saman í Kaldadarnesi ok lèt þángat faung tilflytia, sat hann þar med feölmenni um vetrinn ok hafdi rausn mikla í búi, hann hafdi mikil drykkiarfaung út haft ok var optliga drukkit fast um vetrinn. Ekki fór Gissur iarl til Skagafiardar um haustit, þvíat skipit þat er hann var á, kvam síd af hafi. Gissur iarl giördi menn nordr til sveita um vetrinn. Fór þá sudr í Kaldadarnes Ingibeörg Gunnarsdóttir, hon var þá fridla iarlsins, sem ádr hann fór út. Þá fór ok sudr til Gissurar iarls Eyúlfr Þorleifsson ok Guttormr Guttormsson. Um vetrinn allraheilagramesso giördust menn handgèngnir Gissuri iarli þriátygi manna, sumir hirdmenn, sumir gèstir. Þann vetur lèt Vígfús Gunnsteinsson fyrir fösto drepa þá Rögnvald Illhugason ok sonu hans tvo Eyúlf ok Vagn, upp frá Arnesi þar í feollunum, vóru þeir miök ginntir heiman af bænum. Um vorit eptir fór Gissur iarl sunnan, ok hafdi nær þriátygi manna, hann kvam til Skagafiardar, tóku menn vel vid honum, hann reid nordr til Eyafiardar, ok giördi Eyúlfr ábóti veizlo á móti honum, gèngo menn vel í móti honum í Eyafirdi ok gáfu honum giafir, sídan reid hann til Skagafiardar ok keypti Stad at Páli Kolbeinssyni fyrir hundrad hundrada, ok baud Páll honum stadinn. Páll keypti þá Ulfsstadi ok fór þángat bygdum, en Gissur iarl fór til Stadar um varit, en Einar prestr Illhugason, er ádr beó á hálfum stadnum, gaf upp stadinn Gissuri iarli á vorþíngi um varit, var þá fiölmennt vorþíng, efldu þá bóndr í Skagafirdi bú iarls, gaf honum hver madr á, sá er þíngfararkaupi átti at gègna. Gissur iarl reid til þíngs um sumarit, þá var fátt med þeim Þórdi Andressyni ok sva um vetrinn ádr er iarl var sudr þar. Þórdr var á þíngi feölmennr. Rafn Oddsson reid ei til þíngs þat sumar ok ei Sturla Þórdarson, var Rafn lengstum vestr í feördum. Sturla hafdi þá bú á Stadarhóli, en Vígfús at Saudafelli. Gissur iarl reid heim af þíngi ok var þá kyrt um sumarit. Þá beó á Halsteinsstödum hiá Stad Jórunn Kálfsdóttir ok

synir hennar Kálfr ok Þorgeir, þau vóru öll skyld Gissuri iarli, en þó var ei mart med þeim. Þeir fóru um sumarit til þíngs med iarli, en er áleid sumarit, sendi Þórdr Andresson mann med brèfi sunnan til þeirra Brandssona frænda sinna, þann er Kraki hèt, en þat var ummál í brèfino, ef þeir vildu vera í þeim rádum med Þórdi frænda sínum at ráda af Gissur iarl edr rída í móti honum med menn þá, er þeir fengio upp í Mælifellsdal ok sitia ei skammir Gissuri iarli, er hann sat á födurleifd þeirra, en unni þeim eingis sóma fyrir. Þessi sendíng þótti þeim íll, en módur þeirra verri, segir hon sva, þegar er hon vissi, at þeir skyldu í eingum þeim rádum vera er til svika mætto virdast vid Gissur iarl. Þeir iáttu því, en þótti þó ei gott til orráda, þar er nánir frændr þeirra átto lut at. Þat var þeirra rád brædra, at þeir kvamo bádir til Stadar um leid er Kálfr reid nordr yfir heidi. Kálfr mælti sva til Gissurar iarls, er þeir töludu tveir, bad iarl vera varan um sik ok kvedst giörla vita hvat hann segi, kvedst ok framar mega segia, ef hann vildi, en kvadst þat ei giöra mundu. Gissur iarl svarar: sva má vera, frændi, at þeir nokkrir eigi lut at, er þèr þykki ei sómi þinn at segia framar, en hygg at því, frændi, nær þat skard verdr brætt í ætt þinni, ef ek verd or höggvinn, ok vid þat skildu þeir, en Kraki sendimadr Þórdar var tekinn á Hafsteinsstödum ok færdr Gissuri iarli, höfdu þeir brædur ádr þeir ridu í brott varat hann vid, at hann skyldi skiótt í brottu verda, en hann giördi ei sva, var hann þá neyddr til sagna, segir hann þá allt sem farit var um þetta mál, fannst þá brèf þat er þeim brædrum hafdi sent verit, virdi Gissur iarl þetta mál til feörráda, en þat samdist þó vel med gódra manna tillögum ok flutníngi. Gissur iarl lèt þá lidi samna um allt hèrad, hann sendi ok menn til Eyafiardar ok reid sudr á sveitir med fimm hundrud manna, hann hafdi ok mart lid or Runamanna-repp er hann kvam sudr, ok reid austr yfir ár med átta hundrud manna. Sturla Þórdarson kvam vestan til móts vid Gissur iarl med sveit manna, höfdu ord vingiarnlig farit í millum þeirra um sumarit. Þórdr reid austr undan ok var í skógum í Þórsmörk, þá var vída rænt á Rángárvöllum ok drepin níutíu nauta um haustit, um sídir fóru menn í millum þeirra, vóru þá grid seld, ok fundust þeir at Þíngskálum, ok skyldu bóndr giöra

millum þeirra þeir er þeim syndist til at nefna, en þat var skilit í sætt þeirra, at Þórdr skyldi vera med Gissuri iarli um vetrinn, en þat vard ei sva, en þó hèlzt sætt þeirra þann vetur. Gissur iarl reid aptr til Skagafiardar, var þar slitit flokkum, Sturla reid heim vestr ok skildust þeir Gissur iarl med kærleikum miklum, var þá ákvedin brúdkaupsstefna at Stad med iarli, er Sturla skyldi gipta dóttur sína Ingibeörgo Þórdi syni Þorvardar or Saurbæ, tveim náttum fyrir Marteinsmesso um vetrinn kvam Sturla vestan med tuttugasta mann, Sighvatr Bödvarsson var med honum, fèkk Þórdr Ingibeargar, þá giördist Sturla lendr madr Gissurar iarls, ok þá gipti Sturla Gudníu dóttur sína um vetrinn Kálfi Brandssyni, skildo þeir Gissur iarl ok Sturla med vinátto mikilli, hèt Gissur iarl Sturlu Borgarfirdi ok þar ödrum sæmdum med, en Sighvatr Bödvarsson fèkk eingar sæmdir af iarli í þat sinn, þóttist hann hafa verit ginntr til at giörast handgènginn Gissuri iarli, ok skildu þeir allfáliga.

21. *) Annat sumar eptir er Gissur iarl beó at Stad, reid hann af þíngi austr um ár med fiölmenni, var þá fundr stefndr at Þíngskálum med Gissuri iarli ok Rángæíngum, var Beörn Sæmundarson fyrir þeim ok Loptr Hálfdánarson. Sóro Rángæíngar þá trúnadareida Gissuri iarli ok Hákoni kóngi at upphafi. Þórdr Andresson var þá í lidi med iarli ok reid hann nordr med honum til Skagafiardar ok var med iarli um vetrinn, þá var mikill vetur ok felldu menn fè sitt miök. Þat var stofnadi Gissur iarl heit til guds á einmánadar samkvamo at vatnfasta skyldi iafnan fyrir Oláfsmesso fyrri alþyda manna á Islandi, var þat heit þá fest ok iá at af alþydo. Gissur iarl sendi menn med brèfum á lángaföstu su.r til Sigvardar biskups, ok gèkkst þar vid þat heit um alla biskupssyslo hans, vard ok sva vid um heitit, at bati vard á vedrátto b. di gódr ok skiótr. Sigvardr biskup lèt þar festa heitit páskadag siálfan í Skálaholti, var ok þann dag vedur þegar sva gott at lángliga hafdi ei slíkt kvamit. Um sumarit eptir kvam skip í Hvít í Borgarfirdi, var þar styrimadr Hallvardr Gullskór, hann fór med brèfum Hákonar kóngs, þá var Rafni Oddssyni skipadr Borgar-

*) Þenna kap. vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

fiördr, en tekinn af Gissuri iarli, en iarl hafdi skipat ádr Sturlu Þórdarsyni, þótti Sturlu þá ei efnd vid sik af Gissuri iarli þau hin fögro heit, er fram vóro mælt vid hann. Þá kvad Sturla vísu þessa:

Rauf vid randastyfi,
rètt innik þat, svinnan,
allt, því-at oss hefir vælta
Odinn, þar er hèt gódo.
Skaut sá er skrökmál flytr,
skil ek hvat gramr man vilia,
gautr ynni sèr sleitu,
slægr iarl, en mèr bægi.

Asgrímr Þorsteinsson fór þat sumar utan er Gissur iarl kvam til Stadar ok sættist hann vid iarl ok seldi honum siálfdæmi. Asgrímr fór af landi brott ok út til páva, þá var Alexander pávi, hann var nærst eptir Innocentium páva. Asgrímr kvam út í Hvítá med Hallvardi Gullskó ok hafdi brèf Einars erkibiskups til stadarins á Greniadarstödum at honum var skipadr, giördi hann þar bú um varit eptir, hèldu þeir Gissur iarl vel sættir sínar. Þat sumar kvam Ingibeörg drottníng dóttir Eyreks kóngs í Noreg, þá var Magnús kóngr vígdr undir kóróno Oláfsmessodag hinn fyrra, ok sva Ingibeörg drottníng krossmesso um haustit. Þá andadist á því hausti Knútr iarl son Hákonar Galins. Um sumarit eptir er Hallvardr kvam út um sumarit, var þíngreid mikil nordan or sveitum, feölmennti Gissur iarl miök, ok reid Asgrímr Þorsteinsson þá til þíngs med honum. Rafn feölmennti ok miök vestan, reid med honum á þíng Hallvardr Gullskór ok Einar Vatnsfirdíngr ok Vígfús Gunnsteinsson, ok mundo þeir hafa sex hundrud manna, Gissur iarl hafdi ei færra med því lidi er hann tók upp sudr en átta hundrud manna, var á því þíngi svardr skattr Hákoni kóngi um allan Nordlendíngafeórdúng ok Sunnlendíngafeórdúng fyrir vestan Þiórsá, skattr var þá ok svardr um allan Vestfirdíngafeórdúng. Tólf menn sóro skatt í Nordlendíngafeórdúngi: Asgrímr Þorsteinsson, Hallr Tysti ok Gudríkr, or Eyafirdi Hallr af Mödruvöllum, Þorvardr or Saurbæ, Gudmundr frá Rafnagili, or Skagafirdi Geir Audgi Þorvaldsson, Kálfr ok Þorgeir Brandssynir, fyrir

vestan Vatnsskard Bearni á Audkúlustödum, Sigurdr or Hvammi, Illhugi Gunnarsson. Tólf menn sóru ok skatt or Vestfirdíngafeórdúngi. A því þíngi sættust þeir Gissur iarl ok Rafn, vóru þá trygdir veittar, Gissur iarl gèkk þar til, Rafn ok Sturla son hans, tókust þeir í hendr fyrir kyrkiodurum á alþíngi, var þar vid Sigvardr biskup ok Brandr ábóti Jónsson ok Sighvatr Bödvarsson ok Sturla Þórdarson. Þann vetur sat Hákon kóngr í Nidarósi.

22.*) Þat er nú þessu nærst at segia, at Þórdr Andresson reid austr yfir ár[1]) af þíngi, ok skildu þeir Gissur iarl skipuliga í þat sinn á þíngi. Reid Þórdr þá austr á Völlo til bús síns, ok var þat þó lítit bú at því sem fyrr hafdi á verit. Gissur iarl var heima at Stad öndverdt sumarit, ok var þá kyrrt um hagi hans, segia þat sumir menn at Gissur iarl hafi grunat, at Þórdr Andresson mundi ei med fullum trúleik verit hafa vid iarl þann vetur er hann var at Stad, en þó lèt iarl þat ei vid vedri kvamast. Gissur iarl reid sudr um Kiöl er áleid sumarit, ok med honum heimamenn hans Beörn Ranason, Hildibrandr Arason, Þórdr Magri, Busko-Skèggi ok enn fleiri heimamenn hans. Gissur iarl var í Túngu at Klængs bródursonar síns. Klængr átti Asto[2]) dóttur Andresar Sæmundarsonar systur Þórdar, sudr þar kvam til móts vid Gissur iarl Gissur Gladi ok Haukr af Hömrum son Oláfs Svartssonar ok enn fleiri adrir. Gissur iarl reid sudr á Kialarnes ok gisti í Gördum á Alptanesi at Einars bónda Ormssonar, var honum þar vel fagnat, ok var þar nokkrar nætr. Þar kvam til móts vid iarl Oláfr Oddsson bródir Rafns, ok hafdi Rafn sent hann til iarls þess eyrindis, at Rafn bad Gissur iarl varast úfrid ok mest Andressonu, kvedst nú ei skyldo krapsa á þat at segia honum sannindi hvert er hann vildi trúa edr ei, ok kvedst þat þá enn muna at Gissuri þótti hann ei sik varadan vid hafa ádr brennan vard á Flugomyri, en þóttist hafa varit[3]) sik víti, ok er Oláfr hafdi þetta flutt iarli, þá þótti honum hann fár vid verda ok ænta[4]) sèr lítt,

*) þessi kap. er sá 13di í *A, B. C, E, Gr, St,* Þ.

[1]) austr um ás. *C, Sk.*

[2]) Asu. *C, St.*

[3]) vordit at firra, *A, B, C, E, Gr, St,* Þ.

[4]) ansa, sömu.

þeir töludu þetta á kyrkiogardinum þar í Gördum. Oláfr vard skiótt í brott aptr af fundi iarls ok reid aptr til Rafns bródur síns. Gissur iarl reid sunnan af nesium þar til er hann gisti á þeim bæ sem heitir á Drumboddstödum, þar beó þá Jón Skúmsson ok þau Helga dóttir Gissurar Glada, þeir vóro þar á gistíngo siö menn edr átta. Gissur iarl svaf lítit um náttina, ridu þadan um daginn upp med Hvítá, þá siá þeir at menn rída á móti þeim, ok átto þó þá lángt til at siá, ok er nálgadist, sá þeir at þat var flokkr mikill ok vel vapnadir menn, Gissur iarl stödvadi þá hestinn undir sèr ok leit á um ríd ok mælti: Averiar, Averiar, segir hann, ok snúum undan. þessa menn bar brátt eptir, varo þar Andressynir Eyúlfr or Skardi ok Brandr or Skógum ok Magnús Agnar [1]), þórdr var ei þar, ætladi hann at þá mundi minnr grunat, ef þeir findo menn, at hann var ei í ferdinni. Nú veitto þeir atreid mikla ok höfdu þeir þórdr skilit austr vid þiórsá. Hildiglúmr hèt madr sá er til þess var ætladr at vega Gissur iarl, var honum fenginn hinn besti hestr til reidar. Nú ber þá brátt at broddi, ok er þeir Andressynir vóro eptir kvamnir, bregdr Gissur iarl sverdi sínu Eyfaranaut ok sveifladi um sik. Hildiglúmr lagdi spióti til Gissurar iarls ok skárust klædin, vard iarl lítt sár, kvam lagit hægra meginn hiá geirvörto. Gissur iarl halladist miök á baki, þá reid at iarli Sæmundr Haraldsson ok hió til hans tveim höndum med breideggsi, ok hugdist kiósa mundu á, ok ætladi at höggva á öxlina, en í því rasadi hestrinn undir honum, sva at í sundr gèngo bádir beizltaumarnir ok bar eggsina nidr hiá þiói hestsins þess er iarl reid, en þat högg kvam ei á iarl. Gissur Gladi reid iafnan á adra hönd honum med brugdit sverd, en Haukr Oláfsson [2]) á adra hönd honum, ok fylgdu honum vel ok drengiliga.

23. *) þeir Gissur iarl leyptu þegar at ánni Hvítá ok þar á sund þegar þeir kvamo at, ok kvamust allir heilir yfir, ok ridu sídan til Túngo. Klængr var úti ok spyr hví þeir leyptó sva. Gissur iarl svarar: þeir elta mik nú mágar þínir, ok lát upp

[1]) Agnason. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) Svartsson. sömu.

*) þessi kap. er sá 14di í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

kyrkiuna skiótt. Klængr giördi sva. Þorleifr Reimr var þar fyrir ok seinkadi ei miök. Gissur iarl fór í kyrkio ok sendi þegar í brott Gissur Glada ok bad hann samna mönnum at sèr skiótliga ok vita at þeir kvæmo til fulltíngs vid hann, nú reid Gissur Gladi í brott, en Þorleifr Reimr bar kistur þær er í vóru kyrkiunni fyrir kyrkiohurdina, ok tók þá heldr knáliga til. Klængr bóndi ok heimamenn hans gèngo at kyrkionni ok vildu fulltíngia Gissuri iarli, menn iarls er þar vóru stódu fyrir kyrkiodurum. Nú kvamo Andressynir ok lupo af baki. Asta húsfreya Andresdóttir lióp at Eyúlfi bródur sínum ok laust hann med trè miklu [1]) ok kvam þat á stálhúfubardit, ok vard því höggit minna at hon var tekin af förunauti þeirra brædra hennar. Klængr bad þá fyrirsiá mága sína vel ok giöra Gissuri iarli ekki grand þar sem hann var þá kvaminn. Þeir svara fá um ok vóro í eingo skèligir [2]), sem sídar bar raun á, en þeir menn, er minna háttar þótto vera, eggiudu at brotin mundi vera kyrkian austan til ok kvádu ekki mundo fyrir vera at ná iarlinum, sva giöra nokkrir menn af lidi þeirra, fóru austr um kyrkiona ok ætludu at brióta hana. Andressynir vildu þat ei giöra láta ok vildu tala vid iarl fyrst, ok sva var at þeir gèngo í forkyrkiuna ok töludust vid. Gissur iarl segir sva: at þat eitt var í vordit, at þeir frændr mætto þat semia siálfir med gódra manna tillögum. Klængr lagdi þar mörg gód ord til, ok töludust þeir miök lengi vid, [ok þá kvamo at margir menn til fulltíngs vid iarl [3]), var hann þá þegar seinni í öllum iátyrdum sem fulltíngsmenn vóru fleiri, ok dróg þá málit fyrir þeim sem kænligast, allt þar til er mannfeöldi dreif at, þá ridu Andressynir brott, ok skildi sva med þeim, ridu þeir þá til móts vid Þórd bródur sinn austr til Þiórsár ok segia honum frá ferdum sínum sem farit hafdi. Agnar Andresson segir sva, at þeir hefdu vel leikit, er þeir höfdu eltan iarlinn. Þórdr vard fár um ok segir sva: ordit hefir Gissur þá beiskr ok hardr í horn at taka, er honum mundi ei heldr þykkia tilgiört en nú, ok man ei rádleysi duga, þvíat ei man Gissur iarl lengi um kyrrt sitia, ok hefir mikill kænleiksmunr med ydr

[1]) er hún hafdi í hendi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) skialligir, *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[3]) frá [ vantar í sömu.

ordit. Þeir Þórdr ridu nú austr um ár ok allt austr í Þórsmörk ok höfdust þar vid um ríd, en stundum í bygdum.

24.*) Gissur iarl samnar nú lidi at sèr, hann sendir menn sína nordr um land til Skagafiardar at kvedia lid upp, ok gaf landrádasök þeim er ei fóru, ok fór mart manna nordan [ok kvam sudr yfir heidi[1]). Gissur iarl var þá ridinn austr um ár er Nordlendíngar kvamo sudr, fundu þeir iarl á Rángárvöllum, [hafdi hann þá ei minna lid en sex hundrud manna, var þá enn vída drepit fè á Rángárvöllum[2]) ok gallt margr úverdr þessa úfridar ok úfagnadar. Þórdr Andresson ok hans fèlagar vóru í fiöllunum upp frá Þórsmörk, sem fyrr var sagt, þeim vard opt talat um hagi sína, Þórdr segir sva, at brædur hans ok adrir vinir hans skyldu þat at marki hafa, at þá mundi hann feigr, ef hann trydi Gissuri iarli. Þat var eitt kveld, er Þórdr ræddi um vid Símon Þórhallsson fylgdarmann sinn, at hann skyldi hrífa um hálsinn á sèr, kvad þar klæa miök. Símon giördi sva. Þórdr kvad hann ei atgiöra þeim kláda.

25.**) Frá því er nú at segia, at menn fará milli þeirra Gissurs iarls ok Þórdar Andressonar, Oláfr Svartsson frá Esiubergi ok adrir bændr med honum, fundust þeir í Teigi, kvamo þeir Þórdr Andresson þar ok brædur hans, mælti Gissur iarl þá siálfr fyrir gridum, vóru þeir þar allir um náttina, vóru þeir Andressynir þar í kyrkio [ok þeirra menn sem rúm höfdu, nær þriátygi menn, um morgininn gèngu þeir í kyrkio allir brædur[3]). Gissur iarl hafdi þá mikla sveit manna þar hiá kyrkiunni, þá er þeir brædur kvamo út, vóru iarlsmenn alvapnadir ok var giör kví at þeim Þórdi. Þórdr gèkk fyrstr í kvína, hann hafdi eggsi í hendi. Gissur iarl mælti þá: þú Þórdr, segir hann, ok brædur þínir ok Sæmundr Haraldsson skulu rída med mèr vestr yfir ár ok tala þar mál vor, iarl tók til eggsarinnar er Þórdr hafdi, ok hèllt Þórdr

*) þessi kapítuli er sá 15di í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

**) þessi kapítuli er sá 16di í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[1]) vantar í sömu.

[2]) frá [ vantar í *C. St.*

[3]) frá [ vantar í *C. St.*

ekki á ok lèt lausa. Gissur iarl mælti þá, bad taka af þeim öllum vapnin, kvad þá ei vapn þurfa út yfir ár, ok kvad þá eingi vapn hafa skyldu, þá brá þegar mörgum hinum betrum mönnum í brún ok þótti þá þegar ei efnt þat er mælt hafdi verit. Friádaginn [1]) ridu þeir Gissur iarl vestr yfir ár ok allr flokkr hans med honum ok þar vóru Andressynir allir í ferd ok Sæmundr Haraldsson. Arni son Bearna bónda af Audkúlustödum reid hiá Þórdi um daginn ok töludu. Þórdr mælti til Arna, hvat ætlar þú at iarl giöri nú af málum vorum brædra? Arni kvad at hann mundi nokkut gott rád fyrir siá, skipa þeim at vera med nokkrum gódum mönnum um vetrinn. Þórdr kvad þetta ei sva fara mundu. Hvat ætlar þú þá, bóndi, segir Arni? Ek man drepinn verda, segir Þórdr, en brædur minir mano fá grid. Þá hrökkti Þórdr hestinn undir sèr ok kvad dans þenna vid raust:

mínar ero sorgirnar þúngar sem blý.

Gissur iarl fèkk menn til at rída hiá þeim brædrum Andressonum um daginn [2]), allr þorri flokksins reid med iarli um kveldit í Þrándarholt. Andressynir vóru í stofu um náttina, en iarl svaf í skála ok hans sveit. Laugarmyrgininn snimma kvam til iarls á rekkio stokk Hiálmr Þorbearnarson, iarl mælti þegar til hans: hugsat hefir ek um mál Andressona eitthvad. Hvat er þat, herra, segir Hiálmr? Ek ætlar at láta drepa þá alla í dag, segir iarl, ok sva Sæmund Haraldsson, ok seg öllum heimamönnum mínum ok eidsvörum mínum at þeir vapnist, ok vil ek gánga til stofunnar. Hiálmr segir þetta eyrindi, iarl stendr þá upp skiótt, klædist ok vapnast ok mikil sveit manna med honum, gánga þá innar at stofunni ok lúka upp. Gissor iarl gèkk þá í stofodyrnar ok segir þá í sundr gridum öllum ok fridi vid þá brædur Andressonu, ok kvad þá alla drepa skyldu þann dag ok sva Sæmund Haraldsson. Þeir vóru þá klæddir ok tóko allir vapn sín ok ætludu at veriast þadan or stofunni. Þá fóru menn iarls upp á stofuna, grytto [3]) ok lögdu inn, gáfust þeir þá brátt upp ok beiddu prestsfundar, var þeim þá prestr fenginn, þá urdu menn til at bidia þeim grida. Arnór Gud-

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) ok var regn mikit, hæta sömu vid.
[3]) yttu. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

mundarson fèkk grid til handa Sæmundi frænda sínum, en Kètill Kètilsson Brandi Andressyni, allir þeir frændr fengo grid nema Þórdr, iarl kvad eingan mann honum þurfa grida bidia, kvad annan hvern þeirra deya verda, fóru þeir í kyrkio er grid vóru gèfin, þá var Þórdr útleiddr, hann var í treyo, þeir leiddu hann út á hladit. Þórdr mælti þá: þess vil ek bidia þik, Gissur iarl, at þú fyrirgèfir mèr þat er ek hefir afgiört vid þik. Gissur iarl svarar: þat vil ek giöra, þegar þú ert daudr. Sigurdr iarlsmadr [1]) hèllt á treyobladi Þórdar, Þórdr drap hendi hans af sèr ok vard laus ok ætladi at taka á rás, þá tók hann Andres Giafvaldsson [2]), ok fèllu þeir bádir, þá lagdist Þórdr nidr annarstadar ok rètti hendr frá sèr í kross. Geirmundr [3]) Þiófr hió á háls Þórdi med eggsi þeirri er Gyllta var köllud. Gissur iarl þreifadi í sárit ok bad hann höggva annat, ok sva giördi hann, lèt Þórdr þar líf sitt tveim náttum fyrir Michaelismesso. Gissur iarl reid nordr til hèrads þegar eptir þessi tídindi. Sæmundr Haraldsson fór nordr med Arnóri Gudmundarsyni, ok var med honum um vetrinn. Nú vóru kyrr tídindi þenna vetur eptir hèr á Islandi. Sat Gissur iarl heima at Stad.

26.*) Nú er at segia frá Hallvardi Gullskó, brátt er hann kvam út, fór hann at finna iarl ok flutti diarfliga kóngseyrindi fyrir honum, iarl tók því vel ok kvadst þar miök skyldu stund áleggia, eptir því sem kóngr hafdi ord til sendt. Hallvardr fór til vistar í Reykiaholt, þeir iarl fundust um haustit, eptir því sem þeir höfdu ádr rœdt, ok sóro þá nokkrir bóndr kóngi trúnadareida, ok þeir sumir er ádr höfdo miök í móti stadit. Jarl sat um vetrinn fyrir nordan land ok átti hann þá tal vid bóndr, hvert rád fyrir skyldi giöra þeim áköllum er hann vissi at kóngs menn fóru med ok hann hafdi kónginum heitit, fór þá upp allt hit sanna, hverio hann hafdi kónginum iátat, var þá þat rád fyrir giört, at bændr hèto iarli stórfè at leysa þat vald er á var kallat, hètu sumir tveim hundrudum, sumir einu hundradi, sumir tólf aurum, sumir muni minna, ok er Hallvardr spurdi þetta, segir hann at kóngrinn vildi ei at bændr væro píndir til sva mikils fègialds, segir hann at kóngrinn vildi

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ. [2]) vantar í sömu. [3]) Gudmundr. *G.*

*) þenna kap. vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

hafa hlydni af bóndum ok slíkan skatt af landi, sem þeim yrdi sídst afarkostr í at gialda ok hèt þó þar í móti hlunnindum ok rèttarbótum. Hallvardr flutti ok kóngsmál vid Vestfirdínga, ok kvam því sva, at allir hèto at kvama til þórnessþíngs um varit ok sveria kónginum þar land ok þegna, var þetta þá ritat nordr til iarls ok neitt öllum þeim álögum sem ádr hafdi hann samit vid bóndr nordr þar, en er iarl vard vís þessa, þá stefndi hann bóndum til Hegranessþíngs, ok lèt þar nokkra menn sveria kóngi land, en Rafn Oddsson kvam ei til þórnessþíngs, ok því fór Hallvardr ei þángat, var þá þesso máli skotit til alþíngis, ok drógo allir hinir stærsto menn í Vestfeördum saman stórflokka er leid at þíngstefnunni. þeir sendu menn á fund þeirra brædra Lopts ok Sighvats Hálfdánarsona ok sva Andressonum, at þeir skyldu rída til þíngs med öllum afla sínum fyrir austan þiórsá. þorvardr þórarinsson hafdi ok heitit at kvama med Austfirdíngum. Gissur iarl feölmennti miök nordan um land, reid á þíng med honum Asgrímr þorsteinsson, ok mundi iarl ei hafa færra en tólf hundrud manna. Rafn feölmennti ok miök vestan, ok reid med honum á þíng Hallvardr Gullskór, Einar Vatnsfirdingr, Vígfús Gunnsteinsson, Sturla þórdarson, ok nær allir hinir besto bóndr or Vestfeördum, ok mundo þeir hafa sex hundrud manna, segir Hallvardr þá at flokkar vóru samandregnir fyrir vestan heidar ok höfdu allir heitit at gánga undir skatt ok kóngsmál ok ætludu at rída til þíngs ok flytia þar kóngsmál, ef ei gèngio ella vid, ok er iarl spurdi þetta, átti hann tal vid vini sína ok rádagiördir, en er því tali lauk, flutti iarl kóngsmál bædi vid Nordlendínga ok Sunnlendínga, bad þá til gódum ordum, en kalladi feörrád vid sik, ef eigi gèngio þeir undir þetta, vard audfluttast vid Nordlendínga. Eptir þetta var skipud lögrètta, ok sóru þessir bóndr fyrir Nordlendíngafiórdúng: Asgrímr þorsteinsson, Hallr Kvistr ok Gudríkr, or Eyafirdi Hallr af Mödrovöllum, þorvárdr or Saurbæ, Gudmundr frá Rafnagili, or Skagafirdi sóru þessir, Geir Audgi þorvaldsson, Kálfr ok þorgeir Brandssynir, fyrir vestan Vatnsskard, Bearni af Audkúlostödum, Sigurdr or Hvammi, Illhugi Gunnarsson. Sóru ok bóndr af Sunnlendíngafeórdúngi fyrir utan þiórsá Hákoni kóngi land ok þegna, ok æfinligan skatt med slíkum skildaga sem brèf þat vottar er þar var eptir giört. Á því þíngi sættust þeir Gissur iarl ok Rafn, vóru þá trygdir veittar. Gissur iarl gèkk þar til ok Rafn ok Sturla son hans,

ok tókust þeir í hendr fyrir kyrkiodurum á alþíngi, var þar vid Sigvardr biskup ok Brandr ábóti ok nær allr þíngheimr. Sídan reid iarl af þíngi ok sudr Laugardal ok hèllt þar saman flokkunum um ríd. Sigvardr biskup reid vestr til Borgarfiardar ok med honum Hallvardr ok Rafn ok fundo Vestfirdínga á Þverárþíngi, ok gèngo þá Vestfirdíngar undir þvílíka eida sem adrir menn, sóro fyrst formenn, Rafn, Sighvatr Bödvarsson, Sturla Þórdarson, Einar Vatnsfirdíngr, Vígfús Gunnsteinsson ok þrír bóndr med hverium þeirra, þrír bóndr sóru ok fyrir Borgfirdínga. Eptir þessa fundi höfdu allir Islendíngar gèngit undir skatt vid Hákon kóng or þremr feórdúngum, fyrir utan Sunnlendínga fyrir austan Þiórsá ok allan Austfirdíngafeórdúng.

27. *) Hallvardr Gullskór fór utan um sumarit af Islandi ok fann Hákon kóng í Biörgvin, ok segir honum þau tídindi at Islendíngar hefdu svarit Hákoni kóngi æfinligan skatt. Kóngr þakkadi honum sína ferd vel. Þá fór ok utan med honum Sighvatr [1]) Bödvarsson ok Sturla son Rafns Oddssonar, þá kvam ok af Islandi Brandr ábóti Jónsson at ordsendíngu Einars erkibiskups, fór hann nordr til Þrándheims ok fann þar erkibiskup, ok tók hann allvel vid honum, var hann med erkibiskupi um vetrinn í gódu yfirlæti. Þá var med honum Arni Þorláksson er sídan var biskup í Skálaholti, ok var hann þá diákn at vígslo. Um varit í föstu átti Einar [2]) erkibiskup tal vid kórsbrædur í Christs [3]) kyrkio ok taladi um biskups kosníng á Islandi, ok kvam þat ásamt med þeim at kiósa Brand ábóta til biskups, ok þann sama dag var hann kosinn af erkibiskupi ok kórsbrædrum [4]) med rádi Hákonar kóngs ok Magnúsar kóngs, þá vóru ok utan kvamnir or *Curia* Gillibert [5]) ok þeir menn sem med honum höfdu farit, segia þeir þau ord pávans, at hann gaf í vald erkibiskups biskupskosníng í Hamri, ok þó med því móti at hann skyldi eingan annan til kiósa en en Gillibert eptir því sem kóngs vili var til. Hinn fiórda dag martii mánadar vígdi Einar erkibiskup þá báda til biskupa Gillibert til Hamars, en Brand til Hóla á Islandi, var þar vid Pètur biskup af Biörgvin ok Þórgils biskup af Stafángri.

*) þessi kap. er sá 10di í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[1]) Sigurdr. sömu.

[2]) vantar í sömu.

[3]) erkibiskups. *E.*

[4]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St. Þ.*

[5]) Gilbert. sömu.

# Sturlúnga-Saga

edr

# Islendínga-Saga hin mikla.

Nú útgengin á prent

ad tilhlutun hins íslenzka bókmentafèlags,

eptir samanburd hinna merkiligustu handrita er fengist gátu.

## Sídara bindinis önnur deild.

Kaupmannahöfn 1820.

Preutad ad forlagi fèlagsins hiá prentara Þorsteini Einarssyni Rangel.

# Til Læseren.

Det Islandske Litteraire Selskab overleverer herved til Publikum det andet Binds sidste Afdeling af det Islandske Historiske Værk kaldet Sturlungasaga eller Islendingasaga hin mikla. Nærværende Afdeling indeholder Biskop Arne Thorlaksens Historie, der, som i Fortalen allerede er bleven bemærket, vel undertiden haves særskildt fra Sturlungasaga, men dog som oftest pleier at udgjöre den sidste Afdeling deraf.

Ved Udgaven af de 3 förste Afdelinger af dette Værk er man i et og alt gaaet frem paa den i Fortalen omhandlede Maade, og tör derfor haabe, at denne Udgave har opnaaet den Grad af Brugbarhed, som var Selskabets Öjemed, og som de Midler det besad vilde tillade.

I Henseende til den i Fortalen meddelte Udsigt over Sturle Thordarsens Levnet, er det ei upassende, paa dette Sted, endvidere at bemærke: at den lærde Biskop Dr. Theolog. Fin Johnsen allerede, for længe siden, har meget udförligen beskrevet paa Latin denne Mands Levnet, hvilken Levnetsbeskrivelse, i forrige Aar, er udgiven i det 5te Bind af Snorre Sturlesens Norske Kongers Historie. Af samme Forfatter haves tillige, paa Latin, udförlige Levnetsbeskrivelser over de övrige berömte Mænd af Sturlunga-Slægten, hvoraf dog hidtil intet er bleven trykt undtagen Snorre Sturlesens Levnet, der findes indfört i den 1ste Deel af hans Norske Historie.

## Til lesarans.

Hid íslendska Bókmenta-fèlag greidir þannig af hendi og leggr undir alþydu álit þá sídari deild hins annars bindinis af því íslendska sagnariti, er almennt nefnist Sturlúngasaga edur Islendíngasaga hin mikla. Hefir deild þessi inni ad halda sögu Arna biskups Þorlákssonar, hvör ad vísu í nockrum handritum er einstök sèr, en þó optarr áföst vid Sturlúngasögu (eins og í formálanum ádur er ávikid) og má hana því álíta sem seinasta hluta þessarar.

Vid útgáfu undanfarinna þriggia deilda Sturlúngasögu, er ad öllu svo ad farid sem formálinn greinir; vonar því fèlag vort ad bókin sè svo vel af hendi leyst, og alþydu svo nytilig giörd, sem þad æskti og færi var á.

I formálanum má finna ágrip af æfi Sturlu Þórdarsonar; því efni vidvikiandi virdist en fremur vel til fallid ad gèta þess hèr, ad sá lærdi Doctor í gudfrædinni Finnr biskup Jónsson, fyri laungum tíma sídan, hafdi á látínu máli næsta greiniliga skrásett hans æfisögu, og er hún í fyrra á prent komin, med 5ta parti af Norvegs konúnga sögum Snorra Sturlusonar; hefir sami höfundr einnig skilmerkiliga á látínu ritad æfir annara merkismanna í Sturlúnga ætt, en þaraf er þó Snorra Sturlusonar híngadtil einasta prentud; hana má lesa í 1ta parti af nefndum Norvegs konúnga sögum.

Texten i Biskop Arne Thorlaksens Historie har man taget af Codex *St.*, der af de i Fortalen omhandlede Codices syntes at være den bedste; dog er Capitlernes Inddeling og Overskrift af Codex *Gr.* Forfatteren til denne Historie, der menes at være skreven af en Geistlig enten i det 13de eller i det 14de Aarhundrede, er ubekjendt*). Den indeholder, foruden Biskoppens Levnet, en nöjagtig Beskrivelse over Islands Tilstand, i geistlig og verdslig Henseende, paa de Tider, samt over Indförelsen af de Norske Kongers Myndighed i Island og de Midler hvorved de sögte at befæste den. Stridighederne mellem de Geistlige og Verdslige, i det 13de Aarhundrede, angaaende Rettighed over Kirkernes Ejendomme i Island, ere fortalte deri med megen Udförlighed og som oftest med en höi Grad af Upartiskhed. Denne Historie kaster desuden et stærkt og fleersidigt Lys over Forholdet mellem Kongernes og Geistlighedens Myndighed i Norge under Kongerne Magnus Lagabæter og Erik Præstehader, og er af den Aarsag et overordentligen vigtigt Bidrag for den Norske Kirkehistorie. Endog for Danmarks Historie er den ei aldeles uvigtig; en og anden Begivenhed, som angaaer dette Land, er deri bleven optegnet, og de meddelte Oplysninger om Geistlighedens alt meer og meer tiltagende Myndighed i Norge og Island give Vink til lignende Tilstand i Naboelandene.

I Henseende til Troværdighed, saavidt denne af indvortes Grunde lader sig bedömme, staaer Biskop Arnes Historie ingenlunde tilbage for Sturlungernes Historie. Derimod torde man maaskee, i Henseende til god Orden og Sammenhæng i Begivenhedernes Fremstilling, foretrække den de fleste Islandske Historier. Den udmærker sig ogsaa fortrinligen derved, at nogle Breve ere ordlydende blevne anförte i Texten.

*) See Prof. og Dr. Theolog. P. E. Müllers Saga-Bibliothek, 1 D. S. 326.

Handritid *St.* virdtist ad vera eitthvört hid skilmerkiligasta og besta medal þeirra í formálanum umgètnu, er því þessvegna fylgt vid útgáfu Arna biskups sögu; en tala og fyrisögn kapítulanna er tekin af handritinu *Gr.* Höfund sögu þessarar vita menn ecki, en gètid er til hún sè sámin á 13 edur 14 ölld af einum eda ödrum andligrar stèttar manni *). Skírir hún frá æfi Arna biskups, og þaradauki einkar greiniliga frá því hvörnin andligum og veraldligum, málefnum var í þann tíma varid á Islandi; gètr þess einnig hvörnin Norvegs konúngar nádu yfirrádum landsins, og med hverium atburdum þeir leitudust vid ad ríka og stadfesta valld sitt þar. Næsta ítarliga greinir og saga þessi frá misklídum þeim, sem á 13 ölld hófust milli andligrar og veraldligrar stèttar höfdíngia, (Stadamál) og synir í frásögunni optast staka óhlutdrægni. Hún telr einnin margt og mikid því til upplysíngar, hve lángt nád hafi völld og umrád kóngs og kènnidóms í Norvegi, medan Magnús Lagabætir og Eiríkr Prestahatari sátu þar ad ríkium; er hún og þeirra orsaka vegna einkar árídandi hiálparmedal fyri hvörn þann er rita vill kirkiusögu Norvegs. Fyri Danmerkur sögu er hún iafnvel ecki ad öllu ómerkilig, því hún greinir frá imsu því er tilbar í þessu landi; og skírslur þær hún gèfr um kènnivaldsins dagvaxandi yfirrád í Norvegi og á Islandi, mega vekia grun um ad eins hafi ástatt verid í ödrum ríkium þar í grend.

Hvad trúverdugleika Arna biskups sögu vidvíkr, þá stendr hún eptir sem af innvortis ástædum næst verdr komist, einganvegin á baki Sturlúngu í því falli; en hvad skipuliga nidurradan og tilburdanna samanhángandi frásögn snertir, ber hún án efa af flestum íslendskum sagnaritum; eykr þad og mæti hennar stórum, ad sendibrèf nockur eru óbriálud í söguna færd.

*) Profess. og Dr. Theolog. P. E. Müllers Saga-Bibliothek 1 D. S. 326.

Det Kronologiske Register til hele Værket angaaer blot de vigtigste deri omhandlede Begivenheder som vedkomme Island. Det er af Undertegnede bleven extraheret af den Kronologie, som findes antegnet i Marginen paa de i Fortalen beskrevne Codices þ. og *A.*, hvilken Kronologie, efter Haanden og andre Omstændigheder at dömme, er forfattet af Torfæus og Arne Magnussen. Man kan naturligviis ikke ganske staae inde for Rigtigheden af denne Tidsregning, da et möisommeligt Studium, hvortil de fleste savne Lyst og Leilighed, vilde udfordres for at pröve den. Imidlertid haaber man at den ikke skal befindes altfor meget afvigende fra det Sande, da den er bygget paa de Mænds Authoritet, som besad udmærket Lærdom i dette Fag og tillige stemmer nogenlunde med den Kronologie, hvilken Biskop F. Jonsen har antaget i hans *Histor. Island. ecclessiast.*

Navne-Registeret er forfattet af Candidat. Theolog. og Lærer ved Latin Skolen paa Bessestæd i Island S. Egillsen, samt Candid. Theolog. G. Brinjolvsen, hvilke begge, men især den Sidstnævnte, efter den Förstes Bortreise herfra, have anvendt derpaa særdeles megen Tid og Umage. Hvis en eller anden ubetydelig Feil skulde findes indlöben derved, haaber man at alle Velsindede og Sagkyndige vilde undskylde det, i Betragtning af den særdeles Nöiagtighed dette Arbeide har udfordret og det lidet indbydende det i sig selv indeholder.

Kjöbenhavn i April 1820.

B. Thorsteinson.

Tímatal eitt fylgir deild þessari og tilgreinir það einasta þá markverdustu tilburdi sem Islandi vidvíkiandi giörst hafa, og hvörra í öllu riti þessu gètid verdr. Er það af undirskrifudum samandregid af því tímatali sem finna má á spázíunni í handritunum Þ og *A.* (hvörra gètid er í formálanum) og sem eptir leturgiörd og ödrum atvikum ad dæma, virdist giört vera af Torfæus og Arna Magnússyni. Ad vísu verdr ecki ad öllu ábyrgst ad tímatal þetta sè óyggiandi; vantar og flesta laurgun og tækifæri til þeirrar lángvinnu og erfidu eptirgrenslunar, sem þurfa mundi til ad reyna sannindi þess til hlytar; en hitt er þó líkara ad það muni sönnu næst, og má það byggia bædi á áliti nefndra merkismanna, sem í þessari lærdómsgrein voru fleirstum ödrum fremri, sem og því, ad því ad mestu ber saman vid það tímatal, sem Finnr biskup Jónsson fylgt hefir í hans *historia ecclesiastica Islandiæ* (Islands kirkiusögu).

Nafnatalid er samid af Candidatus Theologiæ og kènnara vid látínuskólan á Bessastödum í Islandi S. Egilssyni, líka af Candidatus Theologiæ G. Briniúlfssyni, og hafa bádir þeir, einkum enn sídartaldi, eptir ad hinn var hèdan burtfarinn, varid til þess miklum tíma og fyrirhöfn. Gètum vèr þess til allra gódfúsra, sem skyn bera á hve náqvæma adgiætni starf þetta hefir krafid og hve það í siálfu sèr er óskèmtilegt, ad þeir afsaki, ef þeir kynni varir verda vid eitthvad það, sem í verki þessu hefdi yfirsèst.

Kaupmannahöfn í April 1820.

B. Thorsteinsson.

# Saga Arna biskups Þorlákssunar. *)

Hverninn bændr urdo þreyngdir frá sínum ódulum med bannfæríngum ok ímisligum tilfellum; hvad um þann tíma hefir tilborit hèr á Islandi, einnin í Noregi.

1. Herra Arni biskop er þessi frásögn er afskrifut var sun Þorláks Gudmundarsunar Gríss ok Halldóru dóttur Orms í Holtum. Hann var fæddr á því ári sem Magnús biskup Gissurarson andadist. Hann fæddist upp med födur sínum ok módur, en þau beoggo í þenna tíma at Svínafelli at rádi Orms Svínfellíngs, ok vóru þar medan hann lifdi, ok nokkra stund sídan at rádi Ögmundar Helgasonar er þá hafdi feár forrád sona Orms, en sídan peníngar eyddust fyrir sonum Orms at Kálfafelli, fóro þeir bygdum sínum til Svínafells, en Þorlákr vard fyrir sakir magnsmunar [1]) at skipta bygdum, fengu þeir honum Raudalæk ok fór hann þángat. Þar gèkk fè af hendi honum ok undi hann sèr lítt þann tíma er sundrþykki giördist millum Sæmundar Ormssonar ok Ögmundar Helgasonar, ok eptir víg Ormssona þoldi hann þar ei, fór hann þá med ö lu lidi síno á Reinivöllo í Kiós til Jörundar Sigmundssonar, er átti Gudrúno dóttur hans. Þessi voro þá á lífi

*) Fyrirsögnin ok kapítulaskiptin er úr *Gr*.

[1]) margsmunar, *A*, þ. mágsmunar, *B*, *C*, *E*, *Gr*.

börn Þorláks: Magnús var elldstr af sonum hans, þarnærst Ormr, Arni er fyrr var nefndr var yngstr, en af dætrum hans var eldst Asbiörg, er átti Helgi sun Lopts Hiörtssonar [1]). Þessi Loptr átti Gudrúnu dóttur Hamrafinns systur Biarnar födur Finns í Selvogi ok Þóro er átti Þormódr á Gufunesi fadir Svarts. Þeir fedgar biuggo fyrst at Kálfafelli, ádr þeir keypto Skálar land at Sæmundi Ormssyni. Loptr var elldstr barna þeirra Asbiargar, því nærst Biarni prestr, þá Magnûs prestr, þá Arni er sídan vard biskup. Torfi prestr var laungètinn son Helga, átti hann þenna son ádr hann fengi Asbiargar. Þessar voro dætur þeirra Helga: Þurídr [2]), Gudny, Halldóra, Agatha er vard abbadís. Gudrún er ádr er nefnd dóttir Þorláks átti eingi börn þau er menn sèo frá [3]). Hin þridia dóttir Þorláks var Þorgèrdr [4]), er fyrr átti Guttormr, ok var þeirra dóttir Haldóra, er átti Kolbeinn Högnason. Þessa Þorgèrdi [5]) átti sídar Klangr Teitsson, [ok var þeirra dóttir Asta er átti Ivar Hólmr [6]).

2. Þorlákr ok lid hans var einn vetur á Reynivöllum, þadan fóro þau til Hofs á Kialarnes ok voro einn vetur fyrir búi Oláfs Jónssonar födur Jóns ok Stirkárs, þadan fóro þau Þorlákr í Skál austr, ok biuggu þeir mágar bádir þar þau misseri. Helgi bóndi ok allt lid hans lagdi sva mikla elsku til Arna klerks, at hann gèrdi sitt allt heimilt til þess er hann vildi hafa, þvíat hann sá þenna mann fyrir sakir atgiörfi ok gódvilia ok [7]) allrar framkvæmdar verda [8]) mundi höfdíngia sinna frænda, ok trúdi [9]) at honum mundi meiri tignar audit en þá var framkvæmt, ok vottadi hann þat optliga, rækti [10]) Arni þetta allt saman þá er hann var biskup vordinn framarliga vid Helga ok öll börn hans. Þessi Arni var fyrrum á únga alldri fálátr ok aktadi miök ymisligar íþróttir hagleik ok áskurd ok alla trèsmíd, rit ok bóknám ok allar bókligar [11]) listir, var hann

1) Svartssonar. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
2) Þóra sömu.
3) frákomnir. sömu.
4) Þóra. sömu.
5) Þóru. sömu.
6) frá [ vantar í *A.*
7) til. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
8) vera. sömu.
9) töludu. sömu.
10) rykti. *C.* Þ. virdti. *A.*
11) klerkligar. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

af þesso öllu saman fáskiptinn vid almenníng, en þadan frá er þorlákr rèdst frá Raudalæk, gèrdi hann sik lèttan vid alþydo ok átti hann alþydliga gledi, ok hèllt því fram til þess er hann var í Skál, þá fór hann til skinnleiks í Kyrkiobæ med ödrum mönnum, í þeim sama leik rak hann nidr annat knè á arinhello þar í stofunni, sva at sprakk miök, lá hann af því í rekkio nær viko, þadan af var hann aldrei at þess kyns leik nè at dansi, hvörki ádr nè sídan, ok kèndi sik í þesso mundo [1]) hirtan af úskinsamligri skèmtan. Um vorit fór þorlákr bygdum til Svínafells, ok hafdi Magnús þá mest búrád, en Arni var þá stundum í þykkvabæ med Brandi ábóta, stundum í Skál med fyrrnefdum mági sínom, en stundum í Kyrkiobæ med Grími presti Hólmsteinssyni, en stundum á Kálfafelli med þorsteini ábótasyni [2]), en lengstum heima at Svínafelli, fór hann í þessa alla stadi nokkra vetur til þess er menn þóttust þurfa hans í hagleiksgiördum, hèllt hann þesso fram nokkra vetur þar til er Magnús bródir hans fèkk Ellisifar dóttur þorgeirs or Hollti [3]), voro þeirra börn Andrès prestr ok Gudfinna er átti þorsteinn Hafurbiarnarson, lagdi þá Arni fram allan sinn hlut af peníngum þeim er fadir hans vardveitti vid hann, utan hest ok ígángsklædi, rèdst hann þá í brott frá Svínafelli sakir sundurþykkis þess er vard milli þeirra frænda [med umgiptíng [4]) þorgèrdar systur hans, ok fór í þykkvabæ til fyrrnefnds Brands ábóta ok batt sik honum á hendr ok giördist hans klerkr, því hann sá þenna atgiörfimann at hagleik ok viti ok hvassan í skilníngi til bóknáms, sva at um þann lut var hann formenntr flestum mönnum at iöfno námi [5]). þessi sami Brandr ábóti taladi sva til sinna lærisveina at eingom manni kalladist hann iafnminnigum kènt hafa sem Jörundi er sídan var biskop at Hólum, en eingom þeim er iafn kostgæfinn var ok iafngódan hug lagdi á nám sitt sem Rúnólfr sem sídan vard ábóti í Veri [6]), en til Arna, er fyrr nefndom vèr, taladi hann sva, at hann [7]) skildi marga þá luti af gudligum ritníngum, er hann þóttist varla siá hví sva mætti verda.

[1]) merki. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) Holtum. sömu.
[4]) mest um giptíng. sömu.
[5]) nótum. *Gr.* nóttum. *A. B. C. E.* þ.
[6]) Videy. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[7]) væri skarpvitur ok, bæta sömu vid.

3. Nokkro sídar kalladi Einar erkibiskup Brand ábóta til sín, ok sigldi þessi sami Arni klerkr [1]) þá med honum til Noregs, ok var hann þá fyrst messodiákn ok hafdi tekit vígslo af Sigurdi biskupi. Herra [2]) erkibiskup skyniadi brátt hvílíkrar röksemdar Brandr ábóti var, ok med umrádi ok samþykki kórsbrædra kaus hann nú nefndan ábóta til biskups ok vígdi til Hóla. I þessari ferd fór Arni diákn iafnliga [3]) milli kónganna Hákonar ok Magnúsar ok Brandr er þá var biskup vordinn, ok giördist þá þegar mikill kunnigleiki á milli Magnúsar konongs ok þessa sama Arna sá er aldrei þraut á medan þeir lifdo bádir, ok í þessari ferd herra Brands biskups vard þat mark [4]) á einom veizlodegi [5]), at Hákon kóngr sá einga rètto framkvoma fyrir Arna klerk ok hans mötonauta þá er framkvamo fyrir kènnimenn þá er at konongs bordi voro, þá mælti hann: hvad hafa nú prestar biskups? Má af því hugsa hvílikar hans medferdir voro, at hinn vitrasti madr hugdi hann ædri mann at vígslo en hann var. En þá er biskup fór til Islands, fylgdi Arni honum til Hólastadar ok var þar heima med honum vel virdr þann vetur [6]) er biskup lifdi.

4. En at honum [7]) lidnum sendo Nordlendíngar þenna sama Arna í Skálholt á fund herra Sigurdar biskups ok beiddo at hann sæi ok setti mann fyrir kènnimenn fyrir nordan land ok yfir stadinn á Hólum. Ok er hann kvam í Skálholt, vissi biskup skiótt af honum hvörn skada Hólastadr hefir feingit í fráfalli síns formanns ok sva hvers Nordlendíngar þyrfto vid, tók hann þat rád med samþykki hinna vitrosto manna, at hann gaf prests vígslo þessom sama Arna diákn, ok skipadi honum yfir stólinn at Hólum at stiórna lærdum mönnum ok ólærdum, þar til er sú kyrkia fèkk sinn formann, giördi hann því sva at þessum síra Arna voro kunnigastar framferdir Brands biskups, ok hvar þá var hverio máli kvamit í hans biskupsdæmi. En þegar margir vitrir menn visso

[1]) biskup. *E.*

[2]) Einar, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[3]) vantar í sömu.

[4]) sá atburdr. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) vígsludegi. sömu.

[6]) þat ár. sömu.

[7]) Brandi biskupi. sömu.

hverso honum fór þat skörugliga af hendi, þá trúdu þeir, at þessi hans fyrirfarandi framferd mundi verda forynia hinnar fremri tignar, sem sídar bar raun á. Madr hèt Oddi, hann var diákn at vígslo ok átti vel penínga, hann [bad sèr [1]) kono Olöfo Broddadóttur, ok med frænda rádi voro þar vott r at heitordi. At þesso rádi var med honum Gissur iarl þorvaldsson er þann tíma bió at Stad á Reyninesi, ok skyldo þau samangánga at ákvednum tíma. Síra Arni vard þessa skiótliga vís, ok fyrir því at Henrikr biskup ok Brandr biskup eptir hann höfdo bádir súbdiáknum ok öllum mönnum þeim sem sværi [2]) vígslor, fyrirbodit at kvænast, lagdi hann bann fyrir at þetta hit usæmiliga samlag væri bundit framar. Jarlinn reid þá til brúdkaups med Odda, sva sem ei væri ummælt, ok med hans rádi fór fram bodit, en þegar þessi tídindi kvamo fyrir síra Arna, lysti hann forbodi yfir Odda ok öllum þeim mönnum er at bodino sáto. En þann dag er iarl kvam heim, brá honum vá [3]) fyrir grön [4]), þvíat kyrkian var byrgd at Stad, ok þá er hann spurdi hví þesso gegndi, var honum sagt. Nokkro sídar var fundr lagdr til þessa máls, ok sóttu þeir bádir síra Arni ok iarl þennan fund, bar iarl fram fornan landssid ok siálfs síns dæmi ok margra annara manna til þess at þessháttar hiónalag sem var med Odda ok hans kono hefdi lengi verit lofat, en þat var ófyrirsynio nokkot sinn fyrirbodit. Síra Arni segir [á móti [5]), at pávarnir, [er öllum lögum [6]) eigo med rètto at ráda, hefdo sva frekliga afnumit ok fyrirbodit þesskyns samlaug undir píno fullkomins banns. Umsídir lètti iarl fyrir sönnum skynsemdom ok stadfesti síra Arna, ok tók lausn af honum ok allir hans bodsmenn, sór Oddi af hendi sèr kono þá er hann hafdi sèr ætlat. At skilnadi mælti iarl vid síra Arna: þat væntir ek, frændi, at flestum munir þu ekki verda fyrirlátsamr, þótt þú eigir málum at skipta, þar sem þú lèzt ekki fyrir mèr, reid síra Arni eptir þat heim til Hóla, en iarl til Stadar. þenna tíma er Jörundr biskup var vígdr til

[1]) átti. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) bæri. *B. E. Gr.*

[3]) var. *C.* þ. ver. *B. E. Gr.* um. *A.*

[4]) grun. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) sva. sömu.

[6]) frá [: sem eru yfir öllum lögum ok öllu *o. s. fr.* sömu.

Hóla af Hákoni erkibiskupi ok skipadr yfir allt land, sakir elli ok úmegnis Sigurdar biskups, vissi hann honum naudsynligan þann fulltíngismann er hann styrkti ok strídi [1]) í öllum naudsyniunn kyrkiunnar. Sá hann eingan mann annan betr fallinn til þessa starfs en síra Arna, ok því sendi hann hann í Skálholt, ok tók herra Sigurdr harla giarnan vid honum, var hann þar þá tólf mánadi. A því ári andadist Sigurdr biskup, ok veitti síra Arni honum greftliga þiónusto.

5. *) Þat sumar hinir vitruztu menn med samþycki herra Jörundar biskups tóku [2]) þat rád at kiósa [3]) síra Arna til utan ferdar, at fara med þeim brèfum er þat váttudu at menn á íslandi beiddu virduligan herra Jón erki biskup, er kosníngi átti at ráda, at hann veldi fyrr nefndan Arna til biskups í Skála-hollti, hann tók þessu [4]) nokkud [5]) seinliga [6]), en þó sakir bænar stadar allra hinna beztu manna, sigldi hann med brèf þeirra ok kom á erki biskups fund, en hann gaf ei samþycki at sinni [til þessa bænar stadar, er af Íslandi kom [7]), ok kaus til biskups síra Þorleif *in dominica letare ierusalem* [8]), en hann andadiz fyrir [9]) páska viku, var þá síra Arni kosinn ok *confirmatus in festo sancti leofredi* til Skálaholltz biskups ok vígdr *in commemoracione beati* [10]) *pauli apostoli.* A því ári var vígdr Erlendr biskup til Fær-eyia. Eptir þat er Arni hafdi biskups vígslu þegit af fyrr nefndum herra Jóni erki biskupi, [bió hann ferd sína [11]) til íslandz, leiddi hinn sami erki biskup hann vt hardla [12]) sæmiliga ok veitti honum í vingiöf *decretales* [13]) *cum apparatu*, vâttadi hann ok í vígslu brèfi herra

[1]) styddi, *A. B. C. E. Gr.* Þ.

*) Nærstu þrír kapítular eru prentadir eptir kálfskinns bladi, ok ordamunr til færdr úr *St.*

[2]) þetta sumar tóku hinir — þat rád. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[3]) skrifa. sömu.

[4]) máli, bæta sömu vid.

[5]) vantar í *A. C. E.* Þ.

[6]) sæmiliga. *A. C. E.* Þ.

[7]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[8]) vantar í sömu.

[9]) eptir. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.

[10]) *sancti.* sömu.

[11]) frá [: brá — sinni. sömu.

[12]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[13]) *decretalia. C. St.*

Arna biskups, at ei var fyrir því [1]) Þorleifr fyrri til kosinn at vera biskup heldr en Arni, at hann [fengi nockvrn fleck fundit [2]) á hans med-ferd edr lifnadi, því hann reyndi hann vera bædi vitran ok gódviliadan til allra naudsynligra hluta ok biskupligra þarfinda, ok því baud hann hans undir-mönnum í krapti heilagrar [3]) hlydni, at þeir tæki vid honum uel ok sæmiliga ok sæmdi hann sem sinn [4]) for-stióra ok heyrdi hans kènníngar. Þat uáttadi ok Magnús kóngr í sínu brèfi, at honum var þessi sami Arni kunnr at mörgum [5]) gódum lutum, ok því bad hann ok baud aullum sínum þegnum, en hans undir-mönnum á Íslandi, at þeir tæki hann [6]) vel ok sæmiliga ok virdi hann ok tignadi í aullum þeim lutum sem til heyra kristiligri hlydni, heilagri kyrkiu til sæmdar, sva sem andligvm [7]) fedr. Eptir þat er herra Arni biskup hafdi skiliz vid virduligan herra Jón erki-biskup *in diuisione apostolorum*, sigldu þeir [í haf, ok greiddiz þeirra ferd vel ok ecki all skiótt, komu þeir [8]) skipi sínv í Eyia-fiörd þuatt-daginn eptir *assumptionem beatæ uirginis* [9]), ok litlv sídar fvnduz þeir Jörundr biskup, fèck þá Arni biskup honum þau brèf, sem erki-biskup sendi honum, stefndi hann [þá at sèr fólki [10]), ok vóro þá fram-höfd erindi erki-biskups ok þær sid-bætr, sem hann hafdi þeim bodit. Eptir þat ridu þeir bádir samt sudr vm kiöl ok komu í Skála-holt *in decollacione* [11]) *Johannis baptiste* [12]). Stefndi Arni biskup þá fund vid presta ok bændr ok lèt hann upp lesa bodskap [13]) erki biskups, ok stódu þar í þessir lutir: at allir menn knèfèlli med upphalldandi höndum þann tíma í messunni er upp er halldit holldi ok blódi várs herra [14]), ok sua þá er borit er til sivkra manna: sua ok at eingi madr festi sèr mey eda konu til eigin 1. 2.

1) herra, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* Þ.
2) frá [: findi nokkurskonar löst. *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
3) gudligrar, sömu.
4) födur ok, bæta sömu vid.
5) vantar í sömu.
6) honum. *B. C. E. Gr. St.* Þ.
7) andligan. *E. Gr. St.* Þ.
8) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
9) *Mariæ. B. E. Gr.*
10) saman flokki. *B. E. Gr. St.* Þ.
11) *beati*, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* Þ.
12) vantar í sömu.
13) brèf. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
14) Jesu Christi, bæta sömu vid.

3. ords ádr en lyst veri þrim sinnvm í kyrkiv: sua ok at frillu mönnum fyrir bióđiz [1]) at taka kristz líkama at páskum, utan þeir festi
4. frillur sínar til eigin ords edr skili vid þær fullkomliga: sua ok
5. at allir stadir [ok tíundir [2]) skylldi gèfaz í biskups nalld: sua ok at engi skuli byggia dautt fè á leigu. Tók alþyda manna vel þrimr [hinum fyrrum [3]) greinum, en vm stada mál ok okr var seinliga tekit. Síþan sendi hann þenna bod-skap um allt sitt biskups dæmi, tóku þeir honum er hann heyrdv sídarr miök saumv leid sem hinir fyrri. A þessu sama hausti ok aundverdan uetr fór Arni biskup uída vm sunnlendíngafiórdvng, var honum þá iád hinum smærum [staudum ok [4]) kirkium, en þeir hinar ríkari kirkiur hèldu, vóru miök fastir fyrir. Odda–stadr var þá kalladr kaupa–land af þeim sem hann hèlldu, ok villdv þeir eingis máls á liá nè grein á gèra huad kirkia átti, ok fór herra biskup heim vid sua búit ok [var heima þat sem eptir uar uetrar [5]).

**6.** Eptir þenna uetr lidinn kom uârit, ok hafdi Arni biskup haund á Odda–stad [6]), lèt hann þá raunar stefnu stefna til þess huórt Odda–stadr veri kirkiu eign, ok er at þíngi kom, reid hann til þíngsins ok krafdi dóms of þetta mál, var þá dæmt at Odda stadr var kirkiu eign, ok sua þar med slíkar eignir, sem [honum bárvz [7]). A því sama þíngi krafdi biskup stadar í Hítar–dal, þar hafdi klaustr verit, Kètill loptzson, er þar bió, villdi hann ei upp gèfa, biskup bióz þá til at bannsetia hann þá þegar á þínginu, ok er fyrr nefndr Kètill sá at þat mundi ei fyrir faraz, iádi hann at greida af hendi stadarins fè at sinni, þeim sem biskup villdi, en kalladi þat þó ecki rètt, skaut hann ok margir adrir sínu máli á kóngs dóm, biskup iádi því, ef hann yrdi samþyckr erkibiskupi, en elligar sagdiz hann erki biskups dómi einum saman hlíta mundu vm þetta mál. At áqvednum tíma sendi biskup Oláf ábóta ok Runólf ábóta ok þorgrím prest magnússon til vid–töku stadarins

1) skuli fyribióđast. *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) vantar í *A. B. E. Gr.* þ.
3) vantar í sömu.
4) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
5) frá [: sat heima um vetrinn. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
6) Oddastadar máli. sömu.
7) henni báru. sömu.

fiár, en þeir komu aptr med þá sögn, at ecki var [stadnum golldit eptir því sem vera átti [1]). Fyrir þetta fiár halld bannsetti Arni biskup Kètil eptir rádi lærdra manna sinna *in translacione* [2]) *sancti thorlaci* í Skála-hollti [fyrir miklum mannfiölda, ok stód hann í því banni þat sumar ok um vetrinn [3]). Þat sumar reid Arni biskup fyrir norþan sól-heima iökul ok rak biskupligt embætti [4]) vm austfirdínga fiórdúng ok eptir til skipan herra Jóns erkibiskups hóf hann til kall á alla stadi þá [sem þar uórn, en þótt þat yrdi med nockurvm mót-mælum af þeirra hendi, sem helldu þar kyrkna eignir [5]), fèck hann ualld ifir flestum aullum staudum utan þuatt á ok Hallorms-staudum. Gengv því Austfirdingar lèttligar at þessu [en adrir menn [6]), at hinn sæli thorlakr [7]) med rádi Eysteins erki biskups hóf þat sama til-kall at Svína felli vid Sigurd orms-son ok hann iádi biskupi þessari kyrkiv eign, voro ok eptir þessv dœmi uel flestir stadir í hans ualld gefnir í aust-firþínga fiórþungi. En eptir kirkiu uigslu ok messu skipadi biskup Sigurdi stadinn í leen, ok af þessu til-tæki biskups hófz sá vandi at hofþingiar í austfiordum skipudv stadi [8]) [med biskups rádi edr samþycki [9]) allt til Arna biskups, en af því at hann tók aull kirkna forrád af huerium sem ádr höfdu undir sik, voro margir tregir til at segia sèr af hent þat áhalld sem þeir þóttuz ádr eiga. Of haustid sneri biskup heim í Skála hollt, tók hann þá einkanliga at bera alla [10]) aunn fyrir stadnum ok hans eign, var þá í brottu Jón Skúms-son er lengi hafdi þar ráds [11]) madr verit. Stadrinn var þá miök af sèr kominn sakir húsa, en kirkia hrörnutt miök at þaukvm, [þrotin húss hægindin, þau er lengi höfdv uel eydz, medan Siguardr biskup mátti fulla um sea veita. *) Nú þvíat biskup var áhuga-

1) laus stadrinn eptir því sem ætlat var. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

2) *transumptione. B Gr.* þ.

3) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

4) erindi. *B. E. Gr.*

5) frá [: sem ádr hèldu þesskyns eignir. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

6) frá [ vantar í sömu.

7) biskup, bætir vid *St.*

8) biskupa, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

9) frá [ vantar í sömu.

10) vantar í sömu.

11) rædis. sömu.

*) hèr endast kálfskinnsbladid. frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

madr mikill ok stórmenni í lund ok veitti mörgum miök gott, ok vard því stórt í at ráda, var þá til bús ok stadar giör ei minni skyld en til CCC hundrada, vard sú skulld at auk annara fiölskyllda seint golldin.

7. Herra Arni biskup hafdi optliga fiölmennar veizlur heima á stadnum, ok fóro þær fram med öllu kappi ok stórmennsko, því hans hugr var giarn stórt af ödrum at þyggia ok sua harla giarn stort ödrum at veita. Fyrir slíka hluti ok adra þvíumlíka vard hann stórliga frægr ok miök sóktr af alþydo. Hann sat optliga yfir málum manna, ok þótt hann hefdi ei veraldligt valld [sem hinn H. Ambrosius biskup hafdi á sínum dögum [1]), vildi þó hver hann til síns máls kalla medan menn vóru siálfrádandi fyrir kóngligum valldsmönnum [2]), ok þóttu þann tíma þau mál flestum mönnum best komin er hann átti lut at ok sá yfir, fèkk hann af slíko mikit kalls ok annsemd [3]) ok þar med feárkostnat. Mörgum mönnum þótti hann optar heldr halla geördum á klerka en úvini sína, virdo menn þá fyrsto sök til þess at hann vildi ei láta þá vanrefsada vera sem hann átti yfir at dæma. Sú önnr, at hann mátti fyrir þat diarfliga heimta rèttindi fyrir sik edr sína vini í þeim lutum er adrir þeim svara áttu í þeim málum er hann átti [yfir at dæma [4]). En sú hin þridia, at hann giördi sèr vini af úvinum í því er hann hèllt fram þeirra luta lángt, þó vinir hans væri ímóti, sem fordum giördi Jón Loptsson, ok endrtrygdi þá úvinina med sæmdum edr fègeöfum, en þat sem hann syndist klerka hardliga dæma, ef þeir geördu leikmönnum [5]) aflaga, var med fyrnefndum þrim sökum sú hin fiórda grein, at honum þótti ill þeirra föll, af því kostgiæfdi hann af þeim at venia öll úkynni, sva at hvergi væri H. Guds kristni úsæmd at þeim, mörgu sinni bar sva til, ef þeir gèngo gladliga vid hann [6]), at bædi skipadi hann þeim fèsamar vistir edr veitti adrar hiálpir sva þeir mætti vel vid sín málalok una. Herra Arni biskup breytti ok margri skipan

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

2) kóngligu valdi, sömu.

3) vansemd, sömu.

4) um at dæma ok yfir at segia, *A. B. C. E. Gr.* þ.

5) hardliga, bæta sömu vid.

6) at bordi, bæta sömu vid.

hinna fyrri biskupa til miskunsemdar, hann skipadi at þau börn 1.
sem ei fengo skírn, skyldi grafa utan vid kyrkiogard, en ádr varo
þau grafin fiarri vígdum [1]) stödum sem sekir menn, ok kölludu
fáfródir menn þau útburdi, veitti þat ok mörgu sinni at í þeim
stödum sem þau vóru grafin fengo menn fyrir sakir eginligrar
útrúar [2]) ok andskotans umsátra ímisligar sóttir ok margskonar
mein med undrsamligum synum [sinna fylgiara [3]), en sídan virdugligr
fadir herra Arni biskup eyddi þessari villu, fengo menn í
þeim stödum sem þau voru sídan iördut, ekki mein af þessari
fiandans umsát. Fann ok fyrrnefndr herra Arni biskup dyrdarfullt [4])
dœmi hins mikla [5]) Augústíni til þessarar skipanar, þess er
heldr kvadst vilia vera sem þessi börn en ei vera, þat taka svá
vísir menn at hann vildi heldr eiga þeirra heimvon. Þat var ok
sidvani ok skipan hinna fyrri biskupa, at lík þeirra manna sem
utan kyrkiu stódu fyri vanhagi [6]) sína ok á þann tíma sem þeir
lidu úr líkama stód þessi skript á, at lík þeirra skyldi ei í kyrkiu
bera, en grafin þó í kyrkiugardi, en hann skipadi at hvörs manns 2.
lík þess er at kyrkio ætti leg, ok í sætt var vid kyrkiuna, skyldi
í kyrkiu bera. Þat var ok sidvenia, at þær konr sem á sæng önd- 3.
udust, skyldi grafa í kyrkiugardi ok bera ei lík þeirra í kyrkiu,
en hann skipadi at lík hverrar þeirrar konu er í sætt væri vid
kyrkiuna, þóat af sængar rekkio andadist, skyldi í kyrkio bera [7]);
skyldi kona gánga med logandi liósi [8]) fyrir líkum þeirra kvenna
er í siúknadi þeim öndudust ok ólu börn vid bændum sínum, en
fyrir allra annara líkum med engo kèrti. Hann skipadi ok í þeim
siúknadi sem þeir ættu börn at fæda, at þær skyldo vitia skripta,
husla ok olea, ef þær væro banvænar, þegar þær væro í sætt vid
H. kyrkiu, en ádr var þvert ímóti þessu bodit af biskupum.

8. Um vorit eptir þenna vetur fóru menn ámilli Arna biskups ok Kètils Loptssonar þess er hèllt Hítardalsstad ok um sídir

[1]) helgum. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) eiginnar vantrúar. sömu.
[3]) frá [ vantar í sömu.
[4]) dyrligt. sömu.
[5]) Ambrosii ok, bæta sömu vid.
[6]) vanhelgi. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[7]) þat var ok sidvani at kono skyldi *o. s. fr. B.*
[8]) kèrti. *A. B. C. E. Gr.* þ.

kvamo þeir saman sva [1]) þessi sami Kètill lèt [2]) sèr af hendi staddinn ok hann skyldi hann alldrei kalla sína eign nè sinna erfíngia, nema Jón erkibiskup edr Magnús kóngr dæmdu honum, hann sór ok at greida stadinn af hendi í nærstum fardögum ok alla hans eign, ok bæta þat sem hann hafdi brotit í úhlydni [ok rángindum [3]) vid H. kyrkio ok biskup sinn eptir hans dómi ok þeirra lærdra manna er hann vildi tilkalla med sèr, ok at halda aldrei stríd [4]) móti biskupi sínum ef hann hefdi rètt at mæla, tók þá Þorgrímr prestr Magnússon, sá er ádr hafdi þegit stadinn, *canonice* vid honum ok allri hans eign at næstum fardögum sem ádr var skilt. Arni biskup hèllt þá enn fram Oddastadar máli, en þeir brædursynir Steinvarar [5]) sem fyrr voru nefndir kölludu stadinn módurarf sinn. Þessi [6]) Steinvör fyrrnefd [7]) módir þeirra keypti hann med miklo fè at Birni Sæmundarsyni ok Sæmundi Haraldssyni utan biskups ráds, sídan keypti Sighvatr hann at módur sinni hálfan, ok þóttist hann fyrir því meira í eiga en þeir Loptr ok Sturla brædur hans. Nú því fyrrnefndum Arna biskupi þótti mikit fyrir at fella stórmæli á þá brædur, ef nokkr mætti annar útvegr tilfinnast sá er H. kyrkia mætti fá sína sæmd, giördu þeir samníng á med sèr at herra Arni biskup skyldi þola at þessir sömu brædur hættu [8]) búnad á stadnum ok hafa þar gódan smid til kyrkiu uppgiördar, ok fá honum efni til þeirrar smídar, en ef nokkr tálmadi smidinn, skyldi herra Runólfr ábóti ok Þorsteinn Haldórsson er þá bió at Hvóli ok átti Ingigèrdi Philippusdóttur, kveda á hvad fyrir skyldi koma, þeir brædur skyldu ok tregdulaust gèfa upp stadinn ok halda eingri hans eign, ef sá úrskurdr kæmi at biskup ætti þeirri kyrkiu at ráda ok hennar fè af beggia hendi kóngs ok erkibiskups, skyldi ok sva standa sem þeir giördu, þótt þeir dæmdu ödruvís. Steinvararsynir skyldu ok gialda fè med stad nema þeir kóngr ok erkibiskup kölludu þá friálsa þar af. Þeir skyldu ok fè þetta útgreida at sumri

[1]) sór. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) vantar í sömu.

[4]) stad. sömu.

[5]) Sighvatsdóttur, bæta vid *A. E. C. E. Gr.* þ.

[6]) þvíat. sömu.

[7]) vantar í sömu.

[8]) ættu. sömu.

nema þeir fengio af sèr prófat á næsta þíngi lögliga med yfirsyn Arna biskups. Þeir brædur rido heim ok hèldo þat allt sem þeir urdu ásáttir.

9. A þessu sumri [1]) sendi virdugligr herra Magnús kóngr til Islanz Þorvard Þórarinsson ok Eindrida Böggul hirdmann sinn, þar med Sturlu Þórdarson med lögbók norræna, ok var þá eptir um sumarit iátat þíngfararbálki ok tveimr capitulum úr erfdabálki um festarkonu börn ok um arfleidíng ok þegngildi um allt land, en ei fleira. At giördum þessum samníngi um Odda seinkudu margir er þvílíkum málum áttu at gègna at gánga at bordi vid biskup um þær kyrkiueignir er þeir hèldu, höfdu flestir þá vörn fyrir sèr at herra Jóni erkibiskupi mundi úkunnig kyrknamál á Islandi ok sögdust ei trúa mundu at honum mundi synast at kalla þær af þeim, ef hann vissi at þeir sem þær gáfu at upphafi skildo æfinlig forrædi þeirra undir sik ok sína arfa, en undan biskupum ok lærdum mönnum. Rafn Oddsson, er átti Þórrídi dóttur Sturlu Sighvatssonar ok bió þá í Stafholti, stód ok miök ímóti biskupi um kyrknamál, honum hafdi herra Mágnús kóngr skipat hálft Island, hann sannadi fyrir almenníngi at kóngr vildi ei samþykkia [2]) at bændr [3]) væru sviptir þesskyns eignum, ok ei heldr at þeir væru saklausir bannsettir, en biskup segir á móti at þat væri fals Rafns, en ekki kóngs ord, ok þat væri frá upphafi kyrkiulögin at ei skyldu leikmenn heldr klerkar vardveita allar kyrkiueignir, en þótt liótligr kaupmáli ok at rèttindum úmakligr [4]) væri at þessum kyrkium giör, ætti þat at standa í honum sem nokkru var nytt, en hitt sem fyrir öndverdo var únytt mætti enga hefd giöra nè band, ok ætti fyrir ekki at haldast. Nú þótt at biskup flytti fram slíkar skynsemdir, fèkk hann ei lærdan almúgann fyrir fortölum Rafns, ritadi herra Arni biskup til Jóns erkibiskups ok segir hvar kyrknamálum var kvamit ok hvat þá hindradi ok beiddist af honum fulltíngs, ok at hann kèndi honum þær skynsemdir sem kyrkiunnar úvinir ok sva hans yrdu fyrir at láta. Þetta sama sumar

[1]) 1272, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) almúginn. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[4]) úmátuligr, sömu.

er samníngr var giör vid Steinvararsyni ritadi ok fyrrnefndr Arni biskup til virdugligs herra Magnúsar kóngs þess er hann trúdi sannan ok fullkvaminn vin kyrkiunnar, [at hann med sínu kóngligu valdi byrgdi munn á þessum hennar úvinum ok sínum mótstödu mönnum [1]). En þá er herra Magnús kóngr sá þessi brèf, tók hann vel hans málum, en ritadi á móti sína beidslo, sva sem at henni þeginni vildi hann fulltíngia herra biskupi ok fá framkvæmd síns vilia [2]), en sú var kóngsins beidsla ok vili, at herra Arni biskup skyldi eggia menn á Islandi at taka vid lögbók hans, ok segir at honum var sva flutt, at sakir burda, vígslu ok framkvæmdar mundi hann mestu á leid umkvama um þenna lut vid lanzfólk. Hann tiádi ok þat fyrir honum, at þat væri biskuplig skylda at eggia fólk á þá luti sem þeim væri bædi sæmd ok uppreist, sidbot ok naudsyn. Kóngrinn ritadi ok hversu hann tók beidslu herra biskups, at hann kalladi hann til sín med fullkvamligan blídskap, ok sagdist bædi hann ok adra hina mestu menn hiá sèr vilia hafa at ráda um þenna vanda lut, lèt hann ok fylgia þessu brèfi fagrar presentur silfurkèr gyllt utan ok innan, ormstúngr tvær, [3]) budk [4]) af Electuario [5]) gott vid frosti, kvamo þessar til herra biskups annat sumar fyrir þíng, med fyrrnefndum Eindrida Böggli ok [brást hann vel vid kóngsins sendibod [6]) ok lagdi á allan hug at þat fengi framkvæmd, var ok á þessu þíngi lögtekin öll bók sú er kóngrinn hafdi utan sendt, nema erfdabálkr var ei lögtekinn, nema tveir capítular er hit fyrra sumarit var iátat.

10. Nú þvíat Arni biskup bar iafnliga mikla annsemd fyrir því hversu þetta mál mætti gagnsamligan stad [7]) eiga, sá hann ei annan líkari útveg en leggia siálfan sik í hættu, at ekki væri fyri hans leti í sallt lagin sök hins krossfesta ok rèttindin undir fótum

[1]) frá [: samrar meiníngar ok Jóni erkibiskupi. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) ef fyrir hans fullting fengi hann framgáng síns vilia, bæta sömu vid.

[3]) ok enn hit þridia þíng, bæta sömu vid.

[4]) baudk. *A. B C. E. Gr.* þ.

[5]) vantar í *A. B. E. Gr.* þ. lectuario. *C.* ok í honum gott vid frosti. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[6]) bióst — sendibodi, sömu.

[7]) enda, sömu.

trodin, víkr hann skiótliga undir kóngsins sendibod ok siglir til Noregs. — Þetta sumar hit sama fóru þá af Islandi margir hinir ríkari menn, Rafn Oddsson, Þorvardr Þórarinsson, Sighvatr [1]) Hálfdánarson mágr hans med umbodi lögliga teknu af brædrum sínum Lopti ok Sturlo til þess at svara ok sækia Odda mál ok Einar Þorvaldsson er Vatnsfiardar kyrkiu hèllt fyrir Arna biskupi, þá sigldi ok Þorsteinn Haldórsson, Kètill Loptsson, Brandr Andresson ok margir adrir, þat sumar tók ok Sturla Þórdarson vid lögsögo, en ádr hafdi Þorleifr Reymr [2]) Þeim biskupi fórst vel ok tóku Noreg, tók herra Magnús kóngr honum med mikilli blídu. A þessu ári var vígdr Gregoríus pávi hinn tíundi, en ádr hafdi pávalaust verit nær fimm vetur. I þenna tíma var í pávans hird síra Sighvatr [3]) kórsbródir af Nidarósi vin Arna biskups, ok fyrir hans bæn fèkk þessi sami Sighvatr af fyrrnefndum páva Gregorio þat privilegium undir innsigli Hermanni er þá var pávans Poenitentiarius [4]), at fyrrnefndr herra Arni biskup skyldi leysa mega þriátygi þeirra mála sem ádr hafdi hann ei vald til eptir þeim sama hætti er þat sama brèf vattar, kvam þessi sami síra Sighvatr á þessu ári aptr í Noreg med þeim tídindum at þessi pávi Gregoríus hefdi eptir tvö ár stefnt öllum erkibiskupum ok lydbiskupum ok þarmed ímissrar tignar formönnum H. kristni, utan þeim sem fullkomin naudsyn tálmadi, í þann stad sem Lugdunum [5]) heitir til almenniligs þíngs, at allir þessir formenn skyldo komnir II Kal. Maii, at tala um lausn hins H. Jorsala lanz, ok at kalla þær þiódir er Græciam bygdo aptr til almenniligrar trúar af þeirri þrætu sem þeir höfdu í stadit. En þvíat fyrrnefndr Arni biskup sá sik ei mega peníngum ná af Islandi sva at ei yrdi hann ofseinn til þessa fundar, sókti hann *) virduligan herra Jón erkibiskup at þessu ok at mörgum audrum sínum málum þeim er ádr eru saugd ok einkanliga um kirkna mál á íslandi, þo at hann hefdi þat ritad móti þeim beizlum þessa sama Arna biskups fyrr greindum at hann

[1]) Sigurdr. *A. C. E.* Þ.

[2]) Hreimr. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[3]) Sigurdr, sömu, ok eins eptirleidis.

[4]) *Primarius. B. E. Gr.*

[5]) *Leoncium A. B. C. E. Gr.* Þ.

*) Hèr byriast sídara kálfskinns bladid.

skylldi sua fram fara sem hann hóf. [Giördi herra Arni biskup því sua at hann sá aungan iafn líkligan til at sigra med sèr sína mót staudu menn sem Jón erki biskup. Arni biskup vissi ok at Jón erki biskup ætladi nyian kristin rètt at skipa, sem hann gerdi, ok hann hafdi bodit honum med þessum hætti fram at fara á íslandi, sem hann fór fram í noregi. Girntiz hann ok af siálfum erki biskupi at heyra huat villdi nyta láta or hinum forna kristnum rètti á íslandi, eda huat hann villdi or láta edr eptir huerium bókvm þat skylldi sam setia, sem í uard at leggia [1]). Ok þegar er erki biskup vissi hans girnd, liet hann uppi fyrir honum allan sinn vilia, sva ok at hann bannadi leik-mönnum at segia laug vm kristin rètt, gerdv þeir sua medan þeir lifdv. Herra erki-biskup hugleiddi þá lengd ferdarinnar ok fiölskylldv þá er Arni biskup uard fyrir fulla naudsyn at bera í þeim málum sem upp uóru hafin á íslandi, en ei til enda ferd [2]). Gaf erki biskup honum leyfi at fá mann fyrir sik til leoniz [3]). Tók þá fyrr nefndr síra Sighvatr þetta starf ok vmbod á sik med rádi herra erki-biskups at suara ok iá aullum þeim lutum sem Skála holltz biskupi heyrdv á sama þíngi, leysti hann ok þat umbod vel af hendi, [sem uáttar þat brèf meistara Nikulai af tracia, er þá var kapalín Gregorii páva medan þíngit stód ok páuinn hafdi til skipad at ransaka vmbods menn biskupanna, huersv þeirra brèf fóro af hendi [4]), ok afar margir lutir giörduz þeir um Arna biskup í þessi ferd er mikillar frá sagnar veri verdir í margri sæmd þeirri er herra Magnús kóngr veitti honum, ok hann reid þann uetr med honum vm midföstv skeid or biörgyn ok austr í sarps borg til mótz vid valldimar svía kóng ok brædr hans. A þeim uetri gaf Magnús kóngr Eiriki syni sínum kóngs nafn í biörgyn, en Hákoni hertuga nafn [5]).

11. En þvíat herra Arni biskup hafdi kunnikt gert herra Jóni erki biskupi hvar þá var komit stada málum á íslandi, ok þá voro til noregs komnir [hinir mestu af varnar mönnum [6]) þeirra

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) færd. sömu.

[3]) til nefnds þíngs í leontium (lugdunum. *St.*) *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[4]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[5]) hertugadóm. sömu.

[6]) frá [: formenn. sömu.

ok bedit hann ráds ok fulltíngs vm þessi mál, byriadi erki biskup ferd sína vm sumarit til biörgyniar. Var þar fyrir [ágiætr herra [1]) Magnús kóngr ok herra Arni biskup ok fiöldi annara göfgra manna, var þá stefnu dagr *III kal. iulii* at odda stadar mál skylldi ransaka ok dæmaz af Jóni erki biskupi. Magnus kóngr var bedinn at sitia hiá dómi þessum, en hann baud at fá mann til páva [2]) þann sem vel kynni flytia þetta mál fyrir honum, [en biskup hèlldi honum kost, hann neitadi því [3]). Kóngrinn fèck þá audun er hesta-korn var kalladr hinn vísazta [4]) mann til landz laga, ok annan herra þóri son hakonar er var erki-biskup fyrir Jón erki biskup þann er vel kvnni kyrkiunnar laug at heya [5]) af sinni hendi, at Sighvatr væri ei of sóttr, en sv var sauk til þess [6]), hvi vm odda stad var fyrst [7]) kiært, at hann var frægastr af staudum, en mörg mál þóttv fullkomin hin minni, þau er á eina leid vissv vid, ef or veri skorid vm hit meira. A til settum degi þá er virduligr herra Jón erki biskup hafdi til sín kallat þá menn sem honum líkadi vid þetta mál ad hafa, var fyrstr af þeim herra Arni biskup af skálahollti, er hann skipadi á sóknar mann á fyrr nefndan Sighvat Hálfdanarson ok á annan mann þann sem ádr er nefndr Einarr vatzfirdíngr. Sighvatr hèllt odda kyrkiv ok átti svörum at hallda fyrir brædr sína Lopt ok Sturlo. Einar hellt vatzfiardar kyrkiu ok átti fyrir hana svörum at hallda. Fyrrnefndr Arni biskup bar fram sínar kiærzlr med þessum hætti: minn virduligr herra Jón erkibiskup, ek Arni biskup kiæri [8]) fyrir gudi ok ydr uppá Sighvat hálfdanarson at helldr ok kallar sèr kyrkiu hins helga nikolai í Odda til for-rædis ok allra aftekna [9]) brædrum sínum. Nv fyrir því at Sighvatr á hèr svörum at hallda fyrir báda brædr sína vm þetta mál, þá beidumz ek at þèr dæmit heilagri kyrkiu aull þau rèttindi, sem hvn á at hafa, en mèr ok mínum rèttum [10]) eptir-komendvm friálst ualld ok fór-seá kirk-

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) þess. sömu.
[3]) frá [ vantar í sömu.
[4]) vaskasta. sömu.
[5]) heyra. sömu.
[6]) hafin, bætir vid *St.*
[7]) vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[8]) klaga. sömu.
[9]) aftekta. sömu.
[10]) vantar í sömu.

iunnar, slíkt sem skálaholltz biskupi heyrir eptir guds laugum. Sighvatr hafdi þessi suör fyrir ser at móti Arna biskupi: Ek [segir, sagdi hann [1]), at þat skilord megi standa, sem Sæmundr sigfusson gerdi fyrir odda stad, at hann skildi sèr ok sínu af-kuæmi [2]) forrædi hans ok uarueizlu æfinliga. Ok þá er þetta var fram komit ok borit, sór prestr Arna biskups fyrir hann upp á hans sál, at biskup skal satt fram bera eptir sinni samuitzkv ok ei leyna sannindum þeim sem hann er spurdr af þessv máli. Slíkt sama sór Sighvatr upp á sína sál. Herra Arni biskup kiærdi ok med þvílíkv móti upp á Einar vatzfirding vm vatzfiardar kirkiu. Ok med sama hætti sór hann sem Sighvatr hafdi ádr suarit vm odda stadar mál. Síþan var Sighvatr spurdr hvort odda stadr veri kirkiu eign kalladr. Hann [kuad ecki mundu tiá [3]) þuí í móti at mæla ok sva þó at odda veriar skylldu uardveita. Sighvatr gèck ok vid fyrir ióni erki biskupi at steinuör módir hans keypti odda stad at birni sæmundarsyni ok sæmundi haralldzsyni ok síþan tókv þeir Sighvatr ok brædr hans [4]) eptir hana. Sighvatr iátadi ok at hann á her suörum at hallda fyrir brædr sína ok þeir hafa þat samþykt. Med sama hætti beiddiz Arni biskup af ióni erki bisupi, at hann dæmdi honum slíkt ualld ifir kyrkiunni í vazfirdi sem til skálahollz biskups heyrdi undan einari þorualldzsyni, [er ser kalladi kirkiuna til for ráda ok aftekiv [5]). Einar sagdi, at þórdr faudvr fadir [6]) let gera kirkiuna í vatz firdi ok let vigia med þeim máldaga at hann ok hans rèttir erfíngiar hverr eptir annan skylldu eiga forrædi fyrir ok uarducizlu. Arni biskup segir sua [af bádum þeim Sighvati ok einari [7]), at af þuí kalladi (hann) á vm þessar kirkivr, at honum syniz at þeir megi þær eigi hallda ne eiga med rettindum, ok at erki biskup baud honum sua í skylld ok hlydni vid gud ok vid sik, at hann rètti einkanliga slíka luti med ualldi síns biskupligs embættis med audrum þeim lutum er umbóta [8])

[1]) frá [: Sighvatr, segir hann, ætladi. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[2]) sínum örfum. sömu.

[3]) kvadst ekki mundu. sömu.

[4]) í erfd, bæta sömu vid.

[5]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.

[6]) lángafi. *St.*

[7]) frá [ vantar í *A. B C. E. Gr. St.* þ.

[8]) umbusta. *B. C. E. Gr.* þ.

erv [1]) þurfa á íslandi í skálaholltz biskups dæmi, hann segiz ok sua hafa skilit iura, at þau segi biskup hafa eiga ualld yfir kirkivnum ok aullum eignum þeirra, en leik-menn ok ólærdir menn megu þær med aungu móti at erfdum eignaz ok eigi megu þar skildagar fyrir gánga, ei megu ok kirkiurnar kaupaz ne seliaz vid uerdi utan mikinn sálu háska ok því fær engi sá rettliga halldit þær ne haft er sua kèmz at. Herra erkibiskup tók þá til máls: af slíkum sannindum ok skynsemdum at skilia, sem nú hefir Arni biskup hèr fram flutt, beidir hann oss at ver dæmum af Sighvati ok brædrum hans, sua ok af einari þorvalldzsyni for rædi ok alla aftekiv allra eigna þeirra kirkna, sem fyrr voro nefndar, at ónyttum þeirra vörnum, sua at alldri siþan eigi þeir ne þeirra erfíngi nockvt til-tal [2]) kirknanna. Nú af þuí at lög hallagrar [3]) kirkiu uátta sua at liótligr kaupmáli edr af rèttindum vmattuligr [4]) má ecki band full-koma [5]) med rèttu, [ok þat sem í fyrstv er eingis vert, þá má þat ei siþau fyrir nockud standa, þo at stundir lídi, ok for-rædi þessa stada mátti engi biskup undan sínum eptir komundum .... *), ok af því at þetta mál er til vors dóms komit, þá giörum vèr þenna orskurd í nafni födur ok sonar ok heilags anda, at valdsskipan [6]), forrædi ok vardveizla Oddastadar ok Olafs kyrkiu í Vatnsfirdi med öllu því sem þar liggr til, hvert sem þat er [tekit edr útekit [7]), neytt edr úneytt, nema þat eitt sem til kyrkiu þarfinda hefir haft verit, dæmum vèr undir Arna biskup í Skálaholti ok hans lögliga eptirkomendr, honum ok þeim eylífliga fyrir at ráda, ok fyrirbiódum Sighvati ok brædrum hans ok sva þeirra örfum, Einari ok hans örfum nokkurt ákall um þetta, var þetta giört í Biörgvin, þá lidit var frá burdi drottins vars MCCLXXIII vetur, á Jacobs vöku aptan. Sídan er virdugligr herra Jón erkibiskup hafdi lokit á dómsordi um vald ok vardveizlo Oddastadar, þá bar Sighvatr þegar fram kærslo fyrir herra erkibiskupi, ok

Dómr erkibps

[1]) ok leidrèttu, bæta vid *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[2]) tilkall. sömu.
[3]) heilagrar. sömu.
[4]) úmátaligr. *St.*
[5]) fullkomna. *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
*) hèr endast kálfskinnsbladid. frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr. St.* þ.
[6]) vald ok skipan. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[7]) rekit edr úrekit. *A. B. Gr.* þ.

segir at Sæmundr Jónsson hefir fengit LX hundrud vöru Páli biskupi, þá er hann fór til vígslo, med þeim hætti, at Sæmundr skyldi taka biskups tíund af sva mörgum bæium ákvednum í nánd Oddastad á hverium XII mánudum, skyldi þetta vera leigur af þeirri vöro er herra biskup hafdi vidtekit, þar til er greind LX hundrud væri greidd, í ödru lagi af Skálaholts stad Sæmundi edr hans örfum, kallar Sighvatr þat til marks at Sæmundr ok hans arfar höfdu æ á hveriu ári tekit sva miklar biskups tíundir af þeim bæjum er fyrr var sagt, þar til er Arni biskup tók þær af Oddaveriuni. Arni biskup svarar, at ei kunni hann í móti at mæla, at þetta hefdi sva farit sem Sighvatr flutti, en sagdist ei vita hvert ættmenn Sæmundar hefdu fyrir þessa edr einhveria adra grein haft ok sèr kallat biskups tíundir þessar. Þorvardr Þórarinsson leitadi þá at sanna sögu þessa med Sighvati mági sínum. Herra erkibiskup spurdi þá Sighvat, hversu mörg ár þessi Sæmundr ok hans arfar hefdu tekit biskups tíundir þessar. En þótt Sighvatr vissi þat eigi, sást þess skiótt at sídan Páll biskup fór til vígslo voro lidnir nær LXXX [1]) vetra. Nú med því at hverutveggiu höfdu flutt um þetta slíkt sem vildu ok Sighvatr beiddist dóms af herra Jóni erkibiskupi um þetta mál, þá segir biskup þat vera sinn dóm, at med því Sæmundr ok hans arfar hefdu tekit VI hundrud á hveriu ári af biskups tíundum, þá höfdu þeir skuld sína á X vetrum, en þess er þeir hefdu meira tekid þar af, þat eigu þeir aptr at gialda stólnum í Skálaholti, en þat verda vel CCC hundrada vöru. Nú at sva lukto máli þesso ok tekno rádi af herra Jóni erkibiskupi, þá segir sva Arni biskup, at hann gaf upp alla þessa skuld fyrir sína hönd ok stadarins [2]) í Skálaholti [3]) öllum þeim mönnum sem þessu máli áttu at svara, nema nokkrir af þeim giördust úverdugir þessarar uppgiafar í mótgángi edr úhlydni vid sinn biskup ok heilaga kyrkio. Eptir þenna atburd lögdu allir mótstödumenn kyrkiunnar nidr þat er þeir þóttust eiga at halda, ok lèto af, sèr at kalla kyrkiur hvert sem þeir höfdu þær ádr med verdi keypt edr í erfd tekit. Þessir menn öndudust íslenzkir í Noregi þenna

[1]) siötygi, *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) stólsins, sömu.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

vetur, þorsteinn Halldórsson, Brandr Andresson, Kètill Loptsson, en á Islandi Vilhiálmr prestr Sæmundarson ok Kètill prestr þorláksson. At lidnum þessum vetri fór Arni biskup til Islands, ok skildi med mikilli blídu vid hverntveggia höfdíngiann Magnús kóng ok Jón erkibiskup. þetta sumar kvamo þeir til Islands Rafn Oddsson ok þorvardr þórarinsson, ok med flutníngi [1]) herra Arna biskups ok þeirra fyrrnefndra valdsmanna var um þetta haust iátat norrænum erfdabálki at Marteinsmesso. Kvam herra Arni biskup þá heim til stólsins, vard fólk honum stórla fegit, tók hann þá enn á nyan leik [2]) at stirkia guds kristni í mörgum heilsusamligum kènníngum.

12. Litlu eptir messodaginn hóf biskup heimanferd sína til Borgarfiardar ok tók veizlo í Reykiaholti. þar bió þá Eigill Sölmundarson, hann hafdi fyrir búi sínu þórunni dóttur Garda-Einars, ok fengit til eiginkonu at frænda rádi, en þvíat Eigill var súbdiákn at vígslo ok at hann hafdi þessarar kvonar fengit í úleyfi herra [3]) Sigurdar biskups, mislíkadi herra [4]) Arna biskupi þeirra sambúd [5]) ok taldi miök á þau bædi ok neyddi driúgum til skilnadar med hótun stórmæla ok banns. Nú þvíat sakir forns lands sidar, ætternis ok ástar, ok þess er þau voru ádr börnum bundin sva framarliga, at þau átto tvo sonu Snorra ok Jón, er kalladr var eptir Jóni Murta Snorrasyni, ok dætur þriár Ingibiörgu ok Halldóru [6]) er Kolbeinn iarl átti, ok Gudnío er gipt var Finnbirni syni Sigurdar or Hvammi í Vatnsdal, gèkk Eigill tregt at bordi um þetta mál, en þvíat Arni biskup þröngdi fast bædi med valdi ok skynsemdum, tók fyrrnefndr Eigill þann kost at sveria eptir bodi Arna biskups þessa sömu þórunni sèr af hendi [7]) med þeim eidstaf sem í kyrkiolögum er skipadr. Var sú þórunn gipt ödrum manni þeim er Sigmundr hèt ok var son Ögmundar Digur-Helgasonar er bió í Kyrkiobæ, tók þá herra biskup í sætt þau bædi ok skriptadi eptir

[1]) fulltíngi. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) at nyum leik. sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) vantar í *A. B. Gr.*
[5]) samband miök. *A. C.* þ. samband stórlega. *B. E. Gr.*
[6]) Hallberu. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[7]) afhendis. *A. E.* þ.

því sem honum líkadi. Att hafdi Eigill fyrr vid þeirri kono er Gudní hèt ok Stiarna var köllud Valgerdi ok Steinunni ok Þórarinn prest er kalladr var Kaggi. Nokkru sídar fylgdi Eigill Þórunni Valgardsdóttur, ok vóru þeirra börn Þórdr lögmadr, Andreas, Helgi, Gyda ok Alfeydur.

13. Eptir lyktad mál þeirra Eigils ok biskups sneri hann ferd sinni ofan til Bæiar, ok reid med honum margt fólk. A þeim degi vard sá atburdr, at sá madr er Marteinn hèt ok var Ivarsson [1]) ok var lengi rádamadr at Helgafelli med herra Olafi ábóta Hiörleifssyni, reid á adra hönd biskupi ok stórliga nær honum, en er þeir varo [2]) komnir fram um bæinn í Kálfanesi, hió voveifliga med mikilli eggsi til þessa manns Marteins, sá madr er Gudlaugr hèt ok var Tannason, kvam höggit á handlegginn nær öxlinni ok vard mikill áverkinn, sva at blód þat er or undinni sprændi hlióp stórliga miök á klædi biskups. En sú var sök millum Marteins ok Gudlaugs, at Marteinn hafdi í vopnaskiptum vegit í Dölum Tanna födur Gudlaugs, en í hefnd hans var þegar veginn Páll bródir Marteins ei fyrir adra sök en hann skaut undir fyrrnefndan bródur sinn skiótara hesti en þeim sem ádr reid hann, ok kom honum sva undan bana, en flydi ei siálfr, sem hann ætti ekki um at vera. Málin varo í dóm lagin ok fèllust vígin í fadma, en þvíat þessi Gudlaugr var þá barn at aldri ok ei atspurdr at sættum, þóttist hann missa födur bóta [3]). Herra biskup vard af tveim sökum framast reidr þessum sama Gudlaugi [4]), var sú hin fyrri, at hann þóttist at fialhöggi hafdr náliga ok mikil van at á hann mundi komit hafa höggit, ef af Marteini hefdi stokkit, þar sem driúgum lágu saman axlir þeirra, en sú önnur, at honum þótti fyrir sína návist hafa tekit verit frekt til úhappsins [5]), því Marteinn hafdi ei varazt umsátir, hann kalladi ok Martein syknan, þar sem ádr var dæmt málit ok veittar trygdir, en Gudlaugr mat lítils þykkio biskups um þetta, þvíat hann hefdi [6]) á sèr stórar skriptir um

[1]) Mársson. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) nær, bæta sömu vid.

[3]) vid Martein, bæta sömu vid.

[4]) giörníngi vid Gudlaug. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) upphafsins. *Gr.*

[6]) hafdi. *A. B. C. E. Gr.* þ.

stund ok stórmæli Arna biskups, þartil er hann gèkk til sáttar vid hann, bædi fyrir þann [1]) úsóma er biskupi þótti til sín giör, ok þann áverka er Marteinn fèkk af honum. Voro mál þeirra dæmd á alþíngi, en þó [2]) stód Gudlaugr undir skriptum hördum um stundar sakir, hafdi hann ok tveim sinnum ödrum leitat mein at giöra Marteini, en um sídir líknadi herra biskup Gudlaugi fyrir bæn herra Þórdar Hallssonar á Mödruvöllum, ok tók af honum sína úblídu. Marteini vard lángt mein at sárino, ok vard þá [3]) alheill um sídir. Herra biskup fór þá út í Melasveit ok skipadi þeim lutum er honum þóttu naudsyniar til standa. Eptir þat sneri hann til Nesianna ok sva heim á leid. Þetta haust sigldi herra Jörundr biskup. Þadan snèri Arni biskup sudr um heidi ok var heima í Skálaholti þenna vetur, ok var sá hinn fimti hans biskupsdæmis.

14. Um vorit reid Arni biskup austr [4]) um ár ok setti þann prest í Odda er Grímr hèt ok var son Hólmsteins bródur Þorgeirs í Hollti ok Jóns er átti Herdísi dóttur Jóns Örnúlfssonar. Módir Gríms var Gudrún dóttir Orms Breidbælíngs Jónssonar, hafdi þann stad ádr haldit Sighvatr [5]) Hálfdánarson med brædrum sínum, [sem fyrr var gètit [6]). En þar er hann var í fyrsto hinn gildasti af mótstödumönnum biskups, tókst brátt med þeim hinn mesti blídskapr sá er lengi hèlzt sídan. Fór Sighvatr nú búnadi sínum í Skipholt, þar sem Arni Jónsson bió ádr fyrr mágr hans, ok á þeim vetri setti biskup fullkomliga kristindómsbálk saman med rádi Jóns erkibiskups, er hann lèt sídan framhalda eptir því sem sagt man verda, má sá hver, er forvitnar hvílíkr hann er, lesa sva sem í honum stendr skrifat ord fyrir [7]) ord. Um varit eptir þenna vetur fór af Noregi *ad curiam* virduligr herra Jón erkibiskup ok Ascatín Biörgvinar biskup, Andreas biskup af Oslo, ok sóktu þat *generale concilium* sem um varit var haldit í Lúgdúno [8]) *III Kal. Maii*

[1]) úþokka ok, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) þá. sömu.
[3]) þó. sömu.
[4]) sudr. sömu.
[5]) Sigurdr. *A. E.* þ.
[6]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
[7]) eptir. sömu.
[8]) *Leone, A. B. C. E.* þ. *Leoncio, Gr.*

mánadar, ok kvamo aptr á sama ári med þeim bodskap pávans Gregorií ok skipan þessa þíngs, at allir klerkar skyldo um næstu sex ár leggia tíund af öllum rentum sínum, en þat sama *statutum* kvam híngat um sumarit [1]) med brèfum virduligs herra Jóns erkibiskups, sem vottadi med hverium hætti vorir biskupar skyldo þessu efni framhalda á voru landi vid klerka ok almúgann, ok herra Jörundr biskup fór med, sem enn man sagt verda. A þessu sama ári urdu þau tídindi á fyrrgreindo þíngi í Lúgdúno [2]) at Græci hvörfo aptr til almenniligrar krístni af þeirri þrætu sem þeir höfdu haldid um stundar sakir med rádum ok rögsemdum Gregorií páva. Þá sendi ok Philippus Frakka kóngr Magnúsi kóngi part af krúnu vors herra Jesu Christi, þá var ok Edvardr Engla kóngr krossadr til Jórsalaferdar ok margir adrir dyrdligir höfdíngiar. Þá andadist Jacob erkibiskup í Danmörk. Þá lèt Magnús kóngr efna til kyrkiogiördar í grasgardi sínum í Biörgvin. Valdimar Svía kóngr flydi í Noreg fyrir brædrum sínum hertoga Magnúsi ok júngherra Eiríki, ok þá er hann kom aptr í Svíaríki, vard hann fánginn, ok gaf upp krónuna, ok komst eptir þat á flótta í Kóngahello. Þá vard í Þrándheimi sva stórt hagl, at hinir stærsto haglsteinar stódu XV aura. Þá brann bær [3]) í Túnsbergi. Þetta sumar reid virduligr herra Arni biskup til alþíngis, ok med hans fulltíngi var lögtekinn hinn nyi kristindómsbálkr, utan þau fá capítula þá sem menn vildo ei samþykkia fyrrum, en herra Magnús kóngr ok Jón erkibiskup giördu þat statt hversu þat skyldi standa sva sem þeir varo bednir af almúganum.

15. A þessu sumri kom út Jörundr Hóla-biskup ok sva med honum *statutum concilii generalis*, sem fyrr var af sagt. En þegar Arni biskup sá brèf pávans ok Jóns erkibiskups, fór hann um allt landit ok þíngadi til þessa máls, ok prèdikadi fyrir fólki, ok eggiadi menn at láta krossast til Jórsala ferdar, birtandi fyrir mönnum þær aflausnir sem herra pávinn hafdi [géfit þeim, sem med sínum líkama ok af sínum kosti færo til Jórsala, ok berdust ef

[1]) eptir. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) *Leoncia. A. B. E. Gr.* þ.
[3]) bærinn. *A. B. C. E. Gr.* þ.

þarfir giördust[1]) til frelsis því heilaga landi, sem siálfr guds son tígnadi med sínum dreyra, at þeir skyldo fá fullkomna aflausn ok líkn allra þeirra synda, sem þeir hefdo iátat med vidrkènníngo hiartans, med aukníng, verdleik[2]) ok ávexti eilífs verdkaups í himnaríki, sva ok at pávinn tók alla krossada menn undir sitt vald ok vernd Pèturs postula ok siálfs síns, ok öll þeirra skulda hión ok allar þeirra eignir, skipadi biskupana um alla kristni verndarmenn þeim mönnum til allra rèttra mála þeirra sem þeir ætto vid adra menn at skipta, hvern í sínum biskupsdómi, ok þat med at krossadir[3]) menn skyldo eignast öll þau einkamál ok allar þær rèttarbætr, sem standa í almenniligu afgiptarbrèfi þeirra manna sem krossins heit fylla, skipudust ok margir menn vel vid hans kènníngar ok tóko nynefndan kross á sín klædi, sumir lögdu penínga fram, gaf ok herra Arni biskup sitt brèf ok innsigli til sanns vitnisburdar öllum þeim sem hann lagdi krossinn á, eptir tilskipan herra pávans, en um tíundargiörd af kyrkiu fiám skipadi hann sva til, at þar sem menn tækio einnar persónu verd á XII mánudum betr en til VI marka brendra, skyldi greidast af hinn X lutr til frelsis heilögu Jórsala landi um VI ár at eingum kostnadi aftöldum. Hann skipadi ok, at hver prestr sá sem messo saung hefdi, skyldi til þessarar ferdar leggia eyri vadmáls á hverio þessara VI ára er tíundin stód yfir. Hann þá ok þat af bóndum, at hver sá sem þíngfararkaupi átti at gègna, gæfi hinum heilaga krossi alin vadmáls á hverium vetri af þessum VI, skyldo saman teliast VI bændr í hverium stad, sva hit fyrsta ár lyki einn fyrir alla þá, en annar annat ár, hinn þridi hit þridia[4]) til þess er lidin væri VI ár. Hann lèt ok [presta syngia dag[5]) í viko med tilskipudo *officio* af pávanum messo fyrir þeim ófridi, ok bad kalla þar fólk til álögulaust, skyldi hver offra eptir því sem gud kèndi honum. Vard þetta offur allt saman stórla mikit. Hann skipadi ok hina skilríkusto menn hvervetna at taka þetta fè saman, sva at þat

[1]) frá [: þeim heitit er þessa ferd færi ok herdist. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) verdleiks, sömu.

[3]) kristnir, sömu.

[4]) ok svo framvegis, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) syngia presta dag. *A. E.* fyrsta dag. *B. Gr.* þ.

kæmi allt vel til skila eptir hans skipan. Hann valdi ok hinar vísusto persónor af prestum sínum at prèdika kross med sínu brèfi ok at eggia fólk á nygreindar miskunar giafir almáttugs guds drottins vors.

16. A þessu sama ári gipti herra Arni biskup Gudnyu dóttur Helga Loptssonar ok Asbiargar systur sinnar Þórdi Hallssyni at Mödruvöllum í Eyafirdi, ok var veizlan heima í Skálaholti at álidno sumri, er þar af sannast at segia [*]) at hverium sínkum manni mundi þat vera miök minnisamt torræki, ef hann lèti sva sína peninga tærda, sem þar tærdu þessir friálsir menn sinn kost, er efnat fengo til þessarar samdrykkio, þvíat allt fór saman, at bodsmenn vóro margir ok mikillar frægdar, mikil húsakynni ok mikilmannliga innan búin, ok innleidslan stórmannlig, vistaföngin valin, drykkrinn dyr, útleidslan ágæt af beggia hendi. Þenna vetur var Arni biskup heima í Skálaholti, en þvíat siálfr gud synir þá einkanliga sína elsku vid sína syni, er hann leggr á þá sprota sinnar rádníngar, lagdist Arni biskup, at vilia þess er sína menn vill hirta med margföldum mótfellum ok siúknadi, á iólaföstu, ok siá sótt þreingdi honum sva miök, at hann lá í rekkio mikinn lut föstunnar, ok um sídir þótti vinum hans ok siálfum honum þat rád, at hann stefndi til sín þeim frændum sínum, er hann ná mætti, ok þeim ödrum mönnum, sem hann vildi til rádagiördar kalla, ok er þeir kvamo þar, giördi hann, sva sem sannr vinr laganna, lögligt testamentum, þat sem enn er vardveitt heima þar á stadnum, ok annan aptan, þá er menn kvamo þar fákátir at rekkio hans, mælti hann vid prest sinn er Hallr hèt ok var ritari hans, hversu þykkir ydr sem skipist sóttar far mitt? hann svarar, sva sem einn fyrir alla: herra, segir hann, nú synist oss sól vor at setri komin. Herra biskup hugleiddi ord hans, ok skildi til hvers hann mælti ok til hvers kvama mundi, ok sá alla hriggva þá sem hiá vóro. Þá mælti biskup sva: nú hit fyrsta sinn sè ek at þèr elskit mik, því næst lèt hann olea sik til lykta, ok beid öruggr gudligrar tilskipanar, [en þvíat fadir allrar miskunar sá

[*]) af þeirri veitslu, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

þenna mann naudsynligan síno fólki, at bera starf ok mædu, fyrir því tók hann af honum þúnga þessarar sóttar, ok veitti at morgni fagnad lángrar heilsu at fagnadardegi hins signada burdar síns sæta sonar [1]), ok urdu þá biskups ástvinir stórliga fegnir ok margir adrir. At lidnum þessum iólum var herra Arni biskup at stóli sínum til vors. [Þat ár [2]) urdu þau tídindi, at Gregoríus pávi andadist *IV idus januarii*, ok kallar alþyda hann helgan. Þá var kosinn Innocentius Vus *in festo S. Agnetis*, ok litlu sídar vígdr, hann var fyrstr pávi af prèdikara húsi ok lifdi ei allt til Jóns vöku. Þá var tekinn til páva Adrianus [3]) kardináll, rómverskr ok ágætr, ok kalladr Adrianus hinn IVdi. Hann saung einga messo, þvíat hann var ei vígdr til prests, en hann andadist fyrir vígslodaga milli Mariu messna. Þá var tekinn til páva *M.* [4]) *Petrus Hispanus* á drottinsdag fyrir krossmesso, ok kalladr Jóhannes XXI. Þenna vetur var úfridr milli Danakóngs ok Svía, Valdimar Svíakóngr Byrgisson kvam til Biörgvinar á fund Magnúsar kóngs. Um sumarit eptir var fundr þeirra Magnúsar kóngs í Norvegi ok Magnúsar Byrgissonar, er Svíar höfdu þá til kóngs tekit, siá fundr var í Gautelfi vid Hörsaborg, ok leitat um sættir milli þeirra brædra Valdimars ok Magnúsar, ok vanst ekki at því sinni. Magnús kóngr gaf í Túnsbergi iarlsnafn Magnúsi jarlssyni af Orkneyum. Þá andadist Þórgils Stafángurs biskup.

17. A þessu hausti er um lidit var, kvam til Magnúsar kon-úngs brèf biskupanna ok syslumanna ok handgènginna manna á Islandi ok þar med almúgans, at menn hefdu lögleidd . eptir bódi biskupanna ok tilskipan herra Jóns erkibiskups nyan kristindómsbálk, ok var þetta brèf med allra þeirra innsiglum, ok þó med þeirri grein at þeir vildu honum ei meir framhalda en hann stædi til þess er kóngr ok erkibiskup vildu annan skipa, edr þessum breyta þar sem þeim líkadi, ok iafnfram þessi frètt kvam fyrir kónginn sú sögn, at biskupar bönnudo heimamönnum sínum at greida skatta edr [5]) þíngfarar

[1]) frá [: En eptir þetta smábatnadi herra Arna biskupi, svo at hann fèkk góda heilsu, *o. s. fr. A, B, C, E, Gr,* þ.

[2]) þadan, *A. B. C. E. Gr.* þ.

[3]) Octinbonus, sömu.

[4]) *Magister.* sömu.

[5]) ok, sömu.

kaup, sva ok at biskupar lögdu á menn nya tolla edr pindíngar, sva sem um matgiafir þeirra vatnföstu nátta, at menn föstudu á sumar at bodi Arna biskups, en fyrrum á vetur, var þá ei framar gèfit en fyrir þau fulltída hión er bóndi fæddi tvö misseri, voro ok þeir illgiarnir menn sem biskupum ámæltu fyrir þat er þeir lögdu fè á menn at gèfa til frelsis Jórsala landi tíund af kyrkio eignum, edr bádu almenníng leggia þar til sínar ölmusr, slíkar sem gud skyti hverium í hug, en þóat þessum misþyktar gárum [1] væri kastat í augu skynsams höfdíngia, giördi hann sik ei brádan fyrir þessar flutníngar, heldr skrifadi hann á móti þessum flutníngi med síra Adalbrandi syni Helga Lambkárssonar [2], ok bad alþydo fyrir siá, vid hvat menn mætto búa fyrr en samþykkia nokkrum ödrum lögum, hvert sem þat væri um kristin rètt edr önnur lög, en þeim er hann skipadi þar til er hann semdi vid erkibiskup ok adra lærdá menn hvad standa mætti, segir hann ok þá litla vinátto mundo í móti taka er ödruvís giördu, lèzt hyggia þetta vera sitt starf ok erkibiskups, en ei annara manna, at skipa kristin rètt í landi hans edr önnur lög. Þat lèt hann ok fylgia at þeim mundi gott hafa tilgèngit er giört höfdu, en á móti flutníngi þeirra, sem fyrir honum sönnudu at biskupar píndo um rètt fram ok í móti fornum vanda, ritadi hann sva, at hann fyrirbaud nè-einum leikmönnum, at gánga undir nè-eina pindíng ok ei til einnar vadmáls álnar, utan sva sem at fornu verit hefir, ok baud þeim til sín at halda [3]) fyrr en iáta, en um vitanligar [4]) ölmusur til Jórsala ferdar, ok hvervetna þar sem prèdikat verdr eptir pávans bodi, kvaðst hann því sídr banna vilia, at hann segir sèr hvern þann betri þykkia er kross tæki, ok legdi sva sína muni til Jórsalaferdar, þótt menn giördu þat ei fyrir skyldu sakir edr álaga, sva greindi hann um adrar ölmusur, at honum líkadi vel at hver giördi siálfkrafi slíkt fyrir sálu sinni, sem gudlig mildi kèndi honum, hann kalladi ok rád at nyta þann púnkt sem þá stód yfir, ok gánga undir þá [eina nyúng [5]) sem hann giördi rád fyrir. Vóro

[1]) hárum. *B. C. E. Gr.* þ. misþyktum. *A.*

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[3]) rita. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[4]) vilianligar. sömu.

[5]) nya hlydni. sömu.

þessar kóngsins tillögur, annat hvert fyrir þat at hann vildi, medan Jórsala tídin [1]) stædi, einga luti úvilianliga láta innleida, sva at þadan af mætti þat skyldu kalla at gánga fyrrum undir, en þeir sættust fyrir hönd lærdómsins ok alls ríkisins.

18. Þessi misseri sat Arni biskup um kirt fram um þíng, sídan fór hann í syslu sína til Austfearda. A þessu sumri fèkk Sigurdr, á Seltiörn Sighvatsson [2]) hins audga ok Vilborgar dóttur Þorgeirs í Holti undir Eyafiöllum, Valgèrdar systur Þórdar bónda Hallssonar, ok var bodit á Mödruvöllum, kvam þar til mart stórmenni, herra Jörundr biskup, Rafn Oddsson ok Jón lögmadr. Þángat fór ok herra Arni biskup austan or feördum, þar var ok Runólfr ábóti af Veri [3]), Eyúlfr ábóti frá Þverá ok feöldi annara manna, var veizlan nær viku eptir Bartholomæi messo, ok var veitt med hinu mesta kappi [4]). Til þessarar veizlo kvam þá sunnan af Eyrum síra Adalbrandr prestr, med bodskap herra Magnúsar kóngs, þann sem fyrr var afsagt, ok litu þeir formennirnir á hann allir saman, var þat þá talat í glensi, at Þángbrandr væri kominn annat sinn at kristna Island. Þá kvam ok bodskapr herra Jóns erkibiskups, í hverium ordum er hann eggiadi biskupana at halda fram rètti kyrkiunnar sem framast væro föng á, fleiri luti hafdi Magnús kóngr skipat um stiórn ríkisins á Islandi, ok fylgdu því brèfi hin mestu sæmdarmál til hans nú sem fyrrum. Herra Arni ritadi þegar á móti öllum þessum kóngsbrèfum med líkum efnum ok í almenníngsbrèfum stódu hit fyrra sumar, ok þat med at hann hefdi lögleiddan kristindómsbálk, þann sem hann lèt frambera, ok sendi til Noregs undir skodan kóngs ok erkibiskups ok til þeirra umbótar, fóro þessi brèf fyrir nordan land í skip, ok sva þau er andsvörudu erkibiskups bodskap. Snèri Arni biskup sídan í syslu sína til Austfearda ok heim um haustit, var síra Adalbrandr med honum vel metinn þann vetur. Þessa vetur sídan Arni biskup kvam út, hafdi Þorvardr Þórarinsson syslo fyrir sunnan heidar, ok sat hinn fyrsta vetur í Odda. Þadan fór hann til Keldna, ok var þar til þess er

[1]) tíund. *A. B. C. E.* þ. ferd. *Gr.*
[2]) Sigurdarson, *A. B. C. E. Gr.* þ.
[3]) Videy. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[4]) ok alvöru, bæta sömu vid.

hann ætladi at sigla í Vestmannaeyum. Knörr sá hinn mikli er þeir voro á vard aptrreka, vard nokkut feár tión, en allir menn hèldust. Þat sumar andadist sá madr or skipino er Eyúlfr hèt son Þórdar í Lángholti, hann hafdi verit í mötuneyti med þeim mönnum er annar hèt Oláfr son Halldórs Lángs er þá beó í Húsagardi, en annar hèt Þórdr [ok var kalladr Kuggr, son Asmundar er búit hafdi á þeim bæ í Vestmannaeyum er nú er kèndr vid kono hans Vilborgu módur Þórdar, þvíat hún lifdi honum lengr [¹]. Þórdr í Lángaholti þóttist missa penínga þeirra sem hann huxadi á hendr mötunautum sonar síns til eptirleitanar. Þetta mál fèkk hann á hendr Þorvardi bónda til sóknar. Hann bar þat á Oláf, en Oláfr syniadi alls nema matskála nokkurra þeirra sem þeir höfdu haft á bordi, þat eitt kvadst hann ei til skiptis borit hafa. Þorvardr ætladi honum ei annat en heimta med freku frásögn þeirra luta. Oláfr sótti Arna biskup at málino, en þvíat hann hafdi sèna bók spámannsins þess er sva mælir: leitit þèr lagadóms, hiálpit þeim sem þraungdr er, hugleiddi hann at þessi madr mundi ofsóttr verda, ef ei hylpi hann honum, af þyí átti hann nokkrar stefnur vid fyrrnefndan Þorvard um þetta mál, honum eirdi illa þar sem hann hafdi miklar hugarhræríngar, þar er biskup ógnadi honum sverdi heilagrar kyrkio, ef hann lèti ei Oláf ná med eidum at synia þess sem á hann var borit, þvíat Þorvardr kalladi úskylldt at eidar kvæmo fyrir sumt, en sumt væri vidgèngit. Biskup svarar at móti af heilögum *decretalibus*, at ekki átti fyrir vidgongo lítils lutar vítislauss fyrir koma um allt þat er hann vildi á hann bera, sva at ei nædi hann undanfærslum. Um sídir vard þat med biskups trausti, at Oláfr skyldi eid vinna eptir landslögum fyrir málit, ok eptir lögliga bidstund gèkk Oláfr til eids ok sór, en þá er vottar hans skyldo sanna eid hans, eptir því sem þeir höfdo heitit honum, biludu þeir allir, sigradir med fortölum edr ógnarmálum Þorvardar ok kalladi hann Oláf fallinn at máli. Biskup segir, at mennirnir væro unnir med ógnarmálum ok úeinurd þeirra, en höfdu þó ny iátat eidnum, um sídir med gódra manna tillögum var málit í dóm lagt ok dæmt, en á þessari stundu töludu hverigra

¹) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

vinir fyrir Þorvardi, at ei þyrfti héradsdóm á at hafa annan en Oláfr væri sannr at sök ok vidgèngit málino. Þorvardr gèkk þá til dómsmanna ok segir, segit upp dóminn, en hann man ek at eingo hafa, nema mèr gètist[1]) vel at honum, biskup var nær ok mælti: ek fyrirbyd ydr at segia upp þenna dóm, nema Þorvardr iáti at halda hann í alla stadi. Dómsmenn þóttust vant vid kvamnir ok vildo hverigum í móti giöra, ef þeir sæu at sva med rètto væri. Nú þvíat þeir trúdu biskupi framar til sannsynis, segia þeir ei upp dóm. Þorvardi eirdi þat illa ok lèt Oláfi ei úhætt vera skyldo, ef hann legdi ei þetta mál á hans vald. Biskup fyrirbaud Oláfi þat ok kvad Þorvard ei mundu giöra honum nokkut mein, þótt hann lèti grimmliga, þar sem mál voro handsölut ok dæmd at lögum, skildust þeir biskup ok Þorvardr med fullkvaminni úþykkt ok missætti.

19. Sá lutr bar enn til missættis þeirra biskups ok Þorvardar, at einn lítill bóndi ok midlúngi ordsæll sá er Sturla hèt vildi ei selia Þorvardi gèldínga sva údyrt sem hann vildi. Litlu sídar bar sva til, at á einum litlum bæ var sodit um dag. Þeir menn kvamo fyrir Þorvard ok segia, at þessi madr Sturla hefdi hlaupit inn í húsin vaveifliga ok gripit höfud af saud or katlinum ok laupit í brott med ok runnit þeim skiótt hvarf. Þorvardr bar málit á Sturlu ok hèt honum fiötrum, þvíat hann þrætti þessa áburdar. Hann sótti biskup at þessu máli, ok segir sik úsannan at sök. Biskup spurdi hvat manna at honum bar sökina? hann segir honum. Biskup mælti: viltu eidum fyrir standa ef þèr er þess unt? hann kvadst þat giarna vilia. Biskup mælti: ek man rita til hans fyrst ok vita hvat atgiörist, sídan fèkk biskup mann til at bera brèfit, ok sva var giört til Kèldna. Þorvardr lauk upp brèfit ok las yfir, en þar stód eptir kvediu sendíngu: «Sva er mèr flutt, «at þú heitir þeim manni er Sturla heitir, fiötrum edr fèláti, fyrir «þau kènsl er eingi vitni bera at honum, utan vandamenn, þeir «er ei eigu um þetta mál vitni at bera, lízt mèr þetta ekki þín «giörd, þar sem þú átt med þeim manni at giöra, utan þiggia af

[1]) gediist, *A*, *B*, *C*. *E*, *Gr*, Þ.

«honum eineidi, ef þèr líkar þat at hafa, þvíat málit er ei sva «mikit at fleiri þurfi at synia, giörir þú ei sva, þá fyrirbyd ek þèr «at misþyrma honum nè hans eigu, undir slíkri píno sem ek á «á þik at leggia.» Ok er Þorvardr hafdi lesit þessi ord, vard hann reidr ok kvadst ei lögum framm kvama fyrir kappi biskups, en þó syndist honum ei at hætta á hversu biskup hefdi í höndum. Sá lutr dró ok til sundrþykkis med þeim, at biskup tók þann mann til sín sem Kètill hèt ok var son Kètils prests Þorlákssonar, ok lèt skipta peníngum hans med skuldunautum hans, þessi madr hafdi verit ágángsmadr vid bændr, ok voru vídast sakir tilfundnar, sva nokkro lögligar sem verda mátto, biskup setti hann nidr á kyrkioeign í Efstadal, ok lèt hann þar flytiast med hyski sitt, en þegar þeir er síns misto vid Kètil, tóku þá at heimta á hann skuldir, ok med þeim Þorvardr bóndi, tók biskup því máli fyrir Kètil ok kvad hann eingar skuldir lúka skyldu af hans [1]) manna fè. Þorvardi líkadi þetta stórilla ok lèt þó fyrirfarast at leggia hendr á Kètil nè á fè þat er hann fór med, ok kalladist þó lögum ræntr af þeim biskupi ok Katli. Margir bændr lögdo ok mál sín undir biskup, líkadi þat Þorvardi þúngt, en þvíat biskup hafdi iafnan lögunum atfylgt, urdu fleiri fylgèndr þess er hann tók upp ok var þúngt vid at skipta bædi sakir vitsko ok valds ok vinsælda. Á þessu sama sumri er síra Adalbrandr kvam út med kóngs bodskap, kvamo fyrir herra Magnús kóng brèf Þorvardar Þórarinssonar, var í þeim borit vitni, at Sunnlendíngar lèto sèr best fara til hans ok þat fór þó framast Sighvatr Hálfdánarson, sva ok var Arna biskupi borit fagurt vitni, hversu hann fór í öllum þeim málum sem Magnús kóng vördudo utan um efni seálfs Þorvardar, at honum þótti sèr hann þúngr, ok í því brèfi stód sú klausa: «herra, í orlofi at «tala, gèt ek flestum verda ei alhægt at stiórna ríkino, nema þeim «er hann leggr hendr ok höfn [2]) á sem hann vill, er ok sva mikit «ríki hans á landino, at ydrir menn skulo varla sva vid horfa «sem þeir þykkiast hafa mannan til edr skaplyndi.» Þessi ord stódu þar enn í: «á þíngi [3]) voru í sumar rèdu þeir Rafn ok

[1]) heilagra. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) höfud, *A. E.* þ. höfud í hendr. *B. Gr.*

[3]) lögþíngi. *A. B. C. E. Gr.* þ.

æbiskup, höfdo skammt ok medallagi skilvíst, at því er sumum æmönnum þótti, lögsögumadr var úgreidr ok skaut flestum málum æundir biskups dóm ok annara manna þeirra er syndist, af lögærèttomönnum nyttist lítit.» þenna vetur vóru kyrr ein tídindi, um varit andadist Jóhannes pávi innan Pykkisdaga, í hans stad var kosinn kardínall rómverskr, [ok vígdr nær Katrínar messo [1]) ok kalladr *Nicolaus III.* A þessu sama ári andadist Ascatín Beörgvinar biskup. þá sættust þeir vid Magnús kóng um þær klausur í lögbókum er hann hafdi skipadar, en þeir höfdu ei haldit þartil.

20. A þessu ári gaf Magnús kóngr lendum mönnum baróna nöfn ok herra, en skutilsveinum riddara nöfn ok herra, þá sendi hann til Islands Eindrida Böggul ok med honum Nicolaus Oddsson, ok skrifadi med þeim móti þeim brèfum sem af Islandi kvamo [2]). þeim Eindrida fórst vel ok kvamo til Islands ok fóro þeir þíngum um land ok öktudu vída [3]) eyri kóngs med meiri freku en fyrr stód vandi til, þeir tóku hardliga á því er bændr skutu málum til biskups ok undan syslomönnum, ok kölludu þá landrádamenn edr brèfabrotsmenn at besta kosti er þat giördu, þeir bönnudu bændum berliga at lúka matgiafir fyrir þau hión er ei voru tvö misseri, en um helgihöld þau sem biskup hafdi nidrlagt ok um föstr þær sem biskup hafdi vidlagt edr um skript, sagdist Eindridi ekki mundi tilleggia, kvad þat atkvædi Magnúsar kóngs at biskup ætti at ráda helgihöldum. A þessu sumri lèt Arni biskup efna til kórssmídar [4]) í Skálaholti, ok var þat mikit starf. Eindridi Böggull sendi skiótliga biskupi þann bodskap sem til hans var ritadr, en hann ritadi at móti, ok var nærst eptir heilsanarord til kóngsins, at herra biskup þakkadi honum vinsamlig ord ok presentur er kóngr hafdi honum sendt, tunnu víns til messosaungs ok pund vax ok hálfpund flúrs, þar nærst var talat um formenn ok ríkisstiórn á Islandi, ok segir biskup Rafn Oddsson best tilfallinn af íslendskum mönnum til at ráda einn fyrir öllu landi, en segir alþydu mundi hentara at fleiri væro valdsmenn ok þá

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) ok nú var frá sagt ok svo þeim sem hit fyrra sumar komu, bæta sömu vid.
[3]) vísa. *A. E. C. E. Gr.* þ.
[4]) kyrkiusmídis. *Gr.*

mundi minni kostr fram leggiast. Þar nærst segir hann at Jón lögmadr fór vel ok vitrliga í síno starfi, en af Sturlo stód minna gagn en þörf stód til ok þar þurfti rád fyrir at siá, hann segir ok at höfdíngiar vóru úsamþykkir sín ímilli, en allir trúir kónginum. Þar nærst stód sú klausa: at biskup kvadst nær vid alla handgèngna menn vel kvama skapi, nema vid Þorvard, en segir þó eingi sakferli þeirra ímillum, kvadst ok ei þykkiast einn valda ok lèt sèr af þeim einum van afflutníngs, ef kóngrinn vildi áhlyda, en sagdist bidia at hann gæfi honum þat ei at sök fyrr en hann prófadi Þorvard betr hafa haft en sik. Eptir þat veik hann til þess er kóngrinn hafdi gètit um kristindómsbálkinn ok segir sva: «löghättum [1]) þeim er lögteknir varo fyrir tveim vetrum ætlak «hvergi meir fram at halda, en hóf er á.» Marga adra luti ritudust þeir milli Magnús kóngr ok Arni biskup. A þessu sama sumri, er hid tíunda var biskupsdóms herra Jóns erkibiskups, kvam út bréf hans þat hid fyrsta at hann stefndi bádum biskupum vorum til Noregs á tveggia vetra fresti til þess kènnimannafundar sem hann ætladi at halda í Beörgvin, hitt var annat er hann ritadi til beggia biskupanna, bidandi þeim at leysa þann mann er Oddr hèt ok var Þórarinsson bródir Þorvardar, af því tvöföldu banni sem hann stód í þá er hann var veginn í Géldíngaholti, því ödru sem Henrekr biskup bannsetti hann fyrir upptekt þeirra peninga sem í kyrkio vóru bornir í Felli ok í Grímsey ok at Liósavatni, ok sva fyrir rán í Hvammi, er Oddr kalladi sektarfè, ok fyrir upptöku hvals í Grímsey þess er biskup átti, ok hitt annat er hann fèll í á Fagranesi, takandi fyrrnefndan Henrik biskup ok flytiandi í virkit á Flugumyri ok hardliga haldandi í því sama virki med fullkvaminni naudúng, til þess er prestar í Nordlendínga fiórdúngi ok Norrænir menn tóku hann í brott þadan ór öllu klandri Odds ok hans manna, en þvíat Oddr hafdi bodit nokkrar sættir fyrir sik ok fara af hèradi eptir bodi biskups, ef eingi væri annar til, þat hafdi ok Oláfr Oddsson ok Svarthöfdi Dugfússon svarit fyrir biskupi, at Oddr beiddist prestsfundar vid dauda sinn ok nádi ei, hafdi síra Sighvatr kórsbródir af Nidarósi þat brèf af pávanum at

[1]) lögþáttum, *A, B, C, E, Gr, Þ.*

Oddr skyldi af því banni leysast med rádi erkibiskups ok skipan. A þessu sama sumri sigldi Rafn Oddsson, Þorvardr Þórarinsson ok Sturla lögmadr, brutu þeir[1]) vid Færeyar ok vóru þar um vetrinn, en kvamo um vorit til Noregs, fór Sturla þegar þat sumar til Islands. A þessum vetri er Þorvardr hafdi siglt um haustit var vígdr Narfi til Beörgvinar, en Þorfinnr til Hamars. Þetta sumar fór Magnús kóngr med miklo lidi sudr til Elfar.

21. A þessu sama sumri fóru ord milli biskupanna um Odds mál, hèllt Arni biskup til flytis, en Jörundr biskup seinkadi, þótti Arna biskupi til Jörundar biskups kvama at lúka ord á fyrir hvat kvama skyldo eidar Oláfs ok Svarthöfda fyrir þat at málit hafdi í hans syslo giörzt ok hann átti lausn á hino málino, en Jörundi biskupi þótti Arni biskup eiga at lúka á dóms ordi, fyrir þat er honum var í vald gèfit hit hærra málit, ok um sídir fundust þeir á Reykiavelli, at hiáverandi Rúnólfi ábóta af Veri, ok töludu um sagdar greinir sín ímilli ok þær adrar er ádr höfdu þeir ritazt ímillum, at Jörundi biskupi þótti úvíst fè þat til greidslo, sem Hóla biskup skyldi taka eptir pávans orskurdi, en þat voru LXX hundrud, sva mikit hafdi Oddr átt þá hann fèll í sektir[2]), ok herndi ord Þorvardar, at honum þótti bönnin röng þau sem Henrekr biskup lagdi á hann, en sakirnar litlar edr eingar, ok at hann mundi ei naudsynialaust þar sitt fè tilleggia. Arni biskup segir, at fè man físt ok þat man ei fyrirstanda, en Jörundr biskup kvadst þar ei vilia til hafa ord einsaman, heldr raun í hendi. Arni biskup segir at móti, at honum þótti Jörundr vilia gruna sik, en kvad hann ei þess þurfa. Hóla biskup kvadst því tregr, at honum þótti meiri von at þeir mundi fleiri vera sem slíka þykkio hefdu[3]) sem Þorvardr, en kvadst því sídr gruna biskup um þetta edr annat, at hann kvadst af honum vænta bestrar vinátto ok hellstrar, ok til marks um þat sagdist hann vilia allt þetta mál undir hans dóm leggia, þess sem þèr þykkir til mín heyra, en þó lízt þat allmiök sinn veg hverium okkrum. Rúnólfr ábóti átti at gódan

[1]) skip sitt, bæta vid *A. B. C. E. Gr. Þ.*

[2]) mál ok hèradssektir. *A. B. C. E. Gr. Þ.*

[3]) í honum, bæta sömu vid.

lut med þeim ok sinnadi meir med Arna biskupi, ok um sídir segir biskup at þetta starf mundi ei framfara utan hver þeirra gerdi þat sem ætti, ok eptir þat lèt Jörundr biskup taka hesta sína [ok reid nordr til hèrada [1]), en Arni biskup reid heimleidis eptir þat.

22. Þetta sama sumar kvam fyrir Arna biskup prestr sá er Gudmundr hèt, hann var sonr Gudmundar Healtasonar þess er veginn var í Þrándheimi, fyrir sakir áverka þess er hann vann á Þorbergi af Raudsvelli. Prestr þessi var sterkr at afli, úeirinn ok úforsiáll, en karlmadr at lunderni, hann kærdi þat mál fyrir honum at kóngs sendibodar hefdu hrakit hann ok föng hans vid Elfarferiu. Ei miklo sídar fundo þeir Eindridi ok Nikolaus herra Arna biskup, hann spurdi þá hvert satt væri, at þeir hefdu hrakit prestinn ok föng hans sem hann hefdi flutt? Eindridi segir, at þeir hefdu sannliga koppst [2]) nokkut sva, er hann vildi ei at þeir hefdu haft ferioskipit. Biskup tók þá at kæra á þá ok mælti: hverio vilit þèr svara honum fyrir er þid tókut af honum skipit ok þraungdut honum, en köstudut útbyrdis föngum hans? Eindridi segir, at honum þótti hann gnógt tilvinna, þó þeir færdo hann ok föng hans af skipi er hann vildi kasta útbyrdis töskum þeirra er kóngsbrèfin vóru í. Biskup mælti: sè ek eptir ydrum flutníngi, at þid hafit fellt pávabann á ykkr af seálfo verkino, ok dugir med eingo móti at þid sèut ei leystir, ok eigut þid ádr sveria fyrir aflausnina þann eid sem lög kyrkiunnar beóda, en bæta prestinum rètt sinn, þeir tóko því fiarri at bæta prestinum, en hino enn fiarr at sveria, ok horfdi um skeid til hins mesta úsættis. Biskup sá at þetta dugdi ei at þeir færu úleystir í skip, ok tók þat rád, at hann leysti þá eidlaust, en þeir gialdi [3]) prestinum VI merkr Þadan frá var Eindridi hinn makasti ok samdi þeim biskupi hit besta um alla þá luti er kóngr hafdi honum umbodit, lèt hann þat uppi at Magnús kóngr hefdi honum bodit at vægia til vid Arna biskup, en ekki framar en honum líkadi vid Jörund biskup. Eindridi segir, at hann vildi þola at Arni biskup lèti sækia þau mál öll

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ. [3]) guldu. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) vidskipzt. sömu.

at nyum lögum á hèradsþíngum ok fornum kristnum rètti, en kalladi ei rángt þó hinar fornu sektir sèo á lagdar, þótti þó betr at hinar nyrri sèo, hann bannadi ok at handgèngnir menn sækto, ok vóru þeir Eindridi ok Nikolaus bádir vægleidnir [1]) vid biskup, ok biskup var þadan af sva vid þá um allt þat er kónginum var flutt, þvíat Eindridi sagdi því líkara, at þarfyrir mætti biskup ok heilög kyrkia halda því fullkvamligar ok friálsligar sinni sæmd. Litlu sídar sigldi Eindridi Arni biskup ritadi til Magnúsar kóngs um kristindóms bálk, at hann skyldi ráda hverso med skyldi fara, sva ok skip sitt, ok [fèkk mann [2]) til þess, hann sendi kónginum einn frískan [3]) hest, ok kvam vel til skila.

25. Arni biskup hafdi nú látit samka [4]) at peníngum þeim er Lúkast skyldo Hóla biskupi, var þat þó raun nokkur, þvíat Randalín ok frændr Odds var allt úþokkat til hans af hinum fornum málum Henriks biskups, lagdist þar til af peníngum Gudmundar Gríss, er þá var lidinn, XX hundrud, Rafn Oddsson X hundrud, en Randalín [XII hundrud, vóru [5]) ok XX hundrud í búfè, en annat þat sem skorti í gripum ok silfri, hún bad ok Arna biskup at færa Bein Odds í Skálaholt, kvadst þeim stadnum framar unna alls þessa fiár ef sva mætti verda, kvadst ok til legstadar honum þángad skyldi offra einhverium grip sæmiligum, herra biskupi ok stadnum til sæmdar, en bónda sínum til syndalausnar, var nú ok allt þetta fè til reido af tilrudníngi Arna biskups, ef til þyrfti at taka. Annat sumar eptir biöggust þeir bádir biskuparnir til utanferdar á Eyrum, þvíat nordr var ekki skip. Arni biskup sendi þá brèf til Jörundar biskups, at honum líkadi ei annat um Odds málaefni, en þeir leysto hann, fylgiandi brèfi erkibiskups, ok þegar er brèf kvam, bregdr Jörundr biskup vid ok fór nordr í syslo sína allt til Eggsarfeardar, ok virdu sumir honum þat til undanbragds, at ei kvæmist lausnin fram, sumir tóko sva upp at fyrir því at utanferd stód á honum, vildi hann flyta för sinni til þess at hann

1) vagleidnir, *A. B. C. E, Gr,* þ.
2) formann, sömu,
3) frídan, sömu,
4) svínka. *A. B. C. E. Gr.* þ.
5) frá [: XX hundrud vöru, sömu.

mætti fyrr aptr kvama, ok er Arni biskup vissi þetta, brá honum nokkut sva í brún, ok hugsadi þó at láta ei fyrirvinnast, ok nær þíngi sendir Arni biskup Audunn Koll med brèfum til Jörundar biskups, ok segir at hann ætlar sèr til Seilo Seliömanna messodag, ok fylgia erkibiskups brèfi ok bidr at hann skiótist nú ei undan sem ádr hafdi hann giört. Audun fór ferdar sinnar hvatliga ok finnr Jörund biskup á Skinnastödum í Eggsarfirdi ok bar fram brèf Arna biskups, Jörundr biskup las þau yfir, en ritadi ekki at móti, reid Audun sva aptr at hann vissi ekki at giör um ferdir Hóla biskups. Arni biskup reid heiman, sem hann hafdi ákvedit, ok med honum Runólfr ábóti or Veri, Klængr Teitsson ok enn fleiri gódir menn, ok er þeir kvamu í Mælifellsdal, reid Audunn Kollr ímóti þeim ok segir hverso fór med þeim Jörundi biskupi. Arni biskup brá ekki at heldr ferd sinni ok fyrirætlan, ok reid laugarkvöld á fyrrnefndan messodag til Seilo ok sitr þar drottinsdaginn. A sunnodeginum kvamo þángat prestar af Hólum ok segia at Hóla biskup var heim kvaminn ok hann baud Arna biskupi til veizlo á stadinn, en at tekno rádi af förunautum sínum segir hann sik at Seilo bída mundo Hóla biskups. Prestarnir ridu þegar heim ok segia Jörundi biskupi svar Arna biskups. Mánadaginn snimma kalladi Arni biskup til sín fyrrnefndan Audunn, ok þann mann er Þórarinn hèt ok var kalladr Busti son Illhuga prests, hann mælti þá: ekki er ek vanr vid verkstiórn, en þó vil ek nú skipa til vinno, þit skulut grafa upp bein Odds Þórarinssonar ok giörit þat vandliga, sídan skulut þit þvo þau hreinliga ok skipa í kistu þá er vær höfum sunnan haft med oss ok til þess vár gör. Þeir unno þat sem fyri þá var lagt, ok er því var lokit, var kistan sett á gardinn fyrir sunnan kyrkio ok stód sva, ok er lítit leid, siá þeir Arni biskup mannareid í túnit, þar var kvaminn Jörundr biskup, sá hann skiótt hvat þar var athafzt, kvöddust þeir biskuparnir blídliga, ok er Hóla biskup var af baki stíginn ok hafdi kvamit í kyrkio, gèngu þeir sudr á völlinn ok þat fólk sem med þeim var, þvíat Arni biskup vildi þá opinberliga tala um Odds mál, hann beiddist þá af Jörundi biskupi at þeir skyldu framláta lausnir þær er bodskapr erkibiskups stód til, sá er hann lèt þá berliga lesa fyrir öllum þeim er hiá vóru. Jörundr

biskup tók öllu seinlíga en veitti eingi afsvör[1]), fóro þar fram margar greinir, af því var lángan tíma dags yfir þeim málum setit, fylgdi Arni biskup þeim bædi skynsamliga ok mikilmannliga, ok um sídir þá Jörundr biskup vildi honum ei samþykkia, lèt Arni biskup fram *decretalem Innocentii* páva III, [2]) sá er skíran orskurd gèfr í slíkum tilfellum, ok at honum skodudum, gaf Hóla biskup gott leyfi til at Oddr væri leystr. Gèngu þeir sídan med þeim lærdum mönnum, sem þar voru staddir fyrir kyrkíudyr, ok höfdu fram þær *absolutiones* [3]) sem tilheyrdu at leysa fyrrgreind bein Odds af þeim bönnum sem hann hafdi í verit, hvert eptir því sem heyrdi ok lögin budu. Reid Arni biskup þá med öllu föruneyti síno heim til Hóla, ok þá þar fagra veizlo tvær nætr. Tók Hóla biskup þá þau siötygi hundrud er Oddi var kallad í þann tíma er hann fèll í sektir ok bann, hann lagdi þá einga penínga sèr í siód, heldr skipti hann þeim til klaustra, hann leysti ok Arna biskup stórmannliga af hendi med gódum giöfum. Fór hann þá at heimbodi til Þíngeyra, ok veitti þat heimbod Vermundr ábóti. Herra Runólfr af Veri reid þá til Seilo ok hafdi med sèr bein Odds í lítilli kisto ödrummegin á hesti, en tiald þeirra ödrummegin, ok er þeir fara um Mælifellsdal, reid Runólfr ábóti fyrir ok Arni bródir ok Sighvatr med honum[4]). Þórarinn Busti hafdi í togi þann hest sem bein Odds voru á ok fór illa á honum, ok kastadi ofan á hverri stundu ok gèngo í sundr stirk reip á kistunni, en hún var ei um vættar höfga [5]), Busti var miök fornordr. Herra ábóta þótti þetta í móti náttúru [er reip slitnodu[6]), ok bad Þórarinn lètta bölvan, ok segir van at því farist illa [er hann taladi íllt eitt[7]). Busti mælti at verra, en kistan þoldi uppi [sem fyrr[8]) edr nokkro verr. Abóti mælti, nú man ek rída sídar ok brædur, en þú, Þórarinn, skalt fara fyrir ok þit Audun, ok vita hvat athefr. Busti mælti, ekki man at ykkrum skaudum gagn. Herra ábóti reid þá eptir ok las sáluídir,

[1]) andsvör. *C. E* Þ.
[2]) fiórda. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[3]) aflausnir. sömu.
[4]) nokkud fyrir. sömu.
[5]) yfir — þunga. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[6]) vantar í sömu.
[7]) frá [ vantar í sömu.
[8]) því nærri. sömu.

þadan af há [1]) aldrei af hestinum, ok slitnudo aldrei reipin, ok fórst þeim allt hid greidasta til þess er þeir kvamo í Skálaholt. Arni biskup kvam heim tveim nóttum fyrir *translationem* [2]) *beati Thorlaci*, ok gróf þá bein Odds næsta dag fyrir messodaginn ok söng seálfr yfir. Þá offradi Randalín í sálumesso því öllu sem hún átti í gulli.

24. A þessu sumri kvam út herra Rafn Oddsson ok var þá gör merkismadr [3]), ok þá kvam út Þorvardr Þórarinsson. Þenna vetur höfdo Karlar [4]) tekit Þorbiörn Skæni syslumann Magnúsar kóngs ok drepit af honum þriátygi ok fim manna, var hann stundu sídar leystr út med fè. Þá kvam til Arna biskups brèf af Magnúsi kóngi ok vináttosamlig ord, var tiád þat *privilegium* sem erkibiskup gaf hundrad daga í afgift hversdagsliga öllum þeim sem bædu fyrir Magnúsi kóngi ok drottníngunni ok börnum [5]) þeirra, én ádr hafdi pávinn bodit þetta sama öllum biskupum í ríkino, at þeir skyldudu alla lærda menn til þessa bænahalds, fylgdi því *transscriptum* páva brèfs, hèrmed fylgdo tvær tunnur víns ok pund flúrs prestum til messosaungs. Þetta sumar kvam ok til Arna biskups brèf Jóns erkibiskups, í hverin er hann baud þat Arna biskupi, at láta ei kóngsmenn draga þat frelsi undan kyrkiunni sem hún hafdi ádr land kvam undir kóngdóm, þat var at kaupa friálsliga brennistein ok fálka, sva ok at Jórsala tíund [ok — *ejusdem terrae sanctæ* [6]) kvæmu til Þrándheims á þessu ári er útgreidsla þessa feár var skipud. Arni biskup brá ok þegar vid um Jórsalafèit ok kvam þat í Þrándheim, sem fyrr var ritat. Eptir þetta reid Arni biskup á Eyrar, ok lèto þeir út *in festo sancti Bartholomæi apostoli*, en tóko vag í Noregi fyrir sunnan Jadar [*in festo Prothi et Hyiacinthi* [7]) ok lágu þar nær hálfan mánud, ok kvamo til Biörgvinar *in festo sancti Remigii*, ok á þessu ári andadist Vermundr áboti at Þíngeyrum *VIII kal. Januarii*. Einni nátt sídar en Arni biskup kvam til Biörgvinar, bad Magnús kóngr hann kvama útá

[1]) snaradi. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) *transsumtionem*. sömu.
[3]) kóngs. bæta sömu vid.
[4]) Karelar. sömu.
[5]) barónum. *A. C.* þ.
[6]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
[7]) vantar í sömu.

gardinn í málstofu, ok gèkk hann þángat med klerkum ok fylgdi honum þángat herra Narfi biskup, ok er þeir höfdu skamma stund setit, kvam kóngrinn inn, Arni biskup kvaddi hann, en hann tók honum blídliga ok mynntist til hans ok bad hann gudi velkvaminn, ok eptir litla stund gèkk kóngrinn út. Nokkro sídar um daginn kvam herra Ivar Gudlaugsson til biskups ok bar honum kvedio Magnúsar kóngs ok þat at hann bydr honum í bod sitt nærsta dag eptir, en þat var *in festo* [1]) *Francisci*, þvíat hann hafdi þá veizlodag. Margar sæmdir þá Arni biskup af Magnúsi kóngi þann vetr, ok einn dag í iólaföstu þá er hann sat at matbordi, kvam þar inn fyrrnefndr Ivar Gudlaugsson ok bar honum kvedio Magnúsar kóngs, þarmed taladi hann þessi ord til [2]) hans: Ek veit at herra biskup þarf nokkut í bú at afla, nú vilium vèr fá honum hundrad laxa ok skreidar ok hálfa lest malts, ok med oss man hann vera um iól ok þeir hans menn sem hann vill. Var hann med konginum um iól ok páska ok alla veitslodaga, hann þág af honum í iólagiöf baldikinn þat er hann gaf herra Runúlfi ábóta í Veri þá er hann kvam til Islands.

25. At lidnum þessum vetri fèkk Arni biskup þann skada sem sameginligt var allri Noregs kristni [3]), at hinn himneski fadir [4]) [Jesus Christus [5]) kalladi til sín virduligan herra Magnús kóng *in adventu beati Nicolai* í Barin, var sá skadi sva mikill öllu landsbúinu, en einkanliga klerkunum, sem fordum var fráfall hins ágæta Josiæ [6]) kóngs, var þó herra Arna biskupi skiótari skadi at dauda þessa höfdíngia hins dyrdliga, þvíat þá kvam virduligr herra Jón erkibiskup *in festo Trinitatis*, at halda þat biskupaþíng sem fyrr var gètit, ok lagdi á hann úblídu, at því er trúist, fyrir afflutníng edr undirgröft íllgiarnra manna, ok gaf honum þær sakir, at hann hefdi framar en sæmdi verit hallr undir konginn, en minnr undir erkibiskup, at fyrir því yrdi undir fótum trodit frelsi kyrkiunnar. [En hvar hafdi nú Arni biskup fulltíngs at leita er Magnús kóngr var lidinn, ok mátti ei þetta ámæli bera af Arna bisk-

[1]) *beati*, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) krúnu. sömu.
[4]) gud. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[5]) vantar í sömu.
[6]) Josuæ. *A.* þ.

upi, (ok þat vissi at med því hafdi hann ei um lítinn tíma framhaldit kyrkiunnar rètti, at hann trúdi fyrir þessar sínar bidstundir mundi hún áleingdar fagna mega fremra rètti,) nema þat, at treysta á siálfan sannleikann ok segia siálfum erkibiskupi hvad satt var, ok syna honum satt lítilæti [1]), ok iafnskiótt sem herra erkibiskup vissi sannan hans gódvilia til sín, ok sva þat, at hann var sva framarliga búinn at bæta þá luti, ef átaldir væri [2]), [ei at sídr þó at hann þættist fyrir bord borinn [3]), tók erkibiskup hann sem skynsamr fadir í fullkvamna sætt [4]) ok blídu [5]). Nú ef nokkurn forvitnar hverir lutir skipadir varo á þesso þíngi, lesi hann Statúta þau sem biskuparnir giördu, ok ritin standa undir þeirra innsiglum, eru ok þau tídindi mörgum kunn, sem þá giördust iafnframm er herra Eyríkr var córónatus [6]) af fyrrnefndum Jóni erkibiskupi at hiáverendum þessum biskupum, Andresi af Oslo, Jörundi af Hólum, Erlendi af Færeyum, Arna af Skálaholti, Arna af Stafángri, Narfa af Biörgyn, Þorfinni af Hamri, Markúsi af Sudreyum, *in festo Svithoni* [7]) *episcopi*, ok öllum þeim biskupum veitti fyrrnefndr Jón erkibiskup fagra veizlo. A hinni fyrri Oláfsmesso skildi Arni biskup vid hann med miklum blídskap, þá er hann fór heimleidis til Þrándheims, en Arni biskup lèt í haf sídan [8]) Oláfsmesso, ok kvam á Eyrar [*infra octavam assumptionis beatæ virginis* [9]), þá kvam ok þar út Jörundr biskup at Hólum, ok ridu þeir bádir samt heim í Skálahollt biskuparnir fyrir Borthólómæusmesso. Vard allt fólk fegit Arna biskupi, ok var fögur veizla. Reid herra Jörundr biskup skiótliga heimleidis, ok skildust þeir biskuparnir med blídu. A þessu sama ári andadist herra Nicolaus pávi, í hans stad kvam Marteinn pávi. Þá andadist Oláfr Grænlendínga biskup. Þat sama sumar kvam út Lodinn Leppr í Vestmannaeyum med bodskap

1) frá [: en er Arni biskup fornam þetta, fann hann erkibiskup ok tiádi honum allan sannleik med mesta lítilæti. *A. B. C. E. Gr.* þ.

2) ok bevísadist, bæta sömu vid.

3) frá [ vantar í sömu.

4) ást, sömu.

5) ok var med honum optliga sídan, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

6) kórónadr. sömu.

7) *Svithonii.* sömu.

8) sídari. sömu.

9) frá [ vantar í sömu.

hins únga kóngs, ok med honum herra Jón, þeir höfdu medferdar nya lögbók til landsins, þá er kóngrinn baud at lögleida. Lodinn þessi hafdi verit nokkrum stundum [1]) í sendíngum Magnúsar kóngs til ymissa landa, ok sva út í Babilóniam, var hann af þessu miök frægr.

26. Þenna tíma hafdi syslo fyrir utan Þiórsá Asgrímr Þorsteinsson [bródir Eyúlfs Ofsa [2]), hann hafdi verit í fyrstu sudr um land í trausti Arna biskups med hyski síno. Hann átti Gudnyu dóttur Mána or Gnúpufelli, þau átto þessi börn, Eyúlf er átti Gudrúno dóttur Gards or Austfeördum, Mána, er fèkk dóttur Páls af Hvalsnesi med meinum, ok vard um þat ríd mikil, Jón ok Þorsteinn er víglsur tók [3]) af Arna biskupi [4]). Asgrímr var mönnum miök dár af þeim sökum er hann var [med at Flugmyrarbrenno, ok [5]) [med Eyúlfi bródur sínum [6]) í Gèldíngaholti at drápi Odds Þórarinssonar. Fyrrnefndr Eyúlfr bródir Asgríms hafdi áttan vid sinni eigin kono Þorrídi Sturlodóttur, sú var laungètin, son þann er Þórdr hèt ok dóttur er Borghildr hèt, hún hafdi gipt verit þeim manni er Erlendr hèt ok var son Jóns or Asi Sigurdarsonar, en hans misti hún skiótt, eptir þat fèkk hennar Loptr Helgason ok Asbeargar systur Arna biskups, med hans framkvæmd, ok þegar þessar mægdir tókust, vard mikil vinátta med Arna biskupi ok fyrrnefndum Asgrími, fèkk hann med hans fulltíngi ok framkvæmd hveriatveggio syslo fyrir sunnan ok fyrir utan Þiórsá med herra Rafni. En þvíat í þann tíma þótti eingi madr vera, nema hann væri vin Arna biskups, tóku margir at skipta hugarfari til þessa Asgríms. Nú þvíat herra Asgrímr átti einga stadfestu, setti herra Arni biskup hann nidr á þat land er á Baugsstödum heitir nidr á Eyrarbakka. Þat land hafdi herra Arni keypt af Theobaldi Vilhiálmssyni, þeim er átti Margrètu dóttur Barkar Ormssonar [7]) er þar hafdi lengi búit, ok gèfit á móti Dal undir Eyafiöllum, þat

[1]) sinnum. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) tóku. sömu.

[4]) Herra Þorvardr átti þann son er Oddr hèt ok dóttur er Solveig hèt, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) frá [ vantar í sömu.

[6]) med Hrana Kodranssyni, sömu.

[7]) Orms, sömu.

land er Sigurdr biskup tók undir Skálahollsstad í próventu þorrídar Ormsdóttur ok Arnrídar [1]) Biarnadóttur, systur Vigfúsar or Dal. Hafdi Arni biskup í fyrstu þá er hann kvam til stólsins sett í Dal Magnús bródur sinn, en á Baugstadi eptir landaskiptit. Nú fyrir þat at hann rymdi fyrir herra Asgrími, fór hann heim í Skálaholt ok var þar stundum, en stundum í Seltiarnarnesi ok med honum Ellisif þorgeirsdóttir or Hollti þess er fyrr var nefndr, Andreasi syni þeirra lèt herra Arni biskup kènna ok vígdi sídan, en Vilborgu dóttur þeirra gipti hann þorsteini syni Hafrbiarnar Stirkárssonar laungètnum. þessi Hafrbiörn bió í Seltiarnarnesi ok var bródir Runólfs ábóta í Veri [2]), hann hafdi fyrrum átta Vilborgu dóttur þorgeirs or Hollti undir Eyafiöllum, ok var þeirra son Gissur, en í þann tíma átti hann Gudrúno þorláksdóttur systur Arna biskups. þau voro stóraudig af penníngum, ok eingi madr mátti í þann tíma iafnast vid Hafrbeörn at hybylum ok búi síno sá er í bóndatali var, héllt ok herra biskup mikit tal af honum. A þessum tíma var sva miök kært med herra Arna biskupi ok fyrrnefndum herra Asgrími, at eingir menn gátu nær í adra skál lagt en þeir vildu, þar sem þeir stódu einn veg ad málum. I þenna tíma var Loptr mágr Asgríms rædismadr á stadnum í Skálahollti.

27. Sá madr beó í Runa en stundum í Midfelli er Beörn hèt ok var þorsteinsson, hann var gódr bóndi ok átti þóro Hearandadóttur [3]) frændkono biskups. þessi madr var missáttr vid herra Asgrím, hann átti marga sonu, Steinmód ok Sæmund, Eyúlf ok þorlák. Nú þvíat hann var lutseigr madr, hèllt hann um stund máli síno sva at hann gaf eigi upp, ok í þetta mál kvam hann Lopti rædismanni med sèr. Herra Asgrímr sá þat ílla er Loptr mat annan mann ei úframar en hann, ok því leitadi hann þeim bádum sakir at fá, ok því nærst kvamo þeir menn er þat flutto, at þeir Beörn ok Loptr hefdu talat úsæmiligar til kóngdómsins en byriadi, honum þótti, ef þetta prófadist satt, náliga fallit flesk [4]) í kál sitt, ok lióp upp miök vid. þetta giördist á því ári er

[1]) Arnfrídar, *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) Videy, sömu.
[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
[4]) vantar í sömu.

Eindridi [1]) fór med kóngs bodskap. Herra Arni biskup giörir honum þetta í kunnleika opinbert, en Eindridi görir sik heitan hèr um, ok stefnir þeim bádum utan þegar í stad. Þeir fara nú skiótt ok sækia herra biskup at málino, en hann kèmr því vid, at þeir eiga fund at þessu allir, herra Arni biskup, herra Asgrímr ok herra Eindridi Böggull. Þeir Loptr ok Beörn afsaka sik, [ok verdr ei sva áburdrinn at naudsyn stædi til undanfærslo [2]), því vard þat at sætt, at þeir sóru trúnadar eida herra Magnúsi kóngi ok herra Eyriki kóngi ok sva Hákoni hertoga, þeir lögdo til þess hönd á helga [3]) bók, ok því skutu þeir til guds, at þeir skyldo honum hollir ok trúir, leyniliga ok opinberliga, ok hvergi vera í móti kóngs umbodsmanni, þar sem hann taladi lög ok rèttindi. Eptir þat gaf Eindridi Böggull upp utanstefníngar ok sættust þeir herra Asgrímr ok Beörn, varo þeir Loptr mágarnir eptir þat hinir besto vinir. Nú er at segia frá Lodni í annan stad, þegar hann hafdi sèt rád fyrir skipi ok varnadi sínum, fóro þeir herra Jón [4]) þíngum yfir landit med bodskap herra Eyreks kóngs ok herra Hákonar hertoga, ok lètu sveria þeim land ok þegna hvar sem þeir fóro, ok lètu menn skiótt til þess ok til þess at Arni biskup lèt sik sannan vin kóngdómsins, sór fyrrnefndr Loptr frændi hans med bóndum þenna eid.

28. Þann vetur var herra Lodinn med sveina sína í Seltiarnarnesi med fyrrnefndum Hafrbirni, ok veitti hann all-stormannliga ok varo þá kyrr ein tídindi, ok er var kvam, fóro þeir Jón lögmadr þann luta lands sem úfarinn var um haustit, ok er dró at þíngi [5]) biuggost menn til ferdarinnar, hver af sínum hèrödum. Herra Arni biskup reid til þíngs ok med honum mart lærdra manna, en herra Lodinn ok allir handgèngnir menn med honum. A þessu hausti ok um vetrinn höfdu menn sèna bók þá er herra Jón fór med, fannst mönnum sva sem margir lutir væro í henni miök frekir um úbótamál ok adra luti, þá er úhentir

[1]) Böggull, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) frá [ vantar í sömu.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[4]) lögmadr, bæta sömu vid.

[5]) alþíngi, sömu.

varo landsbúinu, biskupi þóttu ok margir lutir í henni móti guds lögum, var þat þá ráds tekit, er hún var skodut, at lögtaka hana ei alla, ritudo þá sèr hverir þat sem ei vildu sæma nè iáta, varo í einn stad biskup ok klerkar ok vinir biskups, í ödrum stad handgèngnir menn, í þridia stad voro bændr. Herra biskup vildi þann kapítula ei samþykkia, at einn væri lögmadr yfir landslögum ok gudslögum, hvert sem kóngr vildi hafa lögmann einn edr fleiri. Sá annar, at um þá luti sem heyrdu til villu, skyldi kóngr einn sektir [1]) aftaka, ok sva um þá er seálfir tíndo sèr, ok sva um úbótamál ok [2]) sva mörg varo nær fiörotygi, sva ok kvennagiptíngar, at hafa dóm yfir hiúskaparmálum þeim sem biskupi einum heyrir, sva ok um sektir kóngs brèfa ok erkibiskups, sva ok um arftöko kono þeirrar er legin verdr í födrgardi ok þeirra sem giptast á laun, sva ok prófan ok dóm hversu hver er lögliga til arfs kvaminn, ok um testament, ok ef karlmadr [3]) kvænist utan frænda rád ok hann [4]) hafi fyrirgiört landskyldum ok ávexti fiár síns vid erfíngia, um arfsöl, at heilög kyrkia haldi rètti sínum [ok því [5]) ödru. Um tíundaskipti á haust ok matgiafa til fátækra manna at þar hafi biskup rád yfir hverir skipta skulo, ok sva um afgiafir helgra daga veidar, ok um kóngs sakeyri þaraf, sva ok um vitnisburdi til landsbygdar [6]), um þat ef sá bydr ei frændum land er selia vill, at fyrir þat megi [ei [7]) kaup riúfa, um ábyrgd landsdrottins, ef hús falla á menn edr fènad, um þat er leigulidar ero skyldugir at hafa sva mörg hión at allar eingiar seó á því landi unnar, um þat ef nokkur þarf hey [8]) at kaupa, ok ver eigandi oddi ok eggio ok skuli hann úgildr, hvert sem hann fær sár edr adrar ákvamur ok eingin myskun ámælt fyrr en hann er ádr drepinn. Um þat at fè sè allt úr afrètt rekit, þegar fiórar vikur lifa sumars. Um þat at kóngr mætti vali veida á hvers manns iördu ef hann vill, en þó samþykkti hann vid bændr, lætr

[1]) uppbera ok, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) at. sömu.
[3]) kvennmadr. *B. E. Gr.*
[4]) hún. sömu
[5]) í því ok. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[6]) landskyldar. sömu.
[7]) þat. sömu.
[8]) í bygdum, bæta sömu vid.

kóngr veida á sínum iördum, ok þó sva at hann leggi verd eptir, utan á kyrkio eignum. Um meinsæra menn ok sakeyri þar af, [um afeyrínga [1]), sva vildi ok herra biskup halda því fullkomliga sem lögtekit var í lögrètto *anno domini MCCLIII* um allt landit, at þar sem ágreindi guds lög ok lanzlög, þá skyldo iafnan guds lög ráda. I annan stad höfdu böndr ritat sèr rollu at þeir vildo þau ord sem í kapítulo standa ok til [2]) kristin-rèttar heyrdu, láta standa til órskurdar kóngs ok erkibiskups. Þar var ok mælt at öll þau kaup hèlldist sem vottar vissu ok handsölut væri prettalaus ok vèllaus, ok þeir menn keyptist vid sem kaupum sínum ætti at ráda, sva ok um giptíngar kvenna ok leigu manna sem um önnur kaup ok þat hafa ok hallda sem Magnús kóngr gaf þeim, at allir menn sèo frelsir í þessu landi sínu gódsi at ráda, um lögaura ok dilkfiáreign, um búfiár ábyrgd ok skildaga er at eingu skal hafa, um ábyrgd á fúlgufè ok hversu af höndum skal lúka, um vinnumenn ok leiguföll, um þiófafærslr ok heytökr, um fiárhald ómaga, um fátækra manna flutníng. Bændr höfdu ok þat ritat í rollu, at öll falskaup [3]) skyldu föst vera þau sem eingis manns rètti væri hrundit í, um heygiafir ferdamanna ok at hver vill ráda heyum sínum ok annari eign, um þat at ei sè seálfr í vedi ef útlagi verdr laus, um ábyrgdir fúlgufeár, um lán ef siálfr týnist med, um manneldi, at reppstiórnarmenn semi, um dilkfè, at þeir eigi sem iörd hafa undir, um vinnumenn ok leiguskèrdi, ef lengr [er úvirkr [4]) en viku, um helgi túns ok akra ok eingia, um lögaura, ok ef nokkot finnst þat í bók er menn þykkiast ei mega vidbúa, þá vilia þeir þat med skynsemd mega framleidis úrbidia.

29. Nú er þetta var aktat, gèngo menn í lögrèttu ok lèt hver uppi þat sem ritat hafdi. Herra Lodinn vard vid þetta miök heitr, at búkarlar geördu sik sva digra, at þeir hugdu at skipa lögum í landi, þeim sem kóngr einnsaman átti at ráda, þar næst krafdi hann almenníng at iáta allri bók greinarlaust, hverir svör-

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) kristindómsbálks ok, bæta sömu vid.
[3]) falslaus kaup. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[4]) liggr. sömu.

udu fyrir sik, at þeir mundu ei giöra at tapa sva frelsi landsins, Lodinn svaradi at móti: at þeir ættu fyrst at iá bókinni ok bidia sídan myskunar [1]) um þá luti er naudsyn þætti tilstanda kónginn ok rád hans. Eptir þat lætr hann lesa kóngsbrèf þat er honum baud at láta lögleida bókina, ok kvad hann reidi mundo sæta þá er ödruvís geördu. Biskup segir: at hann hafi þat brèf Jóns erkibiskups er bannadi at lögleida marga luti þá sem í bókinni stódu, eptir þat lèt biskup hann lesa brèfit, sem giört hafdi verit á næsta þíngi í Biörgyn, þar sem í stódu bönn þau er menn felldu á sik af seálfu verkino, sva var ok lesit í hveriuin atburdum at á mann fèll hit minna bann ok forbod, ok er þat var úti, rómadi múgrinn at úmátaligt [2]) væri at vera undir hvertveggia LX [3]) úbótamála er í bókinni stódo ok XXXV banna er í brèfino stódu, ok er hlióð fèkkst, mælti Arni biskup: nú hafi þèr heyrt brèf Jóns erkibiskups andligs födur ydars [ok hans undirbiskupa [4]), ok megut skilia hversu mikit ágreinir bókina þá sem vèr erum bednir at lögleida ok hans bod, því vil ek liósan giöra mik, at ek man engum lutum iáta þeim er í móti standa hans vilia ok sva þeir sem mínum rádum fylgia vilia, er þat fyrst um valveidar ok lögmanns capítula ok um sættargiörd þeirra Magnúsar kóngs ok [5]) erkibiskups, því þar stendr í at biskup skal lög segia, en ei leikmenn, yfir öllum sökum þeim er heyra til heilagri kyrkio, prófa þær ok dæma, ok sva þat at virduligr Magnús kóngr gaf kyrkiunni undan sèr ok sínum erfíngium ok eptirkomendum, ef hann edr hans fyrirfarendr formenn Noregs ríkia hefdu haft edr syndist hafa sakir nokkorrar hefdar landslaga, nokkut valld edr halld slíkra luta, hann veitti ok kyrkiunni þat privilegium at kóngar skyldu ei mega breyta edr snúa fornum lögum fóstrlanzins edr eign kyrkiunnar í fiárpínd [6]), leikmönnum edr lærdóminum til þvínganar edr úfrelsis, sva ok at forn frelsi kyrkiunnar skyldu halldast um fálkaveidar. Sva vilium vèr ok med eingo móti þola at heilög kyrkia tapi því frelsi, at þar ágreinir gudslög, eptir því sem fyrir löngu var lögtekit hèr í

1) nádar ok vægdar. *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) ómöguligt. sömu.
3) 40. *B. E. Gr.*
4) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
5) Jóns, bæta sömu vid.
6) fiárpínum. sömu.

lögrèttu yfir allt vort land med gódu samþykki allra lanzmanna, ok er hann hafdi þat talat, rómadi múgrinn stórum vel, þat er hann vildi at kyrkian edr alþydan tíndi ei síno frelsi, og er hlióđ gafst, mælti herra Lodinn ok sá um sik nokkut styggliga ok leitadi ráds at leida almúgann frá biskupi í huganum, þvíat hann skildi margmennit honum vilia fylgia ok sinna, ok mælti sva: brèf þetta sem þèr herra biskup lètut lesa, hefir marga luti í sèr sem vèr megum vart mark á kènna, en þó hugdak at ei mundo þeir sem þat giördu þessu mega fyrir alla ráda edr skipa, en þar sem þèr töludut um okur, trúik sannliga at þat sè íllt, ok þeir sem okrkarlar ero sèo [1]) bannsettir, en hvad má hærra okr vera en tíundargiörd (sú hin rángliga [2]) er hèr er á landino? þèr biskuparnir [3]) heimtit tíund af silgium ok silfurbeltum, koppum ok kèröllдum ok ödru daudu fè, ok undrak miök hví landsbúit [4]) þolir ydr slíkar úhæfur ok giörir ei norræna tíund at eins þá sem gèngr um allan heim ok einsaman er nú rètt ok lögtekin. Ok er Lodinn hafdi þetta mælt, stód upp fyrstr herra Rafn ok sagdi, þvíat hann sá at Lodinn mundi auka sèr fylgi med þessum málsendum: herra! segir hann, gód er tíundargiöf [5]) sú er vèr höfum, ok önnr man hverumtveggium klerkum ok leikmönnum úhentari. Herra Arni biskup mælti þá: af ordum Innocentii páva vitum vèr at sú tíundargiörd er ei okur, ok vinnr eingum manni sálartión. Lodinn mælti þá enn: þèr töludut, herra biskup, at þèr mundut fylgia brèfi Jóns erkibiskups ok sættarbrèfi þeirra Magnúsar kóngs ok nyum kristin-rètti, ok at gudslög skyldu gánga yfir lanzlög, en því man hverigu af mèr iátad, ok hvergi kvam ek þar lands nè lagar at sva sèo nokkors kóngs eyrindi [6]) undir fótum trodin sem hèr, ok þó mest af biskupum. Margir lutir varo á því þíngi taladir ok kvamo fáir saman med mönnum, en þó kvam þar um sidir at lögbok var öll lögtekin utan þá kapítula sem handgeingnir menn vildu at stædu til orskurdar kóngs ok erkibiskups. Hafdi öll alþyda þá lófatak um þat, utan níu menn þeir sem biskupi

[1]) rètt, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) takit ok, bæta sömu vid.
[4]) landsfólkit. *B. E. Gr.*
[5]) tíundar giörd. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[6]) rèttindi, sömu.

fylgdu ok ei gèngo til handa þá er almúginn vægdi fyrir valld kóngsmanna, var fyrstr af þeim Arngrímr Teitsson, II. Snorri or Asum, III. Ormr frá Reini, IV. Asleifr Klængsson, V. Eyúlfr son Össumr frá Horni, VI. Sigfús Stobbi [1]), VII. Magnús Pètursson, VIII. Loptr Helgason, IX. ——— [2]). Kalladi herra Lodinn þá landrádamenn, en Lopt því framar, at hann segir hann svarit hafa II eida úfæra [3]), ok bannadi honum at fara af þíngi med biskupi, ok kvad hann vera skyldu í valdi þeirra. Ok er biskup vissi þat, bad hann Lopt med sèr fara, ok sva giördi hann [4]).

30. Þenna tíma ód herra Asgrímr miök uppi, var þá ádr vordinn felldr [5]) fèlagskapr þeirra biskups, þvíat Asgrímr hafdi tekit Geirlaugu dóttur Jóns á Stokkseyri ok barnat, ok er þat vard víst, tók biskup hana af honum ok lèt vera heima í Skálahollti, Asgrímr giördi sik reidan um þat, hann hafdi ok þetta vor ridit [6]) heim í Skálahollt sem Lodinn kvam ádr út um haustit, ok bedit Lopt mág sinn at vera í bragdi med sèr ok bidia bændr at stirkia sik til bús, þvíat manninum var kosthallt fyrir þrennar sakir, örleik ok fiölskyldu ok geymsluleysi. En þvíat Loptr vissi at biskupi þótti hann hafa kastat sèr um til mótstödumanna kyrkiunnar ok frá honum, syniadi hann Asgrími þessa lidsinnis. Hann fór þá ok bad fiár af öllum bændum nokkut utan þeim sem næstir voro stadnum, ok kèndi hann þat undirsetu Lopts, [fyrir því var hann á þíngi erfidr ok tillagasár um mál hans [7]), ok lèt þau ord frá sèr fliúga er honum var mótdráttr í medan í þessu stód. Asgrímr þoldi allar meingiördir biskups ok Lopts heldr ílla, þvíat hann var af þeim velgiörníngum vanr ok skildi hve mikills hann misti, en í annan stad lágu ok biskupi verr Asgríms meingiördir en annara manna, þvíat hann þóttist af honum betra verdr en ödrum mönnum, ok harmadi miök sakir fornrar elsku hans misrædi.

1) Stubbi. *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) níundi er ei nefndr. *B. E. Gr.*
3) úsæra. *A. B. C. E. Gr.* þ.
4) ok var sva um stund med biskupi. bæta sömu vid.
5) fylldr. *A. B. C. E. Gr.* þ.
6) ritat. *Gr.*
7) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

31. Eptir þíng reid herra biskup heim í Skálaholt, en herra Lodinn á Eyasand [1]) ok héllt á búnadi, stód þar á hino mesta sundurþykki, Lodinn kalladi þá menn er ei iátudu lögbókinni landrádamenn ok stefndi utan giörvöllum, en Lopt sagdist hann taka skyldi ok reka naudugan á skip, þar til er höfdíngiar landsins þeir sem til þess voro skipadir ok kóngs starf höfdu í hendi ritudu til hverstveggia þeirra biskups ok Lodins at ei skildust þeir sva úlidmannliga vid sem áhorfdist, voro mest at því af leikmönnum herra Rafn ok herra Jón lögmadr. Kvam þá sva at Lodinn baud biskupi á Eyasand ok veitti fagra veizlo, var þángat þá stefnt fyrrnefndum IX mönnum, ok handfestu IV af þeim utanferd sína, en allir adrir dóm á máli síno, ok svördu eida at veita kónginum fullkvamliga hlydni þadanfrá eptir rèttri skyldo, gafst þá upp at þeir skyldo ei allir utan fara, at herra Lodinn lèt þá ok sannast at hann hefdi of brádliga talat, var þar þá vid herra Jón lögmadr, herra Þorvardr ok herra Asgrímr. Var þá gör at bæn biskups, midlan á milli biskups ok kóngs um sakeyri, á þeim málum sem heyrdu til heidni edr villu, sva ok ef menn töpudu sèr siálfum, at minna fèlli undan erfíngum en bók segir. Þeir ritudu ok bænastad sinn til kóngs, at þat væri ei úbótamál ef madr vegr mann í seálfs síns heimili, ok sva þat ef nokkur madr heimtar giöld eptir úbótamenn ok þó med eingum úfridi. Herra biskup samdi ok at kvenna giptíngar færi eptir bók at höldnum hans rètti til dóma yfir hiúskaparmálum. Þat var ok bæn þeirra, at sú kona sem giptist fyrir utan frænda rád, misti ei arfa sinna, en um sálugiafir skyldi standa til dóms kóngs ok erkibiskups, biskup [hèt ok at dæma hvergi [2]) frekara hèr um en lanzlög segia ádr orskurdrinn væri reyndr, utan fè þat sem klerklar afla af kyrkio skilr hann undan. Þeir samþykkto ok einneg tíundaskipti á haust ok fátækra manna, en ei [3]) þeim Capítula ef menn þurfa hey at kaupa, bádu þeir allir at sú klausa væri orfeld: ef hann ver oddi ok eggiu, sè úgildr, hvert sem hann fær sár edr adrar ákvamur, en ef hann deyr, sè undir kóngs myskun. Þeir bádu ok at sektalaust væri,

[1]) Eyrosand. *A. E. C. E. Gr.* þ.
[2]) lèt ok hvergi dæma. *B. E. Gr.*
[3]) úr. *A. B. C. E. Gr.* þ.

þó fè væri sídar or afrètt rekit en at IV vikum. [þeim samdi ok at þeir menn sem ádr höfdu afeyrínga, hafi at frcálsu [1]). Or bönda brèfi samdi þeim at bidia, at ei stædi sva um heygiafir ferda manna, ok vardveizlo á úmaga eyri. Adrar beidslur þeirra syndust úskynsamligar utan þær sem prófast undir biskups beidslu. Um þessa lùti samdi þeim ekki, at sá sè lögmadr yfir kristnum rètti sem kóngr skipar til, sva ok um dóm ok prófan, hversu hver er lögliga til arfs tekinn [2]), sva ok um þá klausu er stód í kristindómsbálki, at þar sem ágreindi gudslög ok lanzlög, skyldu gudslög ráda, en þó at ei fèlli alt saman med þeim, urdu margir gódir menn fegnir þessari fridsælo þeir sem lutlausir voro allrar undirhyggio þeirrar sem eptir kvam. Fór herra biskup heimleidis ok þeir menn sem þángat höfdu kvamit til þessa máls. þeir biskup ok herra Lodinn skildust þá líkliga med yfirbragdi, ok gaf hann biskupi landtiald gott, þat sem hann hafdi ádr haft á sandinum ok á þíngi, þvíat biskup hafdi honum ádr veitt heimbod ok sæmiligar giafir, vóro þeir þá kalladir sáttir. Sigldi Lodinn nokkro sídar ok herra þorvardr. A þessu ári vard þat tídinda í Noregi at Eyrekr kóngr fèkk Margrètar dóttur Alexandri Skottakóngs í Beörgvin, varo at þeirri veizlo herra Jón erkibiskup ok adrir innlendir [3]) biskupar. þá var Audun Hestakorn hædsti í rádi med kónginum.

32. Eptir þetta flotnudu [4]) upp margir öfundarmenn lærdómsins, þeir sem sinn munn höfdu byrgdan sakir vanmáttar meir en gódvilia, medan sannr fadir fósturiardarinnar lifdi ok sæmd klerkanna, hinn mildi Magnús kóngr, kvam þá fram þat spámæli er hann taladi nokkrum vetrum [5]) fyrir sitt andlát, þá er hann sat med fám mönnum í sínu herbergi ok tók sva til ords: at þeirra [6]) líf væri úfriálst ok med marghàttudum skapraunum [7]) ok erfidligum, ok þeir væro sælir er deya skyldo, en þeim er hiá voro ok

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) gètinn. sömu.
3) innlenzkir. *B. C. Gr.* íslenzkir. *A. E.* þ.
4) flosnudu. *A. B. C. E. Gr.* þ.
5) sinnum. *B. E. Gr.*
6) þetta. *A. B. C. E. Gr.* þ.
7) mannraunum. sömu.

ei litu á annat en hóglífi ok nádir, frid ok farsælu hans, þóttust ei skilia, hví hann mælti slíkt, ok spurdu hvarfyrir hann mælti þetta? hann segir: má vera sem ydr þyki ek ekki [1]) hafi litlar mædur edr vanda í míno ríki, en mèr þykia margar vera ok miklar, en þó at mikill ok margr vandi sè at styra med hófsemd miklo ríki, þá lízt mèr sá hædstr at tempra dóma ok greinir á milli lærdómsins ok leikmanna, sva at ei verdi stór missmíd á, en þeir sem vid hann töludu mæltu: Sva lízt oss sem sá verdi ydr ei mikill, hann segir, sva mikill þyki mèr hann, at sælli væru lidnir en lifendr, munnt þèr þá vita í hveriu er ek hefir stadit, ok strauk um ennit, er siá hausinn hefir í moldu verit III vetur, bar ok þar raun á skiótliga at forrádsmenn ríkisins, þeir sem rád kóngsins voro kalladir, vildu at litlu hafa þær skipanir sem nefndr Magnús kóngr ok Jón erkibiskup höfdu skipat med sönnum röksemdum, briótandi þær nidr med sínum kappsemdum, en hirdirinn sá sem ei var veikr, heldr stadligr stólpi sannleiksins, vildi heldr sitia fyrir reidi þeirra ok hardendum en þegia yfir sannendum, en þeir samneytto þeim er hann bannsetti, vanvirdandi heilaga [2]) kyrkio ok lyklana Petri, en gáfu honum sakir á svabúit ofan, sva sem hann væri nidrbrotsmadr kóngligs valds, ok neyddi almúgann or hófi, en helldi lærdóminum rángliga uppá leikmennina, laust þessi hvassi hvirfilvindr fyrst hiörtu þeirra manna er Noreg bygdo ok knúdi þar kappsamliga kyrkiunnar formenn, en dreifdist sídan til vors útskaga. Nokkro sídar kvamo margar misþykkio greinir upp hèr á landi milli manna. Fyrrnefndr herra Asgrímr heimti skatta ok þíngfararkaup at heimamönnum stadarins í Skálahollti, en biskup bannadi at þau væro greidd, þvíat honum þótti útrúligt at kóngr mundi pynda [3]) vilia Skálaholtsstad um þat er frelsadr var Hólastadr. Þar kvam um sídir at þetta var greidt af heimamönnum, þvíat þeir sátu ella fyrir lögleysum ok reidi Asgríms [Herra biskup hafdi ok, sem fyrr segir, tekit Kètil Kètilsson ok skipt fè hans, ok lauk eingi meira þá er öllu var uppskipt en hinn IV lut innstædu, biskup beiddi uppgiafar

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) vald heilagrar. sömu.
[3]) pínta, *A. B. C. E. Gr.* þ.

um allt þetta, þá er feórdúng tóko. Giördu menn þat margir fyrir hans sakir, sumir gáfu allt upp, en tóko ekki, sumir gáfu ekki upp ok vildu ekki taka utan fullt, en þat var eingi kostr. Gudraudr hèt bóndi sá er bió nidr í Flóa, er hafnadi sínum luta þann tíma er Þorvardr hafdi syslo, hann sótti nú Asgrím at þessu máli, en hann heimti at Katli þessa skuld ok adrar fleiri. Kètill kvadst ei mundi greida þat fè er stód med kyrkiomarki í Efstadal ok segir stad ok biskup eiga allt þat er hann fór med, ok þar kvam at biskup tók Kètil ok lid hans heim á stadinn, því hann þóttist þar friálsligar mega halda hann, en Asgrími líkadi stórliga ílla [1]). Sá madr er Snorri hèt ok var Narfason hafdi kvongast sudr um heidi, en hann var kyñiadr vestan um heidar or Breidafirdi, ok þar beoggo brædur hans, Þórdr at Skardi, en Þorlákr beó í Borgarfirdi á Kolbeinsstödum, þeir varo allir vitrir menn ok vel mannadir. Þessi sami Snorri hafdi tekit med kono sinni land í Hiálmhollti ok annat er Mörk heitir. Loptr biskups frændi bió í Hlyd hinni meiri, þessir menn keyptu um lönd, [tók Snorri fyrst Hlyd af Lopti ok fèkk í móti Laugaland [2]) ok XX. C. vöru, en þvíat Snorra þótti betra ávistar í Hlyd, en í Hiálmhollti, tók hann af biskupi Hlydarland, en fèkk honum at móti Hiálmholt, Mörk ok Þiótanda, ok vóro þessi landakaup vetri sídar en Lodinn skyldi hèdan af Islandi. Snorri þessi var mikill vin Arna biskups ok þeir brædur, fór hann um vorit bygdum í Hlyd med hyski sitt.

33. A þessu sumri kvam skip á Eyrar ok kvam frètt af skipino, at Lopti rædismanni væri utan stefnt, ok kvam honum sú sögn sva hardliga frá ordum Asgríms, at hann var kalladr landrádamadr, ok hann skyldi bóndum taka ok reka í skip naudugan, ef hann vildi ei fara lóstigr, ok eingi kyrkia skyldi halda honum utan Skálholts kyrkia. Asgrímr stefndi skiótt þíng, ok baud Lopti þángat at kvama, en hann fór hvergi ok lèt búa hvílo sína í Katrínar kyrkiu, ok þar svaf hann lánga ríd um sumarit, en þegar skipit var landfast vordit, sendi hann mann til Arna biskups med

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[2]) frá [: ok tóku í móti Laugaland (Laugaból, *A.*) ok Eyri, *A, B, C. E, Gr,* Þ.

brèfum ok gördi honum kunniga þá frètt er hann hafdi fengit um sín efni. Herra biskup ritadi at móti ok gördi útveg fyrir Lopti, ok kvam sá madr ei fyrr aptr en hinir höfdu útlátit er sigla vildu, ok var þat X náttum sídar en hinir kvamo á land. Enn hafdi annat brèf kvamit til Lopts á sama sumri, ok sat[1]) hann bædi. Asgrími eirdi þetta illa, því lýsti hann á þeim hèradsfundum, sem hann hafdi vid bóndr, landrádasök á Lopt, ok taldi kóngi alla penninga hans, hörd ord fóru ok frá honum til þeirra manna er mót bók höfdo mælt, ok at þeir væro allir utanstefndir.

34. Á þessu sumri sigldi af Islandi herra Rafn Oddsson. Þorvardr var ok þann vetur í Noregi. Þenna tíma lióp mikill metnadr í[2]) herra Asgrím, var hann þá ok miök bundinn fyrir kóngs bodskap, voro ok þær einar frèttir af Noregi, at þar skeikadi miök stiórnin sem líkligt var at sloknudum sva, [biörtum landsins[3]) lampa sem var Magnús konúngr, þeim sem sanna raun sanns gódvilia syndi, at um sína daga var miök í loga af eldi tvennrar[4]) elsku, siálfs guds ok sinna náúnga, en í hans stad væri kvamin son hans, sá er barn var at aldri, ok ei hafdi iafnfram sínum födur kènt hve sætr sannleikrinn var, tóko mál fyrir hann lendir menn, sva at náliga voro eingir látnir[5]) refsadir þeir sem landstiórn heyrdu, en hinir siúku hötudu Jón erkibiskup, sem[6]) sannan læknir þann sem ei lèt af at hirta þeirra lyti, ok vildo hann svipta síno valdi sem raun bar á, af því gömbrudu úvinir andanna[7]) ok frelsis heilagrar kyrkio, er þeir trúdo sem skiótt mundu framkvama sinni fyst, vóx ok miök af fyrrsögdum sökum misþykkia þeirra biskups ok Asgríms, er hann kèndi fyrirsátar skuld á sína frændr ok vini ok þreyngda móti lögunum, af þeim er umfram rètt vildu ráda lögunum. Mörg önnur málaferli stódu í milli þeirra, bædi kalladi biskup land undan honum á Baugstödum ok erfidadi honum í mörgu, þar sem honum þótti þat

[1]) sá. *A. C.*
[2]) til. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[3]) liósum. sömu.
[4]) brennandi. sömu
[5]) lutir. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[6]) sinn. sömu.
[7]) naudanna. sömu.

med lögum giöra mega. þenna vetur átti Asgrímr för á Sídu austr, at beida af[1]) fyrrnefndum sakamönnum ad þeir iádu honum utanferd sinni[2]) edr ödru tillæti, en herra biskup ritadi til hins kiærasta vinar síns Runólfs ábóta í Veri, at hann minnti þá á leyniliga, at þeir birtu í eingu vilia sinn edr ætlan fyrir Asgrími, at ei hefdi hann fyrir þat hólms[3]) mun, hann bad herra ábóta yirda hvílíkar honum þótti sakir þeirra at guds lögum, sva ok bad hann þenna sama ábóta skynia ord ok tiltæki herra Asgríms ok giöra sèr kunnigt hveriu hann færi fram. Abóti gördi allt þetta, ok urdu böndr fegnir er þeir áttu van nokkurs varnarmanns, ok lètu Asgrím ekki fáng á sèr fá, þá er hann reid austr þángat. Herra Runúlfr ábóti ritadi ok til biskups hver ord Asgrímr taladi á þíngi í Kyrkiobæ, ok sva at þeir töludu um med sèr at Asgrími þótti mikit at missa vinátto biskups, ok vildi þar allt til vinna þat er hann mætti af siálfs síns efni, ok betra allt ok bæta þat sem hann hefdi mótdrægr verit heilagri kyrkio, ok sva at hann bad herra ábóta eiga lut í at þeir mættu sáttir verda, sva at vandrædalaust mætti standa til þess er kóngr ok erkibiskup greina[4]) allt þat er í milli manna stód, taldi þetta vera hina mestu naudsyn allra þeirra er undir þeim biuggo. Hann bad ok adra eiga lut í at[5]) hann nædi at halda Baugstadi framleidis, ok mælti þetta allt med áhyggio-svip miklum. En er biskup vissi þessar greinir, tók hann sènu or[6]) at þat væri yfirdrepskapr Asgríms at láta fyrir þeim manni líkligast er biskup trúdi framast, þvíat þat[7]) mátti alla tíma diarfliga[8]) segia, at hiá Runúlfi ábóta mundi annar endir mála Arna biskups. þeir urdu ok sáttir á þat, at böndr urdu ei sekir þótt þeir vildu hallda lög ok svarit, ok gánga ei undir þyngri lydskyldu utan naudsyn. Herra ábóti bad ok biskup minnast á hversu hátt hann tók Asgrím í fyrstu ok at sveigia slíkt sem honum þótti mátaligt vera at höldnum guds rètti í alla stadi,

1) herda at. *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) fè, bæta sömu vid.
3) hóls. sömu.
4) at — greiddi. sömu.
5) hann mætti sáttr verda ok, bæta vid *B. E. Gr.*
6) ord. *A. B. C. E. Gr.* þ.
7) hann. sömu.
8) vantar í *A.*

35. At lidnum þessum vetri vóx at nyio úþykkia millum biskups ok Asgríms, einkanliga um mál Lopts, þvíat hann sat þenna vetur í kyrdum, ok fyrir þat er hann kalladi at hann hefdi selda kóngseign Snorra Narfasyni landit í Hlíd, þat er hann átti þenna tíma er Lodinn gaf honum sakir, hann kalladi ok Snorra sitia á útekinni kóngs iördu, fyrir þetta segir hann hverigum þeirra úhætt skyldu vera, utan þeir gèngio at bordi vid hann. Nú þvíat Asgrímr vildi ei aptrgialda skatta þá sem hann tók af stadarins heimamönnum, lysti herra biskup yfir honum forbodi at fyrrsögdum þrimr áminníngum. Enn fèllu þó fleiri lutir til er herra biskup gaf honum sakir ok þeim sem hann hèllt fram kóngs brèfi, um vali ok lögsögn yfir kristnum rètti, ok at ei gèngi gudslög yfir landslög. Þetta vor stefndi hann [1]) Lopti til þíngs þess er hann átti, en hann fór med eingo móti, ok lèt Asgrímr ekki vita af ætlan sinni fyrr en hann kvam til skips. Asgrímr valdi honum mörg digrlig ord ok kalladi hann landrádamann ok eidrofa sem fyrr, en Loptr svarar at móti, at hann hefdi at allra bygdarmanna vitni alla lydskyldu kóngi goldit, ok hvergi úframar, ok hann skyti öllu síno máli undir kóng, ef honum syndist hann í nokkro brotligr vordinn. Herra biskup ritadi ok med honum til herra Eyrcks kóngs, ok stód þar í med ödru, at hann sendi honum Lopt frænda sinn, bidiandi at hann gördi hans eyrindi gott fyrir sinn herradóm, ok þá hollustu sem hann hefdi af födur hans, ok at hann ætladi at rèttindum honum at veita gott ok sæmiligt trúnadar traust í alla stadi sèr til sæmdar, en Lopti til sannrar giptu, ok honum til eptirlætis, ok ödrum þeim sem honum þætti varda, ok lèt hann þat skilia [2]) at ferd hans dvaldist sakir tilfellis, en ei af íllvilia vid kóng. Var þetta ritat II náttum eptir [3]) Laurentius messu, ok var þá ekki frètt til skipa. Þeir Asgrímr ok Loptr mágarnir skildo med eingum blídskap. Þat skip sem Loptr var á tók Noreg, ok kvam hann um haustit til Biörgvinar, ok var í brædragardi um vetrinn, ei kvam hann fyrr fram brèfi því er hann fór med en nær vetrnáttum á Jónsvöllum, ekki gat hann vid kóng talat annat

[1]) herra Asgrímr. *A. B. C. E. Gr.* þ. [3]) fyrir. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) fylgia. sömu.

en heilsat á hann, þvíat honum var bannat at koma í kóngsgard, en þó var hann í minnisdrykkio med hirdmönnum, en var þó utan brautar ok stód undir heitum ok íllyrdum.

36. A þessu sumri fluttist út híngat til Islands þau hin hörmuligu tídindi, sem í Noregi höfdu görzt, er drottníngu gördi daufa frá hversdagligri tída heyrn ok eyru flestra dugandi manna um stundar sakir, en synir myrkranna ráko frá sèr med valldi hid biartasta liós Nidáróss kyrkio [1]) Jón erkibiskup, görandi hann útlægan ok med honum Andres biskup af Oslo, Þorfinn biskup af Hamri ok menn þeirra, kvam þar þat spámanns ord fram, [er fordum var fyrirsagt [2]): lióstа man ek hirdirinn, en hiördin man dreifast, þvíat sídan fyrrnefndr erkibiskup var landflæmdr, kalladi fadir allra miskunsemda hann til sín or harki þessa heims nær iólum. Loptr sendi brèf til Arna biskups ritat undir síno innsigli, med því brèfi Eiríks kóngs ok drottníngar, sem vottadi þá skipan er gör var til Islands, en í því brèfi stódo þessar klausur: «Þat «vil ek at þèr vitit, at ydar mál er miök afflutt í Noregi, voro «mèr synd brèf þau er ritut vóru af Islandi til míns herra med «herra Erlendi, ok má vera þeir þykist ritat hafa nær sönnu, en «ydr þyki heldr frekt, vóro þau ok sva hardliga tekin, at þid «biskuparnir vórut nær því kalladir landrádamenn, ok mest fyrir «þann lut er þèr stódut í mót herra Lodni á þíngi. Margir [3]) «lutir hafa í Noregi görzt milli kóngs ok erkibiskups ok annara «lærdra manna, herra Audun fluttr ok grafinn í banni erkibiskups «í postula kyrkio, ok brotinn stöpull at krists kyrkio af herra «Biarna cancelara til at hríngia mót líkino, ok sva var hríngt um «allan bæinn í banni [4]) kènnimanna, þá var prestum öllum stefnt «út til kóngs ok görvir II kostir, annathvert at vera útlagir, edr «halda fornar sidveniur, ok syngia messur hvar er [5]) biskupar «sögdu, en þeir kusu at syngia. Þá átti herra Audun þíng í Mariu «kyrkiogardi ok vóru þá giörvir útlaga menn Arna biskups af Staf-

1) kristni, *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) frá [ vantar i sömu.
3) hardir, bæta sömu vid.
4) forbodi, *A. B. C. E. Gr.* þ.
5) hvat sem, sömu.

«ángri, fyrir þat er hann vildi ei at þeir gildu leidángur kóngs, «[stukko þeir vid þat or landi [1]), en herra Gautr í Tolgo tók fè «þeirra, slíkt hit sama var gört vid menn erkibiskups í Þránd-«heimi. Erkibiskup hefir marga kóngs menn bannsetta, ok láta «þeir ei sem þeir viti, því bid ek minn herra, at þèr samþykkist «fyrir guds sakir vid kóngdóm sem þèr þykist framast mega, því «betra er at vægiast til góds en bægiast til ílls, því ek veit fyrir «víst, at ei man á Islandi úfrekara gèngit á kènnimenn en nú er «hèr í Noregi at ætlan rádsins. Nú gèfi gud ydr gott rád til þessa «ok alls annars » Loptr ritadi ok annat brèf til herra Arna biskups, hversu Jörundr biskup hefdi svarat kóngsbrèfi, ok þat var sett [2]) (ord edr inntak) [3]) í því, at stadir skyldu í ætt hverfa sva sem fyrr var á öllu Islandi, ok sá kristinn rèttr vera sem stód um daga Hákonar kóngs ok Sigurdar erkibiskups, ok segir at þeir Jörundr biskup hefdi fundizt, ok fór med þeim lagliga, handsaladi herra biskup Þórdi á Mödruvöllum kyrkio luta, ok iátadi upp öllum stödum í Nordlendínga fiórdúngi þeim sem herra Rafni ok ödrum skynsömum mönnum þætti rèttiligt tilkall á vera. Arna biskupi brá nokkut sva í brún vid þessa frètt, en þvíat flestir lutir bitu lítt á hann utan þat ef hann þóttist í nokkrum lutum eigi framhalda rèttindum kyrkiunnar eptir skylldo. Tók hann þat rád at rita til Runólfs ábóta vinar síns, ok sendi honum transscripta kóngs brèfs ok Lopts brèfs, ok bad hann þyda sèr kóngsbrèfit ok þar ofan leggia rád á hversu hann skyldi breita í þessum púnkt, en ábóti ritadi at móti sinn skilníng þann er hafdi sett yfir brèfit, ok þar med þat rád, at hann hèldi sem framast væri föng á kyrkiunnar rètti eptir sinni skyldu ok naudsyn. Þetta haust ritudust þeir biskuparnir margt í millum, hverir þeir stadir væro sem þeim þótti kóngsbrèfit ákveda at taka skyldi, þvíat Jörundr biskup hafdi meiri brögd undir skauti [4]) en stadamenn hugdu, sem sídar bar raun á med framkvæmd. Herra Asgrímr vód nú miök uppi sakir þessara frètta, ok þóttist nú hafa hvíldir [5]) fengit á sínum málum.

[1]) frá [ vantar í *A.*
[2]) sèd. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[3]) vantar í sömu.
[4]) skarti. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[5]) hagldir. sömu.

þetta haust kærdi hann á fyrrnefndan mann Kètil Kètilsson [um landit, en á Snorra um áseto Hlídar lands ok fyrirtektir[1]). Nú þvíat hvergi vildi hafa hans tillögur ok ei festa í hans vald edr kóngs manna, tók hann Kètil á Torfastödum, ok flutti med sèr ofan í Hiálmhollt ok hèt honum mörgum hardindum, en þó lèt hann hann lausan á sömo viko, sva tók hann ok Snorra vid Skaptahóllts rètt, ok hristi fiötur at honum. Af slíkum lutum ok mörgum ödrum svall miök med þeim biskupi ok Asgrími, sva at hann var iafnan í forbodum.

37. þenna vetur fóro menn í millum þeirra biskups ok herra Rafns, ok var talat at þeir mundu hittast at þessum málum, sem í brèfum kóngs ok drottníngar stodo. Um varit var fundr stefndr í Brautarholti á Kialarnesi, ok kvam þar herra biskup ok herra Rafn ok margt annat stórmenni, bar Rafn fram kóngs eyrindi ok brèf þau [er þat var sett í[2]) at allir stadir, þeir sem rángliga ero teknir af leikmönnum, sem æfinliga höfdu sètit á med rètti ok lögligri hefd þeirra ok þeirra foreldrar ok halldit upp skyldum eptir rèttum máldögum, en nú voro klerkar rángliga ásettir, skyldu aptr hverfa undir leikmenn, sem var á dögum Hákonar kóngs Hákonarsonar ok Sigurdar erkibiskups, ok at slíkr skyldi vera kristindómsrèttr í smá ok stóru sem var um þeirra daga, sva ok um tíundir ok alla adra luti, en um fálkaveidar skyldi fara eptir kóngsbrèfum ok skipan herra Rafns, en þeir sem móti gördu, skyldo svara fullkvamno brèfa broti ok kóngs reidi Voro þessir stadir ánefndir: Stadr á Snæfellsnesi, Reykiahollt ok Selárdalr ok adrir sva tilkvamnir, var ok herra Rafn tilskyldadr at fylgia hefdarmönnum til at fá þessa alla, en herra biskup svarar á þá leid brèfino, at kóngr kalladi þá stadi rángliga tekna er ættarmenn höfdu iafnliga ásetit ok haldit eptir skildaga allt um daga Hákonar kóngs ok Sigurdar erkibiskups, en ef ei finnst skilordit til at í ætt skuli gánga, eda or ættinni hafa gèngit vardveizlan med sölum ok kvennagiptíngum, edr þeir kalli tilstanda[3]), sem med

[1]) frá [: um ásetu Hlídarlands ok fiar tekiu, einnin á Snorra, *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) er þar voru sèn. *A. E. C. E. Gr.* þ.

[3]) til stada. *A. C. Gr.*

fè hafa keypt edr þeirra formenn, edr þeir kalli nú til med kóngs valldi edr med biskups valldi voro ísettir, edr þeir sem siálfviliandi hafa uppgèfit í biskups vald, edr þeir sem biskupar hafa skipat á dögum Sigurdar erkibiskups ok Hákonar kóngs ok iafnan biskup fyrirrádit meir en XXX vetra, eda klaustr hafa ástadit, þá finnum vèr hvergi þessara tilkall í brèfino.

38. Herra Rafn segir, at hèr lágu til slíkar atgiördir sem í Noregi vóru fram hafdar, ef biskup vildi ei samþykkia kóngs bodskap, herra biskup sá þá mikinn vanda á tvær hendur, hann sá, ef hann lèt ekki af sínum mun [1]), at margr madr úverdr ok saklaus mundi gialda þessa sundrþykkis, en kyrkian ok lærdómrinn mundi vera vanvirdr, því leitadi hann þess ráds, at fyrir náda sakir fólkino syndist hann at samþykkia at þola bodskapinn, ok eptir margar greinir ok lángt vidtal iádi hann at þola sakir gódvilia vid virdugligan herra Eirík kóng hinn kórónada ok herra Hákon hertoga, sono ágæts Magnúsar kóngs ok frú Ingibeargar drottníngar, þar til er skipadr verdr erkibiskup til Nidaróss, þann bodskap sem þetta brèf vottadi, er herra Eiríkr kóngr sendi med herra Rafni, eptir því sem herra Jörundr biskup á Hólum hafdi þá iátat fyrir sína hönd at þola, ok ei sèo í móti skyldri hlydni vid almáttkan gud. Herra Rafn hèt á móti þessum lutum Arna biskupi, at tíund skal greidast af kóngs eignum biskupi ok heilagri kyrkio, þeim öllum sem hann á ok undir hann kunno at falla í Skálaholts biskups dæmi, ok halldast sá rèttr biskups stólsins sem stód ádr [hann var biskup [2]), ok honum þolist þvílikt sem herra biskupi at Hólum, ok ei sè önnur þyngsl á þessi ofan lögd af kóngs mönnum vid heilaga kyrkio ok herra biskup edr hans vini nè adra menn, ok eptir þetta stirktu þeir sín iáyrdi ritut med sínum innsiglum. Þar kvam þá ok herra Asgrímr ok sömdu þeir herra biskup þá um skatta ok þíngfararkaup þau sem hann hafdi tekit um III ár af heimamönnum [3]) stadarins í Skálaholti, at hann skyldi þau útgreida um varit [4]) í hendr Hafrbirni, eptir þat leysti

[1]) tilrakna, bæta vid *A, B, C, E, Gr. þ.*

[2]) vantar í sömu.

[3]) biskups ok, bæta vid *A, B, C, E, Gr. þ.*

[4]) eptir, bæta sömu vid.

biskup hann af forbodi síno, því er hann hafdi hann í settan medan hann vildi ei greida. Af þessum fundi reid herra biskup heim, en þeir herrarnir í syslur sínar, ok skildu þá med blídu. Á þessu ári andadist Marteinn papa ok Karl kóngr á Póli [1]), Pètur biskup í Orkneyum, [ok Magnús iarl Magnússon þar enn í Orkneyum [2]). Eingi var þá enn biskup fenginn til Nidaróss.

39. Á sama vori ok þeir biskup ok Rafn Oddsson höfdu fundizt í Brautarhollti, kvamo saman formenn landsins ok adrir handgèngnir menn, ok med þeim bændr ok alþyda, at fylla med verki þá ætlan, er þeir höfdu fyrrum samþykkt í hiarta ok stadfest med tilskipan túngunnar, en þat var at taka af lærdum mönnum [3]) kyrkio eignir þær sem þeir hèlldu ádr at giöf edr skiptum [4]) biskupanna med valdi, en ei med iafnadi, med lidsfiölda, en minnr med skynsemd edr rèttindum, en þó at margir þeir er meir elskudu myrkur èn liós rèttindanna fögnudu því er kristnin tapadi síno frelsi, var hinn þó sva stór mikill fiöldi mannfólks er styniandi stód í þessu verki, sakir hrædslu fiárláts, edr sviptíngar sæmda, ef þeir syndu sína alhuga ödruvís görandi en þeir sem brèfin báro þyddu þau, voro ei at eins í þessari tölu múgamennirnir, heldr ok margir handgèngnir, þeir sem þat visso fyrir hvern flutníng þessi brèf voro fengin, at kyrkiunum væri ei meira frelsi gèfit, en at hallda sva mörgum lærdum mönnum kost á hverium XII mánudum, slíkan sem forn sidvenia er, ok at móti því sem máldagarnir votta, at allar kyrkiur ok eignir þeirra eru gudi gèfnar ok hans helgum mönnum, hvert sem þat er land edr lausir aurar [5]), ok þat sem fylgir edr til kyrkio liggr, sva ok at med þeirri grein sem landslög bióda undir píno XII aura gialdds, ef madr tíundar ei eign sína í fösto ok lauso á hverium XII mánudum, en þessar eignir hefdi eingi tíundat frá upphafi kristindómsins á voro landi sem gudi voro gèfnar, sem máldagarnir votta, utan af einum Hítardal gallzt tíundir ok fátækum mönnum einn saman þeirra fiórd-

[1]) Polen. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) frá [ vantar í sömu.
[3]) stadi ok, bæta sömu vid.
[4]) skipun. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[5]) peníngar. sömu.

úngr, ok þó at þessir lutir skorudu samvizkur manna á forn lands kaup[1]), voro sumir menn hærri vizko, þeir sem kunno siá ok lesit höfdo lögtekna skipan postulanna, pávanna ok kènnara kristninnar, ok allt þat sem gudi er gèfit ok helgat, at vera undir sameiginligum lögum, at vera undir vernd ok valdi, skipan ok forsiá biskupanna ok lærdra manna, nema framar tækio þeir af kènnimönnum í vild þeirra ok gódri samþykkt, ok at þær mego ei eignast nè í erfd takast, hafast nè halldast forsvaranliga[2]) af leikmönnum utan sálutión siálfra þeirra, voro ok ei at eins margir á þessari trú, þeir er heima sátu, edr hiá þess háttar framferdum stódu, heldr ok þar med þeir sem siálfir tóko fyrrnefndar[3]) sakir kyrkiunnar, ok giarnan vildu hafa þagat ok heima setit, á þá leid sem Júdum[4]) fór[5]) med fagnadar processionem[6]) á pálmadegi móti vorum herra, þordu ei at veria líf hans á pínslar degi hans, ok var þó at hverio ei umskipt med öllu trúan heldr þrotin, ok sva sem Júdar þessir sömu fögnudu [litlu sídar Krists upprisu[7]), fögnudu ok margir huerir af innsto hiartans rótum skamms bragds leidrètto lærdómsins.

40. I þessum fardögum var herra Arni biskup vís vordinn at leikmenn höfdu samanbundizt at setiast á kyrkio eignir, únytandi med öllu þann skilníng brèfsins sem af höfdíngiunum kvam hit fyrra sumar, sem herra Arni biskup ok Jörundr biskup ok Runólfr ábóti í Veri höfdu allir samantekit, til þess at ei syndist þeir taka kóngs rád framar en væri sekt á vid gud fyrir þreyngíng lærdómsins, ok hins annars at ei syndist þeir samþykkia uppá kyrkiuna ágáng leikdómsins, ok þess hins IIIa at þeir væro ei aptrhaldsmenn edr nidrbriótar þeirra skynsemda sem fornir menn ok lögfródir hèr á landi vottudu, bædi eptir sinni samvizko ok sannsyni ok sinna fyrimanna, at traudt edr ei mundi finnast sú kyrkia edr kyrkio eign

[1]) fornum landskap. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) forsómliga. sömu.

[3]) fyrir grimdar. sömu.

[4]) Júdas. sömu.

[5]) ok þeir er fóru, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[6]) professionem. *C. E.* þ.

[7]) vantar í sömu.

at ei mundi nú eiga at vera undir biskupa valdi, ok þeir mundu ei fengit hafa fyrir þat er skilord þeirra ok máldagar voro ei haldnir, ok vída gripum þeirra edr eignum sukkat eda siálfar þær sölum seldar edr kaupum keyptar, þó med fornum landsrètti væro sóttar. Ritadi Arni biskup í allt sitt biskupsdæmi at eingi madr skyldi greida leikmönnum neitt þat land er kyrkia ætti, nè nokkurn part þeirrar eignar, sá sem ádr hèllt þær af honum fyrir geöf edr skipan, heldr skyldo þeir votta at leikmenn tóko allt þat kyrkiunnar var móti þeirra vilia, at ei yrdi sva illa at þeir syndo sik úmáttka at fá sæmd aptrgialdsins, ef þeir syndust samþykkir úsæmd brottrekstursins, höfdu flestir þat ok í heilrædi, ok ráko sumt í brotto þat sem þeirra var, en bönnudu þat sem kyrkiunnar var, sumir budu [1]) or stad, ok lèto þá sem til kvamo, ætla sèr þat er ei vildu hafa, sumir gördu margan úgreida þeim sem tóko, sva at þeir urdu siálfir fè at safna edr sækia þángat sem var, þat er þeir vildo sèr skèpia [2]), vóro þá teknir þessir stadir, Oddastad tóko [Steinvararsynir [3]) Sighvatr ok Loptr, riúfandi dóm Jóns erkibiskups, ok gördi herra Sighvatr þat meir fyrir ákall ok fríun lögunauta sinna [en sinn vilia [4]), sem sídar bar raun á, fór þá Grímr prestr á Breidabólstad í Fliótshlíd, Eyúlfr Andreasson tók Hraungèrdi, Hámundr [Narfi ok Skúmr [5]) Gardastad af síra Oláfi Magnússyni, Snorri Ingimundarson tók [med Páli ok Lopti [6]) Kètilstadi í Hítardal af Jóni presti Hollta, er þar hafdi verit nær XL ára. Oláfr Arnórsson ok Brandr Gudmundarson tóko Stad á Snæfellsnesi af síra Tiörva [7]), Skúlasynir tóko Stad undir Hrauni, [þórdr ok módir hans tóko Kvennabrekko stad af Eyúlfi presti Halldórssyni, þórgils Hauksson tók Setberg, Stafaholt var ok tekit [8]), Biörn Dugfússon tók Hiardarhollt, þorgrímr Einarsson tók Stad í Steingrímsfirdi, Selárdal tók Thómás Svartarson [9]), Eirekr Mardarson

[1]) bidu. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) skèfia, sömu.

[3]) synir Hálfdánar ok Steinvarar Sighvatsdóttur. sömu.

[4]) frá [: edr höfdíngia ok vina. sömu.

[5]) frá [: ok Sturla. sömu.

[6]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[7]) Torfa. sömu.

[8]) frá [: Kvennabrekka ok Setberg vóru ok teknir, item Stafaholt. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[9]) Svartasóti. *B. E. Gr.*

ok Sveinbiörn Súdvíkíngr tóko Hvaleyrar [1]) kyrkio í Önundarfirdi [2]), Klement tók kyrkio undir Gnúpi í Dyrafirdi, Einar Þorvaldsson tók kyrkio í Vatnsfirdi ok rauf dóm herra Jóns erkibiskups [3]), í Austfeördum tók Magnús kyrkio eign í Asi, Vidnæmr ok Skèggi tóko Þvottár kyrkio ok allt hennar góds.

41. Af þessum fyrrsögdum sökum má hver er þessa frásögu heyrir [hrósa því [4]) hversu miök þann tíma mundu sundrþykkiast hiörtu manna, leikmenn kölludu at biskup rifi sáttmál þat er gört var í Brautarhollti, er hann lagdi úblídu á þá sem stadi tóko ok lèt lysa at þeir væri at úvild hans teknir, virdandi eingis þann púnkt er hann iádi at þola, en ei at samþykkia, ok þó þat eitt er ei væri móti skyldri hlydni vid gud, en biskup segir, at þeir skildu offrekt kóngs brèfit ok færdu hans ord afleidis, ok hann hefdi sva sem Hólabiskup iátat at þola rètt skildan kóngs bodskap, sagdist ok laus sinna ummæla vid þá, þar sem þeir rufu sín ummæli vid hann, ok stód med þessu fram til þíngs. Nú þvíat Arni biskup hafdi skilit á, at Asgrímr skyldi aptr greida IIIa vetra þíngfararkaup ok skatta, þá er hann hafdi tekit af stadarins heimamönnum, heimti Hafrbeörn skatta af honum, ok fèkk ei fyrir þíng. Herra Asgrímr var þá kvaminn bygdum í Tradarhollt, þar hafdi hann látit húsa sèr til vara styris, ef biskup tæki af honum Baugstadi. Eyúlfr son hans átti Gudrúnu Gardarsdóttur [5]) or Austfeördum ok unni lítit, en fylgdi Ingibeörgu af Stokkseyri dóttur Jóns er þar hafdi búit, líkadi biskupi þat illa ok gazt lítt at, vildi Eyúlfr honum ei rètt göra af máli síno, skildi þat ok enn miök med þeim Asgrími födur hans.

42. At Pèturs messo reid herra Rafn Oddsson til þíngs ok med honum herra Erlendr ok herra Asgrímr ok herra Jón lögmadr ok feöldi annara manna [6]), var þá gèngit í lögrèttu ok lesit

[1]) Hvaleyar. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) Hollts kyrkia í Önundarfirdi var ok tekin, bæta sömu vid.

[4]) siá ok merkia. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) Gardsdóttur. sömu.

[6]) höfdíngia. sömu.

brèf kóngs ok drottníngar ok aktat af leikmanna hendi, hversu prestar höfdu af stödum gèngit, þótti þeim ekki haldit vid sik af biskups hendi edr prestanna, ok eggiudu sumir herramenn ok sva margir múgamenn herra Rafn ok lögmennina at lögtaka allt sem í kóngs brèfi stód, ok med þessu atkalli var upp lesinn samníngr sá sem í Brautarhollti var gör ok sva brèfit ok tekit höndum upp í lögrètto ok stadfest þetta allt med lófataki, ok margt var annat talat á þessu þíngi. Þessi frètt kvam brátt í Skálahollt, biskupi brá skiótt í brún, ok kalladi at þeir hefdi leidt inn nyiar skipanir móti frelsi kyrkiunnar, ok er þessi frètt ok hans upptekia kvam á þíngit, ritudu þeir herra Rafn ok lögmennirnir ok adrir hinir bestu menn til hans, bidiandi at hann ridi á þíngit med ábótum ok prófóstum [1]) sem hann mætti ná, ok at þeir endrsemdo samníng sinn ok þat sem á millum stód, budu þeir at láta ei vid varda [2]), þá er samtal væri vid [3]) Erlend ok Asgrím, at því heilligar [4]) yrdu or höggnir allir þverúdar þreskyldir af beggia hendi, ok sem þessi brèf kvamo til biskups, sá hann at þeim herramönnum III þótti ei vid sik haldit allt af prestanna hendi, en vissi á sik, at honum þótti ei vid sik haldit þat sem honum var iád, ef hann þildi kóngs bodskap, ritadi hann at móti eptir tekit rád af þeim mönnum er hiá honum voro, at honum líkar vel at þeir talist vid í nádum, at fráskildum þeim mönnum er líkligt má þykia at úgreidi standi af, ok at þeir heiti honum ok hans mönnum í gridum at fara á þíngit ok af þíngino, skoradi því biskup þessa luti, at honum kvam leyniliga sú frètt, at gört mundi vid hann sem vid erkibiskup var gört ok haldit mundi biskups tíundum ok at eingo hlydt biskupi, ef hann iátti ei at halda kóngs bodskap, fór þá Magnús Pètursson mágr biskups ok Kètill Kètilsson, þeir sem ádr voro af þíngino til biskups sendir, aptr á þíngit med biskups brèfi, voro ok nokkrir lutir í einkamálum sem [þeim tveimr bar í millum biskupi ok Rafni [5]) ok þeir einir visso, ok iafnskiótt iádi Rafn

[1]) ok prestum, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) vera. sömu.

[3]) vantar í sömu.

[4]) helldr. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) frá [: Magnús bar millum biskups ok R. sömu.

biskupi gridum slíkum sem hann beiddist, fór þá Jón Hollt heim í Skálahollt ok sagdi biskupi þetta, reid hann þá skiótt á þíng, en þvíat honum þóttu klerkar þeir sem á þíngino höfdu verit, ok ei átto at afsakast fyrir fávitzko um þat er þeim var skyldt at vita, hafa í bann fallit hiáverandi ok samþykkiandi því er leikmenn lögleiddu, brèfum lysti hann er til hans kvamo, ok mælti í fyrstu, at allir þeir sem í lögrèttu höfdu verit, væri í slíko banni, þann dag var gèngit í lögrèttu, ok var biskup miök heitr fyrir sagdar frèttir, hann spurdi þegar opinberliga hvad þeir hefdu lögleidt á þessu þíngi? en herra Jón lögmadr hafdi svar fyrir þeim ok var blídr í máli. Biskup mælti þá, sva er mèr flutt at þèr hafit greinalaust allt þat lögtekit sem í kóngs brèfi ok drottníngar er ritat, því sem í fyrra sumar kvam til Islands, ok brotit biskupa brèfit þat er ek lèt lesa í þessari lögrètto sem nú stöndum vèr í, ok leidt sva inn med lófataki nytt úfrelsi móti heilagri kyrkio, þat má ok ei annat skilia en at þèr sèut af siálfu verkinu, ef þetta er satt, í hit meira bann fallnir. Jón lögmadr svarar þá, vèr höfum þat lögleidt, at sú sætt skyldi haldast sem í Brautarhollti var samin. Er þessi svör heyrdi biskup, mælti hann, er nokkut sva fleirum gèfit en þèr sem nú mælir þú? Þá svara nær allir, at þetta væri nær allra þeirra ástundan, sem hann hefir einn iád. Biskup mælti, giarnan vil ek því trúa hèr um sem best sæmdi, en skiótt munut þèr siálfir bera ydr vitni um þetta, sídan tókst tal med þeim ok varnir af beggia hendi, hvad hverium þótti ei haldit, kærdi biskup á þat at þeir einir hefdu glósat brèfin sèr til handa ok kalladi lángt gèngit um þat fram á kyrkiuna sem þat vottar ok rèttskilit er, ok færdi fram sína glósu ok herra Jörundar biskups ok herra Runólfs ábóta í Veri [1]), hann sagdist ei hafa fengit þat frelsi stadarins í Skálahollti ok hans heimamönnum, sem iafnan stód ádr landit gèngi undir kónginn ok iafnan hèllzt á Hólastad ok honum var iátat í Brautarhollti, ok syndi med fullum skynsemdum at kóngar urdu aldri fremri þegnskyldu stadarins [2]) eigendr, en þá er landit kvam undir þá; höfdu landsins for-

[1]) Videy, *A, B, C. E, Gr,* þ.

[2]) heimamönnum, bæta vid *A, B, C, E, Gr,* þ.

menn átt ok haft, ok í þesso ákalli leiddo syslomennirnir nytt úfrelsi móti forno kyrkio frelsi, þar nærst tiádi hann ádr landit kvam undir kónginn gialdast af hvers manns eign tíund biskupi ok heilagri kyrkio, kènnimönnum ok ölmösumönnum, en nú svipto kóngsmenn þessu frelsi frá þeim sem hafa átto, hvervetna þar sem undir kónginn fèllu eignir fyrir sakferli edr kaup edr giafir, ok þat mátti kyrkiunnar skadi verda sem lengr stædi kóngs vald á landino, ok mætti ei sva búit standa, hann taldi ok þar nærst um fálka veidar, at kóngsmenn tæki þær móti fornu frelsi af kyrkio eignum, hann taldi ok um tolla Hollts kyrkio í Önundarfirdi, at þat væri rángliga undan henni dregit, hann taldi ok á þá um þat at þeir meinodo honum nyan kristinrètt, þann sem skipadr er eptir heilögum decretum fyrir þá skynsemi er þat voro hèr lög á landi fyrr, ádr þat kvæmi undir kóngs vald, at guds lög rèdo þar sem þau greindi á ok landslög, ok þesso síno frelsi mætti kyrkian med eingum kosti tína, ok segir at kóngsmenn tóko rángliga á sik dóma ok lögsögn yfir andligum lutum. Hann sagdi ok at kóngsmenn giördu rángt er þeir þyngdu edr lögræntu frændr hans ok mága edr starfsmenn, fyrir þat er þeir skildo ei vid hann, en þar sem hann vildi ei láta rèttindi sín edr heilagrar kyrkio fyrir þeim, voru þessar sakir flestar gèfnar herra Asgrími ok Eyúlfi syni hans, þvíat biskupi þótti Asgrímr reist hafa rángliga mörg mál, fyrst á Lopt frænda sinn ok Kètil Kètilsson, þar nærst á Snorra í Hlíd ok marga adra, sva þótti honum frekt sett á þá sem herra Lodinn gaf sakir, þvíat þeir voru þá enn ei friálsir vordnir, hann taldi á vid Eyúlf um kvonarmál ok um tíundarhald ok um osttoll ok um eidfall ok um vopnaburd í kyrkiur, hann taldi ok á Asgrím fyrir þat er hann gaf þeim mönnum sakir er málum skutu undir biskups dóm, sva ok um ord þau er hann hafdi talat til nidranar heilagri kyrkio, hann lèzt ok ei annat þola mundu, en Nidaróss kyrkia hèldi hèr á landi síno forno frelsi ok fálkakaupum, flutníngum brennisteins ok miöls ok annara luta, hann segir ok at þeir mundu ei neinn samníng vid hann göra, utan kóngsmenn gördu honum rètt ok heilagri kyrkio, sva Asgrímr ok Eyúlfr son hans sem adrir, sva ok at hann megi halda því frelsi at skip stadarins gèngi, þar eptir segir hann at hann vill at herra Rafn ok adrir kóngsmenn

fái af þíngi [1]) aptrkvamo Lopts, ef hann hefdi ei ádr ordlof fengit, eptir þat sagdist biskup í eingan stad ábyrgiast vildu þau kyrkio fè sem herra Rafn hefdi taka látit, ok bad hann þar sídan öllu fyrir svara, hann sagdi ok at stadr í Odda ok Vatnsfiardar kyrkia ok þær kyrkiur sem fornir máldagar segia biskup eiga at hafa vald yfir, má eingi þyda at takast eigu fyrir kóngs bodskap. Þá er herra biskup lauk sinni rædu, gèkk fram síra Jón Hollt ok kærdi Snorra bónda Ingimundarson ok Kètilssono, at þeir hefdu úlögliga tekit fyrir honum kvikfè margt, ok beiddi biskup heimta at nynefndum mönnum fulliga sitt rèttindi, en þeir svörudu at móti, at þeir hefdu ei meira tekit med herra Rafns rádi, en þeir átto at hafa.

43. Um alla stund þá er herra biskup taladi, hlyddi herra Rafn ok adrir kóngs menn, eptir þat mælti hann: undarliga víkr nú vid, þeir gèfa oss nú sakir, er vèr hugdum at oss ættu sakir at bæta, þeir kalla oss at hafa rofit vort sáttmál, ok þeir kalla oss at hafa gèngit yfir kóngs brèf, er oss þykia brotit hafa þau sömu brèf, en vèr höfum því sídr yfir þau tekit, at vèr höfum þeim vída vanfylgt, þvíat enn ero þar margar kyrkiur úteknar, sem brèfin segia rètt teknar, vilium vèr því sídr nidrbrióta kyrkiunnar frelsi, at vèr fáum enn ei vort fornt frelsi, enn þótt herra biskupi lítist sem [2]) klerkar muni tapa þeim röngum yfirgángi sem þeir hafa nú haft um stundar sakir, ok hóti þeir oss fyrir þat hardendum, þá hliótum vèr þat at þola eptir því sem gud vill, fyrir skulld míns herra kóngsins, sva vitum vèr at eingi á voro landi á lögum at ráda utan kóngr, en um heimamenn Skálahollts stadar, tíundir af eignum míns herra, flutníngar ok frelsi Nidaróss kyrkiu, ok sva um fálkaveidar á kyrkio eignum, hefir biskup mikit til síns máls, þó mèr þyki slíkir lutir nú í kóngs valdi vera, sva ok þykir hann oss þat rèttliga heimta mega, at sva handgèngnir menn sem múgamenn svari þeim sökum sem forn kristinrèttr segir á þá, en hinum fyrirbiódum vèr undir slíka píno sem kóngsbrèf vottar, at hlydi neinn, meiri madr nè minni, í smáu ok storu. Ek vil ok

[1]) konungi. *B. E. Gr.*

[2]) er, at. bæta vid *B. E. Gr.*

at allir viti er til minna orda spyria, at mèr þykir sú sætt rofin, annathvert af biskupi edr prestum hans, sem í Brautarhollti var gcör, ætlak mèr ok at taka til Norrænna dæma, nema þat sè haldit hèdan af er mèr þykir ei híngat til haldit, med rádi minna lögunauta. Ok er herra Rafn lauk síno máli, mælti Arni biskup til hans, ok litadist um sik högliga sva talandi.

44. Þat er almáttkum gudi þakkanda, at þú herra Rafn sèr at í sumum stödum stendr kóngs bodskapr móti fornum guds rètti ok vorum bodskap, en hitt er stórliga miök harmanda, at þú trúir at forn úvandi sá sem á vorum landskiálka var upptekinn um leikmanna forrád á kyrkium, megi ei rèttiliga nidrbriótast, med þeim rökseindum sem allr heimrinn heldr ok af pávanum ero allir skyldadir til at halda, þvíat rángligr kaupmáli ok af siálfum rèttindum únytr má ei band nè hald fullkvamna nè hefd göra. En þar sem þú sagdir, at ek edr prestar minir hefdi rofit sætt þá er í Brautarholti var gör, stendr þar at móti sú hin fyrsta grein, at ek iádi at þola, en ei at samþykkia kóngsbrèf, ef þèr efndut þat er þèr hètut at móti, höfdut þèr ok siálfir raun í hendi, at stadrinn í Skálahollti hefr ei enn sinn rètt. Sú önnur, at ek iádi at þola bodskapinn, ef hann væri af þèr edr ödrum[1]) rètt skildr, en nú er þar þvers at móti gört. Sú hin þridia grein, at ek iádi honum um þat eitt sem ei væri móti skyldri hlydni vid almáttkan gud, því baud ek þeim prestum sem af kyrkium gánga at segia at þeir lètu þær utan sína vild, at pávinn sá sem sitr í guds sæti segir klerkum öll kyrkna forrád, ok honum á öll kristni med rèttu at hlyda, ok þó ek vildi kyrkna vald undir leikmenn gèfa, átti þat med eingum kosti at haldast þótt gèfit sè, voro ok vor vidrmæli í Brautarhollti ei sett til lánggædar edr fullnadar, heldr stillt or vandræda firríng, til þess gud gæfi erkibiskup til Nidaróss.

45. En er herra biskup hafdi lokit síno máli, rómudu klerkar ok múgr vel til, en stadamenn ok sumir handgèngnir menn þeir er blindadir vóro med sótt fornrar ágirni, tóku þúngliga hans

[1]) skynsömum mönnum, bæta vid *A, B, C, E, Gr,* þ.

ordum, sem fordum gördu Pharisæi vid vorn herra, sumir handgèngnir menn lögdu gott til, margir lutir vóro þar taladir sem mikillar frásagnar ero verdir, en fáir til skila færdir, þá kvam þar um sídir at brèf var ritat undir beggia innsiglum, ok er um flesta luti hermanda sem ritat var í Brautarhollts brèfit, ok þar um fram at Rafn iádi Arna biskupi at fullar vördslur skyldu gèfast fyrir öll kyrkna fè [1]), allra þeirra sem menn höfdu ásezt eptir rádi Rafns í Skálahollts biskupsdæmi, þar eptir gördu þeir þann skildaga at biskup ok lærdir menn skyldu bæta med iafnadar dómi slíkt sem hverir prófudust sakadir [2]), vóru þar undir skilin öll þeirra mál, ok Asgrímr ok Eyúlfr sun hans med fyrrsögdum greinum, ok mörg önnur, ekki skipadist at Hollts tolla málum, en mál Jóns ok Hítdæla mátti kalla at [3]) til samníngs væri lögd, Asgrímr handfesti at greida IIIa vetra skatta ok þíngfararkaup þau sem hann hafdi tekit af biskups heimamönnum í hönd Hafrbirni sem fyrrum. Eptir þetta ritadi herra biskup, herra Rafn ok bádir lögmenn, [herra Asgrímr ok herra Sturla [4]) sinn bænastad til Eiriks kóngs med fögrum ordum, at hann lèti tíund greidast af öllum eignum sínum á Islandi æfinliga til sáluhiálpar siálfum sèr, en til nytsemdar stadnum, ok at ei heimtist skattar nè þíngfararkaup af bádum biskups stólunum, ok at kóngr stirkti þetta stadarins frelsi med síno brèfi ok innsigli, þeir bádu ok at kóngrinn lèti gánga skip stadarins, þótt hann hefdi ádr annat ætlat, þeir bádu ok Lopti orlofs, þó at hann hefdi ei ádr fengit, þeir bádu ok at kóngr linadi dóm þann er handgèngnir menn höfdu dæmdan um þá menn sem herra Lodinn gaf sakir á alþíngi, ella gèfi hann þeim upp allan dóm fyrir sinn herradóm ok bæn sinna manna, höfdu ok verit á þann sem mest þótti sekr vera dæmdar XIII merkr, en á suma dæmdust IX merkr, en á suma V at lúka kónginum, ok ei þótti naudsynlig utanferd þeirra, þar sem skynsömum mönnum virdust minni sakir þeirra en fyrir öndverdu var uppkastat ok þeir vóro kyrrir menn ok gæfir í bygdarlagi, [gæfist honum upp er þá lyki

[1]) ok stada, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ

[2]) vid adra, bæta sömu vid.

[3]) eigi, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[4]) herra Sturla ok Jón ok herra Asgrím, sömu.

þat fè sem nú var greint [1]), þeir beiddo ok kónginn rita í móti sèrhverri grein, hvat hann vildi veita [2]), Eyúlfr Asgrímsson sættist þá vid biskup um sín mál, ok vóro þeir fadir hans ok biskup sáttir.

46. Nú þvíat herra biskup vissi, at þar sem á þessu þíngi höfdu margir ok misiafnir heyrendr verit vitnismenn þess er á þíngino gördist, vildi hann sva sem vinr sannleikans í öllum stödum hann birta, því ritadi hann brèf þat er hann lèt bera ok upplesa um allt sitt biskupsríki, í því stódu þessi ord: «Vèr trúum «ydr kunnigt vera, at kóngsmenn kvádust stadfesta med lófataki «í lögrètto í sumar at oss fráverendum allt þat greinarlaust er stód «í brèfum þeim sem í fyrra sumar kvamo til Íslands undir inn«sigli kóngs ok drottníngar, ok hversu þeir öptrudu sèr nær vèr «kvamum á þíngit, sva sem Jón lögmadr vottadi í lögrèttu, at «þeir vildu þat ei stadfest hafa sem í móti væri-guds lögum ok «rètti, ok syndist oss fyrir þessa hans framsögn ok þeirra sam«þykki, at þeir fordudust banns áfelli medan þat hèllzt er þeir «hèto, en ef þeir seilast á guds rètt ok heilagrar kyrkio med fram«kvæmd verkanna á dómum yfir kristnum rètti edr lögsögnum, þá «falli þeir í þat bann sem lögbækr heilagrar kyrkio votta, ok þar «med opit brèf míns herra Jóns erkibiskups ok hans undirbiskupa. «Nú med því at leikmenn eigo [3]) valdslög at segia yfir kristnum «rètti, þó nokkrir hafi annat flutt, þá vilium vèr ok at allir þèr «vitit, at um almenniliga ok heilaga skírn, ok sva um föstur ok «helgihöld, um biskups forrædi á kyrkium ok eignum þeirra, val«veidum ok tíundum, um kyrkio þyrmsl ok lærdra manna, um «lysíngar fyrir brullaup, festarmál [4]) ok öll önnur hiúskaparmál, «um gudsifiar ok skriptamál, ok okur ef menn byggia daudt fè, «ok allt þat annat er til biskups heyrir at eins eptir guds lögum, «vald ok dóm yfir at hafa, edr þeir sem hann skipar til, þá skal «sva standa sem vèr höfum ádr skipat ok bodit," ok eptir nokkrar klausur standa enn þessi ord á sama brèfi: «Nú er sá vor bæna«stadr til allra ydar, at þèr geymit vel ok forsiálliga skyldugrar

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) edr ei veita, bæta sömu vid.
3) eigi, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.
4) vantar í sömu.

«hlydni vid iarlneskan kóng, en varizt allra mest mótgiördir ok «hlydni brot vid himna kóng, er vald hefir á lífi ok sál iardligs «kóngs ok allra vor, ok oss veitir allt gott þat sem hver vor hefir, «hann hegnir[1]) sína úvini at endalykt med eylífri píno, ok öm«bunar sínum sonum ok þeónostomönnum stundligt starf[2]) med «eylífri dyrd ok endalausum fagnadi.» Þá er herra biskup var heim kvaminn, gaf síra Jón Hollt honum þat fè sem Hítdælir tóko af honum, biskup krafdi fiárins med brèfi ok setti stefnudag nær greidt skyldi vera, en hèt þeim hardindum ef ei gilldist. Rafn var þá í Borgarfirdi, tóko þeir Snorri rád af honum hèr um. Herra Rafn ritadi brèf undir síno innsigli, ok lèt Eylíf Skiálg bera þat ok fá í hendr Kolbeini Eindridasyni ok Magnúsi Pèturssyni, at þeir færdu þat biskupi, hann gèkk þá fyrir fortölum þeirra sem Rafn hafdi tilhugat, ok lèt fyrirfarast at sinni hardendi vid Hítdæli. Þetta haust andadist herra Sturla lögmadr.

47. Noregsmenn átto þessa tíma, er lidnir vóro frá framför ágæts herra Magnúsar kóngs ok Jóns erkibiskups, mörgu erfidi at mæta, þvíat sá drepr optliga er augna missir, þvíat hinn úngi kóngr var ei sva mikillar nytsemdar sem mannfólksins þörf beiddi, þótt hann væri mikilhugadr ok gódrar náttúro, leitudu þeir, sem skyldir vóro honum at fylgia til allrar sæmdar ok at forda hans sál frá öllum syndsamligum lutum, sva sem líkamanum vid öllum meinsamligum lutum, at snúa honum til at samþykkia sinni raungu ágirni, allra mest uppá lærda menn. Sá madr sem Jón hèt ok var Bryniólfsson var settr yfir stadinn í Nidarósi, ok lagdist í þá sæng med eiginkono sinni, er erkibiskupar einir höfdo í hvílzt, hann tók ok undir sik eignir ok prebendor kórsbrædra ok ætladi þeim expens, um mörk kènnimanna vóro nær fyrir ekki haldin um allt land, en þar sem hinn himneski sezt um, leggr hann margfaldan siúknat andanna med síno hyski, lagdi hann á þá þyngd til betrunar, síns signada[3]) rádníngar sprota, var þat hit fyrsta tilfelli, at yfir kvam sótt ok manndaudi, sultr ok búfellir, sem

[1]) dæmir. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) straff. *E.*

[3]) nafns, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

fordum var í Róma, at lidnum [hinum friálsasta [1]) forstióra guds hiardar Gregorío hinum mikla. Í þessum tíma andadist Margrèt [2]) drottníng, sú er ádr var sakir venzla vid marga göfga menn vonarmikillar stirktar Noregsríki. Þá andadist ok Erlíngr Alfsson ok margir adrir ágætir menn. Sá atburdr [3]) vard ok at Jón erkibiskup [dáudr ok í iörd grafinn [4]) í Skörum í vestra Gautlandi, neitti hann þess þeónusto ok tilflutníngs [5]) aptr til stóls síns, sem giördist formadr at flæma hann frá stóli lifanda. Þat giördist ok at siálfr kóngurinn Eirekr fèll af baki brádum hesti, sva at fæturnir vóro fastir í stigreipunum, en höfudit mætti urdum [6]) ok grióti alla stund medan reidskiótrinn rann undan þeim er eptir sóktu, ok þeir sem ádr höfdu hans úmakliga geymt, syttu hann sem daudan, þar til er fadir allra miskunsemda leit á sitt sakat smídi mildiliga, ok bætti honum fyrir árnan hins ágæta Oláfs kóngs, þess er þeir höfdu ákallat er yfir honum sátu, ok þó med þeim hætti at þetta mein vard aldrei med öllu bætt. Sá lutr fèll enn á landit, í makligo hamíngioleysi, at þeir sem hirdmenn höfdo utlæga giörva, mistu lángan tíma hirdirsins, sumkostar fyrir tilfelli, en sumkostar fyrir vandrækt ok siálfvilia, þvíat Narfi Biörgyniar biskup, er fyrst var til erkibiskups kosinn, syndist ei madr til at setiast í sama háleitt sæti, gördi prófan hans málá lánga dvöl á kosníngunum sem sídar man segiast. Nokkro sídar hendi einn af herbergis sveinum sva mikill lutr ok mikiligt slis, at leypti snarliga [7]) á siálfan kónginn, sva at sundr gèkk annar hans fótleggr, þó festi snarliga fótinn, var hann þó iafnan skèmri ok ei rèttr, sakir athugaleysis þeirra er bundu, ok verr höfdo honum þiónat en verdt var, þó vard hann vel stirkr til ástigs, þótt hann væri ei rèttr álits. Sá er uhappit hendi lióp strax í kyrkio, en kóngrinn, sva sem úsúrt epli hins sæta vidar, syndi eingan beiskleik af sèr nè reidi, heldr gaf hann upp hinum sakada sína úheppni.

1) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) *Marioth.* sömu.
3) motburdr. *A. C. E. Gr.* þ.
4) andadist ok var greptradr. sömu.
5) líkflutníngs. *A. C.* þ.
6) vidum. sömu.
7) snarpliga. *A. B. C. E. Gr.* þ.

48. Nú er frá Lopti at segia, at hann stód undir heitum ok íllyrdum, ok bannat var honum at koma á kóngsgardinn. Um haustit gaf hann Hallkèli Ögmundarsyni V^C vadmála, en hann var þá búinn or landi at fara til keisara. Hallkèll bad þá Biarna or Giska göra rád fyrir Lopti, en þat vard ei. Um sumarit kvam Hallkèll heim ok tók Lopt til sín. At iólum baud Erlendr Amundason Lopti á kóngs gard, ok hinn átta dag. bad Hallkèll fyrir honum kónginn, ok vannst ekki at. Um sumarit eptir fór Loptr í bæiarmanna skipi til landsenda med kóngi ok aptr um haustit, fór hann þá til Hallkèls um vetrinn þá er hann kvam af Hálogalandi, ok var med honum þat sem eptir var vetrarins. Um vorit fór Loptr med ödrum Islendíngum austr í Vík. Nærsta drottinsdag eptir Bótólfs messo bádo kónginn fyrir honum herra Lodinn [1]) ok herra Þorvardr, ok tók kóngrinn hann í sætt í Túnsbergi, ok var hann þenna vetur med kónginum vel haldinn. I föstu inngáng gördi kóngrinn hann eidsvara sinn, ok gaf honum orlof um sumarit at fara til Islands, fór hann þá til Þrándheims ok var þar til þess er [hann fór [2]) til Islands. Þenna vetur sem Rafn kvam ádr nordr um haustit, kvam mikit hallæri fyrir nordan land sem var í Noregi, þvíat hinn hædsti höfudsmidr sá vora menn hluttakara med Nordmönnum í syndinni, vildi hann þeir væro ok hluttakarar í skriptinni. Þetta torræki [3]) kvam ok vetri sídar sudr vid land, á þá leid sem ordskvidr mælir, at [nálægr veggr hitnar þá er hinn nærsti brennr [4]), sáum vèr þá sakir vors syndagialds sanna guds reidi yfir oss kvamna. Margir hlutir urdu á einum tíma þessi misseri, er ei má alla senn segia. Eptir fyrr sagt [5]) var nokkur dvöl á um fiandskap þann er verit hafdi milli herra biskups ok herra Asgríms, sva at fyrir gódra manna flutníng sáto þeir at einni veizlo med orlofi biskups, vard Asgrímr því feginn, þar sem honum [einum var kunnigt [6]) hvílíks verdt var. Þá beó

[1]) Leppr, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) skip gèngu. sömu.

[3]) hallæri. sömu.

[4]) frá [ þegar nálægr veggr náúngans brennr, skuli madr athuga sik. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) þíng, bæta sömu vid.

[6]) var ei úkunnigt. sömu.

í Haukadal Klængr Teitsson, ok Ormr son hans beó í Túngo, hann var hinn mesti vin Asgríms, ok eggiadi hann æ í móti biskupi, en svæfdi hvergi.

49. Þetta sumar heimti Hafrbeörn fyrrsögd þíngfararkaup at Asgrími, en hann vildi ei lúka. Biskup vard þess vís at álidno sumri, ok þótti rofin sáttmál þeirra Rafns, en þegar fundi þeirra Asgríms bar saman, spurdi biskup hvert Asgrímr hefdi aptrgreidt þíngfararkaupin? Asgrímr kvadst ei greidt hafa. Biskup mælti þá, fyrir hví viltu sva göra? hann segir at kóngs brèf bidi honum nú ödruvís en fyrr, ok kóngr vill hverki missa af biskups heimamönnum, at hafa fulla skatta af öllum þeim mönnum er fadir hans tók af. Biskup segir at móti: ei veizto þat, Asgrímr, nè neinn annara, at Magnús kóngr hafi því samþykkt, at Skálahollts stadr hafi minna rètt [1]) en Hólastadr, ok hann skili frekar brèfin en honum er bodit, ef hann tekr nokkut fram um þat sem hann veit fyrrnefndan Magnús kóng samþykt hafa. Asgrímr segir at móti, at Magnús kóngr kalladi Arna biskup draga undir sik hærra vald en hinir fyrri biskupar höfdu um dóma, edr um frelsi heimamanna stadar í Skálahollti, ok at hann skildi offrekt þat sem þeir átto at taka [2]) um kóngs bodskap. biskup segir at móti, at sannliga [3]) hefdi Magnús kóngr í sumum smálutum á sik talit fyrir rángan afflutníng sinna manna, en gèfit þó at hverio einga þykt þann tíma er vid fundumst, ok ek mátta syna honum sannar skynsemdir, at ek hefdi sannara en þèr handgèngnir menn í vorum vidskiptum þessum ok ödrum, ok því sídr gaf hann mèr á þessu þykt, at hann veitti mèr margar sæmdir iafnan er vid fundumst, ok hann mundi hit bezta rád fyrir slíkum lutum hafa giört, ef líf hefdi unnizt, en þó Magnús kóngr edr annar kóngr hefdi bodit at mínka rètt stólsins í Skálahollti, ættir þú þó hvergi at göra, ok ek ætti ei þola þó gört væri, heldr at hegna eptir guds lögum ok skipan Jóns erkibiskups. Asgrímr segir, at hann vill af sèr ok síno efni veita biskupi tillæti, en af efni siálfs kóngsins man ek ekki

[1]) frelsi. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) tala. sömu.
[3]) seinliga. *A. B. C. E. Gr.* þ.

göra fyrir utan rád lögunauta minna. Biskup segir þá, at hann mani [1]) forboda hann, utan hann hèldi þat sem hann hefdi heitit ok handfest í Brautarhollti ok á alþíngi. Nú þvíat Asgrímr vildi ei at bordi gánga, lèt herra biskup síra Torva prest forboda hann, stód hann í því um stund, þvíat hann vildi ei aptrláta fyrrgreinda penínga. Margar vóro adrar sakir milli biskups ok Asgríms, þær sem stódu af fornum greinum klerka ok leikmanna, sem ádr er ritat, ok flestum öllum málum syniadi Asgrímr ok Ormr í Túngo, ok því var hann ok forbodadr af biskups tilskipan, vóx upp af nyio þrályndi Asgríms móti biskupi, var þat ok allt opit ok öndverdt med þeim er fyrrum var til samníngs lagit.

50. At lidnum iólum þenna vetur fór herra Asgrímr í syslo sína ok tók gistíng í Gröf í Runamanna repp, þar tók hann sótt sva ákafa, at hann mátti varla styra sèr, fór hún med sva miklum æsíngi, at stundum [2]) gat hann legit kyrr at kalla, en til þess at hann syndi sik ei þetta göra sakir nokkurs íllvilia, heldr af þreyngíng úþolanligrar sóttar, sagdi hann iafnan ádr þat kvam at honum, at brott skyldi taka allt þat er van var á at hann mundi nokkrum mein med göra, æpti hann þá stórliga hátt, ok vard at geyma hans medan þesshàttar æsíngr stód á, þess á milli taladi hann med skynsemi, ok er menn sáu at þessi sótt þraungdi honum miök, var sóttr síra Oddr prófastr Svartsson frændi Arna biskups, ok þegar honum kvamo þessi ord edr sendibod, brá hann vid skiótt ok reid í Gröf. En þegar Asgrímr vissi kvamo hans, heilsadi hann honum, ok bad hann fyrir guds nafn rída sem skiótast til herra Arna biskups at leita um sættir med þeim, kvadst þat allt er hann mælti til vilia vinna at samníngr yrdi. Þar var vidstaddr Ormr or Túngo, ok latti hann Asgrím at sættast vid biskup, en Asgrímr vard því sva reidr, [at hann rak hann med hördum ordum or því húsi sem hann lá í [3]), ok vildi eigi tal vid hann eiga. Eyúlfr son hans var ok þar, ok lagdi gott til. Síra Oddr dvaldi ei ok reid

[1]) bannsetia ok, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) greip hann til vopna ok villdi auúgu hlífa, en stundum, *o. s. fr.* bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[3]) frá [ vantar í sömu.

í Skálahollt ok finnr biskup ok segir honum, at Asgrímr vill giarna sættast vid hann, ok greindi honum hvílíkt var sóttarfar hans. Biskup mælti þá: far þú aptr sem skiótast ok leys hann, ef hann vill þat til vinna sem hann er skylldr, ok giarna vildak þat vita at hann yrdi lèystr, ef hann mætti med skilum framfara. Síra Oddr tafdi ekki ok reid aptr í Gröf, ok hitti Asgrím, hann segir þá hvörsu biskup tók hans málum. Oddr segir at biskup vill giarna taka sætt af Asgrími, ef hann leggi öll þeirra mál á guds vald ok til hans umdæmis. Asgrímr mælti þá, sæll em ek þess, ok þat vil ek giarna göra. Síra Oddr tók þá ok þetta skilord med handfesti, kvam þar at því sem mælt er, at sigursæll er gódr vilii, lætr hann ok ei fyrr verda skilit vid herra Asgrím en hann leysti hann, ok heyrdi slíka iátníng sem hann fekk gört, eptir þat oleadi hann Asgrím ok húsladi, ok ei leid lángt frá því ádr Asgrímr andadist *in festo Brigidæ virginis.* Um morgunin var búin líkferd Asgríms, ok var hann fluttr ofan til Skálahollts. Ormr fór med líkinu ok fiöldi manna. En er biskup vissi þat, sendi hann mann til hans ok fyrirbaud honum at koma heim á stadinn, hvarf hann aptr í Túngo þá er hann var ádr kvaminn í Audholltsmyri. Ok er líkit kvam í Skálahollt, gèkk herra biskup gladliga móti því ok saung siálfr yfir. Þau Eyúlfr ok Gudní[1]) gáfu til stadarins VII^c^ hríng, kullt[2]) ok fíngurgull þat er stód II ortugar ok hest. Lítlu sídar tók herra biskup til sín Þórstein son Asgríms, ok lèt kènna til þess er hann gaf honum prestsvígslo.

51. Um vorit eptir páska fór Ormr Klængsson nordr til Rafns, ok beiddist syslo þeirrar sem Asgrímr hafdi haft, en Rafn skipadi hana Eyúlfi syni Asgríms til þess annat rád væri fyrir henni sèd af Noregi. Margt þóttist Rafn þat spurt hafa frá biskupi er honum mislíkadi, því rítadi hann med fyrrnefndum Ormi til biskups, at hann skyldi sva geyma sín, at hann væri lítt utan kyrkiu, fluttu þeir fedgar þetta brèf til stadarins Klængr ok Ormr, ok er herra biskup sá þat, vóx at eins sundrþykkia med þeim, lá biskup um stundarsakir í Þorlákskyrkiu. Þenna vetur ritadi Arni,

[1]) Gudrun. *A. B. C. E. Gr. þ.* [2]) kètil. *A. B. C. E. Gr. þ.*

biskup í öll prófastdæmi síns biskupsríkis vidvaranarbrèf til þeirra manna sem kyrkiu höfdu tekit, at þeir tækio ei líkama vors herra á páskadegi ok þarmed settar sannar skynseindir, sakir þess at biskup sá þá standa í daudlegri synd, mátti hann ei utan þúnga sekt vid almáttkan gud med þögn hylia þvílíkan glæp sinna undirmanna. Hann syndi þeim ok iafnfram, at sva takandi ióku þeir stórliga miök sína sekt, ok áttu seálfir frá at halda vilianliga, þótt hann leggi ei bann fyrir at þeir tækio. Hann syndi ok í þridia stad, at hann afsakadi sik vid gud fyrir þessa vidvaran, ok þat þeir átto seálfir sik at ábyrgiast, ef þeir tækio slíkir sem þeir væro, þeir varo ok margir er ei dirfdust Kristz líkama at taka. Vid þetta alltsaman báro vondir menn nyan róg milli biskups ok Rafns þeir er tendrudu hiörtu manna til minníngar forns fiandskapar.

52. I fardögum fór Ormr or Túngo bygdum í Haukadal, þvíat Klængr fadir hans unni honum bezt at búa á landino, þá er hann fór til Videyar, Klængr hafdi giörva þar upp kyrkio ok húsat bæinn, hafdi biskup [ritad honum¹) at göra linara máldaga á kyrkio ef bæturnar kvæmu fram, þvíat Klængr vildi ella ekki atgöra, urdu þeir biskup ei sáttir á hve mikit linat var, stód í milli einkanliga um diákn ok fleira annat. Biskup hafdi skipat Oddi prófasti²) syni Svarts Loptssonar kyrkiolut í Haukadal, ok villdo þeir fedgar med aungo móti þat þola, ok á þeirri nátt er Klængr ætladi brott, ætladi hann til kyrkio fè, ok lèt reka þat í rètt, ok er þat var talt, mælti hann: þetta fè greidek hinom sæla Martíno biskupi er kyrkiodrottinn er hèr í Haukadal. I því bili lupo fiórir menn í rèttina, Ormr Klængsson ok Þorvaldr bródir hans, Snorri Jónsson ok enn einn madr, þeir mörkudu kènnum Orms þetta fè VI kyr ok LX ásaudar. Síra Oddr var þá nykvaminn, sá hann hvat þeir giördo, nefndi sèr votta ok bannadi Ormi Klængssyni þá þegar allt þetta fè ok alla eign kyrkunnar þar í Haukadal. Klængr mælti þá: ei mundu hinir fyrri frændr varir þolat hafa at þeir gaungomenn sem af Sídu austann varo kvamnir

¹) ádr hann giördi þetta, bedit hann. ²) vantar í *A. B. C. E. Gr. Þ.* *A. B. C. E. Gr. Þ.*

tækio þat sem þeir gáfo gudi, ok er ei sæmilegt at þola þeim slíkann yfirgáng, ok var vid siálft at þeir mundi standa at prestinum, ok er hann sá þat þar er hann sat á heilagardinum [1]), brá hann höndum frá sèr, ok bad þá geöra slíkt er þeir vildu, kvadst ei mundi flya. þeir spottudu hann at móti, ok þótti hann sína ædru í ordum sínum. Tók Ormr fè ok land, en presturin sagdi biskupi til svabúins, hann kvadst þola verda þetta at sinni, en þar skaltu vera þessi misseri, ok siá hvat ígörist, presti þótti þat miök móti skapi, ok vard þó sva at vera. Kètilbiörn klèrkr var þá sendr í Haukadal, en Ormr bannadi honum þar mat ok adra luti, kvad födr sinn sèr segia, at ei ætti hann at fæda. þessi sami Kètill gèkk at mat þó bóndi bannadi honum, ok stód sva um ríd. Illa var presti veitt af lidi Orms. Um varit eptir vildi Ormr taka kyrkiutíundir [2]) þær sem biskupar höfdu veitt til kyrkiunnar, herra biskup vildi at presturinn hefdi þær, ok greiddu bændr honum í vild. Ormr sótti Rafn Oddsson at þessu máli, ok kærdi fyrir honum þat er biskup lèt hann missa þessa fiár ok þar med inngaungo heilagrar kyrkio ok þeónustu á páskum. þótti honum stórliga ílla þetta allt, þvíat hann var madr saungvinn ok sidlátr í kyrkio ok fylgdi vel tídum, en Rafn lagdi þat til at hann sækti bóndr med landslaga sókn til tíunda, en vid biskup munum klakast vid um kyrkiubann ok þiónustu missir þinn. Ok er bóndr visso þetta, sóttu þeir biskup at málum, ok þótti þúngt tvennum at ynna hit sama. Hann bad þá leggia þetta í kyrkio, ok láta Orm taka ef hann vildi. þeir geördu sem hann baud þeim, ok líkadi Ormi þat stórílla, nádi hann þó þessu fè af sumum. Húsfreya Orms Steinun Jónsdóttir systir þórdar í Túngo eggiadi hann iafnan en svæfdi sialdan, Klængi bónda var ok þat vitni borid, at hann iátadi diákns vistinni fyrir biskupi, en duldi um stund fyrir Ormi. þetta sumar reid Ormr til þíngs, ok med slíkum efnum sem adrir mótstödumenn biskups tók hann þeónusto. þar kvam um sídir at Ormr vildi hafa diákn tekinn ef biskup vildi fyrir þat nokkro lina honum, en þat fèkkst ei medan hann vildi ei allt mál undir biskup iá.

[1]) gardinum, *A, B, C, E, Gr,* þ.

[2]) ok biskupstíundir, bæta vid *A. B, C, E, Gr,* þ.

Mikill skapraun var biskupi allar þessar stundir um Orm, þvíat margir kèndu kulda af þeirra missætti, sakir þess at Ormr var madr frændmargr ok frændstór ok dró marga í med sèr, lèt herra biskup þá alla mæta úblídu er Ormi sinnudu, Ormr var ok erfidr biskupi ok hans vinum slíkt sem hann vanst til.

53. Margir varo enn adrir lutir sem úvinir fridarins virtu til þess at biskup ryfi fyrrgreint sáttmals brèf þeirra Rafns. Biskup taldi á Rafn um þat, at hann lèt ei kvama fram handsöl ok borganir fyrir eignir kyrkna þeirra sem teknar höfdu verit, ok margar adrar greinir, sva ok um Vestfiarda mál. Biskup taldi ok á Rafn um þat er Hítdælir höfdu ei aptr greidt síra Jóni Hollt þá peninga, sem þeir tóku fyrir honum eptir Rafns rádi, ok síra Jón hafdi gèfit honum. Rafn taldi á móti um þat er stadamenn höfdu mist þeónustu, ok villdi til þess þraungva Arna biskupi, at hann samþykti þat fullkvamliga, er hann hafdi ádr iád at þola eins. Rafn taldi ok á biskup er hann hafdi ei látid síra Jón greida Hítárdals stad sem Snorra ok Kètilssonum þótti stadinn skorta. Rafn taldi ok á Þorvard prest er hann hafdi prófastsdæmit í Vestfiördum, sva ok um Holltsstad í Önundarfirdi. Rafn taldi ok á, at kyrkiur þær er hann hafdi taka látit bædi í Vatnsfirdi ok í Hollti, sva ok á Breidabólstad, þar sem hann borgadi missu [1]) fiar fyrir bródur sinn, fyrir síra Þorvardi er fyrr var nefndr. Rafni líkadi ok ílla at biskup hafdi undir sik tekit Haukadals kyrkio, ok fóro nú ógnarmál frá Rafni til biskups iafnan þegar er ferd var þeirra í milli. Þenna tíma geördust ok þeir lutir [2]) fyrir nordan land er heldr hvesto skynsama menn á móti kyrkiunni. Herra Jörundr biskup at Hólum greiddi penínga Sigurdi í Hlíd fyrir Mödruvalla stad, ok tók til sín stadinn, fór ok sva fleirum stödum. Syndist leikmönnum sem í þessu marki findist þeir lutir med Hóla biskupi, at honum þótti leikdómrinn meira áhald hafa á kyrkium en lærdómrinn, var fyrir þetta miök leitat á hann af klerkum, en leikmenn lofudu hann fyrir rèttlæti. A einum degi var herra Arni biskup hiá þessum rædum er til Hóla biskups var talat, þvíat vinir

[1]) mistu. *A. B. C. E. Gr.* þ. [2]) titlar, *A. B. C. E. Gr.* þ.

Arna virdu þetta illa fyrir Jörundi biskupi, sem hann eggiadi menn á bródur sinn Arna biskup. Hann tók þá til máls ok sagdi: ei lízt mèr sem bródir minn hafi Símoníam framit í þessum skiptum, þvíat ek skal vera þess vel vitandi, at í þvílikum púnkt, sem nú stendr yfir, er lofat at láta út hit minna, en halda hino meira, láta út lausafè, þat er bædi má aflast ok kaupast, en halda iördu ok fastaeign er iafnan stendr, á þá lund sem þá víkíngr leggr höud edr fót edr einhvern lim saklauss manns á höggstokk, ok kvedst hann mundi afhöggva, utan honum sè greidt sva mikit fè sem hann kvedr á, er þat mín trúa, at Jörundr biskup muni ei sídr, þegar færi gèfst á, kunna þetta fè aptr at heimta sem nú greidir hann, heldr en nú kann hann fram at láta, [sva sem hinn er liminn leysti [1]), má rèttiliga krefia af víkínginum, ef hann fær hans vald. Þá spurdu nokkrir þeir er hiá varo, hví vilit þèr ei göra sem hann görir er ydr lízt hann vel geöra? Biskup mælti þá: ei man ek at heldr lasta hann, þótt ek vili þetta ei göra. Þat bar ok til einn tíma, at Rafni Oddssyni varo þessi ord ind Arna biskups, hvörso hann virdi tiltekio Hóla biskups. Hann mælti: ei er Arna biskupi at líkia um slíkt eptir Jörundi biskupi, þvíat sva mikit skilr lunderni þeirra, at Arni biskup gèngr sem biörn á hvat sem fyrir verdr, en Jörundr biskup er slægr sem refr, ok fer á þá leid fram sem sá madr er í þvervidri beitir laungum, edr hinn er bratta brekku sneidir, ok snýst til ymissa handa, at hann kvæmist uppá hana med sem minsto erfidi, en þó kvama þeir bádir í einum stad nidr at lyktum; giördi ok herra Jörundr biskup af kyrkiunnar aud, sem hann vardveitti á þeim sama stad sem hann hafdi í fyrsto fè í móti tekit, klausturreglomönnum til vidrlífis ok fátækum mönnum, en Arni biskup vann sína úvini ok kyrkiunnar med röksemdum en ei med margmenni, ok sigradi þeirra vígvèlar, þó at seint væri til, ei med fègiöfum á flótta rekandi, heldr med einherda ástsemd almáttigs guds ok hans fulltíngi yfir kvamandi, hlífdi hann hvörgi úvinum kyrkiunnar medan þeir hèlldu sem í þrái vid gud ok hann, en líknadi hvervetna þeim er til hans miskunar krupu med algiörri yfirbót.

[1]) med því timinn er bistr, *A, B, C, E, Gr.* þ.

54. Til hins nærsta lögþíngis baud herra Rafn öllum handgèngnum mönnum, þvíat þá voru margar greinir fyrrsagdar þær sem or þurfti at höggva milli biskups ok leikmanna. Herra Loptr hafdi þá undir einn sik tekit allan Oddastad, var Sighvatr bródir hans kvamin búi síno til Kèldna, ok var þat rádit at einnsaman Loptr tók XI.^c af frændum sínom til þess, at ábyrgiast einn ef Oddastadr kvæmi aptr undir kènnimenn. Iöfnudu þeir nú sem fyrrum handsal á fènu til inngialds, en ádr höfdu þeir iafnat þau til útgialds. Líkadi Arna biskupi þetta stórilla, ok kalladi þat rètt lög at iafnmikit fè sem hver gaf til handsala þessarar kyrkio ok allra annnara, en þat sem hann kalladi gèfit til úfrelsis kyrkiunni, lagdi hver sem einn af síno til þessarar kyrkio fram um adra hennar eign. Voro þessi fyrrgreind umkaup Odda kyrkio mest kènd herra Rafni ok Erlendi lögmanni, er herra Arna biskupi þóttu giörast oddvitar ok upphafsmenn til alls ágángs á kyrkiur ok kènnimenn. Stadamenn eggiudu iafnan herra Rafn móti biskupi, var þat ráds tekit, at menn varo sendir í Skálahollt til biskups at beida hann þíngreidar. Nú þvíat þess var enginn kostr, reid herra Rafn ok flestir allir handgèngnir menn í Skálahollt. Þá tókst tal med þeim Rafni ok biskupi í nordurstúku, þvíat biskup vildi hvergi annarstadar vid þá mæla. Um sídir þá er þessi þræta hafdi gèngit mikinn lut af degi, syndist hverotveggiom mála mannligra at auka ei ny vandrædi á hin fornu, ok láta standa atgiördarlaust til þess er af Norvegi frèttist, ok var þat þá samit, at sá skildagi skildi haldast, sem hit fyrra sumar var undir beggia þeirra innsiglum. A þat ofan iádi biskup fyrir gódvilia sakir vid kónginn ok hertogann, en til fridar landfólksins, um þat fram sem ádr er ritat, at ef stadir ok kyrkioeignir kvama aptr undir biskups forrád ok skipun, skal slíkt aptr gialdast lærdum mönnum ok kyrkiunum [1]), fyrir hvöria XII mánada ábúd, ok inna tekio [2]) kyrkioeignanna sem herra Eiríkr kóngr, ok sá erkibiskup er til Nidarós væri vígdr, leggia rád á, en ef stadir nást ei aptr, þá skulu ei leikmenn heimta á lærda menn med Rafns samþykki fyrir ábúd ok aftekiu stadanna,

[1]) af leikmönnum, bæta vid *A. B.* [2]) inntekiu. *A. E. C. E. Gr. þ. C. E. Gr. þ.*

utan ákvædi kóngs ok erkibiskups at fyrra skilordi [1]), ok [2]) herra biskup, at hann mundi þola þeim mönnum sem stadi hefdi tekit, eptir því sem Rafn kalladi kóngsbrèf ávísa, at þeir tækio þeónustu sem ádr höfdu ei rækt at taka sakir ummæla biskups, ef ei stædu ádr sakir á þeim, var þeim þá ok gèfin þeónusta sídan þeir kvamo á þíngvöll, ok varo þeir þá enn kalladir sáttir. Þetta sumar kvamo þær einar frettr af Norvegi er lítinn lètta [3]) giördu mönnum á Islandi, var skip stadarins uppsett ok litlu sídar gèfit ok varnat tíunda, ok med skömmo máli at segia, var ei þat [þegit er hèdan var bodit [4]), en í aungvu hægt kyrkiunni edr lærdum mönnum, en leikmenn fögnudu medan þeir vissu sèr aunga von apturdrepo. Þá frèttust þau tídindi af Róma at pávi var vígdr Honorius IV, ok hafdi hann senda til Noregs biskupana Andres ok Þorfinn med brèfum til kóngs ok drottníngar, en Þorfinnr kvamst ei lengra en í Flandur, ok andadist þar. Þetta ár var ok stríd millum Pèturs af Arragon ok Philippum Frakka kóngs; þar fèll Pètur, en Philippus fèkk skot í annan armlegg, af því sama sári fèkk hann bana. Enginn var enn erkibiskup vordinn [5]) í Nidarósi í Noregi. Hafdi þá andast síra Oláfr prestr Magnússon, en hèr á Islandi Biörn Sæmundarson. Arna biskupi brá miök í brún vid þessar frèttir, er úvinir kyrkiunnar fögnudu framkvæmd síns vilia. Biskup heimti nú at nyu vördslur fyrir kyrkiueignir, ok fèkk ei, hafdi Rafn hin sömo mótmæli vid Þorvalld prest í Vestfiördum, ok um Hítárdals mál ok um Selárdal. Þá fundust þeir í Stafahollti ok skipadist lítt til greida med þeim. Þetta haust gèfr Arni biskup Biarna presti frænda sínom Gardastad, er Oli prestr var fráfallinn, en Þorvalldi presti Hollts stad í Önundarfirdi, ok skipar at nyo þarmed prófastsdæmi, ok eyrir herra Rafni þat stórílla. A þessum vetri hefir biskup hönd á stadamálum í Gördum, ok med síno kostgiæfi fær hann sva giört, at Sturla Sæmundarson kèmr til hans á fösto, ok sver [6]) sèr af hendi stadinn í Gördum, hann sór ok at taka aldrei sídan af kyrkiufè nè hennar eign utan biskups rádi. Setr nú biskup síra Biarna þar nidr um varit í fardögum.

[1]) ístadi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. Þ.*
[2]) ístadi, bæta sömu vid.
[3]) bata. sömu.
[4]) þögn — bedin. *A. B. C. E. Gr. Þ.*
[5]) fenginn. sömu.
[6]) segir. sömu.

55. Nú þvíat tvennum fer sögunum fram, ritar fyrst [1]) Rafn til Arna biskups, at honum þykir rofit samtal [2]) í [Skálahollts kyrkiu [3]) margra luta vegna, ok um skipan prófastsdæmis í Vestfiördum, ok standa í hans brèfi þessar klausur: «vitit þat til viss «medann ek hefi syslo af Noregs kóngs hendi í Vestfiördum, skal «Þorvalldr ei hafa prófastsdæmi, ok ei hefr hann stadinn í Hollti, «nema hann verdi ríkari en ek.» Ok enn ero nokkrar málsgreinir í því brèfi, ok standa enn þessi ord: «Ok vilit þèr ei hallda vorn «samníng, vitit þat víst at vèr skulum hallda ok fylgia kóngs bod-«skap med öllum þeim styrk sem vèr megum, sva at hans vili «gángi fram, ef ek er heill hvat sem þèr segit kènnimenn.» Herra biskupi brá ekki vid slíkt. Rafn stefndi þat sumar mörgum prestum til þíngs undir leikmanna dóm, ok líkadi Arna biskupi þat stórilla. Um sumarit reid herra Rafn ok lögmennirnir sva ok handgèngnir menn til þíngs, en herra biskup sat heima í Skálahollti. Þá tóko þeir sem á þíngino voro at tala um hit mikla missætti sem var á milli kóngs ok lærdra manna. Stadamenn ok múgamenn eggiodu Rafn fram, en hann tók þat til ráds at senda til biskups herra Jón lögmann, ok med honum Eyúlf Asgrímsson ok Þorlák bónda Narfason, rídu þeir í Skálahollt at leita um sættir, en med því at mörgum þeim er hverotveggium vildu vel, þótti mikit vidliggia at ei yxu vandrædi, var þat leiniliga ritat til biskups, at hann bydi öll mál úskorut undir dóm Eiríks kóngs, ok þess erkibiskups er til Nidaróss kvæmi, til þess at á þá leid mætti standa til þess er skip gèngio. Þeir kvamo í Skálahollt fyrir *commemorationem beati Pauli*, ok syndu herra biskupi brèf Rafns, í því voro margar sakargiftir af honum ok af hirdinni á hendi biskupi, kölludu þeir at hann hefdi rofit sætt vid sik ok vid stadamenn, ok af því sumir af þeim höfdu ei tekit líkama vors herra á páskum, fengust þeir herra Jón ok hans förunautar lèngi vid biskupinn þessa nátt, ok gátu þat ei samit, þótti herra biskupi Jón nú fara í þessum málum hvörgi betr en fyrr. Ok er þeir ætla brott at rída, baud biskup þann kost fyrir þeim sem á var fríat, at sinn mann tæki

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) sattmál. *B. E. Gr.*

[3]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

hvör til innanlands til görda um afbrigdi skildaga þvílík sem á hveria prófadist, ok hinn þridia Oddamann ef þyrfti. Hann neitadi því med öllu. Þeir budu kóngs ok erkibiskups giörd. Biskup neitadi því ekki, enda iátadi hann ei. Jón lögmadr skyldi þat til, at biskup skyldi nefna presta til at gèfa þeim þiónustu sem mist höfdo, ok gèfa upp Haukadals kyrkio, en Arni biskup fortók hvertveggia. Fóru þeir vid þat aptr á þíng, ok segia Rafni at þeir hefdu lítit syslat í sinni ferd, ok leid sú nátt. Um morguninn mánadagin [1]) reid med rádi ok tilskipun herra Rafns, Erlendr sterki heim í Skálahollt, ok varo þessir menn í ferd med honum, Þorsteinn Örvendilsson [2]), norrænn madr ok miök stór [3]) í skapi, Jón Kroppr [4]), Máni Asgrímsson ok enn fleiri. Ok er þeir kvamo á stadinn, spurdu þeir hvar biskup væri? Þeim var sagt at biskup var í Þorláks kyrkio, þeir gèngu til kyrkio ok beiddu at biskup gèngi til tals vid þá, en hann villdi hvörki tala vid þá nè [5]) siá þá. Ok er Erlendr sá þat hann mundi [lítit sylstrykr af biskupi þann dag [6]), vard hann reidr miök, ok eptir þat nefndi hann sèr votta förunauta sína, ok stefndi Arna biskupi þann sama dag til þíngs, at svara sökum fyrir sik, þeim sem á hann mundu kiærdar verda fyrir herra Rafni ok ödrum leikmönnum. Hann stefndi ok til sama þíngs á þenna sama dag síra Bearna. En herra biskup lèt sem hann heyrdi ei, ok aungann þeirra föronauta vildi hann siá þann sama dag. Þeir Erlendr ridu þegar á þíng upp. Eptir þat kvad Rafn upp í lögrèttu opinberliga, at þeir mundu taka allt vinnufólk af stadnum, ok leikmenn mundu verda settir á stadinn, ok at biskups bodordum mundi ei hlydt verda, ok at hann mundi ei ná at fara yfir landit eptir venio, ok útlaga mundu geörvir þeir sem biskup setti á kyrkiueignir móti kóngs brèfi. Eptir þetta spurdi Rafn ef nokkrir væro þeir vinir biskups, er þá vildu rída til hans ok freista ef hann vildi fyrir þeirra ord nokkut til ráds taka, sem ei færi í sva mikla úfæro sem áhorfdist? Nefndi hann

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) Vendilsson. sömu.

[3]) fár. sömu.

[4]) Korpr. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) heyra ok ei, bæta sömu vid.

[6]) frá [ ei ná biskupi. sömu.

til þessa Þorstein bónda son Skóga-Skèggia [1]) ok Magnús Pètursson mág biskups. Þorsteinn segir, at hann kvedst ríða vilia ef fleiri villdu biskups vinir ríða, ok mætti því heldr til góds kvama. Magnús iádi ferd sinni, ok Helgi ok Ormr Jónsson [2]). XII ridu þeir saman. Þridia daginn kvamo þeir í Skálaholt harla snimma, ok fundu biskup, þvíat hann var þá audveldr vid at eiga. Þeir baro fram fyrir biskup brèf lögrèttumanna, stódu þessi ord þar í: at allir píngmenn villdu hafa ok halda í alla stadi brèf þat er Eiríkr kóngr sendi med Rafni, um stadamál, ok allt þat er samit var í Brautarhollti ok í stúkunni í Skálahollti, en bidia at biskup lèti aptr gánga þat sem þeim þótti ágèngit, var þat fyrst um Garda stad er þeim þótti rángtekinn, ádr en prófat væri af kóngi ok erkibiskupi hverir stödum skyldu ráda. Þar eptir var bodit [3]) at biskup kæmi í Garda til vidtals, at göra þar fyrir rád þat er þeim syndist bezt er þar byggio nærstir. Þarnæst stód sú klausa, at píngmenn mundu taka til sinna ráda med iáyrdi allrar alþydu um þenna stad ok alla adra, ok at þeir hefdu nú útlæga gört alla leikmenn sem á stadi settust móti kóngsbrèfi. Þar eptir var ritadr bænastadr allrar alþydu til biskups, at hann tæki þat til ráds um þetta ok allt annat er bezt gègndi. Þessir menn sem sendir voru segia at Rafn heitadist vid lærda menn ok stadarins heimamenn, ef þeim semdi ei. Sva segia þeir ok biskupi, at Rafn þóttist [í ofraun færdr [4]) at sitia á milli biskupa [5]) ok þeirra sem allt villdu láta þat fram hafa sem í Noregi var gört vid kènnimenn ok þá er þeim þiónudu, lèt ok þat fylgia, at hann kvadst aldrei medan hann var heilvita, legga hendr á biskup þó at hann lèti gífurliga, þvíat hann vissi, at þeir hefdu engir þrifist upp frá því.]

56. Þessir gódir menn sem brèfit [6]) báro bádu med fögrum ordum herra biskup vægia, eptir því sem honum syndist framast þolanligt fyrir bæn fólksins. Hann ritadi þá aptr eitt brèf til lögpíngis, ok stódu þessi ord þar í nærst virdugri heilsan: «Til þess

[1]) Skèggiason. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) Grímsson. sömu.
[3]) bedit. sömu.
[4]) ofraun særdr. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[5]) biskups. sömu.
[6]) brèfin. sömu.

«at virdugligr[1]) herra Eiríkr kóngr ok herra Hákon hertogi ok «frú Ingibiörg skili, at ek vil giarna til þess vægia, at þeirra sæmd «yrdi sem mest heil ok haldin, görik þess tillæti at sinni, at um «þau mál sem Rafn frír á, at ek hafi ei haldit þann samníng sem «vèr sömdum í fyrra sumar, þótt mèr synist at hann megi ei mik «at sönnu[2]) átelia, þá legg ek undir dóm Eiríks kóngs, ok þess «erkibiskups sem gud gèfr til Nidaróss kyrkio, slík sem þau próf«ast, at því tilskildu at þeir dæmi heilagri kyrkio ok mèr sæmd «fyrir þat er Erlindr digri stefndi mèr ok prestum mínum til leik«manna dóms móti guds lögum, ok fyrir þat annat er til afbrigda «hefir gört verit af leikmönnum í móti þeim samníngi sem giördist «med oss í Skálahollti, en um þiónusto tökur þeirra sem kyrkiur «hafa tekit, sem kóngs brèf synist ávísa, þolik slíkt ok hit fyrra «sumar.» Ok er þessir menn kvamo á þíng, gèkk herra Rafn á stefnu, ok var þá lesit brèfit, giördi herra Rafn því sva at akta[3]) fyrir almenníngi, at færri mætti tillutast. Ok er þetta var skodat, mælti hann: helldr vil ek þetta giöra en vandrædi fari í, ok aunga sátt kallak þetta. Var þat þá rádit, at menn gèngi til lögrèttu, ok kvad Rafn þat upp, at hann mundi svabúit standa láta til þess er skip gèngi, sva at ei ykio menn ny vandrædi á hin sem ádr stódu. Hann þakkadi mönnum sinn gódvilia er til biskups höfdu ridit med fögrum ordum, þvíat hann skildi at herra biskup hafdi [meir slævast látit[4]) fyrir blídri bæn þeirra en fyrir hótum ok hardmælum. Herra Rafn ritadi þá brèf med Magnúsi Pèturssyni til biskups, vissu þeir þat einir er á var, reid hann þegar um náttina í Skálahollt.

57. Þetta sumar kvam út síra Gudmundr son Halls or Skridu med þeim tídindum at Svíar heitudust at ráda á Norveg ok brenna Víkina, en Eiríkr kóngr hafi stefnt af Islandi XL manna or hverium fiórdúngi, ok var öllum handgèngnum þegar samsumars stefnt. Þá frèttist andlát Alexandrí Skotta kóngs, ok þat at Eiríkr Dana kóngr var myrdr, sva ok at Andres biskup hafdi Jorund kórsbródur

[1]) vantar í *A. B, C. E. Gr.* þ.
[2]) sinni. sömu.
[3]) ei, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.
[4]) þetta hellst giört. sömu.

af Hamri kosit þar til biskups, en Dólgfinn til Orkneya. Þá varo ok kvamnir í Noreg sendimenn Tartara kóngs á fund Eiríks kóngs. Þá hafdi ok herra Eiríkr kóngr gèfit Alfi Erlíngssyni iarlsnafn til at hann verdi Noreg ráni [1]). Síra Gudmundr reid til móts vid herra Rafn, svasem treystandi á adalakkèri leikmanna, ok lèt upp fyrir honum þau brèf, sem kóngr hafdi sendt honum. Var þat þar í, at Noregs menn þoldu ei at Islendíngar hefdu nádir ok kyrrsetur, en þeir hefdu iafnan leidángur, þarfyrir hafi kóngr at rádi Alfs sendan síra Gudmund til Islands, var ok Rafn einkanliga skyldadr at fylgia þessu eyrindi. Hann tók þessu fáliga, ok kvadst ætla at þetta væri þarfleysu upplaup, ok villdi lítin lut í eiga, lèzt vera stirdr ok ei herfær. Herra Eiríkr kóngr hafdi ok ritat til Arna biskups, ok standa í því þessi ord: «Þèr hafit heyrt, «at vèr höfum til vor kallat fólk af Islandi med miklum skunda, «bidium vèr at þèr látit heimila vöru ydra nefdum mönnum til «búnadar, en þèr takit adra iafnmikla þegar útgreidist; reynum vèr «ok nokkurn gódvilia af ydrum tillögum, þá skal ydur at aud-«veldari ydar bænastadr til vor.» Iafnskiótt sem Arni biskup sá þetta brèf, ok síra Gudmundr kom med þat í Skálaholt, sinnadi hann kóngs eyrindum sem mest, fèkk hann med öllum greidskap ok sönnum skynsemdum (ei fyrir þat at engi letti hann þessa ífángs) at lètta [2]) þeim meinum sem kyrkiunni þyngdu í mörgu. Sú var önnur sök, hví hann var þessa lattr, at þetta hafdi aldrei fyrr vordit, at kóngr beiddist útbods af Islandi. Hin þridria var, at menn hugdu þetta rád diktat, ei fyrir lidsþörf, heldr fyrir fèpínu [3]). Ok er biskup fann þat, taladi hann opinberliga hvar sem þetta mál var upphaft, ok svarar fyrst hinni fyrsto grein, ok þareptir hinum sídurum, ok mælti: Þótt minn herra Eiríkr kóngr hefdi mik kallat til ráda edr medalgaungo í þessa ferd, ættak ei at neita, synist mèr kóngr eiga þegnum sínum at ráda, en hvörsu máttut þèr hann fulltíngis krefia, ef ydur kynni naudsyn á landvörn vera, ef þèr vilit nú ei stoda annara naudsyn, ok sva sem iardligr kóngr veitir mönnum stundligan mála fyrir stundligt starf, sva

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) leita. sömu.
[3]) fèpent. *A. B. C. E. Gr.* þ.

þiggium vèr af himneskum kóngi, giöf hins eylífa lífs, því má enginn sá vera trúr iardligum kóngi sem útrur er himneskum kóngi, at guds ást er fyllíng laganna; en þar sem þèr trúit þetta fèpínd vera, hví má sá ei, ef naudsyn fullkvamin kallar at, skynsamligar krefia fèpúngs [1]), er manninn má rèttiliga leida í hættu lífsins, ok þar á ofan á madurinn fyrir sameiginligt starf vos ok vökur til vardhalds yfir sínum höfdíngia, sèr ok síno hyski til fridar ok fullra náda, ok makliga þarfnast sá öllum þeim velgiörníngum af ödrum, er þvílíks varnar ödrum, ok heitir drottins svikari, nidíngr ok bleydimadr. Kóngr á í gódum fridi vannskatt [2]) edr leidángur, en í naudsyn því meira sem naudsyn er meiri, þartil er öll hans eign ok hans þegna er þeim sameiginlig. Fyrir þessar biskups röksemdir, edr en heldr gudligar röksemdir, gèngu menn vel upp fyrir sunnan land, þar sem biskup var nær, en Rafn ok hans vinir stódu í móti sva framarliga, at þá er Rafn skyldi til skips rída, brást hann siúkr er hann var í Mælifellsdal, ok hvarf aptr, en Jón Korpr fór at kalla, ok lá þó iafnan þá er þíng var fyrir sunnan land um þetta mál, svasem finnandi sèr eitthvat til eyrindis; sumir segia honum til þessa gánga úsannliga, at hann vildi kóngi útrúr vera; sumir segia at honum ok mörgum ödrum þótti förin únaudsynlig; sumir hugdu at honum þætti biskupar miök einir vidrmælast, ok vinir hans ok stadamenn væro formannslausir, ef hann sigldi; fèkk hann af síra Gudmundi digurt ámæli, en herra biskup fagurt sannmæli, ok van fullkvaminnar leidrèttu kyrkiunnar mála, sem sídar bar raun á. Sigldi síra Gudmundr þat sumar, ok lofadi einörd ok örleik Arna biskups til kóngsins um þetta mál. Skildu þeir med blídu. Tóku þeir Noreg um haustit; þó var þá ádr sátt efnut millum ríkianna, ok vard enginn bardagi í brád.

58. Þegar skip var í brottu snyr Arni biskup í syslu sína til Vestfiarda. Ekki hafdi batnad med þeim Rafni fyrir þat er nú hafdi tilborit, ok hverir höfdu ödrum í móti stadit í þeim málum sem mörgum ödrum. Sá lutr hvesti ok helldr hiarta Arna biskups til þess at refsa kyrkiunnar vanrètti, at sva sagdist af Noregi, at

[1]) fèpeníngsins. *A. B. C. E. Gr.* þ. [2]) veniu skatt. *A. B. C. E. Gr.* þ.

kórsbrædur af Nidarósi höfdu, sídan únyttr var kosníngr Narfa biskups, kosit med gódu samþykki sín í milli til erkibiskups þann mann er Eindridi hèt, hann hafdi verit kórsbródir í Þrándheimi, ok stokkit or Noregi eptir upphaf sundurþykkis milli Jóns erkibiskups ok kóngs ráds, ok verit sídan útí Bónónía. Þeim kosníngi stód allt ráđ í móti, ok þótti líkligt at hann mundi fá [1]) þat far sem hans formadr Jón erkibiskup. Nú med því at þessi madr var ei úvitandi þessarar öfundar, ok margra íllra luta sem í Noregi giördust, fyrirtók hann at samþykia vilia kórsbrædra, í þann tíma er síra Sighvatr landi hans syndi honum brèf ok innsigli þau er þenna kosníng vottudu. Þessi sami Sighvatr fór þadan í Rómam, ok bar fyrir Hónóríum páva þessi vandkvædi Noregs manna, er sögn manna hann hafi þá kosit til erkibiskups Jörund biskup af Hamri, þann sem fyrir lítlu vígdi til biskups herra Andres Oslóar biskup. Kvam þá engi önnur sögn til Islands, en menn hugdu Eindrida med erkibiskups tign kvama til Nidaróss. Ekki er fyrr umgètit farlengd Arna biskups, en hann kvam á Eyri í Arnarfirdi til Eiríks Mardarsonar, hann hafdi tekit Selárdals kyrkiu ok eignir hennar móti vilia Arna biskups. Hann tók Hollts kyrkiu í Önundarfirdi, únytandi skipun Arna biskups ok vitni þeirra, er med eidum sönnudu, at þessi kyrkia var á dögum Hákonar kóngs ok Sigurdar erkibiskups undir valdi Skálahollts biskups, ok sva sögdu þeim þeirra formenn, at hún var á dögum hins sæla Þorláks undir hans skipan. Þessi sami Eiríkr hafdi ok tekit hval þann er Eyrar kyrkia átti, ok villdi þar kyrkiunni enga sæmd fyrir geöra, sannadi at biskup ætti engan dóm nè umvandan á þvílíkum lutum. Sú var ok hans sök, at þau brèf Rafns Oddssonar bar hann um Vestfiördu, sem opinberliga skyldudu menn til at brióta nidr biskupligt valld ok kyrkiunnar rètt, ok skyldadi fólkit til at halda þau í alla stadi. Enn varo fleiri sakir þeirra í millum. Ok er þeir biskup ok Eiríkr tóku at tala sín mál, beiddi biskup hann gánga or sínum úhæfum [2]), ok sættast vid gud ok heilaga kyrkio. En Eiríkr varnadi þeim allrar lögligrar sættar. Lysti biskup því, at hann mundi bannsetia hann á sídari Márío messu

[1]) fara. *A. B. C. E. Gr.* þ. [2]) athæfum. *A. B. C. E. Gr.* þ.

í Hollti, at fyrirfarandi lögligum áminníngum, ok þat kvam fram. Í þenna tíma beó sá madr undir Gnúpi í Dyrafirdi, er tekit hafdi kyrkio á þeim sama bæ ok þarmed hennar eignir, er Klement hèt eptir því sem fyrr er sagt, honum hafdi ok biskup gört áminníngar til betrunar, ok fengit ekki at unnit, ok því bannsetti hann þenna mann á sama degi sem Eirík med hríngdum klukkum ok steyptum kèrtum. Þessi sami Klement hafdi ok tekit í brott prest þann er herra biskup skipadi til þessarar kyrkio, ok hèllt kaupi hans; hann rauf ok dóma Arna biskups, þá er hann festi undir hans siálfrædi. Margir varo adrir menn í missætti vid biskup, sem fyrr var greint. Þá hafdi hann á þessu sumri görvar áminníngar Þorgrími Einarssyni ok Einari Vatnsfirdíngi; var sú hin fyrsta sök þessa sama Einars af mörgum, at hann tók Vatnsfiardar kyrkiu, riúfandi dóm virdugligs herra Jóns erkibiskups, ok briótandi brèf ok siálfs síns handsöl ok sætt vid Arna biskup; en önnur, at hann vildi ei bæta nè undanfæra med lögum legordssök vid þá konu er Gudrídr hèt, er hann var ádr íllmæltr af, hafdi hann ádr fyrri legit med módursystur hennar, ok var þó siálfr eiginkvæntr; enn hin þridia, at hann gèkk í kyrkiu í forbodi biskups; hin fiórda, at hann rak í burtu lærda menn frá kyrkiunni, ok hèllt prests kaupi, ok giördi þeim enn fleiri rángindi; hin fimta, at hann tók corpus Christi forbodadr af biskupi, sva at hann skyldi ei tídum hlyda. Þorgrímr hafdi þessar sakir: sú hin fyrsta, at hann tók af Þorláki, þeim manni er biskup hafdi skipat Stadar kyrkio í Steingrímsfirdi med öllu hennar gódsi; en sú önnur, at hann tók hvalþann, ok fènytti sèr, sem kvam á reka stadarins. Ok er herra biskup kvam til stadarins [1]), bannsetti hann þessa menn sömu Einar ok Þorgrím med sama hætti ok hina fyrri, þvíat þeir vörnudu allrar lögligrar sættar.

59. Nú er þar til màls at taka, at þenna dag sem herra biskup reid af Eyri [2]), sendi Eiríkr Mardarson mann til Rafns í Glaumbæ at segia hvar þá var kvamit, ok er sendimadurinn kvam

[1]) í Vatzfirdi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. Þ.*

[2]) í Arnarfirdi, bæta vid *A. B. C. E. Gr. Þ.*

nordr, lèt Rafn hann aptr rída til móts vid Eiríik, ok bidia hann kvama sem skiótast til móts vid sik í Steingrímsfiörd [1]) at úvörum Arna biskupi, ok taka þorvalld prest Helgason sakir forns fiandskapar, ok skulda þeirra sem hann hefdi ei lokit Rafni, ok þeir brædur, vóru þat L marka, sem hann lánadi þeim fyrrum í Noregi, hugdu þeir at biskup mundi slævast [2]), ef hann sæi at þorvaldi mundu skèmdir veittar. Ok er þessarar rádagiördar vard vís einn biskups vin leyniligr, þótt hann vefdist [3]) í stadamálum, sá var Tómas Snartarson [4]), sendi hann til Arna biskups mann med leyndarbrèfi því er ástód öll þessi Rafns medferd ok tilætlan; sá kvam til hans í innanverdum Isafirdi, þar sem Lángidalr heitir, ok hinn sama dag sendi biskup þorvalld prest vestr í fiördu heim í Hollt, en hann reid seálfr til Steingrímsfiardar. Ok er hann kvam til Kollafiardar, kvam Rafn í móti honum med marga menn, ok var hinn reidasti, þvíat hann misti þorvallds, töludust þeir biskup margt vid, ok samdi þeim ekki, þvíat hvertveggi var hinn þverasti, ok hvergi vildi tilláta vid annan. þetta var á ymbrodögum, ok vígdi herra biskup klerka ok saung messo, villdi hann at Rafn væri hvergi í nánd því starfi, ok líkadi honum stórílla, ok giördi þó sem biskup vildi. Drottinsdaginn eptir reid Arni biskup sudr til Saurbæar, ok þann dag reid þángat Rafn Oddsson, ok med honum hinir bannsettu menn, Eiríkr, Einar ok þorgrímr. Biskup var þá nátt at Hvoli. Mánadaginn snemma kvamo þeir herra Rafn til móts vid hann, ok mikill fiöldi manna, töludust þeir vid í kyrkio, ok var fátt manna hiá þeim. þá kvam þar at þeir sættust med þessum eidstaf: til þess leggr þú hönd á helga bók, ok því skytr þú til guds, at þú skulir halda þá dóma í allu stadi, sem dæmast á hendr þèr af herra Eiríki ok herra erkibiskupi, þeim er skipadr verdr til Nidaróss, þat sem til þeirra dóms heyrir um stadamál edr kyrkna; halda skaltu mína dóma um þat er Skálahollts biskup á dóm á því máli eptir guds lögum edr míns lögligs eptirkvamanda, ok enga kyrkiueign skaltu hèdanaf halda

[1]) til Stadar í Steingrímsfirdi, *A, B, C. E, Gr.* þ.

[2]) sefast, sömu.

[3]) dreifdist, *A, B, C, E, Gr,* þ.

[4]) Svartarson, söm u.

utan sampykki biskups, halda skaltu ok þær skriftir, sem ek skipa þèr. Gud sè þèr hollr ef þú heldr þenna eid, gramr ef þú ryfr [1]). Eptir þetta skilia þeir biskup ok Rafn med aungri blídu [2]). Fór biskup til Asgards, ok sva heim á leid, en Rafn heim til Glaumbæar.

60. Þann vetur sat Arni biskup heima í Skálahollti, en Rafn í Glaumbæ, versnadi at eins med þeim biskupi, þótti honum laus öll sín vidmæli [3]), sem hann hèt at þola stadamönnum, sakir þess hann trúdi at erkibiskup væri vordinn í Nidarósi. Rafn hardnadi ok í þrái síno vid biskup, ok leitadi med mörgu móti ok brögdum at fylla girnd sína um stadamál. Ormr Klængsson bió í Haukadal, sem ádr var sagt, ok veitti þær medalgaungur milli nefndra manna at ei varo sannvænar [4]), tiádi hann Rafni hardindi þau sem biskup lagdi á hann um fyrrnefndar sakir, forbod ok missir heilagrar þiónustu eptir biskups rádi. Rafn sinnadi honum í ordi. Þetta var ætladi Ormr at heimta þær tíundir, sem biskup bannadi honum, af þeim bóndum, sem fordum höfdu til Haukadals kyrkiu greidt bædi kyrkiunnar lut ok biskups lut, med rádi Rafns, at ei nædu þeir at leggia þær í kyrkio eptir rádi Arna biskups. Mánadaginn í gagndögum lèt hann södla hest sinn, ok ætlar at rída til Þórdar í Múla þess eyrindis, sem nú var greint, ok er hann ætlar á bak at stíga, fèll á hann sva áköf sótt, at hann mátti ei annat en leggiast í rekkio, þvíat hann fèkk valla styrt sèr, ok lá hann í þessu fári nær viku. Síra Oddr var þar prestr, sem fyrr var sagt. Ormr beiddi hann þá at rída í Skálahollt at bidia herra biskup lausnar ok sátta, en Steinunn húsfreya lióp upp, ok mælti: margir menn verda siúkir, ok leggia ei allt mál sitt undir hann, ok vilia þó ei þarfyrir láta eignir sínar. Vid þessa hennar áeggiun dvaldist för prests nokkra daga. Ok einn morgun kallar Ormr á húsfreyu sína Steinunni, ok mælti: nú skaltu ei lengr ráda at dvelia sætt okkar biskups, þvíat ek hefi nú tekit þá rádning, sem mèr er maklig, en þó at þú fáir ei slíka rádning, segir mèr sva hugr um, at

[1]) lygr. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[2]) því Rafn villdi ei þenna eid vinna, bæta sömu vid.

[3]) vidmæli. *B. E. Gr.*

[4]) vænar sáttir. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

þú munir ei heldr missa mikillar rádníngar, þótt sú sè annan veg lagin. Eptir þetta mælti hann til sama prests: gör nú fyrir guds nafn ok dvel ei, ok seig biskupi, at ek vil allt til sætta vinna vid gud ok heilaga kyrkiu þat sem hann leggr á mik. Hann fór þegar í Skálaholt, ok segir biskupi þat sem Ormr baud honum, ok beiddi hann ráda. Biskup mælti: skunda þú heim ok leys hann, ef hann vill þat til vinna sem lög heilagrar kyrkio bióda, leys hann, ok [þóat hann sè eins allr[1]), ef þat vitnast at hann hafi med slíkum vilia framfarit sem hann hafdi fyrir þèr, skal hann þó ei grafa í Haukadal at þeirri kyrkiu er hann tók med ráni, en ef hann lifir þá er þú kèmr heim, ok fær lögliga sætt, fari hann til vor. Oddr prestr fór þá heim sem skiótast, ok kvam sva í Haukadal at Ormr lifdi, ok vard því feginn. Hann spurdi hvörsu biskup hefdi tekit ordsendíngu hans? Prestr bar þá fram bók at honum, ok las fyrir honum þann eidstaf sem biskup hafdi honum skipat, ok at hann skyldi honum í hendi láta verda greidt allt kyrkiofè. Ormr iádi þessu skiótliga, ok rètti hendr móti þessari bók, ok eptir eidinn leysti prestr hann, ok fèkk honum fulla sætt. Hann lèt greida Oddi allt kyrkiufè, var hann oleadr ok húsladr. Hinn sídarsta dag er hann lífdi, spurdi hann húsfreyu hvört af hendi væri goldit allt kyrkiufè? ok var þat snimma [*in octava ascensionis*[2]). Hún kvad úgreiddar brúnir tvær. Hvata þú kèrlíng, ok greid þær, segir hann. Ok er hún hafdi lokit af hendi brúnirnar, sáladist hann III kal. Júnii, ok var hann færdr í Skálaholt. Saung síra Símon prestr yfir honum. Steinunn sór þá ok af hendi Haukadals kyrkio, ok gallt fè þat er hún átti. Reisti þá síra Oddr búnad á kyrkiunnar lut, en þvíat Ormr hafdi ei átt allt land, þá var ei allt fyrir lokit, var þá sumt eiga þorgèrdar þorláksdóttur, þvíat Klængr gèkk þenna tíma í Vídeyar klaustr, átto þær Steinunn þá bádar eignarlutinn. Steinunn nam ei þar yndi sídan Ormr var allr, fór hún til Gigihvols[3]), en setti þorvald Klængsson fyrir búit í Haukadal. Eptir þat seldi hún landit Rafni Oddssyni til náda síra Oddi, var þar iafnan nokkur úrói þeirra á milli medan Rafn

[1]) frá [ þó at eins at hann sè allr. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[3]) Gygiarhvoli. sömu.

lifdi. Eptir dauda hans fèkk biskup landit sva af Þorgèrdi sem af Steinunni þat sem Rafn hafdi ei fyrr lokit, hann tók ok af Hallottu hennar part þann er Rafn hafdi áttan. Um sídir seldi hann Haukadal Lopti Helgasyni frænda sínum [1]).

61. Þetta var sem hvört annat, lèt biskup á sömu leid sem ádr er greindt, segia þeim sem kyrkiur höfdu tekit at rádi Rafns, at þeim var full naudsyn at halda sik frá líkama Christi, at þeir iykiu sèr ei stóra byrdi ef þeir tækio; hann lèt krefia allra kyrkna ok eigna þeirra hvert ár medan þessi deila stód. A þessu vari reid herra Rafn heiman or Glaumbæ til Borgarfiardar, ok þadan á Alftanes med miklum flokki, ok setti fyrrnefndan Sturlo Sæmundarson á Gardastad, ok fèkk honum í hönd alla kyrkiunnareign [2]), ok kastadi á þat kóngseign, ok lèt merkia búit med marki sóknarmanns. En þvíat herra biskup vard var vid at Rafn mund) þetta giöra, lèt hann prest flya fund hans, at ei fengi hann meiri [3]i vansa af sínum úvin. Settist þá á stadin Sturla riúfandi sín særi þau er hann sór Arna biskupi, sem ádr er greindt. A þessu sama vari stód Arni biskup frammi fálidr [4]) vígsmadr í fylkíng síns signada herra, ok þóat hann syndi ástareld almáttigs guds tendradan í síno hiarta, med ordum ok eptirdæmum verkanna sem framast fèkk hann vidkvamit, ok þarmed ydugligri ástundan ok úbrigdum [5]) vilia, þá gèkk sva lángt fram um rèttindin kapp leikmanna á þessu þíngi, er á þessu sumri var, at hinn sami Rafn lèt í lögrèttu höndum upptaka, ok göra med lófataki útlæga alla þá menn, er herra biskup skipar á stadi ok kyrkiueignir þær, sem hann kalladi leikmenn eiga, ok med allsheriar dómi, ok lèt lysa yfir þeim nefniliga á hèrads þíngum. Rafn lysti ok því, at þeir væro ok allir saklausir sem biskup hafdi bannsetta fyrir kyrkiurán, ok samneytti þeim siálfr, ok þeir adrir sem hans vilia giördu. En virduligr Arni biskup sem Elías, óttadist ei lidsfiölda sinna úvina,

1) hvör ed var hans vinr og iafnan fylgiandi. bæta vid *A. B.* C. *E. Gr.* Þ.

2) en stökkti á brott síra Biarna, hann tók ok fè þessa sama Biarna þau sem umfram varo kirkiueign. bæta vid sömu.

3) neinu. sömu.

4) sva sem hraustr. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

5) óþreyttan. *B. Gr.*

kalladi þá í banni, sem á þesso þíngi höfdu verit, ok lèt leysa hvörn er til handa gèkk, ok sva hvörn þann er Rafn samneytti, ef hann kvam því til vegar. Rafn lèt ok brèf rita ok styrkia med síno innsigli, þat er Sveinbiörn Súdvíkíngr bar um Vestfiördu, ok lèt lesa í hvörri kyrkiosókn. En þat var annat, at hvör sá madr er síra Þorvald hèldi fyrir formann, edr veitti honum nokkra hlydni edr honum festi nokkut mál, skyldi heita landrádamadr, ok hafa fyrirgört fè ok frid; ok þeir menn, sem þenna Þorvalld verdu edr styrktu, skyldi rèttlausir vera fyrir kóngsmönnum, skyldu ok þeir sem lènin hefdu missa þeirra, ef þeir flyttu ei þessi brèf; hann skyldadi ok til sóknarmenn at taka Holltsstad í Önundarfirdi móti eidum prestanna Steinþórs, Arna, Finns, Snorra ok Jóns, er þann stad sóru iafnan frá dögum hins sæla Þorláks biskups hafa undir Skálahollts biskupi verit til þess er Rafn Oddsson tók hann á dögum Arna biskups; let Rafn ok þat fylgia, at þenna stad skyldu þeir taka, hvört þeir fèngiu med gódu edr íllu. Þó var þat margt talat af Rafni, at meir var í fyrstu gört til þess at hræda fólk heldr en med alvöru, urdu ok margir tregir til slíkra atgiörda, þvíat þeir visso vísa reidi biskups ok stórmæli þar sem hans vili ok skipan var at aungu höfd; suma tálmadi nokkur gneisti guds ástar edr mótmöglan eiginnar samvizku, sem raun bar á, at hver þeirra gèkk til biskups valds í lífsháska, ok sór eptir því sem biskup baud honum, til þess at deya undir iátníngo kyrkiunnar mála [1]) ok trú sem Arni biskup hèllt ok hafdi, hvörsu margar varnir sinna mála sem hann bar ádr digurbarkliga fram, þá er hann [lèt ei [2]) lengra líf til kosníngar, sem ádr er greindt um herra Asgrím ok Orm í Haukadal, vard ok seálfum meira giald at þrái ok metnadi, því þeir óttudust sæmdalát ok virdíngar, ef ei hèldu teknum hætti, heldr en hyggioþrot [3]). Margar varo þá miklar greinir þær er ei ero ritadar sakir leti ok fáfrædi. Þetta sumar kvam brèf frá Jörundi Hóla biskupi til Arna biskups, í hveriu èr hann vottadi utanför sína, en beiddi Arna biskup at vígia þá menn er prófastar [4]) hans kynnu at senda til hans, ok sva chrisma ok

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) lier. sömu.

[3]) hyggioþrótt. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[4]) prestar. sömu.

oleum ef send varo, sva ok at hreinsa hinar stærri kyrkiur, ef saurgadar væro, ok adra þá luti er til biskups embættis heyra, sva ok at ráda um vandamál ef tilfèlli. Þetta sumar kvam siá frètt af Noregi, at pávi Hónóríus var allr, ok sva herra Andres biskup af Oslo, [ok var andlátsdagr hans næstr fyrir *inventionem crucis*. Sigurdr áboti af Hausno var ok allr [1]). Ingibiörg drottníng hafdi ok andast [næsta dag eptir *annuntiationem beatæ Mariæ virginis* [2]). Herra Hallkèll var svikinn af herra Alfi. Sva var ok allr herra Eiríkr Dufnalsson [3]). Þat spurdist ok, at síra Sighvatr mundi sækia pallíum, ok flytia í Noreg, sem fyrr segir. Þótti biskupi nú mikil van rèttíngar kyrkna málanna, frèttist ok gott frá kóngínum, at hann rèdi nú meiro en fyrrum, ok þótti þat allt til línkindar vid fólk er hann lagdi til. Á þeim vetri brann bær í Túnsbergi.

62. Þetta sumar kvam af Noregi Loptr Helgason frændi Arna biskups, ok hafdi Eiríkr kóngr gört hann sinn eidsvara, sem fyrr segir, vard biskup honum stórliga feginn, mátti hann þá af honum heyra sannar sögur af Noregi, fór hann skiótt í Skálaholt, ok var þar um veturinn vel haldinn. Á þessu sumri sigldi herra Jörundr Hóla biskup, ok vard vel reidfari, ok kvam í Þrándheim, ok var þann vetur þar. Ekki fann hann Eirík kóng í þeirri ferd; virdu menn þat fyrir honum sem vinir varo til. Allt þetta sumar heitadist Rafn vid síra Þorvald, ok lysti útlegd hans ok brædra hans Magnúsar ok Jóns. Miklo varo þeir fleiri menn er hann kalladi útlæga fyrir ymsar sakargiftir. Allan þenna vetur fóru þau ord frá herra Rafni, at honum þótti Arni biskup giöra údæmi á kóngs þegnum, í því hann bannsetti mótgángsmenn christninnar [4]), sva Sveinbiörn Sudvíkíng ok adra fyrirgángandi [5]) menn í Vestfiördum, hann kallar biskup riúfa öll þeirra sáttmál, ok því leitadi hann þat kall med verki at fylla, sem ádr var útsendt af munninum; hann heitadist at halda biskups tíundum ok láta biskup

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) á þessu ári. sömu.
3) Duffgalsson. *A. E.* þ. Duffalsson. *B. C. Gr.*
4) kyrkiunnar. *B. E. Gr.*
5) gángandi. *A. B. C. E. Gr.* þ.

ei ná yfir land at fara, utan hann lèti stadamenn hafa þat í fridi, sem hverir þóttust vald eiga yfir at hafa. Hèr á móti þagdi ei Arni biskup med öllu; ok þó Rafn vildi sem annar Achab giöra at kálgardi víngard hins rèttláta Naboths, lèt Arni biskup sem annar Elías fliúga yfir sína úvini eld ógnarmála af heilögum ritníngum, takandi dæmi af fornu ok nyo lögmáli, hvílíkan enda lífsins höfdu nidurbrotsmenn rèttrar trúar ok saurgunarmenn heilagra mustera, Antíóchus Epíphanes, ok adrir hans makar, Heródes ok Pílatus, Cajus Cæsar ok Theódóricus Verónensis[1]), er alþyda kallar þidrik af Bern; segir hann ok þessi part vilia eiga í þeirra íllgiördum, mundu med þeim kènna af gudi part í rèttiligum hegníngum, ok einkanliga fyrir þat er þeir snèro öllum sínum lygdum ok rángindum uppá sínn formann, þann sem þeir leitudu at spilla med sínum lygdum, en þeir áttu med rèttri reglu, leida hann á allan sóma sæmd ok höfdíngliga hófsemd, ok framar því at forda hans sálu vid öllum skadsamligum lutum helldr en líkamanum vid hættiligum lutum, sem hún er fremri[2]) í öllum lutum. þetta sannadi hann med prèdikun í heilagri kyrkio, þetta ávítadi[3]) hann med brèfum ok sendipistlum í öllu síno biskupsdæmi, ok þetta sama bar hann fram í dagligu samtali, vid þat vaknadi hann ok sofnadi, ok æ var hans hugr á lögmáli síns sæta lávardar, endurbætíng ok leidrèttíngu christninnar. En því bannfærdi hann Rafn ei ok hans hinn nærsta sporgaungumann at sva frekum heitunum, at hann hugdi at því minna mundu þeir hlífast vid íllvirkium, sem þeir kèndu framar á sèr hardmælin; dvaldi hann atgiördir fram um þíng, at hann mætti at framkvæmnum verkum gèfa makliga refsíng, at ei mættu hans úvinir mæla, at fyrir hans brædi fengi heilög christni skömm edr skada, ok giördi hann þetta þó ei minnr fyrir bænarsakir ok tillögu síns kiæra vinar herra Runólfs ábóta, heldr en fyst edr ofdirfd[4]) eiginligs hugar.

63. A þessu sumri[5]) sannadi herra Rafn fornan ordskvid, at framkvæma liód þau er laungu varo súngin, því hann reid heim or

[1]) Valónis. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) honum dyrri. sömu.
[3]) vítadi, *E.* ritadi, *B. Gr.*
[4]) údirfd. *B. E. Gr.* þ.
[5]) vori. *A. B. C. E. Gr.* þ.

Glaumbæ skyndiliga til Vestfiarda ok ætlar á úvart kvama at fyrrnefndum Þorvaldi presti, ok grípa sva hann sem Jón bródur hans. Þorvaldi kvam niósn af þessari hans fyriraetlan, kvamust þeir brædur í kyrkio, Þorvalld í Hollti, en Jón heima at sín. Þorvaldr kvam ok sínum faungum í kyrkio med sèr ádr Rafn kvam þar. Þeir varo um stundarsakir umsetnir, en um sídir gèkk Þorvaldr á vald herra Rafns, ok hèt öll sín mál undir hann at leggia, ok þó at haldinni hlídni vid gud heilaga kyrkio ok biskup sinn. Jón lagdi ok allt sitt mál á vald Rafns. Prest einn er Þidrik hèt [medallagi eyrinn [1]) gripu þeir ok hræddu heldr hardliga, þann sem Þorvaldi villdi niósnir bera um þeirra ferdir. Fór Þorvaldr nokkut skeid med Rafni, ok þótti mönnum nokkut breitt ordlagi hans til biskups. Þessi tídindi kvamo brátt til eyrna biskupi, ok ei med ödru móti en Þorvaldr hefdi at nandsynialausu ok fyrir hrædslusakir gèngit á vald herra Rafns, ok lagt'allt sitt mál greinarlaust ok sva stadinn í Hollti undir hann. Vard biskup stórliga reidr öllum þeim sem í þeim málum áttu lut; var bædi at Þorvaldr hafdi illa gört, enda trúdi biskup honum aldrei sidan. Nær hvítasunnu kvam hann í Skálahollt, ok villdi sem fyrrum halda sèr fram vid biskup, en hann tók honum ok öllu hans máli þúngliga. Sá lutr hafdi enn tilborit, er herra biskup var mikil skapraun, at Þorvaldr hafdi sukkat [2]) kyrkio fiám í Hollti ok í Vatnsfirdi, ok sva gèngit í borgun fyrir síra Adalbrand bródur sinn um fè þat sem hann hafdi eydt fyrir Breidabólsstadar kyrkio á Rykianesi, medan hann bió þar. En Þorvaldr villdi ei lúka, þó heimt væri ok ei lidugr at lúka skyldi medan hann fèkk lítit edr ekki af sakeyri [3]) sakir únáda þeirra, er honum varo giörvar, ok honum var hvergi fridt. Hafdi biskup þolat honum þetta sakir naudsynia þeirra, sem nú voru taldar edr vinátto. En nú er hann vissi, at Rafn mundi af honum hafa vilia [4]) sína penínga, villdi hann ei at kyrkiurnar misti fyrir hann. Sá madr sem Niáll hèt átti ok penínga at Þorvalldi, sem hann hèt med Ingibiörgu systur sinni, ok hafdi

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[2]) sóat. sömu.
[3]) þeim er honum tilheyrdi, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[4]) vantar í sömu.

ei fèngit, sótti hann ok biskup at síno máli; hann bætir nú allar þessar skuldir kyrknanna ok Niáls á Þorvald, ok þótt hann verdist um stundarsakir, lagdi hann um sídir undir biskup [1]) hvat hann villdi af hans fè skipta honum til handa. Nokkro sídar nefnir biskup dóm á þesso máli, ok skipti til handa Niáli náhvals tönn á fimto öln hárri ok þar med ödru fè. Ok er Þorvaldr vissi þat, þótti honum afar illa, ok kvadst hálfu giarnara vilia gèfa herra biskupi, en greida Niáli slíka gèrsemi. Biskup segir á móti, at hann vill af Niáli þiggia tönnina, en ei af Þorvaldi. Gèkk biskup þá fast at þessu máli, at Niáll átti skyld at lúka Hólastad í Repp austr, ok vard þetta fè þar til at fara. Tönn þessa hafdi Þorvalldr fèngit af einum bónda í Vestfiördum med klókskap, honum líkar nú illa, ok bidr sèr ordlofs til siglíngar, en biskup iátar því ei. Fór Þorvaldr í burt í úblídu. Nokkro sídar sló hann því upp, at hann hefdi Eiríki kóngi gèfit tönnina. Litlu sídar sendi biskup brèf Rafni Oddssyni, í hvöriu hann ásakar hann um nysögd tiltæki, ok segir honum, at hann er enn at nyo fallinn í meira bann, ok at hann man eptir þíng syngia hann [2]) bann at Þorláksmesso, ok sva Erlend sterka, [ef hann vill ei sættast [3]).

64. Nær fardögum byst biskup í syslo sína til Austfiarda, ok rídr þángat med skyndíngo, en ætlar heim at Þorláksmesso. Þá frètti hann at nokkut skip mundi kvamit af Noregi med slíkum tídindum sem vordin væri, villdi hann þenna tíma spara atgiördir vid úvini kyrkiunnar, ok tempra þat eptir tilgiördum. En medan hann var í þessari för, kvamo Rafni ord ok brèf biskups, ok eyrdi honum ei vel; lèt hann nú stórum gífurliga, ok dróg med sèr alla sína vini ok Erlend [4]) at enda þat hann hafdi hördu heitit, þótti honum vænt um er hann hafdi veiddan hinn villdasta af yfirklerkum [5]) biskups, ok dregit miök til sinnar þykkio, ok vitnadist at svo mundu fara fleiri; hardnadi hann ok í sinni þriósku, en sinnadi Þorvalldi í öllu því sem til greinar var med þeim

[1]) sitt mál ok, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) setia hann í, sömu.

[3]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[4]) ætladi. sömu.

[5]) yfirmann af klerkum. sömu.

biskupi, ok einkanliga um tönnina; færdi hann ok þat biskupi til mótgángs vid kónginn, at hann hefdi kallast dæma af fyrrnefndum Þorvaldi fè hans; hann segir ok, þá er biskup heitadist at bannfæra hann: ekki kví lik því, þó biskup blóti mèr edr banni ok launi mèr slíku þat er ek hefir hèrtil miök vanfylgt kóngs bodskapnum, skal ek nú hèdanaf ei hlífast vid þar sem nú er aungu í at þyrma. Lítlo fyrir þíng kvam skip af hafi í Borgarfirdi, ok var þar á kóngs sendibodi sá er Oláfr hèt, [ok kalladr Ragneidarson [1]), en hann var af kónginum sendr ok med honum Sighvatr Hálfdánarson, ok skyldu þeir reka á Islandi kóngs eyrindi, var ok þessi madr audigr af peníngum. Vid þetta vard Rafn Oddsson stórum gladr, ok þóttist nú hafa fengit fulltíngsmann sinna framferda, rídr hann skiótt til móts vid herra Oláf ok Sighvat, ok segir þeim hvar nú var kvamit málum á landino, ok bad sèr fulltíngs, hann segir ok sína ætlan ok framferd. Fylgia nú margir þegar miök at vid þá herra Oláf ok Sighvat med fulltíngi Rafns, at naudsyn sè at láta ei kènnimenn kvama fyrir kóngs rètti. Oláfr fór vel í þessum málum, einkanliga fyrir því at kóngr heyrdi fagran vtnispurd síra Gudmundar til biskupi, en erfidan til Rafns. Ridu vid þetta til þíngs.

65. Þessar frèttir kvamo skiótliga í Skálahollt. Þótti vinum biskups sem nú mundi slá í úefni, ef fornir úvinir kyrkiunnar fengi sèr nyan fulltíngsmann sinna ránginda, ok hugdu nú mundi fullkvamliga yfirhvolfa, ef ei kvæmi siálfr biskup til andsvara fyrir sik ok heilaga kyrkio. Rafn hafdi ok ætlat at hallda biskups tíundum [ádr herra Oláfr kvam því á þat var at þær greiddust [2]). Þá varo sendir menn til Austfiarda or Skálahollti, Loptr biskups frændi ok Hallr af Skúmsstödum, eptir herra biskupi, at hann kvæmi til alþíngis. Hann reid austan skiótast at spurdum þessum lutum. Fór Loptr iafnan degi fyrr at fá honum fararskióta [3]), hleypti á siö dögum, ok kvam heim í Skálahollt nærsta dag fyrir

[1]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[2]) frá [ þat var ádr herra Oláfr kom á land þær greiddust. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[3]) skióta, *B. C. E. Gr.* Þ.

Pètnrs messo, ok reid á þíng *in commemoratione*[1]) *beati Pauli.* Fundust þeir herra biskup skiótt ok herra Oláfr, ok tók hann biskupi med mikilli blídu. Hann bar fram brèf virdugligs herra Eiríks kóngs, er honum var fagurliga þakkat sín fylgd ok framflutníngr, sem hann hafdi styrkt þat kóngs eyríndi, sem síra Gudmundr fór med, en bedit, at hann skyldi taka herra Oláfi kóngsins stallara ok herra Sighvati hæverskliga, ok leggia á med þeim heilrædi í öllum kóngs eyrindum. En um stadamál veik brèfit sva til: at kóngi þótti tilfelliligast, at bædi lærdir menn ok úlærdir hèlldu [þat skilord, sem or Noregi kvam[2]) undir hveriumtveggium innsiglum, en þat sem ágreindi, væri skotit undir kóngs dóm ok erkibiskups[3]), sagdist ok kóngurinn kènna sik skildan med erkibiskups rádi at fylgia kyrkiunni til síns rèttar sem ödrum. Enn var þar vikit nokkrum ordum til, at Arni biskup minntist kóngsins ok módur hans framfarinnar í bænum sínum. Herra Arna biskupi lèttist mikit um hiartarætr, er hann sá slík ord ritut til sín af siálfu sæti rèttindanna, at því sem vera átti, ok herdi hug sinn til þess at fylgia rètti kyrkiunnar, sem hann kèndi himneskan rèttara med sinni signudu hendi hafa snortit hiarta hins stundliga Noregs rèttara. Engi tídindi kunnu þeir framar af Noregi at segia herra Oláfr ok hans skiparar, en hitt fyrra sumar spurdist, því at þeir höfdu á Hialtlandi verit um veturinn, ok kvamit þar sídla um haustit. Herra Runólfr af Þykkvabæ reid med biskupi til þíngs. Eptir þetta áttu þeir[4]) Rafn stefnur at fyrrsögdum málum, var biskup hinn snarpasti, en Rafn hinn þverasti. Biskup beiddi at leikmenn lètu lausar kyrkiur þær er gèfnar höfdu verit, en Rafn neitadi því, ok bad hann leysa hina bannsettu. Biskup neitadi því á medan þeir væro slíkir, sem þá varo þeir. Herra Oláfr[5]) bar þá fram kóngs bodskap þann sem þat rád lagdi á med mönnum, at öll þeirra mál Rafns ok biskups væro fest í dóm virdugligs herra Eiríks kóngs ok erkibiskups, en stadi hèlldu þeir sem

[1]) *conversione. A. B. E. Gr.*

[2]) frá [ sva sem var ádr landit kom undir kónginn. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[3]) helldr en verra yrdi af, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[4]) biskup ok, bæta sömu vid.

[5]) Ragnarsson. sömu.

ádr hèlldu, til þess er orskurdr fèlli á, en biskup leysti hina bannsettu. Biskup hóf þá sitt mál, ok segir: at med því at bodskapr virdugligs herra Eiríks kóngs synist þetta rád á leggia, sem nú er ofrat[1]), þá er audsynt at ek vil ei annat samþykkia en vördslur sèu fèngnar, þeir sem úhættir sèu at borga fyrir öll kyrkiufè ok siálfar kyrkiurnar þær sem teknar ero, ok halldist þessi borgun medan af þeim stendr dvölin at kyrkian fær ei sín rèttindi, þvíat eingi van er at ek leysi med ödrum kosti þá sem ek hefir bannfært, nema kyrkian megi eiga uppreist[2]) af þessari bidstund, ok missa ei sinna rèttinda. Rafn mælti þá: borgunarmann munut þèr hlióta at fá fyrir ydur, ef ydur dæmist at bæta oss leikmönnum ok kóngdóminum. Herra Oláfr mælti þá: þat munu menn mæla í Noregi, at tæk sè borgun mín til móts vid nokkra íslendska menn fyrir eigna sakir, en til þess at ydar úsætt mætti fá gagnsamligan enda, vil ek borga fyrir Arna biskup mínum peníngum þann tíma sem þèr látit til ydar vördslur vid þetta sem herra biskup beidir. Rafn segir þá, ok kvad hans borgun allgód þykkia, en þá vilium vèr, at haldist öll sáttmál, sem med oss varo gör í Brautarhollti, ok á þíngi, ok í Skálahollti. Eptir þat borgadi herra Oláfr med handtaki fyrir Arna biskup, en herra Þórdr á Mödruvöllum fyrir herra Rafn, ok med honum herra Jón lögmadr, lèzt þá hvör þeirra tíunda V C. hundrada. At lyktum þessum borgunum var brèf ritat med hveratveggio innsiglum, ok var þat sva mælt: «I nafni födur ok sonar ok heilags anda. Eptir brèfi virdugligs Eiríks kóngs, því sem hann sendi til Islands med herra «Olafi ok herra Sighvati, þá stoddu med sèr á alþíngi þann samnaíng, sem giörr var á alþíngi edr í Skálahollti, herra Arni biskup, «herra Rafn ok herra Rúnólfr ábóta í Veri, herra Oláfr Ragneidarsson[3]), herra Sighvatr, lögmennirnir bádir, herra Þórdr, Nikolaus, Grímr prestr, ok margir adrir gódir menn, lærdir ok úlærdir. «Sva festist ok med handtaki í dóm virdugligs herra Eiríks kóngs «ok andligs födur Jörundar erkibiskups af Nidarósi um öll þau mál «ok afbrot, sem sídan hafa í görst milli lærdra ok leikra manna,

[1]) efnat. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) Ragnarsson. *A. B. C. E. Gr.* þ.

«nema þat sem þeir skilia at Skálahollts biskup á yfir at dæma, «ok varo þessir vördslumenn [1]), herra Olafr Ragneidarson fyrir «Arna biskup, ef nokkut væri kónginum ok erkibiskupinum þægt «af hans medferdum, en herra Jón lögmadr ok herra Þórdr [2]) «fyrir herra Rafn, þar sem hans giördir skortir fyrir slíkt allt er «á hann dæmdist fyrir sín afbrot sídan kóngs brèf kvamo til Is«lands um stadamál; sva gèngu ok skilríkir menn í vördslo fyrir «stadafè, at ei eyddist þartil er dómr fèlli á. Eptir þat leysti biskup alla þá menn or banni ok forbodum, sem fyrir þessi mál hafdi hann þeim yfirlyst, eptir því sem hann hafdi vald til at fyrirfaranda þessum eidstaf: Til þess leggr þú hönd á helga bók, ok því skytr þú til guds, at þú skalt standa á dómi virdugligs herra Eiríks kóngs ok erkibiskups um allt þat sem þú hefir brotit vid gud heilaga kyrkio ok Skálahollts biskup [3]). Gud sè þèr hollr. Ekki gèkk Rafn til lausnar, ok sumir þeir er ei kölludust sekir edr forbodadir, fyrir þat at biskup segir þá af siálfum verkunum fallna í bann edr forbod, þegar ei var einkanliga lyst stórmælum yfir þeim af kènnimönnum.

66. A þessu sama þíngi lysti biskup utanferd sinni, ok segir öllum sínum sökudólgum med brèfum afheyris [4]), ok med siálfs síns eyrindi þar á þínginu áheyris, at þeir mundu hans dómi hlyda verda um sín mál þann tíma er hann kvæmi til Islands, ef þeir bæro ei siálfir þau fram fyrir kóngi ok erkibiskupi edr þeirra lögligir umbodsmenn. At lyktudum öllum þeim lutum, baud [herra Olafr herra Arna biskupi [5]) í bod sitt, ok herra Runólfi ábóti af Veri. Herra Oláfr villdi ok at herra Rafn væri at þessu bodi, en biskup neitti því þverliga, ok kvad þá ei báda at einni veizlo vera mundo. Herra Olafr gaf biskupi sæmiligar giafir at þessari veizlo, ok sva ábóta. Eptir þíngit baud herra Arni biskup Olafi heim í Skálahollt [6]) at þiggia af sèr veizlo. Þat þekktist hann

1) veitzlumenn. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
2) á Mödruvöllum, bæta sömu vid.
3) hann skal ok aptr á mót bæta þat sem hann hefir þèr á móti brotit. Sva sè þèr gud hollr, bæta sömu vid.
4) áheyris. *A.*
5) herra Arni biskup herra Oláfi. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
6) ef Rafn færi ei med honum, bæta sömu vid.

eptir biskups vilia, ok þá at þesso heimbodi af biskupi gullhríng þann er stód hálfa mörk [1]. Eptir þat reid herra Olafr at reka kóngs eyrindi. A þessu sumri leitudu kóngs menn á um dóm þann er handgèngnir menn höfdu dæmdan á þá menn, er fyrir sökum höfdu ordit af herra Lodni [2], ok kölludu þá ei friálsa af utanferdinni utan þá þegar kvæmi fè fram þat sem dæmt var; en herra biskup [3]) segir: friálsir skulo þeir af vera, ok skal lúka þetta hálft XVIII^c. sem þèr kallit, þóat fararefni sèu minni. En med því at biskupi fór sva röskliga, var þat samit at þetta fè laukst eptir um varit. Herra biskup lysti ok því, at hann mundi herra Runólf ábóta af Veri setia fyrir stadinn ok kènnimenn sína medan hann væri í Noregi, ok lèt þat fylgia, at hann sá aungan mann í síno biskupsdæmi iafnvel fallinn til þessa starfs sakir vizko ok einardar ok mannkosta; en hann samþykktist þessari biskups beidslo.

67. Nokkrò sídar spurdust þau tídindi, at herra Jörundr Hólabiskup ok herra Þorvardr [4]) varo vid land kvamnir, hafdi Hóla biskup verit þenna vetur í Þrándheimi med herra Jörundi er ádr var biskup at Hamri, en nú var kosinn af pávanum, sem fyrr segir, til erkibiskups tignar. En þá var síra Sighvatr ei kvaminn af Róma med pallíum þat sem sendast skyldi erkibiskupsefni; seinkadi þat hans apturkvámo, at þá er hann kvam út, var Hónóríus pávi allr, ok fèkk hann ei sín eyrindi fyrr en vígdr var Nicolaus pávi sá er hinn Vti [5]) var med því nafni, ok var vígdr á þessu vori sem þá stód yfir. Litlu sídar kvam í Skálaholt síra Jón Ormsson med brèfi herra Jörundar erkibiskupsefnis, ok standa þessi ord þar í til almenníngs á Islandi: «Oss er kunnigt um dóm «þann er virdugligr herra Jón erkibiskup dæmdi í Beörgvín um «stadamál, ok at Arni biskup var skyldadr til at taka undir sik «allar kyrkioeignir, hver sem þær ádr hefdi, eptir nokkrum forn«um úvanda edr skildögum, móti biskups villd ok vilia, ok hèllzt «þessi bodskapr til þess er herra Rafn Oddsson bar til Islands

[1]) ok annat fleira, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[2]) Lepps, bæta sömu vid.

[3]) Rafn. *A.*

[4]) Þórdr. *A.*

[5]) IV. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

«opit brèf virdugligs herra Eiríks kóngs, fyrir hvert efni úlærdir «menn tóku undir sik, ok ónyttu sva dóm ok bodskap ágæts herra «Jóns erkibiskups; en þann dóm ok bodskap stadfestum vèr med «vóru brèfi, en þeir, sem á hafa sezt kyrkioeignir eptir brèfi ok «leikmanna styrk móti heilagri kyrkio ok lærdra manna skipun, «þá bæti audmiúkliga vid kyrkiona eptir dómi herra biskups, vili «nokkrir ok enn herda [1]) hiörto sín móti gudi ok vorum boskap, «ok hallda kyrkioeignir móti hennar frelsi, þá mega þeir rèttiliga «bannsetiast af biskupi. *Datum Nidarosiæ* [*proximo die ante fe-«stum sancti Vitalis, anno Domini* [2]) *MCCLXXXVIII*." Enn kvamo fleiri brèf erkibiskupsefnis þetta sumar, þau er Arna biskupi budu aftr at heimta af leikmönnum allar kyrkiur ok eignir þeirra, med hverium hætti sem þeir hefdu atkvamist, hvert sem þeir hefdo fengit at erfdum edr med kaupi ok kvennagiptíngum, edr med ödrum rángligum háttum. Segir svá pávalig makt, at þeir snui á heilagrar kyrkio nádir, ok taki lausn af hennar formönnum, en þeir er þat giöra ei, ero fallnir af siálfo verkino í bann, ok dregit undan biskupi sínum alla hlydni fólksins sem villumenn. Sva vottar ok í þeim brèfum, at virdugligr herra Eiríkr, med guds miskun Noregs kóngr, vill því sídr veria þetta mál, at hann vill iafnan betra ok bæta, ef nokkut finnst misfarit af sinni hendi, ok sva at þeir vanvirdi hann mikiliga, er honum kènna sín íllvirki, ok leitast vid at drepa hann í sinni synd. Erkibiskupsefni baud ok sva: at sá kristinn rèttr væri hafdr á Islandi, sem herra Jón erkibiskup ok herra Arni biskup skipudu. At fèngnum þeim frèttum, eggiudu margir Arna biskup at hallda ei um siglíng sína þau sannmæli [3]), er giörr varo á alþíngi, ok leita fyrst at rètta kyrkio sína ok stadi. En þar kvam skiótliga sendimadr herra Olafs Ragneidarsonar, hann ritadi brèf til biskups, ok í því fysti hann, at biskup brigdi ei þann gódvilia ok sannmæli, sem hann hafdi görð fyrir kóngsmönnum, at fara í Noreg, ok láta kóng ok erkibiskup orhöggva sagdar greinir, ok hætta ei á hvert kóngr virdir þat til áleitni vid sik, er hans tillaga er í aungu höfd. Í þesso brèfi stód

[1]) hugi sína ok, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[3]) sammæli, *B. E. Gr.*

ok sú klausa er herra Oláfr eggiar Arna biskup at sigla til Biörgvinar, ok bindast í fullum trúnadi vid Eirík kóng ok Hákon hertoga, sva sem hann giördi vid Magnus kóng födur þeirra, ok þá mundu öll þeirra mál bezta enda hafa. Herra Olafr beiddi ok herra Arna biskup, at hann ákveddi hvar þeir skyldu finnast til vidurtals um þá luti, sem ei varo enn skiladir þeirra ímillum. Herra biskup sá at þetta var heilrædi, ok sá, at nú man sva verda, at fyrir litla bidstund fengi heilög kyrkia lángar nádir, en fyrir skiótrædi mætti görast lângt sundurþykki. Því ritadi hann á móti, ok þakkadi fyrrnefndum herra Olafi heilrædi ok fögur ord, kvadst þetta at hans skapi giöra vilia, en lèt ei naudsyn tilstanda, at þeir findist fyrr en nidr [1]) vid skip ádr þeir skildu.

68. Nú er frá Þorvaldi presti at segia, hann bió sik til siglíngar í Hvítá ordlofslaust, þvíat hann rauf öll sín heit vid biskup. Þá sendi hann fyrrnefndan síra Jón Ormsson til Þorvalds, at heimta sèr til handa fyrrnefnda tönn; en hann villdi ei hana rákna láta. Fóro þeir þá bádir uppí hèrat, ok deildu um þá sömu tönn fyrir herra Olafi ok herra Rafni, ok vanst þat at hon fór nordr til Gása [2]), ok skyldu þeir biskup ok herra Rafn med sèr hafa. Fór síra Jón heim í Skálaholt, ok sagdi biskupi hvar þá var kvamit; en hann ritadi brèf til kaupmanna í Hvítá, ok fyrirbydr þeim at flytia Þorvald um Islands haf, fyrr en kyrkiurnar höfdu af honum fè sitt; ok gáfu þeir aungan gaum at biskups ordum. Fór Þorvaldr í skip at úloknum sínum skuldum. Herra Arni biskup reid af Skálahollts stad [*in VIII Laurentii* [3]), ok kvam föstukvölld í Laungohlíd, var þar fyrir herra Olafr ok herra Rafn. Geir baud biskupi þar at vera, en hann gèkk til kyrkio, ok fyrirtók þar at vera nema herra Rafn færi á annan bæ. Herra Olafr bad þá at biskup skyldi samneyta honum, en þat fèkkst med aungum kosti. Ok er þeir Rafn rido or gardi, mælti hann med miklum reidisvip: nú hefir ek þrimsinnum flyat fyrir þèr, Arni biskup, en þat læt ek ummælt, at sá þrífist aldrei er í

[1]) nordr. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) til skips í Eyafiörd. sömu.
[3]) um Laurentíusmesso skeid, *A. B. C. E. Gr.* þ.

siötta [1]) sinn flyr fyrir þèr. Þeir ridu til annars bæar. Þessu nærst áttu þeir enn at deila um tönnina hverir med skyldu fara til Noregs, lètu hverutveggiu þat uppi, at Eiríki kóngi skyldi gèfa, lagdi Oláfr þat til, at Arni [2]) biskup skyldi vid tönninni taka, ok færa kóngi, ok skyldi hann ráda af hverium hann þægi. Lèt biskup sækia tönnina, ok hafdi med sèr. Þetta sumar sigldu kaupmenn í Hvítá, [ok Þorvaldr med þeim [3]). Ok er þeir höfdo litla ríd siglt í allhagstædum byr, gèkk Þorvaldr til siglu, ok mælti fyrir skipi eptir sid, ok skorti ei mikit túngubragd. Ok er því var lokit, mælti hann: nú er því líkast at skipit skrídi undir mèr á eina leid, hvert sem Arni biskup gèfr mèr ordlof edr ekki. A þeim sama degi gèkk um vedrit, ok styrmdi at þeim. Þá rak upp í Hvalseyum, ok braut skipit, en tyndust miklir penýngar. Allir hèldust þar menn. Fór Þorvaldr prestr þat haust til Vestfiarda, ok var í Holti um veturinn, ok gèkk ei í kyrkio, ok lá honum þat ílla.

69. Þetta sumar biuggust þeir til siglíngar hverirtveggio fyrir nordan land, sem fyrr var gètit, herra Arni biskup, herra Olafr ok herra Rafn. Var biskup med herra Þórdi á Mödruvöllum, ok bída byriar, ok eptir þat á Mödruvöllum í Hörgárdal, ok var þar med Jörundi Hóla biskupi, til þess at þeir lètu út hverotveggiu *in festo sancti Ægidii.* Var þó herra Arna biskup á ödru skipi, en herra Olafr ok herra Rafn á ödru skipi. Margir stórbændr fylgdu herra Rafni til skips, þó ei sèu hèr nefndir, sva ok Sturla son hans, er hann setti eptir at giæta ríkia sinna med vinum sínum ok venzlamönnum. Tóku þeir [herra biskup Krákuvadir [4]) úti fyrir Þrándheims mynni nærsta dag eptir krossmesso. Sídan sigldu þeir til Nidaróss, ok var herra biskup þar um vetrinn, ok hafdi herbergi í Maríu hospítali [5]). Varo þessir menn þá med honum: síra Arni systurson hans [ok kapallín hans [6]),

[1]) fiórda. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[2]) vantar í sömu.
[3]) vantar í sömu.
[4]) biskups vadir. *E.*
[5]) spítali. *A. B. C. E. Gr.* Þ.
[6]) var kapellan hans, (sá vard biskup eptir hann), sömu.

ok síra [Ormur Dagsson [1]). Þessu nærst kvam síra Sighvatr or Róma med pallíum, ok lögdu þeir þat á herra Jörund erkibiskup Arni Stafángurs biskup ok Arni [2]) Oslóar biskup *in dominica XX* [3]), ok í þessari messo vígdi Jörundr erkibiskup, er ádr hafdi verit biskup í Hamri, Þórd biskup til Grænlands, ok med honum Arni Skálahollts biskup ok Þorsteinn biskup af Hamri; þetta var hinn nærsti drottinsdagr eptir *festum beati Dionysii*, en erkibiskup kvam heim ádr nærsta drottinsdag fyrir Michaelis messo. Brádliga tókst tal med þeim herra erkibiskup ok Arna biskupi, ok þegar þeir gördust málkunnir, tók hann honum blídliga, en taldi þó á hann um þat, at hann hefdi verit mikils til slær, er hann hefdi ei bannsettan Rafn ok adra kyrkioránsmenn í síno biskupsdæmi, segir vera mikla skömm at þola slíkt, þar sem einginn þordi á móti Hóla biskupi, ok hann rèdi þar mest friálsliga öllum kyrkium at því er hanom var flutt. En Arni biskup segir at ei gèkk þessi flutningr á fyrir alþydu á Islandi. Erkibiskup villdi ei ödru trúa at úprófudu um þetta en sögn Hóla biskups, þó var hann margr vid Arna biskup ok frèttinn af Islandi.

70. Þetta sama haust fór herra Rafn til Biörgvínar, ok fann Eirík kóng, tók hann honum vel, átti hann tal vid kónginn um stadamál, ok dró fram sín mál eptir [4]) megni. Síra Jón Hollt var ok þar, ok áttust þeir opt vid hardar deilur. Herra Oláfr Ragneidarson [5]) fylgdi honum mjök, ok lèt þó vel í ordi til Arna biskups, en ílla til Jóns, ok kèndi honum mikil völld um sundrþykki þeirra. Þetta haust var herra Gautr í Tólgu lagdr knífi til bana. Þat vann herra Hallvardr af Hördu [6]), ok vildi hafa lagit annan mann. Nokkru sídar tók Isakr son Gauta Hallvard or Svíthons [7]) kyrkio ok lèt hálshöggva; fyrir þat vard hann útlægr. Þenna vetur andadist herra Lodinn Leppr ok Grímr ábóti af Jóns

[1]) Jón Ormsson ok Ormur Dagsson. *A. C. E.* Þ. Jón Ormsson ok síra Jón Dagsson. *B. Gr.*

[2]) Eivindr. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[3]) Þetta haust, bæta vid sömu.

[4]) fremsta megni ok mikilli alvorir. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[5]) Ragnarsson. sömu.

[6]) Hando. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[7]) Súthúngs. *A. B. C. Gr.* Þ. Sæthúns. *E.*

kyrkio. Þenna vetur stefndi herra Jörundr erkibiskup Rafni Oddssyni á sinn fund af opinberum söknm, ok einkanliga fyrir þat hann var samþykkiandi brautrekstnrs herra Jóns erkibiskùps, ok bad hann kvama til sættar ok yfirbótar. Arni biskup giördi honum ok stefnu til sín at taka umbót fyrir þau sín afbrot er honum heyrdu til, ok fèkk [1]) Rafn hveriga stefnuna, ok leid sva til föstu. Nokkro sídar ritadi herra erkibiskup ok Arni biskup til Narfa biskups hver um sínar sakir, þær sem á Rafni stódu, ok med rádi erkibiskups bodadi hinn sami Narfi Beörgvínar biskup nynefndan herra Rafn bannsettan um fyrrsögd sakferli, ok í því banni stód Rafn lánga stund, villdu menn þadan af ei samneyta honum utan nokkrir íslenzkir menn; hann keypti þá at enskum klerk þeim er Vilhiálmr hèt med XIV C. [2]) vadmála at hallda máli hans til laga, ok lèt þessi klerkr sem hann appelleradi til páva þessum sömu málnm, ok undan erkibiskupi, ok vard hans appelleran únyt, kvam ok ei varan fram. Nær midföstu reid erkibiskup sudr um Dofrafeall at geöra visitationem í öll sín biskups ríki, ok er hann kvam aptr til Nidaróss, bannsetti hann krossmessodag þann mann er Jón hèt ok var Bryniúlfsson fyrir brottrekstr herra Jóns erkibiskups. Ei miklu sídar fór Arni biskup til Beörgvínar, ok kvam þar at uppstigníngardegi. Hafdi Eiríkr kóngr þetta vor látit útbióda leidángr, var þat ord á at hann ætladi til Skotlands, en sumir segia [3]) hann fara mundi til Danmerkr. Voru þá skipin lögd útí Flóruvago. Fór Arni biskup at bidia hann at gèfa sèr ordlof til Islands, en hann veitti honnm þat blídliga, fór hann þá aptr til múnklífis. Ok er herra Rafn Oddsson vard þessa var, herdir hann at Audunni Hestakorni, at hann fái þat af kónginum at hann kalladi aptr ordlofit Arna biskups, fyrir þat er þeir voru úsáttir, ok mál þessi voru [4]) tölut til enda. Audunn fèkk þetta af kónginum, hann kèmr nú skiótt til biskups, ok segir honum, at engi er kostr annar en sækia til Víkr austr eptir kónginum, ok skal hann ei til Islands fara fyrr en þeir hafi lyktat mál sín. Biskupi likar nú illa er aptr var tekit ordlofit, tekr hann þat til ráds, at hann

[1]) fór. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) XIII C. *E. Gr.*
[3]) hugdu. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[4]) eigi *A. B. C. E. Gr.* þ.

sendir til herra Runólfs ábóta síra Jón Ormsson ok síra Orm Dagsson med þeim bodskap er þau brèf syna er þeir fluttu med sèr til Islands. Tók herra ábóti þeim vel. Herra ábóti segir þeim ok þat, er þar hafdi ádr görst um veturinn, at síra Þorvaldr hefdi siglt í úlofi, ok hafdi med sèr alla penínga sína, en goldit ei kyrkiunum þat sem Arni biskup kvad á, en verit í Hollti um veturinn, ok hafdi vid hönd sèr mannskonu þá er Valgèrdr hèt ok var Gunnarsdóttir, ok fengit þaraf mikla úfrægd, ok prófadist á hann at hann hefdi fleirum kyrkium rángt gört, en fyrr er greint, en sukkat í sumum stödum Róma-skatti í Vestfiördum, sva at ei hefdi fyrir kvamit, ok hann kvadst ritat hafa til Noregs framferdir hans, sva at þar mætti rètt af honum göra, hann segir ok, at slíka vidvörun hefdi hann gört stadamönnum ok ödrum úvinum kyrkiunnar, sem herra biskup var vanr móti páskum.

71. Þareptir lètu þeir verda sèd á bodskap erkibiskups, ok var fyrst eptir kvediosendíng iátord [1]) Arna biskups þau er hann segir erkibiskup allan tilgáng á stadamálum á Islandi, ok hverso nú var hverio máli kvamit. Þar var talat í þeim brèfum er síra Jón færdi ábóta [2]), hve lángt þeir væro frá rèttindum viltir, er kyrkiur hèldu utan ordlofs [3]) biskupanna, ok at skömm væri í at þola hegníngarlaust slíkar úhæfur. Eptir þat var tiád, at hann baud at allar kyrkiur ok eignir þeirra væro aptr heimtar undir Skálaholllts biskup. Þareptir var ritat, at erkibiskup kallar Arna biskup lögligan dómanda allra afbrota í síno biskups ríki, ok allir hans undirmenn skyldu á hans dómi standa um fyrrsagdar sakir. Eptir þat stód sú klausa, at biskup [4]) kvadst hafa spurt Eirík kóng, hvert Rafn hafdi eptir hans brèfum ok bodskap tekit kyrkiurnar sem þeir fluttu; en hann segir sva, at þeir snúa brèfum hans eptir sínum vilia. Þareptir var vitni borit, at þat prívilegíum gaf siálfr gud forstiórum kyrkiunnar, at þeir en eingir leikmenn eiga lög at [segia nè [5]) dóma dæma yfir andligum lutum. En í [6]) biskups

[1]) innt ord. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[2]) Arna biskupi. sömu.
[3]) skipum. sömu.
[4]) erkibiskup. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[5]) sine. *A. C.* þ.
[6]) Arna, bæta vid sömu.

brèfi stód sú klausa, at herra Arni biskup baud Runólfi ábóta at stefna utan þat sumar herra Erlendi sterka, at taka lausn af herra Jörundi erkibiskupi af því banni, sem hann fèll í þá er herra Jón erkibiskup var af Noregi rekinn. Herra ábóti giördi þetta. Erlendr brá ok skiótt vid, ok fór til skips í Eyafirdi, ok sigldi þar, ok kvam til Þrándheims, ok fèkk lausn, sem sagt man verda. Nokkro sídar reid herra ábóti heiman af Skálaholti, ok hitti herra Jörund biskup í Hornafirdi, *in festo Matthæi Evangelistæ*. Hóf hann med því sína för, at hann skodadi um kyrkiofè hvar þorrit hefdi, fór hann stundum eptir máldögum, en stundum eptir sögnum presta. Allar úgèfnar kyrkiur kalladi hann í erkibiskups valdi, ok baud prestum at láta skrá nöfn sín til erkibiskups, ok nafn þeirrar kyrkio, sem þeir beiddust, ok hèt þeim þar til sínu fulltíngi [1]). Biskup reid vid tíunda mann í Gunnarsholt. Hóf ábóti sín eyrindi, þvíat þar var prestum samanstefnt, ok lèt lesa brèf Jóns [2]) erkibiskups ok Arna biskups, ok beiddi Hálfdánssonu til sækia, en þeir vildu med eingu móti at bordi gánga. Þar varo lesin upp þau erbiskups brèf, er Hóla biskup skyldudu til þessarar ferdar, ok vottudu at hann mætti giöra þetta iafnframmliga, sem siálfr erkibiskup, þótt hann hefdi tilkvamit. Herra Sighvatr veitti lidsinni Runólfi ábóta iafnan er kyrkna mál varo kiærd.

72. Laugardaginn eptir Michaelismesso reid hann [herra [3]) biskup] í Skálaholt, hann aktadi eptir um eignir stadarins, ok lèt ásannast at minni væri þurdr á en honum hefdi flutt verit, ok hann kvadst hugat hafa. Varo þá tíundir nær CC^c. ok XL^c., en landaleigur nær C^c.. Reid hann hinn fimta dag í Arnarbæli, ok var þar þar fögur veizla. Þar beó herra Þorvardr [4]). Þar sættist Sturla Sæmundarson, ok áttu þeir herra biskup ok Þorvardr gódan lut at. Herra Snorri hinn digri gèkk [5]) til sættar í Hvammi í Dölum, ok sór eida. A Stadarhóli sættist ok Þorgrímr á Stad ok Thómas Snartarson [6]) med svörnum eidum sem hinir; tók herra

[1]) sínum flutníngi. *A, B, C, E, Gr,* þ.
[2]) Jörundar. sömu.
[3]) Jörundr. sömu.
[4]) Þórarinsson, bæta vid sömu.
[5]) fyrst. sömu.
[6]) Svartarson. sömu.

biskup [1]) þartil vitni af herra ábóta um þat sem Skálahollts biskupi heyrdi til. I Hiardarhollti í Dölum lètu þeir sveria eida, at Beörn Dugfússon, sá er þann stad hafdi haldit móti rádi Arna biskups, hefdi á efstum stundum beidst sættar, ok viliat þat til vinna sem biskup vildi, ok andadist í því, ok var grafinn í kyrkiogardi í forbodi sakir ofríkis herra Rafns. Eptir þat var hann uppgrafinn, ok leysti herra ábóti hann, en herra biskup hreinsadi gardinn fyrir þá sök, at þessi bein höfdu þar grafin verit. En ábóti spurdi þá at skilnadi hvers honum þætti mest áfátt í syslu Arna biskups. En hann segir, at erkibiskupi mundi hann ei heldr fyrir annat eiga sökum at svara, en þar sem þorrit hefdu kyrkioeignir. Þadan sneri herra Jörundr biskup til Rútafiardar, flaug þat frá ordum hans, at fár mundu kyrkiur verda rètt gèfnar í syslo Arna biskups fyrir tíma sakir. Herra ábóti sneri þá til Reykiahollts, ok kvam til móts vid hann Stadar-Brandr, ok sór eid; eptir þat var hann leystr. Allir þessir sáto á kyrkioeignum þann vetur, ok gèngo af um varit [2]). [Or Reykiahollti sneri ábóti heim í Skálahollt, ok var þar um veturinn [3]).

73. Nú er at segia frá Arna biskupi þá er hann hafdi senda fyrrnefnda presta Jón ok Orm til Islands med þann erkibiskups bodskap, sem hann ætladi sèr fram at bera, at-fengno lofordi gèkk hann á eina tvítugsesso, sigldo þá sudr med landi, ok fundu ei kóng fyrr en í Ekureyum [4]) fyrir Jóns messo Baptistæ. A þessari stundo hafdi erkibiskup leystan Rafn Oddsson í Túnsbergi at fyrir-

1) Jörundr. *A. B. C. E. Gr.* þ.

2) fyrir hrædslo sakir bannfæringanna ok makt biskupanna meir en fyrir rèttindi, er þeir nádu ei at halda skildögum sinna forfedra, er kyrkiurnar stiftudn þegar landit kristnadist, ok stadit hafdi vídast um stigtit til daga Arna biskups, ok herra Rafn hèllt á fastliga, en sú andliga vörn var bann ok forbod, ok at pávinn mætti þesso skikka eptir sinni makt sem kristninnar höfut, smídudu nyan kristinnrètt á dögum Jóns erkibiskups, en kölludu úveniu þann gamla skilmála bændanna, at þeir skyldu at erfdum gánga, þótt þeir væro heilögum eignadir at öllu edr hálfo. Med þesso ok þvílíko móti urdo bændr afláta, ok láta biskupa ráda eptir sinni vild ok vilia ok pápiskri makt, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

3) vantar í sömu.

4) Akureyum, *B. E. Gr.* Eiríkseyum, *A. C.* þ.

faranda lögligum eidi. I Akureyum kiærdi síra Jón Hollt at hiáveranda herra Jörundi erkibiskupi á herra Rafn Oddsson, at hann hefdi farit med flokk manna at taka kyrkio' þína, en vel þótti mèr þat, þótt hún væri tekin, ok ek kann þar sva mikit af at segia, at eingi kyrkia hefir tekin verit á Islandi, nema ek vilda [1]). Þá mælti erkibiskup: heyrit þèr nú at hann iátar sik nú foríngia hafa verit fyrir því er kyrkiurnar varo teknar, ok lèt skrá þessa hans vidgaungu þegar í stad. Margir lofudu hverso vel hann gèkk vid. Arni biskup bad sèr ordlofs, ok þvíat hann fèkk ei, gèkk hann í skip kóngs, ok fylgdi honum til Danmerkr.

74. *In octava Apostolorum Petri et Pauli* sigldi kóngrinn öllum hernum í Eyrarsund, ok sömu nátt eptir sigldi Kolbeinn Rottuhryggr [2]), ok drukknudu þar af [sextán tugir [3]) manna. Um morguninn eptir lèt kóngrinn brenna Hlèseyu [4]), ok sigldi sídan í Refshaladiúp, ok lá þar nær fim vikur um akkèri. Oláfsmesso aptan tók erkibiskup ok adrir biskupar at fara heim med skip sín. Arni biskup fèkk sèr þá bát lítinn, ok prestr hans med honum fyrrnefndr Arni frændi hans, er sídan vard biskup, ok ætladi til erkibiskups. Kóngrinn hafdi ádr sendt Guttorm Gyduson ok nokkra menn med honum, at taka Arna biskupi ordlof af erkibiskupi, at hann færi med honum um sumarit. Ok í því er biskup kvam í bátinn, ok prestr tók at róa, leyptu þeir Guttormr skútunni uppá bátinn, sva at driúgum hvolfdi, ok gripu þá báda ok drógu í skútuna, ok segia þau erkibiskups ord at biskup mundi verda med kóngi at fara er hann fèkk ei ordlofit. Líkadi Arna biskupi þat stórílla. Þetta sumar lèt kóngrinn vída taka strandhögg [5]). Sídan þat fór í, villdi Arni biskup eingis matar neyta, hverki brauds nè

[1]) En mèr þykir þeir skildagar eiga at standa, er þeir gömlu giördu er kyrkiur stiptudu eptir heidni, sem var at þær skyldu at erfdum gánga, ok hverr skyldi halda prest eptir vilia ok tiltölu, sva sem lengi gèkkst vid sídan, inntil daga Jóns erkibiskups; þartil þeir lærdo smídudu sèr annat háttalag med hiálp pávans ok erkibiskupsins, bændum þar á landi til stórs afdráttar ok skada, bæta vid *A. B, C. E, Gr*, þ.

[2]) Kèttuhryggr, sömu.

[3]) LX, sömu.

[4]) Lússeyri, sömu.

[5]) í Danmörk, bæta vid sömu.

smiörs, nema þat er heiman kvam af Noregi. [Eptir Olafs messo [1]) ritadi Eiríkr Dana kóngr til Noregs konúngs ok hertogans, [ok sva Arna biskups [2]), ok kiærdi sik er þeir brædur hèlldu Greifa Jacob, ok þá fleiri, er hann kallar födurbana sína, en heriudu á land hans, bad hann herra Arna biskup at leggia þat rád á med Eiríki kóngi, at hann gæfi upp greifann ok lèti af hernadinum. Eptir þat sendi Eiríkr Noregs konúngr herra Arna biskup ok Biarna or Giska ok fleiri herramenn upp í Kaupmannahafn [3]) til vidrtals, ok skildu þeir sva, at eingri sætt vard ákvamit med þeim. Nær Laurentíusmesso sigldi kóngr öllum hernum sudr um Mön í Grænîngiasund [4]), þar gèkk upp Noregs her, ok brendi Eyuna Falstur. Eptir þat lá Eiríkr kóngr um [5]) Nyahús, fèkk hann þar mikinn mannskada, ok margt lid vard sárt. Herra Rafn Odddsson tók í vanda þá daga sem hann gèkk upp at taka blessan af Arna biskupi. Þat bar sva til einn dag at hann gádi þess ei; ok er Rafn kom í hug veniubragd sitt, þá er hann var á leid kvaminn, mælti hann vid förunauta sína: legist hefir mèr nokkut í minni veniu, ek gádi ei at taka blessan af biskupi. Þrændskir menn fóru þá med honum, ok segia: en megit þèr snúa aptr sva at þèr missit ei blessunar. Rafn svarar þá: görist ferd sem má, ei man ek aptr snúa at sinni. Þann dag sáto þeir nær húsino, ok er minst vardi, kvam madr, kallandi, herra Rafn, segir hann, kom til kóngs, ok bitt sár manna. Hann stód upp skióttliga. Þeir sem í húsino voru heyrdu herramann nefndann, ok sáu þann mann er uppstód í audkèndum búnadi, skutu þeir at honum sem í drífu sæi, kvam ein ör í handlegginn í músina, önnur í bakit, þridia í fíngurinn minsta, grero þau tvö sár skiótt, sem hann fèkk fyrri, en blástr lióp í fíngurinn, ok batnadi ei þat sumar. Maríumessodag leysti kóngr úr Grænîngiasundi ok allr herinn, ok sigldu undir Fión [6]) um kvölldit. Um morguninn eptir tók kóngrinn tal vid hertogann bródur sinn, ok Arna biskup ok rád sitt, ok var kóngr miök sèr

1) Eptir þat. *A. B. C. E. Gr.* þ.

2) vantar í sömu.

3) Kaupinhafn. sömu.

4) Grenníngasund. *A. B. C. E. Gr.* þ.

5) eina festing er þá var kallat, bæta sömu vid.

6) Fyn. sömu.

einn á þykkio, því at hann villdi strída á Eirík Dana kóng, ok freista hverso færi, en flestir voru á móti, ok villdo fara heim til Noregs, ok var þat ráds tekit, at hetinn sigldi nordr um daginn undir Sámsey. Um morguninn eptir sigldi margt lid[1]) án ordlofs allt til Noregs. Kóngr leysti ok þá mikinn þorra flotans, ok sigldi heim á leid til Túnsbergs med hinum bezta byrium, ok kvam þar fyrir Barthólómæus messo. I þessari ferd þoldi Arni biskup mikla neyd í vistafángi, ok fèkk mikinn skyrbiúg í munninn, sva at hann hafdi iaxla færri[2]) heim en heiman; þá[3]) batnadi honum þann tíma er hann kvam til Noregs. At sídari Maríu messo baud hertoginn kóngi bródur sínum ok Arna biskupi inn til Oslóar, ok veitti hann þar á fyrrgreindri hátíd fagra veizlo. Eptir þat sneri kóngrinn ok med honum Arni biskup aptr til Túnsbergs, þar spurdu þeir tídindi af Islandi. Kvam þadan Gnúpr prestr, ok tók Arni biskup hann til sín. Gèkk þá herra Rafn optliga til Arna biskups, ok töludu um tídindi af Islandi. Hönd hans sú sem skotit hafdi í fíngrinn kvamit, tók þá at skiálfa ok visnadi.

75. Nær veturnáttum rèd Eiríkr kóngr at fara pílagrímsferd til hins heilaga Olafs konúngs í Nidarósi, Arni biskup skylldi þá ok fara med honum, hann beiddist þá ok til at herra Rafn færi þá ok nordr med þeim, at þá væro tölut stadamál fyrir kóngi ok erkibiskupi, ok annat þat sem var þeirra ímilli. Herra Rafn[2]) kiærdi kránkleik sinn, ok mest sídan um þat lítla sár er hann hafdi á fíngrinum minsta, því þá tók bædi at visna höndin ok handleggurinn upp frá. Arna biskupi þótti þetta seinkan ok undandráttr hans at kvama til dóms um sögd kyrkiomál. Gördist þat þó af at Rafn fór hvergi, en kóngr ok biskup fóro til Oslóar, ok biuggust þadan. Hófu þá kóngr hertogi ok Arni biskup ferd sína Símonsmessodag, ok gaf Eivindr biskup Arna biskupi gódan gángvara[3]) þeim sem hann reid nordr. Þá er þeir kvamo á Ríngsakr[4]), var þar fyrir Jón Bryniólfsson sá er bannsettr hafdi verit krossmessodag af erkibiskupi, sem fyrr var greint, hafdi Jón þar fyrirbúit

[1]) skipa. *A. E. C. E. Gr.* þ.
[2]) iaxli færra. *B. E. Gr.*
[3]) þó. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[4]) afsakadi sik, ok. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[5]) gángara. *B. Gr.*
[6]) Reingisakr. sömu.

veizlo. Hertogi var úti í lítilli stofu med sína menn. Þenna aptan þá er Eiríkr kóngr hafdi tekit handlaugar, ok Arni biskup sat til annarar handar kóngi, en Jón hinn bannsetti var ætlat til annarar handar sitia mundi. Sem þeir höfdu setit litla ríd, taladi Arni biskup til kóngsins: ek bid ydr, herra, at þèr látit ei Jón hèr inni matast hiá ydur, ella man ek útgánga ok matast annarstadar. Kóngr rodnadi miök vid þessi ord, ok bad Jón fara brott frá bordino, ok matast annarstadar. Máttu þá allir siá, at þessi biskup hafdi ei hèra hiarta, þar sem hann þordi slíkt[1]) at bordi siálfs konúngs, eptir dæmi síns[2]) vígslu födurs, er ei villdi inni vera at brúdkaups veizlo Eiríks konúngs, nema Hallkèll Ögmundarson, er hann hafdi banni ýfirlyst, æti annarstadar. Jón gèkk ok þegar út, sem honum var bodit, ok undrudust þetta margir kóngsmenn. Þadan ridu þeir nordr á leid til Þrándheims, ok kvamo til Nidaróss Marteinsmessodag. Var herra erkibiskup[3]) þar fyrir, ok gördi processionem móti þeim. Slíka stund sem þeir brædur voru í Nidarósi var Arni biskup á kóngs kosti, ok hafdi stofu til svefns í kóngsgardi, ok voru þá hiá honum Jón Hollt ok síra Gudmundr Hallsson. Þenna tíma vard síra Jón vís af síra Gudmundi, at erkibiskup hafdi gèfit honum Oddastad, ádr hann fór or víkinni. Síra Jón sagdi þetta þegar Arna biskupi. Eptir þat spurdi hann síra Gudmund hvert þat væri satt, en hann gèkk vid at sva væri. Biskup gördi sik miök þúngan vid þetta. En einn dag gèngo þeir bádir til erkibiskups í svefnstofu hans, var þar hiá síra Arni kapellán hans, er sídar vard biskup. Arni biskup spurdi erkibiskup hvert hann hefdi gèfit Oddastad, ádr hann fór or Víkinni, þann sem ádr hafdi hann gèfit Grími presti Hólmsteinssyni, en fyrrum sókt af leikmönnum. Erkibiskup segir þetta satt vera, en lèzt ei vita at þessi stadr var ádr gèfinn, ok segir at giöfin var laus fyrir þessa skynsemi, mislíkadi erkibiskupi vid síra Gudmund um þenna flutníng, þó lèt hann Arna biskup gèfa honum Breidabólstad, ok taka af sèr vitiun[4]) til þess er vera átti eptir nyum lögum.

[1]) stórt. *A. C.* Þ.

[2]) gamla, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[3]) biskup. *A. B. C. E. Gr.* Þ.

[4]) vítiu. *B. E. Gr.*

76. Nú er þar til máls at taka [1]) næst gördum Arna biskups er Runólfr ábóti í Veri skildi vid Jörund Hóla biskup, ok sat heima í Skálahollti þann vetur, hann giördi herra Lopti þriár áminníngar, ok bannadi honum at Nicolaus messo inngáng heilagrar kyrkio en at jólum frá því at heyra tídir, ok til *Dominicam lætare*, áttu þeir fund ok baud Loptr ei framar en gánga af stad, en hinn settist á sem biskup hafdi skipat. Olafr Arnórsson [2]) hafdi heitit at gánga at fardögum af stad, ok rauf heitit [at fardögum [3]). Kètilssynir stódu ok þar í því [4]), gördi herra ábóti þessum hvériumtveggium lögligar áminníngar, lètu Hítdælir stadinn, af hendi eptir fardaga ok tóku lausn *in Nativitate* [5]) *Johannis Baptistæ*; þann sama dag bodadi herra ábóti Olaf Arnórsson bannsettan fyrir nysagda sök, stód hann í því um stund.

77 A því hausti sem Rafn var eptir kránkr í Túnsbergi fór Erlendr sterki at stefno Arna biskups nordr til Þrándheims á fund Jörundar erkibiskups, ok var þá af honum leystr fyrst af því banni sem hann í fèla vid burtrekstur virduligs herra Jóns erkibiskups, ok af því sem hèr felldi hann á sik á Islandi, segiandi lög um kyrkna vardveitslur, at fyrirfaranda þeim eidi at standa á kyrkiunnar dómi um öll þessi mál. Þarnær var ok þat er fyrrnefndr herra Arni hèllt einn dag stefnu vid Erlend ok Grím prestsson, ok hafdi umbod herra Rafns um stadamál, var á þessari stefnu Eiríkr kóngr, Hákon hertogi, Jörundr erkibiskup. En þvíat erkibiskupi varo ukunnigri stadamál á Islandi en herra Arna biskupi, ok herra Erlendr var fyrr leystr enn hann kvæmi til Nidaróss, bar hann sakir á Erlend, er hann [segi þat lög at herra Rafn gaf undir leikmanna valld nefndar kyrkiur á Islandi í Skálahollts biskupsdæmi [6]); ok sva um þat er hann setti sik fremstan med herra Rafni at brióta nidr kyrkiunnar lög, ok þeir tækio undir sik dóm

[1]) er nærst skildum vèr vid, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) Arnason. sömu.

[3]) þá fardagar komu ok sat kyrr. bæta vid.

[4]) sama forbodi. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[5]) *Natali.* sömu.

[6]) frá [ ok herra Rafn segia þat lög at kyrkiur í Skálahollts biskupsdæmi eigi at vera undir leikmanna valldi. sömu.

um forrædi á kyrkio [1]) tíundum, ok dæmdu þær undan biskupligu valldi, ok þat er þeir giördu kaup í nokkrum stödum um kyrkiur; sva ok um þat er Erlendr sagdist lögmadr skipadr sva yfir kristnum rétti sem lands lögum, ok þarmed fleiri adrar sakir. En þvíat Erlendr ok hans kompánar [2]) fengu ei afsakat sik um nysagdar sakir, ok kölludust ei at sinni öllum gögnum mega framkvæma, enn væntu fulltíngs af herra Rafni, ef hanom batnadi, syndust öllum þeim er vid voro staddir leikmannanna framferd því úheyrni [3]), sem hún var fleirum skinsömum mönnum kunnari. Stefndi ok herra Jörundr erkibiskup herra Erlendi eptirkvamanda sumar á sinn fund fyrir hina fyrri Marjomesso at hallda sinn eid, ok at standa á hans dómi fyrir brottrekstur Jóns erkibiskups ok öll sín afbrot.

78. A þessu sama hausti er herra Eiríkr kóngr hafdi hafit pílagríms ferd af Oslo Símonsmessodag ok ridit til hins heilaga Olafs kóngs í Þrándheim lá herra Rafn siúkr í Túnsbergi ok mátti ei fylgia sínum herra sakir síns fíngurs sárs sem fyrr greinir, leid sva fram til allrahelgra messo at minkadi megn hans, ok um sídir lagdist hann í rekkio. Ok þá er herra Rafn var miök hættr, kvamo til hans skynsamir menn bidiandi at hann giördi sitt testament, ok reiknadi vid sik um þau kyrkna mál er hann hefdi í stadit útá Islandi, en hann segir á þessa leid: ei veit ek úgiörr enn þid hve þessi mál vita [4]) vid, en lèngi er kostr um þau at tala, hafa menn þat fyrir satt at hann vænti sèr lèngri lífdaga enn raun bar á [5]). Eptir Marteins messo minkadi mál hans ok greiníngarvit, ok gèngo þá at hanom vinir hans sva mælandi: þvíat vèr vitum þik ei í þessum heimi munu siá þinn herra Eirík kóng, villdum vèr giarna þat flytia hanom, svasem víst til framkvæmdar, er þú beidir hann á sídurstu dögum at giöra þinn vilia um þá luti er þèr þikia mestu varda. Hann nam ord þeirra ok leit til þeirra med társtokknum augum sva sem synandi alvöro hiartans, ok hrutu þá þessi ord af hans munni: Sturla! Sturla! virdu menn sva at hann

[1]) kyrkium ok. *A. B. C, E. Gr.* þ.
[2]) medfylgiarar. sömu.
[3]) úhreinni. sömu.
[4]) víkia. *A. B. C. E. Gr.* þ.
[5]) raunir banna. *A.* þ. runir bana. *C. E.* hinir bana. *B. Gr.*

mundi bidia helst fyrir Sturlu syni sínum ok Sturlu syni síra Jóns Pèturssonar ok Hallkötlu [1]) er þar var hiá; en því at sú beidsla þótti skynsamlig þá var hún sögd Eiríki kóngi, giördi hann sídan nokkra þessara manna (þessa menn) skutilsveina sína ok herra. Eptir þessi ord framsögd lifdi herra Rafn litla ríd, ok mælti ei utan sèr til sáluhiálpar, [ok þó svasem med einum undirdrætti [2]), ok sáladist á Ceciliu messodag [3]), var útferd hans giör eptir landsvana sem um ríka menn. Kvamo þessi tídindi miklo sídar vetrar til Nidaróss, ok veitti Arni biskup hanom fagurliga bæn móti mörgum meingiördum, ei úlíkt þeim heilaga Ambrosío, er fyrir þeim mönnum bad eptir daudan sem hans mótstödumenn varo í lífinu [4]). Andreasmessodag fóro þeir brott af Þrándheimi brædur Eiríkr kóngr ok Hákon hertogi med síno föroneyti ok sudr til Biörgvínar. Herra Jörundr erkibiskup baud þá Arna biskupi blídliga á sinn kost; er hann þann vetr med honum ok fram á sumarit til þess er hanom kvamo peníngar [5]).

79. Þetta sumar sendi Arni biskup Gnúp prest Hallason til Islands med þeim brèfum er varo um skriptir stadamanna, ok dómahattum þeim er hann hafdi compónerat vid rád Jörundar erkibiskups, Sigurdar Lunda ok Ublauds Meistara. Kvam þat skip sem hann var á í Eyafiörd, ok flutti hann brèfin í Skálaholt til virdugligs herra Runólfs ábóta, hann leit á þenna bodskap, stód þar í andlát herra Rafns ok þau tídindi sem i Noregi giörst höfdu [6]), sva ok sem ádr var sagt, skriptir stadamanna ok dómar yfir málum þeirra sem til handa höfdu gèngit ok sættar. Þau varo ok sum brèf sem vottudu bann þat er þeir siálfir felldu á sik sem ei villdu gánga til lögligra sætta fyrir [*percunctatorium diem* [7]) þann sem i brèfinu vottadi, ok nærsta dag fyrir Olafs

[1]) vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) vantar í sömu.

[3]) hafdi hann þá fimm vetur um sextugt, bæta vid sömu.

[4]) frá [ eptir daudann. sömu.

[5]) af Islandi, bæta sömu vid.

[6]) þótti vinum ok náúngum ok stadamönnum mikill skadi at herra Rafni er hann var allr í Noregi ádr þau stadamál voru til lykta leidd, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[7]) ákvedinn dag, sömu.

messo hina fyrri kvamo þessi brèf í Skálaholt. Litlu sídar hóf Runólfr ábóti ferd sína vestr til fiarda. Var skip kvamit fyrir sunnan, ok á því Erlendr lögmadr Olafsson, hafdi hann ei bedit stefnubods herra Jörundar erkibiskups, fundust þeir herra ábóti i Stafahollti, ok giördu med sèr nokkra samnínga. Þadan fór herra ábóti vestr í fiördu, ok kvam Eiríkr Mardarson til hans á Reykianes [ok Þorgrímr á Stad [1]), ok giördu slíkar skriptir sem virdugligr herra Arni biskup hafdi ritat. Flestir allir stadamenn, þeir er herra ábóti fann í þessari ferd, gèngu undir skriptir þær. Abóti fór aptr um Helgafell ok utan um Myrar ok sva til Feriubakka. Tókst þá enn tal med þeim herra Erlendi, ok horfdi allt þverliga af beggia hendi, sva at þeir skyldu úsáttir. Stód Erlendr þann vetr í forbodi, þvíat hann syniadi skriptir at taka, ok enn var fleira til missættis. Olafr Arnórsson hafdi þetta sumar fregnat andlát herra Rafns, vard hann þarfyrir skielfdr ok gèkk af stad Laurentíus messo, ok kvam til móts vid ábóta at Marío messo í Skálaholt, ok var leystr at fyrirfaranda eidi. Veitti gudlig milldi þessum forstióra kristninnar [2]) med fulltíngi Arna biskups, sem utanlands diktadi slíkar röksemdir. Herra ábóti lèt ok ei dvína atgaunguna at allr múgr leikmanna vard sinn munn fyrir hanom at byrgia. A þessu sumri fór Þorvalldr í skip at nyu í ulofi Runólfs ábóta, hafdi hann næsta vetur þá atferd sem ádr er frásagt, en sva fór siglíng hans, at þeir lètu skip vid Færeyar, en tóku allir land. I þessari ferd hendi hann hörmuligt tilfelli, at þar ádr var hann sakir frænda ok framkvæmda ok mikilla menta öruggr ásóknarmadr úvina guds kristni, medan hann hèllt trúnad vid sinn herra, var hann gripinn af uhreinum anda sva hardliga, at til heilagrar Magnús kyrkio leiddu hann X menn fyrir naudsyn ok inní kyrkio, ok er hann kvam at dyrunum, vard sá lutr er útrúligr mætti þykkia, ef ei vitat [3]) væri um þann grun, sem heilagr Magnús drottinn [4]) sömu kyrkio píndist fyrir ekki, ok vard ei til eingis Christí píslarvottr. Nú er þeir kvamo med þenna mann í kyrkiuna, vard hann sva ólmr í ædi [5]) at hann fèll sem daudr nidr í höndum þeim, ok

1) frá [ vantar í *A. B. C. E. Gr.* þ.
2) þyl... bæta vid *B. E. Gr.*
3) ritat, *B.*
4) patrón. *A. B. C. E. Gr.* þ.
5) vidleystr, sömu,

þau bein, sem ádr varo sterk um edli fram, urdu nú blaut ok breikslig móti allri nátturu; lofadi hann þá lifanda gud, iomfrú Marío ok Magnús kyrkiodrottinn [1]). þeir varo sem sva töludu hègómliga um þetta, ok sögdu vordit af sterkri drikkio, ok þór [2]) hefdi valldit ædi hans, en til prófunar at ílla er satt, vitiadi þetta mein hans eptir þat hann kvam í Noreg á fund herra Eiríks kóngs. Varo ok þeir menn er þat sönnudu, at þá er hann tók at ásaka sinn herra fyrir Eiríki kóngi, sótti hann hinn sama meinsemd, geymdu hann þá fyrst Islenzkir menn ok sídan Norrænir. Var þá giörr [3]) bakstr nokkut sèrlegr ok bundinn vid höfut honum, en þat dugdi ei; andadist hann í þessari hörmúng. þenna vetur annan var Arni biskup oryggr í Noregi at því sinni.

80. [Um varit eptir [4]) kvam út aptr or Noregi Arni Skálahollts biskup, ok varo þá skipadir aptr stadir í Skálahollts biskupsdæmi prestum velflestir, þvíat honum hafdi veitst sú nád hiá kóngi er hann var í höllu hans [5]). Sú rèttarbót var gèfin híngat í land IV vetrum sídar] er sva hliódar: «Eiríkr med guds miskun Noregs «kóngr. Vèr vilium at ydur sè kunnigt at vèr höfum sætst vid «Arna biskup ok gört veg á vid hann fullan um stadi ok kyrkna «eignir med rádi Jörundar erkibiskups, ok samþykkt at þeir stadir «í Skálahollts biskupsdæmi, sem kyrkiur eiga alla, skulu vera undir «biskups forrædi, en þeir sem leikmenn eigu hálfa edr meir, skulu «þeir halda med þvílíkum kènnimanna skyldum, sem sá hefir fyrir«skilit er gaf, en lúka af ei framar." Sama ár [6]) setti Jörundr biskup klaustur at Stad í Reininesi ok á Mödruvöllum í Hörgárdal. þat ár deydi þorvardr þórarinsson. Nærsta ár sóro XII bændr kyrknaeignir á stödum í Skálahollts biskupsdæmi. Ari

[1]) patrón. *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) þat. sömu.

[3]) heitr. sömu.

[4]) Anno 1291. sömu.

[5]) ok hofi nokkur ár, ok iafnvel í herför med honum. Enn hefdi herra Rafn tilendst, er óvíst at sva hefdi fallit; hverr kènnimann rèttr til stadanna var nokkru sídar (sem er 1295) med kóngsbrèfi ok rèttarbót híngat í landit gèfinni ok sendri útskírdr ok stadfestr, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[6]) sem þessi rèttarbót var gèfin 1295, bæta sömu vid.

sídar [1]) sigldi Arni biskup, ok deydi þar árit eptir [2]) *XV kal. Maii.* Þá hafdi Arni prestr systurson hans [3]) umbod um allt Skálahollts biskupsdæmi, ok vard hann biskup sídar eptir hann. Þetta ár var utan stefnt bóndum þeim sem sóro kyrkioeignir. Ari sídar [4]) andadist Eiríkr kóngr Magnússon *VI idus Julii.* Tók þá kóngdóm í Noregi Hákon hertogi bródir hans [5]), hann fèkk til eignar Euphemíæ greifa dóttur. Þetta ár fór utan Arni prestr Helgason eptir biskupsdæmi, en Runólfr ábóti í Veri [6]) hafdi umbod um allt Skálahollts biskupsdæmi. Var Arni prestr Helgason vígdr eigi fyrr en [IV vetrum sídar [7]). A hans dögum brann Skálahollts kyrkia af lopteldi, ok húsbúnadr stadarins nær allr [8]), sigldi hann ári sídar eptir kyrkiuvidi, ok kvam út nærsta ár med vidin ok margar gèrsemar adrar; deydi [9]) MCCCXX.

[1]) þetta sama ár, *A. B. C. E. Gr.* þ.

[2]) þá datum skrifadist 1297, bæta sömu vid.

[3]) Helgason, bæta sömu vid.

[4]) 1299, bæta sömu vid.

[5]) ok var kórónadr á allrahelgramessodag, bæta sömu vid.

[6]) vinr hins fyrra biskups, bæta vid *A. B. C. E. Gr.* þ.

[7]) frá [ 1303. sömu.

[8]) var þá datum 1309, bæta sömu vid.

[9]) anno Christi, bæta sömu vid.

# Tímatal

yfir

merkiligustu tilburdi hvörra gètid er í Sturlúnga sögu ok í Arna biskups sögu.

Hèrumbil

874. Ingólfr landnámsmadr kvam til Islands. v. 3 þ. 3 k. í ættart.
1000. Kristni lögtekin á Islandi.
1056. Isleifr Gissursson vígdr til biskups.
1082. Gissur Isleifsson vígdr til biskups.
1118. Gissur biskup andast.
1120. þíngdeild Haflida Márssonar ok þórgils Oddasonar, ok áverki þórgils vid Haflida.
1121. Sætt Haflida ok þórgils.
1161. Einar þórgilsson brennir bæ Sturlu þórdarsonar í Hvammi. Fæddr Gudmundr biskup Arason.
1163. Griótflugar sumar. Barist í lögrèttu á alþíngi.
1170. Bardagi í Búdardal.
1171. Bardagi á Sælíngsdalsheidi milli Sturlu í Hvammi ok Einars þórgilssonar.
1178. Deildartúngu mál hófust.
1181. Jón Loptsson í Odda, sættir Pál prest í Reykholti ok Sturla í Hvammi, ok tekr Snorra Sturluson til uppfósturs.
1183. Sturla í Hvammi deyr.
1185. Einar þórgilsson andast.

Hèrumbil.

1197. Gudmundr dyri brennir í Launguhlíd.
Sættargiörd Jóns Loptssonar um brennu í Launguhlíd.
Jón Loptsson andast.

1208. Vídines bardagi milli Gudmundar biskups Arasonar ok Kolbeins Tumasonar. Kolbeinn fellr.

1209. Gissur iarl Þorvaldsson fæddr.
Atför at Gudmundi biskupi á Hólum.

1211. Þórir erkibiskup sendir brèf til Islands.

1213. Þorvaldr Snorrason Vatnsfirdíngr drepr Rafn Sveinbiarnarson á Eyri.

1217. Sæmundr í Odda leggr giöld á Noregsmenn í Vestmannaeyum. Ormr bródir hans veginn þar.

1218. Gudmundr biskup at nyu rekinn burt frá Hólum.

1220. Helgastadabardagi.
Skúli hertogi rædr herför til Islands. Snorri Sturluson verdr lendrmadr.
Bardagi á Breidabólstad. Biörn Þorvaldsson fellr.

1221. Gudmundr biskup fer í Málmey.

1222. Veginn Tumi Sighvatsson.
Bardagi í Grímsey. Handtekinn Gudmundr biskup.

1226. Fellivetur mikli.

1227. Sturla Sighvatsson veitir atför Þórdi födurbródur sínum í Hvammi.

1228. Þorvaldr Vatnsfirdíngr innibrendr.

1229. Atför Vatnsfirdínga (Þorvaldssona) at Sturlu Sighvatssyni á Saudafelli ok nídíngsverk þar.

1232. Sturla drepr syni Þorvaldar Vatnsfirdíngs.

1233. Sturla fer utan ok til Rómaborgar.

1235. Kolbeinn úngi Arnórsson fer til Rómaborgar.
Þorvaldr Gissursson andast.

1236. Sturla lætr meida Urækiu Snorrason.

1237. Gudmundr biskup ok Þórdr Sturluson andast.
Bardagi Sturlu vid Þorleif Þórdarson.

1238. Sturla handtekr Gissur Þorvaldsson vid Apavatn.
Aurligstadabardagi. Gissur Þorvaldsson ok Kolbeinn úngi fella Sighvat ok Sturlu.

Hèrumbil.

1241. Gissur Þorvaldsson lætr vega Snorra Sturluson.
1242. Urækia Snorrason berzt vid Gissur Þorvaldsson í Skálholti.
Fundr vid Hvítárbrú. Urækia handtekinn þar.
Flótti Þórdar Kakala Sighvatssonar fyrir Kolbeini únga.
1243. Vatnsdalsför Þórdar Kakala.
1244. Herför Kolbeins únga til Vestfiarda.
Bardagi Kolbeins ok Þórdar á Flóa.
1245. Kolbeinn úngi deyr.
1246. Haugsnesbardagi. Þórdr Kakali fellir Brand Kolbeinsson.
1247. Þórdr Kakali giörist valdsmadr Hákonar kóngs yfir Islandi.
1252. Rafn Oddsson ok Sturla Þórdarson handtaka Þórgils Bödvarsson Skarda í Stafholti.
1253. Atför Eyúlfs Þorsteinssonar at Gissuri Þorvaldssyni á Flugumyri ok brenna þar.
1254. Handtekin Henrekr Biskup.
1255. Þverár bardagi. Eyúlfr Þorsteinsson fellr.
1256. Þórdr Kakali andast í Noregi.
1258. Þórgils Skardi veginn.
Gissur Þorvaldsson giörist iarl Hákonar konúngs.
1260. Rángeyingar sveria Hákoni kóngi ok Gissuri iarli trúnadareid.
1261. Hallvardr Gullskór kèmr til Islands.
1262. Svarinn skattr Hákoni kóngi í Nordlendínga- ok Sunnlendínga-fiórdúngum.
1263. Sturla Þórdarson flyr fyrir Rafni Oddssyni ok fer utan.
1264. Gissur iarl flyr fyrir Andressonum.
Gissur iarl drepr Þórd Andresson.
1280. Stadamál hófust milli kènnimanna ok leikmanna.
1284. Sturla Þórdarson andast.

* * *

1237. Arni biskup Þorláksson fæddr.
1269. Arni Þorláksson kiörinn til biskups í Skálholts Stifti.
1271. Magnús kóngr sendir Þorvard Þórarinsson, Indrida Böggul ok Sturlu Þórdarson med nya lögbók til Islands.

Hèrumbil.

1273. Jón erkibiskup dæmir Oddastad ok Vatnsfiardarstad undir Skálholts biskupsstól.

1275. Arni biskup eggiar fólk á Islandi at láta krossast til Jórsalaferdar.

1281. Lodinn Leppr sendibodi Eyríks kóngs ok Arni biskup yrdast á í lögrèttu.

1282. Jón erkibiskup rekinn af Noregi.

1284. Leikmenn taka undir sik stadi aptr.

Arni biskup deilir vid Rafn Oddsson ok adra leikmenn í lögrèttu.

1286. Eyríkr kóngr bodar fólk út af Islandi.

1288. Rafn ok Arni biskup leggia, fyrir milligaungu Olafs Stallara, stadamál í dóm kóngs ok erkibiskups. Rafn ok biskup sigla.

1289. Rafn bannsettr ok leystr í Noregi; deyr þar.

1291. Kènnimenn taka undir sik stadi aptr.

1297. Arni biskup deyr.

1299. Hákon hertogi Magnússon tók kóngdóm í Noregi.

1303. Arni prestr Helgason vígdr til biskups í Skálholti.

1309. Skálholtskyrkia brann af lopteldi.

1320. Arni biskup Helgason andast.

# Registur

yfir

## öll mannanöfn í Sturlúngu ok Arna biskups sögu.

Rómverska talan I, II, III, IV. merkir sögudeildirnar, en cífrutalan merkir bladsídutalid í hverri deild.

## A.

U

# F.

## G.

## I.

## K.

## L.

Ö

## R.

## S.

## T.

## Y.



## Þ.

## AE.



## Ö.

## Prentvillr og lagfæríngar.

### I sídara bindinis fyrri deild.

Bls.
6. lin. 21. Þórdr les Þórd
36. — 14. Bráttr l. Brattr
54. — 14. kann l. hann
72. — 20. eim þer l. þeim þar
121. í ordrmun [12]). ölvi á l. ölvisá
125. lin. 2. þar l. þat
130. — 10. mikit l. mikin
141. — 15. bóndr l. bóndi
151. — 19. satt l. sátt
164. — 11. sór l. fór
241. — 25. er l. enn
243. — 6. kaupángi l. Kaupángi
262. — 14. slíkt l. slíkr
279. í fyrisögn Þorvalds l. Þorvards

### I sídara bindinis seinni deild edr Arna biskups sögu.

Bls.
13. í ordamun úmátúligr l. úmátuligr
17. lin. 30 ýór seá l. for seá
18. — 17. her l. hèr
19. — 12. siþan l. síþan
— — 16. siþan l. síþan
22. í fyrirs. Godlaugr l. Gudlaugr
24. lin. 10. rögsemdum l. röksemdum
25. — 2. tígnadi l. tignadi
30. — 18. þyí l. því
— — 25. vitislauss l. vítislaust

Bls.
41. í ordamun vautar l. vantar
47. lin. 6. böndr l. bóndr
49. — 30. sidir l. sídir
55. — 14. afmáist, eptir sva
56. — 10. böndr l. bóndr
— — 26 böndr l. bóndr
60. — 12. stodo l. stódo
— — 16. sètit l. setit
— — 31. hafa l. hafi
— í ordamun. fiartekin l. fiártekin
60. lin 29 hefdi l. hafdi
70. — 3. högliga l. hógliga
— — 21. þvers l. þvert
85. — 26 hendi l. hendr
— — 30. biskupinn l. biskupinn
89. — 24. þridria l. þridia
90. — 16. ýór l. ýér
100. lin. 4 þorvald l. Þorvaldi
— — 21. biskup l. biskupi
— — 24. Rykianesi l. Reykianesi
101 í fyrirsögn fær l. for
102. lin. 19. vtnisburd l. vitnisburd
biskupi l. biskups
106. — 21. haus l. hans
107. — 7. bo kap l. bodskap
— — 17. rákua l. rakua
110 í ordamun [4]). alvorir l. alvöru
117 lin. 23. lítla l. litla
118 lin. 20 víkinni l. Víkinni
119. — 17. fèla l. fèll
— í ordamun [3]). vantar: söm-

## I Registrinu.

Bls.
129 vantar: Agnar Andress III, 114. (cfr. Magnús Agnas)
132. lin. 30 *a*. bæt vid I, 146. *b* Asgrímr Teitss les Arngrímr Teitss.
139. Eindridi siá Indridi.
141. lin. 28 *a*. Góda l. Goda
— — 32 *b*. Fángalióttr l. Fângaliótr
143. — 36 *a*. bæt vid: 230.
— — 6 *b*. 41. l. 241. lin. 11. Skammhendíngr l. Skammhöndúngs
153. bæt vid: Hrókr inn svarti. I, 3.
— lin. 12 *b*. Jargèrdr l. Járngèrdr
157. — 11 *b*. bæt vid: 42 59. 61. 63. 67. 81. 83. 97. 98. 106. 109. 113-14. 119. 123

Bls.
160. Leidar-Oddr l. Leidar Ormr
— lin. 1 *b*. Sæmunds. l. Sæmundsd.
162. — 22 *b*. Gunnferdard. l. Gunnfredad.
164. — 19 *a*. Bráttr l. Brattr
— — 2 *b*. prestr l. Prest-Oddr
167. — 10 *b* lögmadar l. lögmadr
168. — 20 *b*. bæt vid: II, 149-50.
172 — 19 *a*. 149. l. 299. 300
— — 4 *b*. 299-300. les Snorri Sturlus. Þórdars. lögmanns. III, 299 300.
— — 14 *b*. Snortr l. Snörtr
— — 30 *b*. Kaupángr l. Kaupúngr
175. — 32 *b*. Bángus. l Bángsas.
181. — 13 *b*. Hallas, l. Halss.
184 — 17 *a*. Oddass. l. Oddas.

**Merk.** Þess er ok ad giæta at sama nafn kann at standa tveim stödum í registrinu eptir sem þat er sett breitiliga í sögunni t. d. Bæarhögni er sama sem Högni Halldórss., Eindridi Böggull ok Indridi Böggull, Gards-Snorri ok Snorri Narfas., Eyrar-Snorri ok Snorri Pálss., Þórdr Hallss. ok Þórdr á Mödruvöllum, ok máskè fleiri. Gèta má ok þess, at í fyrra bindinis sídari deild hefir uppgötvast: at Hallr Aras. bls. 131 er í handritinu *EV*. öndverdliga skrifat Arnason, enn er giört úr Arason.

bls. 140. lin. 2. Þorvaldr l Þorvardr
— 170. — 4. Einrídas. l. Eindridas.
— — — 20. dito dito
— 186. — 22. lanei l. landi.